Almenn

# Landaskipunarfrædi,

útgefin

at tilhlutun og á kostnad

hins íslenzka

Bókmentafélags.

---

Sídari partrinn.

Med einu korti.



---

Kaupmannahöfn.

Prentud hjá S. L. Möller.

1827.

Almenn

# Landaskipunarfrædi.

Sidara parts fyrsta deild:

Sudur- og Austrhluti

Evrópu.

# Innihald.

## Formáli fyrir sídara partinum.

Hér leggur Félagid hinn sídari part Landa-skipunarfrædinnar, med tilheyrandi registri, fyrir augsýn almennings og óskar ad hann verdi góð-fúsliga medtekinn af øllum þeim, er unna Fé-lagi voru og bókmentum þeim, er þad leitast vid ad frama og vidhalda medal almúgans á Íslandi. Høfundur fyrra partsins sídari deildar og þessa parts, Consistórial-Assessor og Dóm-kyrkjuprestr Gunnlaugr Oddsson hefir lagt svo mikla ástundan á ad gjøra verk þetta svo fród-ligt og vid alþýdu géd, sem kostr var á, og jafnan haft þad fremur fyrir augum, enn smá-smugliga uppreiknan landa lýda og stada, er mest finst af í slíkum ritgjørdum; vard því helzt útlistan Nordurlanda nokkud margord, en yfir hinn part nordurálfu og einkanliga hinar álfurnar er ad tiltølu farid nokkud styttra, því minna samkvæmi sem þær hafa med álfu vorri

edur fødurlandi. Af fyrrgreindri orsøk hefir Landaskipunarfrædin skipzt í margar deildir, bædi þessvegna, ad félagsins efni ekki leyfdu ad alt verkid yrdi á einu ári af hendi leyst, og þó helzt, þared høfundur verksins, er af velvild sinni vid félagid og þá, er njóta skulu, tókst þad á hendur, vegna sjølskyldu sinnar og embættis starfa eigi gat varid þartil nema hjástundum sínum; vard því eigi heldur vid prentun sérhvørrar deildar til vissu ákvardad hvad margar deildir verda mundu þad, er eptir var, og hafa því titilblød prentud verid í brád, en sem nú, þá bókin er øll út komin, eiga úr ad gánga, og ønnur, sem fylgja parti þessum koma í stad þeirra vid hvørja deild og þarad-auki twø adal-titilblød til sérhvørs parts; getum vér þessa fyrir þá, er keypt hafa enar fyrri deildir bókarinnar, og vonum ad þeir af tédum orsøkum eigi misvirdi þó verk þetta hafi ordid fremur seinfara enn í fyrstu var tilætlad, en óskum ad þad megi verda þeim og allri al-þýdu til fródleiks og froma; er þá stund høf-undanna og kostnadi félagsins vel varid.

Deild ens íslenzka Bókmentafélags í Kaupmanna-høfn þann 16 Maí 1827.

## IV. Keisaradæmit Rússland edr Rússíaland (Rusland; Imperium Russicum, Russia, Moscovia.)

Í fornsøgum kalladist þessi vídlendi hluti nord-urálfunnar ýmsum nøfnum, t. d. Hólmgarda-riki, Gardariki; Austúrvegr, Austr-lønd og Austrriki hit vestra; Biarma-land, Svíþiód hin mikla edr hin kalda, Kylfingaland, Húnaland fyrir austan Pólinaland, Kússaraland vid Svartahafit o. s. fr.

Rússland kalla menn allan nordaustr hluta Evrópu og nordrpart Asíu, samt eyar allmargar í enu Kyrra-hafi og nýlendur á Ameríku nord-vestr-strøndum.

At medtøldu Pólinalandi, nær riki þetta frá 35° 40′ til 208° frá vestri til austurs (at

At

undanskildum ádr umgétnum eyum og nýlendum) og liggr ímillum 43° og 78° nordl. breiddar.

Fyrir nordan Rússaveldi er hit nordlæga Ísa-haf, en fyrir austan þat Kyrra-hafit. Hof þessi samtengir sund þat, er adskilr Asíu og Ameríku og kennt er vid farmann nokkurn, danskan at ætt, er Bering hét, og þar fann veg. Fyrir sunnan hin sudlægu endimörk liggr Túngúsaland austast vid fyrrnefndan útsæ, þá Mongólaland, þá hit fría Tartaraland, þá Aralsær, þá hinn kaspiski siór, þá Tyrkiaveldi í Asíu edr Armenialand og hinn Svartisiór. Ad vestanverdu er Tyrkland sydst, þá Galliziuland, þá Prússaland, þá Eystra Salt, þá Svíaveldi og Norvegr nordast.

Rússaveldi er svo mikit, at hvorki er nú á dogum né hefir verit frá ondverdu svo vidlendt ríki í heimi, sem þat. Stærd þess segia menn sé 345,000 ferh. mílr edr hérumbil siettúngr landsins er menn þekkia á heimskrínglunni, tvöfalt vid nordrálfu heims og 345 sinnum stærra enn Danmörk. Þar sem ríki þetta er lengst, í austr og vestr, er þat 1800 mílur (360 þíngmannaleidir) og þar sem þat er breidast, í út og sudr 570 mílr á breidd (114 þíngm. leid.)

Þá menn athuga, hvorsu afar-vidlendt Rússaveldi er, má nærri geta, at lands- og

loptslag, glædi og gróðska muni þar marg-
breytt vera og með ýmsum hætti; sumstaðar
gánga fiallgarðar miklir úr norðri í suðr og
útsuður, sumstaðar er hálendt mjög og á öðrum
stöðum aptr láglendt. Hit syðra eru því nær
hvervetna fiallaklasar og fiöll, er ýmist eru þak-
inn ísum og jökli hit efra, eðr skogivaxinn og
auðug af margskonar málmum og steintegund-
um; þó má heldr ríki þetta flatlendt enn fiöllótt
kalla einkum vestri hluta þess, hvar allvíða hit
syðra eru víðlendar heiðar (Stepper) og er þar
sendin og saltmeingaðr jarðvegr og saltvatns-
tiarnir. Hit nyrðra er og afarmikil flatneskia
austr með Ísahafi, og er þar víða svo illt og
snaudt, at náliga er þar úbyggiandi fyrir þá sök.
Víða eru í ríki þessu geysimikil stöðuvötn og
óteliandi elfur og vatnsföll, og eru mörg af
þeim skiplæg lángt upp í landi.

Þessi má þar fiöll telia: a. hin lapp-
lendsku fiöll, er liggia í austr frá Kisl,
ímillum Eystra Salts og Gandvíkr, austr eptir
Rússlandi. b. hin alaunisku fiöll (Mons
alaunus) eða hinn volkonkiski skógr; þat er
mikill fiallaklasi í Rußlandi miðju. c. hin
taurisku fiöll á suðvestr-strönd Tauriuskaga
d. hin Kákasisku fiöll, er liggia þvínær í
austr og vestr ímillum Svartahafs og eas

Kaspiska-hafs; þau eru 70 milur á lengd. e. hin úralsku-fiöll (montes hyperboræi, riphæi), þat er afarmikill fiallgardr, er gengr 300 milr í nordr frá enum Kaspiska sió. Þau eru 6347 fóta á hæd. Þetta munu fiöll þau vera, er segir í Heimskringlu at liggi fyrir útan bygd alla. f. Fiallgardr mikill gengr einnin í austr af nefndum fiöllum og skilr hann Rússaveldi og Asíuland; til hans heyra hin altaisku, sajanisku fiöll, Baikalsfiöll, hin daurisku og stannovisku fiöll, er liggia í landnordr alt til Austurhöfda. Þadan liggia í landsudr hin kamskatkisku fiöll til Lopatka-höfda.

Þessir eru útnesia-höfdar nafnkénd-astir í ríki þessu: a. Zelania-höfdi, nordast á Novaja Semlia (78° n. br.). b. Austur-höfdi vid Beringsund (66°). c. Lopatka-höfdi kallast sudurodddin á Kamskatka (51°). d. Ania-höfdi er sydst á Tauria (44° n. br.)

Í Rússaveldi ellu eru afarmörg vatnsföll og elfur er renna í allar heims-áttir. Í nordr renna:

1. Víná (Dvina), hún kémr úr land-sudri og fellr um Biarmaland, 80 mílur vegar, ádr hún kémr til siáfar úti Gandvík, hvar fyrrum kalladist Vínumynni, fyrir sunnan Klyfnes. 2. Ób, er mikit vatnsfall, er verdr af 2 ám, er falla undan enu altaisku fiöllum og af á þeirri er Irtisk heitir (í hverja áin Toboi rennr) og fellr í bugt þá, er kénd er

vid stórá þessa; hún er 450 mílur á lengd. 3. Jenisei, austar, hún kémr frá fjallbygdum Asíu og fellr í Jshafit eptir 500 mílna rás. 4. Lena, enn þá austar, fellr undan Baikalsfiöllum, rennr í mörgum ósum í sama haf; hún er 400 mílur á lengd. Auk þessara eru 3 minni ár nl. Mesen, er rennr í Sandvik; Petskóra, austar, og Kolyma, austast, er bádar renna í Jshafit. J austr renna: 1. Anadyr, fellr í bugt þá, fyrir sunnan Austr-höfda, er tekr nafn af ánni. 2. Amúr, upptök hennar eru í Siberíulandi, en sídan rennur hún um Túngúsa-land og í hit Okotska-haf; hún er 400 mílur á lengd. J sudr renna: 1. Ural (Rhymnus; Jaik), fellr undan Uralfiöllum, frammhiá Orenborg og í hit Kaspiska haf, 300 milr vegar. 2. Volga (Rha), þat er allra flióta mest og lengst í Nordrálfu heims; hún kémr frá eunum volkonkiska skógi og rennr 570 mílur í landsudr uns hún fellr í 65 ósum í hit kaspiska haf vid Astrakan. 3. Don (Tanais), er fyrr. kalladist Vanaqvísl edr Tanaqvísl, rennr úr vatni nokkru vid stadin Tula, í útsudr og fellr í hinn Asósska fiörd eptir 130 milna rás. 4. Nepur (Dnieper; Danapris, Borysthenes), kémr frá foraedi nokkru í enum volkonkisku skógi, rennr frammhiá Smolenst og Kieff og fellr í vog mikin af Svartahafi, er Liman heitir. J Nepur renna margar ár, medal hvorra er Beresina og Bog, og því eru 13 fossar og kalladist einn þeirra Andvarafors í fornöld. 5. Dni-

ſtur, fyrr. Nýva (Dniester; Danastris), fellr undan Karpataſiöllum og rennr í Svartahaſit. 6. Prút (Pruth; Hierassus), rennr á landamæri Rúſsa- og Tyrkie-eldis, í Dunn edr Dóna. 7 Fliótit Kemi, er fellr undan Lappmerkur ioklum og rennr fyrir auſtan Torná í Helſingiabotn. Í veſtur renna: Kúban, er fellr undan Kákaſus-fiöllum, og ſkiptiſt í tvo hluti, þá nærri ſæ dregr, rennr þá nyrdri óſinn í hit aſofſka, en hin ſydri í hit Svarta haf; eyan ímillum óſanna kallaſt Taman. 2. Niemen edr Memel, renur í Eyſtra Salt. 3. Dýná, kémr frá enum volkonſka ſkógi og rennr í hinn liflendſka fiord, þar ſem heitir Dýnumynni (Dünamünde). 4. Neva, er í raun réttri ós edr afarmikill affalli, 9 milr á lengd, úr Aldejuvatni, er rennur ígégnum Petursborg í Kyriálabotn.

Þau merkuſtu ſtöduvotn og landſióir eru: 1. Ladóga (Aldeja edr Adejuvatn), í auſtr frá Kyriálabotni; þat er allra vatna meſt í Nordurálſu nl. 24 mílur á lengd í út og ſudr og 16 á breidd (210 ferh. m.); vid vatu þetta ſunnanverdt meina menn at Aldeyuborg ſtadit hafi, er gétit finnſt í fornſögum, þótt engar ſiáiſt þar eptirſtödvar. 2. Onega, í landnordr þadan, edr ímillum Gandvíkr og Ladóga, er 27 milr á lengd, en 11 á breidd; úr því rennr á í Ladóga, er Svir kallaſt. 3. Peipus, í útſudr frá Ladóga, er 9 milr á lengd og 3 á breidd; úr því vatni rennr aſlalli í Kyrialabotn, er Naröva heitir. 4. Ilmen,

þaðan rennr á í Ladóga er Walkow heitir. 5. Saima, er hit mesta vatn á Finnlandi og er þat sameinat flestum stöðuvötnum í austrhluta lands þessa. 6. Pajane, fyrir vestan Saima, er 20 milr á lengd; úr því rennr Kymenafliót í Kyriálabotn. 7. Ennara (Indiager), þessara nordast í Rússaveldi, úr því rennr áin Patsjocki (Pasvik) í Vardángrfiord. Í þeim hluta rikis þessa, er í Asia liggr, eru 3 stöðuvötn mikil; þeirra stærst er hin: 8. Kaspiski siór (Mare Hircanum), fyrir austan hin Kákasisku fiöll, þat er svo mikit, at ei þekkia menn stærra í heimi. (nl. 150 milr á lengd í út og suðr og 40 til 60. milr. á breid og 6000 ferh. m. stærd), í hönum er salltvetni og siáfarhæd 50 fótum lægri enn á Svartahafi. 9. Vatn þat er Aral nefnist (hinn blái siór), fyrir austan sidstnefndan siô; þat er 45 milr á lengd í út og suðr og 30 á breidd. Lángt þaðan í austr er vatn þat, er 10. Baikal heitir (hit helga haf); þat er 80 milr á lengd í austr og vestr og 4 til 10 á breidd. Auk þessara, er nú eru talin, er afarmikill fiöldi stöðuvatna í Rússaveldi, er á ýmsan hátt mætti lýsa; í suðurhluta þess eru saltvötn mörg.

Til at létta flutninga varnings og kaupeyris, hafa Rússar grafit síki mörg og laung um landit, svo fara má skipaleid frá Petursborg til Astrakan (535 milr); hiálpa einnin þar til skipfær fliót, t. d. Volga. Einnin má skipum fara upp eptir ám og gégnum síki frá Eystra-

Salti til Svartahafs, hvar hinn beresinnski kanall samtengir Dýná og Nepur.

Bugtir miklar edr floár gánga þar inn í landit, er þat nær til sjáfar, t. d. úr nordri: Sandvík (det hvide Hav), þat er afar-mikill fiørdr, er at sunnánverdu bengist vestr á vid. 2. hit kariska haf. 3. Bugtin vid Ob; úr austri frá Kyrra hafi: 4. hin ana-dyrska bugt. 5. hin pentskinkiska bugt, edr nordasti hluti ens ochotska hafs; úr sudri frá Svartahafi: 6. hit Asofska haf (palus mæotis; Asófs móda), er sumir meina at Nord-menn hafi Ellipallta kallat; og úr vestri frá Eystra Salti: 7. Helsingiabotn, er nú skilr lønd Rússa og Svía; 8 Kyriálabotn, og 9. hin rigaiska bugt edr Liflandsfiørdr.

Med því at einvaldi Rússa hefir løndum at ráda bædi í Nordr- og Austr-álfu heims, skipta menn almennt þiódríki þessu í 2 høfudparta, og kalla hinn vestri: hit evrópeiska Rússland og hin eystri: hit asiatiska Rússland, og er þar hinn úralski fiallgardr skiln-adarveggr parta þessara og jafnframt heimsálf-anna. Ríki þetta gjørvallt, at undanteknum Kósakkaløndum og Pólinalanda, er greint í 53 jarlsdæmi (Gouvernementer), er enn fremr skiptast í fylki (Kredse); jarlsdæmi þessi eru kénd vid høfudborgir og merkustu stadi í hverin þeirra.

## I. Hit evrópeiska Rússland.

Þat liggr ímillum 40° og 80° austl. l. og 44° og 70° n. br. og er 72,000 ferh. m. á stærd; manntal þar er hérumbil 35 milliónir.

Þessum parti má skipta í tvo hluti nl. hit eiginliga Rússland, þat eru lønd þau og landsálfur er fyrrum kalladist Stóra og Litla Rússland, er øndverdliga á 18 øld heyrdu þiódríki þessu til; og hin nýu edr nýunni lønd, er einvaldar Rússa hafa á ýmsan hátt og á seinni tídum undir sig brotit og giørt bædi Tyrkialand, Pólínaland og Svíaríki vidskila vid.

### A. Hit eiginliga Rússland.

Þat er skipt í 23 jarlsríki, af hverium 16 eru í Stóra, en 7 í Litla Rússlandi.

#### a. Stóra Rússland.

Þat er allr nordr- og midhluti ríkis þessa og nær þat hvergi til siáfar, utan at nordanverdu; þat greinist í 16 jarlsríki, sem kénd eru vid: Archangel, Olonez, Vologda, Novgorod, Jaroslav, Kostroma, Pleskov, Tver, Wladimir, Nischnei-Novgorod, Moskva, Kaluga, Tula, Smolensk, Kursk og Voronesk. Þar eru þessar borgir merkastar:

Arkangel edr Archangelsk (Archangelopolis, Fanum archangeli) (64° 33′ 36″ n. br.), er höfudstadr í jarlsdæmi því, er við hann er ként, og sem er allra jarlsdæma nordast og vídlendast (120,000 ferh. m.) í þessum hluta Rúsíaveldis, med 102,000 innbúum, medal hvörra bædi eru Lappar og Samójedar; nokkr hluti þess er land þat, er fyrrum kalladist Biarmaland, í sudr frá Gandvík, Holmgardar vestar, Kyriálaland og Finnmörk edr Finnsbúdir fyrir vestan Gandvík og nordast við Dumbshaf. Stadr þessi stendr á láglendi, við Viná, 9 milr frá Vinumynni og er eldstr allra kaupstada á Rúslandi, er tilsigling hefir; þar er herskiparád, skipabygging og 7200 innbúar, er versla grávöru, sávala, o. s. fr. Þeir giöra og út fiskiskip til Novaja Semlia og Spitsbergen.

Kola, í útnordr frá Arkangel, í enu rúsiska Lapplandi; þat er hinn nordasti stadr í Evrópa. (68° 52′ n. br.)

Eyar nokkrar heyra og þessu jarlsdæmi til: Solowetskoi í Gandvík vestanverdri, skamt undan landi eda strönd þeirri er fyrrum var Kialbaksída kölluð. Kalgujew í Dumbshafi, 15 mílur á lengd (máské hin forna Hedinsey). Vaigatseyar í sundi því, er ként er við þær og adskilr meginland og 2 óbygð eylönd, er bædi ásamt Nóvaja Semlia (Nova-Zembla ɔ: Nýland) kallast (imillum 70° og 78° n. b.);

eyar þessar liggja hvor nørðr af annari og vóru fundnar á 11 øld; þær eru báðar samt 4255 ferh. m. á stærð. Þar eru jøklar miklir og saltvøtn, gróðska lítil og fá gæði; ei sér þar sól frá miðinum October til Februari mánaðar. Fiøldi er þar dýra, t. d. hreina, sæbiarna og rostúnga eðr hvalhrossa. Þar sæta Rússar og Samojeðar veiðiskap og eru þar ástundum vetur yfir. Á norðaustr strønd eyu þessarar hýrðust þeir hollendíngar, Jacob Heemkerks og Vilhialmr Barents um veturinn 1596—7.

Oloneẓ, ei lángt frá Ladoga. Þar eru 2700 innbúar. Vologda, við á, er sama nafn hefir, þar eru 10800 innbúar. Í báðum þessum stødum eru biskupa-heimili.

Novgorod-velikii (Nowogorodium, Mikli-Nýgarðr eðr Hólmgarðr), þat er biskups-stóll og høfuðstaðr í jarlsríki því, er við hann er kénnt, og stendr hann báðumeginn ár þeirrar, er Wolkov heitir, þar er hún fellr í Ilmen-sió. Þar er kastali forn, er Kreml kallast, gjørðr 1044, og heimili 10700 innbúá.

Á miðinum øldum var þessi staðr kaup-staða mestr og auðugastr á Norðurløndum, og stoð þá í hansastaða sámbandi; þá var hann 4 mílur ummáls og hafði 400,000 innbúa. Á 15 øld vann Ivan Vasilievitsch borg þessa og lét innbúa hennar ena ríkustu flytiast til Moskó, fór henni uppsfrá því miøg hnignandi, uns Svíar 1611 eyðilǫgðu hana í grunn.

Jarosleif (Jaroslaw; Jaroslavia), þat er forn stadr vid Volga, bygdr á 11 öld, biskupsstóll og heimili 19,000 innbúa, þar er háskóli, 50 skinna-verkunar- og 2 afarmiklir línvefnadar-stadir med 2000 vefstólum. Í þessu jarlsdæmi er erkibiskupsstóll, er Rostofa (Rostow) heitir, hans er gétit í fornsögum. Austar er:

Kostróma, í einsnefndu jarlsdæmi, er biskupsheimili og 9000 innbúa.

Pleskov (Pskow), et fyrr. kalladist Peltiska, Palteskia og Palcacia, þat er erkibiskupsstóll vid Peipussjó sunnanverdan. Í vestr frá Jarosleif er:

Tver (Tveria), allmikill stadr, þar er Tverza rennr úr nordri í Volga, þar er erkibiskupsstóll og Keisaragardr, háskóli og 15,000 innbúar, er idka mjög skipsfestagiord úr hérumbil 500,000 vættum hamps á ári hvoriu.

Vladimir (Wolodimeria), var frá 1157 til 1328 atsetur stórfursta; þat er biskupsstóll og heimili 1500 innbúa. Austar liggr:

Nischnei-Nowgorod edr Nischegorod o: nedri Nýgardr, þat er allmikill stadr og kauptún mikit, er stendr þar sem á sú, er Occa heitir, rennr í Volga; þar er samankomit ógrynni varnings frá Síberíulandi, og eru þadan 2000 skip ávalt í förum med varníngin til Pétursborgar. Þar eru 10,000 innbúar.

Í þessu jarlsdæmi er stadr sá vid Volga, er Makariev heitir; árliga er þar kaupstefna fiöl-

menn, er varir í 6 vikur og kallast Péturs- og Páls-markadr; sækia þángat mørg þúsund kaupmanna frá Rúsślandi, Tartaralandi, Persíalandi, Búkkara-Kalmúkka- og Armenia-landi.

Moskva, fyrr. almennt Moskó, hérumbil í midiu Rússalandi, á smáhædum og vídlendum sløt vid á þá, er Moskva kallast og rennr í Occa. Þat var fyrrum høfudborg í ríki þessu og samsvaradi hún því giørsamliga at stærd, fiøllmenni og audslár; þar sátu um lánga æfi einvaldar (Czarer) Rússa, en nú á døgum eru þeir at eins krýndir í borg þessari. Í henni er heimili 2 erkibiskupa og ýmsra stiórnarráda; þar er og þiódskóli, hersforíngiaskoli, kiørgripasafn og náttúrþínga hirsla, háskóli og ýmislig lærdómsféløg, margir verkstadr, vefstólar og vodvirki. Af borg þessari stendr nu alleina kastalinn Kreml eptir, er stód í henni midri, hvør þó vid herhlaup Frakka 1812 skaddadist miøg á ýmsum stødum; umhverfis stad þenna eru múrveggir med 5 hlidum og grafin sikí fyrir utan, yfir hvør liggia 2 brýr; þar er hinn forni hofgardr Czaranna, giørr á gautskan hátt, þar vardveitast kostagripir og meidmar ríkisins; forn stólskyrkia, í hværri Rússa keisarar krýnast, og mikit herthahús, er Rússar hafa reist sídan borgin brann 1812. Bæarmenn eru hérumbil 200,000 at tølu.

Moskó er bygð 1175 og var hún allra borga mest í Norðrálfu heims; hún var 6 míle ummáls, í henni vóru 585 stræti, 10,000 hús, 307 kyrkiur auk kapella, 8000 turnar, er gyltir vóru hit efra; þar vóru 30 forstaðir eðr hverfis-bæir umhverfis borgina, er skipt var í 4 hluti og láu 3 þeirra hvor utan yfir öðrum, en Kreml í miðiunni, nl. Citaigorod, (o: staðrinn) umkring Kreml, þá hinn hvíti staðr (Beloigorod), þar var uppfósturshús mikit fyrir 5000 börn, þá staðrinn við virkisgarðana (Samlanoigorod) ystr; mátti þar siá háreista hósgarða og ámotliga kofa á rugli samankomna. Um haustit 1812 settist Napoleon með úvígan her um borg þessa, en Rússar lögðu eld í hana á 500 stöðum (þann 14 Sept.) og brann hún í fulla 6 daga eptir; máttu þá Frakkar frá hverfa.

Troizkoi-Sergiev-Lavra (ennar heil. þrenníngar klaustr) er allra klaustra mest, veg-ligast og auðugast á Rússlandi; þat liggr í fiallbygð nokkurri, er rammliga víggirdt og á 20,000 bóndagarða; þar er hofgarðr mikill, 9 steinkyrkiur, bókasafn, skóli fyrir 200 klerka og heimili 600 múnka. Svomikil var fyrrum helgi klausturs þessa, at menn gjörðu gaungr þángat. Þar leitaði og Petur hinn 1sti hælis, þá systir hans og óaldarflokkr sá, er Stre-litzar vóru kallaðir, sátu um líf hans.

Kaluga, í útsuðr frá Moskó við Occa, með 17,200 innbúa.

Túla, í landsuðr frá Kaluga; þar er háskóli, lystispilahús, 17 spitol, skotfærasmiðia, sem er hin stærsta í ríkinu og 18,000 innbúar. Í vestr frá Kalúga er:

Smolensk, fyrr. Smalteskia (Smolenscium), þat er allmikill kaupstaðr við Nepur; þar er háskóli og 12000 innbúar. Austnorðar liggr Wiasma, þar var friðr saminn 1634, er áqvað jarlsdæminn Smalteskia og Zernigoff skyldu vera eign Pólinalands kóngs Ladislaus 4da, hvörs eptirmaðr Johannes Casimir asstóð þau aptr til Rússa einvalda með samningi, semdum í Andrussoff, í fyrrnefndu jarlsdæmi, 1667. Fyrir sunnan Túla er staðr með 16,000, er Kursk heitir, og ei allángt þaðan er nafutogaðr klæðaa vefnaðarstaðr er Gluskova heitir og tilheyra hönum hiarðir miklar (nl. 17,000 fiár). Austar liggr Voronesch við einsnefnda á, er rennr í Vanaqvísl, og í kornríkasta jarlsdæmi Rússaveldis. Þar eru 12,000 innbúar.

## b. Litla Rússland.

Þat liggr fyrir sunnan Stóra Rússland og fyrir austan og vestan syðri hluta þess. Því er skipt í 7 jarlsríki, er kénnd eru við þessa staði: Orel, Riæsan Tamboff, austast, Charkoff syðst (þar er allr þorri lyðsins Kósakkar), Kieff (nokkr hluti ens forna pólska Ukráne, unnit til ríkis 1667) og vestast Zernigoff (hit forna Severia) og Pultava, imillum jarlsríkianna Kieff og Charkoff.

Medal þeirra stada, sem hér eru taldir og og auk þeirra, má þessa merkasta kalla:

Kieff (Kiew edr Kiow), at austanverdu vid ána Nepur, yfir hveria þar er sú einasta brú, sem er á vatnsfalli þessu; þat er mikil og mìsg forn borg, er menn segia at slaviskr hofdíngi, Kius at nafni, hafi 430 giora látit; mun þat borg sú edr onnur skamt þadan, er Nordmenn kolludu Kœnugarda edr Garda. Borginni er skipt í 3 parta: a. Petschersk, þar er gamalt griskt. klaustr (Petschersky) og eru þángat helgigaunġur giordar; b. Kieff siálf edr Sophíustadr, þar er dómkyrkia og klaustr Sophíuennar helgu; og c. Podol, (hinn nedri stadr), þar er háreistr keisaragardr, þiódskóli edr gudfrædingaskóli, er kallast Kiowomohylaeanožaborowskiana. Í Kieff eru 40,000 innbúar. Þar var atsetrstadr stórfurstanna frá 1037 til 1157, þá þeir kusu heldr at sitia í Bladimír. Austar og sunnar er:

Pultava, vid á þá, er Poltavka heitir; þar eru 8000 innbúa. Þar bordust Svíar og Rússar 27 Juni 1709 og bar Karl 12 lægri hluta og lét mikit lid. Nordar og austar er:

Charkoff, þat er allmikill stadr med 11,500 innbúum; þar er þiódskóli, bókastóll, náttúrugripa safn, kastali og markadr mikill 4 sinnum á ári.

Oranienborg, í jarlsríkinu Næsan, er Menschikoff fursti lét giøra 1702.

## B. Hin nýu-unnu lønd.

### a. Unninn frá Svíaríki.

Lønd þau liggia við Eystra-Salt austanverdt og eru þau í 3 fridarsamningum áqvedinn Rússaveldi, t. d. Ingermannaland, Lífland, Eystland og nokkr hluti Kyriálalands (Karelen) og Kexhólms, í Nýstad 1721; hinn hluti Kyriálalands og Kexhólms, í Abó 1743, og Stórfurstadæmit Finnland, nokkr partr Vestrbotus, Torneár- og Kemi-Lappmørk, í Fridriksøfn 1809.

Løndum þessum er skipt í 4 jarlsríki, sem kénnd eru við Petursborg, Vibiørg, Refalaog Ríga, samt Finnland med Kimi-Lappmørk.

Petursborg (St. Petersborg; Petropolis, Petroburgum; 47° 59′ 30″ austl. l. og 59° 56′ 23″ nordl. br.), þat er nú høfudborg ríkis þessa, heimili Rússa-keisara og stiórnarráda hans og atsetr ens ædsta biskups; hún stendr á 14 hólmum í Nevumynni og báduмegin qvísla hennar, þar sem þær falla í Kyriálabotn. Petur hinn mikli, Rússa-keisari, lét þessa borg giøra (1703), medan hann átti í mannskiædu skridi vid Svía; hefir hún sídan

aukist og efldst svo mjøg at stærð, fólmenni og fegurð, at hún er nú á døgum stiœstum hǫfuð-borgum meiri og skrautligri í norðrálfu heims og ríki þessu giørsamliga samsvarandi. Borgin er 1 míla á lengd og breidd, en 3½ míla um-máls; hún er greind í 10 hǫfuðparta og þeir aptr í 42 minni hluti (Qvarterer); þar má telia 7700 hús, 71 kyrkiur, nl. 56 grískar, 7 lútherskar, 1 þýðska- og 1 frønska-reformerada, 1 enska, 1 hollendska, 1 kathólska, 1 finnlendska og 1 armeniska; þar er og tyrkneskt bænahús fyri fulltrúa Soldáns og 1 Júda-samkunda. Þar syngia klerkar messu á 15 túngumálum, samqvæmt með 11 ólíkum trúarjátningum.

Í borg þessari eru 7 háreistir og stór-kostligir hofgarðar og kastalar sterkir, er votta um þióðþrek og stórmegn ríkis þessa. Meðal kyrkianna er Isaakskyrkia allra mustera veg-ligust og stærst í Rússaveldi; Cathrín 2, meg-innekkia, hóf smíðina 1766, en lokit var henni 1812; kyrkia þessi er hvervetna þakinn jaspis og porphyr og hefir kostat 26 milliónir rúbla. Stólskyrkian (hin kasanska Guðsmodur kyrkia) er einnin einkar vegligt musteri; í henni eru 56 stólpar edr sulr af granít og á henni turn 285 fóta á hæð; hún var fullgiørr 1811, og St. Peturs og Pauls dómkyrkia í kastalanum á eyu nokkurri í Nevá; í henni er legstaðr keis-ara-ættar. Í borginni eru herskiparáðs-bygg-íngar, ásamt stórskipasmidium og hertøjahúsum,

og liggia umhverfis þau grafir og vatnarveggir, á hverium eru 100 fallstykki; Galeiduhøfnin ásamt hýbylum siólidsins; ibúdarbygging enna 12 stiórnarráda, hvar hinn gottorpski hnöttr *) vardveitist. Alexanders Newskys klaustr, er Petur hinn mikli lét giøra, þar er heimili hirdbiskups og 60 múnka, 5 kyrkiur, mikit bókasafn og gudsrædínga-skóli. Ný kaupmanna samkunda stendr einstøk og er prýdd med 44 dóriskum súlum. Fyrir vestan herskipa-ráds byggingarnar er fagurt pláts edr torg, er kennt er vid Petur mikla; þar stendr líkneski hans í øllum hervodum á hesti, og er þat sett á afarmikit granitbiarg ofan. Auk þessa eru þar 3 lystispilahús, 1 hertýghús og 3 háskólar fyrir herskipa- og landlids-foríngia-efni, þms spítøl, t. d. fyri útburdi, landlid, siólid og ørvasa óskipanarmenn. Hvat vísindi og bóknám, snertir eru þar

*) Hnøtt þenna giørdi Andres Busch frá Limborg (1656—1664) af kopar, og er hann 11 fóta at þvermáli; hit ytra er hann líkan giørvallrar heimis kríngiu, en at innanverdu gétur at líta hvelfíng himins med øllum kunnum stiørnum og himintúnglum, er giørd eru af gyltu silfri. Hit innra stendr bord kringlótt um hiarann og bekkr umhverfis þat; svo ein tylft manna gétr setit og horft á himinhvelfínguna, medan hún á 24 stundum gengr ígégnum hádegislínuna. Fyrrum vardveittist hnöttr þessi í skrautligu lystihúsi, er stód í Gottorps aldingardi, og settu hann þá vatnsrásir í hræring. Arit 1713 gaf Fridrékr 4 danakonúngr Petri enum mikla hnøttin, og hefir hann sídan vardveitst í þar til løgudu húsi á søgdum stad.

einnin allmargar stiptanir, t. d. Þiódskóli, bóka-stóll mikill (300,000 bindini 12,000 handrit) urtagardr, stiornuturn, náttúrugripahirsla, skóli til framа enni rússisku tungu; læknara- og uppskurd-ar-skóli; lista- og smilliverka-skóli, samt akuryrkiu- og námna frædis-, farmanna- og verslunarkunnáttu-skólar; þar ad auki er þar fioldi allskonar verkstada og smidia. Hvergi í Rússaveldi er svo mikill kaup-stapr sem í Petursborg, en ei géta stórskip lagt upp eptir Nevá- til bæarins, sakir grunnsla; mega þau því afferma edr leggia af sér þúngan í Krónstadar høfn, 4 mílur fyrir vestan Peturs-borg; í henni eru 270,000 innbúar, medal hverra má telia 24,000 Þiódverskra, Frænkismanna, Enskra og Svía.

Sis háreistir og skrautligir hof- og lysti-gardar standa í nánd vid Petursborg, medal hverra hér má géta gards þess, skamt frá borginni, er Kammenoi-Ostrow heitir; þar sitr keisari á sumrum; Petursbof, 4 mílr þadan, er Petur hinn mikli lét giøra, og Zarskojo-Selo, þat er forkunnligr gardr at allri smíd.

Slusselborg, er kaupstadr nokkr á eyu í Nevá, þar sem hún sellr úr Aldey-uvatni; skamt þadan er kastali mikill, sem kéndr er vid skadinn, en fyrrum kalladist Nautaborg, þar er ríkisfángelsi mikit. Sophia, er litill stadr, bygdr 1785; þar er prýdilig kyrkia, giord eptir Sophiukyrkiu í Mik-lagardi; hún er ordukyrkia Vladimirsriddara. Narva er kaupstadr vid Kyriálabotn sunnan-verdan, er Valdemar 2 danakonúngr lét giøra;

þar er kastali sá, er Jvangardr heitir; árit 1700 hlutu Rússar þar ósigr fyrir Svíum.

Krónstadr (Corona), á eyu nokkurri í Kyriálabotni austanverdum, er Pétr hin mikli lét efna til 1710; þat er víggirt borg med 40,000 innbúum, medal hverra telst 6000 hölda þeirra, er þar eru til varnar settir í kastala þeim, er Krónslot kallast og stendr á 2 víggirtum smáeyum skamt þadan. Þar eru 3 hafnir, í 2 af þeim liggr mestr þorri herskipa þeirra, er Rússar halda í Eystra-Salti, í gódu lagi, enn hin 3dia er fyrir kaupför, hvar þau, er skulu til Petursborgar, eru rannsökut og mega þar afferma þúngann. Þar er síki mikit og breitt, er Petur hinn mikli lét grafa, med steinmúrum umhverfis; skipasmidiur og dokkir, hvar útpumpa má sióinn, svo skipinn liggi á þurru, og bæta má mörg skip í senn; þar er og herskiparád, farmannaskólar og spítöl fyrir siólidit. Fyrir nordan Petursborg er:

Viborg edr Vibiörg (Viburgum) vid fiörd nokkurn, er hverfr í landnordr innaf botninum; hún er víggirdt og er þar heimili biskups og 3200 innbúa. Fridrikshöfn (Fridrikshamn; Friderici portus) á andnesi nokkru vid Kyriálabotn; þar er gód höfn og lega nokkurs hluta eus rússiska smáherskipa- eda galeida-flota. Nordar er Kexhólmr á eyum 2 í Aldeyuvatni; þar er lítil festing, og önnur

at Nýaslotí við Saima. Jarlsdæmi þat, sem kénnt er við Víborg, kalladist fyrrum Kyriálaland og seinna á tíðum Karelen.

Í jarlsríki því, er Reval kallast, en fyrrum nefndist Eystland (Adalsýsla, Harrialand og Viraland), og liggr at sunnanverdu við Kyriálabotn, er kaupstaðr allmikill er Refala (nú Reval, Revalia) heitir; þann stað lét Valdemar 2 giöra; þar er góð höfn, hvar nokkr hluti Eystra-Salts flota liggr; veglig dómkyrkia er þar, 1 riddarastofa, 1 riddaraskóli, er tilheyrir enum eystlendsku adalsmönnum, af hvörium er mikill fiöldi í landi þessu og 630 höfudgardar, er þeir eiga. Þartil liggr ey sú í Eystra-Salti, er Dagey heitir; hún er 9 mílr á lengd, en 6 á breidd.

Ríga, á nyrdri bakka Dunár, 2 mílr frá Dýnumynni; þat er svo mikill kaupstaðr, at eingiun er hönum meiri við Eystra-Salt, at Petursborg undanskilinni; þar er 1 hofgardr, 3 hertýahús, 2 háskólar, allmikit bókasafn, náttúrugripahirsla og margir verkstadir; innbúar bæar þessa eru 30,000 at tölu, og er mikill hluti þeirra Þýdskir, er idka miög varníngssölu fyrir sig og adra og vöru-flutnínga; þadan flytst rúgr mikill, sem frá ödrum stödum, er við Eystra-Salt liggia.

Dýnumynni (Dünamünde) kallast lítit varnarvirki á eyu í Dynu-ósum. Dorpat edr Dorpt er forn staðr skamt fyrir vestan

Peipus; þar er þiódskóli. **Pernå** (Pernau; Pernafia) er og gamall stadr vid Eystra-Salt, þar er forn hofgardr. **Volmar** (Voldemaria) er einnin gamall stadr. Fyrrum var stadr sá í landi þessu, er Salis og Salisborg hét.

Ey nokkr allmikil liggr í Eystra-Salti, utanverdt í Rigu-flóa, er **Eysýsla** edr **Eysýsel** (Ösel; Osilia) heitir; hún er 15 mílr á lengd og 110 ferh. m. á stærd, en mannfólkit, er þar býr, er 31,000 at tölu. Hösdi sá á eyunni er i sudr veit (Staverort) liggr gagnvart nesi á meginlandi, fyrir sunnan flóan, er Domisnes er kallat. Á eyunni er stadr sá, er **Ahrensborg** heitir, og aurmál ens forna kastala, er Sunnuborg kalladist. Austar og nær landi liggia eyar tvær er **Mön** edr Maun og **Rúney** kallast; sundit imillum eya þessara og meginlands kalladist fyrr. Eyasund.

Jarlsdæmi þat, sem kénnt er vid **Riga**, kalladist fyrr. Letland og seinna Lifland.

**Athugagr.** Alt til 12 aldar vóru innbúar þessara 4 sidstöldu jarlsríkia heidnir. Þýdskir bodudu kristni á Liflandi og Knútr 6. danakonúngr hafdi leidángr úti til Eystlands 1196 í sama tilgángi. Sverdriddarar og enu þýdsku riddarar (krossbrædur, krossherrar) eignudust Lifland á öndverdri 13 öld, en keyptu Eystland. 1512 skildu riddar þessir félag sitt, og giærdist þá Oddviti sverdriddara hösdingi yfir Liflandi og jafnframt því þýdskr ríkisfursti; um somu mundir var þar sidabót bodut. Á 16 öld midri heriudu Rússar

land þetta, og Eystir leitudu lids hiá Svíum; en Lifland skeyttist vid Pólinaland. Í 100 ár deildu Svíar, Rússar og Pólakkar um Lifland, en loks giørdust Svíar hofdíngiar yfir því 1660, og héldu þeir því til 1721, þá Rússar fengu þat ásamt Eystlandi, Ingermannalandi og nokkrum hluta Kyriálalands. Árit 1741 kostudu Svíar kapps at vinna aptur lønd þessi, en neyddust 2 árum seinna til enn fremr at affala sér alt Kyriáland og nokkurn hluta Kexhólms og Savolax.

Stórfurstadæmit Finnland (Fennia, Finnia, Finlandia, Fenningia, Fennonia), þat er allmikit land, er liggr fyrir austan Helsingiabotn, en fyrir nordan Kyriálabotn; fyrir nordan þat er Lappmørkin, en fyrir austan jarlsríki þau, sem kénnd eru vid Olonetz og Arkangel; þat er 4550 ferh. m. á stærd; en innbúar þess eru 1 millión at tølu. Land þetta (er innbúar þess kalla Suomi, Saima, Suomemaa ɔ: hit mýrlenda; en siálfa sig Sasmaliser) er miøg margbreytt at landslagi; þar eru vída heidar, merkur, mýrar, forædi og vøtn. Þó er land þetta all friófsamt og ýmsum giædum búit. Þar eru ásar vídlendir furu- og birki-skógar á ýmsum stødum, og eru þeir Finnlendíngum einkar ardsamir; korn vex þar einnin mikit, samt hampr, humall og tóbak; þar er

çvikkí mikit og gott og allmikill fiskiabli. Medal ćarga-dyra í landi þessu eru Birnir geig-vænligastir og giöra þeir mest skada; en Finn-lendingar eru manna hugadastir og snarastir til at vinna þá. Þar finnst granit, sandsteinn, brennusteinn og arsenik. Allr þorri landsbúa er þiód sú, er Finnar kallast; þeir eru manna hágastir á tré og flytiast smídisgripir þeirra til markada umhverfis Eystra-Salt. Þaradauki er vidr, tiara, bik, kol, fénadr, fiskr, lerepti o. s. fr. kaupeyrir landsmanna.

Fyrir landinu ráda, 14 høfdingiar, og er þeim skipt í 2 flokka, og kallast oddviti þeirra jarl (Generalgouverneur). Finnlandi er skipt í 7 landsálfur: nl. a. Finnland siálft (Biarna-borgarlén), þat liggr sydst og vestast vid Helsing-iabotn. Þar er:

Abó (Åbo; Aboa; á finnsku Turku), þat er høfudstadr í stórfurstadœmi þessu og bisk-upsstóll. Hann stendr á nesi því, er lengst gengr í útsudr í Eystra-Salt út ímillum Helsingiabotns og Kyriálabotns; þar er þiódskóli, stiptadr af Kristinu drottningu 1640, med 300 vísinda-idkendum, bókasafn almikit og stiörnu-turn. Þar er lítil høfn fyrir smáskip, en hættulig innsigling; afferma því hin stóru skipin vid slot þat er Abóhús kallast, ríma bæarleid fra stadnum, í hvorium eru 11,300 innbúar.

Nordar við nefndan hafnsbotn stendr Nýstadr, þar er allmikil tilsigling og kaupstapr; nordar á strøndinni eru kaupstadir 2 nl. Raumá og ennþá nordar Biarnaborg (Biörneborg), við á þá er Kúmo-elfa kallast.

b. Tavastaland, fyrir austan Finnland siálst og við Kyriálabotn; þar er kaupstadr sá á nesi nokkru, er Helsingsfors heitir; þar er heimili 4000 innbúa og góð høfn, er 2 virki veria. Framundan høfn þessari er rammbygdr kastali, er Sveaborg heitir, á 7 klettaeyum; þar eru 2 góðar hafnir og eru þar siásarhamrar sem múrar á báða vegu; eru þar sett 1,100 stalstykki til varnar; þar er hertýahús mikit, skipabygging og 2 dokkir. Kastalamenn eru 5000 at tølu. Nokkut frá sæ er Tavastahús við stöðuvatn, ásamt kastala þeim er Krónuborg (Kroneborg) heitir.

c. Nýland (Kymenagardslén), fyrir austan Tavastaland; þar er kaupstadr sá við sæ, er Lovísa heitir; þar er slæm innsiging á høfnina, hvøria virki þat, er Svarthólmr nefnist, ver. Borgo er þar og forn kaupstadr og biskupsstóll við samnefnda á.

d. Austrbotn, er liggr nordr med Helsingiabotni austanverdum frá Finnlandi siálfu. Þar er Kristinarstadr sydstr, þá Vasa, þar er slot þat er Krosshólmr heitir, þá Jacobsstadr, þá Gamli Carlabýr (Carolina antiqva), þá Ula edr Uleaborg nordast við Ulaelfu, er rennr úr vatni því, er Ula-Træsk kalladist. Í øllum þessum stødum, samt

Brahestad og Nýa Carlstad, á sömu strönd, er allmikil kaupverslan; en fiölmennust er Uleaborg.

e. Kyriálaland (Karelen), liggr austr af Austarbotni; þar er stadr er Kvopio heitir vid vatn nokkurt, og Cajanaborg vid Ula-Træsk austanverdt, í landbygd þeirri, er fyrrum Cajanaland kalladist.

f. Savolax kalla menn nordasta hlut Finnlands, alt nordr til Lappmerkur og er þat bædi nokkr hluti Vestrbotns, Torneár- og Kemi- edr Kimi-Lappmerkr; þar er Torneá vid Torneá-elfu, er nú markar landamæri Svia og Rúfsa. Þat er nordasti kaupstadr í Evrópu (65° 50′ 50″).

g. Alland edr Allandseyar, svo kalla menn eyaflokk mikinn í Eystra-Salti edr Allandshafi, í Helsingiabotns mynni, þar skemst er millum Finnlands og Sviaríkis, og liggia þær 6 mílur undan Siálandsströndum í Svi-þiód, og kalla menn nú þat sund Allandshaf, en sundit ímillum eyanna og Finnlands Vattuskipti. Eyar þessar eru 80 at tölu og eru þær allar sam 13 ferh. m. á stærd; en lýdrinn, sem byggir þær, er 13,000, og leitar hann sér einkum uppeldis af fiskiabla og selaveidum. Hin stærsta af eynum er Alland (Åland), hún er 5 mílur á lengd og 3 á breidd; þar er forn kastali, er Kastalahólmr (Castelholm) kallast. Lemland, Ekruey og Lumpara-

land eru minni eyar medal þeirra. Hogland er ey nokkr í Kyriálabotni.

Finnland géta sumir fródir menn til at á eldstu tídum heitit hafi Jótland (máské Jotunheimr) og hafi þar búit Jótar, er bygdu Nordurlønd þá Odinn kom at austan; en sídan hafi landit verit kallat Qvænland og at lyktum Finnland, eptir at Finnar høfdu flæmt Jóta á brott. Fyrir austan land þetta lá Kyriálaland (Karelen) nádi þat alt frá Kyriálabotni nordr eptir til Gandvikr og nordr med henni vestanverdri.

## b. Unnin lønd frá Pólinalandi.

Mestan hluta ens forna Pólinalands hafa Rússar undir sig brotit; hefir því ríki þrisvar sinnum deilt verit medal ýmsra landshøfdíngia nl. 1772, 1793 og 1795; hlaut þá Rússa einvaldr 7 jarlsríki, auk Kúrlands og Semgallen. At høfdíngiafundinum i Vínarborg (1815) var hertugadæmi þat, er Varschau heitir, selt Rússakeisara til eignar og umráda á hendr.

Løndum þessum er, sem Rússaveldi, skipt í 9 jarlsdæmi, er taka nøfn af þessum stødum: a. Vitebsk edr Polozk (þat er nokkr hluti ens forna Hvíta-Rússlands). b. Móhileff (einnin nokkr hluti Hvíta-Rússlands, hverttvegia unnit 1792). c. Minsk (nokkr hluti af Litthaen). d. Volynsk (partr af litla Polen). e. Kam-

enetz-Podolsky (sömuleidis nokkr hluti af litla Polen). f. Vilna (nokkr hluti af Litthen). g. Grodno (einnin partr af Litthen). h. Mietau (hit forna Kúrland (Curlandia, Curonia), er um lánga æfi var hertugadæmi kallat, og Semgallen (Semigallia) og i. Bialystok (hin forna Podlachia).

Medal stada þeirra, hverra nøfn jafnframt jarlsdæmum þessum, eru talinn, má þessa merkasta kalla: Vitebsk og Pólozk, þat eru kaupstadir tveir, bádir vid Dýná og liggr hinn fyrri lengra frá sæ med 11,700 inbúum; í bádum eru Jesuita-félog. Mohileff, vid Nepur, liggr sunnar; þar er heimili gríks og kathólsks erkibiskups, Jesúita-félags og 12,300 inubúa. Minsk og Pinsk vid Piná, eru kaupstadir tveir og heimili Jesúita-félaga. Býrinn Pinsk er umkríngdr af flóum og forædum; þar eru 4500 innbúar, sem eru skinnarar gódir; flytst þadan því hit besta rúsíledr í ríkinu. I jarlsdæminu Volynsk er litill stadr er Romanóva heitir; þar er skóli fyrir heyrnar- og mál-leysínga, og eru ei fleiri þvílíkir skólar í Rússaveldi. Kamenez, þar sitia biskupar 2, er annar kathólskr, en annar armenianskr. Vilna vid á skiplæga, er Viliá heitir; þat er allmikil borg, en eigi fegr; var hún fyrrum hofudstadr í stórher-

tugadœmi því, er Littáen (Littauen) kalladist; þar er þiódskóli, 40 kyrkiur, tvegga biskupa setr, hofgardr (hvorn stórhertuginn fyrrum bygdi) og heimili 21,000 innbúa, af hvörium 5000 eru Júdar. Í þessu jarlsdœmi er stadr nokkr litill skamt frá Krovno, er Fridensberg heitir, og liggia markir stórar umhverfis; þar er nafntogat klaustr fyrir 24 Camaldulensa; þat er prýdilig bygging, sem nær eintómis er af marmara giört. Þar vardveitast einhvor hin fágiætustu og merkustu málverk. Fyrir sunnan Vilna er stadr sá er Grodno heitir, vid á þá er Niemen kallast; þar eru 2 hofgardar og 5000 innbúar. Medan ríki Polinalands konúnga stód, var þridia hvört þiódþíng haldit í Grodnó. Sunnar í sama jarlsdœmi og vid ána Búg liggr litill býr er Brzesc heitir; þar er stóll grísks biskups, hofgardr og gydínga-háskóli, sækia Júdar þángat úr öllum löndum Evrópu til mentunar. Vestar er Bialystok, fagr býr vid Bialá; þar er hofgardr svo skrautligr, at ei er maki til í því landi. Fyrir nordan Vilna er Mita (Mietau) í Kúrlandi enu forna; þar er háskóli, stiörnuturn og 12,400 innbúar. Skamt frá bœnum er skrautligr hofgardr, er fyrrum var heimili enna kúrlendsku hertuga. Vid Eystra-Salt liggr Vindá (Vin-

dau) og sunnar á ströndinni Libá (Liebau); báðir þessir staðir standa við einsnefndar smá-ár.

Skíringargr. Hit forna Kúrland, er liggr við Eystra-Salt fyrir sunnan Lettland og hinn lifleudska flóa, hófst til hertugadæmis 1561, þá oddviti Sverdriddara, Kettler at nafni, hræddr fyrir yfirgángi þeirra Rússana, afsaladi sér Lifland Polinalands kóngi, en giørdist hertugi yfir Kúrlandi og Semgallen og undireins lénsmadr fyrrnefnds konúngs; fór svo framm í 234 ár at hertugar rédu fyrir landinu, uns þat ásamt nokkrum hluta Polinalands skeyttist við Rúsaveldi 1795, og hinn sídsti hertugi var sviptr nafnbót og léni.

## c. Lønd þau, er Rússar hafa unnit af Tyrkium.

Eignarrétt þessara landa hafa fridar samníngar í Kutschuk-Kainardgi 1774, í Galatz 1791 og í Bukarest 1812 giørdt løggildan. Nú á døgum eru lønd þessi greind í 4 jarlsdæmi, er taka nøfn af høfudstødunum í hveriu þeirra, og er þá fyrst at telia: a. Jekatarinoslaff (fyrrum lønd enna saporógisku Kósakka), nordr af Ellipalta. b. Cherson edr Nikolajeff, vestar vid Svartahafit nordanverdt og ímillum Nepur og Nyvár; lønd þau er liggia át nordanverdu vid Svartahafit kølludu menn í fornnid ýmist Kúsaríki, Kúsaland edr Kúsara-

land; þar var Andvarafoss. c. Simferopól, þat er nes þat, er gengr í suðr úti Svartahaf; er þat allvíðlendt og tengir eyði nokkurt þat hit nyrðra við meginlandit; þat kallaðist fyrrum Krím eðr Tauria (Krímskagi; Chersonesus taurica), partil heyrir og hin krímsku eðr nogaisku heiðalønd og nes þat er Taman kallast; og d. Bessarabia, þat land liggr við Svartahafit norðvestanverdt ímillum Dunn og Nyvár, samt nokkr hluti lands þess, er fornmenn kölluðu Blakkamannaland, er nú á døgum heitir Moldá, og skilr þar áin Prút lønd Rússa og Tyrkia. Inefndum jarlsríkium eru þessar borgir merkastar:

Jekatarinoslaff við Nepur, er Katrín 2r lét húsa 1784. Sunnar, við hit asófska haf norðanverdt er allmikill kaupstaðr, er Taganrok heitir; þar er kaupskapr mikill, skipabygging, herskipa, lega og heimili 6000 innbúa. Austar er Assof, merkr staðr á eyu í Vanaqvísla-mynni með 3800 innbúum. Þann stað tók Petur hinn mikli með herskildi frá Tyrkium 1696, hverir fengu hann aptr 1711, en 1774 vann Katrín 2r hann undir sig at fullu.

Cherson er allmikill staðr við Nepur (bygðr 1778) með 22,000 innbúum; hann er greindr í 4 hluti, er kallast Festing, þar er slot, hertyghús og kanónusteypa; Herskipa-

ráðsstaðr, með skipasmiðium; hinn grícki Forstaðr og Hermannastaðr. Vestar er Nikolajef, á tángunni millum anna Bug og Ingul; þar er høfn og herskiparáð yfir þeim hlnta flóta Rússa, er þeir halda í Svartahafi. All-lángt frá sæ er Elizabetgarðr við Ingul, er Elizabet drottning lét giora 1754. Við Limen steudr staðr sá, er Otskakof heitir, þar var til 1788 rambygðr kastali; vestar við vog nokkurn af Svartahafi er kaupstaðr mikill, er Odessa kallast, bygðr 1795; þar er ágiæt høfn, sem skipt er í 3 minni, og með því at þar er alt megin samankomit varnings nærliggiandi jarlsdæma, er þar bánki, kaupmanna samkunda, austlendsk kaupmanna-búð, margskonar verkstaðir og afarmikil kornverslun; þar eru 36,000 innbúar.

Á Krím er Simferopól høfuðstaðr með 1800 innbúum. Á suðaustr strønd neß þessa er kaupstaðr sá, er Kaffa heitir (fyrr. Theodosia), þar er fríhøfn og er þar samankomit ógrynni rússiskts og Austurlanda varnings; einnin er þar forngripahirsla, urtagarðr mikill og bibliufélag. Til 1783 sátu þar høfdingiar þeir, er Kanar hétu og kéndir vóru við Krím; nú eru þar 5000 innbúar (fyrr. 80,000). Kaffa var á miðri alda-æfi, þá Genúu-menn áttu stað þenna, einhvor hinn merkasti kaupstaðr í norð-

álfu heims, fluttist þá þángat og þadan Indía-varníngr; en 1474 unnu Tyrkiar stadinn og rírnadi þá skiótt velsemd hans og blómi. Austar og nordar er Jenikala (Panticapæum) vid sund þat, er kénd er vid stad þenna, er liggr gagnvart Fanegoria á nesinu Taman, fyrir handan Asofs-módu mynni. Baktskisarai var um lánga æfi heimili ádurtédra Kana; þar er hofgardr mikill, 3 mahómetsk bænahús og saffiansmakara-verkstadir; Bæarmenn eru 7000 at tölu og eru þeir allir Tartarar at ætt og uppruna. Sebastopol, þar er höfn fyrir herskip, hverri annari betri vid Svartahaf. Perekop heitir litill býr í eydinu, er fyrr er gétit.

Ena nógaisku heidi byggia, auk rángiarna Tartara, allmargra Rússa, Kósakka og þýdskra, 18 nýlendumanna flokkar eda hyski sem eru Mennonítar at trú, og idka fiárrækt.

Öll þessi 3 sídstnefndu jarlsríki kallast ásamt Nýa-Rússland; nokkr hluti jarlsdæma þeirra, er kénd eru vid Katrínarleif (Jekatarinoslaw) og Kerson, heyrdi fyrrum Litla Rússlandi til.

Í Bessarabía, er Tyrkiar afstódu Rússum 1812, eru þessir stadir: Bender, þat er ramliga umgirdtr stadr vid Nyvá, med 20000 innbúum. Skamt þadan er þorp þat, er Varnitza heitir, þar hafdist Karl 12ti vid frá

1709 til 1713. Kili (Kilia nova) við Dunnarmynni nordanverdt. Akkierman (Bialogardr) við Nyvármynni; þar eru 20,000 innbúar. Ismail, er sterk festing við Dunnar ósa, med 10,000 innbúum. Rússum heyra einnin eyar þær til, er liggia í ósum Dunnar nordanverdum, ímillum Kili og Ismail; en hverki mega þeir byggia þær né giøra þar hervirki. Innbúar lands þessa eru enir budskakiskn Tartarar, er hafa somu trú og Tyrkiar, og lifa af akuryrkiu og fiárrækt.

I enu forna kana-dæmi Kasan, er 1552 og 1554 skeyttist við Rússaveldi, eru 5 jarlsríki, sem kénd eru við a. Viætska (nordast). b. Kasan sunnar, þá c. Simbirsk, þá d. Pensa og syðst e. Saratoff, fyrir austan Veronesk og Tamboff; øll liggia jarlsdæmi þessi í røð hvørt nordr af ødru fyrir austan Stóra-Rússland og við landamæri nordr- og austr-álfu heims; þar eru þessir stadir: Viætska, við einsnefnda á, er sídan rennr i Volgá; þar er biskupssetr og heimili 9000 innbúa. Sunnar stendr Kasan við á þá er Kasanka heitir; þat var fyrrum høfudborg í samnefndu Kanadæmi. Þar er biskupsstóll, þiódskóli, 2 háskólar, herskiparád, sem sett er flotanum í enu Kaspiska hafi og siglingunni á Volgá til forráda,

allmargir og ymiskonar verkstadir, einkum til skinna tilreidslu, og heimili 18,000 innbúa, er hafa kaupskapar mok þvínær vid alla Rúsa. Hauftit 1815 brann mikill hluti stadar þessa. Í jarlsdæmi þessu finnast mörg aurmál og eptirstodvar frá þeim tídum, þá Tartarar bygdu þar. Simbirsk er allmikill stadr vid Volgá, med 11,000 innbúum, samt Stavropól, þar búa skírdir Kalmúkkar. Pensa vid einsnefnda á hefir 5000 innbúa. Sunnar liggr Saratoff vid Volga, med 8000 innbúum; og Sarepta-sýdst í þessu jarlsdæmi, er Hernhúttar bygdu 1765. Lángsetis med Volga eru nær 100 nýlendr, er Pýdskir og Svejzarar hafi numit, og segja menn þeir séu 40,000 at tolu. Í sídstédu jarlsríki eru virkiagirdíngar til landvarnar giordar móti umflakkandi stigamönnum; þar eru donskir Kósakkar settir til landvarnar.

Til þess hluta Rúsaveldis, er í Evrópu liggr, heyra lönd þau, er liggja bádumegin vid Vanaqvísl (hit forna Vanaland edr Vanaheimr, Asaland edr Asaheimr) og Svartahafit; byggir þau nú þiód sú, er Kósakkar kallast; lönd þessi eru ei greind í jarlsdæmi sem annarstadar er sidvenia til í Rúsaveldi.

1. Land euna Donsku Kósakka liggr ímillum jarlsdæma þeirra, er kénd eru vid

Katrinarleif, Voronesk, Saratoff og hinn asi ofska fiord; þat er 3600 ferh. mílur á stærd, en manntalit er 319,000 Kósakka, medal hvorra eru 40,000 vopnfærra hermanna; þar er flatlendi mikit og frióssamr jardvegr í nánd vid ár og elfr, en þá frá þeim dregr, vídlendar heidar; þar er blíd og þægilig vidurátt.

Kósakkar *) hafa til sama ættflokks kyn sitt at rekia og Rússar, og hafa þeir því somu trú og túngumál; en í háttum og stiórnsemi eru þeir Rússum ólikir. Kósakkar eru bardagamenn miklir, hugdiarfir og hradir í ferdum og þolgódir í leidángrum og vosferdum; þess ámilli um eru þeir þúngliftr og drykkfeldir. Þeir beriast ávalt á hesti og eru reidmenn rakkir; þeir eru friir fyrir skattalúkníngum og ýmsum álögum, er adrir Rússar mega sæta; en skyldir eru þeir at grípa til vopna, þá Rússakeisari býdur út leidángr; sá þeir at eins mála, þá þeir beriast utan takmarka lands síns; litt skeyta þeir um akuryrkiu, og leggia fremr stund á gardarækt og vínyrkiu og at ala upp hesta góda; þeir idka og brennuvíns-brenslu, og tilreida einnin húsblas og kaviar. Ostmir eru þeir til handverka eda lista, hafa því útlendíngar, er búa ámedal þeirra, og þeir kalla Gosti (gésti) þá idiu, samt kaupverslun og akuryrkiu. Kaupeyrir Kósakka er: hestar, sláturs-fénadr, húdir og skinn, tólkr,

*) Ordit er dregit af Kasak, er á tartarisku þýdir léttvopnada sveit manna.

kaviar, húsblas, reslar, aldini og vínfaung. Hvat húsakynni Kósakka snertir, eru þau annaattveggia einstök og strial hús og gardar edr viggirdt þorp, er þeir kalla Stanizer, af hvorium ei eru færri enn 113 í landi þeirra og er yfir hvört þeirra settr hofdingi sá er Ataman edr Hetmann kallast, og eru þeir allir undirmenn ens ædsta hofdingia, er Kósakka-Hetmann heitir. Hofudþorpit í landi þessu heitir Zerkast, þat stendr á 7 milna lángri og 3 milna breidri eyu í Vanaqvislum og samanstendr af 11 viggirdtum þorpum; þar er atsetr yfirhetmannsins, hertyghús, nægtabúr og heimili 15,000 innbúa, medal hvorra eru 150 tartariskir húsbændur med bornum og skylduhiúum, er búa útaf fyrir sig og likiast Kósokkum í háttsemi, en hafa haldit trú sinni og túngumáli. Med því at þar er lopt óheilnæmligt sakir yfirgangs vatna, reisa nú Kósakkar bæ, 1 mílu þadan vid nesnda elfu, er þeir kalla Ný-Zerkast, og flytia þángat jafnódum og búin eru húsinn.

2. Kósakkar vid hit Svarta-haf austanverdt, er einnin kallast enir Zernomorískú Kósakkar; þeir eru eptirstödvar af enum Saporógisku Kósokkum, er biúggu vid Nepur og fluttust þadan 1775 med því þeir vóru fullir ráns og ójafnadar og voktu þar óeyrdir. Land þat, er þeir nú byggia, er 1017 ferh. m. á stærd, hvors innbúar eru 80,000 at tolu og er 4 partr þeirra til vopnaburdar settr. Mikill

hluti lands þeirra er heidi og fléar; þó er þat vída grøsugt, er því qvikfiárrækt høfud-atvinnu vegr landsmanna; þeir eru at háttum og allri hegdan líkir enu donsku Kósøkkum.

Skíríngargr. Tveir eru høfud-ættstofnar Kósakka: 1. þeir Malorossisku í Litla Rúslandi, til hvørra þeir zernomorisku og slóbodisku Kósakkar hafa kyn sitt at rekia; og 2. þeir Donsku, frá þeim eru komnar margar kynqvíslir, nl. þær grebensku, terekſku, volgisku, astrakansku, órenbyrgsku, úralsku og siberisku. Medal Kósakka telia menn 800,000 vopnfærra hermanna, er ávalt eru búnir til víga og leidángra.

## II. Rúsaríki í Asia.

Þat er allr þridiúngr Austrálfu heims og nær frá 55° til 208° í austr og vestr, en frá 40° til 78° í út og sudr; þat er nærhæfis 273,000 ferh. m. á stærd. Marghátttat er ásigkomulag þessa vidlenda ríkis og fiølbreyttir landskostir og andkannar. Hit sydra og vestra er hlýlig vidrátt og gnæg gródska; hit nyrdra og eystra er mesta hluta ársins þeli í iørdu og snæþyngsli; þótt vida séu þar fiøll og fiallgardar, má þó lønd þessi fremr yfir høfud flatlendt enn fiøllótt kalla; allvida eru þar vídlendar heidar (Stepper) fullar salt-tiarna og saltkélda.

Rúſsaríki. á Austurlondum er ſkipt í 8 jarlsdæmi, ſem kénd eru vid merkuſtu ſtadi í hvoriu þeirra og heita ſvo: a. Aſtrakan, at nordveſtanverdu vid hinn kaſpiſka ſió; var þat tartariſkt kóngsríki til 1554. b. Georgievſk, ſunnar vid ſama ſió (hit forna Káſaſia; í forntíd Albanialand). c. Tiflis, ſunnar fyrir veſtan tédan ſió, er hit ſydſta jarlsdæmi í Rúſsaveldi; þat er meſtr hluti Georgiu og Gurdſchiſtan. d. Orenborg, fyrir nordan Aſtrakan; þat ſkiptiſt í 2 landsálfr, ſem kéndar eru vid Orenborg og Ufa. e. Perm, enn þá nordar, er 2 landsálfr kéndar vid Perm og Katrínarborg. f. Tóbolſk (16,813 ferh. m. á ſtærd med 447,000 innbúum); þat liggr fyrir auſtan 3 ſídſt talinn jarlsdæmi og nær frá takmörkum ríkiſins hit ſydra til Iſahafs nordr. g. Tomſk (68,570 ferh. m. á ſtærd med 352,000 innbúum), fyrir auſtan Tóbolſk; þat nær eins lángt út og ſudr; og auſtaſt h. Irkutſk (126,460 ferh. m. á ſtærd med 430,000 innbúum), er þat allra jarlsdæma vídlendaſt og ſtriálbygdaſt í Rúſsaveldi, og nær þat til ſiáfar hit nyrdra og eyſtra. Priú ſídſt talinn jarlsdæmi kalla menn öll ſamt Siberia, er menn meina at haſi tekit nafn af fornum bý, er Sibir hét. Land þetta er alt megin þeirra

landa, er Rússar eiga í Austr-álfu heims og brutu þeir þat undir sig á midri 16 öld; hafa þeir ávalt sidan látit Kósakka vera landit móti Tartörum og ödrum rángiörnum nábúum. Þángat senda Rússa-einvaldar útlæga afbrotamenn og þykir hvída í heimi útlegdarstadr verri eda leidari; med því hvergi er ast kulda og frosta svo mikit sem í landi þessu, er þat og at líkindum, þar land þetta liggr svo utarliga á sídu heimskringlunnar og hafþök af ísi eru fyrir nordan þat, samt gnótt salts er hvervetna í jardveg þess. Þó er þar ei hvervetna landslag né kostir og andkannar med sama hætti; eru þar sumstadar allgód bygdarlög, en vídast er landit giædafátt og graslitit, einkum hit nyrdra vid útsæinn, hvar gródrska þverrar og med öllu er óbyggiandi. Sá hluti lands þessa, er liggr fyrir vestan ána Jenisei, er austr-hlutanum miög ólíkr, hvar fleiri eru fiöll, jardvegr snaudari og miklu óblídari vedurátt; þat eru einnin ýmsar dýra- og grasa-tegundir, er ei finnast fyrir vestan ána.

Merkustu borgir í þessum parti Rússaveldis eru:

Astrakan (Adschotarckan), á eyu í Volga, 7 mílr frá Volgumynni. Þar er atsetr grísks og armenisks biskups, tartarisk fest-

ing, herskiparáð, skipabygging, 56 kyrkiur og mahómezkt bænahús, margir og margskonar verkstaðir, hvar menn sérílagi tilreiða saffian og rússleðr, kaupstapr svo góðr, at hvergi er jafnmikill í þeim hluta ríkisins (yfir 2000 sölubúðir) og heimili 30,000 innbúa; en ásamt aðkomumönnum og þeim er þángat sækia til fiskifánga, 70,000. Norðar er staðr sá, er Uralsk heitir, við Ural (fyrr. Jaiskoigarðr); þat er víggirðtr .höfuðstaðr enna úralsku Kósakka með 15,000 innbúum. Auk Kósakka búa í þessu jarlsdæmi 12,000 Kalmúkka hyski.

Í Georgievsk eðr Kákasia er, auk Georgievsk, staðr sá, er Kislar heitir, við ána Terek, er rennr í hinn Kaspiska sió, ei allángt þaðan; þar er samankomit ógrynni varnings frá löndum þeim, er liggia umhverfis Kákasus; þar eru 9000 innbúar.

Tiflis, er allmikill kaupstaðr við á nokkra skiplæga, er Kúr heitir og rennr í hinn Kaspiska sió; þar eru 18000 innbúar og er helmingr þeirra Ermlendíngar at ætt. Í Mzcheta er mánkalíst og heimili griskts biskups, er kallast Catholikos. Furstadæmit Imirete ásamt Mingrelia fyrir norðan og Guriel fyrir sunnan þat, og við Svartahafit austanverðt, er fyrr. naut verndar og varnar Rússa, eru nú sam-

tengd keisaradœminu. Eptir sáttmála þeim, er Rússa-keisari og Persa-konúngr sömdu sín ímillum 1813, giordist hinn fyrri eignarmadr ýmsra landa fyrir vestann hinn Kaspiska sió, er heita Daghestan og Leeghistan, samt Kurdistan edr Skirvan; þar er Derbent (hit lokada port) vid hinn Kaspiska sió med 4000 innbúum. Sunnar vid sama sió er Baku, þar er hin besta høfn vid sió þenna.

Fyrir nordan Astrakan er Orenborg vid Ural; þar er vopnahús þeirra, er settir eru til landvarnar vid ena órenbyrgsku hervirkiagirdíng og einhvør hinn merkasti útlegdarstadr, hvar 1000 útlægar eru í høftum og haldi. Þar eru 21,000 innbúar, er reka kaupskap mikinn vid Kirgisa og Buckara. Nordar er Ufa vid samnefnda á, med 5500 innbúum. Skamt þadan gésr at líta tóstir af fornum tartariskum stad.

Til jarlsdœmis þessa telia menn en kirgisisku Heidalønd, er liggia fyrir austan ána Ural og í landnordr af enum Kaspiska sió; þiód sú, er þar byggir, kallast Kirgiskæsakkar; þeir eru ránsamir, en ei miklir bardagamenn og flakka þeir vidsvegar med hiardir sínar. Þeir hafa hald og traust af Rússakeisara, en lúka honum þó einga skatta. Høfdíngium þeirra, er Kanar heita, sendir hann giafir í matvælum og klædum til vingunar, at ei veki

þeir óspektir og ræni nágrannalöndinn. Láng-
setis með landamærinni eru smávirki giörr til
varnar móti þeim.

Perm er stadr við á þá, er Kamá heitir,
en fyrr. Kumá. Austar er Katrinarborg,
þat er bergstadr og heimili þeirra, er hafa forráð
fyrir námum og bergverkum, í Perm og Sib-
eria, á hendi, samt 6000 innbúa. Fyrir
nordan Permstad er Solikamsk við Kúma;
þar er allmikil kaupverslun, með því þar liggr
þióðvegr ímillum Siberia og Rússlands. Þar
eru og: Nischnei-Neviansk með 10,000
innbúum, er giøra piátur-varníng mikinn; Novo-
Usolio, þar eru saltsuðuverk mikil, og flytiast
þaðan árliga 1,500,000 vættir salts; austast í
í jarlsdæmi þessu er stadr sá, er Irbizt
heitir; þar er markadr mikill á ári hverju, er
varir í hálfan mánuð.

Um þetta svið meina ýmsir fróðir menn
at ríki þat verit hafi, er víða finnst gétit í forn-
sögum, og Glæsisvellir kallaðist, þar var
Grund høfuðborg; sunnar var Odáinsakr,
þá Hundingialand, er náði allángt vestr
eptir, hérnæmegin fiallgarðs hins mikla; þá
Tartaraland og þá Tyrkland hit forna,
báðumeginn við nyrðri hluta ens kaspiska siá-
far; en fyrir nordan Glæsisvelli, kølluðu menn
Jøtunheim og Jøtnaland (þar vóru Ut-

gardar og Geirraudargardr), þá Risaland nerdar og Smámeyaland nordast vid haf.

Í Siberia er Tóbolsk (Tobolium) mest allra borga og fiölmennust; hún er 445 mílr fyrir austan Petursborg og stendr hún þar sem ár þær, er Tóbol og Irtisk heita, renna saman og Obfliót verdr af. Þar er erkibiskupsstóll, festíng, lystispilahús og geymslubúr afarmikillar gráværu og safala, er goldin er keisara í landskuldir; bæarmenn eru 17000 at tölu, medal hverra teliast allmargir útlagar. Austar er Omsk, þar er fángelsi fyrir 1000 útlaga. Þadan liggr einlæg hervirkiagirding til Tóbolsk, 72 mílr á lengd, til varnar móti Kirgisum; vid hana stendr Ischim. Beresoff, nordarliga vid Obfliót, og Pelymsk, sunnar, eru hardir útlegdarstadir; í enum fyrri stad deydi hinn frægi Menschikoff fursti 1731 í útlegd, og í enum sídari dvaldi hinn nafnkunni hersforingi Munnich í 20 ár. Tomsk, er allmikill stadr vid ána Tom, þar sem hún rennr í Ob; þar eru 12,000 innbúar. Jeniseisk vid Jenisei; þar er markadr mikill á árn hverin og sækir þángat fiölmenni úr allri Siberia. Kolyvan er litill stadr vid Ob; nálægt honum eru gull- og silfr-námur.

Irkutsk liggr 859 mílr frá Petursborg

vid ána Irkut, og 9 mílr frá Baikal-sió; þar er erkibiskupsstóll, varnarvirki, klæda-vefstadir og mikill kaupskapr vid Kínamenn, Buckara og Mongóla; þar er 16.000 innbúar. Ockotsk heitir kaupstadr vid ósinn, er Ockota rennr í hinn ockotska hafsbotn; þar er hofn og skipa-bygging og er þar kaupeyrir Kamtskadala sér-ílagi á bodstólum. Á landamæri millum Kína-ríkis og Rússaveldis er kaupstadr sá, er Kiackta heitir; þar er verslun mest millum Rússa og Kínamanna.

Skagi mikill gengr í sudr úti hit Kyrra haf fyrir austan hinn ockotska hafsbotn, er Kamtskatka er kalladr; hann er 150 mílr á lengd og 4000 f. m. á stærd, en innbúar landsins eru 3000 at tølu og kallast þeir Kamt-skadalir; land þetta er fiøllótt, en ei er þar kuldi svo mikill sem jafnnordarliga í Siberiu; þar eru eldfiøll og tídir jardskiálftar. Rússar brutu landit undir sig 1706 og hafa þeir ávalt verit hardir vid Kamtskadali og látit þá sæta afarkostum; Kamtskadalir eru kristnir at kalla; en miøg eldir eptir hiá þeim af heidindómi. Høfudbiargrædis vegr þeirra er fiskiafli og veidar; þeir aka í sledum med hundum fyrir og eru þeir því skagamønnum þessum dýra þarfastir. Á seinni tídum hafa Kamtskadalir lagt stund á

akuryrkiu; þeir gialda gráværu og safala í skatta og landskuldir. Þar er býr sá, er Bolsckeretskoi heitir, þar er höfn; og Peturs- og Pálshöfn (Awatschahavn), austanframm á skaganum; þar er góð skipalega.

Við Rússaríki í Asía eru margar eyar nálægt ströndum; en allar eru þeir eyaklasar úbygðir, er liggia fyrir nordan Siberia, t. d. framm undan Lenu- og Janafliótsmynni, samt Biarnaeyar edr Krosseyar framundan Kolymafliótsósum. Í Beringssundi er ey sú, er Imaglin heitir; þar eru 500 innbúar. Í Kyrrahafi má fyrst telia enar sindovsku eyar í einum anadyrska flóa; þær eru klettóttar miög og flestar óbygdir. Sunnar liggia St. Matthæi og Preobrantskenia, bádar alllángt undan landi. Frá Kamtskatka liggia 40 eyar í biúgri röd yfir nordasta hluta Kyrrahafs til skaga þess á Ameríku vestrströnd, er Alaska heitir; þær kalla menn enar alevtisku eyar (ímill. 50° og 57°), og eru þær allar samt 348 ferh. m. á stærd; á þeim eru hamrar miklir og fiöll, er ástundum giósa eldi. Eyamenn eru miög ósidadir, en eru þó kristnir at kalla; þeir lifa á veidiskap og fiskiafla; höfdíngiar þeirra kallast Toujons. Eyum þessum skipta menn í 3 flokka, kallast þær sem nærst liggia landi hit vestra, Sasignaneyar, medal þeirra er Beríngsey (55° 56°), þar deydi kapteinn Bering (danskr at ætt) 1741, og Kopareý. Þær sem liggia midsvegar í

hofinu edr fiærst londum, eru kéndar vid Kao og Regho, einnig kallast þær enar andres anovsku eyar; á þeim eru eldfioll og vellandi votn; en þær nærstar eru Ameriku, kallast Kavalaug- edr Refa-eyar; þadan kémr grávara mikil og tóuskinn. J sudr frá hofdauum Lópatka liggia 25 eyar í rod hvor sudr af annari allt til eylands þess, er Japan heitir; þær kallast enar kúrílsku eyar, og eru þær allar samt 146 f. m. á stærd; þær eru þeim alevtiskn miog áþekkar og vídast giædalitlar; á þeim eru 9 eldfioll og eru þar því optsinnis jardskiálftar. Avalt eru þær huldar þoku og ímillum þeirra eru rastir og ofugstreymi svo mikit, at óvída má á þeim lenda. Nokkrir eru eyamenn skírdir af rússiskum kristni-bodurum; en margir eru gneistar heidninnar á medal þeirra.

A nordvestr strond Vestrálfunnar hefir hit rússiska-ameríkanska kaupverslunar-félag numit land (18,000 f. m. á stærd med 6000 innbúum) og reist 4 kauptún, hvorra mest er býr sá, er Kevsgeren heitir, vid einsuefnda á; þaradauki hefir þat giort þar 10 varnarvirki; en litt skeytir þat um onnr not edr giædi nýlenda þessara, enn gráskinnin.

Arit 1807 lagdi téd félag undir sig eyland allmikit í enum ockotska hafsbotni vestanverdum, framm undan Amurfliótsmynni, er Sachalin edr Sagalia heitir, búa þar Tartarar hid nyrdra, en Japanesar hit sydra og hafa þeir hvorutveggiu stæmt á brott smáþiód

þá, er Ainos heitir, sem er einkar góðlynd og meinlaus. Sundit milli eyar þessarar og meginlands segia menn sé óvært.

Með því hit vidlenda Rússaveldi liggr bædi undir ennm temprada og kalda himinvegi, er þat audrádit, at ýmisligt er þar loptslag og vedurátt, og hafa menn þat fyrir satt, at meira sé afl frosta í jafnnordlægum løndum hit eystra, enn í vestrløndum þess. Rússar, er ritat hafa um landaskipun, skipta ríki þessi í 4 svædi eptir mismun loptslags og vedra: nl. a. hit sudlæga (frá 43° til 50°); þar er skammr vetr og blidr og hlý sumur. Þar vaxa vínber og melónur sjálfkrafa; einnin þrífast þar úlfaldar. b. hit midlendska (frá 50° til 57°), þar er frióssemi gnægust, landskostir bestir og jardvegr mest yrktr í øllu Rússaveldi. c. hit nordlæga (frá 57° til 67°), þar eru vetrarnaudir miklar, frost svo biturt á vetrum, at ástundum frýs þar qvikasilfr, og d. hit nordasta (arktiske) edr allr jadar ríkisins, er liggr fyrir nordan hiólgaddshring enn nyrdri (frá 67° til 78°); þar er afl kulda og frosta svo geysiligt, at hvergi er jafnmikit á þeim hluta heimskringlunnar, er menn kunnat hafa og hvar mannfólkit byggir. Lengd dægra í Rússlandi er miøg margbreytt, sem líkligt er; lengstr dagr í Astrakan er 15 stundir, í Kóla 2 mánudir og á nýu Zemliu, 3 mánudir. Þar upplýsir nordrliósit lángar vetrar nætur.

Málmaríkit í Rússlandi er einkar audugt; finnst þar gull vid Katrínarborg, silfr í ennm

kolyvanſku fiöllum, kopar í Ural- og Altai-fiall-görðum og ógrynni jarns, ſamt qvikaſilfr, arſ-enik, zink, álún og ſalt, er menn bæði grafa úr námum og brenna af ſalt-vötnum og kéldum (árl. nærhæfis 10 milliónir vætta), ſaltpetr, brenni-ſteinn, ſteinkol, marmari, krít og naphta við hinn Kaſpiſka-ſió, ýmſir gimſteinar og mar-inglas á Solovetskoi og ſl. Hvervetna (man norðaſt) vaxa allskonar korntegundir, einkum í Liflandi og mittlands, ógrynni hörs og hamps; þaðan flytſt og timbr, tiara, bik, terpentína, pottaſka og tóbak frá Ukræne; ſuðurlanda ávextir vín, olía og bómull frá Georgia, Tauria og Aſtrakan; mikill gnægð læknínga- og litunar-jurta, t. d. rhabarbar, ſaffran, krap o. ſ. fr. Heſtar eru þar fleiri enn í nokkru öðru landi í heimi; í Ukræne er heſtaeldi mikit; hirðara-þióðir í Suðr-Rúſslandi hafa ſtóð mörg, á þar einn ríkr bóndi meðal Kalmúkka 3 til 4000 heſta, en ſialdgiæf er ſú fátækt eins bónda, at færri eigi enn 50 og eru þeir þióðum þeſsum eins þarfir og til ſömu nota og hreindýr eru Lapplendíngum. Í Sýſlu eru heſtar minſtir í Rúſsaveldi. Villiheſtar gánga á heiðunum í Suðr-Rúſslandi. Margr er þar nautpen-íngr, en beſtr er hann í Volhynia og Podolia. Sauðfé er þar afarmargt, einkum eru hirðara-þióðir af því auðugar (60 milliónir). Þar er og villifé (Argali, Mufflon) ſauðfé með ſeiti-rófur, tamdar og villi-geitr (Bezóargeitin) villi-naut, tamdir aſnar á Tauria, villiaſnar í Mong-ólínu og við hinn kaſpiſka-ſió; úlfaldar, hreindýr,

bædi tamdir og villir hit nyrdra, hundar, af hværium menn telia 15 kyn edr tegundir og eru þeir ýmsum þiódum þar en þørfustu heimdýr. Glepsandi villidýr eru þar: birnir, úlfar, hýænar, skakalar og fl. dýr þau, hværra skinn er dýrmætr kaupeyrir, eru þar bædi refar (svartir, móraudir, bláleitir og hvitir), otrar, maurdirnir, savalir, hermelinar, bifrar og eikornar; skinn þessara dýra kalla menn grávørn edr gráskinn, hirtir, antilopar, harir, moskusdýr, vindsvín og fl. Allmikill er þar fiskiafli bædi í Eystra-Salti og Svartahafi; en í Isa- og Kyrra-hafi fánga menn hvali, rostunga, sælión, sækálfa og seli bædi i útsæum og enu mikln støduvøtnum, í hværium er ønnr veidi mikil, samt í fliótum og stórelfum, veidist einkum staldgiæst fiskakyn, er beluga kallast og styrian, tilreida menn af sundmaga hennar og hrognum sundmagalím og kaviar.

Med því Land þetta er svo geysimikit at vídáttu og í því búa margar þiódir, sem eru lítt sidadar og laust bundnar vid almennar reglugiørdir, er þat el í lófa lagit vendiliga at skora á, hværsu margt sé mannfolkit í Russaveldi; en þat hafa menn fyrir satt at ei sé þat færra, enn hérumbil 45 millionir, nl. 37 mill. í Evropa og 8 í Asia. Í Russaveldi eru margskonar þiódir og ei færri en 100 at tølu, eru þær margar undarligar og af ymsum ættstofnum komnar; medal hværra menn telia: a. ena slavisku þiód, af henni eru Rússar siálfir (stóru Rússar) og Kósakkar (litlu Rússar)

komnir, samt Pólakkar. b. hin finnska þióð, hennar afkomendur eru enir eglnligu Finnar, Lappar, Eystir, Lifflendingar og Lettar, sem eru blandingr af báðum þióðum, samt Permiar (Biarmar) í Perm, Mordvinar, sem eru deildir í 3 ættboga: Moskanar, Ersanar og Karatævar í Ufa; Surjenar og Vogular í Perm og Tóbólsk; Votjekar og Zeremissar í Ufa, Zuvaskar í Ufa og Tóbólsk, Ostiakar (Uschtiæk, á tartarisku: framandi) í Tóbolsk; þeir eru greindir í 3 ættbálka og eru þeir obisku þeirra merkastir. c. Tartarar við Kákasusfiöll og Ob, þeirra ættmenn eru Baskirar í Ufa og Perm, Kirgisar, mitlands Jakútar í Irkusk, Turkomenn, Zerkassar, Georgiar, Bukarar í Tóbolsk og Irkutsk, Meszerjekar í Ufa, Kirgiskæsakkar og Televtar edr enu hvitu Kalmúkkar í Kolyvan. d. en mongólska þióð, til hennar telia ýmsar þióðir ættir, t. d. enir eiginnligu Mongólar, af hverium eru 7 ættbogar í Irkutsk, Kalmúkkar, er skiptast í 4 hofudættir: Kostótar, Sóangarar, Derbetar og Torgotar, er allar búa á heidilsdunum við Volga, Búratar eru heidingiar í Irkutsk fyrir sunnan Bækalsió e. enar kásasisku þióðir: Zerkassar, Georgiar í Tiflis og Astrakan, Karakalpakar, Aralar, Turkestanar og Lesghir. f. enar mandskúrisku þióðir: Túngúsar í Austr-Siberia, þeir deilast í Skóga- og Heida-Túngúsa og þeir fyrri skiptast aptr í 4 ættqvíslir, er kéndir eru við hesta-, hreina-, fiska- og hunda-, eptir iðn hvors þeirra og afnotkun téðra dýra; ættfólk

þessara eru Lamutar vid hinn Ockotska hafsbotn. g. hin samojedska þióð (Smámeyalendingar), er byggia nordr=jadar Rússaveldis fyrir austan Sandvík og í jarlsdæmunum Tóbolsk og Tomsk; kallast sú þióð ýmsum nøfnum, t. d. Sojetar, Túbinzar, Koibalar og Karakassar, og h. þióðir þær, hvorra uppháf og ættarstofn menn ei giørla þekkia; til þess má telia Jukagira í Irkutsk nordast, Zakska austar, vid Beringsund, Korjakar nordr af ennm Ockotska hafsbotni, edr vid hinn penskinkiska fiørd Olutorar austar, Kamskadalir, Kúrilir og Alevtar, hverutveggu eyamenn. Auk þessara þióda, er nú eru taldar og sem mæla yfir 40 túngur hafast vid Rússlandi margir, er flutst hafa þángat bædi úr ødrum lø dum í Evropu og Asia, t. d. þióðverskir vid Eystra-Salt, Frænkismenn, Velskir, Enskir, Grykkir, Albanesar, Gydingar, Zigeunar o. s. fr. Annvirki Rússlands innbúa er margskonar, sem nærri má géta, hvar svo margbreyttir eru atvinnu-útvegir; má þarámedal sérílagi telia: veidiskab á landi og løg og fiskiafla, med því ýmsar þióðir lifa á þessu einúngis, qvikfiárrækt, einkum hit sydra, akuryrkiu, gardarækt, vínyrkiu, samt margskonar handidnir í afarmørgum og margsháttudum verkstødum, námur og bergverk, kaupverslun og skipaferdir.

Fáar vóru mentir og handidnir Rússa fyri daga Peturs hins mikla; má því segia, at hann hafi fyrstr manna lagt grundvøllinn til kunnáttu þeirra og handlægnis til at tilreida margbreytt verkefni lands þessa og sett allmarga

verkstadi á stofu, hverja Katrín 2r jók, svo at þrefaldir vóru þeir at tölu þá hún andadist; en nú á dögum standa þeir med mestum blóma. Í ríkinu telia menn nú 181 klæda-vefstadi, sem þó eru ei einhlýtir landsmönnum til fatnadar, 150 silki-vefstadi, einkum í Moskó og Petursborg, 1348 ledur- og skinna-makara-verkstadi, og er þat einhver hin ardsamasta handidn á Rússlandi. Þar tilreida landsmenn hit nafnkénda rússledr (Juster ɔ: par), hit besta kemr frá Musk; saffianskinn, einkum raudt og gult, í Astrakan, Kasan og Tauria; kardúanskinn í Petursborg, en gráskinn tilreidast mest í Túla; 295 bómullar- og 185 lérepta-vefstadir, og eptir þeim eru þar verkstadir afarmargir og smidiur, í hverium verkefni þau, er öll 3 náttúru-ríki erlátliga fá Rússum í hendr, tilreidast í ýmisligt vörusmídi og kaupeyrir. A seinni tídum hafa bergverk og námur aukist mjög í landi þessu og eru þau annattveggia eign keisara edr stóraudugra manna, er lúka mega tíund í keisaragard af ábatanum. Frá námunum ímillum Onega og Ladóga flytst ógrynni jarns og kopars (eyrs) til ýmsra útlanda; þó taka bergverkinn í enu úralsku fiallbygdum og í Siberia þessum framm, med því þau eru dýrmætari og einkar vel stundut. Alleina í Petursborg eru gull- og silfrpeningar myntadir, en eyrpeningar eru slegnir á 7 stödum, af hverium Katrinarborg er hinn merkasti.

Mikil og ardsöm er kaupverslun í Rússaveldi bædi til lands og siájar. Fyrir verslun

innanríkis er vegr greiddr á hvísann hátt, tálma henni hverki tollar þúngir né aðrar álögr; létta þar mikil sköduvötn, grafin síki, greiðfærir þjóðvegir, og skipfærar elfr flutnínga kaupeyris um land alt og ei telia menn færri byrðínga á Volgu, enn 5000 og eru þeir allir haffærir, samt fiölmennar kaupstefnr og sleðafæri á vetrum. Rússar eiga einnin kaup mikil við aðrar þióðir t. d. Kínamenn, Persa, Bukkara, Ermlendínga, Tyrkia, Gallizíumenn, Prússa, Slesínga og Saxa. Þeir hafast og miög við í kaupferðum um Eystra-Salt, til kaupstaða umhverfis þat, Svartahaf, enn Kaspiska sió, hit Kyrra haf og Vandvík, þó sækia þángat mest útlendskir kaupmenn; eingin þióð í heimi á svo mikilvæg kaup við Rússa sem Enskir. Utfærslu kaupeyrir Rússa er sérílagi: allskonar grávara, rússledr, saffian, segldúkr, lerepti (einkum gróft), hampr, hör, bastmottr, skipsfestar edr kaðlar, korn, tólkr, vax, sápa, kérti, járn, kopar, eyr, maríngler, viðr, tiara, bik, pottaska, lýsi, fiður o. s. frv.; en af öðrum löndum og heimsálfum kaupa Rússar: nýlendu- og Kínamanna varníng, suðurlanda-ávexti, krydd, salt, álún, steinkol, jarnsmíði, gler, porcellan, brennuvín o. s. frv.

Trú sú, sem í lög er leidd í Rússlandi og sem einvaldi Rússa er skyldr at játa, er hinn grícki kristinndómr; þá trú játa allir Rússar og Kósakkar. Aðr enn Pétur hinn mikli kom til ríkis í Rússlandi, rédi höfuðfaðir edr Patriarki öllum kénnidómi; en Pétur

afmádi embætti þetta og setti 1719 í stad þess rád nokkurt, er kallast: hin helga stiórnandi Synódus edr kénnimanna rád, og sitia í því bædi andligir og veraldligir höfdingiar og skyldi þat ávalt haldast í Petursborg; þess bodi og banni mega 4 höfudstóla-biskupar (Metropoliter) hlýda, 11 erkibiskupar og 19 biskupar, mega þeir allir hverki þýdast ástir qvenna né giptast láta. Í ríkinu eru 554 múnka- og nunnu-klaustr, sem öll eru helgut Sti. Blasius; ábótarnir í Rússlandi kallast Arkimandritar. Sídan 1652 hefir trúmanna-félag nokkurt verit í Rússaveldi, er kallast Roskolnikar (enir frá-föllnu), en siálfir kalla þeir sig Starowiertzy (ena gömlu trúmenn).

Athugagrein. Med því Rússaveldis innbúar eru margbreyttir at uppruna og sidum, eru og trúarbrögd þeirra ýmislig og meina Rússar engum þar at búa, hvoria trú sem hefir. Lútheranar (1,400,000) byggia löndinn vid Eystra-Salt, Kaþólskir í Pólínalandi og hafa þeir erkibiskup, Reformeradir, Hernhútíngar, Mennonitar, Armeniar, Júdar (yfir 500,000), Múhametanir (3 milliónir med 2 múskum), Lamaiar, hvorra höfudprestr kallast Kutuchta, og Heidíngiar, prestar þeirra kallast Schamanar. Jesuitar fengu aðsvarf í Rússlandi, þá þeir vóru útlægir giördir úr ödrum Evrópu löndum, en 1815 var þeim bannadr bústadr í bádum höfudborgum ríkisins.

Í landi svo vídlendu og skipudu svo fiölskyldum og margshátttar þiódum, er mæla ýmsar og ólíkar túngr, má nærri géta, at margar hafi torfærur og meinbugir þeim um sætr vafist, er leidt hafa viliat Rússa frá myrkum villustigum,

er þeirre ikudu á lengi framm eptir öldum, á þiód vegu mannvits og kunnáttu. Petur hinn mikli hóf fyrstr manna hit mikla þrekvirki at sida Rússland og vard honum allmikit ágengt; má því þat med sanni segia, at hann í ýmsu tilliti umskapadi Rússaveldi. Katrín 2r giordi og mikit at verkum; en einkum hefir keisari sá, er nú ríkir, lagt kapp á at mentir og vísindi yrdu idkut þar og úrbreiddust sem í ödrum löndum; hefir hann því aukit miög tölu ýmsra skóla, og sett einn ríkis-fulltrúa, er hafa skal á hendi umsión upplýsingar þiódarinnar, og er keisarinn manna örastr af sé vid þvílíkar stiptanir. Í ríkinu eru mentunar-stiptanir med ferföldum hætti, ul. a. **sóknarskólar**, er prestar og adalsmenn fyrirstanda; þar nema úngmenni lestr, kristinn frædi, skrift og reikníng. b. **kredsskólar**, einn i hvörium kredsstad. c. **jarlsdæmis-skólar** edr háskólar, einn í hvörium höfudstad jarlsdæmanna. d. **þiódskólar**, sem eru 7 at töln og skal fleiri brádum á stófn setia, t. d. í Tóbolsk, Ustíng-Veliki og Jarosleif o. v. Auk þessa eru þar stolmennar mentastiptanir bædi fyrir rússisk og grísk úngmenni, er gioraft skulu hersforíngiar á landi eda herskipum; skólar fyri farmenn, og idkendur bergverka-kunnáttu, kaupverslunar, læknisfrædis, akryrkiu, bustiórnar og fagurra lista, er Katrín 2 ann miög og stiptadi því listaskóla 1764 og setti þar kennara í hvörri mentagrein. En þótt mikit sé atgiordt, eru þó í landi þessu allmargar þiódir og mikill fioldi, er ráfar á villustigum

er fráhalla sidligum þióðgøtum, og með øllu er ósiðaðr og hverki hafa skóla né bera kensl á letrgiorð. Aðrar þióðir eru þær, er litit betr er farit; en má þó ei siðaðar kalla. Sérilagi hafa einvaldar borit enn fyrir uppfræðingu enna egintligu Rússa; en flestum þióðum í Evropu er þó almúginn siðr at sér og fáfróðari, ollir því einkum inngróin hiátrú og fastheldni við forna hætti. Hinn æðri eðr heldri hluta Rússa brestr nú á døgum ei mikit á við velsiðaðar þióðir, í mentun og íþróttum.

Hvat stiórnarform og ríkisráð í Rússaveldi snertir, þá er þar ótakmarkat einvaldsdæmi, er gengr í erfðir svo til konu sem karlsmanns og hefir þar frumburðar-réttr verit løg síðan 1797. Keisara leggia þat løg fyrir, at hann eigi láti ríkit skiptast ímillum fleiri høfðíngia, at hann ei má jafnframt stiórna øðru landi og at hann játi grískan kristinndóm. Til ráðaneytis sér hefir keisari ráð þat, er kallast hit heimugliga ríkisráð. Hit æðsta stiórnarráð, er hefir innanríkis málefnum at gégna, kallast øldúngaráð (Senat), í því eru 87 meðlimir og sitr þriðiúngr þeirra í Móskó, en hinir 2 hlutir í Petursborg; allstaðan má þaðan skirskota málum undir keisarans úrskurð. Atta ráðgiafar gánga honum til handa í ríkisstiórninni og hefir hvør þeirra fyrir sig sin størf og sýslr sem í øðrum løndum. Fyrrum køllðu Rússar einvalda sína Storfursta; seinna lét Ivan Vasilievitsk sig Czar (konúng) kalla, og héldst þat við uns Petur hinn mikli, at lok-

inni ſtyriold vid Sóla, tók fyrſtr keiſara-nafn og hafa eptirmenn hans til þeſsa dags þá nafnbót haſt. Titill keiſara er: Keiſari og einvaldr (Selvhersker) allra Rúſsa; þaradauki hefir hann annan titil miklu lengri, í hvorium eru upptalinn oll lond hans. Keiſara ſynir og dætr kalla menn Stórfurſta og Stórfurſtinnr; keiſari ſá er nú rædr fyrir ríki þeſsu heitir Alexander hinn 1ſti, ſon Páls keiſara, fæddr 23 Decbr. 1777 og kom til ríkis 24 Marts 1801. Skialdarmerki Rúſsaveldis er ſvart orn, tvíhofdut, og horfa nefinn í ſina átt hvort, med þrefaldri kórónu, og heldr hún á veldis ſpiru og ríkisepli í klónum. Á bríngu hennar gétr at líta kerkuml Moſkóar og umhverfis þat 6 onnr: Aſtrakans, Siberiu, Nýagards, Kaſans, Kievs og Bladimirs.

Riddara-ordur eru 6 í Rúſslandi: a. Andreas-ordan (hit bláa band), ſtiptud af Petri hinum mikla, Rúſslands arnadardyrdíng til heidurs 1689. b. Katrínar-ordan, ſtiptud 1714 af Petri hinum mikla Katrínu drottníngu ſinni til heidurs; þat bera hefdarkonur einar, í dokkraudu bandi. c. Alexander Nevſty-ordan (hit rauda band), ſtiptud af Petri mikla d. St. Georgs-ordan, fyrir hermenn. e. St. Bladimirs-ordan; heidursteiknit er borit í ſvart- og raud-rondóttu bandi. Bádar þeſsar ordur ſtiptadi Katrín 2r. f. St. Onnu-ordan, ſtiptud af Carl Fridrik á Holſtenlandi konu ſinni Onnu, dóttr Peturs ihins mikla, til æru; ſídan var ordan innfærd í Rúſslandi af Petri 3dia og Páli 1ſta.

Adalſtéttinn í Rúſslandi er greind í 6 flokka og er einkarétti þeirra ſamr; Furſta-

flokkrinn er þeirra fiolmennastr. Borgarastettinni er skipt í 5 flokka, og er hún stétta fámennust at tiltölu. Bændr eru þar ófrjálsir edr ánaudigir; skiptast þeir í krónubændr, bergverksbændr og ódalsbændr, má alla þessa selia annattveggia sérilagi edr ásamt fasteignunum; til eru þar og bændr þeir, er eigi má selia utan ásamt ábýlisjördum þeirra og kallast þeir ætthagabændr (Stavnsbönder), med því þeir ei mega flytiast úr ætthögum edr fædingarstödum; þó eru þar nokkrir bændr, er bædi eiga siálfa sig og eignadóma (Odnodvorzii); friálsir landbúar eru Tartarar, Kósakkar og útlendskir Nýlendumenn. Á seinni tídum hefir Rússakeisari látit sér annt vera at fría bændr af þrældomi þessum og 1816 urdu allir Eystir friálsir.

Landher Rússlands keisara er afarmikill og herdtr í herfornm og leidángrum; telia menn þar 500,000 vígra manna, auk Kósakka, Kalmúkka, Baskira (100,000) og landvarnarlids, er grípr til vopna, þá ófridr er, 600,000 at tölu. Herskipafloti hans er og allmikill og er hann deildr á 5 stadi, nl. í Eystra-Salti, Sandvík, í Svartahafi, enum Kaspiska-sæ og enu Kyrra hafi, og er hann at tölu 450 stór og smá herskip, medal hverra má telia 54 línuskip, 18 fregöttr, 67 minni herskip, samt 25 fliótandi skansar, 280 galeidr og kanónubátar; en hit samtrádna siólid er 30,000. Giörvallr skipastóll Rússa er greindr í 3 flokka, er kéndir eru vid hit hvíta, bláa og rauda flagg.

Rikis inngiöld þar eru hérumbil 280 milli-

önir rúbla og útgioldinn námunda eins mikil og upphæd. Utlendum þiódum skuldar rikit yfir 200 milliónir; en af pappírspeníngum er andvirdi 570 millióna á gángi innanríkis.

Med því at svo margar og margbreyttar eru þiódir þær, er byggia hit vídlenda Rússa-veldi, þá skýtst miøg í tvø horn um voxt þeirra og líkama løgun, mentun og gáfnalag, lund-erni og háttsemi þeirra. Vexti og útliti Rússa, (sem eru fyrir øllum ødrum þiódum þar, at manntali og forrádum), lýsa fródir menn á þenna hátt: Rússar eru medalmenn vexti, hraustir og heilsugódir og allvel limadir; smá-mynntir og varaþunnir, tannhvítir og eygdir litt og ennislitlir, skeggiadir miøg og eru fleiri jarpir á hár og raudbirknir, enn svarthærdir edr hára-biartir, nasbrettir og heldr neflitlir. Konr eru þar brádgiørari, en siá og fyrr ábak vænleik sinum, enn í ødrum jafnkøldum løndum. Skapferlis einkunn þeirra er: áhyggiuleysi og ánægia med óblíd kiør, hlýdni og trúlyndi vid yfirbodara, þolgiædi og gladværd. Margir bregda þeim um, at þeir séu drykkfeldir, litt tilsinn-íngarsamir og ærit grimmúdugir, þrællyndadir og grædskufullir; þó mun þetta helst eiga heima hiá fólki af lægstu stigum. Rússar eru hraustir í orrustum og hardfengir, þeir þola vel vos og eliun og standa hverium manni fastara fyrir í fylkíngu og eru traudir til at hørfa á bak aptr; svo eru þeir ógveifursamir í kulda, at þeir gánga úr gagnheitum badstofum og bød-um út í friósandi vedr litt klæddir og verdr

þeim ei meint af. Rússar byggia á lands-bygdinni almennt hús og bæi af timbri einu og giöra þeir veggi á þann hátt, at þeir grópa saman biálkana og leggia hvørn á annan ofan; halda þeir húsavid sölum á kaupstefnum, at öllu tegldum og tilbúnum, svo ei þarf kaup-andi annat, enn reisa húsit, þá heim hefir flutt-ann vidinn.

Pólínalands innbúar eda Pólakkar líkiast miøg Rússum í mørgum hlutum; þó eru þeir stærri vexti, diarfari og starfsamari, vingiarn-ligri og mánnúdligri. Þeir eru flestum mønn-um hálsdigri; miúkari eru þeir og fiørugri í øllum vidvikum og látædi, enn Rússar, en ei svo hardir né heilsugódir. Lettar, eru smámenni og á medal qvenna þeirra eru margar svo litlar, at dyrgiur eda dverginnr mætti kalla. Finnar eru medalmenn vexti og hraustir, flatleitir og kinnfisk-asognir, mó-gráeygdir, litt skeggiadir og raud-bleikir á hár og móleitir á hørund. Tartarar þeir, sem hingattil hafa haldit ódvverdligu vaxt-arlagi og útliti, eru magrir og midlúngi háir vexti og allvel limadir, munnlitlir, smáeygir og móeygir og skolbrúnir á hár. Samojedar edr innbúar Smámeyalands eru manna minstir vexti (sialdan yfir 4 til 5 fóta á hæd), en alldigrir, lágbeinóttir og hofudstórir, stór-mynntir og eyrna-stórir, varaþunnir og svarteygdir, flatnesiadir og skagar nedri hluti ásiónunnar all-miøg framm, hárabrúnir og striadir miøg, og skolbrúnir á hørund.

---

# V. Konúngsríkit Pólinaland edr Púlinaland (Polen).

Svo kalla menn nú á dögum mikinn hluta hertugadæmis þess, er Varská hét, og tilskipat var í fridarsamningi þeim, er giördr var í Tilsit 1807. Nokkurn part þess fengu Prúsar 1813, en hinn hlutan skeyttu einvaldar vid Rúsaveldi og kölludu konúngsríki. Þat liggr fra 35° 41′ til 42° í austr og vestr, og ímillum 50° og 55° í út og sudr; fyrir nordan þat eru Rúsalönd og Prúsaland, fyrir austan þat Rúsland; en hit sydra nær þat til Gallizia og hit vestra til Slesíu og stórhertugadæmis þess, er Pósen kallast. Þat er tvöfaldt vid Danmörku at stærd nl. hérumbil 2,200 ferh. milr; en hit forna Pólinaland var 13,000 ferh. m. ádr þvi var briálat og skipt.

Mestr hluti lands þessa er flatlendr og einka frióssamr; sumstadar er þat agafullt og votlendt; hit sydra eru fiöll hér og hvar og eru þau lág; þar gengr fiallhryggr af Karpatafiöllum inni landit. Vída eru þar vídlendar markir og skógar miklir og allmörg skipsær fiót falla um landit, medal hvorra hér má géta

þeßara: 1. Weikßel (Veichsel; Vistula), þat er mikit vatnsfall og eru upptök þeßs í Slesíu sunnanverdri, vid vestri enda Karpatafialla; þat rennr sídan framm hiá Kraká, hvar þat verdr skipsært og sídan í landnordr framm hiá Sandomir og Varská, svo í útnordr átt og kemr til siáfar úti Eystra-Salt, 1 mílu fyrir austan Dansvík, þar sem heitir Weikßelsmynni; affallar 2 renna úr á þeßari í landnordr í hinn Frißkafiord, er Gamalveikßel og Nógat kallast. Í Weikßel rennr áin Bug úr austri, Pelica og Dreventz. 2. Warta (Varta), kemr úr somu átt, frá Gallizíu-landamæri, en fellr meira vestr á vid þá nordr eptir dregr, hvar hún rennr í á þá, er 3. Netze kallast, hún kemr úr Goplsvatni og rennr í vestr framm hiá Brombergi í Oddar-á vid Kustrín; og 4. Rímen edr Memel (Rubo), þat vatnsfall kémr úr austri frá Rúslandi og fellr þat nokkra leid á takmorkum landa þeßara, framm hiá Tilsit, úti hinn Kúriska fiord.

Landit er greint í 8 fylki (Woiwodskaber), hvør aptr skiptast í sýslur (Kredse) og sveitir. Fylkinn eru kénd vid landsálfr og stadi þeßa: 1. Masovia; 2. Kraká; 3. Sandomir; 4. Kalisk; 5. Lublin; 6. Plozk; 7. Pódlachia (landsálfa); 8. Augustovo (stadr).

Merkustu stadir þar eru:

Varská (Warschau, Warszawa; Varsovia), þat er hofudborg í landi þessu og heimili stiórnarrádsins; hún stendr hérumbil midtlands vid Weiksel vestanverdt og er hún allmikil, en ekki fogr borg; med því at helmingi fleiri eru þar timburhús, þakinn hálmi, enn steinhús; þó eru þar ýmsar skrautligar byggingar og hofgardar, samt, vid eitt af borgarhlidum, líkan Sigismunds kóngs af kopar giordt og gyldt, er stendr á 26 fóta háum undirstofni af marmara; þar eru og 115 adalsmanna gardar, 23 klaustr, 9 kyrkiur, þiódskóli, 6 spítalar og 3 lystispilahús. Auk 10,000 vígra manna, sem þar eru til varnar settir, eru bæarmenn 76,000 at tolu, medal hvorra menn telia 20,000 Júda. Medal ýmsra smástada í nánd vid borg þessa má hér géta stadar þess fyrir handan ána, er Praga heitir med 7000 innbúum; þar stód bardagi mikill þann 18da, 19da og 20ta Julii 1656. Þar er brú yfir ána. Vola er þorp nokkurt á somu landsálfu; þar kusu fyrrum Pólakkar kónga sína. Kalisch (Calisium), er allmikill stadr vid Prosná, í frióssomum dal; umhverfis hann eru múrveggir og turnar og í honum 8000 innbúar. Lublin, fyrir sunnan Varská, er allmikill stadr, umhverfis hann eru múrveggir

og grafinn siki fyrir utan; þar eru kaupstefnr 3 á ári hverin, og varir hver í 1 mánud, sækia þángat kaupmenn frá Þýdskalandi, Rúslandi, Tyrkiaveldi, Grykklandi og Ermlandi; þar eru 10,000 innbúar. Auk þessara eru þar minni stadir, t. d.: Pinczof, Radom, Sandomir (Sedomir), Kolo og Sierads, bádir vid Varta, Zamosz, festing, Plozk vid Veiksel, Pultusk, Ostrolenka, Siedlce, í Podlachia, Suvalki Czestochova vid Vartá; á fiallinu Jasnogóra, er víggirt klaustr, helgat enni helgu Páls-ordu; þángat giøraſt pílagrímsferdir.

Sydst í Pólinaland er fristadr og friland lítit, er Kraká (Krakau) heitir. Landit er nær 20 f. m. at stærd og hefir 61,000 innbúa. Árit 1815 giørdu einvaldar Evrópu þá skipan, at þat skyldi eingum konúngi þióna, eda skattgildt vera, og at þat skyldi hafa hald og traust af Rússum, Prussum og Austr-riki. Stiórnarformit er þar sem í ødrum frílandum, at valdit er í hendum alþýdu, hverrar eyrindsrekar setia løg, en øldúngarád nokkut giætir, at þeim sé hlýdt; í rádi þessu eru 12 rádherrar og er einn þeirra forseti at nafnbót. Landsmenn skulu ávalt vera óhlutsamir um annara þióda deilr og hverigum hádir; ei heldr má þar útlendu lidi nidrskipa. Káthólskr krist-

inubómr er þar í løg seiddr; þó mega aðrir trúmenn þar friðland hafa og sama einkarétt. Krakå (Carodunum), er mikil borg með 27,000 innbúum við Weiksel; þat var fyrr. høfuðstaðr í enu forna Pólínalandi og síðan í Vestr=Galiziu; þar er gamalt slot með múrveggium og turnum umhverfis; í því er stólskyrkia og eru í henni 50 ølturu, 20 kapellr og legstaðir enna fornu Pólínalands kónga; þaraðauki eru þar 72 kyrkiur, kaþólskr þióðskóli, bókastóll, urtagarðr, stiørnuturn og heimili biskups, sem er hertugi af Severia at nafnbót.

Í Pólínalandi er heilnæm veðurátt og frødug og hlý sumr, en vetr kaldr einkum hit nyrðra. Auk arðsamra enkar=, furu= og birkiskóga, samt ágiætra og allskonar sáðlanda, finna menn þar silfr, kopar, járn, blý, steinkol, brennustein, saltpetr, kalk, salt o. s. fr. Þar vex og vín, hampr, hør, humall og tóbak. Afarmargr er þar qvikfénaðr; glepsandi dýr, t. d. birnir, úlfar, losßar og villikéttir; þar eru og hermelinar, merðir, otrar, bifrar; bíflugnarækt er þar og toluverð.

Innbúar lands þessa eru hérumbil 2,800,000 at tølu og kalla menn þá Pólakka; þeir eru komnir af enum slavíska ættstofni; þar búa einnin Þýðskir, Littáir, Grykkir, Tartarar og Júðar. Hit pólska túngumál er einna ólíkast þeim túngum, sem komnar eru af enu slavíska máli; þýðska er þar ærit almenn og í ýmsum sveitum látína, og tala hana þar allmargir leikir

menn. Verkstadir og handidnir eru litt uppi í landinu; flytiast því verkefni þau, er menn afla þar, ótilreidd til framandi landa; þó má þar telia fáa lerepta-, klæda- og silki-vefstadi, samt gráskinnatilreidslu-, pottoskubrenslu-stadi og brennu-vínsbrugg. Prældómr og ófrelsi bænda tálmádi um lánga æfi idkun lista og handidna; er nú betri von um framfarir í því efni, þar þeir eru friálsir ordnir og út'endum handverks- og íþrótta-monnum eru heitinn ýmisligr einkaréttr, ef þángat vilji flytiast. Kaupskapr er þar all-mikill og skipaferdir á stórám og fliótum; er þar varníngr tollfrí fyri Rússa og Prússa. Pótt landsmenn ei selji tilreidd giœdi landsins, og þeir kaupi margt dyrfeldt úr odrum lond-um, er þat sogn manna, at Pólakkar engu at sidr vinni á versluninni. Varská og Lublin eru þar kaupstadir bestir. Par er logtekinn hinn kathólski kristinndómr eptir romverskum regl-ugiordum; þó mega onnr trúarbragda félog at friálsu rækia trú sína þar eptir vild. Nefnd nokkr ber umhyggiu fyrir vísinda-idkun og upplysingu og eru þar bædi skólar og háskólar. Stiórn-arformit er takmarkat einvaldsdœmi, er gengr í erfdir og kallar Alexander keisari sig Pólina-lands Czar edr konúng. Rikisráð nokkut hefir ædstu vald á hendi og er hofdingi sá forseti þess, sem er kongl. Statholder at nafnbót. Ann-adhvert ár heya menn alþing, er varir í 30 daga. Tvær eru þar riddara-ordr, nl. Stanis-lás-ordan, endurnýjud 1815 og Hvítu-arn-ar-ordan, endurnýjud 1705 af Augustus 2rum.

Pólínalands landher er 30,000 fótgaungu-lids og 20,000 riddaralids. Ædstr foríngi Pólakka hers er nú Constantin stórfursti, bródr Rússa-keisara.

Skíríngargr. Á forn-öldum var Pólínaland erfdarríki; en eptir fráfall Sigismunds Augusts konúngs (1572) völdu Pólakkar konúnga yfir sig. Vid býinn Vóla framiór konúngs kosníngin og var sá stadr, er menn komu saman, umgirtr med gröfum og girdíngum á alla vegu, og voru á þeim 3 hlid, eitt fyri Stóra Pólínalands-, annat fyrir Litla Pólína-lands- og hit þridia fyri Littávens atqvædi gésandi innbúa. Ei mátti þann til konúngs taka, er ei vildi játa enn kaþólska kristindóm, samqvæmt róm-verskum sidagiördum.

Þá deilr og flokkad-ættir eptir August ens 3ia dauda höfust millum Kaþólskra og Dissidenta, ódu rússiskar, prussiskar og austrríkskar hersveitir inn í Pólínaland og Katrínu 2ari, Fridríki ödrum og Mariu Theresiu kom þat ásamt at brióta mikinn hluta ríkis þessa undir sig 1772, eptir því þau þóttust eiga til þess fornt tilkall, og kastadi hvört þeirra eign sinni á þær landsálfr, er nærst láu ríkinu þeirra. Árit 1795 skiptu Prussar og Rússar nokkrum hluta þess í millum sín, og 1795 deildist loksins þat sem eptir var medal 3ia fyrst tédra ríkia einvalda. Í fridar-samníngnum í Tilsit 1807 var sú skipan giörr at mestr hluti þeirra landsparta, er Prussakonúngi hafdi í skiptum þessum hlotnast skyldi heita hertugadæmi og kennast vid Varská og skyldi Saxalands konúngr þar hafa ædstu mannaforráð.

## VI. Hit prussiska Kóngsríki Prussaland (Prussia, Borussia).

Þessu konúngsríki má skipta í tvo høfuð-parta; nl hinn austlæga, imillum 49° 45′ og 56° nordl. br. og hinn vestlæga, imillum 49° 42′ og 52° 30′ nordl. br.

Austr-hluti Prussaveldi, liggr vid Eystra-Salt sudaustanverdt, fyrir vestan Rússland og Pólinaland, fyrir nordan Austrríkis-lønd, Saxland og hin saxisku Hertugadæmi og fyrir austan Hessen, Brúnsvik, Hansrariki og Meklenborg; en fyrir nordan hinn vestlæga part ríkis þessa liggr Hansrariki og Nidrløndinn, og fyrir austan hann er Hessen og Hansrariki; en fyrir sunnan þat er Frakkland og Nidrløndinn edr Holland fyrir vestan.

Mestr hluti ríkis þessa er flatlendr; en því láglendara er þar, sem nær dregr Eystra-Salti. Vindland edr Pommern er hin lágasta lands-álfa í ríki þessu, og má þar því flædigarda giøra móti fiáfar-ágángi. Eylandit Ry, er hálendast við Eystra-Salt. Í sydri og vestri hluta Slésiulands, sudr-parti Saxlands, í Nidrín og á Vestpali eru lág fiøll og hálsar. Um landit falla almargar ár, er einkum í enu eig-

inliga Prussalandi og Pommern eru afar lygnar, þar hallaudinn er því nær sem enginn; eru þar því allvída stöduvötn, tiarnir, flóar og forædi. Jardvegr er þar einka friófsamr, sérilagi í grend vid árnar. Í Brandínaborg er þará móti jardvegrinn sendinn miög og á ýmsum stödum hulinn reykfaudi; þó er jördin þar vel yrkt og laudit giört byggiligt, med því at landsmenn hafa leidt vatni af mýrum og giördt þar mörg þorp og bæi.

Merkustu fiöll í Prussaveldi eru: a. Sudetafiöll (Sudeterne, Montes sudetici), þau gánga frá landsudri í útnordr og adskilia Slesíuland og Bæheim samt Glatz. Þau skiptast í tvær greinir, nefnil. Kémpubiörg (Kæmpebiergene; Riesengebirge; Asciburgium), þau eru hérumbil 15 mílr á lengd og 3 á breidd, og hin mærisku fiöll, sem eru áföst vid Karpatafiöll. b. Harzfiöll (Harzen; Sylva hercinia), í sudrhluta Hanofra-ríkis og Halberstadar; þat er einstök og frá ödrum fiöllum adskilinn öllumegin og einhver hin merkasta fiallbygd í Þýdskalandi; hún er 16 mílr á lengd, 6 á breidd og 64 ferh. m. á stærd, og skiptist hún eptir afstödunni frá þeim hærsta hnúk, er Blocksbiarg (Brocken; 3,486 fóta á hæd) heitir í Yfirharz, fyrir austan þat, og Undirharz, fyrir vestan þat. Í fiallbygd þessari eru 56 000 innbúar, er at mestu leiti lifa vid námu- og berg-verkinn. c. Vísaráfiöll á Vestpali, lángsetis med Vísará; í þeim er hin svo kallada porta vestphalica; þau

eru áfest vid Teutoborgarskog. d. Vestr-skógsfioll, þeirra hæst er Salsborgarhøfudit (2026 fóta) grein af þeim, er gengr í útsudr i nánd vid Bonn, kallast Siebenbiørg; og e. Hundshryggr (Hundsrück) í Nidrrín, imillum fliótanna Rín og Mósel.

Sá hluti Prusaveldis, er liggr vid Eystra-Salt, er nær 100 mílr á lengd i austr og vestr. Vída eru þar rif mikil, er liggia strand-lengis med landi framm. Rif þat, er Hela edr Hella kallast og gengr í landsudr í haf út, giørir vík þá fyrir nordvestan Dansvik, er Þuþige- edr Dauþks-vik kallast. Þriú svo-kollut høf, sem í raun ré́ttri eru landsævir, med sætu vatni, og allir straumhardir, sameina ósar miklir med Eystra-Salti, og gánga mikil sandrif millum þess og þeirra, sem Þýdskir kalla: Nehrungen, er hafrót í forntíd mun uppskélft hafa. Høf þessi eru: 1. hit kúriska haf nordast, þat er 15 m. á lengd, 4 á breidd og 27 ferh. m. at stærd. Osin vid Memel kalla landsmenn Tief. 2. hit fríska-haf, nokkut sunnar og vestar, þat er 13 m. á lengd, 2½ á breidd. Osin vid Pilá kallast Gatt. 3. Stett-inshafit, er einnin kallast hit fríska haf; þat greinist í hid austlæga (hit stóra) og vest-læga (hit litla) haf, úr því renna 3 ósar. Þadan og austr til svruefnds rifs kølludu forn-menn strøndina Balagards-sídu.

Auk þeirra flióta, er renna um mikinn hluta Þýdskalands og kalla má megin-ár í því þiódlandi, en falla jafnframt um þau lønd, er

heyra til Prussaveldi og liggia innan ens eiginl. Þýðskalands takmarka, sem síðar skal skírt verða, má í Prussaríki þessar ár telia: 1. Veiksel (Weichsel, Vistula), þat er allmikit vatnsfall, er fellr um Pólínaland og Vestr-Prússaland og kémr til siáfar við Dansvík í Eystra-Salt; þat er 100 m. á lengd. 2. Memel (Niemen, Rubo), kémr úr austri frá Rússlandi og fellr í hit Kúriska haf. 3. Pregel, fyrr. Gripsá (Chronus), verðr úr 4 ám og fellr 1 mílr frá Køningsbergi í hit Friska haf; í þat fellr einnin 4. Passarga við Braunsberg. 5. Varta, kémr úr austri, í hana rennr, 6. Netze og renna þær báðar ásamt í vestr, og í, 7. Oddorá (Oderen, Viadrus), er hefir sin upptök í enu austrríkska Slesíulandi, um hvørt endilangt hún rennr í útnorðr framm hiá Rabitor, Kosel, Oppeln, Brig, Breslá, hvar flesta má allstórum skipum á flióti þessu, svo framm hiá Glogá, þá um Brandinaborg, framm hiá Frakkafurðu, Kustrín, skiptist hún þá í tvær høfuðqvíslir skamt frá Garz; hin vestri heldr nafninu, en hin eystri kallast stóra Regelitz, og falla báðar, ei allángt frá Steтin, í hit fyrrtéða Stettins-haf. Pióðá þessi er 100 m. á lengd.

Allvíða eru síki eðr kanalar grafnir í ríki þessu, svo fleyta má skipum frá einu skiplægu flióti til annars, t. d. hin stóra og litla Fridríksgrøf í Austr-Prussalandi, Netze-kanallin, er samtengir Netze og skiplæga á, Brahe at nafni, er rennr í Veiksel,

Fridriks-Vilhiálms kanall, er samtengir Oddorá og ána Spre, Finow-kanall, er sameinar Oddorá og á þá, er Havel heitir, Pláens-kanallinn í millum Saxelfa og Havel; hin stóri høfudkanall, nær 11 mílr á lengd, og Klodnitz-kanallinn í Efra-Slesíuland, 8 m. á lengd, grafinn til at létta flutninga frá námunum.

Í Prússa-ríki eru afarmørg støduvøtn; þó er ekkert þeirra ærit stórt. Alleina í Austr-Prússalandi eru hérumbil 300 støduvøtn, og á Kúrmørk millum 6 og 7 hundrada. Vatna mest er Spirdingsiór, hann er 12 mílr ummáls, Jeserikssiór, Góplsstiór, Ruppinsstiór o. s. fr.

Prússaveldi er, í tilliti til veraldligrar valdstiórnar, greint í 10 landsálfr edr skattland (Provindser), er skiptast í 28 stiórnar-umdæmi (Regjeringsdistrikter) og þau aptr í 300 sýlki (Kredse).

Skattløndum þessum og merkustu stødum í þeim, má svo lýsa:

1. Austr-Prússaland edr Prússaland (Preussen), fyrr. Sámland og Kúrland, nordast; þat er austasti og nordasti hluta ríkisins (704 ferh. m. á stærd); þar er:

Konúngsberg (Königsberg; Regiomontum; 54° 42′ 11″) þat var fyrrum høfudborgin í enu eiginl. Prússalandi; hana bygdu

enir þýdsku riddarar 1255 Vøhelms konúngi Premisláfi 1sta til æru, vid Gripsár-ós; borgin er nær 2 mílr ummáls og skiptist í 3 parta, af hvørium hinn merkasti stendr á eyu í ánni. Í borginni eru 23 kyrkiur, kastali, konúngsgardr med afarháum turni, forn dómkyrkia, þiódskóli og bókasafn, stiørnuturn og ymislig lærdómsfélög. Þessi stadr telst ámedal enna merkustu kauptúna vid Eystra-Salt; þar eru 56,500 innbúar. Þar er hinn nafnfrægi þiódspekíngr Kant fæddr 22 Aprilis 1727 og dáinn 12 Febr. 1804.

Vestar liggr rammliga víggirdtr stadr á andnesi vid Friska-hafs ós sunnanverdan, er Pillá (Pillau; Pillavia heitir; þar er góð høfn (hvar øll skip, er ei mega leggia upp til Konúngsbergs, affermа), vitaeldr og heimili 2,200 innbúa.

Nes þat, er Pillá stendr á, kalla menn fyrir sakir fagurs vídsýnis, velyrktra aldíngarda, ardsams fiskiafla og dýraveida og forkunnarligra lystilunda, ena prussisku Paradís.

Nordast í landinu er Memel (Memelium) á søndum miklum vid ós ens Kúriska-hafs; þar er mikill kaupskapr, heimili 6000 innbúa, kaupmanna-samkunduhús og skipa-bygging.

Í Frúarborg (Frauenburg) vid hit friska haf, stendr dómkyrkia nokkr afarhátt, hvar hinn nafntogadi stiørnuspekíngr Nicolás

Copernicus, er deydi 24 Maji 1543, liggr grafinn en þá er þar því hús at finna, er hann bió í. Við prussisk-Eylá (Gilavia Borussica) stóð mannskiæð orrusta millum Frakka og Rússa, 7da og 8da Febr. 1807. Skamt þaðan er Fridland (Friedland), þar vann Napoleon keisari mikinn sigr á Rússum 14 Juni sama ár. Við ána Tilsit, er hún fellr í Memel, er allmikill kaupstaðr, er Tilsit (Chronopolis) heitir, með 9100 innbúum, þar giörðu Frakka-, Rússa- og Prússa-einvaldar frið sín ámillum þ. 7da og 8da Julii 1807. Sunnar er Insterborg, austar Gumbinn og sunnar Angerborg við Maursió, samt Bránsberg fyrir vestan Eylá.

## 2. Vestr-Prussaland

(Vest-Preussen) fyrrum Ermaland; þat liggr vestar og er 508 ferh. m. at stærð; þar eru þessir staðir: Elbing (Elbinga) fyrr. Ilfing, bygð 1239 við samnefnda á; þar eru 20,000 innbúar. Suðvestar er: Mariuborg (Marienburg; Mariæburgum), í friófsömu héraði við affallan Nogat, yfir hvern liggr 539 fóta laung trébrú; þar eru 7300 innbúar. Í stað þessum, er bygðr var 1302 höfðu herrmeistarar enna þýðsku riddara atsetr sitt og má enn siá eptirstöðvar af hofgarði þeirra. Sunnar er Mariuverdr (Marienverder; Insula Mariana) við Veiksel; þar er hin mesta dómkyrkia í Prussaveldi og heimili 5100 innbúa. Gráðenz (Graudenz); sunnar er við sama fliót, skamt þaðan, er rammligr kastali, er varðist drengiliga 1807; þá Culm (Culmia), skamt

frá Veiksel, og Thorn (Thorunium) vid sömu á austanverda; þar er nafnatogadr háskóli og heimili 3900 innbúa. Þar er hinn fyrrnefndi stiörnuspekingr Nicolás Copernicus fæddr (19da Febr. 1473).

Dansvik (Danzig; Dantiscum, Gedanum), á Veiksels vestri bakka, 1 m. frá Eystra-Salti, er einhver hinn markverkasti kaupstadr vid Eystra-Salti, og hvergi er i Prussaveldi svomikil tilsigling, sem þar. Þar eru 21 kyrkia, 2 háskólar, margir verkstadir og vodvirki og heimili 47,000 innbúa. Stadrinn er umgirdtr med rammligum varnarvirkium öllumeginn; hefir hann og sætt langgiæfum umsátrum og grimmum herhlaupum og ávalt varist vel.

3. Pommern (fyrr. Vindland)

fyrir vestan sidsted land og strandlengis vid Eystra-Salt sunnanverdt. Þat land skiptist fyrr. i Austr- og Vestr-Pommern (Austr- og Vestr-Vindland; Bag- og For-Pommern). Þat land er 582 ferh. m. at stærd; þar eru þessir stadir: fyrir vestan Dansvik er Stolpe, fyrr. Stolps, austastr stada i Austr-Pommern, vid samnefnda á, i hvorrar ós er höfn bæarmanna. Þar smida menn margkonar smidisgripi af rafr. Vestar er Rugenvalde, skamt frá Eystra-Salti, þar dó Eyrikr af Pommern 1459. Sunnar og vestar er Coslin, undir fiallshlíd, 1 milu frá Eystra-Salti, med 3700 innbúum.

Vestar, vid ána Persante, er rammligr kastali, er Colberg heitir, med 7000 innbúum, er vasklıga hafa varist fyrir allmörgum umsetrum og herhlaupum; vid sömu á er litill stadr, er Belgardr heitir, likliga hinn forni Balagardr. I sudr þadan er Stargardr edr Nýi Stargardr vid skiplæga á, er Jna heitir; þar er háskóli og 8500 innbúar. Fyrir vestan Colberg er Cammin (Caminum), þar er dómkyrkia og klaustr fyrir adalsmanna dætr. Stettin (Stettinum) er sunnar; þat er sterkr kastali á vestri bakka Oddor-ár, sem þar skiptist i 4 qvíslir, yfir hveriar liggia brýr, allar samt 759 skref á lengd. Þar eru 2 háskólar, hofgardr, 10 kyrkiur og margskonar verkstadir og vodvirki og likneski Fridriks annars. Þar er og mikill kaupskapr og hérumbil 1000 kaupför heimsækia árliga höfn þessa. Stadarmenn eru 22,000 at tölu, er hafa 160 skip i förum.

I útvestr þadan er Pasevalk, vid ána Ucker, med 4000 innbúum, og i sömu átt þadan Anklam (Anclamum) med 5700 innbúum; þar er mikil kaupverslun.

Eyar þær, er Usedom (Usedomia) 7 ferh. m. og Wollin (Vollinia) austar, $4\frac{1}{2}$ ferh. m. at stærd, liggia millum Eystra-Salts og ens stettinska- edr friska-hafs og skilr þær ós mikill úr því edr sund, er Svínamunni (Svína) kallast, af hveriu stadr nokkr á Usedom austanverdri tekr nafni; þar er gód höfn fyrir stórskip, er mega þar leggia farminn er til Stettin skal flytia. Á sédri eyu er Usedom, med 1100 innbúum. Fyrir nordan Usedom er Svoldr, þar bardist Olafr Tryggvason. Á eyunni Wollin er samnefndr stadr, vid Divenov, med 2400 innbúum. Jóms-

borg, sem er harla nafnkénd í fornsögum, meina margir fródir menn at stadit hafi á Usedom, hvar sumir segia, einnin hinn mikla stad Júlín (Vineta) verit hafa, er á 10 og 11 öld var voldugr verslunarstadr; en Þydskir ritsmídir andmæla því og hafa fyrir satt, at hinn lítli byr, Vollín, á samnefndri eyu, sé bygdr áaurmáli ens forna Júlíns.

Greifsvalde eda Grípsvalde (Gryphisvalda) vid skiplæga á, er Ryck heitir; þar er þiódskóli, stiptadr 1456 og heimili nær 6,000 innbúar. Nordar er:

Stralsund, fyrr. Stræla (Stralsundia), vid sund þat, er Gellen kallast og skilr eyuna Ry og meginlandit; stadr þessi, sem er giorr á gamla vísu og er öllumegin umflotinn, en samtengdr meginlandi med brúm, var sterkr kastali; þar er góð skipalega, skipulig vodvirki og verkstadir og allmikil kaupverslun og 15,000 innbúar. Barth nordar og Volgast, fyrrum Valagust, sunnar, enn Stralsund, eru ei allitlir kaupstadir. Þessir 4 sidsknefndu stadir liggia í þeim hluta lands þessa, er kalladist til 1814 hit svenska Pommern, undir hvært einnin lá, sem nú, allmikil ey í Eystra-Salti, er:

Rugen (Rugia) heitir, fyrr. Ry edr Re; hún er 17 ferh. mílr at stærd og hefir 26,000 innbúa; menn hafa skipt henni í 3 parta, nefnl. ena svo kölludu Ey, skaga þann, er Jasmund kallast, hværn eyd nokkr samtengir med Wittoff, og í skaga þann, er Mønkegut heitir. Eyland þetta er 12 mílr í út og sudr, en 10 í austr og vestr; þat er nær 400 fóta á hæd frá lásléttu, og vída

eru á ströndum þess, er hærstar eru at nordanverdu, sumstadar berir og sumstadar skógivaxnir krítarhnúkar, er hafa ýmisliga lögun tilsýndar. Hærsta leyti á eyunni er Rúgardr, nálægt Bergen; en á Jasmundi er hit svokallada Stubbenkammer harla markverdt; þat er 543 fóta hátt þverguypt krítarberg, og liggr uppá þat tröppugángr med 600 tröppum; efst er hinn svokalladi Konúngsstóll (Königsstuhl). Nordasti höfdi á Vittoff kallast Arcóna (Arkún) (200 fóta hátt krítarbiarg), og er þat undireins nordasti oddi Þýdsklands; þadan má í heidvidri eygia krítarbergin á Møn, 7 milr í útnordr. Ry er einka frióssamt land, en sérílagi er á Vitoff forkunnar mikil kornskéra. Akuryrkia, fiárrækt og fiskiafli eru almennustu atvinnuvegir eyarmanna, sem flestir eru audmenn og gódir búhöldar. Á eyunni midri er merkásti býr, er Bergen heitir, hann stendr svo hátt, at þadan má siá náliga yfir alla eyuna; þar er heimili landsréttardómara og 1500 innbúa. Í nánd vid þorpit, Sagard, á Jasmundi, hafa menn fundit málmdámada heilnæmis uppsprettu. Midal allmargra adalligra stórgarda og jardeigna á eyunni, er Putbus einkar markverdr, hann er samnefndr ættlegg þeim, er á hann og telr sig kominn af höfdingium þeim, er í forntíd höfdu forrád á eyunni. Hedinsey er skamt frá Ry.

Á fyrri öldum bygdi slaviskt ættkvísl edr Vindar eyuna, er leingi héldu vid heidinndóm og vóru illkunnir slóreifarar og skiædir vodagéstir í þeim löndum, er liggia umhverfis Eystra Salt. Múnkar frá Corvey bodudu þar rétta trú (medal þeirra St. Vítus),

fengu ekki afgiordt. Danakónúngar eltu um lánga hríð grátt silfr við ræníngia þessa og 1136 vann Eyrekr Emundr eyuna. 32 árum seinna giördi Valdemar hinn 1sti út leiðángr þángat, lagði undir sig eyuna, braut í grunn Arcóna, höfuðborg eyarmanna og heimili afguðs þeirra, er Svantevit hét, og kristnaði landit, var þá nokkr hluti eyunnar lagðr undir Hróarskéldu biskupsstól. Seinna bruttu Vindlands hertugar hana undir sig en tóku hana þó 1359 at léni af danakóngi, uns Eyrekr af Pommern gaf hana 1438 ættmanni sínum, hertuga nokkrum pommerskum. Síðan vóru ymist Dana- eðr Svía konúngar eignarmenn eyunar uns danakonúngr hlaut hana ásamt Austr-Pommern 1814, er affaladi sér þau Prússakonúngi í makaskiptum fyrir Láenborg, sem fyrr segir.

## 4. Posen.

Þat land liggr fyrir sunnan Vestr-Prússaland og er þat nokkr hluti ens forna Pólínalands, þat er 594 f. m. at stærð. Þar eru þessir staðir:

Posen (á pólsku: Posnan; Posnium) mittlands og við Warta vestanverða. Umhverfis borg þessa liggia tvøfaldir virkisgarðar og sikitvø; þar er slot á ey í téðri á, 24 kyrkiur, 13 klaustr, 1 háskóli og 25,000 innbúar, ásamt holdaliði og 4500 Júðum og biskupsstóll, sá var hinn elðsti í Pólínalandi, er Otto keisari Isti með því nafni, stofnadi. Í ondverdu var þat biskupsdæmi Magdaborgar erkibiskupsstóli undirgéfit, en var seinna lagt undir hinn gnesiska erkibiskupsstól. Austar er Gnesen (Gnesna), fyrr. höfuðborg í enu stóra Pólínalandi, nú heimili kathólsks erkibiskups og höfuðstólsbiskupar

réttar og 4500 innbúa; stadrinn stendr á slétt-lendi millum stöduvatna. Erkibiskupsdæmit, er ként er vid stad þenna, stiptadi keisari Otto hinn 3die árit 1000.

Í dómkyrkiunni er legstadr hins helga Adalberts, er enir heidnu Prussar drápu. Boleslaus 1ste keypti af þeim lík hans og Sigismundr 3die lét hönum giöra minnsvarda af silfri.

Í nordr þadan er Bromberg á söndum nokkrum, hiá vidkéndu siki. Frústádr (Fraustadt) og Ravicz eru allfiölmennir stadir skamt frá Slesiu takmörkum. Bæarmenn eru flestir þýdskir at ætt. Í Lissa, fyrir nordan Frústad, eru vodvirki mikit og 9100 innbúar.

5. Hertugadæmit Slessiuland

(Schesien) til hinn prussiska hluti lands þessa, ásamt greifadæminu Glatz og þeim hluta Yfir-Lásitz, er tilheyrir Prussaveldi; þat er 746 f. m. at stærd og liggr þat í landsúdr og út-nordr ímillum Rissafialla hit vestra og Pólina-lands. Þar eru þessir stadir:

Breslá (Breslau, Wratislavia), höfudstadr í landi þessu, er liggr í landsudr frá Berlin, vid Oddoá; stadrinn samanstendr af enum forna og nýa stad og 5 forstödum; þar eru 32 kyrkiur, katholskr hiódskóli (Viadrina) stiptadr 1702 med allmiklu bókasafni (100,000 bindini) og 370 stúdentum, rádhús, kaupmanna-samkunda, hertyahús, 3 háskólar,

22 skólar, 14 allmenn bókasøfn, og auk fleiri prentverka, hit bartska, sem er eitthvört þat mesta í Prussaveldi. Stadrinn var viggirdtr uns menn, brutu varnargirdingarnar 1814. Breslá telst medal þýdskalands mestu verslunarstada og er þar alt megin varnings Slesiumanna samankomit, til. lín, lerepti og les; árliga eru þar 2 alþjódligir markadir. Innbúarnir eru 62,700, medal hvörra eru 4200 Júdar.

Í sudvestr þadan og vid Risafjöll stendr rammliga viggirdtr stadr, er Sveidnitz (Schweidnitz; Svidnitium) heitir, i forkunnar føgru landsplátsi; þar eru 8300 innbyggiarar. Undir hærsta hnúk nesnidra fialla (4950 fóta) er Snækoppr (Snekoppen) kallast, stendr Smidiuberg (Schmiedeberg) þar eru merk bleikingarverk. Silberberg er bergstadr med 1500 innbúum og samnefndr fiallkastali skamt þadan, sem er úthøggrinn i klett og eru sókn grafinn umhverfis 70 fóta á dýpt; í múrunum eru 3 radir kanónukiallara eda bása; brunnr er þar høggvinn í bergit 120 fóta diúpr. Kastali þessi er afar rammligr og geta þar rúmast 5000 høldalids (Garnison). Hirschberg eda Hiartarberg (Cervimontium) og Jauer, vid Risafjöll og straumharda á, er Neisse heitir, eru allmiklir kaupstadir, í vestrátt frá Breslá. Oels (Olsna) vid Oelsá er høfdingia-heimi i furstadæmi því, sem kennt er vid Oels og Bernstad, fyrir austan Breslá, og tilheyrir Brúnsvíkr hertuga; þar er hin Cospo-

þhiska uppfræðingar-stiptan, sem er einhver hin merkasta í Slesíu. Sunnar og við Oddorá stendr Oppeln, þar er háskóli og heimili 3500 innbúa. Vestar er Neisse við eins-nefnda á; þar er furstagarðr og 12000 innbúar. Syðst í landi þessu er Ratibor (Ratiboria); þar eru 3800 innbúar, og mælir allr þorri þeirra pólsku. Fyrir norðan Jauer er Lignitz (Liegnitz; Lignitium) með 10,000 innbúum; þar er háskóli og markverð uppfóstrunar stiptan og hafa slesiskir aðalsmenn þar forrétti. Norðar er Mikla Glogá (Groz Glogau) festing nokkr við Oddorá með 9500 innbúum.

Í greifidæminu Glaz (Comitatus Glasiensis), sem er 29 ferh. m. at stærð og hvervetna um-girdt skógivöxnum fiöllum, er samnefnd og ramm-liga víggirdt höfudborg, við ána Neisse og ímillum tveggia hárra fialla, stendr forn kastali á ödru en nýr á ödru og má veita vatni yfir alt láglendit millum fiallanna; þar eru 7000 innbúar.

Í þeim hluta af Efri Lásitz (Lausitz) er liggr undir Prussaveldi, er stadr sá, í einka fögru héradi, er Gorlitz (Gorolitium) heitir, með 8600 innbúum. Á kletti þar stendr hin vegliga Peturs- og Páls-kyrkia, í hverri er einkar mikit organ. Sunnar er Lában (Lau-bana) með 5000 innbúum.

6. Brandinaborg (fyrr. Púlmaland) fyrir sunnan Vindland; þat er 664 ferh. m. at stærð; þar eru þessir stadir merkastir:

Berlin (Berolinum; 31° 2′ 30″ austl. l. og 52° 31′ 14″ nordl. br.), þat er høfuðborg í Prussaveldi og einvalds-heimili, samt atsetr œðstu stiórnarráða ríkisins, á sendnu flatlendi og báðumegin árinnar Spre; hún er bygð 1163 og er einhvør hinn skrautligasta í Evropa og 4 mílr ummáls; í henni eru yfir 7000 hús, 34 brýr, 22 torg, 27 kyrkiur, 15 hlið, 4 forstaðir og heimili 174 000 innbúa, þar er þióðskóli, 5 háskólar, og margir skólar fyrir ýmsar vísinda- og íþróttá-greinir, mørg spítøl (meðal hvørra: La Charité) og ýmisligir spítalar fyri fátæka og hruma, uppfósturs-skólar fyri blindfædda, samt heyrnar- og mállausa, allskonar vefvirki, veinadarstaðir og verksmiðiur, er náð hafa miklum algiørleika. Merkustu byggíngar þar eru: konúngsgardr með kiørgripasafni, hertýgahúsit, lystileikahúsit, þióðskóla-byggíngarnar, stiørnuturn, dómkyrkia, í hvørri er legstaðr allmargra konúnga o. s. fr.; fyrir utan borgina er dýragardr, einhvør hinn nafnkéndasti á Þýðskalandi og skamt frá henni er býr, er Charlottuborg heitir; þar er kongligr lystigardr og heimili 3400 innbúa.

Potsdamr (Potsdam; Bostampium), í útsuðr frá Berlin, við ána Havel; þar er konúngsgardr, ráðhús, ápeckt ráðstof-

unni í Amsterdam, 6 kyrkiur (í einni þeirra er legstaðr Fridriks 2ars og foðr hans), skotsæra-smidia og 18 000 innbúar. Í nánd vid bæ þenna er konúngsgardr sá, er Sanssouci (Rauna ró) kallast; þat var unadsamasta heimili Fridriks ens 2ars. Vestar er Brandinaborg (Brandenburg), bádumegin Havelsár; þar er dómkyrkia, riddaraskóli og merkir vefnadarstadir og 10,600 innbúar. Nordar og vid ármótinn, hvar Havel og Spre renna samann, stendr kastali sá, er Spandá (Spandau; Spandavia) heitir, med 6000 innbúum; þar er prísund fyrir þá stórglæpamenn, er sekir eru vid land og lýd. Nordar er Ny-Ruppin vid samnefndt stödnvotn, med 4700 innbúum og háskóla. Í landsudr frá Berlín er Frackafurda vid Oddorá (Frankfurt an der Oder; Francofurtum ad Viadrum); þat er mikill kaupstadr; yfir 2000 kaupfør fara framm hiá stad þessum á ári hverju og í honum eru árliga 3 stólmennar kaupstefnur; þar eru 12,000 innbúar. Skamt þadan er þorp þat, er Kunnarsþorp (Kunnersdorf) heitir, nafnkéndt af bardaga 1759 millum Prussa og Rússa. Nordar vid téd fliót er Kustrín (Custrinum); þat er rammliga umgirdtr stadr á mýrlendum grundvelli; þar eru 6500 innbúar.

## 7. Saxen (Sachsen).

edr sá hluti Saxlands, er 1814 var numit af Saxakonúngs ríki, og lagt til Prussaveldis, auk annara landsálfa, er ádr heyrdu Prussaríki

til. Land þetta er 463 f. m. at stærd, og liggr fyrir vestan sidstéd skattland; þar eru þessir stadir:

Magdaborg (Magdeburg), í sudvestr frá Berlín, á flatum vid Elfuna, er þar skiptist í 2 qvíslir, eda Saxelfur. Borgin er rammliga umgirdt og bygd á gamla vísu; þar eru 14 kyrkiur, medal hvørra er forn og veglig dómkyrkia, giorr á gautskan hátt, í henni eru 46 ølturu og klukka, sem vegr 332½ vætt. Þar er kastali á hólma í Elfunni, herthahús, háskóli (Lyceum) og 32,000 innbúar, er idka miøg kaupverslun.

Á torgi nokkru stendr líkneski Otto keisara ens mikla, er sat í borg þessari og ann henni miøg; hann lét vfggirda hana og giøra téda dómkyrkiu, í hvørri lík hans liggr

Sunnar vid Elfuna er Skønebeck; þar er saltverk mikit, er 1000 verkamenn vinna at; þadan kémr árliga 750,000 vættir salts. Vestar er stadr sá, er Halberustadr heitir, er fyrr. var høfudborg í samnefndu furstadæmi; þar er slot, háskóli, 14 kyrkiur, medal hvørra er forn og mikil dómkyrkia (412 fóta á lengd og hit innra 94 fóta á hæd, med 2 turnum og 32 ølturum) og 13,700 innbúar. Sunnar er Qvedlingborg, fyrr. høfudstadr í einsnefndu ábótadæmi, med 11,000 innbúum; þat er forn býr vid ána Bodá. Skamt þadan stendr hinn forni ábótagardr á fialli nokkru; í stólskyrkiunni er legstadr Hinriks fuglafángs,

ara. Í landsudr þadan er Halle eda Sara-holl (Hala Venedorum), vid á þá, er rennr í nordr, fellr í Saxelfur og kallast Sale (Saale); hýrinn er forn med mióum strætum og hlikkióttum; þar er þiódskóli, einhvør hinn nafnfrægasti í Þýdskalandi, stiptadr 1694, bókasafn (20.000 bindini), stiørnuturn, kyrkia sú, er Maríukyrkiu kallast, hinn svokalladi raudi turn (268 fóta á hæd) og saltverk, er árliga gefr af sér 58.000 tunnr salts, at því vinna Hallórar (og eru þeir af Vindum komnir); bæarmenn veita vatni frá Sale í bunnstokkum, 90 fótum hærri, en vatnit er í áuni, igégnum stadinn; þar eru 15.000 innbúar. Þorp þat, er Glaucha heitir má álita forstad stadar þessa, þar er nafnkéndr spítali fyrir fødurlaus børn, stiptadr af A. H. Franke. Sunnar er Merseborg (Merseburg; Martisburgum) vid somu á, med 6000 innbúum. Skamt þadan er lítill býr, er Lutzen heitir, med 1100 innbúum.

Þar børdust þeir Gustafr Adólfr og Wallenstein, hershøfíngi Þýdskalands keisara (6ta Novbr. 1632) og unnu Svíar sigr, en Gustafr fell þar, kon-úngr þeirra. Þar stendr nú steinkross, umgirdtr grødursettum popeltriám, er hann fell.

Vestar er Eisleben vid 2 stødurvøtn, med 5200 innbúum. Þar fæddist Marteinn Luther (10 November 1483). Í húsi hans hefir um lánga æfi skóli verit fyrirørbyrg úng-menni, hvar menn hafa til þessa dags vard-veitt ýmsar leifar frá hans døgum, sem helga-dóma. Í kyrkiunni þar er enn vid lídi fontr sá, er hann var skírdr í.

Í sudvestr frá Magdaborg stendr **Wittenberg** (Wittenberg; Witteberga, Leucopetra), vid Elfuna, hvar yfir hana liggr trébrú 500 ál. á lengd; þar stiptadi kiørfursti Fridrikr hinn visi (1502) þiódskóla, er lagdr var nidr 1817; ár 1812, 13, og 14 var þar herskátt miøg og leid stadr þessi mikinn skada. Sama ár (o: 1817) bygdu menn 2 forstadi, sinn hvorumeginn Elfunnar.

Í Wittenberg hóf Lúther, lærifadir í Gudorð-inni vid þar þá verandi þiódskóla, þann 31 Octb. 1517 stídabótina og giørdi heillasamt frumhlaup á pafaveldi. Hann og Melanchton eru jardadir at slotskyrkiunni, í hvørri líknesskis-málverk þeirra med fullum líkamsvexti, giørd af Lucas Kranach, einnin vardveitast til þessa dags; þau sættu skémdum í sídstu umsátrum.

Sunnar er **Annaborg** á Annaborgarheidi; þar var kiørfursti Johann Fridrikr, eptir bardagann vid **Mulberg**, sem er litill stadr sunnar og vid Elfuna, til fánga tekinn af herlidi keisarans. Fyrir nordan Muhlberg og vid Elfuna er festíng, er **Torgá** (Torgau) heitir; þar vann Fridrikr 2r sigr á Austrríkis-lidi.

**Herfurda** (Erfurt; Erfordia) er víggirdt borg á frióssomu flatlendi vid Gerá, í útsudr frá Halle; þar eru 2 kastalar (Petursberg og Cyrialsborg), þiódskóli, stiptadr 1392 (einhvør hinn eldsti á Þýdskalandi, 2 háskólar, 8 lútherskar og einsmargar kathólskar kyrkiur, medal

hvorra er Jomfrúr Mar: : dómkyrkia, sem er veglig og bygd á gautska vísu; í henni er merk klukka, er vegr 2750 fiórdúnga. Þar eru 15,700 innbúar.

Langensalza vid Salsá; þar er brennusteinsbod og 5400 innbúar. Í vestr frá Halle er Nordurhús (Nordhausen; Nordhusia) í hlídinni á Harzfialli sunnanverdu og á flotum fyrir nedan þat; þar er 7 kyrkiur og 9000 innbúar. Í sudr þadan er Mulhús (Muhlhausen), þat er vígirdtr stadr med sikium umhverfis, vid á þá er Unstrút heitir; þar eru 9400 innbúar. Sunnar er bergstadr, er Súla (Suhla) heitir, vid Thuríngskóg; þar eru merkar skotvopna=smidiur og 6000 innbúar.

Í þessari landsálfu liggr greifadæmit Stolberg $7\frac{1}{2}$ f. m. at stærd; þat er eign nafntogads ættbálks, er Stolberg kallast og greinist í tvo ættleggi: Stolberg-Stolberg og Stolberg-Koßla.

## 8. Vestpal (Westphalen).

nl. svokallat hertugadæmi, furstadæmin: Munster, Paderborn, Minden og Siegen o. s. fr. samt greifadæminn: Mark, Ravenberg, Tecklenborg og Linzen og fl. ásamt ýmsum herradæmum. Landsálfa þessi er 356 f. m. at stærd og liggr imillum Hansstaðanna og Nidurlanda. Þar eru þessir stadir merkastir:

Minden (Minda), vid Visará og nálægt enn vestpaliska porti (þat var fyrr. høfudstadr í samnefndu greifadæmi), þar er 600 fóta laung

steinbrú yfir ána, varnarvirki, 7 kyrkiur og 6600 innbúar.

Í fornöld hét borg þessi Vittekindsborg; en nafnit breyttist seinna, þá hún giørdist sameign Frakka og Saxa (Karlamagnusar undirsáta; þar af mindin o: mín, þín). Nordmenn kølludu hana Mundiuborg.

Sunnar er skrautligr stadr, undir fialli og bádumegin vid ána Lutter, er Bilefeld (Bielefeld; Bilefeldia) heitir, þar eru ágiætir línvefnadar-stadir og 6500 innbúar. Í sudr þadan eru Poddubrunnar (Paderborn; Paderborna) vid ána Pader, er vellr upp af 3 uppsprettum vid vegg dómkyrkiunnar, hún verr svo ódum, at hún 20 skref þadan setr ýmsar mylnur í gáng; á sumrum er hún iskøld, en í fróstvidri leggr af henni gufu mikla; í stad þessum er heimili biskups og 5500 innbúa. Austar er Høxtr (Huxaria), festing vid Visará, og skamt þadan í nordr Corvei (Corbeia nova). Þat var fyrr. furstaligt Benedictína-ábótadæmi, stiptat af Ludvík keisara enum Fróma; setti hann þar múnka frá því forna Corvei í Picardi (þadan kom Ansgarius, er fyrstr bodadi kristna trú á Nordrløndum og kalladist því Nordurlanda-postuli.

Munster (Monasterium, fyrr. Munsterborg) er merkr og allvel bygdr stadr, ei lángt frá Ems í útsudr frá Minden; þar er nafntogud dómkyrkia, er Karlamagnus lét giøra. Á turni Lamberts-kyrkiu eru eun vid lidi 3 jarnbúr, í hverium 3 oddvitar Endurskíraranna, eptir grimdarfullan

dauddága, vóru uppheingdir, þeir hófu þar ríki, er þeir kölludu Zion (1533—1535). Í staðinum er mikill kaupskapr. Þar var nafnfrægadr fridr saminn 1648, er kallast hin vestfalíska sætt.

Nordar er: Steinfurt (Stenofurtum), í sammeludu greifadæmi, og ennþá nordar Reina, í furstadæmi, er Reina-Wolbeck heitir; nokkr hluti þess liggr undir Hanofra-ríki.

Fyrir sunnan Munster er Arensberg; á fialli vid ána Rúr, er rennr í Rín. Vestar er Altena og Iserlón (Iserlonia), í hrióstugri fiallbygd, þar eru margskonar smidiur og vodvirki. Í útnordr þadan er Dortmund; viggirdtr býr á gamla vísu. Í vestr þadan er Hamm (Hammona) og sunnar Soest (Susatum) og Lippstadr, skamt þadan, samt Sigen, sydst í þessum landsparti; þar eru járnsmidiur miklar og smeltustadir.

## 9. Prír landspartar: Julich, nordast, þá Cleve og Berg sydst.

Þeir liggia báðumegin vid Rín og fyrir vestan sidsttalit land. Þessar landsálfr er 243 f. m. at stærd. Þessir eru stadir þar:

Cleve (Clivia), skamt frá og fyrir véstan Ríná, frá hvorri gengr síki upp til bæarins; þar er háskóli og 6000 innbúar. Í landsudr þadan er Wesel (Wesalia), þar sem áin Lippe fellr úr austri í Ríná; þar er háskóli, kastali, bein og mikil skipáferd og 8000 innbúar. Sunnar vid sömu á er Duisborg (Tuiscoburgum

or der deutschen Burg), þar er reformeradr þjóðskóli, stiptadr 1655, háskóli 4000 innbúar. Sunnar er allmikill stadr vid ána Düssel (er þar rennr úr austri í Rínâ), er Düsselþorp (Düsseldorf; Düsseldorpium) heitir, þat er einhver hin fegursta borg vid Rínâ; þar eru 5 kyrkiur, háskóli, stiørnuturn og 20,000 innbúar. Fyrir vestan ána og nokkut nordar er Crefeld, þar eru merkir silki-vefnadar-stadir og 7900 innbúar. Skamt þadan er Kempen med 3700 innbúum, þar er hinn nafntogadi Thomas à Kempis fæddr. Elberfeldt, vid ána Wipper, med 20,000 innbúum; þar er nafnkéndir banda- og vorda-vefstadir og ýmislig vodvirki.

Hérad nokkurt edr dalr 2 f. m. at stærd, er Barmen heitir, vid teda á, er svo fiølbygdr at náliga má eitt Þorp kalla, er her, og hvar greinist í þorp af almiklum bleikingar-dømmum; þar búa 24,000 manna, er vinna klædi, lîn og lérepti. Á fialli vid nefnda á, er býr sá med 9500 innbúum, er Solinga heitir, og er hann enka kunnr fakir járn- og stál-smidia, sem þar eru. Allskonar smídisgripi giøra 4400 verkamenn þar, í 23 smidium á ári hvøriu at 16250 vættum járns og stáls; alleina forda- og verda-branda af 3750 vættum, og knífa af nær 12,500 vættum. Til smída þeisara þurfa menn árliga frá 87,500 til 100,000 vættir steinkola. Einnin eru i Remsfeld a-armiklar járnsmídiur, í hvørium menn giøra 800 slags smídisgripa-tegundir af 112,560 vættum járns.

Fyrir sunnan Düsselþorp og vid Rín vestanverda er Köln eðr Kølnisborg (Cöln; Colonia Agripina), þat er mikill og merkr stadr nær ein míla

á lengd, fyrrum var hann frí ríkisstadr og í samfélagi Hansastäda um hríd; þar er háskóli, 21 kyrkiur, medal hvørra telst dómkyrkian, bygd á gautskan hátt; hún er vøndud miøg at allri smíd og vegligt musteri; en ei fullgiør, þar allina annar af tveimr turnum hennar, er til var ætlast at vera skyldu 500 fóta á hæd hvør um sig, at eins er hálf-bygdr. Þar er brú yfir téda þiódá til Deutz (Tuitium), fríhøfn og ógrynni rínskvíns samankomit; á 15 stødum giøra menn þar hit nafnkénda, daungóda vatn, er Kolnis-vatn kallast (á frønsku Eau de Cologne) (Odo Kolonnie); þar eru 50,000 innbúar, er eiga stór kaup vid Hollendinga.

Borg þessi er í svdverdu bygd af þiód þeirri, er Ubiar hét og ha di traust af Rómverium. Agrippína, drottníng Cláudii keisara og módir Nerós keisara, er fædd þar og var hún því frumqvødull til at í hlendumenn (Colonia) fluttu þángat frá Rómaborg og kalladist því borgin upp frá því Colonia Agrippina, var hún, uns Frackar almádu Rómveria veldí í því landi, høfudborg i Germania secunda. Árit 1577 fæddist hinn nafnfrægi málari Rubens í Kolni og má þar enn siá fødurhús hans og snilliligt málverk (Postula Peturs pyslardauda) í St. Peturs kyrkiu.

Fyrir sunnan Koln og vid Rín stendr Bonn (Bonna) í allføgru landsplátsi, med 9000 innbúum; þar er heimili erkibiskups og fursta af Kolne og er þar í gardi hans háskóli. Zulpick (Tolbiacum), þar vann Klodó-

vik, stiftari ens sranska þióðríkis, mikinn sigr á Allamønnum 496.

10. Niður-Rín.

fyrir sunnan síðstéða landsálfu og liggr mestr hluti þess fyrir vestan Rín; þat heyrði fyrir fáum árum Frankríki til. Landspartr þessi er 394 f. m. at stærð. Þar er:

Acken (Achen; Agvisgranum; Aquæ; á frønsku: Aix la Chapelle), í vestr frá Kolne, høfuðstaðr, biskupsstóll og heimili landshøfðíngia; þar sátu forðum ýmsir Þýðskalands keisarar og vóru þeir jafnan krýndir þar í dómkyrkiunni, sem er afargømul og bygð á gauskan hátt. Á torgi einu í stað þessum stendr líkneski Karls hins mikla; þar er háskóli, 5 kyrkiur og nafntoguð bøð, af hverium borgin hefir nafn tekit, og er þar mannqvæmt mjøg af þeim, er leita bóta á meinsemdum sínum; þar eru og verkstæði mikil, margskonar vefstaðir og 27,000 innbúar. Fyrir sunnan Bonn liggr Coblens (Confluentes; á frønsku: Conflans), við Rín, þar sem áin Mosel fellr í hana; þar er steinbrú yfir Mosel, 536 skref á lengð, háskóli, skrautligr høfgarðr, auk annars høfgarðs í fegursta hluta staðarins, er Clemenstaðr kallast, ágiæt piátur-smiðia, hvaðan koma allskonar smíðisgripir, er sumir segia at beri af ensku piátur-

smídi og 11,000 innbúar. Nordar vid Rín er Andernack (Antoniacum).

Skamt þadan er vatn þat, er Loachsjór (Loachersöe) heitir, þat er gýgr mikill, hvar jardeldr hefir í forntíd brotist upp og brunnit; þat leggr aldrei.

Hérumbil 400 skref frá bænum Rense vid Rín, mátti siá (til 1814) hinn nafnkénda konúngstól; þat var krínglótt hvelfíng, af höggnu grióti, er stód á 9 styttum; hún var 8 álnir á hæd, en 40 álnir ummáls. Á hvelfíngu þeirri vóru 7 sæti handa enum 7 kiørfurstum, er þar komu saman til at kiósa keysara, þá þess, einhvörra orsaka vegna, ei var kostr í Frakkafurdu vid Myn (Chur-Verein, 1338).

Á hæd nokkurri vid Thal-Ehrenbreitstein, gagnvart Coblentz vid Rín, standa enn tortirnar af rammbyggdum kastala, er Ehrenbreitsteinn hét, (Castellum Hermanni) hann vardi tyrrted ármót.

Í austr frá Coblenz er Wetzlar (Wetzlaria), í kvos ímillum fialla vid ána Lan, er rennr úr landnordri í Rín; þar eru 4500 innbúar.

Kammerréttr sá, er hófst, þá Maximilianus fyrsti, med því nafni, sat at ríkinu, í Frakkafurdu vid Myn (31 Octbr. 1495) og sídan fluttist til Spiru, var haldinn frá 1693 til 1806 (þá Þýdskalands þiódríkis stiórn leid undir lok) í Wezlar.

Í útsudr frá Coblenz er Trier (Treviri; Augusta Trevirorum) vid Mosel og í dalverpi millum tveggia vínfialla, þar er háskóli med bókasafni (70,000 bind.), 8 kyrkiur, medal hvörra er dómkyrkia og hin afarforna Simonskyrkia; stadr þessi er hálf míla á lengd, en hefir alleina 13,000 innbúa.

Trír er afargömul borg og hùsir Rómveria-keisarar sátu þar. Frá dögum Constantíns ens mikla var hún höfudborg í því landi, er Rómveriar kölludu Belgiaprima og undireins í einni vídlendu præfectura Galliarum, er Fránkar brutu undir sig 458 eptir Krists burd.

Fyrir vestan Köln er festing vid ána Roer, er Julick (Juliacum) heitir. Burtskeid, þar eru allmargar laugar. Stólberg, þar eru margar járn- og kopar-smidiur og brúkast þar árliga til smídanna 31250 vættir eyrs.

Prussa-konúngr á einnin at réttum erfdum Canton eda fylki á Sveitzalandi, er Nýkastali, (Neufchatel) Nefsiatel heitir, og sídar skal frá skirt verda.

Loptslag í Prussa-ríki er yfirhöfud temprat, og vídast er þar vidlíka heitt og kalt, utan í fiallbygdunum, hvar seinna sumrar, fyrr vetrar og vedrátta er kaldari, enn í eunum láglendu hér-udum. Vid Eystra-Salt er óstödugt vedr-áttufar; þar er votvidrasamara, hráslagafyllra og þoka þráfækiligri, enn annarstadar í ríkinu; þó bæta sævindar nokkut úr þessum andkanna. Á sumrum er þar optfinnis hiti mikill, en á vorum og haustum votvidri og hvöss vedr.

Hinn sydri hluti ríkis þessa er audugri af málmum og steintegundum, en hinn nyrdri: finst silfr einkum í Slesia (árlega hérumbil 125 vættir), eyr, á ymsum stödum, sérílagi í greifadæminu Mannsfeld (árl. nær 25 000 vættir) og járn í allflestum landsálfum, ásamt arseniki (volsku salti) og vitrióli. Marmari finnst í Slesia Saxen og Nidrrín, alabastr og mylku-

steinar í Saxen, álún í Efra Lásitz og vídar, steinkol í Slesía og á Vestpali, kalk þvínær hvervetna, saltpetr í Slesía og Prussalandi, salt (úr saltlindum) þvínær í hvorri landsálfu (mest vid Hall) ýmiskonar gimsteinar í Slesía og rafr vid Vind- og Prussa-lands strandir, einkum í grend vid Pillá. Margbreyttir heilnæmis brunnar og málmkyniadar lindir eru þar vída, en merkastar í Acken. Almennustu kornteg-undir vaxa þar hvervetna vel og mikil gnægd káls og matjurta einkum í Prussalandi, Sax- og Vind-landi, vínvidr vid Rín og Mósel; þar er og mikill vidarvöxtr og vídlend mark-lönd, einkum á Prussalandi (Johannisborgar-heidi er 12 mílna lángr skógr) og á Vestpali (Tevtoborgarskógr), en qvikfiárhagar eru bestir á Prussalandi.

Af húsvönum dýrum er þar fiöldi, t. d. hestar (2 milliónir), nautpeningr (7 mill.), saudfé (15 mill.), svín (4 mill.), geitr, asnar o. s. fr. Þessi villidýr eru þar: birnir, úlfar, refar, elgsdýr (þó sialdgæf), rádýr, dádýr, villisvín, angóriskt silki-kanindýr, mördur, greifingiar. Vid siáfarsídu fángast selir og marsvín, og margskonar fiskakyn í vötnum og sliótum, t. d. lax og styria.

Ei fer Prussa-veldis innbúum sídr at stofni í tilliti til handidna, verksmida og vod-verka, enn nágranna þiódunum. Lérepta-giörd er mest og best á Slesíulandi og á Vestpali, einn-in kniplinga-vefstadir og bleiking lins og lérepta; í Berlin eru sérílagi bómullar- og silki-vefstadir

o. s. frv.; skipasmídi vid Eystra-Salts strandir og uppi landi vid fliótinn; járn- og stál smidiur (einkum í Slesia, Brandinaborg og í Vindlandi) og korda-smidiur (í Spandá, Potsdammi, en sérilagi í Soling) og porcellans-verkstadr í Berlín o. s. fr.

Med því at hin lánga strond vid Eystra-Salt liggr vel vid tilsigling og í ríki þessu eru mørg skipsær fliót, er sumstadar samtengast af grøfnum díkium, og greidfærir þiódvegir liggia landshorna í millum, er þar hvervetna hægr varnings flutníngr og kaupverslun mikil og ardsøm, ei alleina innanríkis, heldr eru Prussar einnin í verslunar sambøndum vid allflestar þiódir í Evrópa, sømuleidis vestr í heimi og á nordr-jadri Afriku. Uppi landinu er kaupverslun mest í Berlín, Kølne, Breslá, Frakkafurdu vid Oddurá, Magdaborg, Minden, Bilefeld og Munstr; en flest eru skip í førum frá og til Dansvikr, Stettin, Konúngsbergs, Colbergs, Stralsunds, Ilfings og Pillá. Padan flytst til annara landa: korn, lerepti, les, porcellan, hestar, vax, bik, tiara, pottaska, timbur, mylnusteinar, ýmisligt verksmidi af járni, stáli og messing, steinkol, ledr og skinnavørur, salt, ávextir, rafr, berlínsblámi, o. s. fr. En þángat flytia kaupmenn: óhreinsat sikr, kaffe, vinsaung, oliu, silki, ull, óverkadar húdir, tyrkneskt garn, gráværu og safala, tóbak, saltpetr, engelsk steinkol, lysi, sudrlanda ávexti, romm, hrísgrión the, kryddjurtir, brennuvín, engelskt øl, o. s. fr.

Ei hafa allir þegnar Prussakonúngs eina

G 2

trú. Hinn lútherska kristindom (sem eiginliga er þióðtrú í ríkinu) játa innbúar Austr-Prússalands, Brandínaborgar og Vindlands; hin kathólska trú er í lög leidd í Posen, Nidrrín og á Vestpali; lýdrinn í Slesíu, Saxen, Julick, Kleve og Berg er hvortveggia, bædi lútherskr og kathólskr; en ena reformerudu trú rækir kóngr og hird hans. Oddvitar ens lúthersku kénnidóms eru yfir-biskupar og biskupar (Generalsuperintendenter og Superintendenter), en hins kathólska: erkibiskupinn í Gnesen og biskuparnir í Breslá, Pósen, Kulm og Munstr. Ei er þar amast vid þeim mönnum, er adra trú rækia, og eru því margskonar trúmenn í landinu, t. d. Grykkir, Mennonitar, Socinianar, er allir hafa ótálmat trúabragda friálsrædi.

Avalt hafa Prussa einvaldar kostat kapps um at frama upplýsing og vísindaa idkun í ríki sínu; má því þiód þessa vel mentada kalla. Í stödum og á landsbygdinni eru skólar gódir fyri borgara- og bænda-börn; látinuskolar og háskólar allmargir, skipuliga á stofn settri, og 8 þióðskólar (medal hvorra þeir í Berlin, Höll, Koníngsbergi og Greifsvalde, eru taldir medal enna bestu í Evrópa); þar eru og margbreytt og fræg vísindamanna félög og háskólar fyrir hersföringia-efni, stiptanir fyri blinda mállausa og heyrnar-vana, skólar fyri grædara, dýralækninga-skólar og almúgafrædara-skólar. Bókasöfn mikil eru í höfudborgunum, medal hvorra hin koníngl. bókahlada í Berlín er sú merkasta.

Prússaveldi er ótakmarkat einvaldsríki, er gengr í erfdir svo til frumborins manns sem konu 18 vetra at aldri er koníngr fullvedia til ríkisstiórnar og má hann játa sig til hvorrar þiódtrúar hann vill, annathvort hinnar lútherska, refermerudu eda kathólsku. Mr. dau kon:ngsefnit ei er fullaldra til stiórnar, rædr eldsti kóngborinn prins fyrir rikinu. Eldsti kóngsson kallast prins af Prússalandi og Jarl af Vindlandi; hinir kongbornir prinsar kallast bornir Markgreifar af Brandínaborg. Í ríkis umrádum aengr ríkisrádit (Cabinettet, Statsraadet) koníngi til handa, ásamt 7 rádgiöfum, medal hverra er skipt einsmorgum greinum landsstiórnarinnar. Yfir hveria landsálfu (Provinds) er yfirforseti (Overpræsident) settr, sem einnin er forseti í kénnimanna réttinum, sem haldinn er í hverri landsálfu. Skialdarmerki Prússaveldis er svert ørn med raudri korónu á høfdi á silfrinu undirbordi.

Sex eru þar Riddara-ordur, nl. a. svertu arnar-ordan stiptud 1701 af Fridriki 1sta. b. raudu arnar-ordan stiptud 1734. c. ordan pour la merite (ɔ: fyrir forþlenustur), stiptud hermønnum til heidurs af Fridriki ann 1740. d. hin koníngl. prussiska Johannita-orda, stiptud 1812. e. járnkrois-ordan, stiptud 1813 hermønnum til heidurs-auka, og f. Loysíu-ordan, stiptud 1814 qvennskørúngum til verdlauna og virdíngar.

Adalsmanna-stéttin í landi þessu greinist í 2 flokka, nl. hinn hærri, í hverium eru furstar og stiórnandi greifar, og hinn lægri, í honum eru greifar, er ei eiga greifadæmi,

barúnar og aðrir aðalsmenn. Þó giöra lög enga grein á rétti flokka þessara. Hinir æðri klennimenn hafa jafnan einkarétt með aðalsmönnum, en eru þeim fremri at tign og metorðum. Borgarar lúka flesta og mesta skatta; en eru ei í öllum landsálfum jafnir at veittum einkarétti. Bændur sæta ennþá víðast þúngum kosti, einkum á Vindlandi og á Vestpali, þó eru þeirra kiör vægri á jarðeignum konúngs, enn annara landsdrottna.

Herlið Prússakonúngs skiptist í 3 höfuðflokka, nl. hinn standandi her og landvarnarliðit (hvorttveggia tilsamans 250,000 manns) og landsstorminn. Herliðinu eru ætlaðir 11 merkustu staðir í landinu til vistar, þá friðr er. Hverki hefir Prússakonúngr herskip né skipalið. Í ríkinu eru 14 festingar og varnarvirki; þeirra er aldra fyrr gétit.

Inngiöld Prússaveldis eru hérumbil 40 milliónir rdlr. (gengr helmingr þeirra til uppeldis herliðnu); þióðskyldin segia menn sé nær 400 milliónir gyllina, (er þar gánga 3 á 1 Ríkisdal).

Manntalit í giörvöllu Prússaríki er 10 milliónir og 640 þúsundir (2132 á hvörri ferhyrn. m.) nl. 2 mill. og 500,000 á hinu eiginlega Prússalandi og þeim pólsku landsálfum, en hitt í hinum þýðsku löndum. Innbúar ríkis þessa eru bæði komnir af ennm skandinavísk-germanniska ættstofni, og eru eiginliga þióðverskir at ætt; mæla þeir allir þýðska tungu, — og af henni fornu Slafa-þióð, t. d. Vindar og Kassubar, við Eystra Salt og í Slesia Pólakkar, Littáir, Kúrir, Lettir í Eystri hluta ríkisins. Sumir af þessum tala afbrugðit mál.

## VI. Þýdskaland (Germania; Tydskland).

Þiódland þetta má kalla midbik Evrópu; þat nær frá 44 mælistig til 55 í nordr og sudr, en í austr og vestr frá 22° 30′ til 36° 40′.

Í nordr nær Þýdskaland til Nordr-siáfar, Danmerkur og Eystra-salts; í vestr til Nidr-landa-rikis og Frakklands, og í sudr til Sveitza-lands, Vallands og Feneyabotns; en fyrir austan þat liggr Króatia sydst, þá Ung-araland, þá Gallizíuland, þá Pólinaland og Prussaland nordast. Þiódland þetta edr hinna þýdsku sambands þióda lønd, er, ásamt Prussa-veldi og Austurriki og at Holsetalandi, Lácnborg, Lúxenborg, Slesíulandi og Illyria medtøldum, hérumbil 12000 ferh. m. at stærd.

Leg og jardvegr lands þessa er miøg marg-breyttr. Fiallgardar tveir deila því í tvo hluti; kallast hinn nyrdri Nedra-Þýdskaland (Neder-Tydskland), en í fornøld Saxland, og er sá hluti flatlendr og flallalaus at kalla; og hinn sydri Efra-Þýdskaland (Over-Tydskland) fyrr. Þýdverskuland, og er hann allhálendr og fiøllóttr. Hit nyrdra vid sæ, einkum vid Nordr-siá, er landit svo lágt, at

menn hafa giört garda mikla nálægt sædar-máli, at ei gángi siór á land upp. Í fornöld var Þýdskaland nær alt ein mörk eda skógr, og er þar enn á dögum allmikit skóglendi, þó eydist þat um of á ýmsum stödum. Í Nordr-Þýdskalandi eru allvída heidar, vötn og flóar og aga-mikit land og alleina friófsamt vid ár og vatnsföll. Fiöll eru þar allhá og vída þakinn snió og iökli svo sumar sem vetur. Þau merkustu medal þeirra eru:

1. Mundiafiöll (Alperne; Alpes) er liggia austr eptir Sudr-Þýdskalandi frá Helvetiu, nl. frá Grábundsfylki um Tyról til Austurríkis landamæris og Illyriu og kallast sá fiallgardr hin rhætisku alpesfiöll, svo austr um Austurríki og Styriumörk til Ödenborgar í Ungaralandi, og nefnast þau hin nórisku Alpesfiöll. Grein af þessum höfudfiallgardi gengr í landsudr inní Dalmatia, er kallast hin carnisku og júlisku Alpesfiöll. Í nordr liggia Allgáa-alpar um Svafa- og Bæara-land. Saman hángandi þessum fiallgördum er fiall þat er Kalenberg (Mons Cetius) heitir, þat er 50 mílur at lengd og endar vid ána Saf í Krain.

2. Fiktelfiöll (Fichtelbierge; Mons piniferus) í nordr-hluta Bæara-ríkis; þat er, midpunktur enna þýdsku fialla og tekr nafn

af þeim afarmiklu greni- og furu-skógum, sem sem þar eru. Undan fiöllum þessum falla 4 ár ul. Myn, Sale, Eger og Nab, og ut frá þeim liggia fiallgardar í ýmsar áttir, t. d. hin saxiska Erzfiöll í landnordr millum Saxaríkis og Bæheims; þau eru áföst vid Sudetafiöll edr Risafiöll og hin mæriska fiöll, og þessi aptr vid Karpatafiöll; í landsudr liggr Bæheims-skógr (Böhmerwald) á Bæaralands og Bæheims landamæri; í útnordr þadan gengr Turingsskógr (Thüringerwald) og frá honum Rhonfiöll (Rönbierge) í útsudr og í sudr frá þeim fiall þat, er Spessart heitir og er áfast vid 3. Myrkvid edr Svafaskóg (Schwarzwald; Sylva nigra) á Badens og Wurtenbergs-ríkis takmörkum; fiallgardr þessi er skógivaxinn og allbrattr hit vestra, en at austanverdu er atdragandinn meiri og þar hálsar og dalir. 4 Harzfiall (Harzen; Silva hercinia) er hinn nordasti fiallgardr á Þýdskalandi; frá því gánga Wisarárfiöll, í hverium er hit svokallada vestpaliska port vid Minden.

Um Þýdskaland falla 500 fliót og ár og eru 60 af þeim skipfærar. Þær merkustu eru 1. Dunn edr Dóna (o:. Diúpá) (Donau; Danubius, Ister) þat er hit annat mesta vatnsfall í

Nordurálfu heims. Uppsprettur hennar eru í Myrk-vid; eyfst hún brádum af tilstreymandi vøtnum og verdr skipfær vid Ulm, 20 milir frá upptøkum hennar. Þiódá þessi er 332 mil. at lengd og fellr í austr um Wurtenbergs-ríki Bæaraland, Austríki, Ungaraland, og Tyrkland og framhiá mørgum og merkum borgum og kémr loks til siáfar úti Svartahafit. Hún er afardiúp og straung og vída, einkum þá austr eptir dregr, svo breid, sem fiørdr. Í henni eru stórar og fagrar eyar t. d. Lobá vid Vínarborg og litla og stóra Skut í Ungaralandi, og klettar og skér, svo skipaleidin á henni er allvida skipud torfærum. Í hana renna 120 ár, af hvørium 30 eru skipfærar. 2 Rín edr Ríná (Rhinen; Rhenus) þat er þiódá mikil, er kémr frá Sveitzalandi og fellur í nordr á Fránkaríkis og Þýdskalands landamæri, um Holland og úti Englands haf. Hún er 140 milir at lengd. 3 Saxelfur edr Hamborgarelfa, (Elben; Albis) hún fellr undan Risafiøllum rennr alla leid í útnordr um Bæheim, Saxaríki og Prussaveldis landeignir og kémr til siáfar út í Nordr-sæ. Hún er 130 milir at lengd. 4 Odder-á edr Oddsá hennar er ádr gétit. 5, Visará, (Veser; Visurgis) hún verdr af 2 ám, er Fulda og Verra heita, og rennr um Hannofraríki í Nordr-sæ.

Af Þýdskalandi eru mörg vötn, en flest ei allstór. Þau stærstu eru í sydri hluta þess edr á Þýdverskulandi, fyrir sunnan Dunu. Er þeirra mestr Bodens-siór, eda Bodinvatn (Lacus Bodamicus) einnin nefndr Costnitz-edr Bregentz-siór og almennt kalladr hit þydska haf. Hann er á sudvestr takmörkum téds lands og liggia ad hönum Badens, Vurtenbergs, Bæaralands Tyrols og Helvetiu-rikis landeignir. Hann er 16 milur at leingd og 4 at breidd og er á ymsum stödum 350 fadma diúpr.

Auk þess hluta Prussaveldis, er liggr innan Þydskalands takmarka og sem fyrr er fráskirt, og Austr-rikis, er sídar skal getit verda, er þiódland þetta greint í 4 Kóngs ríki, 1 Kiörfurstadæmi, 6 Stórhertugadæmi, 8 Hertugadæmi, 8 Furstadæmi og 1 Landgreifadæmi, og skal hér fyrst lýsa kóngsríkiunum og svo hvöriu ríki af ödru.

## I. Bæaraland (Baiern; Bavaria).

Þat liggr fyrir vestan Austr-ríki og Bæheim og fyrir austan Vurtenbergs-riki, Baden og Hessen-Darmstad; fyrir nordan þat liggr Kiörhessen og hin saxisku hertugadæmi, en Tyról fyrir sunnan. Landit liggr imillum 47°

20' og 50° 40'. Auk þessa tilheyrir ríki þessu landspartr nokkr við Riná vestanverða og í millum Frakklands, Niðr-rinár og Darmstaðar landeigna. Bæarariki er 1480 ferh. m. at stærð. Norðmenn kölluðu þat Beiara- og Byiara-land.

Miðbik lands þessa er ein allviðlend og frióssöm sletta; hit syðra liggr grein af enum norisku Mundiufiöllum og hit nyrðra í landinu Fiktelfiöllin, sem eru áföst við Frakka- og Turings skóga og Erzfiöll í landnorðr. Spessart er skógivaxit fiall milli Vyrzborgar og Askaffenborgar.

Ur vestri í austr fellr Dunn um Bæaraland. Í hióðá þessa renna allmargar minni ár, meðal hvörra má telia 4, er koma úr suðri nl. Inn austast í hana rennr Salza frá Tyról, þá Isar, þá Leck og Iller vestast; og 3 er falla úr norðri, nl. Regen austast, þá Nab og Altmul vestast.

Ríki þessu skiptu menn 1817 í 8 kreds-lönd, sem kénd eru við Isar, Neðri Dóná, Regen, Efri Dóná, Rezat, Efri Myn, Neðri Myn, og Rín. Þessir eru hinir nafnkéndustu staðir fyrir sunnan Dunn: Munken (München; Monachium; 48° 9' 12") þat er höfuðborg í þessu landi og heimili konúngs og stiórnarráðanna og erkibiskupsstóll, á sléttlendi milli tveggia hæða við Isará. Hún telst ámeðal enna fegurstu borga í Evropu; eru þar margar og

skrautligar stórbyggíngar, t. d. hinn konúngl. hofgardr med ágiætri marmara treppu, Frúar-kyrkia med 24 kapellum og 30 ölturum, bók-astóll mikill og málverkabúr, 2 lystispilahús og 60,000 innbúar. Nymsaborg og Sleiß-heimr eru lystislot í grend vid borgina. Nord-austar vid téda á stendr forkunnar fagr stadr, er Landshútt heitir, þar er þiódskóli, (er þángat var fluttr frá Ingólfsstad 1800) Marteinskyrkia med 454 fóta háum turni — og heimili 8000 innbúa. Í austr þadan stendr Pasßa, (Passau; Batava Castra) vid ár-mótinn, hvar Inn rennr í Dunn, þar er bi-skupsstóll og veglig dómkyrkia. Í útnordr frá Munken er Augsborg fyrr. Austborg (Augsburg; Augusta Vindelicorum) vid ána Leck; þat er mikil borg og víggirdt; þar er rádstofa svo skrautlig, at ei er hennar jafni á Þýskalandi at fegurd og mikilleik, í henni er salr er kallast hinn gullni; veglig dómkyrk-ia, og biskupsgardr, (þar seldu lútherskir trúmenn af hendi trúarjátníng sína Karli keisara hinum 5ta, 1530); þar eru og verkstadir margir og vodvirki og afarmikill kaupstapr — og 30,000 innb. Fyrir nordan Landshútt er Regensborg (Imbripolis, Ratisbona) vid Dunn og ána Regen; þessi borg var fyrrum hofudstadr í

Bæaralandi, sídan frí ríkisstadr, hvar hád var hit þýdska allsheriarþing frá 1654 til 1806. Borg þessi er umgirdt med múrum og síkium, en ei er hún fögr; merkasta bygging þar er hin forna rádstófa, er fyrrum var þinghus, og nafntogud steinbrú; þar eru 19000 innb. Vestar er Ingólfsstadr med Dunn med 5000 innb.

Fyrir nordan Dunn eru þessir stadir merkastir: Núrnberg (Norimberga) báðumegin vid á þá, er Pegniz heitir. Þat er mikil borg og umgirdt af tvøføldum múr og diúpum síkium umhverfis; þar eru margar háreistar byggingar, og eru þær audugar af ságiætum málverkum og smíldarsmídum; þar eru og margar bókhlødur og kiørgripasøfn, 2 landkorta prentverk og margsháttadar smidiur; þadan og frá nærliggiandi bygdarlagi flytst ofurgrúi margskonar værusmídis og barnaglingurs (Nürnberger-Kram) vídsvegar um heim. Þar eru 30,000 innb. Í nordr þadan er Bærant (Baireuth) þat er allsiáligr stadr med 10,000 innbúum. Í vestr þadan stendr einhvør hinn fegursti stadr i þessu ríki i forkunnarføgru hérardi, er Bamberg (Bamberga) heitir, þar er veglig dómkyrkia bygd 1110 á gautska vísu og erkibiskupsstóll og hofgardr mikill. Í grend vid stad þenna er ágiæt kálgardarækt og flytst þvi þadan afar-

mikit kálfræ. Vestar er Vyrzinborg edr Vurzborg (Virseburgum, Herbipolis) í fögrum dal við Mýn; borg þessi er víggirdt og hvervetna umkringd af vínvidi-vöxnum hædum; þar er biskupssetr, einkafagurt slot, dómkyrkia, kathólskr þiódskóli (stipt. 1582) — og heimili 21000 innb. Imillum Nyrnbergs og Vurzborgar er Erlang (Erlanga) skrautligr stadr við á þá, er Pegniz heitir; þar er protestantiskr þiódskóli (stipt. 1743) og 9500 innb. Ansbacki edr Onólfsbacki (Onoldium) með 13000 innb. Svabacki, (Schwabach) við samnefnda á og Nordling (Norelinga) og fl. eru nafnkéndir stadir í þessu landi.

Í þeim landsparti, er liggr undir Bæararíki, fyrir vestan Rín, er Spira edr Spíruborg, (Speier; Augusta Nemetum, Spira, Noviomagus) stada merkust, var hún fyrr. frí ríkisstadr; þar er afargömul dómkyrkia, í henni eru legstadir Henriks hins 4da og 7 annara keisara og 3 keisaradrottninga; þar eru 6000 innbúar. Vestr frá Spíru er Zveibryggia edr Tvíbryggia (Bipontum) med 6000 innb. þar hafa út komit allmörg fornaldar snilldrit, og eru þau kénnd við hit latínska nafn stadar þessa. Sudr frá téðum stad

er Landá, (Landau) þat er kastali hins þýdska sambands, med 4000 innbúum.

Einka blídt og heilnæmt er loptslag í Bæara-ríki, nema í fiallbygdum þess, hvar vindar eru napris og vetr strángr og lángr.

Í landi þessu finnst gull nokkurt, silfr, qvikasilfr, eyr, jarn marmari, alabastr, steinkol, salt mikit og málmdámadar uppsprettr. — Þar eru einnig skógar allmiklir, allskonar sádlønd, vínvidr, ávextir, humall og hampr. — Nautpeníngr, hestar, kyngodt saudfé, mikill fiøldi svína, villidýr allmørg, góð bíflugnarækt, fiskiveidar og perluskéljar.

Innbúar landsins eru 3 mill. 460 þús. at tølu, mæla þeir 3 máliskur þýdverskrar túngu, nl. ena bæarisku, frankisku og svafisku. Þeir leggia allvendiliga stund á markskonar vodvirki og verksmidiur og fá ord fyri starssemi; eiga þeir kaup mikil vid nálæg ríki, sérilagi vid Austr-ríki, Sveitzaland og Frakkafurdu vid Mýn, létta þeim skipfærar ár (einkum Dunn og Myn) ágiætir þióðvegir og 400 brýr yfir ár og fliót, flutníng sølu-eyris þeirra nl. korns, salts, vidar, pottøsku, nautpeníngs, svína, lérepta, landkorta, o. s. frv. — og þess varníngs, er þeir þarfnast, sem er: kaffe, sikr, the, krydd, indigó, o. fl.

Hinn katholski átrúnadr er þar í løg leiddr; þó eru þar 785 þús. Prótestanta, 16 þús. Júda og allmargir Hernhúttingar og Endrskírarar. Fyrir kénnimannligum málefnum ráða 2 erkibiskupar og 6 biskupar.

Í 3 þiódskólum, 4 haskólum (Lyceer)

og ýmsum mentunar, skólum idka menn vísindi og íþróttir.

Fyrir landi þessu rædr konúngr sá, er Maximilianus Joseph heitir (sæddr 1756). Ríkisstiórninn takmarka veldi þessa lands konúnga og gengr þat í erfdir eptir karlsystar- og frumburdar-réttr; þau koma árliga saman til at eiga þátt í lagasetníngum og skattskrift. Í ríkis stiórninni gengr ráð þat konúngi til handa, er kallast Ríkisráð (Statsraad) og yfir hvert kredsland er settr hofdíngi edr hofud erindsreki (Generalcommissair). — Herlið konungs er 45000 at tolu.

## II. Saxaríki. (Sachsen; Saxonia).

Þat liggr fyrir sunnan og vestan Prussaveldis landeignir á Þýdskalandi, fyrir nordan Bæheim og Bæara-ríki og fyrir austan Fyrstadæmin Reiß (Reusz) og Altenborg, — og imillum 50° 10′ og 51° 27′ nordl. br. — Árit 1815 var allr helmíngr numin af ríki þessu og skeyttr vid nágrauna ríkinn. Nú er þat 348 ferhyrn. m. at stærd.

Land þetta er allfiollótt. Hit sydra marka Erzfiollinn því takmork, sem fyrr segir. Þar er einnin hit meißniska hálendi, edr hit svokallada saxiska Sveiß; þat er margbreytir sandsteinsfialla klasi, 4 mílur á breidd og lengd; þar eru gliúfr og ógaungur, gliúfr og gil, hellrar og sumstadar fagrir dalir.

H

Auk Saxelfa edr Elfunnar, er rennr í útnordr um landit, eru þar minni ár, er koma úr sudri og heita Mulde og Elster (Den hvide Elster) sú fyrri rennr í Elfuna, en hin sídari í ána Sale.

Landit er greint í 5 Kredslönd, sem kénd eru vid Meißen, Leipzig, Erzfioll, Voigtland og Efri-Láfiz. Þar eru þessir merkustu stadir: Dresden fyrr. Dresen (Dresda) í fögrum dal bádumegian vid Elfuna, á hvorri er nafntogud brú, nær 600 skref á lengd; þat er höfudborg í ríkinu, konúngs atsetr og heimili stiórnarrádanna. Hún er víggirdt og hin fegursta borg einhver í Nordrálfu og harla audug af margsháttudum smídarverkum og kiörgripum, kostuligum málverkum og fornþíngum; auk 15 kyrkna og kapella er þar forkunnar skrautlig hirdkyrkia med 303 fóta háum turni, og Frúrkyrkia, vegligt musteri. Í borginni er 6 háskólar margir skólar og biblíufélag, kónglig bókahlada (250,000 bind. og 4000 handrit) og heimili 50000 innbúa.

Pillniz er konungligr lystigardr sunnar vid Elfuna, ásamt Pirna, enn þá sunnar; þar höggva menn sandstein mikinn; skamt þadan var kastali, er Sonnensteinn hét; þar er nú spitali fyri vitfirringa, sem er einhvor hinn ágiætasti í Evrópa. Fyrr nordan Dresden er

Meißzen (Misnia) við Elfuna og Meißár ós, þar er veglig dómkyrkia, porcellans-verkstaðr mikill og 5000 innbúar. Köngssteinn (Königstein) er afarsterkr kastali á 1400 fóta háum móbergskletti, sem er hálf míla ummáls og öllumegin þverghnyptr utan þar, er veit at hofuðborginni, en er þar því betr víggirdtr; til kastalans gengr einstigr; er þar örrugt vígi með því at ei mega honum hólgreftir granda né skothríð frá nálægum hæðum. A klettinum eru sádlönd og graslendi, litill skógr og brunnr, 586 fóta diúpr, er menn úthuggu í klettinn í 40 ár.

I útvestr frá Dresden er Leipzig (Lipsia) á flötum og í qvíslum nokkrum; þat er önnr borg mest í þessu landi, með 34,000 innbúum. Þar eru margar vegligar kyrkiur, þióðskóli mikill, (stipt. 1409) bókahlaða og stiornuturn. Leipzig er hinn mesti verslunarstaðr einhverr á Þýðskalandi og eru þar 3 kaupstefnur lagðar á ári hverin; er þar þá bókasala mikil og sækia þángat nærhæsis 300 bókasellarar af öðrum löndum og stöðum, auk 45, er búa í borginni; óvíða eru svo mörg og mikil prentverk, sem þar.

I suðvestr frá Dresden er Freiberg (Freberga) þat er hinn merkasti bergstaðr í Saxa-ríki í grend við hvorn eru 175 málmanámur og eru þar 5000 bergmenn til verka

fettir; í stadnum er føgr dómkyrkia, bergverks skóli og dýrmætt málmtegunda og grafhluta safn.

Vestar er Kemnitz, þar eru verkstadir margir og bómullar-vodvirki. Í sudr þadan er Onnuberg (Annaberga) þar eru gódar silfr-námr og merkir kniplinga-verkstadir; sama má um Snæberg (Schneeberg; Nivemontium) segia, er liggr nokkut vestar.

Í austr frá Dresden er Bátzen, (Bautzen edr Budissin; Budissa) á stalli vid ána Spre; þat var fyrrum høfudstadr í Markgreifadæminu Lásitz.

Skamt þadan er Hóckkirkia (Hákyrkia; Hochkirchen) og sunnar er Zittá (Zittau, Zittavia) er gengr Leipzig nærst at kaupverslun í ríkinu. Millum sidstnefndra stada er þorpit Hernhutt, sunnan undir samnefndu stalli. Hinir mærisku brædur komu þángat farflótta 1722, keypt þá Zinzendorf greifi skióli yfir þá og leysdi þeim at reisa bæ þenna á sínu landi; vóru þeir sidan kéndir vid bæinn; hafa afkomendr þeirra tekit sér allvída bólfestu og hvervetna verit rádvandir og gudræknir idiumenn.

Í landinu er heilnæmt lopslag og þægilig vedurátt, en í fiallbygdunum hit sydra er nokkut kulsamt. Þvínær allskonar málmar, hálfmálmar og steinategundir finnast í landi þessu. Sidan Saxar afstódu Prussum saltverk sín, brestr þá salt. Í Málmgrøfum starfa 12000 manns án afláts; koma þadan árliga 375 vættir silfurs, 100,000 vættir járns og 12,500

vættir blýs. Þar vex og allskonar korn, vín, (best við Meißen) tóbak, humall, hampr, o. s. frv; góð er þar fiárrækt og hrossa afli, arðsöm nautpeníngsrækt, einkum í Erzfialla-bygðum; þar eru og villidýr mörg, góð bíflugnarækt og allarðsamt perlufáng í ánni, hvítu Elster.

Innbúar landsins eru 1 millión og 200,000 at tölu; eru þeir bæði þióðverskir og af Vindum komnir (í Láfitz).

Bæði vefnaðar- og aðrir verk-staðir og smiðiur eru ágiætar í landi þessu og porcelans-verkin hin bestu í Evrópa; en í silki-vefnaði brestr Saxa á við ýmsar aðrar þióðir; þar-ámóti eru þar 300 prentverk, og mun þat dæmafátt í ekki stærra landi.

Skipaferðir á Elsunni greiða kaupskap, en ógreiðsærir þióðvegir tálma hönum; auk klæða, líns og bómullar-dúka, kniplínga, porcelans og málma selia Saxar mikin fiölda bóka til annara landa.

Á öndverðri tíð siðabótarinnar hófst í þessu landi Lúthersk trú og hefir hún síðan trúliga haldin verit; konúngr játar kathólskan átrúnað. Þaradauki eru þar kathólskir í Láfitz, fáir Reformeraðir, Hernhuttingar, Qvækarar, Methódistar, Grikkir og Júðar — og búa þessir þrennir fyrst nefndu trúmenn við somu kosti í andligum og veraldligum efnum.

Í landi þessu standa vísindi og listir með sögrum blóma. Þar er 1 þióðskóli, ýmsir háskolar og latínu skólar samt lista-háskóli í Dresden.

Stiórnendr landsins eru konúngar ættbornir til ríkis; nú ræðr því kóngr sá er Fridrikr

August heitir *), hann er góðr höfðingi og ástsæll af allri alþýðu. 18 vetra er kóngsefni fullaldra til ríkisstiórnar og hefir hann fullt veldi í borgaraligum og hermannligum efnum; þó ráða stændinn nokkut vald hans; þau koma saman 6ta hvert ár.

Her Saxa konúngs var 1816 20,000, en nú 8,000, auk þióðvega varnarliðs.

## III. Hannófra-ríki (Hannovera).

Ríki þetta liggr imillum 51° 20′ og 53° 50′ n. br. og fyrir norðan Prússakóngs landeignir og Hessen, fyrir austan Niðrlanda-ríki; fyrir vestan Brúnsvík, en at norðanverðu er Micklenborg og Lánenborg, Holsetuland, Norðursiór og Aldinborg.

Landit er víðast flatt; þit syðra er þat nokkut fiöllótt og skógivaxit, (nl. Harzen, sem fyrr segir); norðast eru Marsklönd lág og upp af þeim hálendara, og í miðiu landinu heiði, er Lúnaborgarheiði kallast.

At norðaustr takmörkum landsins rennr Elfan (Saxelfr) í hana fellr Ilmená úr suðri, Jetze og st Vestar fellr Vesará í útnorðr, í Norðrsió, í hana falla Aller, Leine og Ocker

*) Hans fulla nafn er Joseph Maria Anton Johann Nepomuk Aloys Franz Xaver; hann er fæddr 1750 og réð sem kiörfursti fyri landinu frá 1763 til 11ta Dec. 1806, þá hann fekk konúngs nafnbót.

og áin Ems fellr í útnordr í flörd þann, er Dollart heitir; hann hverfr inní landit millum Austfríslands og nordasta hluta Nidurlanda er Græningialand (Grönningen) heitir. Hann vard fyrst til 1287, þá nordrsiórinn geck á land upp og braut landit; þá vóru þar 50 bæir og þorp. At austanverdu skýtr smámsaman hafsbotni upp og verdr þurt land.

Rikit samanstendr af 13 landspörtum, nl. af 7 furstadæmum, sem kénd eru vid: Kalenberg, Gætting, Lunaborg, Hildisheim, Ósnabrygginu, Ferduborg og Austr-Frísland; af 1 Hertugadæmi, kéndu vid Brima; af 3 Greifadæmum, sem kénd eru vid: Bertheim, Hoya og Dípholß; af nedra Greifadæminu Lingen og af nokkrum hluta furstadæmis þess, sem Munstr er kallat.

Þar eru allmargar merkar borgir og kaupstadir, medal þeirra er:

Hannsfra syrr. Hábrúnarborg (Hannover; Hanovera) á fløt vid ána Leine; þat er velbygdr høfudstadr í landi þessu; þar er fagr hofgardr og 20,000 innbúar.

Skamt þadan eru tvø Lystislot, Montbrillant og Herrahus (Herrenhausen); þar sprettr vatnsbuna 60 álnir í lopt upp; er þat ságiætt mannaverk. Í útsudr þadan er Hameln vid Vesará; þat var syrr. festing.

Í hásudr þadan er Giøttingen vid

ána Leine; þar er einhvør hinn frægasti þióð-skóli (Georgia Augusta) i heimi, er á bóka-hlødu mikla (280,000 bind.) almikit kiørgrip-asafn, stiørnuturn, urtagard, o. s. frv.; þar nema iafnadarliga 11 til 12 hundrud úngmenni fródleik og mentir. Bøarmenn eru 9500 at tolu.

Vestar er Munduborg, (Münden) vid ármót Fuldu og Werru. Klausdalr (Clausthal) er merkastr bergstadr á Harzfialli; þar eru margar silfr-námr og myntstedi, og skamt þadan Cellerfeld, bergstadr, og Andreasberg, hin audgasta silfr-náma í tedri fiallbygd.

Í Laudnordr frá Hannofra er Lunaborg (Lüneburg) vid Ilmená; þar er háskóli fyrir Adalsmenn, einka nafntogud saltnáma og heim-ili 10,000 innbúa.

Sunnar er Celle vid Aller, þar'er hædsti réttr haldinn, og hofgardr; þar sat Carólína Mat-thildr drottníng frá 1772—1775. Gagnvart Hamborg er Harborg, þat ei er allítit kauptún.

Í sudr frá Hannofra er Hildisheimr, (Hildesia) fornfáligr stadr, þar er gømul dóm-kyrkia og háskóli (Andreanum) og 12000 inn-búar. Í Landsudr þadan er Goslar, (Goslaria) þar er markverd dómkyrkia og nær 6000 innb.

Í vestr frá Hannofra er Osnabryggia (Osnabrück; Osnabrugum) í dalverpi nokkru; þar er erkibiskupsstóll, konúngsgardr og ráð-

hús, í hverju hin vestpalska sáttargiörd var samin 1648, — og 9000 innbúar.

Þessi stadr og Munstr vóru áqvednir til sattarstefnunnar, er byriadi 11ta Julii 1643 og lyktadi 30 ára styrioldina; samdi keisari vid Svía í hinni fyrri, en vid Frakka, í enni sídari borg.

Frá Hausfra í útnordr er Ferduborg (Verden; Verdia) vid Aller, á hverri er 400 skrefa laung brú. Sunnar er Nýaborg (Nienburg) vid Vesará, litill stadr víggirdtr í greifadœminu Hoya.

Í Austr-Frislandi er Emden (Emda) vid ósa Ems-ár; þar er mikill kaupskapr, ardsamt sildarfáng, og 12000 innb. Skamt þadan er:

Aurick, (Auricum) vid síki skipfært, er gengr frá Ems-á. Austr med strønd lands þessa (Kinlimasidu) liggia eyar nokkrar í rød; er á þeim øllum miøg hætt vid hafs ýfirgángi, medal þeirra er Börkum; á henni er vita-eldr.

Í Landnordr frá Brimum er Stødu-borg eda Stadir (Stade; Stada v. Statio), í Marsklandi; hún er víggirdt og heimili þeirra, er hafa mannaforrád í Brímum og Ferduborg.

Í vestr hluta ríkisins liggia: Bentheimr (Benthemium) skamt þadan er heilnæmislind; Diphols og Lingen (Lingo) í samnefndum Greifadœmum, samt Meppen og Pappenborg í þeim hluta hertugadœmis þess, sem kennt er vid Munstr, og liggr undir þetta ríki.

Í landi þessu er temprat loptslag og

viðast aðheilnæmt; hit nyrdra á láglendinu er hráslagi og optsinnis þoka; hit syðra í fjallbygðunum kulsamt og ástundum napurt vedr. Víða er landit frjófsamt, og mørgum giædum búit í jörð og á; þar er silfr, járn, kopar, bly, marmari, alabastr, myllusteinar, brennusteinn, steinkol, ágiætt salt (einkum frá Lunaborg 162,500 vættir árl.); allskonar korn, vidr, pottaska, hampr. humall, tóbak. — Nautpeníngr mikill og hestar (einkum í Austr-Frislandi) sauðfé, geitr, svín, villidyr, o. s. fr. — Landslýdrinn er 1 millión og 300,000 at tølu, og er allr þorri sá, er mælir platþýdsku. Í tilliti til handidna og smída brestr landsbúa á vid adra þýdska; þó eru þar lerepta- ullar- og bómullar- og segldúks-vefstædi ásamt járn- og koparsmidium. Þar er kaupverslun mikil, er gódir þjóðvegir og skipfær fljót, á hvørium dampskip eru í førum, giøra greidiliga. Hin lutherska trú er þar í løg leidd; þó hafa kathólskir, reformeradir og Júdar asamt Mennonítum þar fullt trúarbragda frelsi. Vísindi standa þar í blóma; er þar 1 nafntogadr þjódskóli, allmargir skólar og kóngl. vísinda félag; en harddæmi um útgengnar bækur er þar í løg leidt. Í lánga æfi réd fyrir þessu landi, er þá var kallat Kiørfurstadæmi, einn ættleggr, madr af manni, unz Georg Ludvík kiørfursti 1714 tók kóngdóm í Englandi, frá hvørium Englakóngar eru komnir, er sídan hafa verit høfdíngiar yfir landinu (utan frá 1806 til 1814 þá Frakkakeisari jók med því ríki sitt og var þat þá nokkr hluti Vestpals-

rikis). Konúngsveldit er takmarkat í rikinu og eru þar karllinur og frumburdar-erfdir løgteknar; í tillíti til lagasetninga og skattgildinga hafa landss- eda rikisstendinn mikit atqvædi; þau koma saman í Hanosraborg. Yfir landit hefir konúngr settan jarl (Generalgouverneur) og er hann forseti í ríkisrádi því, er gengr honum til handa í rikisstiórninni. Þar er herþat lid, 20,000 at tølu.

## IV. Vurtenbergsríki (Kongeriget Würtemberg; Würtembergia).

Þennan sudvestlæga hluta Þýdverskulands, ásamt med stórhertugadæminu Baden, køllndu menn á fornøldum Svafaríki. Landit liggr imillum 47° 40' og 49° 40' n. br. og fyrir austan Baden og vestan Bæaraland, en fyrir nordan þat eru téd lønd ásøst og at sunnanverdu nær þat, sem þau, til Bodensiáfar. Þat er 348 ferh. m. at stærd og er þat og Saxaríki hin minnsta kóngaríki í þessum símtúngi heims.

Landit er fiøllótt; Svafaskógr eda Myrkvidr (Schwarzwald) gengr frá Porzheimi í sudr, á vestri takmørkum þess, því nær til Basel, og fiall þat er Alp (die rauhe Alp) heitir, 12 milr í landnordr frá Elsingu til Kóngsbrunns.

Dunn rennur um þveran sydri hluta landsins, en er þar ei skipfær; er því á sú er

Neckar (Nicerus) kallast, hin merkasta á í landinu; upptök hennar eru nálægt Dunnar uppsprettum, rennr hún krókótt í útnorðr og fellr loks við Mannheim í Riná.

Rikit er greint í 4 kredslønd (Kredse) sem kénd eru við: Neckar, Svafaskog Jaxt og Dunn. Þar er:

Stuttgardr (Stuttgart) høfudborg, kóngsatsetr og heimili stiórnarrádanna, og 24,000 innbúa; borgin stendr í inndælu héradi og nærhæstis midtlands og er hún hvervetna umkringd af føgrum og vínvidi-voxnum hædum; þar er forn hofgardr med 4 sívølum turnum og annar nýr, lystispilahús, eitthvert hit mesta á Þýdskalandi, konúngl. bókahlada (150,000 bindini hvaramedal 12000 bibliur og er eingi þeirra sem ønnr) háskóli og ymisligir skólar fyri vísindamenn og hermenn. Kannstadr (Cannstadt) vid Neckará, er hún verdr skipfær. Þar er heilnæmislind.

Hverugr þessara stada heyra ádr nefndum kredslondum eda fylkium til.

Fyrir sunnan Stuttgard er Tybingr, (Tübingen) vid sømu á; þat er ei fagr stadr; þar er þiódskóli og háskóli (Collegium illustre) fyrir fródleik stundandi prinsa. 6000 innbúar; og Rautlingr (Reutlingen) bádir í sudvestr hluta landsins; en fyrir nordan høfudborg-

ina er Lodvigsborg (Ludvigsburg) bygd andverdliga á 18 öld; þar er skrautligr hofgardr, hvar kóngr sitr laungum. A háu fialli stendr forn hofgardr er Würtenberg heitir; við hvørn Ríkit er kéunt; þat var um lánga æfi adalból vidkéndra hertuga í landi þessu. Nordar við sömu á stendr Heilbrunnr (Heilbronna) í inndælu héradi; þar er gautsk kyrkia; við altari litit í henni vellr upp vatn og verdr mikill brunnr, af hvørium menn segia stadrinn hafi nafn tekit; þar eru 6000 innb. Í nordaustr hluta ríkisins er Ellvángr (Ellwangen) við Jaxt og Svafa-Høll (Schwabish Hall; Hala Svevorum) í allføgru héradi; þar er saltverk mikit er gésr árl. af sér 100,000 vættir salts. Í sudr þadan er rammliga víggirdtr stadr er Gmund (Gemunda) heitir og Mergentheimr, í dal nordarlega í landinu; þar var heimili hermeistara enna þýdsku riddara, eptir at þeir høfdu látit Prussaland. Øringr, (Öehringen) í landnordr frá Heilbrunni, er høfudstadr í Furstadæminu Hohenló (34 f. m. á stærd), er ýmsir høfdingiar eiga hlut í.

Í Landsudri frá Stuttgardi, er Ulm (Ulma) á sløtum við Dunn, sem þar verdr slipfær og er 100 skrefa á breidd; borginn er allmikil, en fornfálig og litt víggirdt; þar er háreist og veglig dómkyrkia, bygd á gautska vísu, og einhvørt hit mesta musteri á Þýdska-

landi, *) þar eru 15000 innbúar, — og Biberack (Biberacum) þat er þióðskáldit Wieland fæddr.

Eptir konúngsboði hafa 7 af nefndum borgum, nl. Stuttgardr, Loðvíksborg, Tybíngr, Ellvángr, Ulm, Heilbrunnr og Reilingr feingit þat auknefni: þeir góðu staðir.

Víðast er hlýligt og heilnæmt veðráttufar í landi þessu; en kulsamt er í fiallbygðunum, og vetr lángr og strángr. Allauðug eru þar øll náttúruríki; þar er kopar, járn, fagr marmari, mylnusteinar, pórcelanjørð, steinkol, málmdámut vøtn, gnægð korns, hamvr mikill í fiallbygðunum, þvínær hvervetna vín, (Neckarvinit) ógrynni ávaxta, viðr mikill; auk almennustu heimdýra, eru þar villidýr mørg og villigeltir, er giøra bændum mikinn skaða.

Innbúar landsins eru nærhæsis 1 millión og 400,000 at tølu. Vodvirki þeirra og verksmiðiur eru at vísu fáar, en allgoðar; arðsamast er þeim kopar-smiði, lerepta-vefnaðr og brennivíns brensla. Fiallabúar eru vel hagir á tré og giøra Svafaskógdælir mikinn fiølda sigurverka af tré árliga og bursta. Ei er kaupskapr mikill í landi þessu, né kaupeyrir landsmanna tágiætr í øðrum løndum; þó flytst ærin skipa-viðr þaðan til Hollands. Herumbil 960,000 af landbúum játa Lútherskan kristindóm, eru yfir þá 6 biskupar settir (Gene-

*) Hún er 208 álnir á lengd, 83 á breidd og 76 á hæð með 168 álna háum turni. Í orgaminu eru nær 3000 hlióðpípr.

ralsuperintendenter) og nærhæfis 430,000 kaþólskan; aðrir eru Reformeraðir og Júðar at trú. Menn iðka vísindi í einum þióðskóla, og allmörgum minni lærðóms skólum; þar eru og íþrótta skólar í ýmsum stöðum. Ei er bóka atsiuðni (Bogcensur) svo straung þar sem í Hanosfra-ríki. Heimilt er þar at lögum, at endrprenta bækur.

Ríki þetta er einvaldsdæmi, með takmörkuðu veldi, og gánga þar konúngar til ríkis at réttum karllínu- og frumburðar-erfðum, og skulu þeir vera fullra 18 vetra, er þeir taka kóngdóm. Stöndinn setia lög með kóngi og áqveða álög. Herinn er 16,000 manna; auk þeirra, er standa vörð og veria þióðvegi og stöðva óróa, sem í Saxa-ríki.

## V. Kiörfurstadæmit Hessen (Hassia).

Þat liggr ímillum Prússalands, Hanosfraríkis, Saxaríkis, Bæaralands, og Hessen-Darm, staðar Landa-eigna, þat er 205 ferh. m. á stærð. Í Landinu eru allvíða fiöll medal, hværra er studlaberg þat, er Meisnir kallast; þar eru 5 ár nl. Myn, Fulda, Verra, Eder, (í henni finnast gullgrön) og Lan. þar er:

Kassel (Cassula, Casellæ), er höfuðstaðr og atsetr kiörfurstans, báðumegin við Fuldu. (þat var höfuðborg í Vestpa a-ríki, meðan þat stóð) þar eru allmargar skrautligar byggíngar, t. d. hofgarðr kiörfursta, veglig

kathólsk dómkyrkia, stiornuturn, lystispilahús og tvø ønnr slot; þar er háskóli, listaskóli og visindafélag; 18,500 innb.

Hálfadra mílu frá Kassel er lystigardr, er Vilhialmshœd edr Veißenstein heitir og stall þat er Karlsberg kallast, þar er fors nafnkendr; uppá fiallstindinum stendr áttkantat steinhús, 224 fóta at þvermáli og med flatu þaki, á því stendr uppdreginn turn edr strókr (48 álnir á hœd) og upp á honum líkneski Herkulis af kopar (21 álnir á hœd) er hefir kylfu í hendi svo feikiliga mikla, at 6 eda 7 menn géta í henni rúmast.

Í útsudr þadan er Marborg, høfudstadr vid ána Lan, þar er þiódskóli, stipt. 1527 og allmikil bókahlada.

Í Elizabetar-kyrkiu er legstadr ennar helgu Elizabetar, er mindisvardi hennar þar af gyltu silfri, setr perlum og edalsteinum. Ímillum tédra borga, þó nær Kassel er.

Frizlar vid ána Eder og í sudr þadan Hersfeld, fornfáligr stadr med háskóla, vid Fuldu, bádir í samnefndinni furstadœmum. Í landsudr þadan er Fulda (Fulda) vid samnefnda á og í vidkéndu stórhertugadœmi; þar var biskupsstóll; er þar enn biskupsgardr mikill og veglig dómkyrkia; í henni hvílir hinn helgi Bonifacius, Þýdskalands postuli. Í útsudr frá Fuldu og á flotum vid Mýn, stendr Haná (Hanau, fyrr. Hagenau) høfudstadr í vidkéndu greifadœmi; þar er mikill hofgardr, dómkyrkia med skeifum turni, háskóli og margir verkstadir og 12000 innbúar. Í landsudr frá Kassel er Smalkald (Schmalkalden;

Schmalcaldia), þat er merkt verkſmiðaſtaðr í Henneberſgs greifadæmi og undir ſtallsrótum Thuringsſkógs; hann er fornfáligr at ſmíð, n umgirðr tvennum múrveggjum; þar er ſlot, er Heſsahof kallaſt, og ſkamt frá ſtaðnum annat, er Vilhiálmsborg heitir. Arðſamaſta atvinnuveg bæarmanna, ſem eru 5500 at tølu, má telia ſaltverk allmikit; þaðan kémr árl. 20,000 vættir ſalts. Þar hóíſt ſamfélag Proteſtanta móti Þýðſkalands keiſara og ødrum ſiðabótarinnar ſtandmønnum 1531. Í greifadæminu Skáenborg er Rinteln (Rintelium) høfuðſtaðr við Veſará, í útſuðr frá Hanoſraborg.

Loptslagit í landi þeſsu er heilnæmt og temprat; þar eru ſkógar miklir og góðir og járnnámur. Innbúar landſins eru hérumbil 560,000 at tølu og játar allr þorri þeirra hinn reformerada kriſtindóm; arðſamaſti kaupeyrir þeirra eru lérepti. Nú ræðr fyrir ríki þeſsu høfðingi ſá er Vilhiálmr hinn 1ti heitir, er hann Kiørfurſti at nafnbót og er hann þar einvaldsherra; þó takmarka landſtønd nokkr veldi hans. Herinn er 10,000 vígra manna.

## VI. Stórhertugadæmit Baden.

Þat liggr við Rínå auſtanverða frá Baſel til Worms norðr; fyrir norðan þat er Heſsen-Darmſtadt og Bæara-ríki, Wurtenborg fyrir auſtan, en Bódenſær og Rín fyrir ſunn-

an, en at vestanverdu skilr Rín þat og Frakkaveldi. Ríki þetta er 272 ferh. m. at stærd; er þat vidast flatlendt, utan hit eystra, hvar Svafaskógs fiallbygd deilist í margar greinir; eru þar dalir allmargir, medal hverra er hinn fagri Murgdalr, 12 milr at lengd. Auk Rínar, eru þar 4 ár, nl. Kinzig, Murg, Salzbakk og Neckar, rénna þær allar í Rín. Fyrir utan Bodensió, er þar stöduvatn, er Eickensiór kallast; hönum er vidlika varit og Cirknitzsió, í Austrríki.

Ríki þetta er greint i 9 fylki (Kredse); eru þar allmargar merkar borgir, medal hverra teliast: Karlsró (Carlsruhe; Hesychia Carolina), þat er höfudborg og heimili landshöfdingia og stiórnarráda; hún er fögr og vendiliga bygd (1715), þar er snotr hofgardr i midri borginni, og ligg'a 32 lystigángar ímillum fagurra triáraða, sinn í hverja heimsátt, útfrá hönum og jafnsídis med 9 höfudstrætum borgarinnar, svo yfir hana má siá alla frá hofgardinum; í hönum er allmikil bókahlada. Þar eru ýmsir lærdóms-skólar og 15000 innbúar.

Skamt þadan er Durlack (Durlacum) þar er slot, er Karlsborg heitir; var þat fyrr atsetr hinna badensku markgreifa. — Í landsudr þadan er Porzheimr (Pforcenum) þar

eru verkstadir flestir og mestir í þessu ríki. Fyri nordan Durlack er Bruksalir (Bruchsal.) fagr stadr; þar er saltverk og biskupsstóll. Brettén vid ána Salsbach; þar er hinn vidfrægi Philipp Melanchton fæddr 16da Febr. 1497 (hann deydi í Wittenbergi 19da Aprilis 1560.) Philippsborg var fyrrum ríkisfesting, vid Rín; hún hét til forna Udenheimr, en Spirueborgar biskup, er sat þar um skríd, helgadi hana Philippi Postula og breytti því nafninu.

Nordar er Heidelberg, (Heidelberga) í inndælu héradi vid Neckar-á, (á hvørri er steinbrú, 351 álnir á lengd og med 9 steinbogum.) Þar er frægr þjódskóli, stipt. 1386 med allmiklu bókasafni, og meniar af skrautligu sloti (det store heidelbergske Viinfad) er braun 1764, Heilagsanda kyrkia, í henni vardr veittist nafntogat bókasafn, er 1622 var sendt til Rómaborgar. Merkr fiallvegr liggr þadan til Darmstadar, er Rómveriar fyrst hófu at leggia. Þar eru 10,000 innbúar. Í útnordr þadan er Mannheimr (Manheimium) í mýrlendi vid samkomur Rínar og Neckars; þat er annat atsetr Stórhertugans og er þat fagurt og skipuliga bygt og var til forna víggirt; þar eru margar háreistar byggingar og skodunarverdir hlutir; vid ána Neckar er þar nafnkéndr bleikingarstadr. Þar eru 19,000 innbúar.

Nordast í ríkinu er Wertheimr við ána Myn, þaðan kémr Wertheimsvín. Fyrir sunnan Dúrlack er Rastadr (Rastadium) þar er forkunnar skrautligr hofgarðr og 5000 innb. (þar var friðr giörr 1714 og sáttarstefna 1797—98 er kom fyrir lítit). Sunnar er Baden (Badena, Thermæ inferiores) nálægt Svafaskógi; þar eru nafntogaðar laugar. Í hofgarði í stað þessum segia menn at hinn heimugligi réttr hafi haldit samkomr sínar.

Sunnar er Fríborg (Freiburg; Friburgum) við Svafaskóg, í forkunnar fögru héraði; hún er bygð 1118 af Berckthold, hertuga af Zaringi; þar er kaþólískr þióðskóli, stipt. 1454 með allmikilli bókahlöðu, dómkyrkia reisuglig og veglig, bygð á gautskan hátt með turni, áþeckum Munsturstúrni í Strasborg, 513 feta á hæð. Þar eru 10,000 innbúar. Við Rín er staðr sá, er Breisack eðr Gamla-Breisack (Brisacum) heitir, gagnvart Nýa Breisacki í Fránkaríki; þat var fyrr. ágiætr kastali, er víða finnst getit í sögum.

Syðst í landinu eðr í Sæsylki er Constanz eðr Costnitz (Constantia) í allfögru héraði við Bódensiö; þar er markverð dómkyrkia (beatissimæ virginis natæ); þar var frá 1514 til 1518 haldinn allsheriar-kyrkiufundr og vóru þeir Johannes Hús og Hieronymus frá Prag brendir sitt árit hvor á fundinum.

Uberling (Uberlinga) við viðkendan

hluta Bódensiáfar, í hvörium er inndæl ey er Meiná (Meinau) heitir og tengd er megins landi med brú; Billing (Villinga) nordar, í dal í Svafaskógi; Dónárfking (Donaueschingen) þar koma 3 smá-ár saman, er Dúnn verdr af.

Í landi þessu er þýdvidri og heilnæmt loptslag. Landskostir og kaupeyrir innbúa eru at mestu leyti hin sömu og í ödrum ríkium Sudr-Þýdskalands; þar er gnægd víns og vidar og mikil veidi í Rín. Landslýdrinn er nærhæsis 1 millión at tölu; þridiúngr hans er annattveggia lútherskr at trú eda reformeradr; en hinir 2 partar katholskir. Hverki eru þar vodvirki né verkstadir margir né merkir, ei heldr kaupskapr mikill. Auk tveggia þiódskóla eru þar allmargir skólar til lærdóms frama og almennings uppfrædingar. Ríkit er einvaldsdæmi og rædr því nú Stórhertugi, Karl Lodvík Fridrikr af nafni; veldi hans rira landsstönd nokkr og er þat arstækt eptir karl-línu og frumburdar-erfdum. Herlid hans er 12000 vígra manna.

## VII. Stórhertugadæmit Luxenborg.

Því skal sídar lýsa, þá um Nidrlönd verdr rædt.

## VIII. Stórhertugadæmit Hessen-Darmstadt.

Umhverfis þat liggia þessi lönd: Kierhessen, Bæaraland, Baden, Nidrrín- og

Nassá; þat er 170 ferh. m. at stærd; þar eru bædi fiöll, (medal hvørra Malkes, 1800 fóta at hæd, er stalla hærst) og slatlendi; blidt loptslag er þar og frióssamr jardvegr. Rínár markar ríki þessu takmørk hit vestra og renna þar í hana Nahe, Myn, Nidda og Lahn.

Stórhertugadæmit skiptist i 3 fylki; þar eru þessir stadir merkastir: Darmstadr (Darmstadt; Darmstadium) á sendum i sydri hluta ríkisins; þat er atseturstadr landshøfdingians og 18000 innbúa; þar er hofgardr, fornþinga- og náttúru-gripa-búr, bókahlada og gledihús. Í landnordr þadan er Gissa (Giessen; Giessa) vid ána Lahn; þar er þiódskóli, stipt. 1607, gamall hofgardr og 8000 innbúar.

Sunnar er Fridberg i grend vid samnefnt slot. Offenbacki i fegru héradi vid Myn, ei lángt frá Frakkafurdu; þar er hofgardr, vandadr miøg at allri smíd og nafnkéndir verkstadir og 9000 innbúar.

Vid Rín vestanverda stendr Magunziuborg eda Maginz, einnin kollud Meginzu- Maginz-, Moseonciu-borg (Mainz; Moguntia v. Moguntiacum); þat er mikil borg og nafnkunn en víða skrautlig; hun er umgirdt allumegin afarmiklum og ramligum varnarvirkium og er borgarstadit likt hálfmána i legunn; á Rín er þar skipabryggia, 2100 fóta at lengd, til sterks kastala

fyrir handan ána, er Kassel edr Kastel heitir; í henni eru 11 kyrkiur, 27 torg, 1 há-skóli med bókahlødu (90,000 bindini) og mörg-um rómverskum forngripum, fríhøfn og mikil kaupverslun med vínsaung. Borgin er hydsk handamannafesting og eru þar til varnar settir austrrikskar, prússiskar og hessiskar hersveitir. Borgarlýdrinn er 25,000 at tølu.

Skamt þadan eru leifar af rómverskri vatnsveiting. Í borg þessari uppsundu menn bókþrykkiara-íþróttina 1436. Á kletti í Rín steudr turn, sem kalladr er Músaturn. Sunn-ar og skamt fyrir vestan Rín, er Worms (Borgetomagus, Augusta Vangionum, Vormatia), þat er nafnkunnr stadr og umgirdtr múr-veggium og síkium; þar eru 6000 innbúar; þar þreytti Marteinn Luther kapprædur vid pápiska kénnimenn 1521 og var han þá fridlaus giørr.

Innbúar ríkis þessa eru 633,000 at tølu og eru þeir bædi lútherskir og katólskir at trú; þeir leggia sérílagi stund á lerepta- og línvefnad og skinnaverkun. Á Offenbakka er vagnasmídi mikit og koma þadan kérrur snill-iliga giørdar. Auk þiódskólans, frama ýmsir lærdómsskólar vísindi og mentir í ríkinu. Þar er ótakmarkat einvaldsstiórn í løg leidd og er landshøfdinginn, Lodvík hinn 1odi med því nafni, Stórhertugi at nafnbót; her hans, auk landvarnarlidsins, er 8000 manns.

## IX. Stórhertugadæmit Meklenborg.

Þat liggr lángsetis í austr og vestr við Eystra-salt sunnanverdt og fyrir vestan Pommern, fyri nordan Brandinaborg og Hanofra-riki og fyrir austan Lácnborg og Holsetuland. (Þar kölludu menn í fornöld Vestr-Vindland). Þat er 260 ferh. m. Þar er flatlendi og hvíst heidar, mýrar edr sádlönd; skógar eru þar og allmiklir og afargrüi tiarna og stöduvatna, medal hverra er Muritz- Razeborgar- og Skalsæir, — og ár þær, er Rekniz og Pene heita.

Stórhertugadæmit er deilt ímillum tveggia ættleggia, sem kéndir eru við Sverin og Strelitz.

a. Meklenborg-Sverin (224 ferh. m. at stærd) þat er vestri hluti ríkisins, er greinist í 6 smáfylki, sem kénd eru við höfudstadi í hveriu þeirra nl. Sverin, Vismar, Rostock, Varen, Gustroff og Parkim. Þar er Sverin (Schwerin; Suerinum) við vidkéndt stöduvatn, sem er 3 mílr á lengd; á eyu í því stendr hofgardr og heimili stórhertugans og er brú yfir sundit millum þess og bæarins; þar eru 10,000 innbúar.

Í útsudr þadan, við Saxelfr, er Boitzenborg; þar er spilagiörd allmikil og í útnordr þadan Gadebusk fyrr. nafnkendr stadr.

Við fiörd nokkurn af Eystra-salti stendr

Bismar, er í fornøld var í félagi Handsalsstada; þar er einhver hin besta høfn í Eystrasalti, — og 7600 innbúar. Í hinum vestphalska frid fèll stadr þessi í hlutkésti Svía, og var hann eign þeirra til 1804 þá Svíakóngr seldi hann Meklenborgar londsdrottni. — Á þeim tídum heriudu Danir opt og unnu stadinn.

Austar, vid fiørd af Eystra-salti, er Rostock eda Raudstok (Rostochium), þat er stadr mestr í þessu ríki; bæarmenn, sem eru 14,300 at tølu, reka mikinn kaupskap og hafa 150 skip í førum; þeir hafa sitt eigit stiórnarform, smiskonar einkarétt og mega mynta peninga; þar er þiódskóli, stipt. 1419 og Maríukyrkia; þar hvílir hinn frægi þiódvitringr Hugo Grotius; høfnin er vid Varnemynni; vestar er Doberan, þar eru sæbød, er margir sækia. Lodvikslyst, (Ludvigslust) vid ána Røgnitz þat er heimili stórhertugans og liggr þat vel.

Fyrir þessum hluta Meklenborgar rædr Fridrikr Franz stórhertugi, fæddr 1756.

b. Meklenborg-Strelitz (36 ferh. m. at stærd.); þat er eystri hluti Meklenborgar. Þar er Nýa Strelitz (Neu-Strelitz) vid Zirkssæ; stadr þessi er í løgun sem átthyrnd stiarna og liggia 8 stræti út frá torgi í midium stadnum sitt í hvøria átt. Þar er atsetr hertugans og 4400 innbúar.

Eina mílu þaðan er Forna-Strelitz (Alt-Strelitz) og austar Nya-Brandinaborg og Friðland, litlir staðir.

Í þessum hlutanum er stórhertugi sá, er Georg Friðrikr Karl, fæddr 1779 æðstr landshöfðíngi.

Loptslagit í Meklenborg er allblítt og heilnæmt; þó er þar hráslagi við Eystra-salt. Víðast er landit frjóssamt. Einkum er nautpeníngs-eldi og hesta-afli arðsamr landsmönnum, sem eru 428,000 at tölu og eru þeir allir lútherskir at trú. Ei eru handiðnir þeirra allmerkar; ullar- og lín-vodvirki eru þar einna bezt; kaupverslun er þar allmikil, einkum í Rostockl og Wismari. Hvat stjórnar-formit snertir, þá er þat einvaldsdæmi, takmarkat af landstendum. Herinn er hérumbil 4000 vígra manna.

## X. Stórhertugadæmit Aldinborg (Oldenburg; Oldenburgum).

Þat liggr millum Norðr-sjáfar og Hansstaða-ríkis. Þat er 117 f. m. at stærð. Þat er svo lágt, at menn hafa hlaðit garða við flæðarmálit, at ei gángi sjór á land upp. Vestrá rennr um landit og fellr í hana skipfær á, er Huntr heitir. Þar er;

Aldinborg (Oldenburgum) við Huntr, þat er höfuðstaðr, og heimili landshöfðíngjans;

þar er höfn, háskóli, sagt hofgardr og 5200 innbúar.

Í landsudr þadan er Delmenhorst, med 1800 innbúum. Jever (Jevera) í samnefndu herradæmi, er Rússa-keisari afstód Aldinbergar eignarmanni.

Í furstadæminu Lubeck (9 ferh. m. at stærd) er Evtin edr Utyna (Eltina) vid fiski-vatn nokkurt; þar er slot og latínuskóli bibliu-félag og 2400 innb. Furstadæmi þetta liggr fyrir nordan Lybeck edr í Holsetulandi austanverdu.

Vid litinn stad er furstadæmit Birkenfeld kennt, er liggr vid Rín vestanverda; þat afstódu Prússar 1817.

Alkurýrkia, qvikfjárrækt og hestaafli eru merkustu atvinnu-vegir landsmanna, sem eru lútherskir at trú og hérumbil 220,000 at tölu. Þeir eru idiumenn miklir og leggia einkum stund á línvefnat og spuna. Nú rædr fyrir ríki þessu hertugi sá, er Petr Fridrikr Vilhiálmr heitir, fæddr 1754 og er hann einvaldi þess; lid hans er 1650 vígra manna.

Í fornöld var Aldinborg greifadæmi og segia menn at greifar þar væru komnir af þeim nafntogada saxiska hershöfdingia Vittekind. Didrik greifi, hinn lukkuligi, jók med Delmenhorsti ríki sitt og sonr hans Kristián 1ti tók kóngdóm í Danmörku og eru Aldinbyrgingar frá hönum komnir; en bródir hans Gerhard og hans afkomendr ríktu þar unz sá ættleggr var aldauda 1667, erfdi þá Dana-konúngr greifadæminn. Árit 1773 afstód Kristián 7di þau í makaskiptum fyrir þann hluta Holsetulands, er Rússa-keisari átti.

## XI. Stórhertugadæmit Saxa-Weimar (Sachsen-Weimar).

Þat liggr millum Prússalandeigna og hinna saxisku hertugadæma, nærhæfis í Þýdskalandi midiu — og er 66 ferh. m. at stærd, tekr þat nafn af allmiklum stad er Weimar, (Vimaria) heitir; þat er høfudstadr í þessu ríki og atsetr Stórhertugans; þar er skrautligr hofgardr, med bókahlødu (100,000 bindini), háskóli og nafnkunnugt landkorta-prentverk, — og 10,000 innbúar. Belvedere er lystigardr Stórhertuga, skamt frá stadnum.

I Weimar hafa ymsir af Þýdsklands frægasta þiódskáldum búit t. d. Schiller, Gøthe, Wieland, Herder og fl.

Jena stendr í dal vid Sale; þar er vidfrægr þiódskóli, stipt. 1548 og heimili 5500 innbúa. Ilmenå, (Ilmenavia) med 2000 innbúum; þar eru verkstadir margir.

I furstadæminu Eisenack (20 ferh. m.) er stadrinn Eisenack, (Isenachum); hann er stada mestr at verti í þessu ríki, med 8200 innbúum; þar er háskóli, bókahlada mikil og merkir verkstadir. Skamt þadan er forn stallkastali, er Wartborg heitir; þar sat Luther í haldi, á laun vid papiska, frá Maii mánudi 1521 til Martii mánadar 1522.

Innbúar þessa ríkis eru 193,000 at tølu og játar mestr þorri þeirra hinn lútherska kristindóm. Stórhertuginn, Karl August at nafni, er þar einvaldi, þó rira lands stend makt hans. Lit er 1600 vígra manna.

## XII. Hertugadæmit Saxa-Góta (Sachsen Gotha).

Fyrir austan og vestan Weimar, þat er 55 ferh. m. at stærd. Þar er Góta, (Gotha) höfudstadr og heimili hertugans, vid ána Leine og fyrir vestan Herfurdu; í nánd vid stadinn stendr hofgardr (Friedenstein) þar er bóka-hlada mikil og kostuligt myntasafn. Í Gota eru 12000 innbúar. Skamt þadan er Seeberg (Stónarhóll), þar stendr hinn ernstiſki stiörnu-turn.

Vid stadinn Altenberga má líta eptirstödvar af enni fyrstu kyrkiu, er menn reistu í Turingi og Bonifacius, þýdska-postuli, fullgiördi 724—45.

Altenborg í samnefndu furstadæmi, er allmikill stadr med 9600 innbúum; þar er há-skóli og bókasafn mikit.

Innbúar hertugadæmis þessa eru 190,000, at tölu og játa þeir flestir lútherska trú. Einn er þar ædstr landshöfdingi, og er hann hertugi at nafnbót, August Emil Leopold at nafni, þó ráda landstendinn veldi hans. Her hans er 2500 vigra manna.

## XIII. Hertugadæmit Saxa-Meiníng.

Þat er 18 ferh. m. at stærd; þat skiptist í svokallat undirlendi og yfirlendi. Meinúng (Meinungen) er höfudstadr og hertuga-heim-

ili, vid Werra, í fyrrnefndum landsparti; þar er hofgardr, er Elizabetarborg heitir, nokkurs-konar háskóli og 4500 innb.

Salzúng, þar er saltverk mikit. Í sídstédum landsparti, sem einnin er kendr vid Kóborg, er Sunnuborg (Sonnenborg) þadan og frá nábygdinni flytst margskonar vsrusmidi af tré, járni, piátri o. s. fr. (Sonnenburger-Varer). Lydrinn er lútherskr at trú, og 56,000 at tölu. Veldi hertugans, er Bernhardr heitir, er med líkum hætti og ens sídstalda. Lid hans er 300 at tölu.

## XIV. Hertugadæmit Saxa-Kóborg-Salfeld.

Þat er, ásamt landsparti nokkrum fyrir vestan Rín, 26 ferh. m. á stærd. Þar er Kóborg (Coburg) höfudstadr og hertuga-heimili, í dal vid ána Itz; þar er hofgardr háskóli (Gymnasium illustre ɔ: Casimirianum) a bókahlodr og stiørnuturn. Skamt þadan er samnefndr kastali og allmikit hertyhús.

Nordar er Salfeld (Saalfeld) vid ána Sale; þar eru 2 slot, 1 háskóli og 3700 innbúar. Innbyggiar hertugadæmis þessa eru 82,000 at tölu, allir lútherskir at trú. Fyrir því rædr hertugi, Ernst Karl Lodvik Anton at nafni; lid hans er 800 manns.

## XV. Hertugadæmit Saxa-Hildborgarhús.

Þat er 11 ferh. m. at stærð og liggr við Thúríngsskóg sunnanverðan. Þar er Hildborgarhus (Hildburghausen; Hiltpershusia) hǫfuðstaðr og hertuga-setr, við Werra; þat er skrautligr og velbygðr býr með 4000 innb.

Mestr þorri lýðsins í hertugadæmi þessu er lútherskr at trú; en allr er hann 33,000 at tǫlu; fyrir því ræðr hertugi, Fridrikr at nafni, er hefir 100 hermanna.

## XVI. Hertugadæmit Brúnsvík-Volfenbuttel.

(51° 38′ og 52° 32 n. br.) Þat liggr ímillum Prússaveldis landa á Saxlandi enu forna og Hanofra-ríkis. Þat er 72 ferh. m. at stærð. Nyrðri hluti þess er slatlendr; en hit syðra er nokkr hluti Harzskógar og Sollíngsskógr. Þar eru merkastar ár Vesará, Ocker og Leine. Þar er:

Brúnsvík (Brunsvig, Brunsvicum) hǫfuðstaðr og hertuga-setr, á sléttlendi við Ocker, er rennr í kvíslum í gégnum staðinn; á miðri alda-æfi var þat mikill kaupstaðr og taldist þá á meðal Handsalsstaða; þar er hofgarðr (hit gráa hof), forn furstaligt slot og

fyrir framan þat líon af kopar, er Heinrekr Líón lét giora 1116, Sti. Blasii dómkyrkia, bygd 1172 af tédum hǫfdíngia, (í hvorri hann hvílir med konu sinni Matthildi), rádstofa, lystisvilahús og hertýabúr, 2 háskólar og margir verkstadir; þar er kaupverslun mikil og 2 kaupstefnur (Messer) fiølsóktar á ári hveriu — og 30000 innb.

Þadan skutist lengi munngát þat, er Brúns-víkr-Mumme kalladist; var þat fyrr. meira í afhaldi enn nú á døgum. Þar uppfann Jørundr nokkr rokka 1534. Sunnar vid sømu á er:

Wolfenbuttel (Guelferbytum) þat er umgirdt borg í myrlendu héradi med 7000 innbúum; þar er slot, háskóli, allmikil bókahlada med merku bíblíusafni, í bygg-íngu útaf fyrir sig, þar er Lessings minnis-vardi. Fyrir austan Brúnsvík er Helmstadr (Helmstädt), þar var þiódskóli, stipt. 1576, sem nú er undir lok lidinn. Koníngslutter (Königslutter; Luttera regia) er í útnordr þadan; þar stód 1576 orrusta millum Kristians 4da og Tilly. Sydst í ríkinu er Blankenborg í vidkéndu furstadæmi; þar er forkunnar fagurt fiallslot. Skamt þadan er hinn svokalladi Diøflamúr (trøllahlød), þat er hrylliligt klett-abelti.

Innbúar hertugadæmis þessa eru 210,000 at tølu, og rækia þeir allir sidabót Lúthers. Einvaldr ríkis þessa er hertugi at nafnbót (Karl Fridrikr Augúst Wilhiálmr at nafni) og á hann þaradauki furstadæmit Oels í Slesíu; lid hans er 2000 vígra manna.

## XVII. Hertugadæmit Nassá (Nassau).

Jmillum 49° 59′ og 50° 50′ n. br. Þat liggr vid Rín austanverda og fyrir nordan Darmstadar stórhertugadæmi. Þat er 110 f. m.

Visbad (Visbada) í føgru héradi milli fjalla; þar eru 14 málmdámadir brunnar edr ølkeldr og 25 badhús og 5000 innbúar. Nordar er Nassá med 1500 innbúum. J landnordr þadan eru: Limborg vid Lan og Dillenborg vid ána Dill. Vid þorpin Hochheim og Johannisberg er vínyrkia best á Þýdskalandi.

Lýdrinn í hertugadæmi þessu er 30 000 at tølu; hann er bædi kathólskr og lútherskr at trú og eru jafnmargir af hverium. Rikinu rædr hertugi (Vilhiálmr Georg Agúst Henrik at nafni) og er her hans 3000. J riki þessu eru margar laugar og ølkeldr.

J 6 sidstøldum hertugadæmunum eru veldisstønd (Landstænder) tilskipud, er gánga Hertugunum til handa í Landsstiórninni og jafnframt takmarka veldi þeirra.

XVIII og XIX Hertugadæmunum Holsetulandi og Láenborg er ádr lýst í sídara parts fyrri deild:, frá bls. 112 til 128.

## XX. Landgreifadæmit Hessa-Homborg.

Þat liggr fyrir nordan Frackafurdu vid Myn og er 4 ferh. m. at stærd, med 17 300 reformerudum og kathólskum innbúum. Þar er

Homborg (ɔ: vor der Höhe) høfudstadr og atsetur landgreifans, (er Fridrikr Lodvík Vilhiálmr Kristiáu heitir). Hann á einnin herradæmi þat, er Meisenheimr kallast; þar er samnefndr stadr fyrir vestan Rín og í útsudr frá Maginzuborg; þar er glersmidia og steinkola náma.

## XXI. Furstadæmit Svarzborg (Schwarzburg).

Þat liggr í Thúríngi og samanstendr af 2 adskildum pørtum: hinu efra (sydra) og nedra (nyrdra) Greifadæmi; þat er 38 f. m. at stærd. Í sydri partinum, er Rúdólfstadr (Rudolphopolis) í landsudr frá Herserdu, vid ána Sale; þar er hofgardr (Lodvíksborg) og annar skamt frá stadnum, er Heideckssborg heitir, þar sitr landshøfdínginn; þar eru 4100 innbúar.

Nordar er Arnstadr (Arnstadt; Arnstadium) vid Gerá. Í nyrdri hlutanum er; Sundurshús (Sondershausen) høfudstadr og furstasetr, med 3200 innb. Sunnar er Þorpit Swarzborg, þar er fornt riddaraslot, er hefir sama heiti, og er ættból þeirra høfdingia, er í lánga æfi hafa átt land þetta.

Innbúar furstadæmis þessa eru 101,000 at tølu og lúthersk ir at trú. Stiórnendr þess eru furstar at nafnbót og hafa þeir ótakmarkat veldi. Eru þeir frændur og komnir af ættlegg nokkrum, er á 11 øld átti þar lendur miklar; ættarnafn þeirra er Gunter. Lidit er 700 manns.

## XXII. Furstadæmit Anhalt (Principatus Anhaltinus).

Þat liggr, öllumegiun umkringt af Prussalöndum, á Saxlandi, báðumegin Saxelfa, og er 48 f. m. at stærð; fyrir því ráða 3 hertuga ættleggir, sem kéndir eru við 3 staði: nl. Dessá (Dessau; Dessavia) við Mulda, með 9300 innbúum; Bernborg eða Beraborg; (Bernburgum) vestar við Sale, og Köten (Cöthen; Cothenium) með 5200 innb. Norðast er Zerbst (Servesta) með 8000 innbúum og háskóla. Í furstadæminu eru 117,000 innbyggiarar og rækia þeir allir Lúthers siðabót. Lið furstanna er 1600 manns.

## XXIII. Furstadæmit Lippe-Detmold.

Þat liggr imillum Hansstaða-rikis og Vestfals-skattlands og er 20 f. m. at stærð. Þar er Detmold (Detmoldia) höfuð- og atsetursstaðr furstans, við Verra; þar er háskóli, bibliu-félag og 2500 innbúar; Lemgo og Meinberg, þar eru málmdámuð vötn. Fyrir furstadæmi þessu ræðr fursti sá, er Leopold Páll Alexander heitir; hann hefir 900 vigra manna. Í furstadæminu eru 68,000 innbúar og eru þeir flestir reformeradir at trú.

## XXIV. Furstadæmit Skáenborg-Lippe. (Schauenburg-Lippe).

Þat liggr norðar við Hansstaða-ríki vestanverðt og er 10 f. m. at stærð. Þar er Bukaborg (Bückeburg) höfuðstaðr og furstasetr,

og Vilhiálmssteinn, lítil festing á eyu í stöðuvatni nokkru; þar er þióðfángelsi. Innbúar þess eru 24.000 at tölu, flestir kathólskir at trú; höfdingi þeirra er fursti at nafnbót (Georg Vilhiálmr) og er líð hans 400 manns.

## XXV. Furstadæmit Röiß (Reusz).

Þat liggr vid Saxa-ríki vestanverdt og fyrir nordan Fránkaskóg; þat er 28 f m. at stærd og deilist þat medal 2 ættleggia nl. hins eldra, sem einnin er kéndr vid Greiß höfudsog atseturs-stad höfdingia þess hluta furstadæmisins, vid Elster; og hins yngra, er aptr greinist medal 4 ættstudla, sem kéndir eru vid höfudbýli þeirra, nl. Sleiz (Schleiz) Lobenstein, Ebersþorp og Köstriz. Hin 5ti var kéndr vid Gera, (ei lángt frá Elster, med 7000 innbúum), er 1802 var aldauda. Í furstadæmi þessu eru 75.000 lútherskir innbúar. Herinn er 900 vígra manna.

## XXVI. Furstadæmit Valdeck.

Þat samanstendr af 2 adskildum greifadæmum: Valdeck og Pyrmont, bædi ásamt 22 f. m. Valdeck liggr vid Hessens Stórhertugadæmi vestanverdt; þar er Korbacki höfudstadr med 1600 innbúum og Arolsen; þar er heimili furstans. Í greifadæminu Pyrmonti, vid Hannofra-ríki vestanverdt og fyrir sunnan Rinteln, er stadrinn Pyrmont, (Pyrmontium) í dal vid ána Emmer, þar er viggirdt slot og 2000 innbúar; þar eru og nafntogud málmdámud

vatn (ölkeldr) er bædi má drecka og lauga sig í til heilsubótar og hefir þat vatn i margar aldir þótt einhvert hit hollasta í heimi; af því sendast árl. nokkr hundrud-þúsund flöskur til annara landa og heimsálfa og 1500 laugagéstir heimsækia á ári hverin stad þenna, í hverium er einkar inndæll bústadr og gledi mikil.

Innbúar þessa furstadæmis eru 50 000 at tölu og eru þeir lútherskir at trú. Furstinn heitir Georg Henrik Fridrik og er lid hans 800 vigra manna.

## XXVII. Furstadæmit Hóhenzollern.

Þat tekr nafn af gamalli riddaraborg og vidkéndri ætt, liggr í Sudr-Þýdskalandi, mitt-lands i sydri hluta Vurtenborgar-rikis og er 25 f. m. at stærd; þat er deilt ámedal 2 ættleggia, sem kéndir eru vid tvo merkustu stadi og furstanna adalból, er Heching og Sigmaring (sunnar, vid Dunn) heita, og eru komnir af Hóhenzollerns ættarstofni, er á 12 öld greindist í 2 ættqvíslir og eignadist þá önnr þeirra Nurnbergs Borggreifadæmi og eru frá henni Prussakonúngar komnir; en hin sat at ódölum sinum og deildist á 16 öld, sem fyrr segir. Þar eru 52,000 kathólskir innbúar og 580 hermenn.

## XXVIII. Furstadæmit Liktensteinn (Lichtenstein).

Þat liggr ímillum Tyról og Sveitzalands, og er 3 f. m. at stærd; þar er litill stadr er

Vaduz heitir, undir slalli nokkru, á hvöriu slotit Liktensteinn stendr. J furstadæmi þessu eru 5000 kathólskir innbúar og 100 vigra manna.

Furstunum í 6 sídstnefndum smáríkium gánga veldisstönd (Landstænder) til handa í lands-stiórninni.

XXIX. Fríſtadrinn Hamborg, er á lendur nokkrar umhverfis borgina, eyar í Hamborgar-elfu t. d. Vilhiálmsborg og Billverder, amtit Ritzebüttel, nokkurn hluta Firlanda (Vierlande) og Bergdorps-amts (ásamt Lubeck). Allar jardeignir Hamborgar eru 6 f. m. at stærd.

Hamberg (fyrr. Hamsborg) (Hamburgum) stendr vid Hamborgar-elfu austanverda, 18 mílr frá mynni hennar; þat er hinn mesti kaupstadr á Þýdskalandi og gengr næst Lundúnum og Amsterdammi at kaupskap. Landsmegin er borg þessi rammliga umgirdt, er 2 mílr ummáls og hefir 3 forstadi; í henni eru 8000 hús, en vídast er hún háſut á fyrnsku hátt.

Vid hana renna árnar, Alster og Bille í Elfuna og liggia úr þeim síki gégnum borgina; þar eru 2 hafnir, önnr fyrir elfu-flotan en önnr fyri hafskipinn. Merkustu byggíngar þar eru: St. Mikaelskyrkia, med 156 fóta háum turni, rádhúsit, herskipa-ráds-byggíngarnar, kaupmanna-samkundu-húsit og spítali fyrir födurlaus börn; jómfrúa-stigr er nafnkendr lysti-

gángr; þar eru 2 háskólar (Gymnasier) med bókahlødu, fiárhiódr mikill (Girobank) og sæ skada-bótafélög. Á ári hvøriu koma þángat nærhæfis 2000 kaupfør frá ødrum løndum og heimsálfum; þar eru 1200 kaupmenn er eiga 200 kaupskip í førum, af hvøriumi 30 árliga sendast þadan til hvalaveida; einnin eru þar margskonar vodvirki og verkstadir, medal hvørra má telia yfir 40 sikur-hreinsunarverk. Bæarmenn eru 107,000 at tølu, hvarámedal eru 8000 Júdar.

Elfan er þar ⅓ míle á breidd og fellr hún í kvíslum breidum og eru eyar allmargar ámillum. Þar lét franskr herforíngi Davust at nafni brúa elfuna 1813, yfir Vilhiálmsborg og til Harborgarports; var sú brú 15,168 fóta á lengd og kallat hit mesta forvirki.

Í Hamborgar landeign eru 3 þorp: Bergþorp (Bergedorf) vid ána Bille, med 2000 innbúum; Ritzebuttel, vid Elfumynnit vestanverdt, og skamt þadan Kuxhøfn (Kuxhaven) þar er høfn og sæbad. Milli Kuxhafnar og Járnamódu á Englandi gengr flutníngsskúta (Paketbaad). Í Nordrsæ, útundan Elfumynninu er ey sú, er Nýaverk heitir; þar eru varnarvirki og vitaturn.

Allr þorri innbúa tédra landeigna rækir Lúthers sidabót. Þar er lýdstiórn ásamt stórmennisstiórn í løg leidd, med því at borgarar og Rád (med 36 medlimum) hafa lands forrád á hendi. Þar eru 4700 hertýadir borgarar til varnar settir.

XXX. Fríftadrinn Lubeck eda Lybika;

þartil liggiandi jarðeignir, ásamt nokkrum hluta Firlanda og helsíngi Bergþorps amts, eru $5\frac{1}{2}$ f. m. at stærð.

**Lubeck** fyrr. Lybika (Lubecum) stendr á hæð nokkurri við ána Trave, þat var i fornöld hofudstadr handsalsstaða og var þá afarstolmennr *) nú eru þar 26,000 innbúar, 3300 hús, bygd á forna vísu, allveglig dómkyrkia, í henni eru mørg minnismerki, Maríukyrkia, með forkunnar konstugu figurverki, afarmikit ráðhús (Hansesal.) háskóli, og høfn fyrir smáskip; en høfn fyri stórskip er í **Travemynni** (Travemunda v. Dragamutina) er Trave fellr í Eystrasalt, og tilheyrt hefir Lubeck síðan 1320; þar koma árliga 1200 skip.

J Lubeck er allmikil kaupverslun og eru Lubekkar í verslunarsambandi við kaupmenn í Hamborg, Rostokk, Kaupmannahøfn og Petursborg. Stiórnarformit er áþekt og í Hamborg; borgarráðit samanstendr af 20 limum og borgarar greinast í 12 flokka og hefir hverr þeirra eitt atqvæði. Staðar- og Landbúar eru lútherskir at trú.

XXXI. Fristadrinn **Brimaborg** eða Brimar, ásamt landeignum hennar, sem eru $3\frac{1}{2}$

*) J svarta dauða (1348) létust á einu ári 90,000 af Lubekks innbúum.

f. m. at stærd, med 9700 lútherskum innbúum. Brimaborg (Bremen; Brema) stendr á sandflötum vid Vesará, 15 mílr frá Nordursæ; þar er 350 fóta laung brú á ánni og vid hana hit mikla vatnshjól, er leidir vatn frá ánni gégnum allan stadinn. Hverki er stadr þessi fagr, né nú á dögum víggirdtr; þar eru 5400 hús, 4 reformeradar kyrkiur, 1 lúthersk höfudkyrkia (undir kórgólfi í henni er hinn svokalladi Blýkiallari), reisuligt rádhús, kaupmannasamkomuhús, 2 háskólar (lútherskr og reformeradr) med bókasafni og stiørnuturni. Þar er kaupskapr mikill, einkum eru lérepti, og frønsk og spønsk vínfaung merkr kaupeyrir.

Þángat flytia árliga 1000 skip varníng og þadan sendast ei færri skip til hvala- og síldar-veida. Innbúarnir eru 38000 og eru þeir bædi lútherskir og reformeradir at trú.

Í Brimum var í forntíd biskupsstóll, skipadr af Karli hinum Mikla, og seinna, þá Eyrikr danakóngr heriadi á Hamborg, hvar Ansgarius var erkibiskup, flutti menn erkibiskupsstólinn til Brima og stódu þá um hrid øll nordrlønd undir hans andliga umdæmi. En med fylgi og fullíngi Eyriks Ægóda, fengu Danir erkibiskup yfir sig, er sídar giørdist Høfudbiskup (Primas) á Nordrløndum og sat at Lundi. Brimaborg var einninn merkr medlimr ens voldugu Handsalsstada-sambands (stipt. 1254) er greindist í 4 flokka og vóru Lubeck, Dansvík, Brúnsvík og Kølne høfudstadir. Þá samband þetta á 16 øld leid undir lok, stód alleina Ham-

borg, Lubeck og Brimaborg í nokkurskonar samfélagi og á vorum dögum halda þeir enn forna nafni.

XXXII. Fríſtaðrinn Frakkafurða við Mhn; (Frankfurt am Main; Francofurtum ad Moenum) áſamt landeign hans, ſem er 5 ferh. m. at ſtærð, liggr í inndælu héraði við Myn nordanverða, á hverri þar er ſteinbrú, 400 ſkref á breidd. Þat er mikil borg og markverð. Þar kuſu og krýndu menn hina Þýdſku keiſara og nú á dögum halda hinar Þýdſku bandamenn edr ríkisſamband ſamkomr ſínar. Í borginni eru 16 kyrkiur, medal hverra er hin gamla Bartholomæi dómkyrkia, med litilli og dimmri kapellu, þar vóru hinir rómverſku keiſarar koſnir, fornt ráðhús, (í ſkialaſafni þeſs varðveitiſt hin nafnkénda Gullbóluſkrá) 2 háſkólar (lútherſkr og kathólſkr) bókahlada mikil, kiorgripaſafn, bibliufélag, og merk vodvirki og verkſmidiur; med því at ſkipaferdir á 2 ám (Rín og Mhn), hin ſtóri þiódvegr, er liggr ígégnum borgina og 2 ſtolmennar kaupſtefnur á ári hverin, giora verſlunar-mok og varníngs ſlutnínga léttſókta, er kaupſkapr mikill í borg þeſsari; í henni eru 50,000 innbúar, allfleſtir lútherſkir at trú; þaramedal teliaſt 8000 júdar er búa í einu mióu og ſkuggaligu ſtræti útaf fyri ſig.

Skamt frá Frakkafurdu er Bornheimr med 1900 innbúum.

Yfir høfud er temprat og heilnæmt loptslag á Þýdskalandi. En jardvegr, láglendi hit nyrdra og hálendi hit sydra, landsálfanna meiri eda minni nálægd eda fjarlægd frá høfum olla allmikils mismunar á loptslagi í hverju ríki fyrir sig. Á Saxlandi blása tídum svindar, er færa med sér vætur og hrákslaga; á Sudr-Þýdskalandi (Þýdverskulandi) eru þarámóti hlýari vedur og þurkar tídari. Eptir þessu fer um landskosti og frjósemi: hit sydra frjósgast vínvidr og skógar af aldintrjám; hit nyrdra eru vída sendinn jardvegr, heidar og marsklønd.

Þýdskaland er einkar audugt af margskonar forkunnligum gædum, er finnast í jørdu og á, svo landsmenn bædi hafa nóg til eiginn naudþurftar, og géta midlat allmikit útløndum. Sádlønd fylgja, eydipláts fækka árliga og handidnir taka framførum. Gull finnst bædi í fjallnámum og fljótum t. d. í Rín-, Eger og fl. silfr í Harz- og Erz-fjøllum (1250 vættir árl.) kopar (125.000 vætt.) járn, þvínær hvervetna (best í Styriumørk) blý, tin, einkum í Bæheimi, qvíkasilfr í Idria og Innsbryggiu, einnin ymiskonar steintegundir og gimsteinar, afar gnótt berg- og brunnsalts (76 saltverk) og því nær 1000 heilnæmislindir. — Vaxta-ríki er þar vidlíka varit: þar vaxa allskonar korntegundir, belgia-vextir samt gnægd aldina og ávaxta, vínvidr mikill einkum í Rínarsveitum (Rínskvín Móselvín, Neckarvín) olía, hampr, tóbak, hum-

all, litunarraudi (Krap) samt margskonar læknìngajurtir; vidlendir eyki-, beiki-, birki-greni- og furu-skógar, o. s. frv. — Fiolda nautpeníngs, vida af forkunnar gódu kyni, rækta menn hit nyrdra í landi þessu á Hollendinga, hit sydra á Svîtzara vísu. Hestar eru flestir og bestir í Holsetulandi og Meklenborg. Saudfiárræktin er miøg bætt med spønsku fé. Svína-afli er ardsamastr á Vestpali, Vindlandi og Bæaralandi; þar eru og tamdir asnar og geitfé. Medal villidýra má telia: birni, varga, loſsa og Gemſa, í Mundiafiøllum og steingeitur; fioldi krónđýra, dádýra og rádýra er þar í allmørgum dýragørdum. Veidi er þar gód og margsháttar í fiøduvøtnum, dømmum og fliótum.

Allskonar vefstadir, vodvirki og verksmidiur standa med blóma á Þýdskalandi; þiódarinnar uppáfinníngasemi, dugnadr og starfsemi leida hana æ nær og nær fullkomligleika í flestum íþróttum og handidnum, svo litt brestr hana nú í því efni á vid enska og franska. Lerepta vefstadir eru bestir í Slesin, Bæheimi, Lásitz og Vestpali; en ullar tóvinna best vid Nidr-Rín. Í Saxaríki eru bómullar-vodvirkin ei sídr nafnkunn, enn þær ágiætu porcellans verksmidiur; (á Þýdskalandi eru 25 porcellans- og 55 steinkéra-verksmidiur) glerstøypusmidiur eru ágiætastar í Bæheimi. Allskonar járn- og kopar-smidiur, samt fallstykkia- og byssna-steypuverk eru þar hvervetna vel stundut.

Afstada þiódlands þessa í Evropu midri

og ímillum Norðrsíðfar og Eystra-Salts hit nyrðra og Feneyabotns hit syðra, skiplægar megin-ár og stórfljót samt ágiætir þióðvegir (einkum í Suðr-Þýðskalandi) greiða kaupverslun og varníngsflutníng of land og lög; þó er sæ-kaupskapr ei svo markverðr þar, sem landverslun; ber þat til þess, at landit er deilt í mörg smáríki og at þat á eingar nýlendr í öðrum heimsálfum. Við Norðr-sæ er Hamborg, Brimaborg, og Emdðen og við Eystra-Salt Lubek, Rostok, Stéttin, kaupstaðir mestir, en við Feneyabotn, Triest. Á Norðr-Þýðskalandi (Saxlandi enn forna) er kaupskapr mestr í Brúnsvík, Magadaborg, Leipzig, Frackafurðu við Oddorá og Breslá; en í Suðr-Þýðskalandi (Þýðverskulandi) Nurnbergi, Augsborg, Frackafurðu við Mýn, Vín, Prag og Pozen. Fiölmennastar eru kaupstefnur eða markaðir á ári hverju í báðum Frackafurðum, Leipzig, Námberg, Brúnsvík, Bózen o. s. frv. Kaupeyrir þióðverskra er: léreþti og lín (fyri 30 mill. árliga) ullar- og bómullar-varníngr, knipplingar, Nurnbergs klatr, jarn- og kopar-smíði, gler, porcellan, leðr, vax, korn (árl. fyrir 10 mill.) ávextir, vínfaung (einkum Rinsk- og Moselvín) ull, salt, qvikfé, hestar, tóbak skipaviðr, fallstycki, kúlr o. s. frv. Þarámóti kaupa þeir: aust- og vest-indía-varníng, glatr, silki og bómull o. fl.

Innbúar Þýðskalands eru deildir í all-mörg trúarbragða sambönd; 15 milliónir rækia kathólskan, 12 lútherskan, en 2 milliónir refor-

meradan kristindóm. Þaradauki þola menn þar návistir Hernhúttinga (25,000) Mennonita (2,500) Grykkia (14,000) og Júda, (300,000) samt nokkurra Qvækara.

Hvad vísindi og fródleik snertir, eru Þýskir ollum þiódum í heimi fremri. Allskonar vísinidagreinir hefir þiód þessi med kostgiæfni og skarpleik, diúphyggni og alúd idkat og aukit; sérílagi hafa protestantiskir vísindamenn aflat sér þess ordstýrs, at ei þykir frægri finna mega í neinu ødru landi. Hvergi í heimi koma svo margar bækr og ritgiørdir út sem í Þýdskalandi *) og fyrir margar og merkar finningar og uppgøtvanir eiga adrir heimsbúar Þýdskum þakkir at gialda. Gudfrædi, løgvísi, heimspeki, mæll- og reikningsmment, sagna-, jardar- og landa-skipunarfrædi eru þær vísindagreinir, er þýdskir frædimenn einkum hafa lærdómsliga sett í letr og útlistat, einnin hafa þeir útlagt og útskirt fornmanna snillirit med skarpvitri og nákvæmri ransókn. Enar fægtu mentir hafa Þydskir á seinni tídum idkat med þvílikri námfýsi, at ei brestr þá í þeim á vid franska og allmarga snildarmenn í saunglist og malaraíþrótt géta þeir talit sín ámedal; Koparstúngu- og bókþrykkiara-listin er þar uppfundin; en í bilætasmídi, steinskurdi og byggíngaatrædi eru Þydskir sumum þiódum sidr at sér. Fyrir vísinda idkun og útbreidslu bera yfir 20 þiód-

*) Árit 1817 komu 2889 nýar ritgiørdir út hiá 333 forlagsmønnum.

skólar, margir háskólar (Lyceer, Gymnasier) umbyggju, samt riddaraligir háskólar, plöntuskólar og látínuskólar; þar eru og allmörg frædimanna félög, sem ærit hafa eflt vísinda og menta frama. Merkastir eru listaskólar í Vín, Berlín, Dresden og Nurnbergi.

Samqvæmt giördum sáttarfundarins í Vín (8da Junii 1815) kallast nú á dögum öll Þýdskalands ríki, bædi stór og smá, hit þýdska samband (det tydske Forbund) og er markbakki þess: at þiódlandit megi örrugt vera fyrir útvortis og innvortis ófridi, og at ei skaddist né vanist eitt edr annat ríki medlimanna. Fulltrúar sambands þessa, leggja stefnulag med sér í Frackafurdu vid Mýn, þá þeim þykir naudsyn tilbera og um nokkr vandamál er at giöra; leita skal um sættir, þá baudamenn verda ósamþykkir og deila illdeilum innbyrdis. Austrríki hefir forseta-rétt á þingum þessum. Allir eru sambandsfurstarnir skyldir at ábyrgiast hvörs annars ríki, og veita hvör ödrum til at veria og vidhalda löndum og lýdum gégn árásum og ágángi útlendra þióda; má því hvert ríki halda svo mikit lid hertþat og útbúit, þá til þarf at taka, er svara þykir til landsins stærdar og fólksfiölda, og kalla menn þat lid Ríkisher edr sambandslid. Enginn sambandslimr má fyrir sitt leyti giöra frid edr strids-hlé vid fiandmenn þiódlandsins.

Sambandssamkoman er greind í deildir, ena takmörkudu og almenniligu, hin fyrri hefir 17 atqvædi, nl. Austrríki 1, Prússaríki, Bæara-

land, Saxarîki, Hessrarîki, Wurtenborg, Baden, Kiørhessen, Hessen, Danmørk, Niðurlønd, þau stór-hertugaligu og hertugaligu sarisku hús, Mekleñ-borg, Brúnsvík og Nalsá, Oldenborg og Anhalt ásamt Svarzborg, hafa 1 atqvædi hvørt og Hóhen-zollern, Liktensteinn, Roitz, Sámborg-Lippe, Lippe-Detmold og Valdeck 1 samt 4 fédir Fríslaðir eitt hvør. Hin almenniliga deild hefir 69 atqvædis-orð, og gefr hvør sambandslima eitt.

Herlið hins þýðska sambands er nær 700,000 vígra manna og festingar þess: Landá, Luxenborg og Maginzuborg.

Innbúar þessa mikla þióðlands eru ei fullar 30 milliónir at tølu og eru þeir komnir af 2 ættstofnum; nl. 1, hinum Celtiska, Germaniska (24 mill.), er øll hin eiginl. þýdverska eda þýðska þióð er frákomin, Vallónar i Luxenborg og Frísar vid Nordr-sæ og 2, hinum Slaviska (5 mill.); af hver-inm Vindar eru komnir, Sorbar i Slesia, Pommern og Brandinaborg, Zekkar i Bæ-heimi, Slavakar á Mæri og Kassúbar á Vindlandi. Auk þessara hafast Valskir (130,000), Frænkismenn (70,000) og nærhæfis 300,000 Gyðingar vid á Þýðskalandi. Høf-udtúngr i landi þessu eru: þýðska (er greinist i háþýðsku og platþýðsku) og slaviska; hana mæla menn i Bæheimi, á Mæri, i Slesiu og Vindlandi og i nyrdri hluta Austrríkis. Hit sydra i Tyrol er valska tøluð.

# VIII. Keisaradæmit Austurríki (Österrige; Imperium Austricum.)

Ríki þetta liggr ímillum 43°' og 51° nordl. br. og nær í austr og vestr frá 27° til 45° 15' austl. lengd. Þat liggr fyrir sunnan Saxaríki, Prussaríki, Kraká og Rússland, fyrir vestan Rússland og Tyrkland, sem einnin liggr hid eystra fyrir sunnan þat, (er Dunn og Saf skilia ríki þessi), svo Feneyaborn og Valland vestast, en at vestanverdu nær þat til Sardiniuríkis, Sveitzalands Bodensiásar og Bæaralands. Einvaldsríki þetta er 12700 ferh. mil. at stærd og skiptist í 5 høfudparta, nl. 1. hin Þýdsku Erfdalønd ásamt kóngsríkinu Illyria. 2, hit lombardiska-venetianska kóngsríki. 3, Kóngsríkit Dalmatia. 4, kóngsríkit Ungaraland, og 5 kóngríkit Gallizia. Nú skal segia frá þeim løndum, er liggia innan Þýdskalands takmarka.

## Hin Þýdsku Erfdalønd:

Þat er allr sudaustr hluti Þýdskalands ímillum Saxaríkis og Slesiulands hid nyrdra og Feneyabotns og Lombardinu hit sydra; Gallizia og Ungaraland liggia fyrir austan þau en Sveitzaland og Bæararíki fyri vestan. Lønd þessi

má heldr fiöllótt enn flatlend kalla; umhverfis þau liggia fiallgardar miklir og gánga út frá þeim fiöll og hálsar og í millum þeirra fagrir, friófsamir og breidir dalir, um þau úr öllum áttum. Sydri hluti landa þessara (t. d. Styriumörk og Krain) er hrióstugri, en hinn nyrdri, allvída um of votlendr, giædalitill og fábygdr. Þrir fiallgardar af Mundiafiöllum, er kallast hin retisku, norisku og karnisku Alpar liggia í austr um téd lönd fyrir sunnan Dunn til þau lykta í Ungaralandi. Fiall þat, er Kalenberg heitir, er ásast vid téda fiallgarda.

Auk 1, Dunnar, er vid Passá fellr inn í Austrríki og vid Presborg inn í Ungaraland) kémr á sú frá eystri hluta Sveitzalands, er 2, Inn (Oenus) heitir; hún féllr í nordaustr um Tyról og Austrríki í Dunn; austar rennr Ens í téda þiódá. 3, Etsk (Athesis) kémr frá Tyról, rennr í sudr og at lyktum í austr í Feneyabotn fyrir nordan Padus. Siki er grafit frá Vínarborg til Nýstadar, þat er 8 mílr at leingd og segia menn at því stórvíki skuli framhalda til Triest sudr.

Hin Þýdsku Erfdalönd eru greind í 7 parta og er, sem fylgir, um þau at segia:

1. Erkihertugadæmit Austrríki eda Nedra Austrríki (Austria); þat liggr fyri sunnan Bæheim og Mæri og er afarbreidr, fagr og friófsamr dalr, eptir hvorium Dunn fellr. Í sudvestr hluta þess er snæþakin

og allhálend fiallbygd. Þat er 697 ferh. m. at stærd. Þar eru þessir stadir:

Vín eda Vínarborg (Wien; Vindobona, Vienna. 48° 12′ 34″); þat er höfudborg í ríki þessu, heimili keisarans og hinna ædstu stiórnarráda, erkibiskupsstóll, hin gøfugasta borg á Þýdskalandi og er talin medal hinna mestu og merkustu borga í Nordrálfu heims; hún stendr vid Dunn sunnanverda í forkunnar føgru bygdarlagi. Hún er $3\frac{1}{2}$ míl. ummals og samanstendr af hinni eiginligu borg, sem er víggirdt, en hverki søgr né mikil, og 33 forstødum, er liggia umhverfis hana og eru þeir allir umgirdtir med varnargørdum og díkium; medal þeirra er Leopoldstadr á ey í Dunn, mestr.

Í borg þessari eru 46 kathólskar kyrkiur og 6 fyrir adra trúmenn, 39 brýr og 22 port. Hverki er Vínarborg skipuliga bygd né vendiliga húsud, eru þar mió stræti og hlikkiótt, smá torg og mørg hús sex-loftud; þó eru þar allmørg stórkostlig og háreist húsakynni, t. d. sornfáligr, en þó mikill keisaragardr (Hofborg) og 9 furstaligir hofgardar og s. frv. Medal kyrknanna ber Sti. Stephánskyrkia höfudkyrkia ad stærd og vegligleik miøg af ødrum hún er bygd á gautskan hátt og er yfrit háreist; med áttkøntudum turni 434 fóta at hæd, (þat er annar turn mestr í heimi.), 38 ølturum og

klukkn, er vegr þvínær 459 vættir og er steypt af hernumdum tyrkueskum fallstyckium, í henni er ógrynni helgra dóma, 5 orgelverk og 200 minnisverki. Þar er þióðskóli ásamt allmikilli bókhlöðu, nátturugripasafni, urtagardi, og stiörnuturni, og allmargir háskolar fyrir herstióra- og listamanna-efni, skóli fyri heyrnar- og mállausa og 22 prentsmidiur. Nærhæfis 60,000 af innbúum borgarinnar idka vefnad og smídar; þar er og kaupstapr mestr í ríkinu, 3 kaupstefnur á ári hveriu, þióðbánki og kaupmanna samkomuhús. Auk herlidsins og Júda eru í borg þessari 240.000 innbúar.

Forkunnar fagrir lystigángar og nafnkéndir unadarsamir lystistadir eru á Donárey (t. d. Augarten og Prater) og í borginni er gladværd og teiti almenn og óhóf í naurn og atbúnadi, er þar margt stórmenni saman komir og landsins göfugasta adalfólk, sem er hit audugasta í Evrópu. Afstada borgar þessarar vid hina tignarligu þióðá, er klýst um fagrar eyar, í grend vid skógivaxin fiall (Leopoldsfiall og Kalenberg) í sudr og vestr og umhorfsfrídt vídsýni í austr til Ungaralands ollir því at þessi í mörgu tilliti merka höfudborg þykir borga skemtiligust at búa í.

Skamt þadan er skrautligt lystislot er Skönbrunnr ɔ: Fagribrunnr (Fons bellus) heitir; þar er hinn mesti Urtagardr á Þýdskalandi og mikill dýragardr. Sunnar er Laxaborg, lystigardr keisarans. Í sudr þadan er Baden ɔ: Bodinn (Thermæ Ceriæ) þar eru nafntogadar laugar og er þar allmannkvæmt. Sunnar er Nystadr (Neustadt; Neostadium); þar er skóli fyri hersforingia

efni og mikill varningr frá Ungaralandi og Vallandi samankominn. Fyrir vestan Vínarborg er Ens við Ensár-ós; þar eru járnnámar; vestar er Linz við Dunn, þar er keisaraligt vopnvirki. Í suðvestr frá Linz er Salzborg (Juvavium), þat er merk borg og erkibiskupsstóll og liggia stoll á þriá vegu; þar er hofgarðr, veglig dómkyrkia, at løgun lík Sti. Peturs kyrkiu í Rómaborg og fl. stórhýsi. Á fiall þat, er Múnkabiarg kallast, hafa menn grafit dyr, 150 al. at lengd, og sett þar við innganginn marmaralíkan. Sigismundar hins helga. Þar eru 1400 innb. Í Grumdi eru afarstór sallts fordahús og atsetr stiórnarráðs hinna svo kølludu Saltkommers jarðeigna, sem eru 12 ferh. mil. at stærð; þar eru mørg og arðsøm saltverk. Í Hallein, fyrir sunnan Salzborg, er nafntogat saltverk.

2. Hertugadæmit Styriumørk eðr Styriuland (Steiermark; Styria) eðr innra Austrriki liggr fyrir sunnan síðsttéð Erkihertugadæmi; þat er 400 ferh. mi. at stærð; þar eru járnnámur miklar og vidlendir skógar. Þat er Grets (Grätz; Græcium) høfuðstaðr í inndalu héradi við á þá, er Múr kallast; þat er mikil kaupverslan, 2 árligir markaðir, allmargir vísinda- og iþrótta skólar og stiptanir erkibiskupsstóll og 34000. innb.

3. Kóngsríkit Illyeria, (Illyria) er fyrst var kóngsríki kallat 1816, þá menn sam-

skeyttu hertugadæminn Kernt og Kran, jarlsdæmit Triest, Triaul og Istria, nokkurn hluta Istria og enar í Qvarnarofirdi, Sinus Flanaticus) er gengr i nordr inn af Feneyabotni. Kóngsrikki þetta, sem er 618 ferh. m. at stærd, liggr fyrir sunnan Styriumörk og nær til Feneyabotns; hit sydra í því eru allvídast fiallbygdir og margbreytt loptslag. Árnar: Saf, Draf, Laybach og Kulpá renna i landsudr um ríki þetta.

Þar er og stöduvatn 3 ferh. m. at stærd, er kallast Cirkniz-siór (lacus Circoniensis) 18 undirgangar samtengia hann ödrum vötnum og ber svo vid áslundum at vatnit hverfr og hann þornar upp, sá menn þá til korns þar edr beita búsmala.

Höfudstadr í landi þessu er Laybacki (Labacum) bádumegin vid samnefnda á og velhúsadr biskupsstóll med 20.000 innb. Nordar er Klaafurda (Klagenfurt; Clagenfurtum) þat er biskupssetr og var höfudstadr í Kernt.

Í vestr frá Laybacka er bergstadr sá, er Idria heitir; þar er hin mesta qvikasilfursnáma í ríkinu og koma þadan árl. 15 til 20 þús. vættir

Triest (Tergestum) vid Feneyabotn nordanverdan; þat er einhver hinn markverdasti kaupstadr í ríkinu, þar þvínær allar nordrálfunnar þiódir reka þar kaupskap og hafa þar setta Konsula sínni kaupverslun til fulltingis og frama; þar er fríhöfn og rambygt varnarvirki,

vegllg dómkyrkia, 2 háskólar, kaupmanna samkomuhús, ymiskonar ábyrgdar félög, þiódstódvar, útistada-stiptan og koma þar 4000 kaupför árliga. Stadarlidrinn er 40,000 at tölu.

Sunnar vid tedan hafsbotn austanverdan er allmikill kaupstadr er, Capo Distria heitir (Capo d'Istria) á ey og liggr þadan steinbrú til meginlands. Í landsudr þadan er merkr kaupstadr vid Qvarnarofiord, er Fium (edr St. Veit am Pflaum) þar er fríhöfn og 9000 innb. —

Görz, (Goritia) og Gradiska, liggia ei allángt fyrir nordan botnin og rúma bœarleid þadan fornbýr sá, er Aquileia (eda Aglar) heitir á aga-miklum grundvelli og er þar því óheilnæmr bústadr. Á dögum enna rómversku keisara var þat mikill stadr og vídfrægr, sem ymsar eptirstödvar og fornleysar votta; en sídan Attila (Atli) braut hann 452, hefir hann ei vidréttst.

4. Hit furstaliga Greifadæmi Tyrók edr efra Austrríki; þat er hálend fiallbygd, 520 ferh. m. at stærd, er liggr fyri vestan sídsitalinn lönd og fyrir nordan Lángbarda-ríki. Millum mörg hárra snæfialla liggia þar forkunnar fagrir dalir, í þeim er vedrasæld mikil og vallendskt blídvidri, en á fiöllum þidnar ei snór. Auk Inn, Etsk og Eisak eru þar margar ár. Hit sydra elnast vínvidr vel og allmiklir pomeranza- og Sitronu-skógar.

Innsbryggia, fyrrum Isingsbryggia

(Innsbruck; Oenipons) er þar höfudstadr, vid Inn, med 10,000 innbúum; þar eru 2 hofgardar, veglig kyrkia og háskóli. I sudr þadan er merkr verslunarstadr, er Bózen (Bauzanium) heitir, vid Eisk; þar eru 4 árligar kaupstefnur haldnar. Sunnar vid téda elfu stendr Trent eda Trient (Tridentum) med 8000 innbúum; þar er slot, dómkyrkia háskóli og biskupsstóll. Þar héldu Páfar nafnatogadan kyrkiufund frá 1545 til 1663. Vid Bodensió vestr er Bregenz (Brigantia) med 2000 innb; eystri hluti siáfarins tekr nafn af stad þessum.

I landi þessu er ágiæt qvikfiárrækt, en litil akuryrkia. Meir enn 30,000 Týrólar fara árliga ur landi brott og leita sér fiár og framfæris í ödrum löndum. Týrólar eru hraustir í orrustum og unna miög friálsrædi sínu; hafa þeir ávalt verit tryggir þegnar Austurríkis keisara, sem segir í sögum þeirra.

5. Kóngsríkit Bæheimr (Böhmen; Bohemia) er 950 ferh. m. at stærd og liggr fyrir sunnan Saxaríki og nordan Austrríki og ímillum Risafialla hit eystra og Bæheimsskógar hit vestra. Nordmenn kölludu land þetta ymist Bæheim, Barheim Búaheim edr Búraheim. Umhverfis og um þat liggia fiallgardar og skógivaxinn fiöll. Auk Saxelfa edr Elfunnar, er fellr undan Risafiöllum og rennr

um nyrðri hluta landsins, má telia Moldá, (Moldau, Moldavia) er kémr ur útsuðri frá Bæheimsskógi og fellr í Elfuna og Eger (Egra) er rennr norðar úr vestri í téða þióðá. Í landi þessu eru nærhæfis 20,000 votn og tiarnir og allmargar málmdámaðar uppsprettur. Merkustu staðir þar eru:

Prag (Praga. 50° 5', 23''); þat er hofuðborg og erkibiskupssetr, er stendr nærhæfis í miðiu landinu, á hæðum báðumegin við Moldá, er 3 mílur ummáls og vel umbuinn at varnarvirkium. Í henni eru 68 hofgarðar, 46 kapellur og kyrkiur, meðal þeirra er Sti. Veits hofuðkyrkia, í henni eru legstaðir allmargra konúnga, hertuga og hins helga Nepomuks, verndardyrðlings Bæheiminga, helgr dómur hans varðveitist í kistu af silfri er vegr 31 vætt. og 2 fiórð. Þar eru 76000 innb.

Í hinni elðstu kyrkiu í borginni liggr hinn nafnfrægi danski stiornuspekingr Thycho Brahe grafinn (er deyði 1603). Þar er og stórkostligr konúngsgarðr (Hrad) með 440 stofum, þióðskóli, hinn elðsti á Þýðskalandi, stipt. 1348 af Karli hinum 4ða, mikill bókastóll (100,000 bind.), afarmikil og nafnkénd steinbrú á Moldá; margskonar vísinda, og lista-skólar, bókahløðr, kiørgripasofn, vodvirki og vefstaðir og megin-kaupskapr landsins. Þar eru 76,000 innb. Í vestr frá Prag, við landamærina, er Eger við samnefnda á með 8000

innb. Þar eru laugar og ølkeldur; þar mætast þiódvegir til 3ia rikia nl. Bæheims, Saxlands og Bæararirikis. Í landnordr þadan er Carlsbad (Thermæ Carolinæ) og í sömu átt þadan Toplitz (Teplicia) skamt frá Erzfiøllum; þar eru nafntogadar laugar á bádum stödum. Nordr frá Toplitz er Joachimsdalr, þat er hit besta silfurberg í landinu. Austr frá Prag Kolen og í sudr þadan stadr sá á fialli, er Tabor (Taborium) heitir; hann lét Johannes Ziska giøra. Í Bæheimi eru margskonar landkostir og giædi; kemr þadan mikill varningr og godr, en umfram alt er gler og lérepti þar í afhaldi.

6. Markgreifadæmit Mæri (Mæhren; Morvia); þat liggr vid Bæheim sudaustanverdan og er 414 ferh. m. at stærd. Fiallgardar umkringia þad allumegin, nema hit sydra og allvídast er þat fiøllótt, þó eru þar sumstadar breidir dalir og sléttlendi. Sú merkasta á er Marsch edr Móra, hún rennr í sudr í Dóna; af henni segia menn landit dragi nafn. Þar er høfudstadr og biskupsstóll, er:

Brunnr (Brünn; Bruna) heitir vid Svartá; þar eru 10 forstadir, háskóli, lystileikahús, margskonar vodvirki, kaupskapr mestr í þessu landi og 4 markadir á ári hveriu: 25000 innb. Í landnordr þadan er Olmutz (Olmucium) med 11,000 innb. Þat er sterkr kastali og Erkibiskupsstóll vid Marsch; þar er

dómkyrkia, háskóli, Riddaraskóli og mikill stórgripa markadr.

Vid Bæheims landamæri er Iglá (Iglau; Iglavia) í hrióstugu bygdarlagi og ei allángt frá Brunni er þorpit Austerlitz, nafnkéndt af sigri Fracka 1805.

Akuryrkia og qvikfiárrækt eru adal-uppheldisvegir innbúa lands þessa fyrir utan margskonar vefnad og vodvirki, er þeir liggia manna best stund á í Austrríki.

7. Sá hluti Slesiulands, er liggr undir Austrríki er 86 ferh. m. at stærd; hin mæriska fiöll atskilia hann og Mæri. Hann er afarfiöllótt og óvida flatlendar; þadan gánga Karpatafiöll í austr, er þar skard þat yfir at fara til Ungaralands er Jablunka heitir og ver þat virki nokkut. Þat er Troppá merkastr stadr med 10000 innb. og Teschen vid Karpatafiöll. Innbúar þessa landsparts eru menn starfssamr og duglígir kaupmenn.

Vedráttufar í Austrríki er blídt og loptslagit hreint og heilnæmt, nema hit sydra, og ollir því agi í jördu þar og myrlendit. Hvergi er á Þýdskalandi, hiti svo mikill sem í Erkihertugadæminu Austrríki. Í Tyról skiptir í tvo horn um loptslagit; í dölum er svo hlýtt, at þar þrífast jurtir og ávextir sem á Vallandi, en á fiöllum uppi er mikit afl frosts og ævarandi iökull.

Austrríki telia menn medal hinna friófsömustu landa í Evrópa; þar finnst gull, silfr, kopar, iárn (einkum í Styriumörk, qvikasilfr

(í Idría), marmari, alabastr, gimsteinar, steinkol, brennusteinn, salt, mariuglas, merskúm o. fl. Í eingu landi í nordrálfu heims eru jafnmargar ølkéldr; þar er gnægd korns og tría-ávaxta, ógrynni sudurlanda ávaxta, skógar miklir, humall (sérílagi í Bæheimi) hør, hampr. Allskonar tamin dýr eru þar og samlik villidýr, og í ødrum Pýdskalands ríkium. Góð veidi allvída, einkum í Dunu, í henni veidist styria, lax, karpar o. s. frv.

Allskonar vodvirki, verkstadir og smidiur standa þar í blóma og er sérílagi Joseppi keisara 2m þat at þacka; þurfa því landsmenn ei at fá þvílíkan varníng af ødrum løndum ut efni í margshàttad vøruſmídi og vefnad. Einkum er línvefnadrinn í Bæheimi, á Mæri og Slesíalandi nafnkéndr.

Austrríkis lønd liggia vel vid kaupverslun og er þar allgódr kaupstapr bædi vid innlenda og útlenda t. d. Tyrkia, Russa, Ungara og til landa þeirra er liggia umhverfis Midjardarhafit, eru ávalt kaupskip í førum frá Feneyabotni. Frá Austrríki flytst: korn, vín, tóbak, vidr, humall, ávextir, salt, járn, kopar, blý, qvikasilfr, gler, ledr, tólkr, pottaska, nautpeníngr, hunáng, vax, pappír, knipliúgar (frá Bæheimi). — Þangat flytst. bómull, silki, tyrkneskt garn, ledr, sikr, kaffe, the, kryddjurtir o. s fr.

Þiódtrú í ríki þessu er hin rómverskakathólska trú, er keisarinn og hird hans játar, og eru þar 4 erkibiskupar (nl. í Vínarborg, Grätz, Prag og Olmütz) oddvitar kénn-

dómsins; þeir eru stólbiskupi eða Páfa litt háðir. Aðrir trúmenn hafa þar trúarbragða frelsi. Hálf þriðja millión Protestanta býr þar og sitr biskup þeirra í Vínarborg, og enn fleiri Grykkir. Þótt Joseph keisari hinn 2r aftæki 700 múnka- og nunnu-klaustr, eru þó enn á vorum dögum allmörg þvílik í ríki þessu.

Hvað alþiódliga upplýsing og lærdóm snertir, þá brestr innbúa ríkis þessa á við flestar aðrar Evrópu þióðir; ellir því óskipulig kénnsla litt lærdra klerka og múnka í skólunum, er öðrum fremr eru til þeirra starfa settir.

Tveir eru at eins þióðskólar í svo víðlendu ríki og ei allmargir háskólar (Lyceer og Gymasier). Fyrir hinnm fögru mentum er þar betr önn alin, og allmargar eru þar bókahlöður, meðal þeirra tekr hinn keisaral. bókastóll í höfuðborginni öðrum fram.

I Austrríki er ótakmarkat einvaldsdæmi í lög leidt og gengr þat í erfðir svo til manns sem konu eptir frumburðar-rétti, en ei má því skipta meðal fleiri erfingia. Ei skal keisari yngri enn 16 vetra þá hann tekr veldi i Austrríki (en 14 vetra, þá hann giörist konúngr í Bæheimi) og skal hann játa kathólska trú, og sé festarkona hans annarar trúar, skal hún jafnskiótt og hún giptist hönum, breyta trú sinni. Elzti sonr keisara kallast kónglígr-keisaraligr krónprins, og önnr börn og systkyni, Erkihertugar og Erkihertuginnur.

Skialdarmerki Austrríkis er tvihöfðað örn svört at lit, og með útbreiddum vængium, heldr hún á veldissprotu í annari klónni, en á ríkisepliun

í annari. Þar eru 6 Riddaraorður: 1. Gullna Bliefs orðan, stiptuð í Burgund 1430 af Philipusi góða; þat tignarmerki bera at eins mestu höfðíngjar og konúngar; einkunn þeis er: pretium non vile laborum. 2. Stiörnukrofs-orðan. 3. Elizabetar-Theresiu-orðan. 4. Mariu Theresiu-orðan. 5. Leopolds-orðan, og 6 Járnkrofs-orðan. Kénnimannligir orður eru: hin þýðska orða, Johannita-orðan og krofsriddarar af hinni rauða stiörnu.

Aðalsmanna ættir eru þar margar og ríkar; nú á dögum ræðr fyrir Austrríki keisari sá, er heitir Frans hinn 1ti með því nafni og geck hann ríkis 1792.

Herlið hans er 236,000 at tolu, þá stríðr er í landi; en herskipastóll hans er lítill, með því at ei er lángt síðan hann lét efna til herskipa. Stoð þeirra er í Triest.

Innbýggiarar Austrríkis eru 9 mill. 456 þúsund at tolu; þeir eru annattveggia þýðskir at ætt eða slaviskir (t. d. í Bæheimi Mæri, Styriumork, Kernt og Kran) þar eru einnin allmargir Gyðingar, landslýðrinn mælir bæði þýðska og slaviska túngu.

# IX. Kóngsríkit Niðurlønd eðr Holland (Nederlandene; Belgium.)

Norðmenn kølluðu forðum þennan hluta Európu Flæmingialand hit syðra og Frísland norðar upp með Kinlíma síðu. Fyrir vestan og norðan þat gengr Englandshaf (Norðrsiórinn eðr hit þýðska haf), en fyrir austan þat liggia þessi Þýðskalands ríki: Hansfraríki norðast, þá Vestphal, Jülick, Klefe, Berg og Niðrrín, og fyri sunnan þat Fránkaríki. Landit er nú á døgum 1147 ferh. m. at stærð.

Mestr hluti ríkis þessa er miøg láglendr, einkum at norðvestanverðu, þar hafa menn giørt girðíngar miklar við flæðarmál at veria landit ágángi siáfar kostar þvílíkt stórvirki ærit fé og atorku. Við strandir þess er grunnsævi og sandrif mikil, er kallast Dúner. Afarmørg siki eru grafin um land þetta, bæði til at veita burt vatsaganum, sorða flæðum, og til léttirs varnings flutníngum og ferðaløgum manna, verðr jafnan hvertveggia á nøkkursonar smáskipum (Trækskóiter) er hestar draga. Hit eystra eru víða heiðajørð, en í suðaustrhluta landsins er brattlendi; þar gánga Ardeunafiøll eða Ardeunaskógr um Luxenborgar Stórhertugadæmi.

Ríki þetta er agasult land og falla um þat stórfljót og móður, sem hafa þar miøg hæga rás; með því at hallinn er því nær sem eingi, og ollir því, at vøtn og veitr, mýrar og flóar eru þar fleiri enn í flestum øðrum løndum. Fyrir norðan Klefe fellr 1, Rín inn í land þetta og skiptist í 4 qvíslar: renna 2 af þeim í vestr, nl. Val (Vaal) er fellr í Mosá, kallast þat vatnsfall síðan Merve og fellr þat í Englandshaf. Vestar rennr affalli úr Rín í Merve. Norðar rennr Rín siálf í sømu átt; úr henni rennr affallar eða qvíslar 2 í norðr báðar í Suðrsió, heitir sá eystri Yssel, og hinn vestri Vecke, við Utrekt, giørist hún þá soo litil sem lækur og hverfr at mestu í sandqvikr, áðr hún kémr til siáfar uti Englandshaf fyrir vestan Leiden. 2. Mosá (Maas; Mosa) hún kémr at sunnan frá Frackland; 3 Skaldá (Schelde; Scaldis) hún kémr úr sømu átt og frá sama landi, og fellr við Flissing í Englandshaf.

Imillum Amstnrdamms, Harlem og Leyden í Hollandi er hit merkasta støðuvatn í ríkinu er Harlemssiór kallast. Frá Englandshafi skérast firðir miklir í suðr inn í landit, þeirra mestr er Suðursiór (Suydersee) hann er 60 ferh. m. at víðáttu og hvervetna grunnr og fullr grunnsævai hafa menn þat fyrir satt at þar hafi fyrrum þurt land verit er brim hafi brotit. Vik géngr vestr úr firðinum til Harlems-vatns er Hetey (Het Y.) heitir. 2, Dollart-fiørðr skérst inn á austr-takmørk-

um landsins, og vóru upphof hans með sama hætti á 17 öld, og Suðursiáfar.

Ríki þetta skiptist í 18 landsálfr (Provindser) og er yfir hvoria þeirra sett einn lands hæfdingi (Gouverneur) en tveir yfir Holland siálft. a, Nyrðri hluti ríkisins.

1. Holland; þat liggr vestast fyrir nordan Rínarqvíslir; þat greinist í Nordr- og Sudr-Holland. A votlendi, báðumegin vid litla á er rennr í Hetey, stendr Amsturdammr, (Amsterdam; Amstelodamum. 50° 22′ 5″ n. br.) Þat er hofudborg í ríki þessu og medal enna mestu stada í Evrópa. Hún er 1½ m. ummáls og stendr á afargrúa masturstriáa, er menn hafa rekit 20 til 30 al. í jordu nidr. Kanalar deila grundvelli borgarinnar í 90 smáeyar, en þær samtengia 280 brýr; þar eru 9 kyrkiur fyrir reformerada og 24 kyrkiur og kapellur fyrir katholska trúmenn, ásamt fleirum; í borginni midri stendr rádstofan; þat er hin mesta og vegligasta bygging í ollu ríkinu og stendr hún á hérumbil 14000 masturstriám; í kiollurum undir henni vardveita menn fiársióðu og ofurfé ens nafntogada amsturdammska þiódsióds eda bánka; kaupmanna samkomuhúsit (Börsen) er einnig mikil bygging og ásiálig, þar géta 4500 manna rúmast í senn. Þar er

afarmikill kaupskapr, tilsigling og hefn trygg og rúmgóð; leggia ástundum 1000 skip á einum degi inn á hana og optsinnis liggia þar í senn 6000 skipa. Í borginni og í grend við hana eru allskonar verkstaðir, voðvirki og smiðiur, bókahlødur, málverka- og kiørgripasøfn o. s. frv. Þar eru 212000 innbúar. Í vestr frá þessari borg er Harlem, (Haarlem; Harlemum) við Harlemsstó; þar er hin mesta kyrkia í Hollandi, silkivefnaðr, blómstrasala og heimili 21000 innbúa, er bleikia hør og lérepti manna best.

Fyrir norðan Amsturd. er Zardammr, það er allmikill staðr, en einkum markverðr at því, at náliga hvergi í heimi má siá svo marga og mikilræga aiburði og iðiusemi, sem þar; á einni serh. milu standa þar mørg hundruð (1400) vindmyllur til margskonar brúkunar. Þar nam Pétr hinn mikli, Rússa keisari, herskipasmíði og farmannsfræði. Norðar er Edammr, Alkmar, Horn og Enkhús (Enkhuysen) litlir staðir, á skaga þeim, er géngr í norðr fyri vestan Suðrsió. Í landnorðr liggia eyar í røð fyrir stardar mynninu; er Texel þeirra syðst og merkust, kallast sundit milli hennar og meginlands Texelstraumr eðr Marsdiúp; við eyu þessa er naústogud skipalega. Norðaustar er Flíland eðr Vlieland.

Í Suðr-Hollandi er Hagi eða Greifa-

Hagi (Haag, Gravenhage; Haga Comitis) skamt frá Norðursæ; þat er fegr borg í fegursta bygðarlagi landsins og konúngsins fremsta og fyrsta atsetr; þar er hofgarðr, fallstykkia-smiðia mikil og 42000 innb. Í norðaustr þaðan er Leyden, (Lugdunum Batavorum), þat er forn borg; þar er nafnfrægr þióðskóli, mikill bóka-stóll, stiörnuturn og málaraskóli — og 31000 innb. Í suðr þaðan er Rotterdammr (Roterodamum) við Merve, þat er annar mestr kaupstaðr í ríkinu; þar er mikit kaupmanna samkomuhús, ráðstofa, höfn góð og skipabygging og heimili 54000 innbúa. Þar er hinn nafntogaði þióðvitringr Erasmus borinn, er kénndur var við staðinn og stendr þar minnisvarði hans.

Í landsuðr frá Rotterd. er Dortrekt, (Dortrechtum) á ey nokkurri í Merve; þar er kóngsstedji og myntast þar hinir hollendsku Dúkatar. 19000 innb. Árit 1618 var þar háðr merkr kyrkiufundr. Vestar á sömu eyu er Helvotslus (Helwoetschluys), þaðan gánga flutníngs skútur til Harvíkr á Englandi. Í útnorðr frá Rotterd. er Delft (Delphi) með 13000 innb. Þar eru þeir Vilhiálmr 1ti og Hugo Grotius bornir. Og í hinni fornu kyrkiu hvílir Tromp og ýmsir hollendskir siókappar.

2. Sæland (Zeeland); svo kalla menn eyar í Rínar og Skaldár-qvíslum og mørg af

meginlandinu fyrir sunnan þær. Á ey þeirri midri, er vestast liggr og Valkeren heitir, er Middelborg (Mediolburgum) med 13000 innb. Sunnar á eynni er varnarvirki og gód höfn, er Flissing (Vliesingen) heitir; þar er herskipa rád, skipasmídi og hertþahús.

3. Í Utrekt (Utrecht), er liggr fyrir austan Holland og fyri sunnan Sudursjó, er Trekt edr Utrekt (Trajectum ad Rhenum) vid Rín; þar er þiódskóli, gautsk dómkyrkia forn og 35000 innbúar.

4. Í Gelderlandi (Geldern), er liggr austar, er Nimvegr (Noviomagum) vid Val sunnanverdt, med 14000 innb. Þar er Arnheimr, kastali vid Rín og Zutphen festing vid Yssel.

5. Efri-Yssel liggr nordar og vid Sudursjó vestanverdan. Þar er Deventr vid Yssel og Zvoll (Zvolla), víggirdtr stadr og ríkr vid Sudursjó. Nordar er:

6. Drente, þar eru engir merkir stadir. Nordast og austast er 7, Græningland (Groeningen), þar mitt lands er víggirdtr stadr, er Græningr (Gröninga) heitir; þar er þiódskóli og 27000 innb. Millum beggia sídstaliuna landsparta og Sudursjáfar er 8. Frísland (Frisia), þar er Lauvarden (Leovardia) med 17000 innb. Þar eru mikil léreptakaup. Harling, Franeker og Dokkum eru kaupstadir í þessu landi. Skelling og Ama-

land eru, eyar 2 í Englandshafi og liggia þær undir Frísland.

b. Sydri hluti ríkis þessa edr hinar belgisku landsálfur:

9. Nordr-Brabant, at sunnanverdu vid Mosá og Merve. Þar er Hertugabuskr (Herzogenbosch; Sylva Ducis), sterk borg med 14000 innbúum; Breda, sterk festing med 9000 innb.; Biergin (Bergen op Zoom) vestast, þat er rammbygd festing. Sunnar er:

10. Antverpen fyrir austan Skáldá; þar er einhvør hinn merkasti stadur í ríkinu, er Antverpen (Antwerpæ) heitir, vid Skáldá austanverda og var talid á midaldrí medal hinna mestu kaupstada í Evrópa; þar er hofudkyrkia mikil med hérumbil 80 fadma háum turni, háreist rádstofa, skrautligt kaupmanna-samkomuhús, ethvørt hit fegursta í Evrópa, nýbygt herskipa-reidahús, skipasmidi og afarmikil kaupverslun. Þéarlýdrinn er 60,000 at tolu. Þar er allmikil herskipalega.

Í landsudr þadan er Mekeln (Malina); þar er dómkyrkia mikil med markverdum turni og kniplinga vefnadr — 20,000 innbúar. Sunnar liggr:

11. Sudr-Brabant, þar er Brussel (Bruxellæ) í sudr frá Antverpen; þat er annat atseturstadr konúngsins og var

fyrr hofuðstaðr í hinum austrríkſku Niðurlöndum og telst á meðal hinna fegurstu borga í Evrópa. Borg þessi er umgirdt af 2 mílna laungum varnarveggium; í henni er þióðſkóli, konúngsgarðr, ſkrautlig gautſk ráðstofa, mikil bókhlaða — og 75000 innb. Forkunnar fínir kníplingar og fagrir vagnar, kérrur og reiðir koma þaðan.

Austar er Löven (Lovanium); þar er þióðſkóli, mikit ølbrugg og 26000 innb. Í landsuðr frá Brúſsel er Vaterló, þar háði Napoleon keiſari orrustu 1815 og bar lægri hluta. Fyrir ſunnan Suðr-Brabant liggr:

12. Hennegá (Hennegau) þar er Mons eðr Biørgin (Bergen; Mons Hannoniæ) í útſuðr frá Brúſsel, með 20,000 innbúum; þaðan fl[...]tiast dýrligir kníplingar. Vestar er Dorniđ (Tornacum) við Skáldá, með 22000 innbúum. Fyrir vestan 3 síðsttalin lønd liggr:

13. Eystra Flæmingialand (Öst-Flandern); þar er Gént eða Gand (Gandavum), víggirdtr og mikil kaupstaðr við Skáldá; þar eru margskonar voðvirki og ítarligir vefstaðir, þióðſkóli og heimili 61,000 innbúa. Þar er Karl keiſari hinn 5ti borinn.

Sunnar er Udenarde (Oudenarde), sterkr kastali, við sömu á. Fyri vestan þetta land og Hennegá og vestast í ríkinu liggr:

14. Vestra Flæmingialand (Vest-Flandern) vid Englandshaf; þar er Bryggia (Brügge; Bruga) skamt frá sæ; þat er alkmerkr kaupstadr med 34000 innb.; var hann fyrr. í félagi vid. Handsalsstadi.

Vid Englandshaf er Austendi (Ostende), er þvínær má í kaf færa, þá setst er um hann; þar er mikill kaupskapr. Austarliga í þessu landi er Kortryk, þar eru lérepti best á Nidurlöndum. Fyrir austan Nordr-Brabant og austan Antverpen liggr landsálfa su, er:

15. Limborg heitir vid austr-takmörk ríkisins; þar er Mastrekt (Maastricht; Trajectum ad Mosam), í austr frá Brussel; þat er rammliga umgirdtr stadr vid Mosá, med 18000 innb., er leggia stund á mikinn klædavefnad og skinna verkun. Fyrir sunnan þetta land og í samnefndri landsalfu er:

16. Luttik (Lüttich; Leodium) vid Mosá, allfögr borg; þar er forn og markverd dómkyrkia, þlódskóli, nafnkénd skinnaverkun og 47000 innb. Í grend vid stadin eru steinkolagreftir. At Spá (Spaa) eru nafntogadar laugar. Milli þessa lands og Hennegá er litit land, er:

17. Namúr heitir, þar er samnefndr stadr, í landsudr frá Brussel, þar er Mosá og áin Samber, (er kémr úr útsudri frá Fránkariki) og renna saman. Þat var fyrr. afarsterk borg; þar eru 16000 innbúar. Fyrir sunnan þau 2 sídstalinn lönd og sudaustast í rikinu liggr:

18. Stórhertugadæmit Lúrenborg, 108 ferh. m. at stærd; þat kom i eigu Nidrlanda forúngs á kóngastefnunni í Vinarborg, sem endrgiald fyrir hinar nassáisku landeignir á Þýdskalandi, er hann ádr átt hafdi. Stiórnsemi er þar sem annarstadar í ríkinu, en sem Stórhertugadæmi er þat í félagi ens Þýdska sambands. Sunnarliga í því er Lúxenborg (fra Lezelberg (Luciliburgum); þat er þýdsk sambandsfesting og allra borga sterkust og best umbúin í Evrópa. Med því land þetta er fiöllótt, er þar ei allmikil akuryrkia; en hardla gott er þat undir bú og allskonar qvikfénadr þrífligr. Þat hefir gnótt timburs, málma og víns vid Moselá

Í vestri hluta kóngsríkis þessa eru optsinnis þyckvidri og votvidrasöm vedrafall, þoka svo dimm, at naumliga finna menn ímillum húsa og mosturegn; ylra, mygla og ryd eru þar því hradsarari enn í ödrum löndum. Í hinum eystri og sydri landsplátsum er heidvidri tídara og þægiligri vedrátta.

Hit nyrdra finnast eingir málmar; ei heldr eru þar skógar, en mótekia er þar til hlýtar; hit sydra eru járn- kopar- steinkola- kalk- og marmara-námur. — Fyrir nordan Rínarqvíslir er korn yrkian ónóg til uppeldis, en fyrir sunnan þær, einkum í Flæmingialandi og Brabant, vex korn vel, ágiætr hör, hampr, tóbak, humall krap, sérílagi í Eyunum, gódir ávextir, og vínvidr nokkr og skógar á Ardennafiöllum. Hit nyrdra er ágiætt haglendi fyrir nautpening, sem

er þar þrifligr og arðsamr; þar er og nær hvervetna ullargott saudfé, býslugnarækt, fiski-afli mikill og ofturskélia-fáng einkum í Synnum. Varla hefir nokkr þióð lagt svo mikla alúð á aldingardarækt og ostatilbúníng, sem Hollend-íngar og á midium öldum vóru þeir flestum þióðum fremri at handidnum og lin- lérepta- og klæða-vefnadi, en sídan, þá adrar þiódir numu, hvørsu med skyldi fara, urdu þeir ecki einir um ordstýr né ábata; þó er ullarvefnadr-inn í Límborg, linvefnadrinn á Frieslandi, bleik-íng lérepta vid Harlem, kniplingar, twinni og skinnaverkun í Brabant o. s. frv. í miklu af-haldi. Hollendingar vóru fyrrum hinir mestu kaupmenn og farmenn. Eingi þióð í Evrópa rak á fyrri tídum svo mikinn kaupskap né fór svo vída um heim sem Hollendingar, uns Enskir giørdust þeim ríkari og þreyngdu at kosti þeirra; þó er kaupverslun þeirra enn allmikil og arð-søm einkum austr í heimi, Indíum, Kína og Japan. Í ødrum løndum selia þeir: smiør, osta, síld, lín, hamp, blómstur, brennuvín (Sje-nefer), salt, tóbak, kamfóru, tobaksvipur, múr-stein, klædi, kniplínga, lérepti, pappír og varn-íng austan og vestan úr heimi. — En ad sér draga þeir: korn, timbur, steinkol, stálsmidis-gripi og uppsprettuvatn.

Í ríki þessu er óþvíngat trúarbragða-frjálsrædi í løg leidt; en fyrir nordan Rínar-qvíslar eru landsmenn flestir reformeradir, og fyrir sunnan þær kathólskir. Þar eru 7 þióðskólar, ømsir háskólar og allmargar vísinda-

og Íþrótta-stiptanir. Árit 1814 hóst þetta konúngsríki og er þat takmarkat einvaldsdæmi, er géngr i erfdir, samqvæmt frumburdar-rétti, svo til karls sem konu. Konúngr giörist friáls forrædis 18 vetra og géngr honum til handa, þá lög skal setia, stiórnar-ráð þat, er kallast Generalstater, greinist þat i 2 flokka (Kamre) og kýs kongr siálfr medlimi annars þeirra, er ei mega fleiri vera enn 60, og ei færri en 40 at tölu; i ödrum flokkinum eru 110 riddarar, eru þeir eyrindsrekar stadar-manna og landbúa og kýs þá hver landsálfa fyrir sig; koma hvorirtveggiu saman i Haga og Brussel. Nú rædr fyrir ríki þessu konúngr sá, er Vilhiálmr heitir og hóst hann til ríkis 1813. Kóngsefnit kallast Prinz af Orania.

Skialdarmerki ríkisins er korónat lión, standandi á apar-sóinum á bláum feldi, í hægri kló heldr þat á sverdi, en í vinstri, á knippi af 18 pílum. Tvær eru þar riddara-ordur, nl. Vilhiálms ordan fyrir hermenn og Lións-ordan þeim til heidurs, er med ödru enn vopnum giöra sig hennar makliga.

Landlid konúngs er 40,000 at tölu; þar-adauki hefir hann 12 linuskip og 30 fregáttur. Langsetis vid Fraklands landamæri eru sterkir kastalar og raummbygd varnarvirki.

Innbúar ríkis þessa eru 5 milliónir 230, þúsund at tölu. Þeir kallast bædi Hollend-íngar, Frísar og Belgíar eda Vallónar, og eru þeir allir komnir af hinni þýdversku forn-þiód. Í háttum líkiast þeir sídstnefndu mest Frænkismönnum. Hollendingar eru gódir bú-menn, hagnytnir miög, starfsamir og miklir at-

dráttamenn; þeir eru farmenn miklir og hafa optsinnis reynst vel í siórbardøgum; ei hafa þeir géd á margindum né nipurligri kurteisi, sem Frakkar, er kalla þá heldr búraliga; en þrifamenn eru þeir og hibýlaprúdir; húsakynni þeirra eru hverki háreist né mikil, en forkunnar snotur og vel løgud med hentugu búserli. Almennr qvilli í Hollandi er kalda og qvef og sialdgiæfr er þar hár aldr.

## X. Bretland hit mikla og Irland (Storbritanien eller det brittiske Rige; Magna Britannia et Hibernia.)

Ríki þetta liggr ímillum 50° og 62° n. br. og 7° og 20° austl. l. og allskamt í útnordr frá Evrópu meginlandi eda Fránkaríki og samanstendr af 2 eylondum allmiklum, eyaklasum og smáeyum; þat liggr ímillum Englandshafs edr Nordrsiáfar hit eystra og hins atlantiska meginhafs hit vestra, en fyrir nordan eylond þessi mætast téd höf og at sunnan verdu samtengir þau sund mikit og breidt, er menn kalla Kanalinn ímillum Englands og Fránkaríkis, en sem annars er ymist kéndr vid Dofra á Englandi edr Kalé á Frakklandi. Ríki þetta er 5331 ferh. m. at stærd (meir enn fimmfaldt vid Danmørk) og greinist þat í 3 konúngsríki; eru tvø þeirra á stærra og eystra eylandinu, er Stórabretland kallast, nl. England og Skotland, og hit þridia er vestri eyan, er Irland heitir.

### A. Konúngsríkit England (Engelland; Anglia fyrr. Britannia Romana.)

Þat liggr ímillum 50° og 56° nordl. br. og 11° og 20° austl br. Svo

kalla menn syðri hluta eystra eylandsins og er sá miklu meiri enn hinn nyrðri eðr Skotland. Fyrir vestan England er hit írska-haf, er atskilr eylendinn; þat kallast at sunnanverðu Georgskanall. England er 2584 ferh. m. at stærð. Austr strandir lands þessa eru víða láglendar; þar eru mörg kritarberg; en at suðvestanverðu, hit vestra og nyrðra eru allvíða lág fiöll og hálsar, meðal hvorra má telia Wales- eðr Bretlands-fiöll, hin hæstu á Englandi, Peack í Derbyskíra, hrióstuga fiallbygð, norðar enn í miðiu landi, og fiallgarð þann, er Tiviot-fiöll (Cheviotshills) heitir og atskilr England og Skotland. Utskagar eða nes, er lengst gánga í haf út, eru: Forland í Kent, í austr; Landsendi í vestr og Lizard (Englanes) í suðr, bæði á Kombretalandi.

Priár eru ár mestar á Englandi nl. Temsá, eða Temps (Themsen; Tamesis), hún er þeirra mest og merkust; upptök hennar eru í Glostur-skíra og rennr hún í landsuðr í fiörð þann af Englandshafi, er við hana er kendr. b. Severn (Sabrina) kemr frá Norðr-Bretlandi og rennr í Bretlands fiörð. c. Trent (Abus) kemr frá Peack fialli í Derby skíra og rennr í landnorðr, en þá nær dregr hafi, kallast á þessi Humber eða Humbra, og fellr í fiörð af Englandshafi, er tekr nafn af henni.

A sú, er Mersey (Merseus) heitir, rennr vid Liverpól í hit írska haf.

Margir og harla merkiligir eru kanalar þeir edr manngiørd díki, er samtengia allar þær ár, sem nefndar eru og mørg ønnr vøtn, svo hvervetna má skipa flutningum vid koma um landit. Þeir nafnkéndustu kanalar eru: hinn brigdevaterski Kanall, Oxna-furdu-Kanall, millum Temsár og Trentar og Bristolarkanall er sameinar Severn og Mersey. Medal stødavatnanna er Vinandsfiór í Lancaskíra hit merkasta.

Auk þeirra fiarda, sem ádr er sagt at skérist inn í austr-strønd Englands, hverkr fiørdr nokkr inn í hana milli þeirra, er Vass (Wash) heitir. En at vestanverdu gengr Bretlands-fiørdr edr Bristolarbugt (Bristol-Canalen) sydstr inn, imillum Bretlands og Kombretalands, þá Kardiganbugtin og Solvaibugtin nørdast á landamærinni.

Kóngsríkit England greinist í 2 hluti nl. hit eiginliga England og Fyrstadæmit Wales edr Bretland.

I. England (Anglia; Britannia) þá Angelsaxar á 5 øld brutu England undir sig, skiptu þeir því í 7 kóngsríki, er hétu Essex, Kent, Sussex, Vestsex, Mercia, Austangeln og Norymbraland; en nú á døgum er þat greint í 40 Skíra (Schirer) eda greifadæmi.

A og nálægt austurströnd lands þessa eru þessir stadir merkastir: Lundún eda Lundunaborg (London; Londinum, 50° 30' 49" nordl. br), bádumegin vid Temsá og 9 mílur frá mynni hennar; þat er høfudborg í Englaveldi, atseturstadr kóngsins, hinn mesta og fiølmennasta borg í Nordurálfu heims og hinn stærsti kaupstadr í øllum heimi. Hún er half onnr mila á lengd og skiptist í 3 høfudparta og er yfir hvern þeirra settr einn høfdíngi.

1, Citn edr sá eiginnligi stadr, høfdíngi hans kallast Lordmajor; þar er kaupskapr mestr, og ymsar háreistar byggingar, t. d. Sti. Páls kyrkia, hún er vegligust allra protestantiskra kyrkna og lík Sti. Peturs kyrkiu í Róm, en þó minni; Tover, þat er forn kastali, þar er herthabúr, þiódskialahirsla, kóngsstedi og þiódsiódr; kaupmanna samkomuhús og Lordmajorsins hofgardr.

2. Vestminstr, þat er hinn fegursti hluti borgarinnar; þar rædr fyrir høfdíngi sá er Sherif kallast; þar búa adalsmenn og hinir ríku. Þar er forkunnar føgr kyrkiu-bygging giørd á gautska vísu er kallast Vestminstr-Abbedi; þar eru legstadir konúnga og stórmennis. Vestminstr-høll er mikit hús á fyrnsku hátt; þar heldr Parlamentit samkomur; forn hofgardr, er Sti. James heitir; Karltonhús, þar sitr konúngsefnit. 3, Sudrvirki

(Southwarh) fyrir sunnan Temps, þar eru verksmidiur mestar og vodvirki. Þar eru 7 brýr á ánni; eru þær allar nafnkunn stórvirki og 3 af þeim af steyptu járni. Í Lundunum eru 250 kyrkiur, 4500 kénslustólar, margir spitalar og imillum 10 og 11 hundr. þúsund innb. Hydepark er vídfrægr lystigángr. Í Windsors-sloti sitr konúngr á sumrum.

Í landsudr frá Lundunum er Grænvik (Greenvich; Grenovicum) vid Temps, med 17000 innb. þar er spitali fyri 5000 hruma sjómenn, stiørnuturn, gégnum hann draga Enskir enu fyrstu hádegis línu. Lengra brott og vid sömu á er Graffandr, litill stadr; þar gánga jafnan ferdamenn í land. Sunnar er Kattam (Chattam) þar er hit mesta skipreida-hús í heimi. Í austr þadan er:

Kantaraborg (Canterburg; Cantuaria), þar er erkibiskupsstóll, forn gautsk dómkyrkia og 10,000 inub. Í landsudr þadan er Dofre (Dover; Dabris) vid Kanalinn gagnvart Kalé á Frakklandi. Einusinni í viku hverri fara flutníngsskútur millum stada þessara; þar er sundit 6 mílur at breidd.

Þar er og nafnkénd skipalega, er kallast Duunr (eda the Downs) millum lands og grunnsæfis eda sandrifs mikils, er liggr nordr med strønd þessari og kallast Godvins Grynníngar; á tødri skipasíod má allopt sjá mikinn fiølda enskra herskipa og kaupfara samankomin.

Í landnordr frá Lúndunum er Kolséstr (Cholchester; Colcestria) vid sæ med 17000

innb. Þar er markverdr ostursk lia-asli austar er Harvik, þadan gánga feriuskip til Hollands. Nordar vid sæ er Ipsvik (Gippevicum) med 14000 innb.

I vestr þadan er Kambryggia (Cambridge; Cantabrigia); þar er þióðskóli, mikit bókasafn og 11000 innb. Skamt þadan er Nýmarkadr (Newmarket), þar eru mest hesta-þing og vedhlaup háð á Englandi. I nordr frá Ipsvik er Nordvik (Norvich; Nordovicum); þar eru vodvirki mikil, er landflotta Hollendingar hafa á stofn sett, og 37000 innb. Austar og vid sæ er Jarnamóda (Yarmouth, Jarmuthum), þar er góð hafn, mikil skipa útgerd til sildarveida, — og 18000 innb. Þadan gánga flutningsskútur til Kúxhafnar. I útvestr þadan er Boston vid Vassfiord nordanverdan og i somu átt þadan Linkoln (Lincolonia) stutta leid frá sæ; þar er einnr gautsk kyrkia mest á Englandi. I nordr þadan er kaupstadr sá, er Húll eda Kingston heitir, vid Humbru nordanverda.

Þá Jórvik (York; Eboracum) vid ána Usu og i útnordr frá Húlli, i vidkéndum Skira, sem er hinn vidlendasti á Englandi; þat er mikil borg og hin merkasta næst Lundúnum; þar er erkibiskupsstóll, forkunnar veglig dómkyrkia, sem er hin stærsta í ollu Englaveldi, og medal hinna mestu í heimi, — og 18000

innb. Vid téda á, er rennr í Humbru, fell Haraldr kóngr Sigurdarson (25 Sept. 1066) og margt nordmanna med honum. Fyrir sudvestan Jórvík er Leds (Leeds; Ledesia) med 26000 innb.; þar eru hin merkustu vedvirki og mesti klæda-markadr á Englandi.

Í landnordr frá Jórvík er Skardaborg (Scarborugh) vid sæ; þar eru nafnkénd málmdámud vötn. Í grend vid stad þenna, sem fyrrum var meiri, enn nú, er Klifland, er getit finnst í fornsögum. Nordar er Hvitibýr (Whitby); þar er Kók borinn. Í útnordr frá Skardaborg er Durham og skamt þadan vid sæ Sundrland, þar er afarmikil steinkola-verslun.

Nordar er Nýkastali (Newcastle; Neocastrum) vid ána Tine; þat er mikill kaupstadr, med 28000 innb. Þar er steinkolasala mest á Englandi og eru þar 400 skip í förum med þann farm. Nordasti stadr í landi þessu er Bervik edr Beruvik vid Hvetumynne, er fyrrum heyrdi Skotlandi til.

Á strøndinni, er veit í sudr edr vid Kanalinn eru þessir stadir: Hesting (fyrr. Helsingiaport) fyri vestan Dofra; þar fell Haraldr Gudinason 1066. Vestar er Cicestr (Chicester); þá Portsmót (Portsmouth; Portus magnus) þat er víggirdt herskipahøfn á ey, er Portsær (Portsea) heitir; þar smída menn og útbúa herskip, er þar reidi og tilfær-

íngar til herskiposmida og útbúnings — og 40,000 innb. Spithed (Spithead) er þorp, þar er ágiæt skipalega. Í útnordr þadan og nokkra leid frá sió, er Vincostr (Winchester; Vintonia); þat var fyrr. heimili hinna vestsaxisku kónga og hvíla ymsir þeirra þar í dómkyrkiunni. Þar eru 6000 innb.

Í landnordr frá Vincestri er bŷr sá, er Vindsor heitir; þar er munngáts-brugg mikit og sápugiörd; skamt þadan er kóngligr hofgardr, er Vindsors-Kastali kallast; þar eru hosubands-riddarar skrýddir.

Í vestr frá Vincostr er Salsberg eda Salisborg (Salisbury; Sarisberia) med 10,000 innb. vid á þá, er Avon heitir; þar er enhver hin fegursta gautska kyrkia á Englandi; nálægt stad þessum má finna allmargar eptirstödvar frá fornöldum. Í útsudr þadan er Dorcestr (Dorchester) nálægt sæ, lítill stadr. Fyrir sunnan hann gengr nes nokkurt út, er Portland kallast; þar er sandsteinn mikill og ágiætr og eru ymsar byggingar í Lundunum af honum giörvar. Lengra vestr er Exetr (Exeter; Exonia) med 19000 innb. og í útsudr þadan er Plýmót, (Plymouth; Plimuthum) vid vík nokkra; þat er ramliga umgirdt herskipa höfn og stöd mikils þorra hins enska stridsskipa flota; þar er nafnfrægd skipagerd og afarmikil hertygja og forda-búr, og 65000 innb.

Austar er Dartmót (Dartmouth). Skamt þaðan er nafnkunn skipalega, sem kénd er við Torbay. Framundan Plymót stendr drángi eða klettr í hafinu, er Eddusteinn heitir; þar er merkr viti. Vestar á skaga þeim sunnanverðum, er lengst gengr í útsuðr á Englandi (og Norðmenn fyrr. kölluðu Cornbretaland; en nú á dögum heitir Cornvallis), er Falmót (Falmutum); þar er einhver hin besta höfn sunnan fram á Englandi; þaðan gánga 22 ferða-snekkjur til Lissabónar, Vestindía og Norðr-Ameríku.
A skaga þeſsum eru fiöll og lítt frióſsamr jarðvegr; en margar eru þar tin. og kopar-námur.

Á Englandi vestanverðu eru þessir staðir: Bristól (Bristolium) við á þá, er Avon heitir og skamt frá botni Bretlandsfiarðar; þar er ítarligt kaupmanna samkomuhús, miklir sikurhreinsunar verkstaðir og glerstevpusmiðiur og 77000 innbúar, er miög sækia fiskiafla við Nýfundnaland. Í landsuðr frá Bristól er Bað (Bath o: Bed; Bathonia, Aqva Solis) nafntogaðr staðr at laugum og miög sólsóktr; þar eru 40 baðhús og 32000 innb. Í landnorðr þaðan er Glostr (Gloucester; Clanum) við Severn, höfuðstaðr í samnefndum Skíra, í hverium er ostagiörð mikil og víðkunn.

Norðar við téða á er Worcestr (Vigornia) þar eru merkir handska verkstaðir og bestu porcelans smiðiur á Englandi — og 13000 innb. Í landnorðr þaðan er Warvik; skamt

þaðan er hinn háreisti og skrautligi Varvikr Kastali. Norðar er Koventri, þar er banda og borða-vefnaðr mikill. Norðar og vestar er Birmingheimr með 87000 innbúum, sem eru úrval enskra málmsmiða; því hvergi á Englandi eru svo margar, góðar né margskonar smiðiur sem þar. Meðal þeirra telia menn 130 knappasmiðiur, 30 byssusmiðiur, o. s. frv. Í útnorðr þaðan er Srúsborg (Shrewsbury; Salopia) við Severn með 17000 innb.

Í útnorðr þaðan er Céstr (Chester) afarforn staðr við vík af Irlandshafi; þar eru 16000 innbúar, er eiga kaup við Irska um lérepti; þaðan gánga og feriuskip til Irlands. Kaupeyrir innbúa samnefnds Skíra, er viðkéndir ostar, af hverium þaðan flýtiast árliga 250,000 vættir víðsvegar um heim. Í norðr frá Céstri er Liverpól (Liserpalus) við Merseyar ósa; þat er annar mestr kaupstaðr á Englandi; þar eru 95000 innbúar, er brugga mikit öl, tilreiða ógrynni tóbaks og reka kaupferðir á 1000 kaupförum til allra heimsálfa, einkum vestr í heimi, hvar kaupmenn frá Liverpóli seldu með miklum ábata Blökkumenn eðr Negrana frá Afriku mansali og vóru manna tregastir til at láta af þessum kaupskap, þá bannaðr var. Hofnin í Liverpól er sannkallat meistara-verk. Vestar og norðar

er Manceſtr (Manchester; Mancunium); þar eru 200 bómullar-vodvirki og meſt af bómullarvarníngi og dúkum ſamankomit á Englandi; þar eru nær 100 000 innb. Í útnordr þadan er Lankaſtr (Lancastria) vid Írlandshaf, med 9000 innb., er reka kaupſkap veſtr í heimi og í Eyſtraſalti.

Fyrir nordan ſamnefndan Skíra liggr Veſtmoraland, þar eru eingir merkir ſtadir; þá Kumbraland nordaſt þeim megin í landinu; þar er Hvítahöfn (Whitehaven; Portus albus) vid ſæ; þar eru ſteinkola námur miklar, er ná út undir mararbotn. Í landnordr þadan og vid botn Solvangs-fiardar ſtendr Karlisle (Carleotum) med 13000 innb; þat er umgirdtr ſtadr med merkum vodvirkium.

Mitlands eru þeſsir ſtadir: Oxnafurda, (Oxford; Oxonium) vid Temps í útnordr frá Lundúnum; þar er forn og nafnfrægr þiódſkóli, (ſtiptadr af Alfridi hinum mikla) og forkunnar gott bókaſafn og 13000 innb.

Auſtar er Hartfurda, og fyrir nordan hana Bedfurda og þá Hundatún (Huntingdon); þar er Cromvell borinn 1603, ſama dag er Elizabet drottníng andadiſt. Leiceſtr (Leicestria) fyrir nordan Oxnafurdu; þar eru 17000 innb. og eitthvert hit meſta ſokka-vodvirki á Englandi. Í landnordr þadan er

Nottingheimr (Nottingham) vid Trent; þar er afarmikill sokka-vefnadr, muungáts-brugg og 34000 innb. Vestar er Derbýr (Derby; Derventia) þar eru 13000 innb. og nafnkunn silkimylla; í henni eru nær 27000 hiól. Allir þessir stadir liggia mittlands og í vidlendum Skírum.

## b. Furstadæmit Bretland edr Valland (Vales; Vallia Vallis Cambria fyrr. Britania secunda.)

Þat er umflotit af Irlandshafi á 3 vegu og áfast vid England at vestanverdu; þat er 316 ferh. milur at stærd; þar eru fiöll fleiri og hærri enn á Englandi og friósamir og fagrir dalir milli þeirra; eru þar því heilnæmari vedurátt og hreinvidri tídari. Landit greinist í tvo höfudparta nl. í Sudr-Vales og Nordr-Vales og hvort þeirra aptr í 6 Skíra.

Þar eru eingir stadir miklir; þó má hér géta Pembrók vestast vid Bretlandsfiord nordanverdan og vid vog nokkurn, í hveriu er hin stærsta og oruggasta hofn í Nordrálfu heims; hún kallast Milfurduhöfn. Austar vid tédan fiord er Svansea med 7000 innb. Þat er hinn merkasti og fiolmennasti stadr í þessu landi.

Þá Jótar og Saxar ruddu sér til ríkis á Englandi flúdu, hinir fornu landsmenn, er Kymrar (Cymri) heitu, í vestr og leitudu sér

hælis í Bretlands fiallbygdum og hefir síðan sá ættsprengr búit þar; þeir eru at háttum og málìsku Enskum ólíkir, en ræki þó somu trú.

## c. Eyar, er liggia undir England.

Fyrir sunnan England og framundan Portsmót er a, ey sú, er Vikt (Wigth; Vectis) heitir; hún er 9 ferh. m. at stærd og hvervetna ramliga umgirdt; þar er ágiætt hagqvisti fyri sauðfé og víggirdir stadr er Nýaport kallast Eyarmenn eru 27000 at tölu. b, Sudr vid Frakklands Strandir eru 4 eyar, er kallast: Gernsey, 6 ferh m. at stærd; Jernsey nokkut minni, Alderney og Sark; þær eru lítilvægar eptirstödvar af þeim vidlendu landeignum, er Enskir á midöldum áttu á meginlandi eda Frakklandi c, Framundan Kornbretalandi edr Landsenda liggr eyaklasi mikill, 10 mílur undan landi, er Syllíngar eda Stillíngar (Scilly-Öer; Cassiterides) heita; þær eru 140 at tölu og flestar smáar og grædalitlar. Sex af þeim eru bygdar, medal hverra St. Maríuey (St. Marys) er hin merk sta. Þar tók Olafr Tryggvason skýrn sem segir í sögu hans (993) — d. Vid útnordr horn Bretlands er ey allmikil er Aungulsey, (Anglesea) heitir og skilr hana og téd land sund þat, er Aungulseyarsund kallast; á henni vóru ferdum eykiskógar miklir, en nú eru þeir at mestu upprættir. Þar var eitthvort hit nafnkéndasta heimili Druida í fornöld. Á eynni vex gnægd byggs og hafra,

og í flalli því er Parrisbiarg heitir, eru eyr-námur miklar. Nordar í sama hafi er: e, Møn (Man; Monabia); þat er allmikil ey midt ímillum Englands og Irlands. Hún er 10 ferh. m. at stærd. Eyarmenn eru 30,000 at tölu, og eru þeir komnir frá hinum fornu Bretum. Þeir hafa sömu trú og Enskir og sitt eigit stiórnarrád, er saman stendr af 24 keys edr forrádafulltrúum, en fyri því rædr enskr höfdingi (Gouverneur) er býr í Kastala-turni (Castletown), merkasta stad á eyunni, sunnanverdri.

Loptslágit í Englandi er rotvidrasamt og sudda-hvolfit þar, einkum á ströndum þess þykt, þrúngafult og þokusamt; lengra frá sæ er þægiligra loptslag og vedur, og í fiallbygdum landsins er hreinvidri tídara og léttara lopts-lag. Á vetrum eru frost annattvegia hæg edr eingin og á sumrum hitinn tempradr og vel bæriligr.

Öll eru náttúru-ríkinn allaudug á Englandi; á Kombreralandi eda Kornvall eru tin-námur svo ágætar, at hvergi finnast þvílíkar í heimi; þar og á Bretlandi (Vales) og vídar er blý, járn, kopar edr eyr, marmari, alabastr, floguglóbu, nyllasteinar, porcelaussteir og ógrynni steinkola, einkum í Nordimbralandi og Kumbra-landi, álún, saltvetr, vitríól og málmdámodar uppsprettur. Eingin kornteguud vex þar svo ofrgnægtanliga sem hveiti ásamt ofurgnægd ávexta, og ágætr humall. Skóglendi er þar litit. — Þar er allr qvikfénadr stór, (einkum hestar) þrikigr og af gódu kyni, hit enska saudfé

géngr því spanska nærst at giædum; Hundar á Englandi eru nafnkunnir. Villidýr eru þar fá, en fiskiasli ágiætr; sérilagi fiskast þar síld, þorskr og Lax og vid Kents og Essex-strandir ostruskeliar.

Hvergi í heimi hafa handidnir og hagleikr náð þvílíku algiørsi sem í Englandi. Medal ótøluligra verkstada og smidia, sem þar finnast og ár frá ári aukast og taka framførum, má nefna ullarvodvirkinn, (þau bestu og mestu í Bradfurdu) bómullar- klki- og segldukavefstad-ina og ledur- og handska-verkstadina (sérilagi í Vincestri), pappírsmillur í Kentskira, sikur-hreinsun og tóbaks-tilreidslustadir (í Líverpól) sápugiørd (einkum í Vindsór) og þvínær hver-vetna ágiætt ølbrugg. Járn- og málmsmidiur eru bestar í Birminghaheimi og Séffeldi, steinkera-smídi í Staffurduskira, glersteypur og speigla-smidiur á ýmsum stødum. A bergverk og námur leggia Enskir mikla alúd.

Enskir eru nú á dogum hin mesta kaup-skapar-þiód í heimi og lagdi Kromvell grund-voll verslunar vidskipta þeirra um giørvalla heimskringlu med løgum þeim, er hann setti 1651 og kallast Navigatiónsact edr kaupfaraskrá. Varla er sú þiód í heimi, er Enskir eigi ei kaup vid, né sá stadr vid sæ á jardarhnettin-um, at ei hafi enskir farmenn þar komit. Ný-lendur þeirra, í øllum ødrum heimsálfum, fá þeim nægan kaupeyri at flytia til þeirra landa, er skorta þann varning; má því segia ad þeir reki alheimsliga kaupverslun. Einkum er versl-

un þeirra í Austindíum, Kína og Vestindíum harla arðsöm og hit enska austindiska kaupmanna-samband er hit mesta í heimi og á þat afarvíðlendar jarðeignir í Asíu. Kaupskap Enskra greiðir hinn mikli Lundúna þióðbánki, sem er allra þióðsióða mestr í heimi, ásamt 850 öðrum minni megiusióðum, er finnast í ríki þessu, sömuleiðis iðugligar feriuferðir til ýmsra landi. Innanríkis er kaupverslun hvervetna iðkuð með miklu kappi og létta hana manngiörð díki, ágiætir þióðvegir og ýmsar uppáfinningar, er jafnframt lýsa hugviti og auðlegð Enskra. 3000 kaupskip eru iðugliga í förum millum Englands sástaða og 28000, til annara landa og heimsálfa.

Merkustu kaupstaðir í Englandi eru: Lundúnaborg, Bristól, Líverpól, Porismót, Plýmót, Falmót Hostahöfn, Nýkastali Hull eda Kingston, Jarnamóða og Kolcestr.

Enskir færa og selia öðrum þióðum sérilagi: málma, klæði og margskonar dýriudisvefnad og ýmisligt verksmiði, aust- og vest-indiskan og kínesiskan varníng o. s. frv.; en kaupa og draga at sér: vínfaung, brennuvín, suðrlanda-ávexti, feitmeti, ótilreidd verkefni til vodvirkia og verkstaða og fl.

Í Englandi hófst á dögum Heinriks 8da hinn prótestantiski kristindómr, (en náði fyrst staðfestu, þá Elizabet drottníng sat at ríkium) er menn kalla hinn biskupliga (episcopale); með því at biskupar hafa þar æðri tign og metord, enn á öðrum löndum. Tveir eru kénnimanna oddvitar tignastir nl. erkibiskuparnir í

Kantaraborg og Jórvík; þeirra bodi og banni hlýda 27 biskupar. Í Englandi hafa öll kristinna trúmanna félag fult trúarbragda friálsrædi. Medal þeirra má hér géta Qvæk, ará og Methódista.

Biblíufélagit á Englandi er einhvør hin starfsamasta og nafnfrægasta stiptun nú á døgum, og má þat heita módir allra þvílíkra sambanda á ødrum løndum. Þat lætr prenta biblíuna á margbreyttum túngumálum og útbýta til nálægra og fiarlægra þióda.

Tveir eru þiódskólar í Englandi, í Oxnafurdu og Kambryggiu og er sá í Oxnafurdu meiri og eldri; bádir eiga þeir miklar bókahlødur. Medal allmargra lærdóms félaga er hit kóngliga Vísindafélag í Lundúnum hit merkasta.

England er einvaldsríki, er géngr í arf til manns og konu eptir frumburdar erfdarétti. Konúngr tekr ríki 18 vetra; hann skal rækia þá í Englandi løgteknu þióðtrú og ei ekta kathólska prinzessu. Vald konnúngs veikir ráð þat, er **Parlament** kallast; þat greinist í 2 flokka edr hús, er heita **Yfirhús** og **Undirhús**. Í Yfirhúsinu eru kóngssýnir, tignustu adalsmenn og ædstu kénnimenn, og eru þeir hérumbil 590 at tølu. Í Undirhúsinu eru kostnir eyrindsrekar fyrir hønd Skiranna og stadina; þeir eru 658, medal hværra 45 eru frá Skotlandi og 100 frá Írlandi. Í þessu húsi rís ávalt flokkr nokkr móti konúngs rádgiøfum er Oppositionspartie edr mótstødumanna samtøk kallast. Í Parlamentinu skérst

ár øllum málum með atqvæðum. Sérhvert laga framvarp kalla Enskir Bill, en þá kéngr hefir staðfest þat, Act. Konúngr skal saman kalla Parlamentit þriðia hvert ár; en ei má eitt Parlament sitia lengr en 7 ár; þó má konúngr heimta þat til fundar hvar og nær hann vill. Elldsti sonur konúngs kallast Hertugi af Kornvall (Kombretalandi) og at fengnu kónglign leyfi, Printz af Wales. Aðrir kóngbornir prítzuar taka nafn af ýmsum greifadæmum. Englands skialdarmerki er 3 gullnir Leopardar.

Þar eru 3 riddara orður: 1, Hosubands-orðan, stipt. af Edvarði 3ðia 2, Bað-orðan og 3, Pistils-orðan.

Tólf eyðsvarnir (Jury) giöra þat um mál manna, og dæma þann ákiærða sekan (Guilty) eðr ekki sekan (no guilty); Konúngr má náða sakfelda, eptir vild sinni.

Landlið Englakonúngs er yfir 112 þús. manns, at meðtøldu herliði hans í Nýlendunum. En svo mikinn herskipastól og skipaher hefir hann, at aldrei hefir nokkr konúngr haft jafnmikinn; línu eðr meginskip hans eru 250 at tølu og 264 fregáttur. Herskipastotinn er deildr í 3 flokka, eptir því rauða, hvíta og bláa flaggi.

Innbyggiarar lands þessa eru 10,194,000 at tølu; þeir eru allir at Walesum eða Bretum undanteknum, komnir af Angelsøxum, er blönduðust hinum elðstu innbúum landsins, Dønum og Norðmønnum og kallast þeir Englismenn Englendingar, Enskir og Engelskir, einnin af Walesum, eptirkomurum enna fornu Breta; þeir mæla enn þá hina gømlu kymrisku túngu.

## B. Kóngsríkit Skotland (Caledonia, Scotia.)

Svo kalla menn nyrðri hluti fyrrtéðs eylands. Þat liggr, ásamt eyum þeim, er til þess heyra, millum 9° og 19° austl. l. og í norðr og suðr milli 54° og 62°. Þat er 1441 ferh. m. at stærð.

Víðast er land þetta fjallótt, einkum nyrðri hluti þess, er menn kalla Hálønd (hálendi); syðri hlutinn er flatlendari og kalla menn þat Láglønd; þar eru dalir fagrir og friósamir. Í landinu eru mørg og afarðiúp støðuvøtn (Lochs) og elfur og í þeim fossar margir; þat er ærit vagskorit og strandir þess víðast berar og giædalitlar. Meðal fiallanna á Skotlandi má telia fiallgarð þann, er Tiviotfiall kallast; þat skilr England og Skotland, og Grampianfiøll á takmørkum Láglanda og Hálanda; meðal þeirra er fiall þat, er Ben-Nevis kallast, þat er hit hæsta á þessu eylandi.

Nesoddi sá, er lengst gengr í austr í haf út, kallast Buckan-nes og strøndin í suðr þaðan hét fyrr. Buckansíða. Skaginn, er lengst gengr í landnorðr, hét forðum Katanes og skagatáin Dúngalsnýpa (nú Dungsbay-Head) er gétit stundt í fornsøgum og margra annara ørnefna, sem nú eru þar né minni liðinn.

Þriár eru elfur merkastar á Skotlandi: 1. Klæð, (Clyde; Clota); hún fellr í útnorðr

framhjá Glasgó í fiörd af Irlandshafi, er tekr nafn af ánni. Nordar fellr, 2, Fort, (Bodotria) í austr í vidkéndan fiörd af Nordr-sæ; og þá Tay (Taus), er kémr úr útnordr og reunr í fiörd af Nordr-sæ, sem kéndr er vid ána. Auk þessara er Tved, syrr. Hvetá, hún rennr nálægt takmörkum ríkianna í Nordursió. (Hvetumynni) og 2 smá-ár, Don og De.

Manngiördt díki, sem kéndt er vid Glasgó, samtengir árnar Klæd og Fort og hit Kaledóniska síki er grafit frá Invernesi þvert ígégnum landit til hins atlantiska hafs. Ness-vatn og Lommonds-vatn eru þar allra stöduvatna mest og diupust. Auk þeirra fiarda, er syrr-greindar elfur renna í, er fiördr sá edr flói, er hverfr inn í landit frá Nordr-sæ, milli Búkanness og Kataness, er Murraybugt heitir, en syrr. kalladist Skotlandsfiördr; og annar nordar, er Dornoksbugt heitir.

Konúngsríki þessu skipta menn í 4 höfudparta nl. Sudr-Skotland, Mid-Skotland, Nordr-Skotland og Eyarnar. Þaradauki greinist þat í 31 Skíra og 2 umdæmi (Stewartrys.)

1. Sudr-Skotland; þar er Eydinaborg edr Edinborg (Edingburgh; Edinburgum; 55°. 57′ 57″ n. br.) vid Fortfiörd sunnanverdan, þat er höfudborg í ríki þessu; hún er þvínær 2 mílur ummals og stendr á mishæum grundvelli. Alldiúpt dalverpi skiptir henni í 2 hluti, nl. fornu og Nýu Eidina-

borg og liggr afarmikil steinbrú yfir dalinn, er kallast Hábrú; þat er hit mesta stórvirki. Í gömlu borginni eru mió stræti og fornfálig húsakynni, en vída tólsinyft; í hinni nýu borg eru 3 samsída liggiandi einka fögr stræti og skrautlig og svo skrýnliga bygd húsakynni, at hún telst ámedal fegurstu borga í Evrópa. Í Eidinaborg er hinn forni skotski konúngsgardr, Parlamentshús, þiódskóli, stift. af Jacob 6ta og nafnfrogat lækníslvísinda félag, mikill kaupskapr — og heimili 88,000 innbúa. Stutta bæarleid þadan og nær sæ, er Líd, (Leith) þar er höfn og skipalega Eidinaborgar, mikil kaupverslun og tilsigling. Í vestr frá Eidinaborg er Glasgó (Glasgow; Glasgovium) vid Klædsá, þat er annar kaupstadr mestr í Skotlandi og í tilliti til bomullar- og línvefnadar einhvar hinn merkasti stadr í Englaveldi þar er þiódskóli og yfir 100,000 innb.

Ei allángt þadan er Klæds-járnnáma, er gengr næst járnnáminni í Karron. Fyrir vestan Glasgó er Paisley med 36000 innb. Þar blómstra handidnir og vestar Grenock, þar er ágæt höfn og 20,000 innb. Fyri nordan Glasgó er Karrons járnnáma; þat er hit mesta járnverki í heimi. Í Landnordr frá Eidinaborg er St. Andrevs (Andreapolis) vid Nordursæ; þat var fordum höfudborg í

Skotlandi; þar er þiódskóli. Eyar nokkrar liggia frammundan Klædsfiardarmyuni; þeirra stærstar eru: Bot, (Bute) og Arran, er sú fyrri eign samnefnds greifa, en hin sídari hertugans af Hamilton.

2. Í Mid-Skotlandi er Pert, (Pertha) vid Tay-ár-ós og í nordvestr frá Eidinaborg; þar eru nafntogadir (kinnamákara-verkstadir og 20,000 innb. Þat var fordum heimili enna skotsku konúnga. Í landnordr þadan er Dúndí (Dundee; Donum Dei: Gudsgiof) vid sæ med 26000 innb. Þar eru fordábúr mikil af skotskum léreptum. Þadan i somu átt og fyrí sunnan Buckan-nes er Nýa Apardión (New-Aberdeen; Aberdia) vid ós ár þeirrar, er De heitir og Gamla Apardión vid Donsár ósa; í bádum þessum stødum eru þiódskólar og í þeim fyrri 18000 innb.

3. Í Nordr-Skotlandi er kaupstadr Hálendínga, er Invernes (Invernium) heitir, stada merkastr; þar eru 9000 innbúar.

Nordar er Kromarti og nordast Vik á austr-strøndinni, og Doornock vid Dornocks-fiord. Þrid eru virki giorr í Nordr Skotlandi til at halda Hálendingum i aga; þau eru kénd vid Vilhiálm, Augústus og Georg.

Innbúar nordvestr-hluta Skotlands og Sudureya, er ýmist kallast Háskottar (Höiskotter. Fiallskottar edr Hálendíngar, hafa til hinna

fornu Kalédónía kyn sitt at rekia, og mæla ena ersisku túngu. Þeir hafa haldit við siðu og hætti forfedra sinna og eru ödrum Skottum ólíkir í klæðabúnadi og fatasnidi. Þeir eru hardfengir og hraustir í orrustum, gódir drengir og unna mjög skáldskap.

## 4. Eyar, er liggia til Skotlands:

a. Sudr-eyar (Hebriderne; Ebudes, Hebudes, Hebrides) fyrir vestan Skotland. Þær eru hérumbil 300 at tölu, en 40 eru bygdar af 50 til 60 þús. innbúum, og er allr þorri þeirra af Fiallskottum kominn.

Á eyum þessum eru klettar og biörg og vída litlir landskostir; en á sumum ágiæt saudagánga og nockr kornvöxtr. Þar er ei svo köld vedrátta, sem hún er votvidrasöm og óstödug. Eyarmenn eru sáfródir og fétitlir; sæta þeir afurkostum af Enskum og flytia því opt búferlum til Ameriku.

Nordust og vídlendust þessara eya er Lödhús eda Liódhús (Lewis), hún er 37 ferh. m. at stærd. Þar búa 10,000 manna. Lódhýsingar eru kalladir siómenn bestir i Sudureyum. Sudr af henni er nyrdri Visteу (North Uist), þá Syđri Vistey (South-Uist) og þá Barey. Nær Skotlandi er allmikit eyland, er Skid (Skye) heitir. Sundit imillum hennar og Visteya kölludu menn Vestfiord og nordr af því Bareyarfiörd. Allángt fyrir sunnan Skid er ey sú, er Myl (Mull) heitir. Fyrir vestan hana er lítil ey med studlabergi umhverfis, er Staffa kallast; þar er hinn

nafnkéndi Fingalshellir. Vestar er Tyrvist edr Tyrrif og Kolumbansey(Y-Colm (Columb) Kill; Y, Hu, Jona); þar eru eptirstødvar af þvi i fornøld nafnkunna Kolumbansklaustri. Þessi ey hét fyrr. Eyan Helga. Sunnar eru: Jura og Jslay. En þar kølludu menn fyrr, Jl, Sandey og Gudey. Vestust allra Sudureyna er Sti Kilda. Allar þessar eyar lagdi Magnus Norvegskóngr hinn berfætti undir sig, sem segir i søgu hans.

b. Orkneyar, (Orcades), þær taka nafn af selakyni nokkru, er kallast Orkn — og liggia fyrir nordan Skotland. Sundit millum þeirra og Kataness á Skotlandi kallast Petlandsfiørdr. Þær eru 67 at tølu, en 27 af þeim eru bygdar. Eyarmenn eru 25000 at tølu og rækia þeir allir hinn reformerada kristindóm.

Vidleudust þeirra er Pomóna edr Mainland, þar er Kirkvollr høfudstadr med 2500 innbúum og gódri høfn. Nordust þessara eya er Nord-Ronaldska; þar er viti. J fornøld hétu eyar þessar: Vestrey, Háey, Straumey, Sandey, Hrossey o. s. frv. J Orkneyum eru gódir landskostir, en litill skógr. Orkneyingar idka akuryrkiu, saudfiárrækt, fiskiafla, verslun, vefnad og prión og eru miklir idiumenn.

c. Hialtlandseyar (Shetlands-Öernes Insulæ Shetlandicæ); þær liggia 11 míl. i

landnordr frá Orkneyum og eru 86 at tølu, af hverium 30 eru bygdar.

Þeirra mest er Hialtland (Mainland eda Shetland); á henni eru 13000 innbúar þar er Leirvik á eyunni austanverdri vid Brassasund (imillum Hialtlands og Hvalseyar) auk þeirra géta søgur: Hialteyar, Lyngeyar, Papeyar og Fridareyar millum Orkneya og Hialtlands, er nú kallast Faira.

Í Hialtlandseyum eru afbragds-sildarveidi, fiskiasli gódr, fugl- og sel-veidi. Þær eru klettóttar miøg og hrióstugar; þó er þar allvída gód saudagánga.

Hafit umhverfis Eyar þessar og fyrir vestan Irland kølludu nordmenn Vestr-Fold og: fyri vestan haf.

Orkneyar og Hialtlandseyar komu ásamt Norvegsríki, undir hvert þær láu, í eign Danakonúnga, þá Kalmars samníngrinn var giørr. Kristián kóngr 1-i pantseldi þær fyrir mund þann, er hann skyldi lúka Jacobi hinum 3, Skotlands kóngi, er géck at eiga Margrétu dóttur hans; en þá tédr mundr ei var af hendi greiddr, komu eyarnar undir Skotlands veldi og fylgdu því sídan.

Loptslag og vedráttufar í Sudr-Skotlandi er álíkt og í Englandi. Á Hálendum eru miklu óblídari vedr. Þar er snær á fiøllum mikin hluta árs, stormvindar tídir og hreggvidri. Varníngr Skotta og landskostir ríkis þessa eru áþeckir Englands, sem fyrr er fráságt; vefstadir og smidiur standa þar í blóma, einkum bómullar- og líns-vefstadirnir í og vid Glasgó,

Karrons, og Klæds-járnverk o. s. frv. Skottar reka mikin kaupskap vida um heim og hafa hérumbil 2500 kaupskip í förum. Í Skotlandi er hin svokallada presbyterianska trú í lög leidd; med því at þar ráda prestar og öldungar safnadanna fyrir andligum málefnum. Visindi idkast í 4 hióðskólum og íþróttir í ýmsum listaskólum. Med því at England og Skotland eru náqvæmliga samtengd ríki, eru stiórn og veldishættir í þeim at öllu miög samlíkir. Skottar giöra út eyrindsreka fyrir sína hönd til ens enska Parlaments. Skialdarmerki ríkis þessa er lión raudt at lit. Landslýdrinn í Skotlandi er 1 mill. 805 þus. at tölu og hefir kyn sitt at rekia til hinna elstu innbyggiara lands þessa, er hetu Kaledóniar eda Skottar og Piktar.

## C. Kóngsríkit Irland (Hibernia, Iverna, Juverna.)

Land þetta er öllumegin umflotit af hinum atlantiska útsæ, sem at austanverdu, er hann skilr England og téd eyland, kallast hit írskahaf edr Irlandshaf. Þat liggr ímillum 7° og 13° austl. l. og 51° og 56 nordl. br. og er 1306 ferh. m. at stærd.

Irland er fremr flatlendt, enn fiöllótt; þar eru ár margar og vötn, flóar og forædi mýrlendi og flaukfamir vegir. Í nyrdri hluta landsins eru fiöll þau er Lángfiöll kallast og á ströndinni, er í nordr veit, stadlaberg allvída.

Vesturströndin er miøg vogskorin og klettótt. Nordasti útskagi á Irlandi kallast Malinshøfdi (Cap Malin), er fyrrum hét Öldu-hlaup; og hinn sýdsti Klarhøfdi (Cap-Clear).

Merkustu ár eru: Sannon (Shannon; Senus) hún rennr igégnum mørg stødúvøtn í útsudr og fellr vestr í Atlantshaf; í henni er foss mikill, skamt frá Hlimrek, er Dónafoss heitir.

Merkustu stødúvøtn í Irlandi eru: Neag fyrr. Logekag, í Uglatztri, og Killorne-løgr, í Munstri. Frá þessum og ødrum vøtnum og ymsum hlutum í Irlandi er margt undarligt sagt í fornritum.

Frá Sannon géngr mannaiort síki í austr til Dyflinnar, er hinn mikli edr kóngligi kanall heitir. Þrír allbreidir firdir hverfa inn í Irland, nl. Dúndalsfiørdr hit eystra, Dungalsfiørdr og sunnar Gallway-fiørdr at vestanverdu. Hinn sídri er þeirra mestr.

Irlandi er skipt í 4 landsálfur eda fiórdúnga, nl. 1. Leinstr (Lagenia) edr austrland, vid Irlandshaf; þar er Dyflin (Dublin; Dublinum) vid vík af Irlandshafi; þat er høfudborg í landi þessu og jarls heimili, og géngr Lundúnaborg næst at mikilleik í Englaveldi. Borgin er greind í 2 hluti og liggia 7 brýr í milli þeirra; þar er hofgardr, þiódskóli (stipt. af Elizabet drottníngu), kaupmannamálstofa, þiódsiódr (bánki) og góð høfn — og 180,000 innb.

Í útsudr þadan er Kilkenni (Kil-

kenla) með 20,000 innb. en í norðr frá Dyflinni er Drógheda við Boyná, með 10,000 innb.

2. Uladztir eðr Ulstr, (Ultonia) eðr Norðurland. Þar er Belfast í norðr frá Dyflini; þat er einhvor hinn mesti kaupstaðr á Irlandi; þar eru 30,000 innb.

Síki mannginn géngr þaðan til stöðuvatns mikils er Nea gölgr kallast.

Í útnorðr þaðan er Lundunadery (Londino-Deria) með 10,000 innb. Í suðvestr þaðan er Dungal fyrr. Dungalsbær við botn viðkénds fiarðar. Armag er heimili Irlands Höfuðbiskups.

Þar í grend við var í fornöld borg sú er Gunnvaldsborg hét.

3. Kunnaktir (Connaught; Conacia) eðr Austr-fiórðúngrinn. Þar er Galvay (Galliva) allmikill kaupstaðr, við fyrrgreindan fiörð í vestr frá Dyflini, þar er léreptavefnaðr mikill og 12,000 innb.

4. Munstr (Mounster; Momonia) eða suðurland. Þar er Vatnsfurða, forð. Veðrafiörðr, (Waterford) á suðaustr-strönd landsins við á, er Svir heitir; þar er kaupstaðr mikill og ágiæt höfn, feriustaðr (til Milfurðuháfnar) og 30,000 innb. Í útsuðr þaðan og á téðri strönd er Kork (Corcagia); þat er annar staðr mestr at fiölmenni og kaup-

verslun, á Irlandi; þar er ágiæt höfn og 87,000 innbúar, er bruggia öl afarmikit, er menn kalla Porter, og selia Enskum ógrynni uxa-slátrs eda kiöts, og kalla menn því allmennt stad þenna: Englands sláturhús.

I útsudr þadan er Kinsalr, þar er góð höfn. I nordvestr-átt þadan er lítill bǿr vid samnefnt vatn, er Killarney heitir; vid vatn þetta er hin fegursta sveit í Englaveldi og giöra margir þángat lystiferdir.

Vid Sannon og í útsudr frá Dyfl. er mikill kaupstadr, er Hlimrek (Limerick; Limericum), med 50.000 innb. Þat var á midœfi hinn sterkasta borg á Irlandi; en hefir alliafnt farit hnignandi, sidan Kork jókst at fiölmenni og kaupverslun; þar eru hús miög á spænska hátt; þadan flytiast ógrynni handska, sem eru í miklu afhaldi.

Þoka og svækia er vedra tídust á Irlandi, en sialdan heidvidri. Sniór er þar siáldgiæfr á vetrum, er jardvegr optast þýdr og grænn at líta. Þar eru gódir hagar og allmikil qvikfiárrœkt. Irar taka framförum í ullar-tóvinnu; en léreptavefnadr þeirra er nafntogadr og flytst ógrynni lérepta frá Belfast og Drógheda. Þeir brugga munngát mikit og brennuvín og eiga stórvæg kaup vid ýmsar þiódir. A Irlandi er hin biskupliga trú í lög leidd og ráda þar 4 erkibiskupar fyrir kénnidómi; þó játar allr þorri Ira hinn kathólska átrúnad. Sidan

1800 hefir Irland verit Englandi náqvæmliga sameinat og er þar Vice-kóngr settr til lands-stiórnar. Irar senda eyrindsreka til hins enska Parlaments. Skialdarmerki Irlands er gullin Davidsharpa. Þar er hins Helga Patriks orda, stipt. af Georgi hinum 3da. Landslýdrinn er 4 mill. 396 þús. at tølu og er hann kominn af fornþiód þelrra, er Galir kalladist. Túngumál landbúa er áþekt máltidsku Fiallskotta, en stada-menn og heldra fólk mæla engelsku.

Englismenn eru almennt vel vaxnir og vødvamiklir, hraustir og karlmannligir og lýsir því vøxtr þeirra og svipr, at þeir eru giæddir likamligum þrótti, andligum krapti og friálsum huga. Konur eru á Englandi einka fridar sýnum og forkunnar hørundsfagrar, sid-prúdar og stiltar og hafa vidqvæma tilfinningu fyrir húslukku og rósamri hagsæld. Skottar eru audþektir fra Enskum; lýsir því vøxtr þelrra og yfirbragd, at þeir eru af ødrum ættbálki komnir. Þeir eru hraustligir og vellimadlr, qvikligri enn Enskir og þolgódir, Enskir eru menn hibýlaprúdir og hafa rúmgód og hrein-lig húsakynni; búsgøgn þeirra og verkfæri eru sterk og varanlig og jafnframt því hagsamlig og snotr, en ei yfirvættis skrúdbuinn. Þeir eru hnegdir til áfeings drykks og megnrar sædu; þat ásamt þúngu loptslagi ollir þúnglyndis og ýms-rar ógiæfu, er af því flýtr.

Skapferlis-einkunn alls þorra innbua ey-landa þessara er: friálsrædis elska siálfþóttl og allmikit traust á siálfum sér og sinum yfirburd-

um; þykiast þeir ødrum fremri um flesta hluti og meta þat léttvægt, sem ei er engelskt; ber þat til þess, at þeir unna mieg fóstuijørd sinni og kosta kapps um at efla vidfrægd hennar og velsemd. Kappgirni má og kalla Enskum, øllum þiódum fremur, medfædda; eru þvi ei í nokkru ødru laudi svo merk vedhlaup og kappleikar, né þvílíku ógrynni fiár vediat, optsinnis um lítil-vægi, sem þar, og ei þykir sú skémtun alþiód-lig vera, hvørri ei er ofurkapp og vedfé samfara. Unglíngar veniast þegar vid margskonar leiki og aflraun. Medal leika þeirra, er giørvøll þiódin hendir gaman at, er: nokkurskonar hnat-leikr, nl. at menn kasta þúngum kúlum til marks;) Hesta-vedhlaup; ala menn þvi ena fliótustu hesta upp á Englandi; Hana-at, binda men þá sporа á fætur hinum sterk-ustu og grimmustu hønum, og láta þá høggvast, og nokkurskonar hnefaleikr (Baxen), er sá leikr skædr limum og lifi; med þvi at menn leika hann med miklu kappi, þar ávalt er mikit undir sett.

Innbúar sudr-hluta Skotlands edr Låg-lendíngar unna mieg hliódfæraslætti og dansleik-um. Hálendíngar eru Fiallskottar eru fátækir og feinlátir, en hugadir vel, þá til þarf at taka og þola manna best vos og kulda; góð-hiartadir eru þeir, fávisir og hiátrúarfullir; hafa Enskir litt skeytt um uppfrædíng þeirra og betrun búsifia. Almúgin á Irlandi er áþekkr Fiallskottum og á vid bágan kost at búa.

# XI. Konúngsríkit Portugal (Portugallia; forð. Lucitania.)

Þessi hluti ens svokallaða pyreneiska megin-skaga tekr nafn af höfn nokkurri við hinn spanska útsæ, er Rómveriar kölluðu Portus Cale. Land þetta er hit vestlægasta ríki á Evrópu meginlandi og liggr þat milli 8° og 12° austl. lengð. og 37° og 42° nordl. breidd. Hinn atlantiski útsær eða spanski siórinn gengr fyrir sunnan þat og vestan, en fyrir nordan og austan er Spanialand. Portugal er hérumbil 1776 ferh. míl. at stærð.

Í landi þessu eru fiöll mörg og óvída slettlendi, nema í landsálfunum Estremadúru og Aleutejo. Þat er forkunnar frióssamt, en illa yrkt. Fiallgardarnir í Portugal eru ásastir við fiöllinn á Spáni. Þeir merkustu eru: Estrella-fiall (Serra da Estrella), þat er allra fialla hæst í Portugal og géngr í vestr at sæ fram, þar sem heitir Rokkahöfdi (Cap Rocca), í útnordr frá Lissabon. Þau Algarviskufiöll, er gánga frá fiallinu Morena á Spán og atskilia Algarve og Portugal, til Vincentshöfda (Cap St. Vincent), er lengst skiágar í útsudr í haf út.

Ur austri falla 4 stórsliót um Spán og Portugal og koma þau öll til siáfar út í hins

atlantiska útsæ: 1. Áin Minho (Minius) er Norðmenn kölluðu Karlsá; hún kémr frá Gallizíulandi og fellr á norðr-takmörkum ríkisins til siáfar. Sunnar rennr 2. Duro (Douro; Durius) er kémr frá Gömlu-Kastilíu og er 112 míl. at lengð. Ennþá sunnar fellr þióðá sú, er 3. Tog (Tejo; Tagus) heitir frá Arragoni á Spáni og kémr til siáfar við Lissabon; er hún þar 1 míla at breidd, en svo grunn, at ei géta stórskip lagt upp eptir henni. Tog er 170 mílur. Syðst fellr Gvadiana (Anas) í útsuðr; hún rennr nokkra stund undir jarðbrú og fellr á Spánar og Portugals landamæri í Kadix-flóa. Hún er 92 míl.

Ríki þetta er greint í 2 höfudparta, nl. hit eiginliga Portugal og Algarve.

A. Portugal; þat skiptist aptr í 5 landsálfur.

1. Estremadúra, er liggr mittlands og við sæ. Þar er Lissabon eða Lissibon (Lisbona. 38° 42′ 22″ n. br.) við Togs-mynni norðanverðt og á 7 hæðum; þat er höfuðborg í ríkinu og konúngsheimili; þar er atsetr þióðbiskups, villumanna dómstóll og 250,000 innb.

Af ógurligum jarðskiálfta árit 1755 hrundi mikill hluti borgar þessarar, en nú er hann ánýbygðr skipuligar og betr enn áðr; þar eru margar stórkostligar byggíngar, t. d. hofgarðr sá, er menn dæma villumenn í, hinn mikli Josephs-spítali, spítali fyrir fundin börn og föður-

leyſíngia, hin vegliga Svartbrædrakyrkia, kaup-manna-ſamkomuhús og nafnkunn vatnsleiding í manngiørdum ſteinboga yfir 1200 ſkrefa breidan dal; þat er addáanligt ſnildar-verk. Liſsabon er kaupſtadr meſtr í Portugal; þar er høfn gód og veria hana og borgina 4 kaſtalar. Skamt frá Liſsabon er litill ſtadr, er Belem eda Betlehem heitir; þar er vegligt klauſtr og í því legſtadr Portugals konúnga; þar ſat kóngr um hríd med hird ſinni eptir fyrrtédan jardſkiálfta. Queluz er konúngligr lyſtigardr; þángat flutti konúngr þá Belem brann. Cintra er forn hofgardr; á ſialli ſkamt þadan er hit ſvo kallada karkarklauſtr. Í landnordr frá Liſsab. er víggirtr ſtadr vid Tog, er Santarem (Irenopolis) heitir, med 8000 innb.

Í landſudr frá Liſsab. er Setuval (á Hollendſku. St. Ubes; Setuvalia) vid ſæ; þar er ſaltverſlun mikil og nafnkunn ſaltverk í grend.

2. Landsálfan Beira liggr fyrir nordan Eſtremadúru og imillum Spánar og hafs. Þar er Koimbra (Conimbriga) høfudſtadr, í landnordr frá Liſsab. og vid á þá, er Mondego heitir; þar er þiódſkóli, ſtipt. af Dionyſiuſi hinum réttvíſa, er var ſídan flutr þángat frá Liſsabon — og 15,000 innb.

3. Landsálfan millum Dúro og Minhó (Entre Douro e Minho; Portugallia interamnensis), fyri nordan Beira og

vid sæ. Þar er Portó eda Oportó (Portus Cale), í útnordr frá Kóimbra og í dal vid mynni árinnar Duro; þat er mikill kaupstadr og géngr Lissab. nærst at stærd, fiolmenni og audlegd; þadan flytst ógrynni víns þess, er menn kalla Portvín; þar eru 64000 innb. Í landnordr þadan er Braga, med 18000 innb.; þar er erkibiskups-stóll og forkunnar skrautlig dómkyrkia.

4. Landsálfan hinumegin fiallana (Traz os Montes; Transmontana) liggr fyrir austan sidstteda landsálfu og fiallit Amard. Þar er Braganza (Bragantia) í fiallbygd, í nordaustr frá Braga; þar bioggu lángfedgar þeirra kónga, er fyri Portugal hafa rádit sidan 1640.

5. Landsálfan Alentejo (Transtagana) liggr fyrir sunnan og austan Estremaduru og er vidlendust. Þar er víggirdtr stadr, er Evóra (Ebora) heitir, í landsudr frá Lissab. Þar er erkibiskups-setr, forn kastali og 12,000 innb. Í landnordr þadan er sterk takmarka-festíng, er Elvas (Elva) heitir, skamt frá Spánar landamæri; þar er skotvopnasmidia mikil og 16,000 innb.

B. Kóngsríkit Algarve (Algarbia); þat er sú strønd landsins, er í sudr veit og hin minnsta landsálfa í Portugalsríki; yfir

þat er landshøfdíngi (Generalcapitain) settr. Þar er Tavira (Tavita), heimili téds høfdíngja, skamt fyri vestan Gvadianu-ósa. Þar eru 6,000 innb.

Vestar er Faro; þadan gánga róstskip til Gibraltar. Vestar er Lagos, fyrir austan Vincentshøfda; þar er ágiæt skípalega.

Undir Portugals veldi liggja hinar Azórisku eyar edr Hauka eyar (Açores eda Terceiras; Insulæ accipitrum s. Flandriæ) þær liggja í hinu atlantiska hafi, 170 mílur í vestr undan Vincentshøfda og eru 9 at tølu. Þeim hafa jardeldar uppskotit af hafi og eru þær einka frióssamar og allsiolmennar. Yfir þær er Jarl (Gouverneur) settr. Þeirra víd-lendust er 1. Sti. Michael (Miguel); hún er 15 ferh. míl. at stærd. Þar er hátt fiall, er Pico (Pico da Camarinha) kallast og stadr sá, er Porta Delgada heitir. 2, Terceira, 10 f. m.; þar er jarls heimili, er Angra heitir; 3, Sti. Maria, hana fundu menn fyrst. 4. Sti. Jorge. 5. Graciosa. 6. Piko. 7, Fayal. 8, Flores og 9, Korvo. Eyarmenn eru 160,000 at tølu og katholskir at trú. Portugísar fundu eyar þessar 1446; en Hollendíngar segja sig þær ádr fundit hafa og kalla þær hinar flamsku eyar.

Í Asíu, Afríku og Ameríku eiga Portugísar borgir margar og nýlendur miklar og ardsamar; þær eru allar ásamt hérumbil 100,000

f. m. og innbúar þeirra því nær 3 milliónir. Þeirra skal sídar gétit verda.

Med því at Portugal liggr vid útsæ, er þar tídum votvidrasamt á vetrum, einkum hit nyrdra. Á sumrum kiælir hafrænan og fiallagolan svo ofurhitan, at þar er optast føgr vedurátt og heilnæm og ástundum þrávidri. Í grend vid fiallit og slotit Cintra segia menn sé heilnæmast loptslag í þessu landi. Á sumum stødum er þar ofþurr og grýttr jardvegr. Landsmenn vanrækia akuryrkiu, en leggia stund á saudfiárrækt og vínyrkiu. Í landi þessu finna menn gull nokkut og silfr, allmikit járn, eyr, blý, qvikasilfr, marmara, kalk, porcelansleir, brunnsalt á einum stad, allmikit sæsalt, korn og sudurlanda ávexti (Pómeronzur, Citrónur, fíkiur, mandlur, granatepli) og ágiæt vínsaung, (þarámedal portvínit); þar eru og skógar miklir og korkartré. Auk almennustu heimdýra eru þar asnar og múlar, villi-saudfé (Argalis), kanínur og allmikill fiskiafli. — At silkivefnadi undanteknum, eru handidnir litilfiørligar í Portugal, verkstadir fáir og lakir og smidiur í enn léligra lagi. Kaupskapr innanríkis er litt til alþiódligs gagns; þarámóti er kaupverslun Portugísa vid nýlendur þeirra svo ardsøm, at hún bætir þeim at fullu skada þann, er þeir lída af verslunar-vidskiptum sinum vid Evrópumenn. Í Portugal eru: Lissabon, Porto, Setúval og Faro kaupstadir bestir. Þadan flytst: vín, sudrlanda-ávextir, olia, salt, ull og kork; en þángat færa kaup-

menn allskonar handidna-varníng og verksmidi, alt er med þarf til skipa-útbúnings og fl. Í Portúgal er kathólskr átrúnadr og rammr páfadómr í løg leiddr; eru þar tídagiørdir harla vidhafnarfullar, kyrkiur skrautligar, en sønn gudrækni rír. Ødrum trúmønnum er þar bønnud landsvist. Ædstr høfdíngi kénnidóms er Patríark edr høfudfadir, er býr í Lissabon; hans bodi og banni hlýda 2 erkibiskupar (í Braga og Evóra) og 14 biskupar. Í ríki þessu eru 200,000 klerkar og 800 klaustr. trúar-villu ransóknar-réttrinn (Inqvisitionen) er þar í løg leiddr, en ei svo grimmr-sem ádr, og páfavaldit ei allmikit. Í einum ómerkum þiódskóla, í Kóimbra, fá embættismanna-efni kénnslu af litt lærdum múnkum og eru þar vísinda og íþrótta idkendur fáir. Konungs-veldit í Portúgal er ótakmarkat og géngur þat í erfdir til manns og konu eptir frumburdar-rétti. Konúngar gánga þar til ríkis 14 vetra og hafa þeir þá nafnbót af Páfa: Rex fidelisimus. Konúngsefnit kallast Printz af Brasiliu og hans son, Printz af Beira. Adrir synir kongs heita Infantar og dætur hans Infantinnur. Portúgals skialdarmerki er 5 skildir bláir at lit, og Algarva-ríkis, 7 kastalar. Fyrir Portúgal rædr nú konúngur sá, er Johannes hinn 6ti heitir. Hann tók kóngdom 1816. Margar og ríkar eru adals-ættir í ríki þessu og sumar af þeim nákomnar kóngi at frændsemi.

Í Portúgal eru 6 Riddara-ordur: 1. Christs-ordan, stipt. af Dionysíusi hinum réttláta; 2.

Sti. Jacobs(Iago)-ordan. 1. Avizor-ordan. 4. Jóhannísta-ordan. 5. Sverds og Turns-ordan og 6, Isabellu-ordan.

Laudlid kóngs er 66000 manns; herskip hans eru 26, nl. 12 línuskip og 14 fregøttur.

Innbúar Portúgals-ríkis eru 3,685,000 at tølu; þeir eru komnir af Gautum og Germønnum; sídan meingadist kyn þeirra af Arabíumønnum og Gydíngum. Portúgalsmenn elska sióinn og eru gódir farmenn; en til landstarfanna eru þeir tregir og allþúnglisir. Á fyrri tídum fundu þeir lønd í útsiónum og siólcid til annara heimsálfa og júku drjúgum veldi sitt og aud; reyndust þeir þá hugadir og hardfengir í vopnavidskiptum og øllum mannraunum; en í því 60 ára tímabili, er ríki þetta stód undir hardstiórn Spanskra, útsløkti ómenuska, hugdeyfd og hiátrú, vankunnátta og villa þat farsældar liós, er landa-nám og frædi, kaupverslun og andlegd og ýmsir ágætir kóníngar tendrat høfdu. Litt skeyta þeir um mannvits dyrkun og menta-æfíng, og bera hverki kunnáttu né dugnad til at hagnýta sér sinna vidlendu landeigna dýrmætu giædi til hlýtar. Lundernis einkenni þeirra segia menn sé: ofmetnadr, brádlyndi og léttsinni; en þeim til gyldis telia menn: géstrisni, trygglyndi og hófsemi. Þeir eru fullir hiátrúar og páfadómsvillu og ala hiartgróit hatr til Spanskra. Klerkum og kénnidómi eru Portúgalsmenn miøg hádir og hlýdnir.

# XII. Kóngsríkit Spán
(Spanien; Hispania.)

Land þetta kallast í fornsögum ýmist: Spánland, Spán, Spanialand eda Spánheimaland. Fyrir nordan vestri hluta þess gengr Fetlafiørdr og austar Pyreneafiøll, en Midjardarhafit fyrir austan þat og sunnan, vestr til Nørfasunda og fyrir vestan téd sünd, hinn atlantiski útsær, er at vestanverdu, ásamt Portúgal, marka ríki þessu takmørk. Spán er $\frac{5}{6}$ af hinum pyreneiska meginskaga (Pyrenæiske Halvöe,) og 8658 ferh. míl. at stærd.

Ríki þetta er hálendt og vída fiøllótt. Jardvegrinn er þar ýmislegr; sumstadar forkunnar frióssamr; en sumstadar laus og giædalitill. J þeim sveitum, er liggia nærri sió, er vída vatnsleysi íllr audkanni. Medal fialla þeirra, er gánga um land þetta, má telia 1. Pyreneafiøll (Pyrenæerne); þat er 56 mílángr, einlægr og allhár fiallgardr, er gengr frá Fetlafirdi til Midjardarhafs austr og er skilnadarveggr millum Spánar og Frakklands. Yfir fiøll þessi liggia 5 þióðvegir og eru þau vídast hrióstug og hryllilig, og tindar þeirra snæþaktir mestan hluta árs. J vestr frá þessum fiallgardi gánga hin 2. Kantabrisku

fiøll um Norðr-Spán til Landsenda, og Ortegals-høfda. Í landsuðr gánga hin 3. Iberísku fiøll á Atragóns og Kastilíu takmörkum; út frá þeim liggia 4 fiøll, nl: 4. Gvadaramafiall (Sierra de Guadarama) er gengt í útsuðr millum ánna, Tog og Duro, og er áfast við Estrella-fiall í Portúgal. 5. Gvadalupsfiall (Sierra de Guadalupe) liggr í vestr milli Togs og Gvadíanu, 6. Mórenafiall, (Sierra Morena) gengr í vestr og suðvestr milli Gvadíana og Gvalqvívir og 7, Alpujarrasfiall (Sierra Neveda, o: Snæfiall) þat er fialla svðst og hærst á Spáni; á því liggr sniór og jøkull øllum sumrum svo sem um vetur. Síðsti múli þess kallast Gibraltar, við Niørfasund. Þar tóku Mórlendingar fyrst land og kendu høfda þenna við herhøfdíngia sinn og kølluða hann Gebel Tarik (Tariks-hnúk.) Af því nafni er Gibraltar komit. Hærsta gnýpa leds fiallgarðs er 12762 fóta at hæð.

Fiórir eru útskagar eðr høfðar merkastir á Spáni, nl. Krøshøfði (Cap de Creus) í Katalóníu, er veit í austr; og Gibraltar-múli, er lengst gengr í suðr; en Landsendi (Cap Finisterre) skagar lengst í vestr og Ortegashøfði í norðr; eru þar hvørirtveggiu í Gallíziulandi.

Á Spáni telia menn 155 ár og eru fáar ámedal þ irra skiplægar; auk fliótanna: Minho, Duro, Tog og Gvadíana, sem áðr er sagt at komi til siáfar í Portúgal, má hér géta tveggia stórfliota nl. Gvadalqvivir (Baetis); þat rennr í útsuðr, framm hiá Korðóva og

Sevilla i Kadiz-bugt; og Ebro (Iberus); þat fliót fellr undan hinum Kantabrisku fiöllum og rennr í austr landsudr í Midjardarhafit skamt frá Tortósa; þat er 58 míl. — Sunnar renna 3 ár í sama haf: Gvadalaviar (Turia) þá Xúkar (Sucra) og Segúra (Secura) sydst. Fyrir vestan Gvadalqvívir kémr á sú til siáfar, er Tinto (hin farfada) heitir; vatnit í henni hefir þá náttúru, at þat verdr at steini, sem í þat er látit og einginn dýr drekka af því, nema geitr. Í Fetlafiörd rennr Bídassóa (Vedasus); í henni er hin svokallada Fasaney eda Conferenz ey; þar var hin pyreneiska sátt giör 1659.

Medal ýmsra manngiördra sikia á Spáni, má hér géta hins arragóniska sikis eda keisarakanalsins, er Karl keisari hinn 5ti lét giöra; siki þetta er grafit lángsetis med ánni Ebró sunnanverdri, gégnum fiöll og yfir þvera dali og þiódvegi, vatnsveitingar og á einum stad yfir skipsært vatnsfall, í múrudum farveg, er líkist brú, svo ástundum má þar siá í senn a skip fara hvört uppundan ödru. Sikit er ordit 12 míl. at lengd (fra Saragóza til Tudela) en skal ná til Fetlafiardar. Merkasta stöduvátn á Spáni er Albufera-fiór í Valenzia.

Þiódlandinu Spán skiptu menn fyrrum í tvo höfudparta nl. kóngsríkin Kastel eda Kastiliuland og Aragún eda Arragóniuland. Hit fyrrtéda greinist í 9 svokollud kóngsríki, 1 furstadæmi og 1 landsálfu; en hit sídara í 4 kóngsríki.

A. Kastilíu-ríki; þat er allr meginhluti Spaníalands. Í því eru þessi kóngsríki og borgir.

I. Nýa Kastilía (Nye-Castilien) er midhluti landsins; þar er Madríd, (Madritum; 40 ° 25' 28'' n. br.) hofudborg, at auknafni hin trúa og hugrekka; hún er assetursstadr konúngs. heimili ens ædsta hæstínga í þessari landsálfu og 168000 innb.

Borg þessi stendr á óxrióffamri sléttu og í heilnæmu bygdarlagi; umhverfis hana liggia veggir af leiri giørsir og eru á þeim 15 hlid; þar er konúngsgardr mikill, er hit mórsta Alcaisar fyrr. stód, forn hofgardr (Buen-Retiro), torg mikit og umhverfis þat hvelfdir gángar, hit mikla Fernandospital og allmikil bókahlada.

Í útsudr fra Madríd er Túlet eda Tóledó (Toletum) á klettum vid Tog og gánga tvennir múrveggir um stad þenna ollumeginn; þar er heimili hosudprests Spanskra, veglig dómkyrkia, þiódskóli, slot, nafutogud kordasmidia og 25000 innb.

II. Gamla Kastilía liggur fyrir nordan sídstalit ríki og nær til siáfar nordr; þar er Borg eda Burghs (Burgos; Burgi) í hánordr frá Madríd; þar er forkunnar skrautlig dómkyrka, erkibiskupsstóll, þiódskóli og 11000 innb. Í útnordr frá Madríd er Segóvia (Segovia); þar er forn dómkyrka, vatnsleiding,

er Trajanus keisari lét giera, hinn merkasti klædavesstadr á Spáni og 12000 innb.

Skamt í útnordr frá Madr. er þorp þat er El Escorial heitir; þar er hofgardr og klaustr, nafntogat af fegurd og vexti. Þat er 4000 skref ummáls; í því eru 22 gardar, 5000 gluggar og kyrkia, lík Pètursskyrku í Rómaborg, at lögun; í henni er legstadr Spánar konúnga. Klaustrit á nafnfrægt bókasafn. Þessa stórkostligu byggíng lét Philippus kóngr 2ar reisa í lögun sem rist til minníngar unnum sigri á Frökkum á dag hins heil. Laurentii, er menn segia, at lifandi hafi á rist steiktr verit.

III. Kóngsríkit Leon; þat liggr fyrir vestan sídstalit ríki. Þar er borg sú, er Leon (Legio) heitir, í útnordr frá Madrid; þar var fyrr kóngaheimili. 7000 innb. Í landsudr þadan er Valladólid, fyrr Valident, (Vallissoletum); þar er þiódskóli og 30000 innb. Í útsudr þadan og í nordvestr frá Madr. er Salamanca (Salamantica) med 14000 innb; þar er veglig dómkyrkia og þiódskóli med 2000 menta-idkendum; eittsinn vóru þeir 16000 at tölu.

Skamt fyri vestan Leon er bŷr sá, er Astorga, heitir, en fyrr: kalladist Storga (Asturica Augusta)

IV. Í Fyrstadæminu Astúríu, er liggr fyrir nordan Leons-ríki og vid sæ, er Oviedó (Ovetum) höfudstadr med 8000 innb; þar er þiódskóli.

Í þessari fiöllóttu landsálfu leytudu Vestgautar hælis, er þeir at fengnum ósigri vid Xeris de la Frontera 711 flýdu fyrir ofurefli Araba eda Serkia;

en lögdu þar síðan grundvöll veldis þess, er gjöreyddi herradœmi Arabíumanna á Spáni.

V. Galiziuland, (Galizien) liggr fyrir vestan suðstgreindar landsálfur og norðvestast á Spáni. Þar er Kórúnna, (Caronium) í útnorðr frá Madr. og við fjörð, sem kéndr er við staðinn, er fyrr: kallaðist Saliupollar; þar er landshöfðingja-setr og 11000 innbúar; þaðan gánga seríu-skip á tilteknum tíðum til Havanna. Norðar á ströndinni er Ferról (Ferrolium); þar er ágiæt höfn og stöð nokkurs hluta herskipa kongúngs, hit auðugasta skipreiða hús á Spáni og 20,000 innb. Í suðr frá Korúnna er Kompostel, (St. Iago de Compostela, almennt Compostela) nokkra leið frá sæ; þar er erkibiskupsstóll og skrautlig dómkirkia; þat er mál múnka, at þar hvíli bein Jacobs postula, árnaðarmanns Spanskra.

Sunnar á ströndinni er Vígó eða Vík; þar er skipalega mikil. Land þetta er skarpt og lítit matland; fara því margir af innbúum þess árliga úr landi at leyta sér fiár og atvinnu. Þá kalla Spanskir Gallegos.

VI. Landsálfan Estremadúra liggr ímilli Nýu-Kastilíu og Portúgals. Þar er sterkr kastali við Gvadíana og á landamæri tédra ríkia, er Badajóz eða Badakjós, (Pax Augusta) heitir; þar eru 15000 innb.

Í dal nokkrum, er La vera de Plafenzia heitir, er klaustr, sem Sti. Just kallast; þar dvaldi Carl keisari hinn 5ti efsta hlut æfi sinnar og deydi þar 1558. Í þessari landsálfu eru hinir markverdu Betuekas-dalir; þeir eru svo þraungir og diúpir, at varla sést þar sól á vetrum. Ei er þar mannabygd önnr enn eitt Karmelíta-klaustr.

VII. Kóngsríkit Sevilla, liggr fyri sunnan Estremadúra og nær til hafs sudr og Niðrfasunda. Þar er Sevilla (Hispalis) er Nordmenn kolludu Sibiliu, vid ána Gvadalqvívir og í útsudr frá Madrid; þat er mikil borg og markverd; þar er erkibiskupsstóll, veglig dómkyrkia, (í henni er minnisvardi Kólúmbí landnámsmanns) móriskr hofgardr, siónarpláts fyrir uxa-at, þiódskóli, afarmikill kongligr tóbaksverkstadr, allmerkr silkispuni, og 96000 innb. Í útsudr þadan er Kadix eda Kadiz (fordum Gadir; Gades), ytst á odda laungs tánga eyar þeirrar, er Leon heitir. Þar er meginhluti hinnar amerikönsku kaupverslunar, sterk varnarvirki, ágiæt herskipa lega, er allmörg virki veria, og 70,000 innb.

Borg þessa bygdu Phöniciumenn á fornöld og kolludu hana Gadir. Í austr þadan er Xeres de la Frontera, þar er ágiæt vínyrkia. Tarifa er hinn sydsti stadr á Spáni. Algeciras (máske hit forna Alkassi) stendr vid Gibraltarfiörd vestanverdan, en fyrir austan fiördin er lítill stadr undir samnefndum fiallsmúla, er Gibraltar heitir; þar er kastali svo sterkr at trauðla má vinna. Hann kom í eign Enskra 1704

og er nafnkunnr af hlýtarlausum tilraunum Spanskra at vinna hann aptr. Á strondinni fyrir sudaustan Kadix er Trafalgar-høfdi; frammundan hønum hádi herskipaforinginn Nelson sína sídstu orrustu vid Franska og Spanska og féll þar sigrandi 1805.

VIII. Kóngsríkit Kordóva liggr fyrir austan sídsttalit ríki; þar er Kordóva, fyrr Kordun, (Corduba) vid Gvadalqvivir; þat var á midæfi atsetr hinna arabisku fursta; þar er veglig dómkyrkia, er Mosqvita kallast, i henni eru 1000 marmarastyttr. Þar eru 35000 innb.

Af stad þeissum tekr hit svokallada korduan-ledr nafn. Í Kordun stiptudu Arabíumenn nokkurskonar hóskóla 980; sóktu þángat hinir fródleik einkum læknislist og mælíngarfrædi.

IX. Kóngsríkit Jan liggr austar; þar er Jan; (Giene) í sudr frá Madr. og stendr undir marmarabiargi; þar eru 28000 innb.

Mórena-fiall, er liggr á takmørkum tveggia sídsttalinna ríkia og Nykastilíu, var fyrr: hrióstr og audnir, ádr hinn nafnkunni Olavides greifi lét yrkia þar og byggia af útlendum landyrkiumønnum; en eptir at hann misti frelsi sitt og kóngsvináttu, hrørnadi brádum nýlenda þessi, svo ei eru þar nú fleiri enn 5000 innb.

Þriú sídarst talinn ríki kalla menn einnin øll ósamt Andalúsía eda Vandalúsía, eptir þiód þeirra er Vandalar kølludust.

X. Kóngsríkit Granada liggr fyrir sunnan Vandalúsíu og vid Midjardarhafit. Þar er borg sú, er Granada (Granata) heitir, undir fiallinu Nevada og í austr frá Sevillu; þar er dómkyrkia mikil, í henni hvíla þau Ferdi-

ínand hinn katólski og drottning hans Isabella; skrautligr móriskr hofgardr, er Alhambra heitir (hinn raudi) med hinum svokallada lióna-gard; og gagnvart honum forn móriskr lysti-gardr, er Xeneraliffa kallast, þiódskóli — og 67000 innb. Þenna stad áttu Serkir sídstan á Spáni og unnu Spanskir hann 1492. Í út-sudr þadan og vid sæ stendr afarforn býr, er Malaga (Malaca) heitir; þar er mikill kaup-skapr og flytst þadan úgryni víns og ávaxta. Þar eru 52000 innb.

Í dal nokkrum milli fiallanna Alpújarras og Nevada búa afkomendur Móra eda Serkia, nær-hæfis 40,000 atjölu; þeir hafa at sönnu tekit kristni, en halda þó enn vid margar trúarbragda setníngar forfedra sinna Serkianna.

Hér má géta stadar þess, er Antiqvera heitir og er hofudstadr í samnefndu landsplátsi, 7 f. m. at stærd, og med 40,000 innb., í útnordr frá Mal-aga. Þat er lítit ríki, óvidridit adrar Spánar landsáltur, og hefir sitt eigit stiórnar-form.

XI. Kóngsríkit Múrzia; þat liggr nordar vid Midjardarhafit. Þar er Múrzia (Murgis) í landsudr frá Madr. vid Segúra og í svo friófsömu bygdarlagi, at menn kalla þat Múrziu-aldingard; þar er veglig dómkyrkia, merkr silkispuni — og 35000 innb. Sunnar og vid sæ er Kartagena (Carthagena; Carthago nova); þat er gamall og allmerkr stadr, er Hasdrúbal frá Kartagó enni fornu lét

giora 221 fyri Krists burd; þar er stød nokkurs-hluta herskipa konúngs, varnarvirki og einhver hin ágiætasta høfn í Midjardarhaf — og 30,000 innb.

Í grend vid borg þessá vex Spartum (af því giøra menn kørfur og kadla) og þar grafa menn eptir raudleitri mold, er Almagro kallast og Spánarmenn blanda med tóbak sitt.

B. Hin arragóniska lønd; þau liggia milli ens kastilianska ríkis og Midjardarhafs. Þau greinast í 4 hluti, nl.:

XII. Kóngsríkit Arragón, þat liggr vid gømlu og nýa Kastilíu austanverdar og nær hvergi til siáfar; þar er Zaragóza (Cæsarea Augusta) høfudstadr og erkibiskupsstóll, er stendr vid Ebró og í olíuvidar skógi, í landnordr frá Madr. þar er þiódskóli og silkivefstadir og 55000 innb.

XIII. Furstadæmit Katalónía liggr nordast og austast á Spáni; þar er, Barzalón (Barcino) vid Midjardarhafit, og í austr fráZaragóżu; þat er einhverr hinn mesti og merkasti kaupstadr í Spanialandi; þar eru mørg háreist hús, allgódir silki- og bomullar-verkstadir og víggirdt høfn. Þar og í forstadnum Barcelonetta eru 140,000 innb.

Sunnar á strøndinni er Tarragóna, erkibiskupsstóll. Þat var í fornøld høfudstadr í Hispania Tarraconensis. Í útsudr þadan er Tortósa við Ebró og skamt frá sæ. Sex mílur í nordr frá Barzalonu stendr einstakr kalk-hnúkr, 4000 fóta at

hæd, á vsdlendri slêttu, er Montserrat (hit fagrada fiall) heitir. A toppi þess er nafnkunnugt Benedictína-múnkaklîfi (Nuestra Senóra de Monserrat); þadan kom Ignatius Loyola, Jesúíta félags stiptari. A tindum fiallsins eru 13 einsetumanna býli og er kapella vid hvert þeirra. Þeir leggia á sig hardlífi mikit

XIV. Kóngsríkit Valenzía; þat er laung landsálfa vid Midjardarhafit og ímillum Múrzíu og Katalóníu. Þar er borg sú i landsudr frá Madr : og fyri nordan vatnit Albúfera er Valenzía, (Valentia) heitir, at auknafni: la hermosa (hin fagra); hún er gømul miøg og einhver hin mesta borg á Spáni; þar er erkibiskupsstóll, skrautlig dómkyrkia þiódskóli, forkunnar markverdir silki-vefstadir, ágiæt. kaupverslun og 106,000 innb. I grend vid stadinn eru 50 pappírsmyllur. Sunnar og vid sæ er Alikante (Lucentum); þar er kastali og 20,000 innb.; þadan flytiast sérílagi vínfaung og rúsínur.

XV. Kóngsríkit Mallorka; þat er tvennar eyar, (ut hinar balearisku og pythyúsisku) er liggia í Midjardarhafi, í austr undan Valenzíu strønd; þær vóru skeyttar vid Arragóníu-ríki, á døgum Jacobs hinns 1ta.

1. Hinar balearisku eyar (Insulæ Baleares s. Gymnesiæ) eru a, Manørk (Mallorca; Balearis major); hún er 66 ferh míl. at stærd; þar er Palma (Palma) høfudstadr med 30,000 innb.; þar er þiódskóli. Austar

er b. Minørk (Minorca; Balearis minor); hún er 11 ferh. míl.; þar er stadr sá, er Mahón (Port Mahon) heitir; þar er ágiæt og víggirdt høfn.

A Menørk eru 141,000 innb.; þeir vóru í fornøld nafntogadir slaungumenn. Enskir áttu Minørk frá 1708 til 1782.

2. Hinar pythyúsisku eyar; þær liggia nær meginlandi og eru 2 at tølu, nl. a, Ivíza (Iviça; Ebusus) med 150000 innb.; þar er samnefndr stadr. Sunnar er lítil ey, er b, Formentera (Ophiusa) heitir; þar er 15000 innb. og villiasnar margir.

Nú eru talinn ríki þau og landsálfur, er þau 2 høfudríki, Kastilía og Arragonía, vóru fyrr. deild í og sem sameingdust og giørdust eitt konungsríki, þá Ferdinand, kóngsefnit í Arragóníu, fékk Isabellu kóngsdóttur og erfíngia Kastilíu-ríkis, 1479.

c, Lønd þau, er eigi vóru fyrr. sameinud ádr greindum høfud-ríkium, og liggia vid Fetlafiørd og hinn pyreneiska fiallgard; nl.:

XVII. Kóngsríkit Navarra; þat liggr fyri nordan og vestan Arragúín; þar er Pamplóna (Pampelona), í landnordr frá Madrid; þar sitr Jarl (Vice-Konge) sá, sem yfir þetta ríki er settr. 14000 innb.

I þessari landsálfu er Túdela, lítill stadr vid Ebró; Runzeval, (Roncevalles) í samnefndum dal, fyri nordan Pamplóna; þar er þraungr fiallvegr edr klif, er Rollantsport kallast; þar

átti Karlamagnús orrustu og hafdi ósigr; í þeirri orrustu féll Rollant og fleiri kappar.

Skíríngargr. Ríki þetta greindist fyrr. i efri Navarra fyri sunnan og nedri Navarra fyrir nordan Pyreneafiöll

XVII. Hinar baskisku landsálfr liggia fyrir vestan Navarra, og eru 3, nl.:

a, Herradæmit Biskaya vestast; þar er Bilbaó (Bilbaum) í landnordr frá Madr. og vid fiörd nokkurn, er hverfr inn af Fetlafirdi; þar er kaupskapr allmikill og 15000 innb. þadan flytst einkauliga ull.

b, Landsálfan Guipúskóa, austar og vid sæ; þar er Sti. Sebastian (Sebastianopolis); þat er sterk borg med 13000 innb.

Skamt þadan er Passage, einhver hin mesta og oruggasta skipalega í Evrópa.

c, Landsálfan Alava, inðst; þar er víggirdtr stadr, er Vittoria (Victoria) heitir, med 7000 innb.

Innbúar þessara landsálfa, er Biskayar kallast, eru komnir af hinum fornu Kantabrum, og eru Spánskum ólíkir at skap eli og túngumáli (Bascuenza) þeir eru hraustir og hinir mestu sjómenn á Spáni.

Auk þess, sem nú er talit, liggia undir Spónar-veldi rík og ridlend úti í ödrum heimsálfum, er sídar skal frá segia.

Í sydri hluta ríkis þessa er allmikit ast hita á sumrum; þó tælir hafrænon loptslagit, sem vídast er alheilnæmt. Um midbik landsins eru þurkar svo miklir, at allmikit er mein at.

Í fiallbygdum er hitinn minni og heidvidri tídara. Vindar tveir spilla þar vedraháttum; kalla Spanskir annan þeirra Galegó; hann blæs af útnordri og er óhollr og napr; annar heitir Sólanó, hann blæs úr hásudri frá Afriku ørœfum, er heitr miøg og varir optast í 10 og 12 daga í senn, og veikir bædi sál og likama.

Spán er eitthvørt hit frióssamasta land í Evrópa, en yfrit illa yrkt. Medal landgiæda þar má telia: Gull, silfr, eyr, járn, bly, qvikasilfr, mikit salt, (bædi steinsalt, linda-og sæ-salt) saltpetr, steinkol, marmara, gimsteina, margar ølkéldr eda málmdámada brunna, margskonar korntegundir, ágiæt vínfaung (t. d. Xeres, Malaga, Alikante og Peralta), dýrliga ávexti, Spartum, forkunnar góda hesta, þrifligan nautpening og mikinn vexti (einkum í Andalúsíu) og saudfé svo ágiætt, at ei finnst annat þvílíkt i Evrópa. Menn reka árliga rekstra mikla, svo milliónum skiptir, frá hinum sudlægu til hinna nordlægu hérada ríkisins; ena fínustu ull ber hit svokallada Merínó-fé; þar eru einnin asnar, múlar og geitfé. Villidýr eru þar: birnir í Pyreneafiøllum, og ógrynni kanína hvervetna. Býflugna og silki-afli er þar mikill og ardsamr.

Hverki er Spønskum stritvinna gédþeck; né sýnt um at hagnýta sér audugrar fósturjardar margkyniut giædi; eru þar því flestar handverkslistir og smídar sidr stundadar, enn í ødrum Evrópu þiódløndum; í Gvadalaxara og Segóvia eru ullar-vodvirki; í Barzelóna bómullar-verkstadir, í Valenzia og Sevilla silkispuni, (sem er

hin merkasta handidn á Spán) i Malaga kordúanledrs-verkun og í Sevilla afarmikil tóbaks-tilreidslu-stadr; þar eru einnin fáar járnstáls og málma smidiur, er ei géta fullnægt þörfum landemanna.

Innanríkis er kaupverslun á Spán lítilvæg. Spanskir hafast lítt vid i kaupferdum til Evrópu ríkia og selia þeim heima varníng sinn; til Nýlenda sinna í vestr-álfu heims halda þeir siálfir skipum sinum og eiga vid þær kaup mikil. Frá Spán flytst: vín, brennuvín, ávextir ull, kordúan, salt, kork, saltpetr, hestar, múlar, o. frv. — Þángat flytst: korn, feitmeti, skreid, krydd, handverkavarníngr og vörusmídi, málmar, og afarmikit efni í ýmsa hluti, er adrar þiódir tilreida og selia Spönskum aptr fyri dýra dóma. o. fl.

Í ríki þessu er hin rómversk-kathólska trú lögtekin og annarra trúmanna landsvist stránglíga bönnut. Klerklig umráð hafa 8 erkibiskupar á hendi, (þeirra tignastr er höfudbiskupinn í Túlet) og 50 biskupar. Þar eru 126,000 prestar og kénnimenn og 3000 klaustr. Klerkdómr er þar rádríkari en í nokkru ödru landi, og elr fremr áhuga um, af alþýdan hlýdi sér og váfa, enn at hún nemi fródleik og nytsöm frædi.

Trúar-réttrinn (Inqvisitionen), er á 15du öld ofanverdri hófst á Spáni og um lánga æfi og á hrylliligan hátt hafdi ollat þar mannspiella og messta ófagnadar fyri land og lýdi, var med öllu afmádr 1820.

Á Spáni eru 13 þiódskólar. Auk þeirra 10, sem ádr eru taldir eru þar 3, nl. í Alkala,

er Ximenes stiptadi, í Osma, í landsudr frá Borg og Onnate í Svipuskóa.

Ríki þetta hefir verit takmarkat einvaldsdæmi sídan 1820 og er þar karl sem kona arfborinn til kóngdóms samqvæmt frumburdarrétti. Veldi konúngs, er giörist friáls forrædis 14 vetra, veikia ríkisstønd nokkur (Cortes). Titill konúngs er: Hans katholska hátign af Spanialandi og hans undirskrift: eg kóngrinn (Yo el Rey). Nú rædr fyri Spán konúngr sá, er Ferdinand hinn 7di heitir.

Eldsti sonr kóngs kallast Prinz af Astúríu; adrir synir hans og dætur kallast Infantar og Infantinnur. Á Spáni eru 485000 adalsmenn; þá tignustu ámedal þeirra kallast Grandar (Grandes, ɔ: Stórmenni). Skialdarmerki ríkisins er gullinn kastali med 3 turnum fyri Kastilsríki, raudt lión fyri kóngsríkit Leon og 3 gyltar liliur fyrir Ansjú (Anjou). Þar eru 10 Riddara ordr, nl. Alkantara ordan, Kalatrava-ordan, Sti. Jacobs orda og Montesa-orda; allar þessar eru jafnframt klerkligar og hermanligar. Hit gullna Vlies (Flís) Karls-orda, Maríu Lovísu-orda, Ísabellu ennar katólsku-orda og hins helga Ferdinands og Hermenegildis-orda.

Landher kóngs er 140.000 at tølu; en herskip hans, stór og smá, eru 80; medal þeirra eru sá meginskip.

Í tilliti til vidlendis og landskosta, er Spán hit fábygdasta land í Evrópu. Innbúar þess eru 10 mill. 783000 at tølu. Þeir hafa kyn sitt at rekia til ýmsra kynþátta, t. d. Ibera og Kantabra, Rómveria og Gauta, er þángat fluttust og mægdust sídan vid Arabíumenn eda Serki. Þióðar-einkunn Spanskra er

alvörugëfni og myndugr höfudburdr eda herra-svipr í framgángi og vidrædum. Þeir meta mikils göfugt lángfedgatal og lítilhæfir menn stæra sig af ættgöfgi forfedra finna. Á fyrri tídum báru landsmenn stuttkirtla og forda vid sídu og eldir ennþá eptir af þeim sid hiá bændum í ýmsum sveitum. Spanskir eru síinir til dansleika, gódir riddarar og leika vel á hliódfæri, einkum hörpu og henda sérílagi gaman at svakksamri skémtun. Alþiódligr er dansleikr sá á Spáni er Fandango heitir og er hann talinn vandgiörd íþrótt. Gradunga-at eda víg hefir einnin um lánga æfi verit þar almenn og fiölsótt skémtun. At lokoum vinberialestri, er þar alþiódlig fagnadar hátíd mikil; eru þá tignir og ótignir jafnadarmenn um hríd. Spanskir eru hraustir í orrustum, þolgódir í mannraunum, heilsugódir og verda opt háaldradir; þó er blinda og vitleysa sialdgiæfari í ödrum löndum, enn þar. Þeir eru fámálugir og dulir og trúa varla nánustu frændum né vinum fyri einkamálum sínum; dramblátir eru þeir og þykir þeim eingin þiód standa sér jafnfætis, stærilátir og stridlundadir, lostasamir og lauslyndir, skapstórir og manna þrályndastir og harla tregir til at semia sig eptir háttum annarra þióda; en á medal mannkosta þeirra má telia: fyrirhyggiu og vareigd, hóffsemi og trygdlyndi, þolgiædi og hugrekki. Konur eru allfrídar á Spáni og skörugligar, stoltar eru þær og stórrádar, mannagiarnar og ástríkar.

# XIII. Fránkaríki (Frankrig, Frankerige; Gallia, Francia.)

Land þetta kölludu Nordmenn Frakkland, Valland og Frans. Þat liggr í millum 12° og 26 austl. lengd. — og 42° og 51° nordl. br. — en fyri vestan Þýdskaland, Sveitzaland og Italia og fyrir sunnan Nidurlanda-ríki og sundit, er skilr Frakkland og England. Fyrir vestan þat er hinn atlantiski útsær og fyri sunnan þat Spán vestast og þá Midjardarhafit. Fránkaríki er 10,263 ferh. míl. at stærd; þat er 30 þíngmannaleidar at lengd og vidlíka at breidd, þar sem þat er breidast.

Hit eystra og sydra er land þetta fjöllótt, en at nordan og vestanverdu vídast flatlendt; þat er þvínær hvervetna forkunnar frióssamt. Þar eru sveitir fegurstar vid Ródon; en at sudvestanverdu eru heidar vída og ægisandar.

Þessir eru þar fjallgardar merkastir: 1. Mundiufjoll (Alpes) á takmörkum Fránkaríkis og Italiu. 2. Pyreneafjoll, (Pyrenæerne), sem ádr er gétit. Í landnordr gengr fjallgardr af þeim, er 3. Lózerefjoll kallast, er vid Löru upptök skiptist í 2 greinir, gengr önnr þeirra í útnordr og kallast. 4. Avergnsfjoll, medal þeirra er fjall þat hærst, er Mont Dór edr Gullfjall heitir; en

ønur í hánordr, er kallast: 5. Sevennafiøll (Sevennerne), er at lyktum verda hædir einar, er kallast Cotedór edr Gullhólar. 6. Júrafiøll kallast fiallgardr litt hár á Frakklands og Sveitzalands landamæri. Þadan gánga fiøll í útnordr, er 7. Vasgáarfiøll heita; þau deilast í 2 greinir, nær ønnr til Ardennafialla, en ønnr til Hundshryggs, sem fyrr er gétit.

Innbúar Vasgáarfialla eru nafntogadir fyri frómlyndi og idiusemi; þeir eru miøg heilsugódir og verda manna eldstir.

Þrír eru þar høfdar edr útnes: Grísanes (Cap de Gris Nez) Hogve-Høfdi og Landsendi (Cap Finisterre) vestast á landinu eda franska Bretlandi.

Í Fránkaríki eru 6000 fliót og smá-ár. Þeirra merkastar eru: 1. Signa (Seine; Seqvana), hún kémr úr landsudri frá Sevennafiøllum, rennr í útnordr og kémr til siáfar í sundit edr Kanalinn. Sunnar kémr 2, Lóra (Loire; Liger) úr sømu átt, en beygist nálægt Orleans í vestr og fellr í hit atlantiska haf, 8 mílur frá Nantes; þat er hit mesta vatnsfall á Frakklandi; og renna í þat yfir 40 ár; þat er 144 mílr at lengd. Í sudvestr hluta lands sins fellr á sú, er 3. Garóna fyrr. Geirvimul (Garonne; Garunna) heitir undan Pyreneafiøllum, í útnordr; hún kémr þar til siáfar í hinn atlantiska ú́sæ, er Nordmenn kølludu Grislupolla; er hún þar breid sem fiørdr. Í hana rennr úr austri á sú, er Dordogna (Duranius) heitir og kallast hún úr því Gironda. Hún er 90 mílr at lengd. 4. Ródon (Rho-

ne; Rhodanus) kémr úr austri frá Sveitza-landi, rennr i gégnum Genfar-vatn i útsudr inní Frakkland til Leons, þar beygist hún i hásudr ög fellr i Midjardarhafit; þessi á er vidlika laung og Garóna. Auk þessara vatnsfalla er 5. Rín, er skilr lönd hit eystra, 6. Mósel (Mosella) 7 Mösá og 8. Skaldá, er allar 3 falla i nordr um nyrdri hlut landsins.

Medal allmarorá síkia, er menn hafa grafit millum téðra vatnsfalla, er síki þat er Sudr-kanall (Canal du Midi) heitir, en forrum kalladist hinn langedockski kanall eda konúngskanall, öllum ödrum merkari og stórkostligri i þessu landi; hann gengr frá Garónu (skamt frá Tólósu) 31 m i sudaustr til Midjardarhafs, svo á skipum má fara milli þess og Fetlafiardar edr flóa þess ens mikla, er gengr inn milli Spánar nordrstranda og vestrskaga Frakklands, er i fornöld hét Bretland.

Adr enn hin mikla stiórnarbilting hófst i Frakklandi, var þat greint i 17 landsálfur, en nú á dögum er því skipt i 86 Departement, er vér köllum fylki og er yfir hvert þeirra sett fylkisstióri eda Praefect. Þessir eru stadir merkastir i nyrdri hluta Fránkaríkis.

París eda Parísárborg (Parisii. 48° 50′ 16″ nordl. Br.), Þat er höfudborg lands þessa og konúngs heimili, er stendr bádumegin vid og á hólmum nokkrum i Signu, og er einhver hin mesta, fegursta og merkasta borg i heimi. Hún er 5 mílur ummáls og umhverfis

hana liggia 10 forstadir og frá henni gánga 28 þióðvegir til ríkisins ytstu takmarka.

Þar eru afarmargar háreistar og skrautligar byggingar og hofgarðar; meðal þeirra er Tvilleríslotit (Tuillerierne) er Katrín af Medicis lét giøra; Lúver (Louvre) bygt af Loðvíki 12ta og aukit og fegrat af Loðvíki 14da; hit konúngliga slot, (Palais royal) er Richelieu lét giøra; Lúxenborg og Búrbon. Meðal kyrkn-anna er Vorfrúr kyrkia hin vegligasta og St. Gènovera. A Signu eru steinbrýr margar og miklar, þeirra nafnkunnust er Nýabrú (Port-neuf) er Hinrik hinn 4ði lét giøra. Þar eru einnin mikil torg eða pláts: Karússelplátsit fyrir framan Tvilleríslotit; Loðvíks 15da Pláts (þar vóru þau Loðvík 16 og drotníng hans af lísi tekinn) og La Greve, þar var almennt aftøkustaðr í stiórnarrofs styrialdinni. Þar er einnin spitali fyrir 5000 fúndlínga og mikit fángelsi. Þar er þióðskóli og á meðal allmargra vísinda stiptana, íþróttaskóla og mentunar-meðala er þar hin mikla konúngl. bókahlaða (400,000 bind: og 80,000 handrit). Fyri vestan borgina er Grenellusléttan og Marsmørkin og fyri sunnan hana eru jarðhús mikil með afarmørgum gaungum og afkymum, þar eru lík 2 milliona manna. Í París eru 715,000 innbúar.

Í útsuðr frá París er Versaliar (Versailles; Versaliæ); þat er føgr borg með 35000 innb. og var um hríð atsetr enna frønsku kónga og þá miklu fiølmennari; þar er forkunnar skrautligr konúngsgarðr, er Loðvík hinn 14ðe lét giøra.

Þar í grend eru 6 konúnglig slot; medal þeirra er Sti Klúd (Cloud), þar sat Napoleon á sumrum, og Malmason, þar, dvaldist og andadist drottníng hans Jósephína.

Í útnordr frá París er Rúdu borg (Rouen; Rodomum) vid Signá nordanverda, med 87000 innb. þar er forn gautsk dómkyrkia og í henni legstadr ýmsra kónga; á torgi nokkru í stad þessum var Johanna Dark brend 1431. Vestar vid mynni tédrar ár er Haver de Grace ɔ: nádarhöfn (Portus gratiæ), þar er höfn. Nordar vid sundit er Díeppa (Deppa) med 20,000 innb. og nordar Búlóna (Boulogne; Bononia), þar er höfn lítil og 14000 innb. þadan gánga flutníngsskútr til Englands. Nordar er Kalè (Calais; Caletum) vid sundit gagnvart Dofra, med 7000 innb.; þar gánga feriur yfir á viku hverri.

Nordar á sömu strönd er Dunkyrkia (Dünkerquen; Dunquerca) þat er víggirdtr stadr med 21000 innb. Í austr frá Dieppu er Amiens, (Ambianum), vid á þá er Sommá heitir og sellr í sundit; þar er forkunnar veglig dómkyrkia, ágiætr ullarvefnadr og 40,000 innb. Í útnordr þadan er Abbevilla vid téda á, med 18000 innb. Í landnordr frá Amiens er Arras (Atrebatum) med 19000 innb. þar er kastali og ágiætr kniplínga vefnadr. Í landnordr þadan er Dúai (Duacum) þar er þiódskóli, festíng og 18000 innb. Í nordr þadan er Lille eda Ryssel (Insula) þar eru

virki mikil og kastali og 100 oliu myllur. Ei alllángt frá Búlönu er Sti. Omer (Andomaropolis) med 20,000 innb. þar er klædagiörd mikil.

Í landnordr frá París er Remisborg (Rheims; Remi), þat er mikil borg og forn; þar er gømul gautsk dómkyrkia, er Frakkar fyrr. krýndu kónga sína í — og 30,000 innb. Í austr þadan er forn og víggirdr stadr, er Verdun heitir, vid Mosá og austar Metz (Metæ) vid Moselá, enhvør hin sterkasta borg í Fránkaríki, med 41000 innb. þar er vegligt høfudkyrkia og skinnaverkun mikil.

Í landsudr frá Remisborg er Chalon. (Catalaunum) vid ána Marne, er rennr úr austri í Signá, med 11000 innb. Í nánd vid stad þenna bardist Aëtius vid Húna og fékk sigr 451.

Í sudr frá Metz er Nancy (Nancejum) þat var fyrr. høfudstadr í Lóthríngi; þar féll Karl hinn hugprúdi í orrustu vid Sveitza 1477. Skamt þadan er Luneville, þar var fridr giørr 1801. Austar er Strasborg (Strateburgum) vid Rín vestanverda; hún er allmikil og rammliga umgirdt; þar er nafntogud dómkyrkia, er Munster kallast og er hún hit vegligasta musteri; á henni er túrn 449 fóta hár; þiódskóli og fallstykkia steypuverk mikit — og 50,000 innb.

Í nordvestr frá París er Kaen, (Cado-

mus) skamt frá sundinu; þar er þióðskóli, mikill sokkavefnaðr — og 36000 innb. Í útnorðr þaðan er Kerborg (Cæsaris Burgus) á skaga þeim, er lengst gengr í norðr, gagnvart Portsmút á Englandi. Þar er sú einasta herskipahöfn, er Frakkar hafa við sundit; var hún fyrst fullgiör 1812. Þar eru 12000 innb. Í útsuðr þaðan er Sti. Malo við botn Ringsfiarðar og Rennes (Redonis) sunnar, þar er er þióðskóli og 30,000 innb. Í vestr þaðan og vestast í landinu er Brest (Brivates) við víðkendan fiörð; þar er hin mesta og besta herskipastöð í Frakklandi, er Richelieu lét giöra — og heimili 26000 innb.

Allar þær borgir, sem nú eru taldar, liggia annaðtveggia norðar, enn París, eða nærhæsts jafnnorðliga í ríkinu.

Í landsuðr frá París er Melún (Melodum) við Signá; skamt þaðan er konúngsgarðr, er Fontenabló (Fontainebleu) heitir. Í suðaustr þaðan er Troya (Trecæ) við Signu með 27000 innb. Norðaustar er Bríenna, þar gékk Napóleon í skóla og nam hermannligan fróðleik.

Í útsuðr frá París er Orleans (Aurelianum), mikil borg og víggirðt við Lóru; þar er minnisvarði Jóhönnu Dark, er 1429 frelsaði stað þenna frá umsátri Enskra; þar eru 42000 innb. Í landsuðri þaðan er Borg (Bourges;

Biturigæ), þat er umgirdtr ſtadr með miklum múrveggium og 8 turnum. Þar er þiódſkóii og 17000 innb. Í ſudveſtr frá Orl. er Turonisborg eda Túrs (Tours; Turoni) vid Lórá; þar er veglig dómkyrkia mikill ſilkivefnadr og 22000 innb. Vid borg þeſsa bardiſt Karl Martel vid Araba eda Serki 732 og vann mikinn ſigr. Veſtar er Angers (Andegavum) ſkamt fyrir nordan Lúrá; þar er þiódſkóli og 29000 innb. Veſtar vid téda á nordanverda er Nantes, (Nannetes) 6 mílr frá ſæ; þat er mikill kaupſtadr með 76000 innb.; þar er ſallſtykkia-ſteipuverk mikit og grunn høfn; leggia því hin ſtærri kaupfør af farminu í Pambøff, vid árмynnit. Sunnar á ſtrøndinni, er Roſjella (Rochelle; les Roſjelle Rupella) víggyrdtr ſtadr; þar er góð høfn og verſlun — og 18000 innb. Sunnar Roſjefort (Rocheſort les Roſjefor Rupifortium) þar er víggirdt herſkipahøfn, er Lodvik hinn 14de lét giora — og 15000 innb. Í nordauſtr frá Roſjellu er Peituborg (Poi-tiers, les Poatie Pictavium); þar er dómkyrkia mikil og þiódſkóli og 22000 innb. Í milli ſidſtnefndra ſtada er Niort (Niortum) þar er mikil ſkinnaverkun — og 15000 innb.

Þenna hluta landſins milli Lórár og Garónu kølludu Nordmenn Turſkuland hit nyrdra og Peituland ſunnar. og bædi áſamt Aqvitania; þár vár þá

kaupstadr sá, er Varandi bát midsvegar millum óía tédr. flóta og Vilhiálmsbær vid Garónu mynni nordanverdt.

Vid Garónu er afarmikill kaupstadr, er Burdó, (Bourdeaux; Burdegala) heitir þar er þiódskóli og tóbaks-tilreidsla mikil — og 93000 innbúer, er selia vinfaung mikil og Nyiendavarníng, og senda ferinskip til Nordr-Ameriku og Vestindía. Í útsudr þadan er Bajónna (Bajonna) vid sæ; þat er víggirdtr stadr med 13000 innbúum; af hønum taka byssufleinar (Bajonetter) nafn, med því þeir vóru þar fyrst giørstr á døgum Lodvíks hins 14da.

Í landsudr frá Bordó er Tólósa (Toulouse) vid Garónu; þat er mikil borg og forn og var fyrrum høfudborg í Vestgauta-ríki, er einnin kalladist Vestr-ríki; þar er mikill høfgardr, er Tólósa greifar fyrr. sátu i, veglig dómkyrkia, føgr steinbrú á ánni, forkunnar prýdilig rádstofa, þiódskóli og afarmikit tallstykkia steypuverk — og heimili 52,000 innb.

Í landsudr þadan og vid Midjardarhafit er Perpignan, (Perpiniacum) víggirdtr stadr. Nordar er Narbonna eda Nerbóna (Narbo Martius); þat var sá annar nýlendustadr Rómveria. Í landnordr þadan á strøndinni er Cette, á nesi vid vatn þat, er Thá heitir; þar eru saltlindir og geimslubúr fyri varníng þann, er flytia skal á skipum upp Sudr-Kanal. Lengra nordr er Montpelliar, (Mons

Pessulanus), þar er þióðskóli og 33,000 innb. er tilreiða manna best í Frakklandi ilmsæt smyrsl, reykelsi o. s. frv.

Í landnorðr þaðan er Nîmes (Nismes; Nemausus) fyrir vestan Ródon; þat er ærit forn staðr með 40,000 innb. þar eru merkir forngripir frá Rómveria tíðum; meðal þeirra er sióuarpláts í hálfmána lögun. Á strönd-inni skamt fyrir austan Ródons mynni er mikill kaupstaðr, er Marseliar (Marseille; Massilia) heitir. Þenna stað bygðu Phóceear frá Litlu-Asíu laungu fyri Krists burð, og er þat eiuhver hiun elzti staðr í Evrópu. Mars-eliarmenn reka kaupskap mikinn í Tyrkialöndum við Miðjarðarhafit og á Vallandi og giöra þeir Frakka byrga at þessara landa varningi; þar er fríhöfn og miklar byrgðir af víusaung-um frá nálægum hérudum, viðsmiöri og suðr-landa ávöxtum; meðal allmargra vefnaðar- og verk-staða er sápugiörð þar nafnkéuðust, og með allri athygli eru þar reistar skorður við drepsótt, er 1720 leiddi 50,000 af borgarlýðnum til bana. Þar eru 102,000 innb. Austar á ströndinni er Tûlon (Toulon; Telo Martius), þar eru rammlig varnarvirki, 2 hafnir fyrir herskip og fyrir utan þær ágiæt skipalega, er 4 kastalar veria, og skipreiðahús mikil. Staðarlýðrinn er 22000 at tölu.

Þær hýerisku eyar liggia nockut austar skamt undan landi; á strøndinni austr frá Túlon er Frejus, þar tók Napó eon land, er hann kom af Egyptalandi; en vid Antives, austar, lendti hann, þá hann kom frá Elba.

Í nordr frá Marselíum er Aix (Aix úttal. E; Aqvæ Sextiæ) þat var fyrr. hofudstadr í Próvenzu og hin fyrsta nýlenda Rómveria í Gallia; þar er þiódskóli og laugar og 21000 innb. Vid ána Ródon austanverda er Arles, (Arelate) er fyrr. var hofudborg í því Arelatiska-ríki; þar eru margar fornleifar og 19000 innb. Nordar vid téda á er Avinnión (Avignon; Avenio); þar er hofgardr mikill, (þar sátu Páfar frá 1305 til 1377), dómkyrkia, (í henni eru legstadir ýmsra Pafa) og ágiætr silkivefnadr — og 42000 innb.

Í Vàklusu, (Vaucluse) skamt frá Avinnión, dvaldi þiódskáldit Petrarka laungum og qvad harmaqvædi sín eptir andlát sinnar elskudu Lauru.

Nordar vid Ródon er Valenza, (Valentia) enhver hinn elzti stadr í Fraklandi, med 8000 innb. Í landnordr þadan er Grenóbla (Gratianopolis), skamt frá Vallands landamæri; þar er forn kastali, þiódskóli og 22000 innb. Í útnordr þadan er Vienna fyrr. Vihenia, vid Ródon; þat er forn býr og var ford. atsetr enna frønsku kóngasona; þar eru merkir klædavefstadir og 11000 innb.

Á kyrkiufundi í Vienna var Tempelherra félagit afmád 1312. Kartrøs heitir lítill stedr ei alllángt frá Vienna; skamt þadan var mikit og nafnkunnugt Múnkalífi, kent vid stadin, er Bruno setti á stofn.

Fyrir nordan Vienna er Leons eda Lyon (Lugdunum) vid Ródon; þat er forn og mikil borg, er gengr París nærst at mikilleik, audlegd og fegurd. Þar er gömul og veglig dómkyrkia, mikil bókahlada (120,000 bind.); auk margskonar handidna, er þar silkivefnadr svo mikill, at óvida er þvílikr í heimi, og nafnkéndr hatta tilbúníngr. Kaupverslun er þar og allmikil. Ádr enn hin mikla stiórnarbilting hófst, vóru þar 160,000, en nú eru þar 100,000 innb.

Í vestr frá Lyon er Klaramont (Clermont-Ferrand; Claramontium); þat er forn borg, bygd af hraun grióti; þar er þiódskóli og margar málmdámadar uppsprettur í grend vid — og 31000 innb. Vestar er borg sú, er Límóges (Lemovicæ) heitir, med 21000 innb. og í landsudr þadan Túlla (Tutela) í hriósstugum fiallgardi. Alllángt í nordr frá Lyon er Dizion (Dijon; Divio), þar er þiódskóli, forn hofgardr, fyrr. atsetr hertuganna í Borgundi, (svo hét þessi hluti Fraklands). Austar er Bessanzon (Vesontio) rammliga víggirdtr stadr; þar er þiódskóli og 28000 innb. Margir eru fleiri merkir stadir í ríki þessu er ofllángt yrdi hér at telia.

Í landsudr frá Tólon liggr eyland þat í Midjardarhafi, er Korsika (Corsica) heitir og Nordmenn kölludu fordum Krísaríki og Kussaland en eyarmenn hétu þeir Kussara. Hún er 178 ferh.

mílr at stærð og er víðast frióssom; þar vex gnægð víns, korns og triá-ávaxta. Vestanfram á eyunni er Ajakfió (Ajaccio) hiá víðkéndum firði, með 7000 innb.; þar er Napóleon keisari borinn (1769) og öll systkyn hans. A austrströndinni norðarlega er Bastia með 11000 innb. Eyarmenn eru 175,000 at tölu; þeir hafa optsinnis varit frelsi sitt með harðfengi og ávalt átt í höggi við ofurefli og ofriki Genúesa og Frakka.

Víðast er Frakkland veðrasælt, einkum miðtlands. Í Vasgáfiöllum er áftundum vetrarriki nokkurt. A vorum olla opt harðir norðanvindar, er Mistral (Vent de bise) kallast allmikils skaða á sádlöndum og vínviði í syðri hluta rikisins.

Öll eru náttúru rikinn allaudug í Frakkaveldi; þar finnst: gull, silfr, kopar, járn (þó ei til hlytar) blý, gnægð salts, (bæði úr lindum og sæ) steinkol, Porcelans leir, marmari, og málmdámaðar uppsprettr. — Alskonar korntegundir vaxa þar, gnægð triá-ávaxta, hør og hampr og allmiklir skógar; þar er einnin góðr silkiafli og ágiæt vínyrkia, hverttveggia því betra sem sunnar er. Hit franska vín er hnossgiætt og áseingt og er þat ként við þau landspláts er þat vex í. — þar eru heimdýr sem í øðrum løndum, þó hafa Frakkar hvervetna hast skort á hestum; geitsé er sérílagi í syðri hluta landsins, og asnar og múlasnar, villidýr allmørg og úlfar; fiskiafli er þar ágiætr og ostrskelia veiði við vestrstrandir.

Öll þau giædi og verkefni, er fósturjörd sær Frökkum og mörg önnur er þeim berast í hendr af ödrum löndum, hagnýta þeir og tilreida med mikilli list og hagleik. Agiætir klæda-dúka- og lérepta-vefstadir einkum hit nyrdra, en silki-vefstadir eru bestir hit sydra. Í verksmidium giöra menn af ýmsum málmum ágiætt vörusmidi, glingr og huoss-smidi, er vída flytst.

Med því at land þetta liggr vel vid til siglíng, er þar kaupskapr mikill vid útlendar þiódir. Frakkar hafast og allvel vid í kaupferdum í Midjardarhafi og vestr í heimi. Hvergi, utan á Englandi, hafa menn med svo miklum tilkostnadi greidt varnings flutning og ferdalag manna sem í Fránkariki. Þar eru margar kaupstefnur lagdar; medal þeirra er markadrinn í Bokeri (Beaucaire; skamt frá Nimes) hinn markverdasti.

Frakkar selia: vín, brennuvín, vínedik, margskonar kridd-drykk, sudrlanda ávexti, ilmsæt smyrsl og olíu — og allskonar vefnad, og vörusmidi, reſil, silki og fínasta lín o. s. frv. — Þeir kaupa margskonar ótilreidt verkefni, léreft frá Tydskalandi, og ýmsan varning austan og vestan úr heimi.

Í Frakklandi er hinn rómverski-katholski átrúnadr þiódtrú; þar standa 9 erkibiskupar fyrir kennimannligum efnum og er erkibiskupinn í Paris þeirra göfugastr. Medal þeirra múnkafélaga, er sídan 1814 hafa á ný fengit uppreisn, má hér géta múnka þeirra, er Trappistar kallast; allir adrir trúmenn hafa þar trúarbragda

frelsi; þó brýddir þar optar, enn í ødrum løndum, á offóknum vid þá.

Sídan 1815 hafa 17 þiódskólar ásamt allmørgum háskólum framat mentir og vísindi í ríki þessu; þar er og ágiætir bókastólar á ýmsum stødum.

Í Frakklandi er takmørkud einvaldsstiórn á løg leidd og gengr þar kóngdómr í erfdir frá ædur til eldsta sonar. Kóníngr skal vera fullra 14 vetra er hann tekr ríki og skal hann játa katólska trú. Í lagasetníngum eiga stønd nokkr þátt, er greinast í 2 flocka nl. Pera-(Jafníngs) og Fulltrúa-rádit, í því fyrra eru þeir høfdíngiar medal adalsmanna og biskupa, er kallast Perir (Pairer; Pairs) og eru jafnir at metordum og einkarétti; en medlimir þess sídara eru fulltrúar fólkianna sem kosnir eru á samkomum í hveriu þeirra. Auk þessara gengr ríkisráð og rádgiafaráð konúngi til handa í landsstiórninni. Titill hans er: Kóníngr Frakklands og Navarralands.

Paradauki hafa Páfar aukit titil hinna frønsku kónga og kallat þá: hans allra-kristiligustu hátign edr fyrstunnar frumborna son. Allt frá 1349 heitir elsti kóngssonr eda konúngsefnit kallast Dáphin, en næsti bródir at aldri, Monsieur (Mossio) Skialdarmerki Frakkakongs, er 3 gullnar liliur á bláu undirbordi fyri Frakkland og gullkédia á raudu fyri Navarra.

Sjø eru þar riddara-ordur a, Heilags-anda-ordan stipt. af Henriki 3dia b, ens helga Michaels-orda c, ens heil. Lodvíks-orda d, Lazarus-orda e, ordan fyrir hermannliga verdskuldan, f, Ærulegión, stipt. af Napóleon keisara; — og g, trúskapar-ordan.

Landher Frakkakonúngs er ásamt inndrótt eda lidi því, er heldr vørd um konúng (nl. 20000)

250,000 at tølu. Skipalid og herskip eru í lakligu standi; þó eru þar 40 línuskip auk minni herskipa. Ædsti herskipaforingi kallast Admiral af Fránkaríki.

Í Frakklandi eru 106 víggirdtir stadir; medal þeirra eru: Lilla, Strásborg, Metz, Valenciénna (í landsudr frá Lilla) Sedan (í útnordr frá Metz) Bríanzon og Túlon, sterkastir. Merkustu herskipahafnir eru í Brest, Orient (í landsudr frá Brest) Rochefort og Túlon.

Landslidrinn í Frakkaveldi er 29 milliónir at tølu; ámedal þeirra eru 25 mill. eiginligra Frakka edr Frænkismanna, er hafa kyn sitt at rekia til 4 fornþióda nl. Gallíumanna, Rómveria, Gauta og Fránka. Allr þorri þiódarinnar mælir franska túngu; nordast mæla landsmenn þýdsku, í Normandí kymrisku edr ena fornu bretlendsku; vid Pyreneafioll baskisku og á Korsika valska túngu

Í Frakkaveldi hafast Júdar ei allfáir vid, Zigeunir og hinir vesælu Kagottar vid Spánar landamæri.

Frakkar hafa um lánga æfi feingit ord fyrir, at vera allra manna kurteysastir, gladværastir og prúdastir í háttum og hegdan. Vid kunna og ókunna eru þeir málhreifir og opinskáir, snarlyndir og kvikligir; skrautmenni eru þeir og fullir sundurgerdar og breytiligir miøg í háttum og klædasnidi.

Frakkar eru frægir orrustumenn, hugrakkir, og allra manna fræknastir og vopnfimastir. Hafa þeir og tídum verit sigursælir og med hreysti og vigkiænsku margra vídfrægra hersforingia aflat sér ordstýrs og landa.

# XIV. Fríríkit Sveitzaland (Schweitz eda Helvetien; Helvetia.)

Umhverfis land þetta liggia þiódlønd mikil, og skilia Mundiufiøll þat og Valland at sunnanverdu, en Iúrafiøll atskilia þat og Frakkland hit vestra. Fyrir nordan þat er Baden og Wurtenbergs-ríki, og Tyról fyrir austan. Þat liggr ímillum 23° og 29° austl. lengd: og 45° og 48° nordl. br. — og er 890 ferh. mílur at vídáttu.

Í þessu ríki er hálendi mest í Evrópa og fiøll hærst, einkum hit sydra, sem sumar og vetur eru þakinn snió og jøkli. Þar eru einnin íssléttur miklar eda flatjøklar (Gletscher) er heldr aukast enn þverra. Opt falla þar jøklar fram og skridur, er ølla mikils jardusla og tións á mønnum og dýrum. Þar eru elfur margar og í þeim fossar miklir. Vøtn eru þar og mørg og stór og í þeim gód veidi. Dalirnir í sydri hluta landsins eru diúpir og þraungir, en hit nyrdra breidir og vídlendir; fiøllinn eru þar lægri og allvída korni sád.

Medal fiallgarda þeirra, er liggia í þessu landi og á takmørkum þess, má telia: 1. Mundiufiøll (Alperne; Alpes) þau gánga frá Midjardarhaf (vid Nizza) í landnordr og svo í austr á Sveitzalands og Vallands landamæri

og enda vid Balkanfjöll í Tyrkiaveldi. Þau eru 180 míl. at lengd og 4000 ferh. m. at víd-áttu. Menn kalla þau ýmsum nöfnum, t. d. Sæ-Alpa (Söe-Alper) vid Midjardarhafit, hin kottisku, grajisku, pennínsku, lepontinsku, rhætisku, nórisku, karnisku, júlisku og dínarisku Alpesfjöll.

Hæstu hnúkar í þessum meginfiallgardi eru Montblanc (Hvítafiall) í hinum pennínsku Mundiufiallum; þat er 14,676 fóta hátt; Ortles, í hinum rhætisku Mundiuf. gengr Montblanc næst at hæd og er 14666 fóta; Rósa-fiall (Mont Rosa), hit mikla Sti. Reinhard, Finsterárhorn, Jómfrúin, Skrekhorn og Furka, eru öll yfir 10,000 fóta at hæd. Sti. Gotthardsfiall er nokkut lægra og er midpúnktr hinna sveitzisku Mundiufialla. Yfir fiallgard þenna gánga 3 ágiætir vegir, er Napóleon lét leggia.

2. Júrafiöll (Iurabjærgene) liggia í landnordr á Frakklands og Sveitzalands takmörkum og eru þvínær 40 míl. at lengd. Hit eystra eru þau brött miøg, en at vestanverdu er allángr atlídandi. Hvergi eru þau yfir 6000 fóta at hæd.

Merkustu elfur í þessu landi eru: 1. Rín (Rhinen; Rhenus); hún fellr í 3 qvislum undan Gotthardsfialli og koma þær saman vid Reikená; sídan rennr Rín ígégnum Bódensió og úr honum vid Stein í vestr til Basel, beygdist hún þá í nordr og fellr sem fyrr segir. Í henni er foss mikill skamt frá Skafhúsum Rín er 140 míl. at lengd. Vestar fellr 2. Ar (Aar; Arola) undan Grimselfialli. rennr ígégnum Brinz- og Tuns-sió, og í Rín vid Kóblenz. Í hana renna: Reusz og Limmat úr landsudri. 3. Ródon (Rhone; Rhodanus) fellr

undan fialli því, er Fúrka heitir, rennr eptir Vallis-dal og ígégnum Genefu-vatn, sem fyrr er frásagt. 4. Tesín (Ticinus) fellr undan Sti. Gotthardsfialli, rennr í sudr og í Miklavatn í Nordr-Vallandi. Í sydri hluta Grábunds-fylkis eru upptök ár þeirrar, 5. Inn (Oenus) heitir; hun rennr í landnordr um Tyról og at lyktum í Dunn.

Í Sveitzalandi eru vøtn mørg og mikil; flest eru þau alldiúp. Hin merkustu eru: a, Bodensiór, sem ádr er gétit. b, Genefu- eda Leman-siór (Lacus Lemanus) í sudvestr-hluta landsins; hann er áþekkr hálfmána at løgun og er 10 míl. at lengd í austr og vestr og 2½ m. at breidd. Hit nyrdra kallast hann Lásannasiór. c, Nýborgar- eda Nýkastala-vatn (Neufchatelföe) vestast í Sveitza-landi; d, Fiogra Skógstada-vatn, (Vierwaldstädter-söe), mittlands, millum Sveitz-Uri-Untervalds- og Lucerns, fylkia. Nordar er e, Zúgs-vatn og í landnordr þadan f, Zurik-vatn þat er lángt og miótt. —

Helvetia eda Sveitzaland er greint í 22 landshlutur (Cantoner) er vér køllum fylki, nl.

1. Skafhúss-fylki, þat liggr nordast; þar er Skafhús (Schafhausen) vid Rín; þar eru 6500 innb.

2. Zúriks-fylki, fyri sunnan Skafhúss-f. þar er Zúrik (Zurich; Turicum) vid

norðr-enda viðkénds vatns; þar eru varnarvirki, skrautlig ráðstofa og dómkyrkia mikil og 11000 innbúar.

Fyrir utan borg þeśsa er Gesżners minnisvarði; hann, Lavater og Pestalozzi eru fæddir þar. Í landnorðr þaðan er Vinterthúr og skamt þaðan í suðr forni sloti, er Kyborg heitir. Við Rín er þorp þat er Láf (Laufen ɔ: Hlaup) kallaſt, þar er fosś mikill í ánni (Rhinfaldet), sem er 75 fóta at hæð.

3. Túrgáar-fylki (Turgau) fyrir austan Zúriksfylki. Þar er sammefndr ſtaðr.

4. Argárfylki fyrir veſtan Zúriksf. þar er Ará (Arau; Arovia) við ána Ar, með 2400 innbúum.

Í landnorðr þaðan er Skinznak og ſkamt þaðan austuál af sloti því, er Habsborg hét. Austar er Baden, þar eru ágiætar laugar. Zosing. Bruck og Arborg, þat er sú einasta ſestíng eða kaſtali í ríkinu.

5. Basels-fylki, veſtar; þar er Basel, fyrr. Busilaraborg (Basilea) við Rín. Þat er annr borg meſt í þeſsu ríki; þar er dómkyrkia (i henni var hinn nafntogaði kyrkiufundr haldinn), varnarvirki, þióðſkóli, ſtipt. 1459, ſilkiverkſtaðir og pappírsmyllur og 15000 innbúar.

6. Sólóthúrns-fylki, ſunnar; þar er Sólóthúrn (Solodurum) er menn fyrr. kolludu Solatra; þat er viggirðtr ſtaðr við Ar; þar 4200 innb.

7. Lúcerns-fylki, fyrir ſunnan Argárf. þar er Lúcern (Lucerna) ſtaðr við ána Reuſz, er hún fellr úr Fiogra-Skógſtaðavatni; þar eru 5000 innb.

Í útnorðr þaðan er Sempack hiá viðkéndu vatni; þar unnu Sveitzar frægan ſigr 1444, en Arnold Vinkelrið fell með beſta orðſtýr.

8. Zügs-fylki; þat liggr austar og er hit minsta í Sveitzalandi ($5\frac{1}{2}$ f. m.) þar er Züg vid vatn, sem kent er vid stad þenna.

9. Sveitz-fylki, vid Fiøgra-Skógstada-vatn austanverdt; þar er Sveitz (Schweitz edr Schwyz; Suitia) nálægt Rigifialli; þar eru 5000 innb.

Vid eds vatn er stadr sá, er Brunnr, (Brunnen) heitir; þar sórust innbúar fylkianna: Sveitz, Uri og Untervalden, í fóstbrædralag 1315 til at kasta af sér oki Austrríkis keisara. Í Kúsnak, í útnordr frá Sveitz, vann Tell hardstióranum Geßler bana.

Í þessu fylki eru Rigifiall, Russifiall, er 1806 olli ógurligs skada og jardusla, og fiall þat, er Morgart heitir, á takmørkum Zúgs- og Sveitz-fylkis; vid fiall þetta hádu Sveitzar mikla orrustu vid fiølda lids Austrríkis manna 1513 og fengu sigr.

10. Glarus-fylki, fyrir austan Sveitza-fylki; þar er Glarus (Glarona) med 2500 innb. þar er lerepta-bleiking mikil.

11. Sti. Galls-fylki, fyrir austan ìa sídstnefnd fylki og Zúrik; þar er Sti. Gallen (Fanum St Galli) med 8200 innb. Múr-veggr skilr stadin og gamalt Benedictína-klaustr, er stadrinn hefir nafn af og upphaf; ábóti þess var þýdskr Rikisgreifi. Þar er ágiætt bleik-íngar-stadr. Í þessu fylki midiu liggr:

12. Appenzells fylki; þar er samnefndr stadr.

13. Uri-fylki, fyrir sunnan Sveitz; þar er Altorf (Altorfium) vid ána Reuß, med 4000 innbúum.

Nordar er Flüelen vid Fiøgra-Skógstada-vatn og skamt þadan Tells Kapella. Í sudr-hluta þessa

fylkis er Sti. Gotthards fiall; yfir þat liggr vegr til Vallands.

14. Undirvalds-fylki, fyri vestan sídst-téd fylki; þar er Stanz (Stantia) undir vid-kéndu fialli; þar er minnisvardi Arnolds Vinkel rids og 2200 innb.

15. Verns-fylki, þat liggr fyrir vestan 2 sídstalinn fylki, og Lúcerns- og Sólótúrns-fylki og er hit vídlendasta í Sveitzalandi, (nl. 171 f. m.) þar er Vern (Berna) høfudstadr vid Ar. Þar er gomul, gautsk dómkyrka, há-skóli, mikill kaupskapr og 14000 innb.

Í landsudr þadan er Tún (Thun) vid samnefnt vatn og í útnordr Vil (Biel) hiá vidkéndu stoduvatni.

Fyri sunnan fylki þetta gánga hin svokølludu Verns-Mundinfiøll í austr; þar eru fiøll þau er Finsterárhorn, Skrekhorn, Vettarhorn Ei-ger, Jómfrú og Múnkr heita. Þar er og Stá-backs-foss vid Láterbrunn hann er 925 fóta hár. Fyri vestan Verns-fylki liggr:

16. Fríborgar-fylki; þar er Fríborg (Freyburg; Friburgum) í útsudr frá Vern; hún er umgirdt med múrveggium og turnum.

Eina mílu þadan er hinn markverdi Magda-lenu-hellir. Í útnordr frá Fríborg er Murten vid Murtensvatn (Lacus Moratensis) og Vifils-borg (Vifilsburg), er gétit finst í fornritum. Vid Murten bar Karl hinn hugrakki lægri hluta fyrir Sveitzum 1476. Beinhúsit, er þar varg iørdt í þess minning, ri'u Frakkar nidr 1798.

17. Vadt-fylki eda Vadtlandit liggr fyrir sunnan og austan sídstalit fylki og fyri nordan Genefuvatn; þat er hin fegursta og vedrasælasta landsálfa í þessu ríki. Þar er

Lásanna (Lausanne; Lausonium) í fornfunnar inndælu héradi vid Genefuvatn nordanverdt; þar er forn, gautsk dómkyrkia og 9000 innb. Jútnordr þadan er Yverdún eda Isferten (Ebrodunum) vid Nýkastalavatn sunnanverdt þar er forn hofgardr, og í honum Pestalozzi skóli — og 2500 innb. Austar vid vatnit er Vivay, er fyrr. kalladist Fivizuborg.

18. Vallis-fylki (Valesia); þat er hinn mesti dalr í Svitzalandi og gengr í austr og vestr og liggia þraungir afdalir út frá honum bádumegin, fyri nordan og sunnan gánga Mundiufioll. Þar er Sitten (Sedunum; á frönsku Sion) vid Ródon, í hásudr frá Bern; þar eru 5000 innb. er mæla franska túngu.

Vestar er Martinack, þar og í fyrrtédum afdölum búa þeir svokölludu Kretínar, þeir eru vesælir, og dauf-gáfadir og þiást af hálsbólgu. Skamt frá Sti. Móritz, (í útnordr frá Martinak, er foss mikill í Ródon er Pissevack heitir; hann er 270 fóta at hæd.

19. Tessins-fylki, þat liggr í sudr af Uri; þar er Vellenz eda Vellinzóna vid ána Tessin; þar eru 1200 innb.

Sunnar eru: Lúganó hiá vidkéndu vatni og Lúcarnó vid Miklavatn.

20. Grábunds-fylki (Graubunden), austast í Sveitzalandi; þar er Kúr, (Chur; Curia), skamt frá Rín; þar eru 2500 innb.

Þetta fylki og Valland atskilia hin rhætisku Mundiufioll. Í eystri hluta þess er einhver hinn fegursti dalr í Helvetía, er Engadín-dalr kallast og er 18 mílur at lengd. Engadíndælíngar mæla hit svokallada rómanska mál eda afbakada latínu.

21. Genefu-fylki liggr vid vestr-enda

vidkénds vatns; þar er fiølmannasta borg í Helvetia, er Genefa (Genf); á frønsku Geneve; Gebenna) heitir, bádumegin vid fliótit Ródon, þar er þat fellr úr vatninu; þar eru nafnkunnar sigurverka-smidiur, bómullar- og klæda-verkstadir, þiódskóli og 23000 innb. sem eru manna bezt at sér um marga hluti.

22. Nýkastala-fylki fyri nordan Vadtland og imillum vidkénds vatns og Frakkalands. Þat greinist í sammefnt Furstadæmi og greifadæmit Vallingen. Þar er Nýkastali eda Nýaborg (Neufchatel eda Neuenburg; Neoburgum) vid téd vatn; þar eru 4000 innb. er idka miøg kniplinga-giørd og sigurverka-smidi.

Prúsfa-kóngr eignadist land þetta 1707; en afsaladi sér þat Frakka-einvalda 1806, er séck þat Berthier at léni. 1814 fécK Prúsfakonúngr þat aftr og sama ár var þat skeytt vid Sveitzaríki. Kristiórn er í løg leidd og er þar jarl (Gouverneur) settr til yfirsóknar.

Helvetia er einka-fagurt land og búit nátt-úrunnar margbreyttustu og inndælustu augna-skémtun, t. d. dølum, blómligum og skógivørnum fiallahlídum, beliandi fossum føgrum vøtnum, himinháum fiøllum o. s. frv. Þar er heilnæmt hreinvidri almennast; í dølunum er allmikit afl hita, í hlídunum tempradr hiti og á fiøllum uppi bitr kuldi, svo ei þarf langt at fara til at menn um sama bil finni ofurhita sumars, vermandi il vors og vetrarligan kuldá. Í allmørgum dølum í sýdri hluta landsins er Kretínar byggia er ysrit óheilnæmt loptslag; þá má kalla vanmetaskepnur á líkama og sálu Í landi þessu finnast margskonar málmar, þó

ei til vida, t. d. steinkol, alabastr, marmari, marinngler, kristall og málmdámadar keldr; ýmsar kerutegundir voxa þar, en ei til hlýtar, gnægd jardepla, vin, (best i Vadtlandi) og mikil gnótt ávaxta hvervetna. Þar er ágiætr náutpeníngr og saudfé, asnar og múlar i Tessins fylki, Gemsar og steingeitur i Mundiufiellum; Ernir eru þar miklir og medal þeirra hinn ógurligi lambagammr, er áslundum rædst á menn. Veidi er þar mikil i votnum og ám.

Qvikfiárrækt er hinn merkasta atvinna og ardsamasta stark landsmanna; á sumrum halda þeir nautpening sinum til haga á fiollum uppi eda hafa þar í seli, og giora nautamenn, er Senner kallast, osta af miólkinni, sem vída flytiast og eru i afhaldi.

Medal handidna Sveitza má einkanliga telia bómullar- og lin-vefnad, kniplinga- og pappirs-tilbúning. I Genefu og vida i Nýkastala-fylki er sigurverka-smidi mikit og nafnként. Sveitzar leggia alúd á kaupverslun vid adrar þiódir og vinna allmikin ard af varnings flutningi millum Þýdsklands, Sudr-Fraklands og Vallands. Merkustu kaupstadir i Helvetia eru: Basel, Bern, Skafhús, Zúrick, Sti. Gollen, Kúr og Genefa. Sveitzar selia nábylis þiódum sinum: hesta, ýmiskonar afrak fiárastans, osta, margskonar vefnad og sigurverk, o. s. frv. en kaupa: korn, salt, sudurlanda-ávexti, skreid, sád, grávoru, málma, klæd-varning, kryddvin, kaffe, sikr, kryddjurtir, etc.

Hinn kathólski kristindómr er løgtekinn i 9 folkum, nl. Lúcern, Sveitz, Uri, Untervalden, Zúg, Friborg, Sólóturni, Tessin, og

Wallis; hinn reformeradi í 6, ul. Basel, Skafhúsum, Bern, Zurick, Nýkastala, og Vadtlandi; en í Argár, Túrgár, Sti. Gallens-Appenzells, Glarus-Gráðbunds, og Genefu-fylkum er hvortveggia trú í løg leidd. Þar búa einnin allmargir lútherskir. At eins í Argár-fylki er Júdum landsvist leyfd.

Í Sveitzalandi er einn hióðskóli og háskóli, þióðskóla ígyldi, í Bern, ásamt ýmsum lærdómsskólum, medal hvorra hinn Pestalozziski kénsluskóli í Yferdún er hinn merkasti. Ýmsir nafnfrægir frædimenn og þjóðvitringar hafa verit í landi þessu.

Helvetia er sambands-ríki og eingum einvaldshøfdingia háð. Serhvørt fylki hefir eigit stiórnarform og er í hvoriu þeirra annattveggia lýdstiórn eda stórmennisstiórn í løg leidd og í sumum hvorutveggiu; en øll hafa þau svarist í fóstbrædralag at veria land og ódøl fyrir ófridi og ágángi annara þióða. Um allt þat sem vidkémr alþiódligum málefnum rádslaga og dæma tilkiørnir erindsrekar fylkianna á alþingi nokkru, er kallast Landdagr, og sem á ødru hveriu ári, til skiptis, er háð annathvørt í Bern Zurick eda Lúcern; skipar þá forsæti høfdingi sá, er Sveitzar kalla Landamman. Téd fylki kallast Forstadir (Vororte).

Herlid fríríkis þeisa er 33000 at tølu; sérhvor Sveitzari, sem er fullra 26 ára, er skyldr at fylgia merkium þess, þá til er qvaddr.

Innbúar Sveitzalands eru 1 millión, 750 þúsund at tølu. Allr þorri þióðarinnar mælir

20 mállíſkr þýðſkrar túngu; í veſtri hluta landſins er bøgulig franſka toluð og hit ſydra kúrvelſka og ítalienſka.

Þióð ſú er bygdi land þetta, og ſem elðſta fornſøgur géta, var af Germonnum komin. Hún var ærit ſnerrin og þróttmikil og ſvo hrauſt í orruſtum, at menn hafa talit þat ámedal Cæſars afreksverka, at hann bar hærri hluta í vidſkiptum þeirra. Frá ondverdu hafa innbúar lands þeſsa hatat einvaldsſtiórn, en elſkat frelſi ſitt og optſinnis varit þat med dæmafárri hreyſti og manndómi fyrir áráſum og ofriki voldugra nágranna, er þóttuſt eiga tilkall til rikis þeſsa. Sveitzar eru nafntogadir hreyſtimenn og hafa gengit á mála hiá útlendum høfdingum, einkum Frakkakonungum, og þiónat þeim med trú og dygd. Þetta ſidblendi þeirra vid adrar þiódir hefir at víſu ſpilt nægiuſemi og tilgérdarleyſi í háttum þiódarinnar; þó fær hún almennt ordstýr fyri rádvendni, friálsrædiselſku, fodrlands-rækt og marga adra arffeingna ágiæta mannkoſti.

# XV. Valland eda Rúminaland (Italien; Italia).

Svo kalla menn skaga nokkurn afar-mikinn; er gengr í landsudr, af Evrópu meginlandi í Midjardarhaf út og sem á þriá vegu er umflotit af því og tveim hafsbotnum, er gánga af því í nordr, nl. Feneyabotni at austanverdu og hinu toskanska hafi hit vestra; at nordanverdu skilia Mundiufjöll þat og Frakkland; Sveitzaland og Þýdskaland. Fyrir austan nyrdri hluta landsins er Austrríki, en Frakkland fyrir vestan. Valland er hérumbil 5600 ferh. míl. at stærd.

Fyrrgreindr fiallgardr gengr í bugdu úr vestri í austr á nordr-landamæri Vallands og er 180 mílur at lengd; er hann yfrit hár og þakinn snió vetr og sumar. Fyrir sunnan fioll þessi er slatlendi mikit bádumegin vid ána Pó. Af Mundiufjöllum gengr fiallgardr ei allhár mittlands sudr eptir landinu, er kallast Apenninafioll (Apenninerne). Í þeim eru vída hellrar, gygir og útbrunnin eldfjöll; fiallgardr þessi er 180 mílur at lengd. Valland er fagurt land og sorkunnar friósamt einkum í greud vid eldfiöllinn. Finna má þar einnin giædalítil landspláts t. d. í Savoya.

Mundiufioll eru ei greid. yfirferdar bædi fakir snióskrida, flóda, jøkulsprúnga og breitu. Þó þikir mørgum fysiligt ad kanna þær leidir. Napó-leon leiddi hér finn yfir þau (1800) og lét sídann leggia 4 þióðbrautir yfir þau med miklum kostnadi og mannbómi.

Utnes tvo skaga lengst í sudr, á Vallandi og er Spartivents-høfdi (Caps di Spartivents) á því vestra og Leuca-høfdi (Caps di Leuca) á hinu eystra.

Flestar eru ár á Vallandi ei vatnsmiklar, nema fliót þat er Pó, (Padus) heitir, þat fellr undan vestri hluta Mundiufialla, rennr í austr um Sardína-ríki og sudr-landamæri Lángbarda-ríkis og kémr í 4 ósum til siáfar út í Feneyabotn. Þar er 68 milr at lengd. Etsk (Etch eda Adige Athefis) kémr úr nordri frá Tyróla-landi, beygist í Lángbardalandi í landsudr og fellr skamt fyrir nordan Padus-ósa í tédan hafsbotn. Ain Arno (Arnus) fellr undan Apenninafiøllum í vestr um Florenz og Písa og rennr í hit Toskanska haf. Hún er 26 m. Sunnar á Vallandi fellr Tifur (Tiber; Tiberis) undan ádr greindum fiallgardi, í útfudr, igégnum Rómaborg og í hit toskanska haf vid Ostia. Þat er hit nafnkunnasta vatnsfall á þessu landi og 36 m. at lengd. Auk þessara eru allmargar minni ár og ómerkari.

Í Norðr-Vallandi eru 4 allmikil stöðuvötn, er liggia í röð hvert austr af öðru fyrir sunnan Mundiufiöll. Vestast er Miklavatn eða Lúkarnsvatn (Lago Maggiore; Lacus Verbanus); þat er 10 m. at lengd. Í því eru hinar borrómaisku eyar; þar eru nafntogaðar fyrir fegurð. Austar er vatnit: Kómo (Lago di Como; Lacus Larius), 7 m. at lengd; þá vatnit: Iseo (Lago d'Iseo; Lacus Sevinus) og austast Gardavatn, (Lago diGarda; LacusBenacus); þat er hit mesta stöðuvatn í þessu landi (14 f. m at stærð.) Í Mið-Vallandi eru 2 vötn, nl. Perúgia (Lacus Thrasimenus); og Bólsena-vatn (Lacus Vulsiniensis) bæði í Kyrkiuríki.

Bugtir eða flóar hversa víða inní land þetta; þeirra merkastir eru: hinn Genúesiski flói í norðr frá Korsíka; Tarents-flói er gengr úr landsuðri inn í landit sunnanverðt. Auk þessara eru þar nokkrir minni firðir t. d. við Neapel, Gaëta og Salerno, o. s. frv.

Menn skipta alment Vallandi í 3 hluti, er kallast: Efra- (Norðr-) Valland, Mið-Valland og Niðra- (eða Suðr)-Valland.

1. Efra Valland er greint í 4 ríki:

## A. Sardínar-Kongsríki (Sardinia; Kongeriget Sardinien).

Sá hluti ríkis þessa, sem á meginlandi er, (Kongen af Sardiniens Stater), liggr fyrir austr

av Fránkaríki, sunnan Sveitzaland og fyri vestan Lángbardaland og Parma, en fyrir sunnan þat er Midjardarhafit. Þat er 1270 ferh. m. at stærd.

Ríkit skiptist í 7 parta, nl. í 4 Hertugadæmi sem kénd eru vid Savoya, Piemont, Montferat og Genúa; í nokkurn hluta Mailands, greifadæmit Nizza og Sardínarey.

1. Í hertugadæminu Savoya, (Sabaudia) er liggr vestast og nordast í þessu ríki og er 180 ferh. m. at stærd, er Kambery (les Chambery; Camberium) skamt frá Fraklands landamæri; þar eru 12000 innb.

Í landi þessu eru vída skógar miklir, og snæþakinn háfiöll, medal hverra er jøkulfiall þat, er Montblank heitir; þat er fialla hæst í Nordrálfu heims. Þar er kornvextr lítill, en allgódir landkostir fyrir kvikfé. Innbúar landsins, sem eru 400,000 at tølu og kallast Savojardar, eru næriusamir idiumenn; en þá skortir opt ei at fá atvinnu heima, fara þeir því í hópum saman úr landi, (einkum til Fraklands) og med andvirduligu starfi og striti leita sér uppeldis og fiár. Þeir eru nafnkéndir at trúmennsku, frómlyndi og ørbyrgd.

2. Í hertugadæminu Piemont, (Pedemontium), er liggr fyrir austan Savoya og er 310 ferh. m. at stærd, er høfudborgin í ríki þessu, er Túrín (Augusta Taurinorum) heitir, vid Padus; þar er konúngs heimili med 89,000 innb., konúngsgardr, gautsk dómkyrkia, þiódskóli, allmikill tóbaks tilbúníngr og silkivefnadr.

2. Í landnordr þadan er Fridsæla (Vercelli; Vercellæ) lítill stadr. Skamt þadan bardist Maríus (Már) vid Jóta her og vog mikin sigr. Í nordr frá Túrin er Joforey, (Ivrea; Ivoreia) og í útnordr þadan Augústa (Aosta).

3. Í hertugadæminu Montferat (Mons ferratus) sem er 46 ferh. m. er Kasale (Casale) vid Padus og í austr frá Turin; þar eru 16000 innb.

4. Í þeim hluta Mailands sem liggr undir Sardínar konúng, er Alexandría (Alessandria della Paglia; Alexandria a palea) høfudstadr og hin sterkasta festíng í þessu ríki; þar eru 30,000 innb. Borg þessi var bygd á 12 øld og heitir eptir Alexander páfa hinum 3ia. Skamt þadan er Marengó, lítill býr; þar vann Napóleon mikinn sigr á Austrríkis-her 1800.

*Þessi landsparts er sorkunnar kriófsamr.*

5. Hertugadæmit Genúa liggr strandlengis fyri botni vidkénds flóa og er 100 ferh. m. at stærd. Þar er Genúa, høfudborg, er stendr í hallanda og á þriá vegu vid vík nokkra; borg þessi liggr einka vel og er harla skrautliga húsut, heitir hún því at auknefni la Superba (hin mikilláta); þar er þiódskóli, nafnfrægadr þiódsiódr (Bank), allmikill silki- og flujels-vefnadr ágiæt høfn, kaupskapr allmikill, (þó ei sem til forna) og 80,000 innb.

Forrum var Genúa fríland, er um lánga æfi var afar audugt og voldugt. Fyrir því réd' stórmennis-ráð og höfdíngi sá er Dóge hét, han sat ei lengr enn tvö ár í senn at völdum. Séck svo til sídstu aldamóta, þá Frakkar brutu landit undir sig.

Greifadæmit Nizza, (Comitatus Niciensis) liggr vestar á sömu strönd og vid Frakkalands landamæri; þat er 50 f. m. at stærd. Þar er Nizza (Nicæa) í útsudr frá Genúa; þar er kaupskapr allmikill, fríhöfn, (sem í Genúa) og 18,000 innb.

7. Sardínarey, í Midjardarhafi fyrir sunnan Korsika og í útnordr frá Sikiley. Sundit milli Sardínareyar og Korsiku er kénnt vid Bonifacius, en hét fyrr. Taphras, þat er 2 míl. at breidd. Sardínarey liggr í nordr og sudr og er allmikit eyland nl. 430 ferh. m. Fiallgardr liggr eptir eyunni midri og er hann vída þakinn snió mikinn hluta árs; þar eru og skógar miklir, vída mýrlendi og foradi og er þar óheilnæmt loptslag. Eyland þetta er greint í tvo helminga, er taka nöfn af tveim merkustu stödum á eyunni.

Á sudr-strönndinni vid fiord nokurn er Kagliari eda Kalari (Caralis); þat er höfudstadr á eyunni og jarls atsetr; þar er þiódskóli og 35000 innb. Vestanfram á eyunni nordanliga er Sassari (Sassaris) vid samnefndan fiord, þar er þiódskóli og 30000 innb.

Ey þessi hefir mörg dýrmæt giædi til at bera; en eyarmenn skortir manndóm og kunnáttu til at færa sér þau í nyt; med því þeir hverki hafa skip í törum né verksmidiur heima. Þeir eru annars allvel gáfadir og uppáfindíngasamir; en ofríkir adalsmenn og audigir klerkar þreyngia miög at kosti þeirra. Sardínareyíngar eru sagdir manna hefndargiarnastir, og at því líkir Korsíkumönnum.

J Sardínar-ríki er jafnan hlýtt, vedrátt, nema í fiallbygdunum. Sá hluti þess, sem á meginlandi liggr, er frestum löndum í Evrópa frióssamari og audugri at ýmsum giædum. Silkivefnadr er þar gódr, en adrir verkstadir litt fullkomnir. Þótt 4 þiódskólar og ýmsar adrar lærdóms stiptanir séu í ríki þessu, eru þó vísindi og lærdómr þar seinsfara til framgángs fyrir sakir hardra dóma um ritgiördir og kenníngar. Fyrir Sardínar-ríki rædr nú kóngr sá er Karl Felix heitir og er veldi hans á meginlandi takmarkalaust, en í Sardínarey takmarkat. Kóngsefnit kalla menn prinz af Piemont, medan hann er barnlaus; en eigi hann syni, kallast hann hertugi af Savoya. Kóngr hefir 70,000 vígra manna, en herskip miög fá. Innbúar ríkis þessa eru 3 mill. 974 þúsund at tölu.

## B. Lángbardaríki (det lombardisk-venetianske Kongerige).

Þat liggr millum Sardínar-ríkis og Feneyabotns; fyrir nordan þat er Sveitzaland og Austrríki, en fyri sunnan þat er Páfaríki austast, þá Módena og Parma vestast. Þat er 850 ferh.

at stærð. Ríki þessu skiptir hin Minzio, er rennr úr Gardavatni í Padus suðr, í 2 umdæmi (Gouvernementer).

1. Hit lombardiska umdæmi, vestar; þar er höfuðborgin Milansborg eða Mei-ansborg (Mailand; á ítal. Milano; Mediolanum) á flatum við ána Olona, og í landnorðr frá Túrin; þat er mikil borg og fögr, með 125.000 innb. þar er jarls (Vicekongens) atsetr, for:unnar veglig dómkyrkia, er telst meðal hinna mestu kyrkna í heimi, en er þó ei fullgør, og afarmikit lystispítalahús.

Í landsuðr þaðan er Lódi (Laudum) við Addá, (er rennr úr vatninu Kómó í Padus); þar eru 12000 innb. Í grend við Lódi tilbúa menn þá nafnkunnu Parmesan-osta. Í suðr frá Milansb. er Pavia (Ticinum) þar er þióðskóli og 24000 innb. Þat er víggirdt staðr og var fyrr. höfuðborg á Lángbardalandi. Í landnorðr frá Milansborg er Bergamó (Bergomum) með 20,000 innb. þar er nafnkunn kaupstefna á ári hverin, sem er kend við Bartholómæus, og varir hálfan mánuð. Vestar er Kómó (Comum) hiá vatkendu vatni sunnanverðu. Í austr frá Milansborg er Brezzia (Brixia) allmikil borg, með 34000 innb. þar eru merkar vopnasmidiur og kallast hún því at auknefni: L'Armata (hin vopnaða). Í austr frá Pavia er Kremóna (Cremona) við Padus; þar eru nafntogaðr hljóðfæra-

og girnisstreingja-tilbúníngr. Í austr þaðan er Mántúa, vid lón mikit af ánni Minzió; þat er hin sterkasta borg á Vallandi, med 23000 innb. Skamt þaðan liggr Píetóla, lítill býr; þar er þióðskáldit Virgilius borinn.

2. Hit venetianska- edr Feneya-Umdæmi, austar og við Feneyabotn nordvestanverdan; þar er Feneyar (Venedig; Venetia), í austr frá Mantúa, á 72 eyum og hólmum í vík nokkurri af Feneyabotni vestanverdum og í þeim svokölludu Lagúnum; þat er allmikill stadr med 120,000 innb. Þar er mikill kaupskapr, en þó miklu minni enn ádr, glersteypu-verk mikit og speiglasmidiur.

Í borg þessari eru 450 brýr yfir sund og manngiord síki, medal þeirra er brú sú, er Rialtó heitir; hún liggr á 12000 stólpum og á henni standa sölu búdir; þat er eitthvert hit fegursta stórvirki í heimi; yfir og um sundin fara menn allmennt á bátum, med þilfari í, er Gondólar kallast; þeir eru ólíkir ödrum bátum at lögun og allskrautligir. Í borginni er eitt torg mikit er Markúsplátz heitir og er þat einka nafnfrægt fyri fegurd; vid þat stendr Marcús-kyrkian, hún er forkunnar vegligt musteri, og hofgardr mikill, hvar Dógar fyrrum sátu; þar er einnin afarmikit hertýgja- og skipreidahús, umgirdt múrum og turnum; þat var fyrrum eitt

hvert hit audugasta í heimi, en er nú því nær tómt; við þat lá ferd. Búcentaurus, edr hit mikla og fagra skip, er Fenega-dógi, sitiandi á skrautbúnu hásæti med ráðherrum og stórmenni á bádar hlidar fór á uppstigningar-degi hverium á sæ út, varpada hring útbyrdis og lýsti trúlofun sinni med Fenegabotni.

Í vestr frá Fenegum er Padúa (Patavium) forn stadr vid á þá, er Brenta (Brentia) heitir; þar er íturligt rádhús, þiódskóli, lystisvilahús skrautligt og 32000 innb. (þar er Livíus fæddr). Skamt þadan er Este, lítill stadr, er vidfrægr ættleggr er vidkéndr. Í útnordr þadan vid téda á er Vicenza (Vicentia) med 25000 innb. Vestar er Veróna, fyrr. Bern, (sem kunn er af fornsögum), vid ána Etsch bádumegin; þar eru eptirstödvar af skodunarvöldst frá Rómveria-tídum og fleiri fornleifar, og med því at marmara-námur miklar eru í grend vid borgina, eru þar flest hús af marmara giorr. Þar eru 42000 innb.

Innbúar ríkis þessa eru 4 mill. 117 þús. at tölu. Lángbardaland, sem nú er frásagt, giordist konúngsríki og eign Austrríkiskeisara 1815, og hefir hann þar settann jarl (Vicekonge) og fengit honum Lángbardaríki til yfirstiórnar og umráda.

C. Hertugadæmit Parma (Ducatus Parmesensis); þat er 106 ferh. m. at stærd og liggr í milli Sardiníarríkis og vestri hluta Lángbardaríkis at nordan; fyri vestan og sunnan

þat er sá hluti Apenninafjallgarðs, er Norðmenn kölluðu Munbarð (Mons Bardonis); en fyrir austan þat er Módena. Þar er Parma höfuðborg og atseturstaðr hertuginnu, með 29000 innb.; þar er fagr hofgarðr, nafntogat lystileikahús, (einhvert hit mesta í Evrópa), þióðskóli og víðfrægt prentverk.

Í útnorðr þaðan er Placenza fyrr. Placenza, þat er allfagr borg. Gvastalla er lítill býr, í landnorðr frá Parma.

Árit 1814 fékk María Lovísa, meginekkia Napóleons keisara, land þetta til eignar og umráða og skal sonr hennar (Napóleon Frantz Jóseph Karl) taka þat at erfðum at henni látinni. Innbúar þess eru 376 þús. at tölu, er öllu fremr leggia stund á silkivefnad.

D. Hertugadæmit Módena (Ducatus Mutinensis) liggr fyrir austan sídstralit hertugadæmi og fyri sunnan Lángbardaríki.

Þat er 81 f. m. at stærð. Þar er Módena (Mutina) höfuðstaðr og hertugasetr; þar er þióðskóli og 20.000 innb. Norðar er Rekzió, (Reggio), Ariosts fæðíngarstaðr og skamt þaðan fiallslot þat er Canossa, heitir.

Fyri þessu ríki ræðr Erkihertugi frá Austrríki, er Frantz Jóseph Karl heitir, og er veldi hans ótakmarkat. Innbúar þess eru 332000 at tölu.

2. Mið-Valland (Mellem-Italien). Þat er greint í 5 ríki, nl. A. Hertugadæmit Lúkka

(Lucca) hit vestra vid sæ og fyri sunnan Módena. Þat er 20 f. m. at stærd. Í því er Lukkuborg edr Lúkka (Luca) høfudstadr og hertuginnu heimili; þar er þjódstóli og 18000 innb. Sídan 1815 hefir rádit fyri ríki þessu, med takmørkudu veldi, María Lovísa Infantinna af Spáni; landslýdrinn er 138000 at tølu.

B. Hertugadæmit Massa-Karrara er 15 f. m. at stærd og liggr vid Midjardarhafit. Þar er Massa høfudstadr med 10,000 innb. og Karrara; hin besta marmara-náma í nordrálfu heims. Fyri þessu ríki rædr hertuginna, María Beatrix at nafni. Innbúar þess eru 38000 at tølu.

C. Stórhertugadæmit Toskana, (Hetruria s. Tuscia); þat er 410 f. m. at stærd og liggr hit vestra á Vallandi, vid Midjardarhafit; fyrir austan og sunnan þat er Páfaríki, en Parma, Módena og Lúkka fyrir nordan. Þar er Flórenz, (Florentia, á vall. Fiorenza) vid Arnó og í vidkéndum landsparti, er hvergi nær til sjáfar; þat er høfudborg í þessu ríki (Vallendíngar kalla hana: La Bella ɔ: hina føgru) og heimili stórhertugans; þar eru múrveggir umhverfis borgina, harla veglig høfudkyrkia, hofgardr mikill (Palazzo de Pitti), þjódskóli, nafntogat safn ágiætra málverka, bílætis-stytta og ýmiskonar hnossasmída, vodvirki og verkstadir gódir — og 75000 innb. Í vestr þadan er Pisa (Pisæ) skamt frá Arnó ár mynni;

þar' er gautsk dómkyrkia mikil og við hana nafnkéndr turn, er frá ondverðn hefir hallr stadit, þióðskóli, vatnsleiding mikil, (hit mesta forvirki) og 20000 innb. Í útsudr þadan og við Miðjarðarhafit er Livornó (Labro; er Enskir kalla Leghorn); þat er hinn mesti kaupstadr á Vallandi, með 50000 innb. Þar er fríhøfn og ógrynni levantiskd varnings sam-ankomit. Í sudr frá Flórenz er Siena (Sena Iulia); þar er veglig dómkyrkia, þióðskóli og 24000 innbúa, er menn segia fegurst mæli vallendska túng.

Piombínó er høfuðstadr í samnefndu furstadæmi, er síðan 1815 hefir legit undir Toskanaríki.

Þar 6 liggia frámundan strønd ríkis þessa, er heira því til. Þeirra mest er Elba (Ilva), 7 ferh. m. at stærð og með 12000 innb. Þar er lá stadr er Portó ferrajó (Járnhøfn) heitir, og stendr á biargi. Þar dvaldi Napóleon keisari frá 1814 til 1815. Á Elba eru járn-námur miklar.

Fyri ríki þessu rædr nú Ferdinand hinn 3, er giørdist stórhertugi með fullu valdi 1814; hann er af ætt Austrríkis-keisara.

D. Páfaríki (Kirkestaten; Stato della Chiesa); þat liggr í Vallandi midiu og marka því hof takmørk hit eystra og vestra; at

austanverdu nær þat nordr at Pó edr Feneya-riki, en hit vestra til Toskana, fyrir sunnan þat er Neapelsríki. Páfaveldi er 816 ferh. m. at stærd.

Páfaríki greinist, auk Rómaborgarhérads, í 17 fylki (Delegationer). A vestr strøndinni er hin nafnfræga Rómaborg, (Rom; Roma); þat er høfudstadr í þessu ríki og Páfa-stóll; og var høfudborg í hinu vidlenda Rómverja-ríki; hún stendr á 12 hædum, og skiptir Tifur henni í tvo parta. Þar eru 134,000 innbúar (41° 53′ 54″ nordl. br.).

Svo margir merkir og skodunarverdir hlutir eru í borg þessari at varla má telu á koma. Þar eru allmargar háreistar og skrautligar byggíngar; medal þeirra eru 343 kyrkiur og eru í þeim øllum ný og forn smídarverk; af þeim ber Sti. Petursk yrkia, hún er hit frídasta hús og mesta og vegligasta musteri í heimi; hún er 333 álnir at lengd og 142 at breidd, og er hit ytra og innra lagd marmara; í henni eru 29 ølturu og yfrit margir hvøfsgripir; smídi hennar stód yfir í 100 ár. Næst henni gengr Jóhannes edr Lateran kyrkian at vandadri smíd og vegligleik; þar krýnast og hlýda Páfar messu. Vatikanit er afar mikill hofgardr og atsetr Páfans, í þvi eru 22 gardsplats og 11000 stofur. Nokkurn hluta þess kalla menn Konklave, í þvi eru margir smákarmar og er ein hurd fyrir øllum, þar kiósa Kardínalar

Páfa. Pantheon, þat var ford. Godahof mikit, er Agrippa lét giora; en nú er þat kyrkia, er Rótonda (hin kringlóttu) heitir og er hún gluggalaus, en á riáfrinu er op, og kémr þadan birtan; þar eru legstadir og minnisvardar hinna mestu snildarmanna. Engilsborg (fyrr. Moles Hadriani) er kastali mikill med sterkum múrvegglum, þar er dýblissa. Cólósseum edr Trajans skodunarpláts er nafnkénnt stórhýsi, er Titus keisari lét giora; í því géta 80,000 manns rúmast. Trajans-stytta, hún er 135 fóta at hæd og eru hit innra úthøggnar ýmsar mindir, er jarteikna afreksverk téds keisara; at innanverdu má uppgánga til toppsins. Titusar og Constantinusar sigurhrósbogar edr heidursport eru fágiæt mannaverk. Medal allmargra hofgarda eru þar 10 merkastir, og er hver þeirra ødrum fegri. Þar er þiódskóli og ofurgrdi hnoss-smida og konstverka. Medal lystisemda Rómveria má telia Karnevalit, eda gledileika er vara í 8 daga fyri føstu og hesta-vedhlaup í afarlaungu stræti, er Korso heitir; þat er 2700 skref at lengd. Í og nálægt borginni eru jardhús mikil (Katakomber).

Umhverfis borgina eru skrautligir lystigardar (Villæ) og í sudr frá Rómaborg er forædi mikit, er kallast hinir pontisku flóar, 10 ferh. m. at; vid áttu. Pius 6 leitadist vid at veita þadan vatni, en féck ei atgiørt; þeir olla óheilnæmis.

Í útnordr frá Rómaborg er Civita-Vetzia (Civitas vetus) vid sæ; þar eru varnarvirki, herskipastød og 18000 innb. Austar er Viterbó (Viterbium) med 10000 innb.

Skamt þaðan, við Montesiaskons, ver vín þat, er kallast Est Est. Est. Í norðr frá Rómab. er Perúgia (Perusia) þar er þiódskóli og 16000 innb.

Syðst á austrstrønd ríkis þessa er Fermo, þar er þiódskóli og annar í Macerata, ei alllángt þaðan. Norðar er Lóretto; þar er dómkyrkia og í henni hin nafntogaði helgi kofi (Casa sancta), er páviskir trúmenn segia at verit hafi íbúdar-hús Maríu krists-móðir í Nazaret og hafi englar þat (1295) þángat flutt. Síðan hefir fiøldi pálmara þángat sókt.

Norðar á tédri strønd er Ankóna (Ancona), þar er stíhøfn, allmikil sigling og 17000 innb. Í útnorðr þaðan er Forlí (Forum Livii); þar er þiódskóli og 13000 innb. Norðar er Ravenna, forn borg og fræg; þat var á ofanverðum tíðum hins vestlæga rómveria-ríkis keisara-heimili; þar eru 10000 innb. Í vestr þaðan er Bólóna (Bologna; Bononia) í forkunnar frióssømu héraði og kallast hún því La grassa (hin feita) at auknafni; þat er annar staðr mestr í Páfaveldi; þar er hins helga Petróni kyrkia, 2 turnar háir og hallast báðir, þiódskóli, einka nafntogaðr á miðaldri ásamt ýmisum stiptunum til vísinda og íþrótta-eflíngar margskonar forngripir og gømul handrit, hin svokølluðu Maríusar bøð og 64000 innb. Í landnorðr þaðan er Ferrara.

(Ferraria) fyrir sunnan Pó og nordast í ríki þessu; þat var fyrr. høfudstadr í vidkéndu hertugadæmi og er hann mikill og fagr, þar er þiódskóli og kastali, Onnu-spitali, (þar lá þiódskáldit Tasso í 7 ár) — og 27000 innb.

Í landsudr frá Rómab. er Benevento (Beneventum) innan Neapelsríkis takmarka, med 14000 innb. þenna stad ásamt samnefndu furstadæmi hafa Páfar því nær hvervetna átt sídan á 12 øld. Sunnar er lítill stadr og landeign, er Pontekorvo heitir.

Fríríkit Sti. Marino liggr innan Páfaríkis takmarka og í milli Forli og Ankóna. Jardeign ríkis þessa er at eins landhnesi nl. fell eitt ásamt 2 bændaþorpum þar í grend vid og er $1\frac{1}{2}$ f. m. at stærd. Á tédu felli stendr Sti. Marino; (F. St. Marini) med 6000 innb má þar at eins einumegin atkomast.

Þetta litla ríki hefir stadit í 1300 ár og er Páfinn þess verndarherra; fyrir landsstiórninni stendr rád nokkurt og er oddvit þess høfdíngi sá, er Gonfalonieri (ɔ: merkisherra) heitir, situr hann at eins hálft missiri at vøldum í senn, auk þess er þar øldúngarád. Fólkstalan í ríki þessu er 7000.

Hvat landsstiórnina áhrærir í Páfaríki, þá er þat einvaldsdæmi, ótakmarkat at veldi og rædr nú fyrir því Leó Páfi hinn 12ti. Páfar kalla sig eptirmenn hins heil. Péturs og jarla Krists á jardríki. Páfans titill er: Hans heilagleiki og heilagi fadir; en í brefum sínum kallar hann sig: servus servorum dei. Kardínalar, sem eru 70 at tølu og greinist í 3 flokka (nl.: Kardínalbiskupa, Kardínalpresta og Kardínaldiákna), kiósa páfa í Konklave.

Kóróna páfans er þrefold eda þrígildt, og skaldarmerki hans er lyklar 2, lagdir í kross, er jarteikna makt hans til at leysa og binda. Hird hans er harla skrautlig og veglát. Þeir sem gánga fyri páfa og beidast áheyrslu, falla á kné og kyssa skó hans.

3. Nedra eda Sudr-Valland er fyrr. kalladist Stóra-Grikkland greinist, ásamt eyunum, er þar til liggia, í 3 hluti, er allir ásamt kallast Konúngsríkit bádar Sikileyar. Þat er 2024 ferh. m. at stærd, og er á 3 vegu umflotit af Midjardarhafi og Feneyabotni, en at nordanverdu er Páfaveldi. Ríki þetta skiptist í 2 konúngsríki; er annat á meginlandi edr á Nedra-Vallandi og er kénnt vid Neapel en annat er eyland allmikit, er Sikiley heitir; vóru þau samanskeytt 1817. Þar er jardeldr og vötn vellandi sem á Íslandi.

## A. Konúngsríkit Neapel.

Þat er 1434 f. m. og skiptist í 15 landsálfr. Þar er Neapel (ford. Parthenope, seinna Neapolis á velsku Napoli, Fidelissima at auknafni) í landsudr frá Róm vid fiardarbotn og undir fiöllum; þat er konúngs atsetr og höfudborg í þesu ríki, hún er hérumbil 3 míl. ummáls og eru í henni stræti lengri enn í flestum ödrum borgum.

Þar er fríðr kóngsgarðr, ástfastr við skipreiðahús og nýan kastala, gamli dómkyrkia, (í henni varðveitist hins heil. Jannúaríusar (árnaðarmanns borgarbúa) storknaða blóð, er einusinni á ári hveriu er borit í processíón um borgina), sjónarspilahús mikit, þióðskóli og kastali, er Sti. Elmo heitir. Þar er einnin þióðsióðr mikill, trygg höfn og allmikill kaupskapr. Í borg þessari eru 33,000 innbúar, medal þeirra er þorparalýðr sá, er Lazarónar heita, 40,000 at tolu; þeir eyða lífsstundum sínum í leti og ómennsku, baða sig agndofa á strætum borgarinnar um daga, og liggia í húsadyrum og undir auðum himni um nætr. Skamt þaðan í landnorðr er **Kaserta**, þar er hit fegursta slot á Vallandi.

Í grend við borg þessa eru ýmsir merkir og undarligir hlutir, t. d. **Hellirinn** í fiallinu Pósilippo; þat er manngiorðar dýr á teðu stalli, 1090 skref at lengd og liggr þar þióðvegr ígégnum og lýsa þar lampar vegfarendum nætr sem daga. **Agnanó-vatn**, þat er með þeim hætti, at þat vellir opt, en er þó kalt. Á vatnsbakkanum er svitabaðit við **Sti. Germano**; þar svitna menn harla miog og fliótt. **Hundahellirinn**; ½ alin upp af gólfi hans stígr volg og bannvæn gufa. **Sólfatara** (Terra solforata), þat er dalr nokkr, fullr brennusteins hvera; þar er jarðvegr hvervetna volgr og víða heitr og rýkr ákafliga. Hit nafnkénda eldfiall **Vesúvius**, 3680 fóta at hæð; þat stendr einstakt, 2 míl. í austr frá Nea-

pel. Það hefir gosit 30 sinnum, en aldrei svo ógurlega, sem á dögum Títusar (eðr 79 eptir Krists burð þann 24 Aug.), þar þat þá svo mikla ösku og vikr upp at 3 merkir staðir (Herkúlanum, Pompeii og Stabiæ) grófust í ösku svo mikilli, at ei var unnt at finna þá; laungu síðar tóku menn at byggia þar þorp og þat medal hvörra var Portici, þat er skrautligr kóngsgarðr og fágiætr geymslustaðr þeirra hluta og forngripa, er menn síðan 1711, þá grøfturinn hófst, fundit hafa í iörðu þar sem téðir staðir stóðu, 8 og 9 álnir niðr; hafa menn fundit þar ógrynni allskonar verkfæra og fornaldarmenia, (er lýsa atbúnaði og háttum hinna fornu Rómvrría), og 1500 rollubækur.

Í norðr frá Neapel er Kapúa eda Kapú, (Capua) með 8000 innb. Skamt þaðan stóð hin forna og fræga Kapúa. Í vestr þaðan er Gaëta (Cajeta) á nesi við Miðjarðarhafit; þat er víggirdtr staðr með 15000 innb.

Ei allángt frá Kapú er Montakassín, (Monte Casino) na'ntogat ábótadæmi á samnefndu fialli; þar er múnkalífi rikt, er Benedict af Núrcía stiptaði 529.

Í landsuðr frá Neapel er Sálerniborg (Salerno; Salernum) þar er þiòðskóli og 9200 innb. þar vóru læknar bestir á miðöldum. Þar andaðist Gregóríus hinn 7ði 1085.

Í Amalfi er kompásinn uppfundinn og Masaníelló fæddr. Í austr frá Salerni er Pótenza og í suðr þaðan Kósenza og þá Katanzaró og Pizzó vestar, þar var Jóachim kóngr 1ti skotinn 1815. Í útsuðr það-

an er Rekzió (Reggio, Rhegium) við Sikileyarsund og gegnvart Mesśina; þar eru 16500 innbúar.

A austr-norðrinni eðr á Púli er Foggia (Fovea) í austr frá Neapel, með 17000 innb. Sú borg hrundi í grunn af jarðskiálfta 1732. Austar og við Feneyabotn er Manfredónia. Nokkra leið þaðan var Sepont, undir Michaëls-fialli, eða Gargans-fialli, merk borg í fornöld. Lengra suðr á sömu strönd er Bar (Bari; Barium) á nesi nokkru, með 18000 innb. og Barla (Barletta). Í landsuðr þaðan er Brundeis (Brindisi; Brundusium) við sæ. Lengra suðr er Lekze (Lecce; Aletium) Þat er annar staðr mestr í þessu kóngsríki og einhver hin fríðasta borg á Vallandi; þar eru 20,000 innb. Í vestr frá Brundeis er Tarentuborg eða Tarent (Taranto; Tarentum) hiá viðkéndri bugt; þar eru 18500 innb.

Eylönd og eyaklasar, er liggia undir ríki þetta, eru: Kaprí (Capreæ) í útsuðr frá Neapel og skamt undan landi; þar eru tvö fiöll og forkunnar indæll dalr í milli; þar lifði Tiberíus keisari um hríð í ólifnaði og munaðarlífi. Norðar er Iskia, þar er samnefndr staðr. Prózída, Púrgatóré og Nisída. Norð ar eru hinar pontisku eyar; þeirra mest er Ponza. Í Feneyabotni eru þær tremitisku eyar; Tremiti er þeirra stærst.

## B. Konúngsríkit Sikiley (Sicilien).

Eyland þetta er 576 ferh. m. en ásamt eyum þeim, er liggia þar til, 590 ferh. m. at

stærd. Sikiley er ápeck þríhyrníngi at lögun og kölludu fornmenn hana Trinacria; snúa hornin eda útnesinn í vestr (Capo di Lilibeo), landsudr (Capo di Passaro) og landnordr (Capo di Peloro). Sund þat, er skilr Sikiley og Walland er ei full míla at breidd, og kallast Sikileyarsund edr Messínarsund (Faro di Messina). Sikiley er allra eya mest, fríóssomust og fjölmennust í Midjardarhafi.

Um sund þetta þótti farmönnum í fornöld skipaleidin ill og hætteulig fyrir sakir brymsúgs og slugstreymis vid biarg þat á Wallandsströnd er Scylla hét (nú Sciglio) og rastar eda hafsvelgs í sundinu vestanverdu, skamt tyrir sunnan Messínu, er menn kölludu Charybdis, en nú heitir (Calafaro). Nú fara skip þar um liggiandi og í lódeydu og þykir engum þat glæfraferd.

Sikiley skiptu menn til 1810 í 7 hluti sem kénd eru vid dali, nl. Val di Mazzara vestast, Val di Demona nordaustast og Val di Noto eda landsudr hornit; en nú er eyan greind í 7 minni landsálfr, sem kendar eru vid jafnmarga stadi er nú skal nefna:

Palermó (Panormus) vestarliga á nordrströnd eyarinnar; þat er höfudborg og jarlsheimili, med 140,000 innb.; þar er hofgardr mikill, dómkyrkia, verslun mikil og þiódskóli.

Vestar er Trapani (Drepanum) vid sæ; þar eru vatnarvirki og 16000 innb. Á sudrströndinni er Girgenti (Agrigentum) med 12000 innb. Þadan flytst mikit korn. Þessir stadir liggia í Mazzara-dal.

Í austr frá Palermó er Messina, at auknafni fidelissima, (Messana, Zancle) vid ádr umgétit sund. Hún gengr Palermó næst at stærd, fiölmenni og kaupskap; þar eru varnarvirki, fríhøfn, silkivefnadr, mikil kornsala og 70,000 innb. 1783 hrundi borg þessi í jardskiálfta. Sunnar á austrstrøndinni er Katanía (Catana) undir Etnufialli og vid sæ; þar eru varnarvirki, hiódskóli og 60,000 innb; þridiungr þeirra vinnr og vefr silki.

Etna (AEtna) stendr einstøk og er nafntogat eldfiall og hveriu fialli hærri á Vallandi og Sikiley (nl. 10280 fóta frá siáfarbæd) og er nærhæfis 100 000 skref ummáls at nedanverdu; undirbrekkr hennar eru fagrar og frióssamar; þar er klaustr. Þá tekr øsku-belti vid umhverfis og þá skogr og efst jøkull, er þar gígrinn í litlu skardi millum tveggia gnýpa, og rýkr þvínær hvervetna. Hún hefir gosit 34 sinnum, er søgr géta, en aldrei ollat svomikils jardusla og tións á mønnum og stødum, sem 1693; þá fórust 90,000 manna, 15 þorp, 972 kyrkiur og klaustr er bædi skødduðust, féllu í grunn og sukku, ásamt miklum hluta Katanín. Etna spió sídst 1819.

Í sudr frá Katanín er Syrakúsa (Siragosa, Syracusæ) á ey litilli, er Ortygia heitir; þat var í fornøld afarmikil, audug og og fiølmenn høfudborg eyar þessarar; votta þat enn ýmsar eptirstødvar t. d. skodunarpláts, hof, jardhús mikil og hit svokallada Dionysíí eyra; þat er hellir sem eyra at løgun, úthøggvinn í klett, í steinbroti miklu, er Latomiæ hét, skamt

frá stadnum; þar er sigling mikil og kaupskapr og 13000 innb. Þadan flytst Syrakúsu-vinit, þat er hit hnossgiætasta vin í Sikiley.

At visu er ey þessi landa friófsomust og margskonar ágiætum landskostum búin; en þó má allan þorra eyarmanna fremr orbyrgan enn audugan kalla, ber þat til þess, at þar er stórmenni margt og rikr kénnidómr, og þreyngia hvertveggiu at kostl alþýdunnar. Þar skortir einnin verkstadi og smidiur til at hagnýta þat, er menn finna í jörd og á og má þat segia, at ei kunna eyarmenn adra handidn enn silkispuna.

Sikileyarmenn eru brádlyndir mieg og hefndargiarnir. Á ey þessari eru vegir óhreinir og stigamenn margir, einkum í grend vid Etnu; er svo sagt at fremr komi þar leidarbréf hefdinga þeirra ferdamonnum at haldi, enn þeirra, er kóngr hefir setta til varnar og verndar.

Eyar nokkrar liggia fyrir nordan eystri hluta Sikileyar er: 1. hinar Liparisku eyar kallast, þær er 11 at tölu; þeirra mest er Lipari, 5 ferh. m. at stærd; þar er samnefndr stadr og 15000 innb. Sunnar er Búlcano, en Strombóli nordar. Á eyum þessum eru eldfioll mörg. Í fornöld kölludu Nordmenn þær Brenneyar. Fyrir vestan Sikiley eru þær Ægidisku eyar og í sudr frá þeim Pantalaria, midsvegar milli Sikileyar og Afríkustranda. Í landsudr frá Pantalaria er Lampadúsa, hún er óbygd, þar ei þykir kristnum tryggt at búa svo nærri illþýdi tédra stranda.

Í suðr frá Sikiley liggia hinar **Maltes-isku** eyar; þar eru 3 at tölu og allar ásamt 8 ferh. m. at stærð. Þeirra mest er **Malta** (Melite) hún er 6 ferh. m. at stærð og hin fiölbygðasta ey í heimi. Þar er **La Valetta** höfuðborg, er stendr á eyunni austanverdri; þar var um lánga-æfi atsetr stórmeistara hinna malt-esisku riddara. Borg þessi er einhver hinn sterkasti kastali í heimi; þar er friðöfn og forða-búr mikil, full levantisks varnings — og 32000 innbúar.

Á eyunni midri er **Citta vecchia**; þat var forr. höfuðstadr. **Gozó** (2 f. m.) og **Cominó** eru smá-eyar 2 fyrir vestan Malta.

Ekkert land í heimi flýtr svo af mönnum sem Malta; þar eru 90,000 en á öllum ey-unum 112000 innb. Í öndverdu var Malta því nær hvervetna klettar og klappir einar og miög snaudt land; fluttu menn þángat mold frá Sikiley og komu yfir klettana, svo nú er þar jardvegr hvervetna hinn friófsamasti. Þar vex ofurgnægd bómullar og ávaxta, en ei korn til hlýtar. Þar er hiti mikill, er sævind-ar kiæla nokkut, en aldrei vetr. Á eyunni er at eins einn svalabrunnr. Bændr mæla þar af-bakada Arabisku, en borgarmenn valska túngu. Riddarar þeir, er Jóhannitar vóru kalladir, fengu eyu þessa at léni af Karli hinum 5ta 1530 og héldu þeir henni unz Bónaparti á herför sinni til Egyptalands vann hana 1789; 2 ár-

um seinna tóku Enskir eyuna frá Frökkum og giörduſt 1814 logligir eignarmenn hennar.

Hinar samelnudu Jónisku eyar.

Svo kalla menn 7 eyar allmiklar, er liggia í hinu jóniska hafi edr med veſtrſtrønd Grikklands frá Ægisnefi sudr á bi vid Trípólizzuborg. Þær eru ásamt ødrum minni eyum, 44 ferh. m. at ſtærd. Nordust er ey sú, er Korfú (Corcyra) heitir (10 f. m. med 70,000 innb.); þar er samnefndr høfudstadr med 15000 innb. Þar er atsetr ſtiórnarrádsins og hin beſta høfn í Midjardarhafi. Sunnar er Paxo; þá Santa Maura (Leucadia); þá Theaki (Ithaka); þá Cefalónía (Cephallenia), hún er þeirra vidlenduſt (16 f. m. med 60,000 innb.); þá Zante (Zacynthus) þar er samnefndr høfudstadr, og Cerigó (Cythera) ſydſt.

Allar eru eyar þeſsar eitt ſtiríki og þóſt þat 1800. Englakonúngr hefir ſkotit ſkióli yfir þat og sett þar lid til landvarnar.

Loptslag á Vallandi er þvínær hvervetna einka blídt og heilnæmt; ſkammr er þar vetr og harla mildr og sniór í ſydri hluta þeſs mióg fialdsén: en þar blæs varmr og banvænn vindr frá Afriku eydimørkum, er Sirokkó heitir og varir hann jafnadarliga 14 til 20 daga í senn.

Øll eru náttúruríki einka audug í landi þeſsu; þar finnſt gull nokkut og silfr, eyr,

járn, (einkum á Elba) blý, qvikasilfr, marmari (sérílagi í Karrara), alabastr, mikil gnægð salts o. s. frv. — Margskonar sádtegundir vaxa þar vel og vínviðr, (er sérílagi ber sætt vín t. d. Monte Pulciano og Lacrymæ Christi o:. Krists tár), góðir triá-ávextir, bómolia, safran, tóbak, bómull (best á Malta) hampr og hør (einkum hit nyrðra) og allmiklir skógar. — Nautpeningr er þar bæði af svitzisku og úngarisku kyni, villi-uxar, asnar, múlar, fjoldi svína, birnir, ulfar, gemsar, murmeldýr, ágiæt fiskiveiði (einkum Túnfiskr) silkiafli mikill (sérílagi í grend við Neapel) og bíflugnarækt. Á Malta er hunáng kest.

Öllum handiðnum og smíðum fremr liggia Vallands innbyggiarar stund á silkivefnad, þar næst á ullarvefnad (einkum í Piemont). Í Savoyalandi giora menn kniplinga, í Genúa pappír, í Toskana stráhatta. Í Feneyum eru speigla- og glerísmidiur miklar, og járnsmidi best í Brescia.

Innbyrdis eiga ríkin í landi þessu mikil kaup saman; en við önnur lönd er kaupskapr Valskrauppá adra kominn, med þeir hafast lítt við í kaupferdum. Þaðan flytst: vín, ávextir parmesanostar, hliódfæraströngir, flöjel, silki, marmari, speiglar o. s. frv. Þángat flytst: nýlenda-, og levantiskr varningr, krydd, ýmsir málmar, síld, skreið o. s. frv. Merkustu kaupstadir á Vallandi eru: Túrín Melansborg, Feneyar, Genúa, Livornó, Ankóna, Messina og Palermó.

Þótt svokalladir þiódskólar (Universiteter) séu 22 at tølu á Vallandi, má fyri því ei tilgéta, at Valskir séu at því skapi ødrum þiódum fremri at vísindum og lærdómi, því bædi er þat, at litt lærdir múnkar eru þar settir læriſedr og þar skortir þat frelſi, er hvetr og vekr lærdóms idnir. Í hinum føgru mentum og snilliſiþróttum t. d. málaralist, steinskurdi hliódfæraslætti, saunglist og skáldskap, hafa Vallendingar náð þeim þroska og atgiørſi, at þeir munu um lánga æfi verda ødrum þiódum fagurt dæmi til eptirbreytnis.

Í giørvøllu Vallandi og á eyunum, er þartil liggia, er hinn rómversk-kathólski kristindómr í løg leiddr og haldinn, sem Páfa løg áqveda. Klerkar og kénnimenn eru þar 500,000 at tølu og helgisetr eda múnka- og nunnu klaustr afar mørg.

Vallands innbúar eru 19 mill. 170,000 at tølu. Medal þeirra eru, 60 000 Albanesar (Arnauter), er búa í syðri hluta Vallands eda á Púli.

Innbúar ríkis þeirra á Vallandi eda Rúmínalandi, sem nú er frásagt, eru af ýmsum og fiølbreyttum þiódum komnir, t. d. af Rómverium, Frænkismønnum, Gautum, Lángbørdum, Nordmønnum, Arabíumønnum, Þýdverskum, o. s. frv., er á ýmsum øldum hafa bólfestu tekit í þessu inndæla landi. Allr þorri þeirra mælir (þó vída sé mismunr á mállýdskunni) valska túngu eda italienska; hún er talin túngumála hliódfegurst og einka vel løgud til skáldskapar og saungva; en vidlíka er hún nú ólík dóttir módur

ſinni, látínunni, ſem Vallendíngar eru ólíkir for-feðrum ſínum, hinum fornu Rómverium. Hit eyſtra i nyrðri hluta landſins er forn þ y d ſk mál-lyðſka talud og hit veſtra f r a n ſk a. Á ýmſum ſtöðum á Suðr-Vallandi mæla menn n ý g r i ſk u og á Malta afbakada A r a b i ſk u. Þióð þeſsi er almennaſt fríð ſýnum og vel varin, midlúngi há vexti og ſnotr á fæti, iorp á hár og ei allhör-undsbiört, ſvarteygd og ſnareygd. Vallendingar eru ſliótlyndir og ſkrugir, þó alvarligir og ſiun-ugir, góðhiartadir og þiónuſtufúsir og einkagéſt-riſnir; þeſsa mannkoſti rírir ſliótleiki þeirra til bræði og grimra hefnda, ef á hluta þeirra er giört, medfædt þióddramb og þrúngliſk og lyſt til glad-værdar og lyſtiſemda, einkum hiá hinum litt ment-ada hluta þióðarinnar; en þat er allr þorri henn-ar. Þat hafa menn fyri ſatt, at hvergi i Evrópa ſéu launvíg og manndráp ſvo tíd né ræningiar og ſtigamenn ſvo margir, ſem þar; ollir því at mikln leyti laklig ſtiórnſemi og þróttlitlir atburdir þeirra, er til valda eru ſettir, til at ſtraffa óbóta-verk og færka óaldar flokkum, er vída giöra vegina ótrygga í landi þeſsu. Medal lyſtiſemda Val-lendínga má ſérílagi telia ýmiskonar leikſpil, lyſtigaungr, ſaung, hlódfæraſlátt; og lyſtiſemd þá, er Karneval kallaſt, er þá mikit ſkraut og ſkemtun vidhöfd og bera allir grímr fyrir andr litum, ſvo tignir menn ſem ótignir, bædi nætur og daga.

# XVI. Kóngsríkit Ungaraland (de ungerske Stater; Hungaria) og Kóngsríkit Galizíuland (Galizien).

Ungararíki liggr fyrir austan Austrríki, fyri nordan og vestan Tyrkiaveldi og fyrir sunnan Gallizíuland og Skilia þar Karpatafiøll lønd þessi; þat er hérumbil 6200 ferh. m. at stærd og landslýdrinn þar er yfir 10 mill. at tølu.

Dunn rennr í austr inní land þetta vid Presborg, en beygist í sudr fyri nordan Ofen og Pest og rennr svo í landsudr uns hún fellr inní Tyrkland. Tvær ár koma samsída úr vestri frá Austrríki og falla í Dunn; heitir hin nyrdri Draf ed Drá (Drau; Dravus) og hin sydri Saf eda Sá (Sau; Savus). Undan Karpatafiøllum fellr á sú í sudr, er Theis (Tibiscus) heitir og rennr hún í Dunn; úr austri rennr á sú í Theis, er Marosk (Marosch; Marusus) heitir.

Hit nyrdra liggia Karpatafiøll í austr á landamæri ríkis þessa; eru þau há og snæþakinn svo sumar sem vetr; þau eru fialla audugust af gulli og málmum í Evrópa. Í nyrdri hluta landsins er allmikit brattlendi, en hit sydra er þat flatt og állvida mýrlendt. Tvo

vatn mikil eru í vestrparti þess; hit nyrdra kallast Nausídlssjór (Neusiedlersöe) og hin sydri Plattens- edr Balatons-sjór (Lacus Balatinus). Menn skipta ríki þessu í fylgiandi landsparta.

1. Nedra edr Vestr-Ungaraland bádumegin Dónár. Þar er Presborg (Posonium) vid Dunn nordanverda og fyrir austan Vínarborg; þat er allmikil borg og hin fegursta, næst Pest, í ríkinu; þar eru 26000 innbúar, allmikill kaupskapr, erkibiskupsstóll og dómkyrkia; þar krýna Ungarar kónga sína. Í landsudr þadan standa 2 borgir, sín hveriumegin vid Dunn, er hún rennr í háudr, heitir sú fyrir vestan ána, Ofen eda Buda (Aqvincum); þat er hösudborg í ríki þessu, med 23000 innbúum; þar er skrautligr hofgardr, stiornuturn, og ágiætar laugar; þadan gengr brú mikil yfir ána til Pest (Pestum), er stendr á eystri árbakkanum; þat er hin fegursta borg í þessu landi; þar er þiódskóli, silki-vefstadr og vodvirki, mikil kaupverslun og 4 kaupstefnur árliga. Í bádum þessum borgum er atsetr ríkisins ædstu stiórnarráda. Í austr frá Presborg og upp til fialla eru bergstadir tveir, heitir sá sydri Skemnitz, en hinn nyrdri Kremnitz; þar eru góð silfurberg og gullnámur bestar í ríkinu og jafnframt í nordrálfu heims. Í Skemnitz er bergverksfræda-skóli og 23,000 innbúar.

2. Efra Ungaraland, fyrir austan hit sídstnefnda og bádumegin vid Theis og í

millum Karpataskalla og Dónár í norðr og suðr; norðarliga í því er Tókæ (Tokay) þaðan flytst hið besta vín í því landi. Í landsuðr þaðan er Debrezin (Debrecinum) hinn stærsti og fjölmennasti staðr á Ungaralandi. Sunnar er Temesvar (Semena, Tibiscus) sterk borg með 10,000 innb.

3. Stórfurstadæmit Sibenborg (Siebenbürgen; Transylvania); fyrir austan og sunnan síðsgreinda landsálfu, og fyrir vestan og norðan Tyrkland. Þat er 980 ferh. m. at stærð. Í landi þessu eru há fjöll og mörg og víðlendir dalir í millum og byggja 3 þjóðir nl. Ungarar, Saxar og Seklar, sinn hvern hluta þess. Þar er Hermannstaðr (Villa Hermanni) höfuðborg við á þá er Alúta heitir og rennr í suðrátt í Dunn. Þar er þjóðskóli og heimili 16000 innb. Ei alllángt þaðan í landsuðr er mikill kaupstaðr, er Krónestaðr kallast og í vestr frá Hermannstað Karlsborg, sterkt kastali. Þar hvílir Jóhannes Hunyades.

4. Kóngsríkit Slavónía. Svo kalla menn túnguna ímillum Drav og Sav at Dunn austr; þat er 308 ferh. m. þar er Essek (Mursa) við Dunn; þat er sterkt kastali með 10,000 innbúum.

5. Kóngsríkit Króatia, 370 ferh. m. at stærd, liggr fyri vestan Slavóníu, og fyrir sudaustan Styriumørk og Illyríu og nær til Feneyabotns vestr. Þar er Agram, (Zagrabia) rammliga umgirdtr stadr skamt frá Styriumarkar landamæri; þar er heimili Vicekonúngs (Ban) og 18000 innb.

6. Kóngsríkit Dalmatia, þat liggr strandlengis frá Króatiu í sudr med Feneyabotni austanverdum; er þat land vídast miótt og hvervetna fiøllótt; stærd þess er 274 ferh. m. Nordarliga í því er rammliga víggirdtr høfudstadr, er Zara (Jadera) heitir, med 8000 innb. Sunnar er Spalatró, þar eru geymslubúr fyri tyrkneskan varníng, er flytst þadan til Feneya. Sunnar er Ragúsa, fyrr. fríſtadr í fríu ríki, er Ragúsa hét; þar er ágiæt høfn — og sydst er Cattaró vid samnefndan fiord.

Í Dalmatiu ríki er lítit fríland, 18 ferh. m. at stærd, er Póglizza heitir; þar er þiódstiórn ásamt stórmennisstiórn í løg leidd.

Eyjarnar vid strønd þessa heita: Kurzóla, Lesina, Lissa, Brazza, Meleda og Gróssa.

7. Landvarnar-landamærin; (Militærgrændsen); svo kalla menn mon nokkura af sudr-hluta Ungaralands frá Feneyabotni austr med Tyrkiaveldis takmørkum og skiptist hún í flóra parta; þar eru allir bændr hermenn og landverdir badi nætur og daga, því opt er

herskátt og skélmisdrep á Tyrklandi. Þar eru ýmsir smástadir og varnarvirki; medal hvorra má telia Semlín í Slavónia, þar sem Dunn og Drat koma saman, (gagnvart Belgrad á Tyrklandi); þar mega allir þeir, er koma af Tyrklandi dvelia um hríd, ámedan menn til hlýtar ransaka, hvert þeir ei séu haldnir næmum siúkdómi edr í farángri þeirra sé sólgin drepsótt. Igégnum Semlín flytst varningr mikill milli Miklagards og Vinarborgar.

8. Kóngsríkit Galiziuland (Galizien) edr Lódomeria, liggr fyrir nordan Karpata-fiöll og heyrdi fyrr. Púlínalandi til, sem er fyri nordan þat; en fyrir austan þat liggr Rússaveldi og nyrdri hluti Tyrklands, og fyrir vestan þat Slesía. Þat er, ásamt landsparti þeim er austast liggr og kallast Búkóvína, 1690 ferh. m. at stærd. Þar eru vída fiöll og brattlendi. Fyrrgreindar ár: Weiksel, Bog, Dnister og Prút falla um landit. I eystri hluta þess er stadr sá, er Lemberg (Leopolis) heitir; þar er þiódskóli og atsetr höfdingia þess, sem yfir land þetta er settr, léreptavefnadr mikill, þiódskóli gód kaupverslun og 42000 innb. Sunnar er Halitz, þar er mikit saltverk. Af þessum stad segia menn landit taki nafn. Vestarliga í landinu er Wilizka (Wieliczka) þar eru na sutogadar saltnámur 400 álnir diúpar; þadan kémr árliga ógrynni salts.

Í Búkóvína (172 ferh. m.) er allgætt kauptún, er Zernóvitz heitir vid Prút. Þetta land afsöludu Tyrkir fér Maríu Teresíu 1777.

Hit sydra í Ungaralandi er mikit afl hita, en hit nyrdra kaldara loptslag og strángr vetr. Um midbik þess er temprud vedrátt. Land þetta er audugt at ýmsum málmum, og steintegundum; þar finna menn gull mikit, silfr, eyr, járn, blý, qvikasilfr, steinsalt, steinkol, margskonar gimsteina og yfir 1000 ölkéldur og málmdámadar lindir. Þar vex allskonar korn, mikil gnægd ávaxta, næst eptir Frakkland flestar víntegundir (á medal þeirra er Tókay-vínit (Tokayeren) eitthvert hit dýrasta í heimi), tóbak, humall, hampr, lín og skógr mikill. Nautpeningr er þar margr og gódr, hestar, bestir í Austrríkisveldi, fjöldi saudfjár, mörg villidýr og hrædýr, einkum birnir, lossar og vargar í veitunum vid árnar og býflugnarækt hvervetna mikil, gód veidi í vötnum og ám, í sumum þeirra eru skelpoddr. Þótt kaupverslun sé þar á ýmsan hátt takmörkud, er hún þó allmikil og ardsöm öllum landsbúum. Merkustu kaupstadir eru: Pest, Ofen, Ödenborg og Debrezin. Þadan flytst: slátrsénadr, húdir, korn, vínfaung, ávextir, tóbak, margskonar málmar, o. s. frv. en af ödrum löndum flytst þángat: krydd og ávextir austan og vestan úr heimi, ýmiskonar varningr og verksmídi, er Ungarar midr kunna at tilreida enn adrar þiódir, þar verkstadir þeirra og smidiur hverki eru merkar né margar. Allr þorri lands-

manna játar hinn rómversku-kathólsku kristindóm og ráda þar 3 erkibiskupar (i Gran, Kalotska og Erlá) fyrir kennidómi. Þar búa einnig allmargir Grikkir, Lúterskir, Reformertir, (eru þeir allir jafn-gildir), Gydíngar og Tyrkir. Auk ýmsra háskóla og lærdóms stiptana er þar einn þiódskóli, í Pest. Í Ungaralandi er takmarkat einvaldsdæmi í løg leidt, er gengr i arf til eldsta sonar. Frantz hinn 2ti, Austrrikis keisari, er nú konúngr yfir Ungaralandi og er þar settr høfdíngi sá til yfirsóknar, er **Palatín** kallast. Rikisstønd nokkr takmarka þar konúngsveldi.

Skialdarmerki rikis þessa er: 4 silfurlitar randir á raudu undirbordi, (er jarteikna þau 4 høfudstiót: Dunn, Theis, Draf og Sau) og erkibiskupligr silfurkross á grænni hæd. Þar er Riddara-orda, er kend er vid **Stephán hinn helga**; hana stiptadi María Theressia. Í Ungaralandi eru margar adalsmanna-ættir og audugar miøg; þær ásamt øllu stórmenni (Populus in diæta) þrengir miøg at kosti almúgans (misera contribuens plebs).

Auk hins fastrádna herlids, er þar lidssafnadr sá, þá ófridr er, sem Insurrections-lid (uppreisnarlid) kallast; þat er 40000 manna. Innbúar Ungaralands eru 7 mill. 126 þús. at tølu. Þeir eru bædi Slavar at ætt og Ungarar eda Magyarar, er sumir segia af Finnum, en sumir af Monablum komna. Þar býr einnig mikill fiøldi Þýdverskra og þiódar þeirrar, er Zigeunar kallast. Landslýdrinn mælir bædi úngarisku, slavisku, þýdsku og á ýmsum stødum látínu.

# XVII. Tyrkland í Evrópu (det europæiske Tyrkie; Turcia Europæa).

Þat liggr ímillum 33° og 48° austl. lengd: og 34° og 48° nordl. br. og er sudaustr-horn þessarar heimsálfu. Fyrir sunnan þat er Midjardarhafit og gánga hafsbotnar miklir af því í nordr fyrir austan og vestan ríki þetta; kallast hinn vestri Feneyabotn, en hinn eystri Grikklands-haf (Archipelagus); nordr af því gengr sund til Marmarasiáfar, er D.rd.nellasund heitir og Nordmenn kölludu fyrr. Ellipalta; og annat frá tédum sió til Svartahafs, sem nú er kent vid höfudborg ríkis þessa, en fordum kalladist þat Siávidarsund. Fyrir austan nydri hluta Tyrkiaveldis er Svartahafit, en fyrir nordan þat liggr Rússland austast, þá Galizia og Ungaraland. Tyrkiaveldi í Evrópu er 9500 ferh. míl. at stærd.

Land þetta er allfiöllótt og vatnsfarlt. Vid Dunn er flatlendi mikit. Fiallgardr nokkr gengr yfir þat þvert og í bugdu, er hit nyrra kallast Balkan (Hæmus), en hit vestra hin skardisku fiöll. Frá Balkan fialli liggia

4 kallgarðar í suðr; sá vestasti liggr suðr eptir hinum grísku meginskaga og gánga af honum báðumegin, múlar á nes fram. Í norðr gengr grein af Balkan-fialli til Dunnar og er ássinn við Karpata-fiell, er ot norðan- og vestan verðu takmarka Moldá og Wallakiit.

Meðal vatnsfallanna í þessu landi má telia 1. Dunn (Danibius, Ister) er þar kémr til sjáfar úti Svartahafit. 2. Saf, er fellr á takmørkum Bosníu, Servíu og Slavóníu. 3. Prút (Hierassus) er rennr í suðr á Rússalands og Tyrkialands landamæri í Dunn. 4. Seret (Serethus) og. 5. Alúta (Olta) falla í suðr og 6. Mórava (Moravus) í norðr í Dunn. 7. Maritza (forð. Hebrus) rennr í landsuðr í Grikklandshaf. 8. Strymon fellr í Kontessufiørð og árnar, 9. Vardari (Axius) og 10. Salambria (Peneus) í Tessalónikufiørðinn, og á sú er 11. Karbon kallast í hit jóniska haf.

Af Grikklands-hafi hverfa firðir margir og víkr inn í landit t. d. Kontessen bugt norðast þá, Thessalóniku-fiørðr, þá Engiufiørðr, milli Lívadíu og Mórea hit eystra; en úr vestri gengr fiørðr inn frá hinu jóniska hafi, er hinn Lepantiski fiørðr kallast og er þar eyð sú milli fiarðabotnanna, er heitir Korintuborgar-eyði (den corintiske Isthmus.

Tyrkiaveldi í Evrópu er greint í 12 landsálfr og smáríki; en Tyrkir siálfir skipta því, at Moldá og Wallakii undanteknum, í 2 høf-

udparta, er þeir kalla Beglerbegliks, nl. Rum-Ili, þartil heyra Rómanía, Bulgaría og Grikkland; og Bosna, nl. Bosnia og Servia.

Yfir landsálfur þessar eru höfdingiar þeirsettir er Paskar (Paschaer) kallast; þeir láta bera fyrir hér mislit hestatögl á staung, sumir 3 og sumir 2 og má þaraf marka tign þeirra og metord. Nafnbót hins göfugasta Paska er Beglerbek (ɔ: furstanna fursti).

1. Rómania (Rum-Ili; fyrr. Thracia; Þrúdheimr) liggr vid botn Grikklandshafs og vid Svartahafit og sundinn er samtengia téd höf. Þar er Mikligardr (Constantinopel; Constantinopolis, fyrr. Byzantium; á Tyrknesku: Istambul) á nesi sunnanliga vid Siávidarsund vestanverdt; þat er höfudborg í Tyrklandi og atsetrstadr einvalda þess.

Þar eru margar háreistar og skrautligar byggingar; medal þeirra má telia hofgardinn (Serailet), er stendr yst á nesinu, og er umgirdt af múr öllumegin, og er 1 mila ummáls; höfudhlidit á múrveggnum er afarmikit port, af marmara giört, (þat kalla Tyrkir Babe Humajan. ɔ:. hit hátignarliga port); vid þat er hird Soldáns fénd, sem er 10,000 at tölu. Í Serailji eru stórhýsi mörg og fögr, badhús, aldingardar og Cypressulundar; heimili hinna ædstu höfdingia, hirdmanna og inndróttar og fleira þat, er

Harem kallast edr qvennaskemma; þar sitia hiákonur Soldáns. Þar er Sophíu-musteri (Sophiemoscheen); þat er hit mesta og veglgasta musteri i gjörvöllu Tyrkia veldi; var þat fyrrum kristilig hofuðkyrkia, er Jústinianus keisari lét giöra; þar er og forn kastali, er kallast: þeir sio turnar; þat er vandi Tyrkia at setia þar í varðhald erindsreka þeirra konúnga, er þeir hafa strið boðat. Hit stærsta pláts i borginni kallast Almeidan (fyrr. Hippodromus; Paðreimr). Markverðar eru einnig hinar miklu hvelfingar (Basars), þar er kaupmenn og handverksmenn halda sölum varningi sinum og verksmiði i sölubúðum. Þar er ágiæt höfn og mikil ¼ milu at lengd; hafnarmynnit kölludu menn í fornöld Stólpasund. Þar er herskivastöð Soldáns.

Þarumegin við höfn þessa eda vik, og gagnvart Miklagardi, eru forstadir tveir, er Galata og Pera heita. Í þeim sidstalda búa erindsrekar Evrópu einvalda. Þar og í Miklagardi eru 500 000 innbúar.

Í útnordr frá Miklagardi er Adriansborg (Adrianopel; Adrianopolis) við Maritza; þat er önnur borg mest í Tyrkiaveldi; þar er hit vegliga musteri Selims hins 1ta og sikisboni mikill og 130 000 innb. Í útnordr þaðan er Philippsborg (Philippopel; Philippopolis) við sömu á og í víuriku héradi; þar eru 120 000 innb.

2. Búlgaria, ford. Búlgaraland (Bul-

gar-Ili; Bulgaria) liggr fyrir norðan Róm, ania og skilr þær fiallit Hæmus. Þar er høfuðborg sú, er Sophia heitir, í útnorðr frá síðstnefndri borg; þar er heimili Beglerbegs þess, er settr er yfir beglerbeglikit Rum-Ili, og 50,000 innb.

Í norðr frá Sophia og við Dunn er Viddín, sterk festing; austar er Nicopolis, þá Zistóva, þá Rústskúk, viggirdtr stadr og Silistria austast við téðá þióðá sunnanverða. Við Svartahafit er Varna.

3. Köngsríkit Servía, (Servien; fordr. Moesia superior) fyrir vestan Búlgaraland. Þar er Belgrad, (Alba Græca) í útnorðr frá Miklagarði og við Dunn, þar er Saf rennr í hana; þat er rammliga umgirdt borg, er ýmist hefir verit í Ungara, Austrríkis-keisara eða Tyrkia valdi; þar er øll megin-verslun nefndra þióða og er þar goldinn tollr af øllum þeim varníngi, er menn flytia yfir Dunn. Þar eru 30000 innb.

4. Bosnia (Bosnien; Bosnia) liggr fyri vestan Servíu og er hinn vestasti hluti Tyrkiaríkis. Þar er Bosna-Serai (Saralium) í norðvestr frá Miklagarði þar eru 100 musteri, allmiklar járn- og stál-smidiur og 65000 innbúar.

5. Arnát-Vilajeti; þat greinist í 2 landsálfur nl. Macedónía og Albanía.

a, Macedónia eda Makedónia (Feliba Vilajeti) liggr fyri vestan Rómania og vid Grikklandshof; þar er Salónicki, (fyrr. Thessalonica) vid botn vidkéndс fiardar og í vestr frá Miklagardi. Þar er atsetr eins Pasta, er hefir 3 hestatogl á merki sínu, og svo mikill kaupskapr, at í eingum tyrkneskum stad í Evrópu er jafnmikill. Þar er einnin nafnkéndr gydíngaskóli (Hora) fyri 1000 únglinga, — og 70,000 innbúar þadan flytst nafnkéndr refill.

Vestar liggr Bódina, hin forna Edessa og Felibe, ford. Philippi. J Seres, í vidkéndum fögrum dal, er bómullar-yrkia afar-mikil.

Fyrir austan Salónicki gengr nes nokkurt og fiallgardr (7 míl at lengd og 3 at breidd) út í Grikklandshaf, í landsudr. Höfdinn á nesinu framanverdu er 5900 fóta hár frá láslétta og kallast Athos (Monte Santo ɔ: helgafell; Ajosoros eda Agion-oros); þar eru 30 klaustr og 500 kyrkiur og kapellur; í þeim eru klukkur og er þat einsæmi medal kristinna a Grikklandi. Þar búa nærhæfis 6000 múnkar og einsetumenn, er Grikkir tigna mjög; þeir eru bindindissamir og idiumenn miklir og idka fornasta og vínyrkiu og allskonar handidnir og smídar. Þeir eru Soldáni skattskyldir og safna ölmusum í Rússlandi, Moldá, Vallakíi o. s. frv. til at géta goldit hann. Á sédu fialli er þorp þat, er Kareis heitir.

6. Albania (Albania; ford. Epyrus), liggr fyr-estan Macedóniu og lángsetis í út og sudr med Feneyabotni austanverdum. Þar er

Janína (ford. Cassiope) í útsudr frá Salónicki og vid stöduvatn; þar er kaupverslun mikil, 40,000 innb. og sterkr hofgardr, þar sat hinn nafnkunni Ali Paska.

Í þessu landi er merkr stadr, er Argyro-Castro heitir, nálægt fialli því, er Monte-Chimera (Montes Acroceraunii) kallast. Prevesa, þar í grend vid eru aurmál mikil af borg þeirri, er Nicopolis hét. Nordarliga í landinu er Skútarí vid stöduvatn, sem er hit mesta í Tyrkiaveldi, í þessari heimsálfu. Bútrintó, Dúrazzó (ford. Dyraksborg) og Dalcignó eru merk kauptún vid sæ.

Fyrir nordan sídstalinn stad er fiallbygd sú, er Myrkafiall heitir (Monte Negro), af landsmönnum kallat Thernagóra. Innbúar fiallbygdar þessarar, er ýmist kallast Kattarinar eda Montenegrínar, eru lítt sidadir, en hraustir í orrustum. Þeir eru Soldáni skattskyldir en at ödru leyti hlýda þeir hverki bodi hans né banni.

6. Janía (Ianiah; ford. Thessalia) ímillum sydri hluta Albaníu og Grikklandshafs og fyri sunnan Macedóníu. Þar er stadr sá, er Jenisker (Ienischer; ford. Larissa) heitir, vid ána Salambría; þar eru litunarhús mikil og 20000 innb.

Í þessari landsálfu eru 3 fiöll, nafnkunn í fornöldum, nl. Pindus (nú kallat Mezzovo), Olympus (nú Lacha) og Pelion (nú Petras). Vid hinn inndæla dal Tempe, er stadr sá er Ambelakía heitir, þar eru 24 litunarhús mikil og flytst þadan hit nafnkunda tyrkneska garn.

7. Livadia (ford. Hellas eda Graecia propria) liggr fyrir sunnan bádar sídstnefndar landsálfur og nær til fiáfar at austan og vestan. Þar er Lepantó (ford. Naupaetus) hiá vidkéndum firdi nordanverdum. Þar eru varnarvirki og 2 kastalar, er kallast þeir litlu Dardanellar, og 12000 innb.

Austar er stadr fá, er Kastri kallast, en ford. hét Delphi, á Parnassús-fialli sunnanverdu, er nú nefnist Liakura. Í sudr þadan er fiallit Helicon, undir því stendr Livadia, litill stadr. og nokkra leid austar þorp þat, er Thiva heitir (ford. Thebae; Thebas). Sunnar er býr nafnkéndr í Grikkiasögum er Maratón kallast; sunnar er Athenuborg eda Athenas (Athinia; Athenae) skamt frá vidkéndum firdi og fyri nordan hann. Þar er kastali (Acropolis), höfn sú er Piraeus hét, en Tyrkir kalla nú Porto Draco, en Vallendingar Porto Leone; hún er nafntogud og fiølsókt af farmønnum. Þetta í fornold vidfræga høfudból lista og vísinda og heimili frægustu hugvits- og snildar manna var ford. høfudstadr í Attika og einhver hin merkasta borg á Grikklandi; en fáar eru nú á døgum leyfar þar, er votta um hennar forna ágiæti og afbragd.

8. Mórea eda Mórberialand (Mora-Vilajeti; ford. Peloponnesus); þat er sydsti hluti Grikklands, og gánga høf at øllumegin; at nordanverdu er eyd millum ádr greindra

fiardabotna, er samtengir Mórea og Lívadíu og sérílagi kallast Isthmus; á eydinu sunnanverdu stendr Korintuborg (Corinthus; nú Cordos); hún er nú víggirdt; en miklu minni enn í forueld; þar eru 5000 innb. Mittlands er Trípólizza med 15000 innb. Þat er hofudstadr í Mórea og rammliga umgirdtr.

Vid mynni hins lepantiska fiardar sunnanverdt er Patras (fyrr. Patræ). Arhos, (fordum Argos) og Napóli di Románia (Nauplia) eru merkir stadir vid fiord af Grikklandshafi, sem kendr er vid Napóli. Sunnar á austr-strondinni er Napóli di Malvasia, (fyrr. Epidaurus), þar er víngyrkia mikil. Undir fiallgardi þeim er Taygetus hét, stendr Misitra. Skamt þadan lá Sparta, nafntogud borg í fornold. Sunnar er þorp þat, er Mæna (Maina) heitir; þar og í allmiklli fiallbygd býr þiód sú, er Mænottar kallast; þeir eru komnir af hinum fornu Spartarmonnum, og eru hardteingir miog og ei hafa þeir ennþá beygt háls undir ok Tyrkia. Kóron og Módon eru kauptún tvo, er firdir tveir eru vid kendir, sem skérast inn fyrir austan og vestan Matapans-hofda, sem er hit nes á Grikklandi.

9. Pasta-Kapúdans Jarlsdæmi; undir þat liggia ýmsir stadir á meginlandi eda í Rómanía og eyarnar í Grikklandshafi. Þar er Gallipóli (Gallipolis) vid Ellipalta eda austanverdt á skaga þeim er fyrrum kalladist Chersonesus thracica, en Nordmenn hétu Englanes eda Æglsnes; þar eru 17000 innb.

Dardanellar heita kastalar 4 vid Ellis palta og varna þeir stand nonnum innsiglingar; tveir standa á tédu nesi og 2 gagnvart þeim, fyri handan sundit.

Eyarnar í Grikklandshafi, sem taldar eru til þessarar heimsálfu. 1. Thasos (Thasos), þar er samnefndr stadr. 2. Samó-dracki (Samothrace) þar er stadr sá, er eins heitir. 3. Stalimene (Lemnos), er allmikit eyland, ford. helgat Vúlkani; þar finnst nokk-urskonar leir (Terra Lemnia s. sigillata) er menn hafa til lækninga. Þar er Lemnó höf-udstadr. 4. Skiró (Scyros) þar er sam-nefndr stadr. 5. Negropont (Egribos; Euboea); þat er hin mesta ey í Grikklands-hafi; í milli hennar og meginlands eda Liv-adíu er sund miótt, er Euripus kallast; í því segja menn sé 7 sinnum á dægri hverin flód og fiara, med þvílíku falli, at eigi gengr þar skipum undir fullum seglum og í hraddyri móti straumi. Ey þessi er 60 f. m. at vídáttu. Á henni vestanverdri er borg sú, er Egribós (fyrrum Chalcis) heitir; þar eru 16000 innb. og höfn; í henni hafa galeidur Tyrkia lsaung-um legit. 6. Andra (Andros) sunnar; hún er allra eya fegurst og frióssömust í Grikklands-hafi; þar er Arna höfudstadr; þá er 7. Tine (Tinos); þá 8. Diló (Delos) nafnkunn ey í ... nold; þá 9. Paró (Paros); þar er marm-ari mikill, hvítr og ágætr, og forngripir; þad-an er hin nafnkunna marmarakronika, sem nú er í bókahlödunni í Oxnafurdu. Þar er lítill

stadr, er Parikía heitir. Austar er, 10. Naxía (Naxos) merk og allmikil ey, og var í fornöld helguð Bacchusi. Hún er nokkurskonar fríriki og friáls ábiónar Tyrkia. Eyarmenn eru allra Grikka kurteisastir. Þar er samnefndr stadr. Í útsuðr þaðan er, 11. Santorin (Thera); hún er upprkomin af hafi og furkunnar fríóssöm. Þar er Apanormia. Vestar er, 12. Miló (Milos); sú ey er mjög hol af jarðbruna. Bresta þar optsinnis eldar upp og vellandi votn. Þar er óholl gufa tíð — og stadr sá, er Melos heitir. 13. Hydra við suðaustrhorn Móreu; þat er lítil ey (2 f. m.) en allmerk; hún er klettótt mjög, giædalítil og og vatnlaus; mega því eyarmenn, (sem eru 25000 at tölu) safna regnvatni til neytslu. Þeir hafast mjög við í kaupferð um til ýmsra landa og vestr í heimi. Þar er samnefndr stadr. Í Engiafirði er eya sú, er 14. Engia (Ægina) heitir; þar er Aina höfuðstaðr; Póró, (ypr. Calauria) og Stóra Cólúri (ford. Salamis).

10. Eyarnar í Miðjarðarhafi; þeirra mest og merkust er Krít eda Kritarey (Candia, ford. Creta; á nýkr. Kriti); hún liggr í austr og vestr fyri mynni Grikklandshafs og er 197 f. m. at stærð. Lángsetis eptir henni miðri gengr fiallgarðr í austr og vestr, er Psiloriti heitir, en fordum kallaðist Ida; í fiöllbygð þessari er hit nafnkunna völundarhús (Labyrinth). Á Krít norðanverðri er stadr

sá, er Kandía (á tyrkn. Kirid) heitir; þar eru 13000 innbúar og sterk varnarvirki.

Þótt ey þessi sé fjöllótt mjög, eru þar þó hvervetna fyrirfinnanar gódir landskostir á ströndum og í dölum og ágiætt haggaisti fyri búfénad, sem ásamt korn- og víngaungum, olíu, silki, ull og ávöxtum, fær eyarlýdnum, (sem er 240,000), gnægt upphéldi og audæfi í hendr. Þar er einnin svo heilnæmt loptslag, at formenni köllodu hana: hina lukkusömu ey. Þriár smáeyar liggia í grend vid Krít nl. Standía (Dia) fyrir nordan, Gozzó (Gaudos) fyri sunnan, og Skarpantó (Carpathus) í landnordr, frá Krít.

11. Furstadæmit Moldá (Moldau; Moldavia; á tyrkn. Bogdan); þat liggr nordaust allra Tyrkialanda og ímillum árinnar Prút hit eystra og Ungaralands hit vestra. Nordar enn mittlands er þar sá stadr mestr, er Jassý (Iassium) heitir; þar er landshöfdingiasetr og heimili 15000 innb.

Vid Dunn er Galatz og Húsk vid Prút, allmerk kauptún.

12. Furstadæmit Vallakíit, fyrr. Blakkamannaland (Walachia; á tyrkn. Eflak). Þat liggr fyrir sunnan Moldá og fyri nordan Dunn, er sellr fyrr austan þat og vestan. Þar er Búkarest, (Bucoresta) höfudborg med 46000 innb. þar er heimili landshöfdinglans og erkibiskupsstóll.

Í landnordr þadan er Braila eda Jb-

rail '(Brailovia) vid Dunn eru 30000 innb. Þenna stad á Miklagardskeisari.

Bædi sídstalin lönd eru skattgild Miklagards Soldáni og eru yfir þau settir höfdingiar tveir til yfirjótuar, er Hospódarar kallast, vara þeir bádir í veldum og eru allstálfrádir. Innbúar landa þessara eru Grískir at kyni og játa hinn gríska kristindóm. Þar er öllum kristnum heimil landsvist.

Ríki þetta er þvínær hvervetna vedrasælt; þó er blídara vedráttufar syri sunnan enn syri nordan Bálkanfiöll. Í Macedúníu-, Thessalíu- og Attíku-dölum er blídvidri tídast.

Í fiöllum lands þessa eru málmar nógir, en Tyrkir láta sér ei annt um at leyta þeirra, nema járns; þar er einnin gnægd salts, ágiætr marmari, merskúm o. s. frv. Þar vex vel rís, mais, durra, hveiti og vín, einkum á Mórea og Grikklandseyum og mikil gnótt ágiætra ávaxta, einkum korenur í Mórea. Frá Attíka (Lívadía) flytst best olía eda vidsmiör, bómull og tóbak frá Macedóníu; þar eru og skógar miklir, órium o s. frv. Í Moldá og Vallakíi er sérílagi nautpeningr margr og ágiætr og hestar gódir, en á Grikklandi er saudfiárrækt best; þar eru og asnar, múlar og geitfé, birnir, vargar og losar. Á Grikklandi er silki afli og bíflugnarækt allmikil.

Medal handidna Tyrkia má sérílagi géta bómullar-vefnadar silkivuna og ledur-tilreidslu. Nafnkunnir eru reflar þeirra og herdadúkar qvenna (Shawls). Þar eru járn- og stál smídir allgódar, einkum giöra menn þar ágiæta sverds-branda og byssuhlaup.

Ei flytia kaupmenn varníng sinn til annara landa, en láta þá sækia hann, er þess fysir; þó vinna þeir árliga á sølum og kaupum vid útlendar þiódir. Hvad innanríkis kaupverslun vidvíkr, þá er hún at mestu í høndum Grikkia, Ermlendínga og Júda; því eigi þykir Tyrkium þau størf sér med øllu sæma. Merkustu kaupstadir í Tyrkiaveldi eru: Salóníki, Mikligardr, Adriánsstadr, Belgrad og Janína.

Hinn Múhamedanski átrúnadr (Islam o:. hin sanna trú) er þiódtrú medal allra Tyrkia. Þá trú kéndi Múhamet fyrstr manna øndverdliga á 7du øld. Skríngargr: Hann baud at trúa á einn Gud (Allah) og á hans ædsta spámann Múhamet; hann kalladi þá er hnígu til trúar hans og lærdóma Moslemim eda rétttrúada og baud þeim án missmída at hlýda þeim bodum og reglugiørdum, er ritadar standa í bók þeirri, er Kóran kallast og Abukír samanskrifadi; er hún bædi trúarbók þeirra og løgbók, er býdr þeim at bidia án aflátz, veita fátækum styrk og gefa ølmusur, idka bindindi og hreinlæti, bindast fyri áfeingum drykk og svínakiøts-áti, at sýna hvervetna hugrekki og hreysti fyri sakir Guds og aldrei uppgéfast, en ofurselia sig forløgunum, er frá øndverdu væru sérhverium áqvedinn og eingum daudligum væri audit fyrir at komast eda fordast; og at giøra at minnsta kosti einusinni ferd sína til ens helga húss í Mekka og hvervetna at snúa sér í þá átt, þá þeir bidiast fyrir.

Einvaldi Tyrkia er einnin þeirra ædsti andligr høfdingi, tilkémr hønum sú tign, sem Kalíf eda Múhamets eptirkomara. Hønum gengr næst i kénnimannligum umrádum høfdingi sá, er Mufti eda Stórmufti; kallast velr Soldán hann siálfr og leytar hans ráda þá mikils þykir vid þurfa. Svo mikil er helgi hans at

eirginn má dæma hann utan Soldán einn. Kyrkiur Tyrkia kalla kristnir menn almennt Mocheer, Moszeer en siálfir þeir hinar stærri: Dschiamy, en þær minni Mesdich o: bæna-hús. Prestar þeirra kallast Imans, Dansch-mends og Talismans.

Allir Grikkir játa hinn grísta kristindóm og sitr höfudbiskup þeirra í Miklagardi. J Tyrkia-löndum búa einnin allmargir katólskir, lútherskir og reformertir. Hinn audligi höfdíngi Gydínga, er þar hafast vid, kallast Caschan Paschi.

At vísu eru kénnsluskólar (Meklebs) ei allfáir í Tyrkialöndum einkum í höfudborginni, en þeir eru þó ónógir og svo litt fulltyngiandi til almennings upplýsingar, at eingu ríki í Evrópu er í tilliti til menta og lista svo illa farit, né almúginn svo fáfródr og fákunnandi, sem þar. Tyrkir monnum fá únglingar vel at sér, er þulit gétr frædi sín, sem tekinn eru af Kóransbók. Medal Grikkia er kiærleikinn til hinna fornu snilli-rita endrlifnadr og hafa þeir því á stofn sett ýmsa skóla til almenníngs uppfrædingar og þar ámedal tvo háskóla ni í Athenub. og Melias.

Fyrir Tyrkialondum rædr nú höfdíngi sá, er Mahmúd hinn 2ar heitir; hann kalla menn Stórherra eda Soldán (Sultan eda Padischah). Hann er nú med öllu siálfrátt einvaldi ríkis þessa og hefir ótakmarkat vald á lífi og eignum þegna sinna og þeckir ei annr lög enn eigin vild. Ríkit gengr í arf til Osmanns afkomenda. Soldán er ekki eiginkvæntr, heldr hefir hann hiákonur margar, er byggia nokkurn hluta hofgards hans, er Harem (qvennabúr) kallast. Sú sem fyrst fædir hö-

um son, kallast síðan Chassçki-Sultan (o: hin náðaða eða vildiskona hans), en þá sonr hennar tekr ríki, Valide-Sultan. Æðsta ráðaneyti eða stiórnarráð Soldáns kallast Divan; í því er hösdíngi sá er Stórvezir (Vezir-Azem) heitir, forseti. Hann gengr Soldáni næst at tign og gøfugleik. Sialdan verðr neinn ellidauðr í þessu embætti, því mikill fylgir því vandi. Fyrrum, þá Stórvezirinn fell í ónáð, var hann kyrktr, en á seinni tíðum giørir Soldán hann útlægan til einhvørs fiarlægs staðar og tekr upp eignir hans. Höfðíngi sá, er Soldán selr á hendr eyrindagiørðir við aðra þióðkonúnga, kallast Reis-Effendi, hann tekr ámóti sendimønnum þeirra og seigir þeim svør Soldáns. Skialdarmerki Tyrkia er grænn skiøldr með vaxanda túngli. Hálf-mána-orðan, er Selim hinn 3ðji stiptaði, er sú einasta riddara-orða í Tyrkiaveldi.

Bæði landher, skipalið og herskip Soldáns hafa, síðan uppreist Grikkia hóśst, allmiøg sækkat og eyðst. Aðr var landlið hans 186,000, at meðtøldum 40,000 Janitskara (o: nýu hermanna), sem eru kiarni Tyrkiahers, og framfúsir til óróa og illverka. Æðstr fóríngi þeirra kallast Janitskar-Aga. Soldán átti þá 20 línuskip og 15 fregáttur og var jafnan stöð þeirra í Miklagarðs-höfn; en Grikkir hafa allheppiliga sækkat þeim, unnit sum og meidt sum til ófæris. Æðstr herskipa-fóríngi Soldáns kallast Capúdan-Paska.

Merkustu kastalar og festíngar á Tyrkialøndum eru: Belgrad, Widdin, Kústjúk, Silistría við Dunn og í Servlu og Tyrkisk Bróð í Bosníu.

Innbúar þess hluta Tyrkia-ríkis, sem liggr í Nordr-álfu heims, eru 8 milliónir og 500,000 at tolu og er varla einn þridiúngr af þeim Tyrkir, yfir 3 milliónir Grikkir og þat sem yfir hefir, Vallakar, Serviar, Bosníar, Bulgarar, Arnátar, Mænottar, Armeniar og Júdar.

Þriú eru þar túngumál almennust, nl.: tyrkneska, tartariska og nýgríska. Soldán, oll hirdsveit hans og prestar mæla arabisku, en Evrópíumenn, er búa í kaupstødunum, túngu þá, er Lingva franca kallast.

Þiódunum, er byggia Tyrkialønd, má skipta í 2 flokka, nl. hinn drottnandi og undirokada; til hins fyrsta heyrà allir þeir, sem trúa á Múhamet; en til hins sídara allir þeir, er hafna þeim átrúnadi, sæta þeir af Múselmønnum hardinda og áþiánar; þó hlífa fornir sáttmálar, fiallbygdir og fiarlægd frá járngreipum tyrannanna fremr sumum medal þióda þessara, en sumum; en allar mega þar þola vanvirdu og ofmetnad, ofríki og ólog af hardsinnudum drottnurum; því Tyrkir kalla sig eignarmenn landa þeirra og innbúana þýborna þræla eda mansmenn sína. Mátulaust þióddramb Tyrkia bægir þeim frá sidblendi og sameiníng vid adrar þiódir, (er þeir kalla margskonar hádúngligum nøfnum) og jafnframt frá framførum í þeim vísindum og íþróttum, er prýda sidadar þiódir og efla farsæln þeirrà. Tyrkir eda Osmenn eru miklir vexti, réttvaxnir eda keikir og einka vel-limadir, hraustligir og bera høfudid hátt. Hiá þeim finnst óland margskonar og undarligs lunndernis, bædi ágiætir mannkostir og verstu lestir.

Hvad mentir og sidprýdi snertir, standa Tyrkir nærhæfis á takmørkunum milli villimanna og sidadra þióda. Þeir eru yfrit drambsamir, hardfeingir í orrustum og afar rádríkir, þá þeir hafa valdit; en yfrit audmiúkir vid yfirbodara sína; vellystíngasamir

eru þeir, og latir, en gisrast afar óstyrilátir og sem trøllauknir, þá þeir eiga at veria líf sitt og trú, grimmir eru þeir vid sigrada fiandmenn, en meta þó mikils hugrekki þeirra og manndóm. Þeir eru géstrisnir vid landa sína, en ásælast útlendínga. Tyrkir neyta at sønnu sparsamlega matar og og drykkiar, en eru þó í ýmsum greinum óhófsamir. Størf eru þeim ógédfeld; en at vera med mak og éta opium, unz þeir þvínær liggia í dvala, þykir þeim hverri jardneskri fullsælu yndisligra. Rockursskonar hátídabragr er samfara gjørdum þeirra og atvikum, þeir mæla seint og herda á ordunum, gánga sem þeim sóu skref mørkud, og hlæa sialdan. Þeir eru hiátrúarfullir og skinhelgir og andtigna alla þá, er ei bera túrban á høfdi né fylgia Kóransins fyrisøgn flestum þiódum eru þeir fáfródari og hafa allt þat, hvørsu nytsamt sem er, at vettugi, sem frá hinum vantrúudu er komit; en þó þeir elski siálfa sig, sína hagi og hætti, eru þeir ei at sídr manna fúsastir til uppreistar og flokkadráttar.

Þeir svokølludu Nýgrikkir eru Tyrkium svo ólíkir, sem andfætíngar eru hvørir ødrum fiarlægir. Jafnvel þótt 2 þús. ár séu sídan þeirra vídfrægu forfedr vóru uppi, má þó þar enn á svip og skapnadi kénna afkomendr hinna gømlu Hellena eda Forngrikkia, enþá má þar siá hit fagra vaxtarlag og frídleik, er menn í fornøld hvergi þóttust frægri finna, enn á Grikklandi. Vidlíka léttlyndir, óstødugir, forbilldyrsamir, óstilltir og metordagiarnir eru þeir sem þá Alcíbíades var á døgum, en hafa þó vardveitt arftekna hreysti og friálsrædis elsku, hvørra lofi alldafarsbækr þeirra munu lýsa medan heimr stendr.

Grikkir eru gladlyndir og af náttúrunni vidgvæmir; þó hafa nídíngsværk Tyrkia egnt þá til hardýdgis og grimmra hefnda. Lángvinnr ójafnadr og ofríki tódra hardstjóra hafa ként þeim yfirdrepskap, slægd og lesti, sem enn frelsisleysit og áþián samfara og nú lagsins vakit þá af óværum blundi, til med samtøkum og frægum manndómi at varpa af sér oki illfeingra dólgmara.

——©✻©✻©——

# Almenn

# Landaskipunarfrædi.

Sídara parts önnur deild:

## Austrálfan.

# Innihald.

# 3dji Parturinn.

## Asía (Asien) edr Austr-Álfa heims.

### Stutt frumvarp um hana yfir høfud.

Pessi heimsálfa gengr Ameríku nærst at víd-áttu og er 700,000 ferh. mílur at stærd. Hún er því fimmfold vid Evrópu og vidlíka laung sem hún er breid. Hún liggr ímillum 10° og 78° nordl. br. og 42° 208° austl. lengd. Fyri nerdan hana gengr Ísa- eda Dauda-hafit austr til Berings-sunds, en fyri austan hana, hinn mikli útsær, er ýmist kallast Sudr-haf eda Kyrra-haf og India-haf fyrir sunnan; en at vestanverdu er hún áføst vid Evrópu og og Afríku og skilia þar fiallgardar, hof, sund og hafsbotnar heimsálfurnar, sem ádr er fráfagt. Peir menn, er á seinni tídum hafa kannat

Asíu, leida rek til þess, at þar sé hálendi mest á heimskringlunni og fiöllinn hærst.

Medal fiallanna má þessi merkust telia: a, hin verkotúrisku edr úralsku fiöll á Asíu og Evrópu takmörkunum hit nyrdra. b, hinn siberiska fiallgard, er liggr í austr og vestr á Síberiu sudr-takmorkum; þadan liggia margir fiallgardar í ýmsar áttir, t. d. Altai-fiöll i landsudr; Baikal-fiöll i nordr; Stonovoi-fiöll i landnordr til Austr-hösda o. s. frv. c, Bogdó-fiöll i Mongóliinu; d, fiallgardinn Himalaya eda Himmali, er atskilr Thibet og eystra Indíaland; þat er hinn hærsti fiallgardr í Asíu; í hönum er fiall þat, er Davalagíri heitir; þat er hit hærsta fiall í þeim hluta heims, er menn hafa kannat, nl. 26,862 fóta. Afastr vid Himmali er fiallgardr mikill, er e, Mústag edr Imans heitir, hann liggr í nordr og sudr; f, hin Gatisku-fiöll (Ghauts) gánga lángsetis i sudr á vestr-strönd vestra Indíalands. g, Kákasús-fiallgardr (Caucasus) milli hins Svarta- og Kaspiska-hafs. h, Tárus (Taurus) gengr í gégnum litlu Asíu; í sudr þadan gengr Líbanon og Antilibanon á Sýrlandi og Ararat í landnordr í Ermlandi.

Flest eru fiöll þessi og mörg önnr í Asíu þakinn snió og jökli, bædi sumar og vetr.

Asía er allvagskorin; hverfa þar inn hafsbotnar og firdir miklir af meginhöfum. Þeir merkustu eru: Arabiu-botn eda Raudahafit (den arabiske Bugt), er skerst inn

milli Arabíulands og Afriku. Mynnit er ei allbreidt og kallast Bab-el-Mandeb ↄ: grátport; því þar er vandfarin sióleid og skipstapar tídir. Austar gengr Persabotn (den persiske Havbugt) inn af tédu hafi i útnordr. Mynni hans heitir Ormus-sund. Bádir hverfa meginfirdir þessir inn af hafsbotni miklum af Indía-hafi, er kallast Arabiu-haf, milli Afriku og vestra Indíalands. Austar gengr Bengalsbotn (den bengalske Bugt) af tédum útsæ, milli eystra og vestra Indíalands og enn austar Siams-fiordr (den siamske Bugt). Af Kyrrahafinu gengr sydst Tonkinsbotn inn, vid takmörk Kínaríkis og Eystra-Indíalands; þá Gúlahafit, eda Kóreu-botn, af hinu kinesiska-hafi, (millum Kóreu og Kína), og hin ockotski hafsbotn nordast milli Kamskatka og meginlands. Þessir eru hinir merkustu hafsbotnar fyrir utan þá, sem ádr eru nefndir.

Auk Sundsvidarsunds, Ellipalta og Kaffasunds, er skilia Evrópu og Asíu, Bab-el-Mandebs, og Ormus-sunda, sem ádr er getit, eru þessi sund i Asíu: a, Berings- eda Cóks-sund, er atskilr Asíu og Ameriku; þat er 13 milr at breidd. b, Kóreu-sund, milli

Japans og Kóreu; c, Súnda-sund, millum eyanna Súnda og Java; d, Malakka-sund, er atskilr eyuna Súmatra og skagan Malakka og e, Palk-sund, milli eyunnar Selan og Kórómandelstrandar.

Merkustu stórfljóta í þessari heimsálfu skal síðar gétit verda.

Þrír eru þar landsœir mestir nl. Hit Káspiska-haf (Mare Kaspium), á takmörkum Rússalands, Persalands og hins fría Tartaralands. Þat er hit stærsta stöduvatn í heimi, nl. 6000 ferh. mílr at víðáttu. Í því er vatnit, einkum þá frá landi og á rósum dregr, salt sem siór og víða gall-dámat. Í þat renna margar ár og vatnsmiklar, en eingar úr því, svo mönnum sé kunnugt. Í því er fiski afli mikill og góð veidi. Þat hafa sumir menn fyri satt, at þessi afarmikli landsiór, Svartahafit og vatnit Aral, (er liggr nokkut austar) hafi í eldstu fornöld áfast verit. Í austr frá Aral-vatni er landsiór sá, er Baikal kallast.

Landsleg og fiallgardar greina heimsálfu þessari í 3 meginhluti, nl. Nordr-Asíu (Rússaríki í Asíu eda kalda Svíþióð); Mid-asíu eda hina hálendu Asíu (Tartaraland, Kalmúkiit, Mongóliit, Tíbet og Kína) og Sudr-

Asíu (Tyrkialand í Asíu, Arabíu-ríki, Persa-land, Indíaland og Eylandin).

## I. Rússa-ríki í Asíu (det asiatiske Rusland).

(Siá síðara parts aðra deild frá blaðs. 39 til 49).

## II. Tyrkialønd í Asíu (det asiatiske Tyrkie; Turcia asiatica).

Þau liggia fyri vestan Persaland, og fyri norðan Persabotn og Arabíu-ríki; at vest-anverðu marka Miðjarðar- og Grikklands-haf, heim takmørk, en Svartahafit hit nyrðra og Rússlands landeignir. Þau eru nokkut yfir 24000 ferh. míl. at víðáttu. Tárus (Taurus) er hinn mesti fiallgarðr í þessu ríki; frá hønum gengr Líbanon og Antilíbanon í suðr fyrir botni Miðjarðarhafs; en í landnorðr frá hønum gengr Ararat.

Þessi eru þar fliót merkust: 1. Evphrat eða Frat (Euphrates) og austar. 2.

Tiger (Tigris); þau koma bædi frá Ermlandi, falla í laudsudr og renna saman fyrir sunnan Bagdad; verdr þá af þeim fljót eitt mikit, er kallast Skat-el-Arab og fellr í Persaboтn. 3. Oronts-a (Orontes) fellr undan Líbanon í vestr og rennr í Midjardarhafit. 4. Jórdan fellr úr vatni því, er Phiala kallast, rennr igegnum Genesaret-sió og at lyktum í hit Dauda haf. 5. Meinder, (fyrr. Mæander) fellr í Grikklands haf. 6. Saukara (Sangarius) og 7. Kisil-Irmak (fyrr. Halys) í Svartahafit. Markverdustu stoduvon eru: hit Dauda haf í Gydingalandi; þat er 12 mílur at lengd; í því er vatnit þykkt og salt miøg, biki og brennusteini blandit. Salt-vatn mikit, er Beiskur (Beis:her) kallast í Karamannía og Van-siór í Ermlandi.

Tyrkialøndum í Asíu er skipt í 6 landsálfr, nl.

1. Litla-Asía (Anadoli eda Natolien; ford. Asia minor); þat er allmikit land (12700 f. m. med 6 mill innb.) og á 3 vegu umflotit nl af Midjardarhafi at sunnan, Grikklandshafi at vestan og af Svartahafi at nordanverdu. Þessi meginskagi er greindr í 5 jarlsdæmi (Paschaliker) nl.

a, Hin eiginliga Natólía, vestast og allángt austr med Svartahafi; þar eru þessir stadir: Smyrna (á tyrku. Ismir) vid Grikklandshaf; þat er afarforn borg og hinn audugasti og mesti kaupstadr í Tyrkialøndum. Þar eru 120,000 innb. ásamt Evrópúmonnum, er allir búa í stræti

hvi, er kallast Fránka-stræti. Í landnordr þadan er Búrsa (Prusa) undir fiallinu Olympus; þar eru 100,000 innb. Austar og sunnar og nærhæsis mittlands er Angóra (Ancyra) mikill kaupstadr med 150,000 innb. Þadan flytst hit svokallada Kamelgarn er menn spinna af hári geit-slár nokkurs, sem kénnt er vid stad þenna.

Vid Siávidarsund, gagnvart Miklagardi er Skútari (ford. Chrysopolis); þar eru hinir mestu og vegligustu legstadir Tyrkia. Karahissar er stadr undir eldfialli med 60,000 innb. Ismíd (Nicomedia) hiá vidkéndri vík af Marmórum-sió med 30,000 innb. Isník (ford. Nicæa) er nú á dögum litill stadr vid stöduvatn, og í sudr frá Ismíd.

Vid Ellipalta eru kastalar 2, er veria sundit og kallast Dardanellar. Skamt þadan er Ida-fiall. Í grend vid þat lá Trójuborg.

b, Í Karamanníu x:, hvorin ættmanna-landi, er liggr fyri sunnan og austan Natólíu, er Konía (ford. Iconium) vid stöduvatn nokkurt; þar var á midöldum aksetr hinna seldiskúkslu Soldána. Í landnordr þadan er forn borg, og mikil, er Kæsaria (Kaisarieh; ford. Cæsaria) kallast. Í vestr frá Kónía, er Ladikía eda Ládik (ford. Laodicaea) heitir; þat er nú litill stadr.

c, Í landsálfunni Adana, sem liggr vid nordaustr hornit á Midjardarhafs botni, er Tarsus; þar er Páll postuli borinn. Í austr þadan er Adana; þar er svo heitt á sumrum, at bæarmenn allir flytia í skóga

— og lítill stadr er Messis (fyrr. Pyramus) heitir.

d. Í landsálfu þeirri, er Merasl heitir og liggr fyrir austan Karamanníu, er samnefndr stadr allmikill — og Malatia (forð. Melite) vid Frat vestanverdt; þat er forn, mikil og nafnkunn borg, er stendr á fögru slettlendi og er umkríngd öllumegin af fiöllum; þar eiga Persar mikil kaup.

e. Jarlsdæmit Amasan, er liggr vid Svartahafit sunnanverdt, og fyrir austan Natólíu; þat greinist í 2 landsálfr, nl. Sivas (fyrr. Pontus) hit vestra, og Tarabósan hit eystra. Í Sivas er samnefndr stadr, er fyrr. hét Sebaste; þar sitr grískr erkibiskup — og nokkut nordar allmikil og fiölmenn borg, er Tókat heitir. Í útnordr þadan er Amasía í fögru hèradi; þar er vínyrkia best í Litlu-Asíu. Þar er Strabó borinn.

Í Tarabósan, er fyrrum kalladist Trapezúnt og var um tveggia hundrad ára tíma keisaradæmi, liggr samnefndr stadr, er ferdum hét Trapezúnt (á frönsku Trebisonde; Trapesus) vid Svartahafit og á flötum milli tveggia hárra kletta; borg þessi er enn allmikil, en þó miklu minni enn fordum, þá hún var keisarasetr; þar er sigling mikil, allgód höfn og ardsöm kaupverslun — og 15000 innb.

Þessar ern eyar þær, er liggia fyri sunnan og vestan Litlu-Asíu. a. Kypr (Cypern; Cyprus), í nordaustr-horni Midjardarhafs eda í Jórsalahafi, og 15 mílr undan Litlu-

Asíu strønd og nærhæsts vidlíka lángt í vestr frá Sýrlandi. Þat er allmikit eyland nl. 33 milr at lengd í austr og vestr, 16 milr at breidd og 393 f. m. at vídáttu. Þat er fiøllótt og deilir því fiallgardr í tvo parta, hinn nyrdra og sydra. Þar er mikit afl hita á sumrum og svo mikill kuldi á vetrum, at eyarmenn verma sig vid eld; er þat eindæmi í þeim hluta heims, er jafnlángt liggr frá Midjardarlínu. Loptslagit er innlendum heilnæmt, en útlendum óhollt.

Mittlands á ey þessari er Nikósía eda Lefkósía høfudstadr med 15000 innb. þar er atsetr jarls þess, sem yfir eyna er settr og grísks erkibiskups heimili. Á austrstrøndinni er býr sá, er Famagústa (fyrr. Arsinoe) heitir, í grend vid eptirstødvarnar af hinni fornu borg Salamis. Sunnan fram á eyunni er Larnika eda Larnaka; þar er biskupsstóll, mikil sigling og hin mesta kaupverslun á Kypr; skamt þadan eru leifar af Citium. Vestar er forn borg, er Bafsa (fyrr. Bafia eda Bessa) heitir; þar andadist Eyrikr Danakonúngr Sveinsson. Ey þessi er vída forkunnar føgr og frjófsøm, einkum þar sem nógr er vokvi í jørdu, en þat er ei hvervetna, því fá og svo litil eru þar rennandi vøtn, at flest þorna þau upp á sumrum. Á eyunni er vínyrkja allgód, bómullar- og silki-afli og allmørg giædi, er eyarmenn, sem Cypriótar kallast, ei hafa dugnad til at hagnýta sér og sem árliga fækka vegna ánaudar

þeirrar og ofrikis, er þeir sæta mega af ill-ráðum og grimmum harðstiórum. Evarbúar eru hérumbil 60,000 at tølu ámeðal þeirra eru 37000 Grikkir. Í vestr frá Kypr og 3 milr frammundan suðvestr-horni Litlu-Asíu er: b. **Rhódus** eða Róda (Rhodos, Rhodis; Rhodus); hún er 20 ferh. milr at stærð, friófsöm og víða fiöllótt; þar eru 37000 innb. Þar er stadr sá, er **Rhódus** heitir; þat er allfiáligr og víggyrðtr stadr, jarls heimili og erkibiskups-setr. Í austr frá Rhódus og nærri meginlandi er lítil kletta-ey, er **Castel Rossó** heitir; þar stendr kastali nokkr á kletti, er frædibækr Nordmanna kalla **Raudakastala**. Í útnorðr frá Rhódus er, c, **Stankió** (Stanchio eða Insola longa; fyrr. Cos; af Nordmønnum kallað Kú); hún er 17 mílr ummáls og var nafnkunn í fornøld. Þar er samnefndr stadr. Í útnorðr þaðan er d, **Patmó** eða **Palmósa** (Pathmos); hún er 12 milr ummáls, þurrlend og giædalitil. Þar er lítill stadr, er **Pathmos** heitir, á fialli; þar er klaustr, helgat Jóhannesi postula, er þángat var útlægr giørr; þar eru einnin nunnuklaustr og nafnfrægr skóli. Allir eru eyar-menn grikkir at ætt. Nordar er e, **Nikaría** (Icaria), þat er lítil ey, fiöllótt og skógivaxinn. Austar og 3 mílr undan meginlandi er f, **Samos** (á tyrkn. Susam-Adassi); þat er fagurt eyland og friósamt. Þar er stadr, er **Kóra** heitir, á sama stað, er hinn forni høfudstaðr eyar þessarar, **Samos**, stóð. Flestir

eru eyarmenn grískir at kyni. Í útnorðr þaðan er g, Skíó (nú Saki-Adassi; forð. Chios); hún er 24 ferh. mílr. at stærð og hin best yrkta ey í Grikklands hafi og einkar auðug af ýmsum gæðum. Á austr-strönðinni er samnefndr staðr, allmikill og snáligr, með 40,000 innb. Í landnorðr þaðan liggr ey allmikil, skamt undan landi, er h, Mytilene (Metelino; forð. Lesbos) heitir; þat er einhvör hin mesta ey í eystri hluta Grikklands hafs og er 36 mílr ummáls. Þar eru víða skógivaxnar hæðir, mikill kornvöxtr, olía og staðr, er Castró kallast. Norðar er lítil ey, er i, Tenedos (á tyrkn. Bogdscha) ei allángt fyri sunnan Ellipalta, skamt frá meginlandi og gagnvart hinni fornu Trójuborg. Þar er mikil víngyrkia og samnefndr staðr. Allar þessar 9 eyar, sem nú eru taldar, auk margra minni, liggia í Grikklands hafi (Archipilagus, er Tyrkir kalla Hvíta haf) í roð norðr með vestr-strönd Litlu-Asíu. Þær liggia allar undir jarls-dæmi þat, er Kapúdan Paska (Stór-admírállinn) hefir fyrir at ráða. Smá-eyar nokkrar, 9 at tölu, liggia hit nyrðra í Marmóru-sió, við syðri enda Siávidarsunds (Bosphorus) og skamt frá Miklagarði, er Printz-eyar (Demmonesi) kallast; þær eru forkunnar fagrar, einkar heilnæmar og harla auðugar af margskonar ágiætum-gæðum og ávöxtum. Þar eru lystigarðar margir, er höfðíngiar og auðmenn í Miklagarði eiga og búa í á sumrum; fióta þar þá af mönnum, er þángat sækia víðsvegar frá

bædi til heilsubótar og skémtunar, því þar er þá gledi mikil og leikspil. Hin mesta og merkasta af eyum þessum er Prinkipos (Papadonisia eda Prestsey); hún er allra þessara eya fegurst, frióssömust og fiölmennust. Þar er samnefndr stadr, bygdr á griska vísu. Sunnar í tédum sió er ey sú, er Marmóra heitir, af henni tekr sær þessi nafn. Þar er góð vínyrkia, eins og í flestum af eyum þessum.

2. Sýrland (Syrien, á tyrkn. Al-Scham) liggr fyri botni Midjardarhafs og í milli þess og Evphrates. Þat er 2300 f. mílr.

Sýrland skiptist í 4 jarlsdæmi (Paschaliks), sem kénd eru vid Halep, Tarablus, Sætt og Damascus. a, Í Haleps-jarlsdæmi eru þessir stadir merkastir:

Aleppó (Haleb; ford. Berrhoea), stendr á hædum og sléttlendi, (er nær alt til Frat austr) nærhæfis í greindu jarlsdæmi midiu. Þat var høfudborg allmikil, fegr utsýndar og miøg fiølmenn; þar var afarmikill kaupskapr og ógrynni af tyrkneskum, indiskum og persiskum varníngi samankomit; en þann 13da Augusti 1822 hrundi mikill hluti borgar þessarar í grunn af ógurligum jardskiálfta, svo lángt mun um lída, uns hún nær sínum fyrri blóma. Vestar og vid Orontis-á er Anþekia (Antiochia; nú Antakia) 5 mílr frá sæ; þat var í forn-

old mikil borg og rammliga umgirdt med múr- um og dýkium. Höfn stadar þessa er i Or- ontis-mynni og vid þat þorp nockurt, er Sveidia heitir, og fyrrum var sjáligr stadr og víggirdtr (Seleucia Pieria). Nordar á strondinni er kaup- stadr, er Skanderon eda Litla-Alex- andria heitir; þar er verslun mikil, en mjog óheilnæmt loptslag.

b, J Tarabluss-jarlsdæmi, er liggr sunnar á strondinni, stendr borg undir Liba- nons-fialli vestanverdu og skamt frá sæ, er Tara- bluss (Tarabolos, Tripoli; Tripoli de Soria; ford. Tripolis o:. Þríbyrgi) heitir; þat er all- mikil og rík borg med 16000 innb. Nordar á strand- inni er Latakia (ford. Laodicæa); þar er verslun allmikil og margskonar leifar frá forn- old, jardhús mikil o. s. frv.

J nyrdri hluta fiallbygda jarlsdæmis þessa til Líbanons sudr býr og idkar jardyrkiu lítil þiód, er Ansariar eda Nazirear kallast; þetta trúmanna félag hóst á 3 old og hefir ýmsar trúarsetningar fyri sig og frábreytta sidu. Þann hluta Líbanons, er Kesrúan heitir, byggir annar flokkr, er Marónitar kallast. Þeir eru at nokkru leyti páfa hádir og lúka jarli árliga áqvedinn skatt; en lisa þó at mestu frítt fyri ofrádum hans. J Kesrúan er lítill stadr, er Zébail (Dschebail ford. Bib- los) heitir, med 6000 innb. Sunnar rennr

litil á til siáfar, er Ibrahím kallast,en fordum hét Adonis; hún verdr' ástundum raud at lit og høsdu, fordum hiátrúarfullir menn vatn hennar til morgshattar hiegóma, er blektu hina tásródu. Þar er einnin høfudbýli hinna svokølludu Jóhannis-kristnu, er Markab heiti og Kennabin, hofudstadr Marónita; þar er klaustr þeirra og biskups setr.

I fiallbygdunum, er liggia i og nálægt, þessu jarlsdœmi, høfdust þeir í fornøld illrœmdu Ismaelitar eda Hassasinar vid. Nú er veldi þeirra og ríki litit. Þeir hafa á seinni tídum bætt rád sitt og fá nú ordstýr af ferdamønnum fyri géstrisni, blidlyndi og gudrœkni.

c, Jarlsdœmi þat, sem kennt er vid Sætt eda Said, liggr fyri sunnan hit sídstnefnda, fyri botni Midjardarhafs og er, ásamt nokkrum hluta af Júdalandi, hin forna Phønicia; þar er: Akursborg (Akre edr Akka; St. Iean d' Acre; ford. Ptolomais) vid sæ; hún er rammliga umgirdt og sterk, en ósøgr; þar er allmikil kaupverslun og 15000 innbúar.

Frakkar settust um borg þessa 1799, en máttu fráhverfa at svo búnu. Skamt á brott er fiall þat, er Karmel kallast; þat er 18 mílr ummáls, hvervetna grœnt til at siá og vída skógivaxit; á því og umbergis er allmikil bygd og klaustr hinna svokølludu Karmelíta; þeir eru múnkar, er segia fiallit heilagt vera. Þat gengr sem múli í siô framm.

Nordar á strøndinni er Sætt (Said; ford. Sidon). Þat var fordum nafnfrægr og mikill kaupstadr, og er enn allsiáligr og merkr býr med 5000 innb. Á eyu frammundan stadnum er kastali og yfir sundit liggr mikil brú og fögr. Skamt fyrir sunnan Sætt er Súr (ford. Tyrus), nú óáliáligt kauptún; þat var í fornøld einhver hinn frægasti og audugasti kaupstadr og høfudborg í Phøniciu í 1000 ár.

Sættarmenn, eda Sídóníar løgdu grundvøll Tyrusborgar hérumbil 2500 árum eptir heimsins skøpun; vóx hún brádum at stærd og fiølmenni og kalladist hin gamla Tyrus. Medan Nebúkanezar í 13 ár umsat borg þessa, bygdu borgarmenn stad á eyu skamt undan landi og fluttust þángat; hét sá stadr Tyrus á eyunni; var þat mikil borg og føgr og um lánga æfi høfudból kaupskapar í heimi, uns Alexander hinn mikli eptir lángvinna og hardsótt umsátr brendi hana í brædi sinni; en lét þó á ný byggia borg á nesi á meginlandi, sem fyrrgreint þórp nú stendr, er kalladist Tyrus á nesinu; þessi stadr vard at sønnu allmikill kaupstadr, en nádi sér þó aldrei sídan

Nordar er kaupstadr, ei allítill, er Barút eda Bairút (ford. Berytus) heitir, í føgru og frióssømu landsplátsi og. vid. sæ. Þar eru 8000 Grikkia og Marúnita, og stólar biskupa þeirra. Nordast í þessu jarlsdæmi er Balbeck (Baalbek; ford. Heliopolis); þar eru merkverdar eptirstødvar af hinu vidkunna Sólarhosi; — en sydst er Nazareth (nú Nasra); þat er nú lítill stadr; þar eiga Grikkir eina kyrkiu og kathólskir mikit og umgirdt Franzisk-

ana-klaustr; í því er fögr kyrkia og í stadnum gamall kastali. Nordar er Saphat (ford. Bethulia í Galilea), er hrundi í jardskiálfta 1799, en er nú ánýbygdr, en þó lítill stadr. Þar búa Gydíngar, er idka afarmikla raudavínsyrkiu og hafa þar skóla á helgum stad, er þeir svo kalla.

Hér ber at géta lands þess, er Drúsaland kallast; þat er skeytt vid sidstalit jarlsdæmi og liggr vid þat austanverdt. Drúsaland kalla menn nefnil. alla bygd á og vid Líbanon og Antilíbanon og er þar land 55 ferh. mílr at stærd. Innbúar þess, er Drúsar (eiginl. El Dursi) kallast, eru 160,000 at tölu, ásamt 40,000 vígra manna. Stór-Emir er höfdíngi þeirra og er hann skáttskyldr Akursborgar jarli. Medal Drúsa búa Grikkir, Katholskir og Marónítar í smáum og stórum þorpum og bændabýlum, í og nálægt tédum fiallbygdum og lifa af akuryrkiu og fiárrækt. Höfudstadr lands þessa og heimili landshöfdíngians er hrörligt þorp, er Dair el Kamar (þ:. Mánahús) kallast.

Drúsar eru nafntogadir hreystimenn og friálsrædis vinir; þeir eru í öndverdu af Frökkum komnir, er á krossfara-tídum komu farflótta af Júdalandi og tóku sér bólfestu í Líbanons fiallbygdum. Þeir eru starfsamir og þolugir, hiálpsugódir og sterkir. Þiód þessi er allvel

skapi farin, snerrin og hardfeng, gestrisin og greidvikin vid alla, utan óvini, vid þá er hún grimm og hefndargjörn. Hvad trú Drúsa snertir, þá er þat ei í lófa lagit at lýsa henni; því þeir dyljast hennar mjög vid adra; þó hafa menn ordit þess áskynja, at hún er sambland ýmisra trúarbragda, einkum hinna kristiligu og múhamedisku, og saddúcæisku og samaritansku meininga; þeir hlýda tídum kristinna og bidjast fyri med Múhameds trúmönnum, láta skírast og umskérast og játa þá trú, er þeim í þann svipinn þykir best henta; þó hneigjast þeir fremr at Múhamedunum, og veldr því vald þeirra, en fordast þó at eta og drekka med þeim og búa æ yfir hatri til þeirra.

4. Jarlsdæmi þat, sem kénnt er vid Damaskus, liggr fyri austan hin 2 sídstalinn jarlsdæmi og fyri sunnan hit sídstnefnda, hvar þat nær til siáfar. Þar er höfudborg þess, er: Damaskus (Damask; Damascus) heitir, í qvíslum og á forkunnar fögru sléttlendi vid ána Barada, og mitt ámedal hinna fegurstu aldingarda, er ei má yfir siá. Hit ytra er þessi borg herfilig, en hit ynnra lýsa heimkynni þrifnadi og skrautsemi borgarmann; þar eru 200,000 innbúar, medal þeirra eru 25000 kristinna. Smidiur eru þar margar og ýmiskonar gódir verkstadir; einkum fluttust þadan fögr sverd og kordabrandar, er fyrrum vóru í meira afhaldi, enn nú á dögum.

Þar kémr árliga hit helga ferdafélag eda lest (Karavane), ásfundum 40,000 at tolu, og er jarlinn, er þar sitr, skyldr at sá því vistir og 5000 vígra manna til fylgdar til Mekka; kallast hann því Emir al Hadschi o:. fursti pílagríma, — og er hinn gøfugasti sinna jafníngja. Þar eru 200 mosteur (Moscheer) og margar kyrkjur og klaustr.

Nordar er Hama med 80,000 innb., vid Orontis-á; þar er hinn frægi Abulfeda fæddr.

Undir þetta jarlsdæmi liggr hit nafntogada Júdaland eda Gydíngaland, Kanaansland eda hit fyriheitna land seinna hit heilaga land (Terra Sancta), nú sérílagi kallat Palestína (Palæstina o:. Philistaland), en af Nordmønnum nefndist þat Jórsalaland og Jórsalir. Þat liggr sydst og austast á Sýrlandi og marka því eydimerkr takmork hit eystra og sydra, en Midjardarhaf at vestanverdu; þat er 540 ferh. mílr at stærd. Land þetta er á ýmsum stødum fjøllótt, vídast fagurt og þvínær hvervetna frióssamt. Þar er heilnæmt loptslag og heitt, en þó allbæriligt. Merkustu fjøll á Jórsalalandi eru: Hermon vid Antilibanon, Olíufiallit vid Jerúsalem, Qvarantaniu-fiall og Tabor. Á døgum

Krists var laudit hérnamegin Jórdanar greint í 3 höfudparta, nl. a, Júdea, er var allr sudr-hluti landsins, ásamt nokkru af Idúmea'; þar vóru: Jerúsalem, Bethlehem og Jerichó vid Júdafiall, og kaupstadirnir: Cæsarea og Joppe vid Midjardarhafit; b, Samaria eda midhluti landsins; þar var Samaria höfudstadr og Sichem — og fiallgardrinn Ephraim og Garizim — og c, Galilea eda nordrpartrinn, er lá millum Líbanon hit nyrdra og Tabor, sem lá á Samaríu takmörkum og et ásast vid Karmel. Í Galilea vóru þessir stadir: Tiberias (sem eptir Jerúsalems eydileggíng giördist nafntogat heimkynni hinna bókvísu Gydínga) Kapernaum og Bethsaida vid Genezareths-sió, Nain, Nazareth og Kana. Hinumegin Jórdanar eda fyrir austan hana láu þessar landsálfr: Perea ásamt fiallbygdinni Gilead, Gaulónitis vid Genezareths-sió austanverdan, Batanea og Trachónitis.

Innbúar lands þessa eru: Tyrkir, Arabar, Júdar, Samaritar, kristnir af ýmsum trúarbragda-félögum, Kaþólskir, Grikkir, og Armeniar. Þeir merkustu stadir í Palestína nú á dögum eru:

Jerúsalem eda Jórsalaborg (ford. Salem; Hierosolyma, seinna Ælia Capitolina; á tyrkn. Soliman og á arabisku El-Kods o:. helgidómr); hún stendr á 4 hædum (Zion, Adra, Móría og Bezetha), vid Kedron og gagnvart Olíufiallinu; hún var í fornöld einhver hin mesta, fegursta og nafnfrægasta borg á Austrlöndum. Ferhyrndir múrveggir og turnar marka hit forna borgarstædi og ummerki margbreyttra innbúa votta jafnframt um forna fegurd og helgi stadar þessa. Tóptir og aurmál minna nú at eins á, at þar stod fordum borg, er um lánga æfi var höfudstadr Júda og adalból veldis þeirra og sem kristnum mönnum hefir þótt mikils umverd fyri sakir atburda þeirra, er þar urdu á Krists hérvistar dögum.

Margar eru þar menjar og vottar þessara atburda; en ei þykir ödrum enn kathólskum trúmönnum rádligt at trúa því öllu, er múnkar og pálmarar hafa sagt um þessa hluti. I Jerúsalem er armeniskt klaustr, allmikit og umgirdt, í því géta 1000 pílagrímar í senn fengit húsnædi; þar var og krossins kyrkia mikil, er kalladist Krists grafar musteri; hún var 126 skref at lengd, og 70 at breidd; eptir sögn múnka, vóru þar innan múra allir þeir stadir og hlutir, er markverdir og helgir giördust vid krossfestíng, greptrun og uppreisn Krists. Þessi kyrkia brann 1808.

Þar er einnin spítali, er Frakkar hafa giøra látit, kastali, er Davídsborg heitir og kyrkia með kapellu undir jørdu, þar er fæðingar stadr Krists varðveittr, játan o. s. frv. Innbúar stadar þessa 20,000 at tølu. Tal þeirra manna, er af andakt heimsækia þenna heil. stad, sækkar árliga og jafnframt þreyngir at kosti stadar manna, er æ finna særri kaupendr talnabanda, róðukrossa og helgra dóma, er þeir giøra og vigia við Krists grøf.

Tvær milr í norðr frá Jórsalaborg er Bethlehem, Krists fæðingar-stadr; þat er lítil borg og stendr á hæd; merkasta bygging þar er Maríu-kyrkia, mikit musteri og fagurt; í henni er lítill askymi, þar seigia menn at Kristr sé borinn. Þángat sækia einnin margir pálmarar, er þar og allmikil sala helgra þinga. Við Miðjarðarhafit stendr lítill kaupstadr, er Jaffa (ford. Joppe) heitir; þar eru 3 klaustr. Millum þessa stadar og Jórsalaborgar er Rama (Ramlah eda Ramah); þat er allmikill og fiølmennr stadr. Bæarmenn eru flestir Tyrkir og Arabar. Í landsuðr frá Jórsalaborg er Jerikó (Jericho); þat var fordum allsíáligr stadr, en er nú hrorligt þorp. Skamt frá stad þessum er eydimørk mikil, og fiall þat, er Qvarantania (Qvarentena) heitir; þar fastaði Kristr í 40 daga, og hefir fiallit af því nafn tekit. Sex milr í suðr frá Jórsalaborg er Hebron; þat er gamalt, allálitligr og mikill stadr í vinríku landsplátsi; þar búa 12000 Tyrkir, er kalla þessa borg helga, og

8700 Júdar, sem steypa gler. Sex mílr í norðr frá Jórsalaborg er Naplúsa (Nabolos; Flavia Neapolis, forð. Sichem), nálægt hinu fagra og frjófsama fialli Garizim. Í útnorðr þaðan er Samaría (Sebaste); hún er nú óálitligt þorp; þar eru allmargar fornmeniar, er lýsa vexti og fegurð þessarar á fyrri öldum nafnkunnu borgar. Á ströndinni fyri norðan Joppe er Kæsarea (Kaisarieh; forð. Caesarea Palæstinae); þat var í fornöld mikil borg og føgr, er Heródes hinn mikli lét prýða með mørgum háreistum byggíngum og skrautligu hofi, Augusið keisara til heiðurs; en nú er alt hennar ágiæti svo undir lok liðit at varla má ummerki siá. Fyri sunnan Joppe er Gaza, skamt frá sæ, lítill staðr og kastali. Sunnar er Ludd (fyrr. Lydaos).

At vísu ser landi þessu æ hnignandi at frjófsemi og fiølmenni, og ollir því hyrðuleysi og leðrmennska innbúa þess; þó vex þar enn allvel, einkum þá rigníngar hafa til hlýtar gengit á vetruin: hveiti, bygg, baunir og ýmsar fleiri korntegundir, bómull, ágiætir ávextir og víuviðr. Þar er einnin allgóð fiárrækt. Opt giora eingisprettr þar mikinn skaða. Land þetta fiynr undir oki Tyrkia og er yfir þat settr hefðíngi sá, sem er Aga ɔ: herſforíngi at nafnbót. Skattar og skyldr, er Tyrkir vægðarlaust heimta af innbúum þess, falla í fiod Soldáns móður og Kapúdan Poska eda Stór-Admirálsins.

3. Al-Jésíra (Al Dschesira ɔ:. eya forð. Mesopotamia, þ. e. landit ámilli fliót-

anna); þessi landsálfa liggr fyri austan Sýrland og Arbíu eydimerkr og er at eins nockr hluti hinnar fornu Mesópótamíu, er lá imilli Frat og Tiger og nádi til Persabotns sudr Hún er 1700 ferh. mílr at stærd og greinist í 3 jarlsdæmi, sem kénd eru vid Diarbekir, Mósúl og Orfa ed Ursa. Þar eru þessir stadir.

Diarbekkr eda Diarbekir (ford. Amida) á fløtum vid Tiger; þat er mikil borg og umgirdt med múrum og turnum og kastala. Þar er afarmikill kaupskapr, ágiætir saffians tilreidsluverkstadir og heimili 100,000 innbúa; þará medal eru 20,000 kristinna manna ýmisrar trúar, (t. d. Jacobítar og Nestorianar). Í landsudr þadan er: Mósúl vid téda þióðá vestanverda og á forkunnar fogru og frióssómu sléttlendi; þat er mikil borg og umgirdt med múrum, turnum og dýkium. Borg þessi er miøg óføgr og fornfálig. Bæarmenn, sem eru 75000 at tølu, eru margbreyttir at trú og hattum, sem í Diarbek. Þar eru nafnkunnir bómullar-vefstadir; þadan kémr Músselin.

Gagnvart borg þessari fyri handan ána meina menn, at hin nafnfræga Niniveborg (Ninive) stadit hafi. Þar er nú þorp eitt, er Núna kallast, og nockur aurmál stórkostligra húsakynna.

Ei alllángt í útsudr frá Diarbek er:

Orfa eda Urfa (ford. Edessa); þat er allmikill stadr og stáligr; þar er jarls-setr, og heimili 40,000 innbúa, er sérílagi tilreida mikit og ágiætt saffían-skinn og vefa katún. Þar eru allmargar fornleifar, og skrautligar sölubúdir.

Í Mósúls-jarlsdæmi býr þiód sú, er Iesidiar kallast, umhverfis og í fiallbygd þeirri, er Sindsjar heitir og liggr imillum Orfu og Mósúl. Þiód þessi er undarlig og fáum lík at skapferli og trú; hún er illfeng og slæg, grimm og blódgirug, afar hraust og hardfeng í vopna vidskiptum.

Iesidíar bera svo grimma heipt í brióstí til Tyrkia, at þeir á allar lundir leitast vid at ráda þá af dögum og vinna þeim skada; þykir þeim eckert verk svo stórmannligt sem dráp Tyrkia. Til at verda frægir og ástsælir medal landsmanna, takast þeir bödul-þiónustu á hendr um hríd hiá landshöfdíngiunum í Tyrkiaveldi, og þá þeir þykiast nær sanni atat hafa hendr sínar í blódi Tyrkia, snúa þeir aptr til frænda-haga; gengr þá öll alþýda út ámóti þeim med mikilli glædi og loinfagu, kyssir hendr þeirra og kallar þá sídan afbragd annara manna og landsþiódi.

4. Géorgia (Qvennaland), er heyrir til Tyrkiaveldi, liggr vid Svartahaf austanverdt og er þar áfast vid Tarabósan. Land þetta er 1280 ferh. milr at víddttu, og innbúar þess eru 300,000 at tölu. Þat er fiöllótt miög, sem öll þau lönd er liggia í grend vid Kákasus; þat hefir ýmislig gædi t. d. vín-

við og góða slárhaga. Þar er höfuðstaðr, er Akalzíka (Akelska) heitir, skamt frá ánni Kúr; þat er aðsetursstaðr jarls, sem settr er yfir landit og heimili 12000 margkynjaðra innbúa.

5. Turkómannía, ásamt Kúrdistan og Irak-Arabi, er allr sá hluti Tyrkiaveldis í Asíu, er austast liggr eða næst Persalandi og nær alt frá Georgíu hit nyrðra til Persa-botns suðr.

Turkomannía, er forð. kallaðist Ermland (Armenia), liggr imillum Litlu-Asíu, Georgíu, Sýrlands, Kúrdistan og Persaríkis. Land þetta er 1600 ferh. mílr at stærð og og greinist í 3 jarlsdæmi, nl. Erzerúm, Kars, og Van.

a, Erzerum eðr Arzerum, er þessa mest ummáls. Þar er allmikill staðr og jarls-setr, er Erzerum heitir, ei lángt frá Evphrat-is upptökum. Þar er kaupverslun allmikil stórkostligr kastali, — og 150,000 innb. Austr-takmörkum þessarar landsálfu er allsiá-ligr, víggirðtr og fiölmennr kaupstaðr, er Bajazet kallast.

b, Kars er lítit jarlsdæmi, er liggr fyri norðaustan áðurgreinda landsálfu og við

Persalands landamæri. Þar er auðugr kaupstaðr, er Kars heitir, við samnefnda á.

c, Van, sem liggr við Erzerums jarlsdæmi suð-austanverðt, er einnig lítil landsálfa og tekr nafn af stöðuvatni því, sem fyrr er gétit. Vatn þetta er 12 mílr at lengd og 7 at breidd; í því er veiði mikil og salt vatn; við þat stendr staðrinn Van; þat er allmikill, fólmennr og víggirðtr kaupstaðr og jarlsheimili.

Þessi hluti Tyrkiaveldis á Austrlöndum, eðr Ermland hit forna, er fjöllótt mjög og hvervetna hálendt; þar er vetrarríki mikit og jökull á háfjöllum, er aldrei þyðnar; opt fellr þar snjór á fjöll í Júníó; þó er þar fagurt veðr og hlýtt tíðast á sumrum. Auk hálsa og fjalla, er liggia út frá Kákasus og Táurus og gánga í ýmsar áttir um land þetta, er þar hit nafnkunna Ararat; þat er hátt og þakit snjó hit efra; hlíðarnar eru urðir einar, klettar og gjár, og hvervetna er fiall þetta graslaust og hryllíligt til at siá. Landsmenn segia at Nóa-ørk hafi staðnæmst á Ararat og bera því mikla virðíng fyri því. Ermland er víðast ófrióf-samt og jarðvegrinn tregr til at launa landsmønnum atburði þeirra og ómak; fara þeir því af landi brott og leita sér atvinnu í ødrum Vestr-Asíu løndum. Þeir eru kristnir og hafa 4 yfirbiskupa eða hofuðfeðr (Patriarker); sá gøfugasti af þeim kallast Katholikos eða

þjóðbiskup. Ermlendíngar eru kaupmenn miklir og manna klókastir í kaupum og sölum. Þeir mæla tvennslags túngu, nl. þá almennu, er öll alþýða talar og hina lærðu eða heilögu, er klerkar einir mæla; hún er mjög forn og þúngskilin. Í Ermlandi og víðar um þetta svið í Asíu hefst þjóð sú við, er Turkómanir, Turkómenn (Truchmener) kallast. Þeir eru frá Tartara-þjóðum komnir og eru fáfróðir og litt siðaðir, elska frjálsræði og skeyta ei um lagasetnínga né akuryrkju, en eru, sem vandi er margra þjóða á Austrlöndum, á sífeldu riátli og flakki með hjarðir sínar og hafa uppeldi af fjárrækt. Qvinnur þeirra vinna ullina og vefa refil; en karlmenn giöra ei annat enn reykja tóbak og hirða féð; þeir ríða hvervetna og reiða lensur um öxl sér, eru girdtir söxum og pistólum og eru góðir reiðmenn, hraustir í vopna-viðskiptum og Tyrkjum geigvænligir. Þeir rækja Múhameds trú.

Kúrdistan eða Kjúrdistan (ford. Assyria, Assyrialand); þat er allfagurt land og fiöllótt og liggr fyri sunnan Erzerum, og Van og ímilli Persialands og Diarbekks; og er 1500 ferh. mílr at stærð. Fyri nockrum hluta lands þessa ræðr Bagdads jarl, en yfir nokkut eru Emirir settir til yfirsóknar. Þar er Erbil, (ford. Arbela) höfuðstaðr með 2000 innb. Í grend við þessa borg háðu þeir Alexander mikli og Daríus nafntogaða sólkorrustu og hafði Alexander sigr (331 fyri Krists burð).

Land þetta tekr nafn af Þióð þeirri, er þar byggir og kallast Kúrdar. Þeir lísa við fiártrækt og flytjast um landit með hiárðir sínar og skyldulið og liggia í tioldum; sumir búa í stoðum og þorpum og iðka handiðnir og jarðyrkiu, en hvorugt ferst þeim vel. Kúrdar eru illfengir stigamenn og ræna ferðamenn ollu því, þeir ná; þeir eru sterngir og vaskir hermenn, ófriðir sýnum og viðrstyggiligir, dockir á hárundit og munnstórir, jarpir á hár og smáeygðir og lýsir augnaráð þeirra óstyrilæti og stríðlyndi. Konur þeirra hafa ei skýlu fyri andliti; og er þat þvínær eindæmi á Austrlondum. Þeir trúa á Múhamed, en eru Tyrkium verri at hiátrú og villu.

Í hrióstugri og hárri fiallbygð nær Persalands landamæri býr lítil þióð, er Bilbair kallast; þeir eru hreystimenn miklir og hafa um lánga æfi varist fyri undirokun voldugra þióða á báðar hliðar. Á vetrum flytia þeir á sléttlendit, í grend við Erbil, en at komanda vori hverfa þeir aptr til fialla sinna, og láta þau hlífa sér fyrir ófriði. Astundum hlaupa þeir niðr í bygðina og ræna ollu, er þeir mega með fara.

Irak eða Erak-Arabi (Hit arabiska Erak; forð. Babylonia og Chaldæa; Kaldealand); þat er mikit land (al. 3150 ferh. mílr at stærð) og liggr fyri sunnan Kúrdistan og, Al-Zéstra, fyri austan sidstalit land og Arabíu-eyðimerkr, fyri vestan Persaland og nær alt

til Persaboturs suðr. Mikill hluti þessa lands heyrði til hinnar fornu Mesópótamíu; þat er greint í 2 jarlsdæmi, sem kénd eru við Bagdad og Bassóru.

A. Bagdads-jarlsdæmi er eitthvert hit voldugasta og ríkasta í Tyrkiaveldi; jarlinn, sem þar er settr til yfirsóknar, hefir mikit lið og stríðt; er þess og naudsyn, því opt elta þeir nábúarnir, Tyrkir og Persar, grátt silfr. Þar er:

Bagdad höfuðstaðr, er stendr við fliótit Tiger austanverdt; þat er allmikill, stáligr og nafntogaðr kaupstaðr, með 80,000 innbúum. Umhverfis hann gánga rambygdir múrveggir með turnum og dyki; á ánni er brú og á vestri bakkanum stórkostligar eptirstødvar af hinu forna Bagdad, er alt til 1258 var heimili Kalifanna og høfuðstaðr í hinu vídlenda Arabiu-ríki. Í Bagdad eru ýmsar háreistar byggíngar, einkum hofgarðar jarlssins og herthahúsinn, bænahús og sølubúdir. Borgarlýðrinn, segia menn sé, at þýinu undantekinu, siðaðri, enn í flestum stødum Tyrkiaveldis; þó eru þar vísindi og listir þvínær øllum ókunnar.

Í útsuðr frá Bagdad og við Frat, er allmerkr og auðugr kaupstaðr, er Hilla eða Hella heitir, með 12000 innb.; þar er kastr

ali og varnarlid nockart, aldingardar miklir og múrveggir umhverfis borgina. Skamt þadan eru afarmiklar eptirstödvar og aurmál hinnar voldugu Babilónar, er á fornöldum var mikil og fögr höfudborg í Babylóníu eda Kaldealandi.

B. Bassóru-jarlsdæmi liggr fyri sunnan hit sídstalda og er nú einn höfdingi yfir bádum; þat er láglendt mjög og eru þar grafin síki mörg til at veita burt vatni; Frat hleypr þar á flatlendit á hveriu vori; þar er:

Bassóra eda Basra vid Skat-el-Arab vestanverdt, í pálmavidarskógi og forkunnar fögru, en allóheilnæmu landsplátsi. Þar er mikil kaupverslun og 15000 innb. Borg þessi fer hnignandi at fjölmenni og audlegd.

Í tángunni, þar sem Tiger og Evphrat koma saman, er víggirdtr stadr er Korna heitir; þar heldr Janitsara-lid vörd.

Í landsálfu þeirri er Mardin kallast og liggr fyri nordan Bagdads-jarlsdæmi, undir hvört þat nú liggr, og fyrir sunnan Diarbek, er lítill stadr, er Mardin eda Merdin (ford. Marde) heitir, í fjallshlíd, er veit í sudr; þar er kastali mikill og 12000 innb. af ýmsum þjódum. Þar er atsetr biskups Nestóriana, er þar búa. Í landsudr þadan er Nisibis, (nú Nisibin); þat var íturlig borg í fornöld

og fiölmenn; nú er hún litit þorp og eydi töptir. —

I Tyrkialöndum í Asíu er margbreytt landslag og jardvegr; skýtr því miög í tvö horn um giædi þeirra og kosti; þó má, þá yfir alt er litit, kalla þessi, í veraldarsögunni nafnkunnu lönd, harla góð og giædarík. Loptslagit er hvervetna hlýtt og þægiligt, sumstadar allheitt og óvída óheilnæmt; eingu at sídr geysar þar allopt drepsótt og næm sýki, er leidir únga sem gamla til bana; en því ollir fremr hirduleysi og óþrifnadr landsmanna, enn náttúrunnar edlishættir. Ríki þetta er bædi slatlendt og fiöllótt og þvínær hvervetna einka frióssamt, en vídast illa yrkt. I sydri hluta þess eru sandar miklir á sumum stödum. Siálfskrafa eda þvínær án minnstu mannavalda vaxa þar gnægliga margskonar korntegundir, einkum hveiti og bygg, hrísgrión, rúsínur, vín, ágiætir ávextir manna, vidsmiör, bómull, indigó, saffian, krapp, gallepli, alskonar ágiætt vidr, o. s. frv. Þar eru hestar margir og gódir, nautpeníngr margr og saudfé, asnar og múlar, kameldýr, úlfaldar og silkiormr mikill; hér eru og villidýr mörg, t. d. skakalir og hýenur. I jordu má þar gull finna og silfr, eyr, járn, blý, brennustein, salt, álún, saltpétr, hit svokallada merskúm og fl. er oflángt yrdi hér at telja. Þessi og ótalin giædi vita innbúar þeirra hluta Tyrkiaveldis betr at tilreida og hagnýta sér, enn Tyrkir í Evrópu; þar er vída allgódr silkispuni og bómullar-vefnadr, skinnaverkun og járnsmídiur.

Kaupvèrslun er þar mikil og arðsöm og eru Ermlendíngar og Grikkir fyrir öðrum at kaupmannskap og andlegð; með því Tyrkium þykir hvervetna kaupskapar storfin skérða göfugleik sinn. Merkustu kaupstaðir í þessum löndum eru: Smyrna, Damaskús, Basrá, Mósúl og Angóra.

Skíríngargr. Svo er háttat verslunar atburðum kaupmanna og varnings flutníngi yfir land víða í Asíu, at þeir menn, er marga ýlsbalda eiga, gióra samtök til varnings flutnínga og mælast til samferðar, þá lángan veg skal fara yfir eyðisanda og öræfi (t. d. yfir Arabíu-eyðimerkr frá Aleppó til Bagdad). Þá lestamenn þessir, sem ástundum hafa ulfalda undir áburði svo mörgum hundruðum skiptir, eru fullbúnir til ferðar, taka þeir einn formann eðr oddvita yfir sig, er fyrirskipar um alt, ræðr áfángastöðum og ávalt riðr með nokkra fylgd vopnaðra manna á undan lestinni at njósnast um hvört ei liggi stigamenn fyri þeim. Vopnat fótgaungulið fylgir jafnan lestum þessum; þó hendir þat ei allsialdan, at ræníngiar berá varnarliðit og lestamenn ofurliða og taka farángrinn, en drepa alla sem ei komast undan. Lestir þessar kalla menn Karavaner eða Kjervaner.

Allr þorri innbúa landa þessara játa Múhameds trú; þó er þar öðrum trúmönnum landsvist leyfð, bæði kristnum og Júðum; meðal kristinna má þar telia Grikki, Ermlendínga og Kathólska, er hafa þar kyrkiur og kapellur. Prótestantar eru þar mjög fáir. Höfðingiar

þeir, sem Miklagarðs Soldán hefir setta þar til, yfirsóknar og sem hafa ýmsar nafnbætr (t. d. Beglerbeg, Pascha, Woivod, Aga eda Musselim); þeir eru miøg siálfrádir í landsstiórninni og vaſa í vøldum eptir eigin vild. Innbyrdis eru þeir ei hvørir ødrum hádir og áslundum skeyta þeir litt um bod Soldáns og dann. Innbúar Tyrkiaveldis á Austurløndum eru hérumbil 11 milliónir at tølu og eru þeir frá ýmsum þiódum komnir; þeir merkustu eru: Tyrkir (Osmanner eda Ottomanner, Otmanli); þeir eru miøg áþeckir ættbrædrum sínum í Evrópu; þeir eru þeim minna sviltir at edli, en sásródari og búraligri. Turkomenn ásamt Urúkum; þeir eru Tyrkium allilíkir at morgu. Grikkir; þeir eru at áþndum enn líkir fornþiód þeirri, til hvørrar þeir rekia kyn sitt, en hafa úrætst miøg at sidum, skapferli og menta idkun. Ermlendíngar (Armeniere); þeir eru slúngnir í kaupum og sølum og fégiarnir, en fáir eru þeir er hafi snefil af lærdómi. Fránkar eda hinir kristnu Evrópumenn, er þángat hafa, verslunar vegna, flutt af ýmsum løndum og bólfestu tekit í kaupstødunum vid sæ og uppi landi. Júdar; þeir eru hvervetna siálfum sér líkir; einkum sara þeir þar lítir og eru læduligir og eigingiarnir séníngar. Þar búa einnin Geórgiar og Arabar, Drúsar og Kúrdar, sem ádr er gétit. Þiódir þessar mæla: tyrknesku og tatarisku, grísku og ermlendsku, arabisku, persisku og kúrdisku o. s. frv.

## III. Arabíu-Ríki, (Arabien; Arabia; [Morgenland]; á tyrkn. Arabistan).

Ríki þetta er suðvestr horn Asíu og liggr fyri sunnan þau lönd, er síðst var frásagt og nær alt til þess meginhafs suðr, sem kénnt er við þat og kallast Arabíuhaf; af því gánga hafsbotnar í norðr, er hit eystra og vestra marka Arabíu takmörk og sem áðr eru nefndir. Landit er umflotit á 3 vegu og er áþeckt þrí-hyrníngi at lögun; mun því nafnit, er landsmenn hafa géfit því, nl. Dschesirat el Arab ɔ: ey eða meginskagi Arabíumanna, dregit af vexti þess eða lögun — Þat liggr milli 50 og 80 mælistigs norðl. breidd. og milli 11ta og 30ta austl. lengdar, — er 240 milr at breidd í austr og vestr og 260 at lengd í útsuðr — og 55,000 ferh. milr at víðáttu.

Hit vestra gengr fjallgarðr lángr strandlengis til hafs suðr, og annar, er El-Alred kallast, í austr yfir þennan meginskaga þveran. Í þessu landi norðvestanverðu eru hin nafnkéndu fjöll: Sinai, Hóreb og Sabber. Alt miðbyk Arabíu er þvínær ein afar við

lend sandslétta; í henni liggia allvída fagrir grasdeplar, ámóta og eyar í útsæ. Þar eru at eins smá ár er þorna upp, þá hitar gánga og hvervetna er þar þurrlendi og vatns-skortr illr andkauni.

Utlendir hafa skipt ríki þessu í 3 höfuðparta, er kallast, a, hin lukkuliga Arabía (Arabia Felix); svo kölludu Grikkir hinn fegursta og frióssamasta hluta landsins, nl. ströndina við Arabíuhaf, og ímilli fyrrtédra hafsbotna; b, hin petreiska, er tekit hefir nafn af fornum stad, er Petra hét, en ei af grýttum jarðveg, er sumir meina; hún liggr við Egyptaland austanverdt og fyri nordan Raudahafit og er þessara landsþridjúnga minst (Arabia petræa). Þar er Sinai fiall og vidlénd eydimörk — og c, hin auda (Arabia deserta); svo kalla menn audnir miklar, örhæst og sandslettur hit nyrdra og eystra í landinu. Landsmenn skipta Arabíu-ríki í 6 landsálfr, nl.

1. Hedzas (Hedschas) vid Arabíuhafsbotn austanverdan; þar er:

Mekka, 5 mílr frá tédum hafsbotni og nærhæfis midsvegar á vestr-ströndinni; þat er fædingarstadr Múhameds og helgistadr allra, er hans trú játa; þángat sækir á ári hverju

mikill fjøldi pílagríma, og allir Múselmenn eru skyldir, at minnsta kosti í eitt skipti á æfi sinni, at heimsækia hit heil. hús, er Kaba (Kaaba eða Beit-Allah o: Guðshús) kallast og Múhameðs trúmenn segia at sé allra þeirra húsa heilagast og elðst, er einum og æðstum Guði hafi helgat verit í heimi. Þat er steinhús litit, ferhyrnðt og gluggalaust, er menn segia Abraham høfuðfaðir Gyðinga bygt hafi.

Í því er steinn nokkr allmerkr, er engillin Gabríel hafði með sér af himni ofan og afhendti Abrahami; steinn þessi er hinn mesti helgiðómr, en nú er hann orðinn kolsvartr af synðum mannkynsins. Allir kosta pílagrímar kapps um at koma svo nær steini þessum at þeir géti kyst hann eða at minsta kosti drepit á hann singrum sínum. Yfir kapellu þessari er hvervetna tialdat með svørtum silkiærefli, er Miklagarðs Soldán senðir þángat á ári hveriu; á reflinum standa gullofnar greinir úr Alkórani. Skamt þaðan er litit hús, sem bygt er yfir heilaga uppsprettu, er Zemzem kallast. Hverki mega Kristnir né Gyðingar koma nálægt borg þessari. Þar er kaupskapr mikill og vart 20,000 innb. (en fyrr. 100,000). Wahabitir unnu borg þessa 1803, ræntu þar flestu, er fémætt var, umturnuðu føgrum minnismerkjum og létu eptir sig liótan frágáng.

Ziðða (Dschidda) heitir høfu staðar þessa við Rauðahafit. Þar sitr einn Paska. Hérumbil 60 milr í norðr frá Mekka er:

Medína (Madinah ɔ:. Stadr, — eda Medina al Nabi ɔ: Spámannsins-stadr); þar er ei allmikill stadr og gamall, en allmerkr og helgr. Þar er legstadr Múhameds og hinna fyrstu Kalífa og heimili 6000 innb.

Þángat flúdi Múhamed (622 ept. Krists burd) fyri ófridi þeim, er hófst gégn hanum og þeim mönnum, er hneygdust til trúar hans; telia Múhamedanir árin frá þessum atburdi, er þeir kalla Hedschíra ɔ: flótta. Höfn Medínu er 6 míl. vestar og vid Arabiufiörd, er Jambó heitir.

2. Jemen; þat liggr á sudr-ströndinni og fyri sunnan Hedjas. Þar er

Mókka, mikill kaupstadr nálægt Rauda-hafs mynni. Þar eru 18000 innb. Þadan flytst ógrynni kaffebauna, reykelsis og gúmmí.

Sana er allmikill býr; þar sitr lands-höfdinginn (Iman) og — Beit el Fakí; þar er kaffebauna-sala mest í Arabiu-ríki.

3. Oman; þat liggr á sudaustr-strönd-íkis þessa, þar er Maskat (eda Meskiet). Þar er kaupskapr mikill og 8000 innb.

Í sudr frá Arabiu, sudr-strönd, og ei allángt frá austurhöfda Afriku er eyland þat, er Sókótóra heitir; þat er 20 mílr at lengd, fiskbitt og vida giædalítit vegna dugnadarleysis og vankunnáttu eyarmanna. Þadan

flytst hit besta alóe (aloë succotrina s. socotorina).

4. Laksa (Lachsa) vid Persabotn; skamt frá sæ er þar samnefnt landshöfdingiasetr.

5. Nedsjed; sú landsálfa er fiöllótt og liggr i nordaustr hluta rikis þessa og er föðurland þiódar þeirrar, er Wahabitir eda Weckabitir kallast. Þar er:

Drehieh höfudborg og heimili höfdingia fédrar þjódar, i dal nokkrum, sem er 60 milr at lengd, og sem liggr 130 milr i austr frá Medinu og 160 milr i landsudr frá Jórsalaborg.

6. Eydimörkin; hún greinist i 3 hluti, nl. a, Sýrlands-eydimörk (den syriske Örk) vid Sýrland austanverdt. Þar eru kostuligar eptirstödvar af háreistum og fögrum byggingum mikillar og i fornöld nafnkunnrar borgar, er Rómveriar kölludu Palmyra, en fyrr. hét Thamar eda Tadmor ɔ: Pálmastadr. Þar er nú hrörligt þorp, er Tadmor kallast. b, Eydimörkin vid landsálfuna Al-Zesira vestanverda. Þar er stadr sá vid Evphrates, er Ana heitir — og c, Eydimörkin umhverfis fiallit Sínai, milli Sýrlands og Raudahafs botns. Þar er stadr sá, er Tór heitir. A Sínai-fialli er grískt múnka-klaustr.

Eins og jardvegrinn i landi þessu er ýmisligr, svo er og veduráttin þar miög breytilig. Sumstadar er hitinn nær óþolandi, eink-

um á flatlendinu og eydimerkunum, þvi svo hafa ferdamenn frásagt at svo hefdi þeim fundist, sem jördinn brynni þar undir fótum þeir; sumstadar, einkum hit nyrdra og á fiöllum uppi og í fiallbygdum frýs ástundum og snióar ei allitit; en á ödrum stödum þeckia landsmenn hvergi. Regnvidri gengr þar um árliga, er vidast varir hérumbil 3 mánudi í senn, en ei um sömu mundir hvervetna í ríkinu, þvi í Jemeni rignir ávalt um midsumars skeid, í Omani á útmánudum og á austrströndum ríkisins um midian vetr, o. s. frv. Þá ást hitans er sem mest í Arabíu, blæs þar hinn banvæni Samum (eda Samiel; Smum), er med andheitri brennusteins fýlu drepr alla á strætum og vídavángi er uppi standa og ei leggiast nidr á grúfu, medan hann fer yfir; er þetta almennt verndar-medal vid skélmisdrepi hans og hafa menn þvi þat til marks, at þá þeir siá á nokkurum stad roda mikinn nidr vid sióndeildarhring, muni hans úr þeirri átt ei lengi at bída.

Vída er land þetta friófsamt og audugt af mörgum giædum, einkum þar vatnsleysit ei tálmar gródri; þar fannst gull mikit í forndöld, enn nú hirda landsmenn ei um at leita þess; þar eru járn- og blý-námr, segulsteinn og gimsteinn sá, er Onyr heitir. — Þar vaxa alskonar korntegundir, sikr-reyr, bómull, tóbak, indígó, myrra, gúmmí, margskonar litgras, reykelsi og ylmandi og litfagrar jurtir. Landsmenn idka vínyrkiu med áhyggiu, þótt ei drekki þeir vínit.

Allra triáa ardsamast í þessu landi er kaffétréd, er þar elnast betr enn í nokkru ödru landi og ber hinar bestu kaffe baunir í heimi. Amedal dýranna í ríki þessu eru hestarnir afbragd at skapnadarfegurd, fiori og fráleik; þeir eru taldir hesta bestir í heimi. Þeim skipta landsmenn í tvo flokka ul. hina kynstóru og smá-ættudu (Kadischi); á þeim fyrrtöldu hafa Arabiumenn miklar mætr og géta rakit ættir þeirra til fornaldа; med því þeir hafa ættartölubækr miklar yfir kynslód þeirra og jafnódum skrifa upp nöfn þeirra og afmælisdag. Ættarstofn hinna sídsttöldu er ókunnr og er þeim ávalt bönnut samgánga med hinum. Þar eru einnin úlfaldar margir og drómedarar; þeir fyrri hafa 2 en hinir sídari 1 krippu eda búlka og hvorirtveggiu eru þeir nytsamir miög á Austrlöndum; því bædi eru þeir mikil dýr vexti og svo sterkir, at þeir fá í senn borit hérumbil 19 vætta þúnga margar milr vegar á dag um glódheita sanda; þeir þola og vatns at missa, svo dæarum skiptir og eru ei fódurvandir. Þá brúka landsmenn til ábnrdar og hafa fleiri not af þeim enn hér segir. Nautpeningr er þar margr og hefir hann sitluhnúd á herdakampi er vex því meir sem dýrit fitnar; saudsé margt og geitr. Ymiskonar villidýr eru og í þessu landi, t. d. skakalir, hýenur, apar, refar, ljón, tigrar, pyntsvín o. s. frv. Í Raudahafinu eru margkyniud uggadýr og og gódr fiski afli. Alt hagnýta sér giædi þau, sem hér eru talinn, vanrækia landsmenn miög,

því þeir kunna litt listir og handyrðnir og hirða ey um at nema þær af eðrum þióðum; enu þar því hverki veckstaðir né smiðiur) er fullnægt gétt nauðsyniuni landsbúa. Eingu at síðr er þar kaupskapr ei allltill og tøluverð tilsigling, því þángat sækia kaupmenn frá eðrum heimsálfum og eiga þar stórvæg kaup. Hvðan flytst og varningr yfir land á fyrrsagðan hátt. Þeir svokølluðu Banianar (: indiskn kaupmenn) iðka þar kaupverslun, en aðrir ecki til muna. J fornøld vóru Arabar stulir farmenn og fundu lønd; en nú fara þeir at eins með landi framm á smáskipum. Merkustu kaupstaðir þar eru: Mekka, Zidda, Mokka og Maskat.

Allir játa Arabar Múhameds trú, og eru, þótt allsáfróðir séu og fullir hiátrúar og hleypidóma, vægari við þá, er aðra trú rækia, og minna skinhelgir, enn aðrir Múhameds trúmenn, einkum hinir myrklyndu Tyrkir. Þióð-trú þessi skiptist í 2 høfuðgreinir, nl. i a, Súnna, er Omar stiptaði; þeir sem hneygiast til þessarar trúar, (meðal hværra sérilagi Tyrkir teliast og Arabiumenn), álíta allmargar skiringargreinir, er skrifaðar hafa verit um og yfir þeirra heil. bók (Koran o: bók eða Alkoran o: bókin) henni jafnheilagar; þeir kallast rétttrúaðir — og b, Schia, er Persar og aðrir játa, er fylgia trúarsetningum Múhameds dóttnrmanns, Ali at nafni. Auk þessara tveggia trúarbragðagreina telia menn 72 trúmanna sambønd, er meira eða minna víkia frá stiptaranna kénning,

um og reglugiordum. Medal þessara eru Weckabitir; þeir tilbidia einga gudliga veru, utan hinn einasta sanna Gud, hafa Múhameds heilagleik at vettugi og kalla hans tilbidjendr afgudadýrkara, og hata þá fremr enn kristna menn og Gyðinga. At ødru leyti eru þeir Músselmønnum (Moslemim) áþeckir at háttum og tidagiørdum.

Innbúar Aarabíu-ríkis eru hérumbil 11 millíónir at tølu. Þeir eru greindir í kynqvíslir margar og smáþióðir; fyri þeim ráda ýmiskonar høfdingiar, andligrar og veraldligrar stéttar, er hafa margbreytt tignarnøfn og metord; þeir kallast Skerifar, Skeikar, Emírar (: furstar) og Stór-Emírar; og eru vída margir af hinum einum þessara lýdskyldir. Allir þykiast þessir høfdingiar adalbornir og drembast miøg af gøfugleik forfedra sinna; en mest meta menn þó hina fyrstnefndu, med því þeir telia ættir sínar frá Múhamed siálfum. Ei eru í því landi ønnr løg, enn þau Kóran fyriskrifar, er þeim fylgt, sem hvervetna i Tyrkjaveldi, med misjafni vandlæting og á ýmsa vegu og optsinnis samqvæmt sérrádra høfdingia hyggiuviti úrþþdd. Málaferli og þingskøp eru þar stutt, og einføld, málaqarpar eingir né ritud sakargøgn, en refsingar grimmar, t. d. at skélla af hinum sakfeldu skéggit, (er þat ærulepsis straff,) at lemia þeim í iliar med lurkum, o. s. fr. Þar hafa menn og lof at hefna frænda sinna at ósekiu edr at reka blódhefnda. Eptir atvinnu, vegum skiptast Arabíumenn í

3 flokka: a, **Maedi**, þeir eru hirdarar, er mestan hluta árs flytjast um eydimerkr med hiardir sínar og lifa einskostar af fiárrækt; b, **Hadesi**, eda borgarmenn og stada-búar, er leggia stund á handidnir og smídar, þó lakligar séu — og c, **Fellahs**, þeir eru jardyrkiumenn og búa í þorpum og þændabýlum. Medal þeirra kynqvísla, er idka fiárrækt og þvínær hvervetna eru á riátli, eru **Bedúinar** (eiginl. Bedavi :. eydimerkr-børn). Rupl og ránskapr eru þeim hin gèdfeldasta idia og qveda þeir sig til þess fult løf hafa; med því þeir séu hin fyrsta, fremsta og veglyndasta þiód í heimi, og afsprengi Ísmaels, er þola mátti ólög og arfsvik af Abrahami fødr sinum; þykiast þeir því alljafnt heimta skadabætr og hafa fullrétti til alls þess, er þeir handsamat sá. Á leidángrum þeim er þeir giøra margir samt til at afla sér fiár á þeyda vísu, eru þeir hinir vægdarlausustu stigamenn og mórdíngiar; en þá heim kémr géstrisnustu mannvinir, er optsinnis veita þeim þar hinar bestu vidtøkur, er þeir samdægris hafa rænt og illa útleikit. Einkum eru þeir vægir vid þá, er án mótstødu og mótmæla láta laust fé sitt vid þá; flestir búa þeir ávalt í tiøldum og sumir í hellrum og tóptum, einkum í eda nálægt høgum og vatni; þeir andtigna alla, er byggia stadi og bæi eda idka handidnir; reidmenn eru þeir miklir og fara vel med hesta sína, er þeir elska øllu fremr. Þeir eru fáfródir miøg, ósidadir, óstyrilátir og drambvísir og manna latastir, nema til at rída og hirda fénad sinn. Høfdíngiar þeirra eru **Skeikar**

og Emirar og í hvorri ættqvísl er sá fyrstr og fremstr, sem elztr er.

Í Arabíu-ríki hófst á 18 öld nldri voldugr flokkr, þá allmargar kynqvíslir hurfu til þeirrar trúar, er Múhamet Seik, Abd el Wahabsson kendi og útbreiddi með forsiá, hreysti og hugrekki; þær kallast Vahabitir eda Veckabitir (Wahabi, Wachabiter); þeir nádu brádum vidgángi og þroska og giørdust ógnabildir í Arabíu, heriudu þar á tvær hendr, unnu 26 ættqvíslir á sína trú, ræntu Tyrkiur Músselmanna, og hinn helga Karavan og giørdu hit mesta hervirki bædi þar og erlendis; fór svo framm um hríd at ecki stódst fyri hreysti þeirra og ofurhuga, uns Miklagards Soldán, er heitir hefir at veria land þetta fyrir ófridi, baud Bagdads Passa 1801 at búa út her ámóti þeim; en Vahabitir gyntu forsingia þess lids med giøfum til aptrhvarfs, ræntu og brutu stadinn Iman-Hussein og tóku ógrynni fiár úr Alis-musteri, (er Persar giøra pilagrímsferdir til) og snéru heim med afarmikit herfáng. 1806 unnu þeir Mekka, Medína og Zidda og ræntu þar afarfé í gulli og dýrgripum. Loksins fengu Enskir 1809, er gengu í lid med standsmønnum þeirra af verslunar klókskap, unnit nokkurn sigr á þeim vid Persaboti og Egyptalands Passa, Múhamet Ali, 1811, er sendi 3 poka fulla af eyrum þeirra til Miklagards, til jarteikna um 3 unnar orrustur. Seinna þá nockrir bandamenn sviku þá og ýmsar kynqvíslir hurfu frá þeim, unnu Tyrkir alloft sigr í

vidskiptum þeirra, tóku frá þeim borgirnar helgu med herskyldi; þó vordust Vahabítir enn vel og giördu Tyrkium mikinn skada. Árit 1815 báru þeir lægri hluta fyri tédum Egyptalands Paska og 1818 fyri syni hans Ibrahim; létu þeir þá mikinn þorra lids sins og siár, og tvístrudust vídsvegar um Arabíu. Sídan hafa þeir efldst miog at lidi og eru nú á ný ordnir Tyrkium geigvænligir. Beckabítir eru nafntogadir hreystimenn og hinir mestu ofurhugar; manna best þola þeir vos og elli, sult og seiru; heróp þeirra er: trú eda daudi ella! og rydiast svo framm med svo ógurligu afli, at ei fær jafnvopnadr her vidnám. En þá skortir skotvopn og vígkiænsku og hafa því ástundum borit lægri hluta fyri þeim, er betr vita at beita lidi og skotfærunum. Vidrlífi þeirra er hvervetna litit og einfaldt. Hverki reykia þeir tóbak né drekka kaffe; eru þeir í því Múhamedunum miog ólíkir, er neyta hvorstveggia flestum þiódum grádugar. Matbord þeirra eru kringskoriun giæruskinn, er þeir breida á iord og eta liggiandi; þeir bera lodkápu eda ullarkyrtil einn fata og gánga hvervetna berfættir.

Allr þorri þiódar þeirrar, er frá aldaødli hefir bygt land þetta, kallast Arabar; þeir rekia ættir sínar frá tveim adalættstofnum, nl. frá Jóktani Hebersfyni og Ismaeli (er Móses nefnir). Þessar ættir eru þar bestar og ríkastar. Arabar eru almenut medalmenn vexti og vel limadir, en grannir og svo magrir, sem væru þeir skrælnadir af sólarhita, svarthærdir og

brún-eygdir, miúkir og fóthvatir, rakkir reid-menn og gódir skotmenn, heilsugódir og þol-ugir. Af náttúrunni er þiód þessi gódhiörtud og vel skapi farin; en vanrækt uppfóstr og lítil uppfrædíng veldr því, at Arabar ei ná þeim þroska í mentum og mannkostum, íþróttum og ýmsri kunnáttu, er samsvara þykir medsæddum náttúrugáfum; því hverki skortir þá siorugt né skarpt hugargrip. Þeir eru fámálugir og alvorugéfnir, en þó ei svo drundaligir, sem Tyrkir; þeir hlæja sialdgnog kalla þann málsháttt sannan: laung-um hlær lítit vit. Í hegdun sinni og á mann-fundum eru þeir allkurteysir, en brúka fá lotn-íngar-merki. Menn lasta þá fyrir hræsni, slægd og trygdleysi, en þessi missmidi á rádi þeirra hafa innrætst þeim af mannspillandi breytíngum og reglugiördum, en koma ei af ödverdligu lundbragdi. Brádlyndir eru þeir, ef þeim þykir verr, en þó léttlyndir og sáttgiarnir; eig-ist tveir íllt vid og hinn þridji komi at og hrópi: "minnist Guds og spámannsins," er öll þræta á enda kliád; en ei sættast þeir á víg, nema mannhefndir komi fyrir. Flestum þiódum eru þeir gestrisnari; þeir veita bædi útlendum og inn-lendum, er koma á þeirra fund, hin besta beina og sína þeim virdíng, og þyggia ei önnr laun fyrir, enn: "Guds-laun fyri greidan!" Arabar hafa miklar mætr á skéggi sínu og kalla þat heilaga prýdi, med hvarri Gud hafi atskilit karlkyn og kvennkyn; er því rakat skégg hiá þeim hin mesta svívirdíng og skégglevsi þrældóms merki. Ogiptir menn bera snoggvan kamp á efri vör,

en gvongadlr láta þat spretta sem mest má og rækta þat kostgiæfiliga. Ei veit skrillinn háðugligra nidsyrði enn: »drekkr i skégg þér" og sé i þat hrækt, má sá búast vid bana sínum, er giørdi. Arabar eru sparnéytnir og drekka almennast vatn, þvi Koran bannar þeim alla nautn áfengs drykkiar; þó drekkr heldra fólk vín og brennuvín, er Júdar brugga i læmingi. Þar drekka allir kaffe mikit og sterkt, og án skurs og rióma, (sem sidr er til hvervetna á Austrløndum) og reykia tóbak og ástundum hampblód til þeir giørast svinkadir, sem þesdu þeir drukkit áféngt munngát. Kétti trúa Arabinmenn helga vera: þar Múhamet hafdi mikl ar mætr á þeim (og átti sérilagi einn, er hann ann mikit); med þvi hann meinti, at þeir jarteiknudu yfirvegun og íhugan, þá þeir sætu og møludu; þvi vona Arabar, at kéttir muni koma í Paradís og þar næræst vid leifar þinna sullsælu.

Í Arabíu og i øllum þeim løndum, í hvørium menn trúa á Múhamed, er fiølqvæni alþiódligt medal hins loslafama stórmennis, er hefir qvennabúr mikil og skrautlig. Kóranin leyfir sérhvørium at hafa 4 eigin-konr og svo margar ambáttir eda fylgiskonr, sem þeir géta haldit; þó lætr allr þorri alþýdunnar sér nægiast med eina konu. Í tilliti til menta og fródleiks hefir Arabíumønnum allmiøg aptr farit og gyllini-øld þeirra (ni hin 8da og næstfylgiandi aldir) er fyri laungu undir lok lidin, skáldskapar-andinn er þvinær med øllu á brott

flóginn og hin forna mælska gleymd. Í þessu landi er arabiska þiód-túnga og vida annarsstadar er hún tölud á Austr-löndum; er hún nú at vísu miög breytt og briálud í daglegri rædu; hina fornu og hreinu arabisku læra únglíngar í skólum, at þeir skilir fái Kóranin og kénnimenn sína. Þessi túnga lætr vel og er miög ordrík; hún er náskyld hebresku, en þó fegri.

Í Arabíu hafast Júdar vid á ýmsum stödum, einkum í Hedzas fiallbygdum. Sérílagi í Laksa búa Kristnir, er Jóhannis-kristnir eda Sabear kallast. Þar reka einnin ýmsar Asíu-þiódir kaupskap, t. d. Banianar, Parsir eda Gebrar (elds-dýrkéndur); en hvorirtveggiu eru þeir þar í minni metum, en Kristnir og Gydíngar.

## IV. Persaland eda Persidialand (Persien; Persia).

Land þetta var á elðstu fornöldum allmarkverdt, en einkum stód þat med mestum blóma um þær mundir, þá virgángr og veldi þeirra, Grikkia og Rómveria, var sem mest. Nafn þess meina sumir bókvísir menn dregit sé af Perd eda Ferd (á þýdversku: Pferd) hestr, og þýdi: hestaland. Þat liggr fyrir austan Tyrkialönd í Asíu og Persabotn og fyri sunnan Kákasus-lönd eda Rússaveldis landeignir, hit Kaspiska-haf og Tatara-land; en fyri sunnan þat gengr tédr hafsbotn og Indíahaf (Arabíu-haf) og fyrir austan þat liggr Indíalönd og Buckaraland. Persaland er ásamt þeim ríkium, er þartil liggia 59000 ferh. mílr at víddáttu. Hit nyrdra, eystra og vestra eru fiöll mikil og há, og eru sum af þeim þakinn snió, er aldrei þydnar. Þar er og vída þurrlendi mikit og víðlendar audnir, er ei má yrkia, sakir vatnsleysis; hverki eru þar stórfliót, né skipgengar ár, ollir þat þvísrá óhægindа landi og lýdum; þær merkustu ár eru: a, Kúr, (Cy-

rus) og b, Aras (Araxis) norðaſt í Perſa-
landi; þar renna ſaman og falla í hit Kaſp-
iſka-haf veſtanverdt. Sunnar rennr á ſú, er
c, Sedid-rod (o: Hvítá) heitir í tédan ſió.
Í háſudr fellr Syndes í Skat-el-Arab. Í
nánd vid veſtr-takmörk landſins eru 2 ſtödu-
vötn allmikil; kallaſt hit nyrdra Erivan-ſiór
og hit ſydra Urmi, þat er ſalt. Þar at
auki eru þar víða ſlóar, tiarnir og votn, er
verda af lækium og ſmá-ám er ei ná framm
at renna, t. d. Baktegh ians-vatn í Fars
og Koraſan og ſl. í þeim öllum er ſalt vatn
og mikil veidi.

Fyrrum ſkiptu menn Perſalandi í 2 höf-
udparta, nl. Veſtra-Perſaland (Vest-persien) og Eyſtra-Perſaland (Östpersien); en nú á dögum er þat greint í 3 ríki,
nl. hit eiginliga Perſaland eda Íráns-ríki,
er náliga ſamſvarar at vídáttu og takmörkum Veſtr-
Perſalandi eda Veſtr-Perſiu; — og í ríki
tvö, ſem kollud eru Kabuliſtan og Belúd-
ſkiſtan; eru þau bædi áſamt hinn fyrrtédi
auſtr-helmingr Perſalands.

## A. Hit eiginliga Perſaland edr Írans-ríki.

Þat liggr hit veſtra og í milli fyrrgreindra
takmarka á 3 vegu, at nordan, ſunnan og veſt-

an; en fyri austan þat er Kabúlistans-ríki. Þat er 12000 ferh. mílr at stærd; en um fólkstöluna stýtr miög í tvo horn, því sumir segia þar 3 milliónir, en adrir 19.

Ríki þetta skiptist í 10 landsálfr (Provindser) og er yfir hverja þeirra settr höfdíngi sá, er Kan (Chan) kallast at nafnbót. Nú skal telia landsálfr þessar og merkustu stadi.

1. Irak-Adziemi (Adschiemi) eda persíska Irak; er hin merkasta stærsta og eina hvar hin friósamasta landsálfa í þessu ríki; hún liggr í því midiu og nær hvergi til siáfar; þar er:

Teherán núverandi höfudstadr ríkis þessa og heimili landshöfdíngians á sléttlendi og 4 mílr frá uppdregnu eldfialli, er Elvind heitir. Þar eru nærhæsis 50000 innbúar á vetrum, en á sumrum allfáir; því þá flytia allir þadan, er eiga kost á, vegna ofurhita og óheilnæmis. Stadr þessi er afarmikill ummáls, því húsin standa strjált sem víða á Austurlöndum.

Medal háreistra og skrautligra höfgarda og fagurra aldingarda standa þar hrörlig smábýli af leiri giörr; gardr sá, er landshöfdíngin byggir, er nærhæsis 1 míla ummáls og afar sterkligr, vandadr at allri smíd og forkunnar

skrautligr; hit innra glóa stofur af gulli og dýrustu gimsteinum, gullofnum tiöldum og dýrmætum vefnadi; allr er húsbúnadr hinn vegligasti, gulli greyptr og demöntum settr, svo þat hafa þeir menn sagt, er séd hafa híbýli og atbúnad Evrópu konúnga og sídan litu skraut, sundurgérd og afarmikillæti Persakonúngs, hafi þeim glía fyri augu komit, af ofurfegurd. Í sudr frá Teheran og nærhæfis mittlands, er hin forna hofudborg giervalls Persaríkis, er:

Ispahan eda réttara Isfahan heitir, vid ána Senderud nordanverda; þat var um lánga æfi einhver hin mesta borg í heimi, hofudból kaupskapar og lista og gnægdtabúr alls þess, er merkast var og ágiætast í þessu landi. Þar var konúngs heimili og 600,000 innb.; en nú á dogum er mikill hluti borgar þessarar tóptir einar og aurmál; þar eru hérumbil 50,000 innbúar. Nærhæfis midsvegar milli Teherans og Issahans, er Kom; þat var fyrr. mikil borg og fiolmenn, en hefir, álíkt og Ispahan, eyost miog af hernadi og jardskiálfta. Í útnordr frá Teheran er Kasbín, mikill og fiálígr stadr med 25000 innb. Þar eru silkivefstadir miklir og ágiætar sverda-smidiur. Skamt þadan er fiallit Elvind; í því er marmara-náma mikil. Í sudr þadan er Hamadan eda Amadan (fordum Ecbatana) í fogrum dal í fyrrtédum fiallgardi; þat var fyrrum mikil borg og nafnkunn, en er nú litill bær og hrörligr. Í útsudr þadan er Kersmanska, allmikill stadr, en illa bygdr.

2. Aderbiskan, er liggr syri norðvestan sídstalda landsálfu; þat er fagurt land og gott, flslétt og heilnæmt; þat er nokkr hluti hins forna Medialands (Media); þar er Tauris eða Tebris hsfuðstaðr með 10,000 innb. og einhverr hinn auðugásti kaupstaðr í Persaveldi; þar eru margar skrautligar bygg'íngar, ágjætir vesstaðir og fallstycka-steypuverk.

3. Erivan eða hit persiska Ermland, norðast og við Rússaveldis landamæri; þar er staðr, er Erivan heitir, báðumegin við ána Sanghi; þat er forn borg og ósegr.

Skamt þaðan í norðr er vatn, er Erivans-sjór eða Bláa-vatn kallast; í þvi er kletta ey og á henni klaustr, er armeniskir byggia. Priár milr frá Erivan er mikit og auðugt múnkalisi og hsfuðklaustr Ermlendínga er Etsmiazin (Etschmiazin) þ: niðurstigning Guðssonar); þar er heimili oddvita alls kénnidóms á Ermlandi og prentsmiðia; svo mikilet helgi staðar þessa, at allir þykiast Ermlendíngar skyldir þángat at sækia einusinni á æfi sinni. Allr þorri innbúa þessarar landsálfu er armeniskr at kyni og kristinn.

4. Ghilan, ímilli Aderbiskans og hins Kaspiska hafs. Þar er Rascht (Räscht) eða Húsum við téð haf; þar er silkivefnaðr góðr og mikill kaupskapr. Í þessu landi er einhverr

hinn ágætasti silkivasti. Konur í þessari landsálfu er nafnfrægar at fríðleik og iðiusemi.

5. Másanderan, er áfost við síðst-téda landsálfu og liggr við hit Kaspiska haf sunnanverdt. Þar er: Ferrabad, lítill bŷr og gott kauptún við sæ. Þetta land er lágt, þráslagafult og óheilnæmt. Landsmenn eru manna starfsamastir, vel sídadir og gódlyndir; þeir eiga mikil mok við Rússa. Mikill þorri þeirra kallast Kádskarar (: : flóttamenn); af höfdingium þeim, er þeir tóku yfir sig, er sá ættbálkr kominn, er nú rædr fyri Persalandi.

6. Skusistan eda Kúsistan (ford. (Susiana) liggr hit vestra við Tyrkiaveldis tak-mark; þar er stadr, er Skustér eda Suster heitir. Skamt þadan eru eptirstödvar af mikilli borg, er ford. hét Súsa.

7. Farsistan eda Fars, við Persa-botn austanverdan; þat er allmikil og merk landsálfa. Þar er Skiras (Sohiras) höfud-stadr í forkunnar fögru og vínríku héradi, med 30,000 innb. Borg þessi var fyrrum miklu meiri og skrautligri enn nú. Umhverfis hana liggia inndælir aldingardar; í einum þeirra er gröf og minnisvardi þiódskálds Persa, er Hafiz het, og lifdi og létz á 14 öld. Skamt frá Skiras ér klettr eda berg nokkurt, þar vellr upp fágiætt

og nafnfogat balsam, er Mumie kallast. Í greud vid Skiras vex ágiætt vin sem kennt er vid stadinn.

Sis mílu í útnordr frá Skiras finna menn á hæd nokkurri stórkostligar eptirstødvar af mikilli borg og vegligri, er Persepólis (seinna Istakar) hét; þær kalla Persar Dschehil-Minar eda hinar 40 stýtur; á þær er greipt undarligt letr, er einginn hefir á seinni øldum gétat lesit né skilit til hlýtar.

Í vestr frá Skiras og vid Persabotn er kaupstadr, er Abúsker heitir (á frønsku: Boucher; á ensku: Bushire) þadan er sigling allmikil til India. Stadarlýdrinn er arabiskr at kyni; þar hefir Skeik nokkr yfirrád, en er Persa-kóngi skattskyldr. Milli tédra stada er allmikill stadr, er Kasrún kallast; skamt þadan eru fornleisar hins svokallada Júpakastala og í fornøld merkrar borgar, er Dorias hét. Bahrein-eyar, er liggia í Persabotni skamt undan vestr-strøndinni, liggia undir Abuskers-Skeik; umhversis þær eru einkar ardsom perluveidr eda leytr.

8. Laristan, fyri sunnan sidstgreinda landsálfu vid Persabotn; þar er kaupstadr, er Lar heitir, 15 mílr frá sæ; þar og hvervetna í landsálfu þessari er vatnsleysi illt andkanni. Vid Ormússund stendr merkr kaupstadr, er Bender-Akasi eda Gomrom kallast. Þar

eru 20,000 innbúar, sem flestir eru arabiskir at kyni.

Jadar Persalands frá stad þessum til Skat-el-Arab nordr, er Kermesir kallast, byggia Arabar einir, 500,000 at tolu; þeir eru lýdskyldir Persakonúngi, og fylgia merkium hans, þá ófridr er í landi.

9. Kerman liggr fyrir austan hinar á sídsttaldar landsálfr og nær til hafs sudr; mittlands er þar samnefndr og allmikill kaupstadr, er einnin kallast Sirdskan, med 30,000 Parsa, Ermlendinga, Hindúa og Júda.

Í þessari landsálfu eru gódir qvikfiár-hagar, einkar ullargott saudfé og idiusamir inn-búar, er vefa árl. mikin fiolda hinna dýrgyldu herdaklúta. Sudr-strönd þessa lands kalla menn Moghistan (: Pálmaland).

Hér ber at géta eyar þeirrar, er Ormus eda Hormuz heitir; hún liggr í mynni Persa-botns og er klettótt mjög og þurrlend. Portugísar tóku fyrrum bólfestu á ey þessari og giordu þar kaupstad, en Persakóngr rak þá þadan med fulltingi Enskra. Nú er hún eign Arab-innanna og litt bygd.

10. Nockr hluti þeirrar landsálfu, er Kórasan heitir; þat er allmikit land, og liggr fyri austan sudr-enda hins Kaspiska hafs og Masanderans; þar er stadr, er Meskéd heitir og Persar kalla heilagan. Þar er þiód-skáld þeirra Firdousi fæddr.

## B. Kabúlistan eðr Afgana-ríki (Afganistan).

Svo kalla menn nú Austr-Persaland. Þessu ríki marka fiöllin Hindukosk og Paropamisus takmörk hit nyrdra og skilia þat og Tataraland, þiód-áin Indus og Salómons-fiall hit eystra og at sunnanverdu dalr mikill er Bólan heitir og fiöll, er gánga frá Sivistan. Þar eru, auk tédra fiallgarda, mörg fiöll og miklir dalir og sumstadar flatneskjur og sandar. Auk árinnar Indús eru þar mörg vatnsföll; þau merkustu eru: Kabul er rennr í Indús; Amu eda Oxus, er fellr í útnordr í Aral-siö, — og árnar Hindmend, ásamt Belesk og Tarra, er allar renna í stodnvatn mikit hit vestra í ríkinu, er Zare o: sær. (Diara) heitir. Land þetta er Vest-Persiu líkt at lands-kostum og audkønnum, vedráttufari og lepslagi; þar er allvída svo þurrlendt og vatnsleysa svo mikil at ei er þar byggiandi fyri þá sok. Merkustu stadir í þessu ríki eru:

Kabúl vid samnefnda á, hit eystra í landinu, og í fegru og friófsomu héradi; þar er heimili landshøfdíngians og 200,000 innb. Borg þessi er ófegr, en allmikil ummáls; þar eru sølubúdir miklar og vel giørvar, mik-

ill kaupstapr og varnings-safn frá Indíum, Evrópu og Tataralandi; þar búa margkyniadir útlendingar, einkum Hindúar, og eru þeir allir í miklum metum.

Í útsuðr þaðan og í samnefndri landsálfu er víggirdt og fiölmenn borg, er Kandahar heitir, á flötum vid ána Hir; hún er vel bygd, 1 míla ummáls og ferhyrnd; þar reka Hindúar og Ermlendingar mikinn kaupskap. Í þessari borg sitr einnin konúngrinn áslundum.

Í vestr frá Kabúl er Herat (Aria); þat er einhvor hinn falligasti stadr í þessu landi og mikit kauptún, med 100,000 innb. Þar er markadr mikill, er margir sækia. Í sudaustr frá Kabúl og vid ána Kabúl er mikill kaupstadr og fiölmennr, er Piskaur eda Piskavir heitir; þar er ógrynni varnings samankomit frá Indíum, Persalandi, Tataralandi og Kasimíri t. d. dýrligr vefnadr og ýmiskonar vörusmídi, er þaðan flytst víðsvegar um heim.

Hit nyrdra er landsálfa sú, er Balk (ford. Bactriana) heitir; þar er samnefndr stadr, audug borg og fríd.

Innbúar þessa ríkis eru 12 milliónir at telu. Þar búa 4 þiódir, nl. Afganir, Hindúar, Tadskikir (afkomendr Fornpersa) og Tatarar. allra þessara eru Afganir voldugastir og hafa þar ædstu umráð og metord; þeir eru alkunnir af

Persasøgum og høfðu um lánga æfi bûit í Persa-ríki, þá landsmaðr þeirra og herforingi Persa-konúngs, Akmeð Abdalla at nafni, notaði sér styrjaldir og umbyltingar í Persalandi, braut undir sig mikin hluta Austr-Persíu og skiptaði þar þetta ríki, er síðan hefir aukist at stærð og þroska. Fyri því ræðr konúngr, (Schach) er sitr í Kabûl. Tign hans er arftæk, en veldi takmarkat af ráðrikum oddvitum kynqvísl-anna. Afganir ræckia Múhameds átrúnað og eru súnnitar (sem Tyrkir); en lifa litt eptir Alkórans boðorðum og eru hverki trúmenn, né skinhelgir. Þeir eiga stórvæg kaup við indí-anska kaupmenn, Persa og Tatara. Afgana, er einnin kallast Patair, segja menn komna frá Kákasus-löndum. Þeir eru vel vaxnir og þreknir, hraustir og harðfengir og miøg vanir við herhlaup, rán og eliun; þeir eru dramblátir og fullir ofmetnaðar og hafa mentir og siða-betrun at vettugi. Þeir mæla túngu þá er puschtu heitir, og søgð er lík hinni fornu kaldeisku. At nautn og búnaði eru þeir ná-búum sínum hóffamari; en flestum eru þeir hûraligri og ósnotrari í háttum og atvikum.

Undir þetta ríki liggr nú landsálfa sú, er Kaxemir (Kaschemir) kallast og fordum var nockr hlúti Hindústans-ríkis. Þat er víð-lendr dalr, er liggr í útnorðr og landsuðr imilli hárra og snæþakinna fiallgarða fyri aust-an Kabulistan og fyri sudvestan Tibet; hann er 20 milr at lengð og 9 at bredd og renur

á sú eptir honum endilaungum, er Behat eda Jalana (ford. Hydaspis) heitir. Dalr þessi er svo forkunnar fagr og friófsamr, svo inndæll og unadsamr, at sumir kalla hann indianiska, sumir jardneska Paradís eda sældarstad. Þar er einkar heilnæmt lopt og svo temprat, at þar verdr aldrei ofurhiti at meini um sumar, né ofurkuldi um vetr og má svo kalla at þar sé sívarandi vorblída. Ágætir eru þar lands-kostir, gnægd korns, ávaxa, víns og blómstra, medal hverra hinar daunsætu og inndælu rósir, er þar vaxa, eru nafnkunnar og fylla landit med ilm og yndi. Þar er borg, er Serinagur eda Kazémir kallast, bádumegin vid téda elfu og skamt frá fögru vatni; þat er hinn mesti stadr í giörvöllu Afganaríki; þar eru allhá húsakynni, af timbri og steini giörr og þakinn hit efra med grastorfi og gródrsett allskonar aldinum og fiölbreyttu blómi; svo öll er borgin blómstr-skrúd til at siá.

Þar er allmikil kaupverslun og merkir verkstadir; sérílagi leggia menn þar, sem hver-vetna í þessari landsálfu, alúd á herdaklúta vefnad, (er útlendir kalla Schawler) og sem þeir giöra af heimafenginni og tíbetanskri ullu og geitahári med svo mikilli snild, at engin þiód, þó kastat hafi kapps um, hefir til þessa dags komist til jafns vid þá í þessari handidn. Inn-

búar þessarar borgar, (sem eru 200 000 at tölu) og Kazémíringar vinna árliga 80,000 þvílíka herðaklúta og selia hvörn þeirra, eptir stærð, fínleik og lit, fyri 100, 200 og 300 dúkata.

Við fyrrtéð vatn er einkar fagurt umhverfis og í því liggia eyar margar og inndælar. A hæð við þat austanverdt stendr álvegliga musteri, helgat Salómon, Júða konúngi, er landsmenn segia at þángat hafi giört ferð sína og lagt ráð til at veita burt vatni af slóa miklum, er þar var mjög at meini og þá hafi vatn þetta orðit til

Kazémíringa, svo karla sem qvenna, líkams og sálar eðli samsvarar at miklu leyti blíðu lopslags og auðlegð þeirri og fegurð, er náttúran hefir giædt land þetta með. At vísu eru þeir af Hindúum komnir og mæla sömu túngu, sem er náskyld Samskrits-máli; en at frídleik, auðlits skapnaði og lima-lögun bera þeir mjög af nálæga öllum Austrlanda þióðum; þeir eru þvínær hvítir á hörúndit og vel vaxnir, þrifligir og ríóðir, hraustligir og manna fríðastir sýnum. Konurnar eru líkar rósunum er þar vaxa einkar fríðar og blómligar. Hvað viðvíkr lundarlagi og innri eðlisháttum Kazémíringa þá hrósa menn þeim fyri meðfædt góðlyndi og gladlyndi, iðiusemi og hugrekki, hugvit og lagkænsku til lista og íþrótta; en þarámóti sá þeir lastmæli fyrir ósiðsemi, girnd til vellystínga, einkanliga lostasemi, ómettandi ségirni og þá lesti, er þar af fliota; þessari mannspilling hefir óþián og undirokun illfengra hardstióra ollat. Fremr skortir Kazémíringa særi, enn gáfr til menta og fróðleiks.

## C. Belúdsjistans-ríki (Beludschistan).

Land þetta liggr vid Afgana-ríki sudaust-anverdt og fyri austan Laristan og Kerman, fyri vestan Vestr-Indíaland, (undir hvert þat lá) og nær til Indíahafs sudr; þat er fyrst á seinni tídum kannat og kunnugt ordit. Ríki þetta er 8000 ferhyrn. mílr at stærd. Lands-lýdrinn er 3 milliónir at tölu.

Margbreyttr er jardvegr á landi þessu; þar eru fiöll mörg, vída þakin snió og jökli og vídlendar sléttr ímillum, náliga óbyggiandi á sumrum fyrir sakir ofurhita. Fáar eru þar ár, er renna til siáfar en lækir, falla þar margir frá fiöllum ofan og hverfa í sandin, þá þeir ná jafnsléttu; er því vatns skortr vídast í landi þessu. Qvíksandr er þar einn, 65 mílr at lengd og 40 at breidd; hann er miög illr yfirferdar.

Í gégnum sudaustr-hluta lands þessa rennr fliótit Indus eda Sind, er fellr eptir all-miklum dal til siáfar í Arabíu-haf. Þvídd-á þeisi er at vatnsmegni og at því leyti lík Níl-fliótinu í Egyptalandi, at hún á ári hveriu flædir yfir flatlendit, og ber á þat ledin til frióf-gunar; annars er landit vída hrióstugt, sendit og giædalítit. Þar er ofurhiti á sumrum og rigning fialdgiæf þar frá sæ dregr. Rafnbót

høfdíngia þess, er rædr fyri landi þessu, er Kan (Chan), er þýdir: furſti eda ſtiórnari. Hoſudſtadr þar er:

Kelat, þat er mikil borg og landshøfdíngiasetr, — og ſtadr ſá, er Tatta heitir eda Sindi, á ey allmikilli i Indús-mynni. Nordar vid téd ſliót er Hydrabad i einkar ſriófſamri landsálfu, er Sind kallaſt og er ſkattſkyld fyrrgrendum Kani.

J þeſſu landi finſt gull, ſilfr, járn, blý, eyr, ſteinſalt, álún, ſaltpetr og brennuſteinn mikill; þar er og bómull og ágiætt indigó, ſkógr og allskonar dýr og fuglar, ſem tímgaſt á Auſtrløndum. Tvær þiódir byggia land þetta, nl. Belúdſkir og Brahúar; þeir eru hverir ødrum at lunderni og útliti ólíkir og hverirtveggiu greindir i marga ættqviſla flokka. Belúdſkir eru réttvaxnir og vel limadir, idiuſamir og kraptalitlir, døkkleitir og háraſvartir, rángiarnir, diarfir og ſvíkaſt einkis. Þeir búa bædi í ſtødum og tiøldum, idka handidnir og hirda qvikfénad. Brahúar eru ſtuttir og digrir, kríngluleitir og ſlatleitir. Þeir liggia hvervetna vid tiøld og flytiaſt vidsvegar med hiardir ſínar og eru fridgiarnir, ſtarfſamir og hugadir vel. Þeir trúa á Múhamed á likan hátt og Tyrkir. Fyri landi þeſſu rædr høfdingi ſá, er Mohómmed heitir og er hann Kan at naſnbót (fæddr 1781); hann er mannrænuligr og ſidatr vel; en honum er vant þrótts og manndóms til at temia óſvíſna þegna;

er þar því optast sveim mikit í landinu og stokkadrættir.

Í Persaríki er margbreytt loptslag; hit nyrdra er svækia tíd og kuldi og frost um vetr; mittlands er temprat saman hita og kulda, og allheilnæmt. Hit sydra á strøndunum er opt ofurhitinn all þúngbær og vid hit Kaspiska haf sunnanverdt er hráskagi mikill og óhollusta. Sífeldt þurrvidri og regnleysi á sumrum spillir þar miøg gródri og landskostum. Er þar þá svo heidbiart nætr sem daga i samfleytta 5 mánudi, at hvørki sést þar ský á lopti né þoka á fiøllum; þetta ollir mikillar ógiæfu og óhagnadar fyri lýd og land; því þá skrælna tré og aldini og jardvegrinn brennr. Þat hafa þeir menn, er ferdast hafa um Persaríki, fyri satt, at naumliga sé tuttugasti hluti þess yrktr.

Eingu at sídr er land þetta ýmsum ágiætum giædum og kostum búit; þar eru margskonar málmar, einkum kopar, járn, stál og blý. Skortr er þar á skógum og timbri. Þar er saltpétr, brennusteinn, salt mikit, olia, marmari jardarlím þat er Naphta kallast (einkum i grend vid hit Kaspiska haf), bergolia (Mum eda Mumie), er á tveim stødum vellr upp af kletti í Vestr-Persalandi; hún er talin einkar heilnæmt medal, er kóngr og hird hans alleina áskilr sér og lætr vardveita; allskonar korntegundir t. d. hveiti, rúgr og sérílagi hrísgrión, er Persar neyta dagliga; ágiætt vín einkum i grend vid Skiras, Jezd (í Laristan) og Ispahan, vidr sá, er bómull (vidull) vex á, reykelsi, manna, opium,

melónur, safran, krapp, tóbak, hampr, lín, silkurreyr, ágiætt silki (einkum í Ghilan), hin litfögrustu blómstur og rósir, er menn pressa dýrgylda oliu af, o. s. frv. Hestar eru þar margir og sorkunnar vel vaxnir, þeir eru arabiskum hestum fegri at skapnadi, en ei svo stáir né þolnir; þar er þat ei vandi at vana úngheſti; úlfbaldar (einkum einpúkladir), asnar, asar miklar hiardir saudsiár med situ-rófum eda hnúdum og sinni ullu, nautpeníngr margr, er Persar brúka bædi til eriadar og áburdar; svín eru þar fá og léttvæg. Med því í landi þessu eru markønd mjøg ovída, er þat dýraveidi nær eingin; í fiallbygdum finnast hirtir, rádýr, villigeitr og bezóat-hafr; brád-dýr eru þar mørg, t. d. ljón, tígrar, vargar, leópardar, hýenir, skakalir — og birnir, en fáir, hit nyrdra. Margkyniadir fiskar eru þar í sæ, en fáir í ferskum vøtnum. J Persabotni er afar ardsamt perlu-fáng. Fyri sakir þurks og þurrlendis eru þar færri skórqvikindi og ókyndur, enn í flestum ødrum jafn-heitum løndum; þó eru þar eingisprettr um of, snákar og høggormar. Persar eru taldir ámedal Asíu best mentudu þjóda; þeir kunna vel ad akuryrkiu og rækia hana med mikilli alúd; en vatnsleysit ollir þeim ærinnar eliunar og áhuga, er ei þarf vid at hafa í ødrum løndum; þar þeir verda hvervetna at grafa brunna og vatnsleidingar, safna um vetr regnvatni í dældir, stífla rásir þess og veita lækium lánga leid til at vøkva á sumrum

akra sína og eingi. Þar er höfdíngi nokkr settr til umsiónar og giætslu vatnsbyrgdanna, er Emir-Ab o: vatnsfursti kallast. Persar kunna einnin flest handverk, en ei svo vel sem Evrópumenn. Þat þeir lita, er forkunnar fagrt og listverpist tlaudla. Utsaumr þeirra og baldýrunar, list er nafnkunn. Þeir tilreida eintar vel margskonar ledr, giöra allsnotr porcelans-ker og smída sverd manna best, tilbúa pappír, o. s. frv.; en af öllum handidnum Persa ber silkisúninn, er sérílagi lýsir snild þeirra og vandvirkni; allskonar kostuligr silkivefnadr og gudvefur flytst þadan vída um heim og býkir hvervetna afbragd. Á seinni tídum hefir styriöld og ófridr allmiög hnekt tédum íþróttum og kaupverslun landsmanna; þó eiga þeir stórvæg kaup vid adrar þiódir, er þángat sækia, t. d. Englismenn, Hollendinga og Frakka; því hverki eiga þeir haf-fær skip né hafa lyst til fángra sióferda. Siálfir flytia þeir varning sinn of land á úlfbölldum í stórum lestum til Tyrkia-veldis og Indíalands.

Þótt Persum sé vant fulltíngiandi medala til fródleiks og menta-æfingar, eru þeir ei at sídr öllum Asíu-búum skynugri og frödari um marga hluti; þeir eru harla námfúsir, virda mikils vísindi, og listir og leggia stund á hvorttveggia af alúd. Þar eru skólar (Madresse) allmargir; í þeim nema únglíngar at lesa og skrifa, trúarlærdóma og máls-fraedi, arabiska og tyrkneska túngu, mælsku-frædi og heimsspeki eda náttúru-frædi, sidalærdóm, gudfrædi og

løgspeki. Þessar tvær sídstnefndu vísinda-greinir kalla þeir nákomnar, með því at ein er uppsprettan hinnar annarrar, og eru fullkomnasta vísindi Persa; þeir eru eptirlátir taka mark á stiørnum; er sá fródleikr einhvørr hinn ardsamasti og mest metni ámedal þeirra; því varla taka þeir þat fyri sig, at ei rádgist þeir um vid stiørnu spámann, sem þar eru mikils metnir og vel haldnir. Á fyrri og seinni øldum hafa mørg skáld og fræg verit á Persalandi og liódmæli þeirra þótt giørvøllum landslýd hnossgætasta skémtun. Einnig hafa útlendir frædimenn dádst at liódum þeirra og snúit þeim á ýmsar evrópeisskar túngur. Persakonúngar hafa jafnan skáld í hird sinni. Í hliódfæra-slætti og saunglist eru Persar lidt at sér, en þó Tyrkium fremri; en málaralistin er hvørutveggium miøg ókunn, þar Múhameds kénníngar banna þeim allskonar minda-mál og bílætasmídi; þarámóti giøra Persar steinhús og hvelfingar sorkunnar vel og brúka svo litit tré og járn til húsasmída, at varla eru dæmi til í ødrum løndum.

Allir Persar játa Múhameds-trú og heyra til þeirrar høfudgreinar Múhameds dýrkenda, er Skía (Schia) kallast og Ali stiptadi. Persar rækia at vísu margar hiegómligar trúar-reglugiørdir og hleypidóma, en eru þó ei svo skinhelgir né svo fullir ofsa og ofstækis, sem Tyrkir, gégn þeim, er adra trú játa. Tveir eru ædstir kénnimannligir høfdingiar í Persalandi og kallast hvørtveggi Seder; er annar þeirra yppersti prestr, en annar umsiónarmadr kénnidóms.

eigna og inngiolda. Prestar Persa kallast Imams, útleggiarar Al-Kórans Mustir og múnkar og einsetumenn Dervissir, þeir leida lýdinn á villustigu med kukli og slárádum umtölum. Kostgiæfiliga heimsækia Persar legstadi þeirra fedga, Ali og Husseins og halda árliga hátid mikla hinnm sidar vesnda til heidurs í Apríls-mánudi; er þá látaglaumr mikill og hátidabragr um alt land. Í Persa-ríki búa allmorgir Kristnir og Júdar, Zabíar, er kalla sig Jóhannis lærisveina, Ismaelitar og Parsir (Parsis), sem komnir eru af hinum fornu Persum, er bygdu land þetta, þá eldstu sogr giorduft. Múhamedanir syrilita þá miog og kalla þá Gebra og Gáta (Gebrer og Gaurer o:. vantrúada) og eldtýrkara; þeir tilbidia sólina sem ímind hinnar einustu ædstu og ósýnilian veru, er þeir kalla hinn eylífa anda (eda Yerd); þeir trúa: at liósit sé upphaf hins góda, en myrkrit hins vonda og at himintúnglin séu bygd af skynsomum verum. Menn segia at þeir tilbidji eldin; en siálfir neita þeir því, en segiast álíta hann sem ímind hins óskilianliga anda; þeir bidiast ávalt fyri vid eld og letia vardmenn á helgum stodum, er þess skulu giæta, at hvervetna logi eldr sá á skidum, er Zóróaster (eda Zerduscht) qveikti fyrstr manna. Hann reit einnin bók þá, er Zend-Avesta (o:. hit lifandi ord) kallast og gaf þeim log þau og lærdóma, er þeir hafa sidan trúliga fylgt. Gebrir eru starfsamir, hófsamir, idka jardyrkiu og kaup-

verkinn, og mega þola áþján af Persum; þeir eru blídlyndir, lastvarir og vandlætíngasamir um, at vendiliga séu haldin Zóróasters boðorð; þeir eru endurskírurum í Evrópu líkir og fá góðan orðstýr fyri einlægni og trúmennsku, en álas og óvirðíng fyrir trúarmeiníngar sínar. Meðal þeirra er nokkurskonar skírn almenn, en ei umskurn.

Fyri hinu eiginliga Persa-ríki ræðr nú kóngr, (Schach) sá, er Feth-Ali-Schack heitir; hann er sagðr ágiætr, réttlátr og vitr höfdíngi, skáld gott og vel at sér um marga hluti. Ríkit gengr í arf til þess sonar, er konúngr siálfr velr eptir mannvæníligleik, en ei aldri. Næstr konúngi, at tign og veldi, er hofdíngi sá, er Stór-Vesír kallast; hans boði og banni hlýða 5 ríkisfulltrúar. Í hvørri landsálfu er jarl eda Kan settr til yfirsóknar og í hvørium stað yfirforstøðumaðr eda Darogai.

Innbúár þessa ríkis eru 19 milliónir at tölu. (Sumir segia 3 millión). Allr þorri landslýðsins er kominn af tveim ættstofnum, nl. hinum fornu Persum og arabiskumönnum og kallast því hinir nýu eda yngri Persar. Þar búa og Fornpersar eda Parsir, sem til þessa dags hafa haldit ómengudu kyni sínu, Kúrdar, Turkómenn, Arabar, Ermlendíngar og Hinduar. Auk persisku eru 2 túngr almennastar í ríki þessu og sem allir nema, er sónast vilia snefil hafa af lærdómi, nl. arabisku og tyrknesku; allar eru þær ólíkar og ónákomnar. Í konúngsgarði er arabiska ávalt töluð.

Persar eru fríðir sýnum og vel limaðir, meðalmenn vexti og vøðvamiklir, en þó fremr magrir enn holdugir, birgnefiaðir og nokkut brúnleitir, knáligir og heilsugóðir. Í tilliti til hegðunar og siða, hafa menn kallat Persa Frænkismenn Austrlanda, þótt mikils sé þeim ávant, at bera þat nafn at makligleikum; ei at siðr eru þeir nábúum sínum síðari og Tyrkjum fremri at friðsemi, mannúð, viðfeldni þénustusemi, hiartagæðum, ýðiusemi og námfýsi, og mundu reynast fúsari, enn þeir, til at nema siðprýði og mentir af Evrópumønnum, ef þeir byggiu þeim nær og høfðu meiri mok við þá; því bæði er þat, at hverki hata né fyrilíta þeir aðrar þióðir, sem Tyrkir, og þeir meta mikils og nema þat fúsliga, sem øðrum er sýnna um. enn þeim. Í orrustum eru Persar ei siðr harðsengir, grimmir og miklu fiørugri enn Tyrkir, en ei svo þolnir þá í lángbakkana slær. Persar fá álas fyri lausløndi og ségirni og þá lesti, er af henni koma, hræsni og ysirdrepskap, slægð og lævís, brigðmælgi og óhalldinyrði. Persar eru sparneytnir miøg og kunna lítt at matskapa; þeim var, sem Tyrkium, víndryckia bønnuð, og dauðástraff lagt við, en nú hefir kóngr, leyst þeim at drekka vín með hófi; þeir drekka mikit kaffe, en ei svo opt sem Tyrkir, reykia tóbak, sem þeir en ei, svo þrálátliga, og neyta opiums, til at giørast glaðir af, en þó eigi með þvílíkri fýsn, sem Tyrkir. Persar bera víðan, síðan og

marglitan klædnad, sem sidr er á Austurlönd-um, en eru þunnklæddari og snotrari en Tyrkir og meiri skrautmenn. Alsvartan búnad kalla þeir diofla-gérsi.

# V. Hit fría Tartarí eda Tataraland (Tartarie; Tartaria).

Svo kalla menn allmikit land, er liggr fyrir austan hit Kaspiska haf, fyri nordan Austr-Persaland edr Kabúlistans-ríki og Tíbet, fyri vestan hit kinesiska Tartari og fyri sunnan vestri hluta hins asiatiska Rússa-ríkis eda koldu Svíþjódar. Þat er ímillum 40,000 og 50,000 ferh. mílr at vídáttu.

Um lánga æfi hafa menn almennt kallat land þetta Tartari eda Tartaraland, en á seinni tídum hafa landaskipunar-frædimenn qvedit á og sannat, at þat med réttu heiti Tatari eda Tataraland.

Í þessu landi eru vídast fioll há og fagrir dalir og hvervetna hálendi mikit, sem nærri má géta, þar þat er vestr-hluti Midasíu. Þat er einkar frióssamr jardvegr, einkum í dölunum og vid fliótin, vex þar mannhátt gras og miki

gnægd fagurra jurta og nytsamra ávaxta; hit nyrdra eru heidar (Stepper) miklar, sem víða í Rússariki, fjöllinn eru snæþakinn sumar og vetr; í þeim eru málmar til hlýtar. Um austrhluta landsins gengr mikill fjallgardr, er Mustag (Imaus) heitir og Belur-fjöll eda Belurtag (:: þokufjöll); þau samtengia hinn fyrrgreinda fjallgard og fjöll þau, er Hindukosk (:: mánafjöll) kallast.

Margar eru þar ár og rennandi vötn; medal hinna merkustu má telia, a, Amú (ford. Oxus; Arrat og Gihon). Þar er allmikil elfa, er fellr undan Belur fiöllum, 180 milr í útvestr, og rennr í Araljó sunnanverdan. Í hann rennr nordar mikit fljót, er b, Sir eda Sir Daria (ford. Jaxartes og Sihon) heitir og kemr úr landsudri undan tédum fjöllum. Auk hins Kaspiska-hafs, er markar landi þessu takmörk at vestanverdu, og Aralvatns eda Adler-siáfar, er einnig kallast hit Bláa-haf, og liggr í vestri hluta landsins og er 45 milr at lengd í út og sudr- og 30 at breidd, — eru þar landsæir margir og saltvötn.

Tatara land greinist í 2 höfudparta, nl. Nordr-Zjagatæ (Dschagatai) og Sudr-Zjagatæ.

## A. Norðr-Ziagatæ.

Þat skiptist aptr í 5 lönd, er hér skal frásegia.

I. Turkómannaland (Truchmenernes Land): Þat er nokkr hluti lands þess, er fyrrum kallast Chóvaresm og liggr ímillum hins Kaspiska-hafs og Aral-sióar og nær til Persíu suðr. Þar eru heiðar miklar og víða sendinn og snauðr jarðvegr og vatnsleysa, en sumstaðar gott hagqvisti fyri qvikfé og miög lítil akryrkia. Innbúar lands þessa (hverra áðr er gétit) lifa nær einsosta af qvikfiárrækt og eru miög óstöðugir og óspekir um aðra uppeldisvegi. Þeir eldstu í ætt hverri hafa mestumráð meðal þeirra, þó er álit þeirra og vald lítit. Turkomenn eru harðsengir og géta, þá vidliggr, útbúit 40,000 vígra manna. Í landi þessu eru at eins fá Kauptún við hit Kaspiska-haf; þángat koma Rússar og eiga kaup við landsmenn.

II. Kíva-ríki (Staten Chiwa); þat er eystri hluti Chóvaresms og liggr fyrir austan Turkómannaland; þat er ei mikit land at víðáttu, víðast flatt, allsfrióssamt og veðrasælt. Þar er höfuðborg, er Kíva (Chiwa) heitir við manngiörðt siki, sem gengr frá Amú; hún er umgirðt og liggia um hana öllumegin fagrir víngarðar og aldingarðar; þar er heimili lands-

höfdingjans og 10,000 innbúa, mikill markadr hvern föstudag, skóli, hofgardr og turnar margir. Auk þessarar borgar eru 7 stadir í ríki þessu og þorp ei allfá.

Land þetta er audugt af ýmsum giædum, í jörd og á; þar finnast gimsteinar, gull og silfr; þar vaxa allskonar kerutegundir og fágiætir ávextir. Innbúar lands þessa kallast **Kivensar** og eru 200,000 at tölu; þeir idka jardyrkiu og neyta allrar orku vid; med því þar er vída ofþurr jardvegr og hafa þeir því grafit síki mörg í gégnum landit. Þeir vinna silki og margskonar dúka, hafa kaupstefnur miklar í stödunum og flytia varning sinn til nærliggiandi landa og Astrakan. Kivensar eru ei illa skapi farnir, en manna ségiarnastir; þeir skiptast í 2 höfudgreinir: **Sarka** eda kaupmenn, þeir eru mest metnir af öllum, — og **Tadsikika** eda alþýdu. Þeir taka höfdingia yfir sig af Tatara-þjód þeirri, er Usbekar kallast og gefa hönum Kans nafnbót, en veldi hans ér skuggi einn og umrád einginn; því hvergi má hann bjóda né banna. Hann sitr hvervetna í nokkurskonar fángelsi og er illa halldinn; þeir láta hann innsigla bréf sín, skiöl og lagasetningar, því án þess þykia þau ei löggildi hafa. Þá eiginligu landsstiórn hefir höfdingi sá á hendi, er Inak kallast, ásamt 3 ríkis-ráðherrum og hefir hverr þeirra sitt umdæmi. Kivensar hafa allmikit riddaralid og eiga þvínær hvervetna í stridum vid nágranna sína; en ei

eru þeir hugrakkari enn svo, at þá sáir eru fallnir af lidi þeirra, snúa þeir á flótta og forda sér. Skattskyld Kivensum er þiód nokkr, (100,000 at tølu) er Konratir eda Aralir kallast; þeir búa vid Aralsvatn og vid Amúmynni og lifa vid fiárrækt og fiskiafla. Høfdíngi þeirra kallast Bei eda Beg.

III. Taskents-riki ásamt Turkestan liggr syri austan Kiva-riki; þat er fagurt land fridssamt sumstadar fiøllótt og vída skógivaxit. Um þat renna sliótin Kizil- og Sir-Daria í vestr. Þar er borg sú, er Taskent (Taschent) heitir; hún stendr á føgru sléttlendi skamt frá Sir-Daria, er víggirdt og $2\frac{1}{2}$ milr ummáls. Þar sitr landshøfdinginn. Þar eru fiølmennir markadir og kaupskapr mikill, silki- og bómullar-vødvirki, kanónu-steypuverk og — 40,000 innb. Nordar vid téd sl ót og í landsálfunni Turkestan er lítill stadr, er fyrrum var merk borg og mikil, og heitir Turkestan; þessa borg kalla Múhamedanir helga.

Innbúar þessa rikis, er Taskentir nefnast, eru óstýrilátir, en þó eigi illa at sér um marga hluti; þeir leggia stund á akuryrkiu, handverk og kaupverslun og eru starfsamir og atorkusamir. Þeir spinna og vefa silki og ýmiskonar dúka, en eiga lítilvæg kaup vid adrar þjódir, því Kirgisir, er búa syri nordan þá, banna þeim voruflutning og ræna opt kaupmenn. Fyri

landi þessu rædr nú Kan nokkr, er Junus Chotscha heitir; hann hefir brotist þar til ríkis med hreysti og hugsoinnu og aukit þat og styrkt. Veldi hans er ótakmarkat og vili hans landslög. Þegnar hans eru skattfríir; en hann tekr af sé þeirra, svo mikit hann vill, þá hönum þykir naudsyn til bera. Lid hans er 60,000 vigra manna, er líkist miög Kivensum at hugrekki. Tastentir kaupa konr vid qvikfé, en straffa hart hiónabands-brot.

IV. Karakalpakaland liggr fyrir austan Arals-vatn og fyri nordan Konrataland og Kívaríki; þar býr þiód sú, er Karakalpakir eda Svarthettingar kallast; þeir lifa bædi vid fiárrækt og akryrkiu, búa um vetr í húsum, en liggia vid tiöld á sumrum; nockr hluti þeirra varpadi sér undir veldi Rússa 1742, en má þó þola ofsóknir og rán Kirgisa sem ádr. Karakalpakir eru hagir á járn og smída margskonar vopn og verkfæri, t. d. byssur, sverd, knifa, potta, og tilreida púdr. Þeir trúa á Múhamed og eru fáfródir miög.

V. Kirgisaland eda Kirgiskasakaland liggr í nordaustr frá Aralsvatni og vid takmark köldu Svíþiódar eda Siberiu; þar eru vídlendar heidar (Stepper) og fiöll hit nyrdra, eingin jardyrkia, en hvervetna gódir qvikfiárhagar. Þar er margskonar fénadr, margr og

og gódr, einkum saudfé med stuttrófum; þar er lambakiøtit svo lostætr matr, at høfdingiar í Pétursborg láta sér færa og kalla hnosgæti.

Innbúar þessa lands, er hinir fríu Kirgisir eda, Kirgiskæsakar kallast hafa þvínær einúngis uppeldi sitt af qvikfiárrækt og idka hverki handidnir né høndlun tilrida. Þeir eru íllir vidreignar og ránsmenn, þá þeir fá færi, lymskir og svo slægvitrir, at varla má vidsiá brøgdum þeirra. Innbyrdis eru þeir fridsamir og vinveittir sem brædur og halda útlenda þræla sér til þiónustu, en ei landa sína. Þeir búa í hærutialdum og eru á sífeldu flakki med hiørdir sínar vetr sem sumar. Þeir skiptast í 3 sveitar-flokka (Ordas), er kallast: Stóri flokkr Midflokkr og Litli-flokkr; þeim tveim sídari hefir Rússakeisari heitit vernd og trausti. Ædsti høfdingi Kirgísa er Kan nokkr og í hverri ættqvísl er hinn eldsti mest rádandi og manna gøfugastr.

## B. Sudr-Ziagatæ (fordum Sogdiana).

Edr hit stóra Búkarí (Buckarie) eda Búkaraland hit mikla, er einnin kallast hit fría Búkarí og Vestr-Búkarí. Þat liggr fyri austan og sunnan þau Tataralønd, sem nú er frásklrt og er 20,000 ferhyrnings mílr at vidáttu. Land þetta liggr hátt og er fiøllótt, forkunnar fagurt

og einkar audugt af fiolbreyttum og dýrmætum giædum; vedrátta er þar blíd og heilnæm og og jardvegrinn, þótt margbreyttr sé, þvínær hvervetna frióssamr. Umhverfis landit liggia fiallgardar, og fiall þat, er Belur-Tagler (Dimmafiall) heitir, skiptir því í tvo parta. Um þat rennr fliótit Amú og mörg vatnsföll önnr. Höfudborg í landi þessu heitir Búkara (Buchara eda Bokhara) vid á, er Sogd kallast og í vestri hluta ríkisins; borgin er allmikil ummáls og deild i 3 parta; býr landshöfdinginn, hird hans og ættingiar í einum heirra á vetrum, stórmenni og adalsmenn í ödrum og borgarar í hinum þridia; öll eru þar hús af leirjördu giörr, sem hvervetna í Tataralandi; þar eru margskonar verkstadir og allmikill kaupskapr. Í landnordr þadan og vid téda á stendr gömul og nafnkénd borg, er Samarkand heitir; þar sitr landshöfdinginn á sumrum. Borgarmenn eru idiusamir og lagvirkir og leggia stund á margsháttar smídar og handverk, tilbúa pappír af silki og reka kaupverslun mikla. Þar er nafntogadr múhamedaniskr háskóli og stiörnuturn. Þar sat fordum hinn nafnfrægi Tamerlan.

Þetta ríki byggia þiódir tvær, er Búkarar og Usbekar kallast. Búkarar búa í

stødum og Þorpum og eru øllum Tataraþjóðum fremri at kunnáttu og lagvirkni og betr siðadir. Þeir eru medalmenn vexti og vellimadir, eygdir mjøg og snareygdir, krókneflaðir og brúnir á hár og allmjøg skeggjadir. Þeir eru atorkumenn og reka kaupskap víða á Austrløndum, idka handidnir og smídar og hafa snefil af lærdómi og mentum. Usbekar eru hirdaraþjód, er býr í tjøldum og lifir vid fjárrækt og ránskap; þeir eru ódælir mjøg og fullir ofmetnadar, eiga í sífeldum stríðum vid nágranna sína og eru sagdir hraustari, enn nokkr ønnur þjód á Tataralandi. Hrossakjøt og kaplamjólk þykja þeim mata best. Fyri þeim rædr høfdingi nokkr, arfborinn til stjórnar, og skal hann vera kominn af ætt Zingiskans.

Í Tataralandi er temprat, þægiligt og heilnæmt loptslag. Í fjallbygdunum er þar ástundum allmikit vetrarríki. Þar finnst eyr, járn, blý, qvikasilfr, vitríól, salmíak, salt, steinkol, naphta, bergolía og lítit eitt af gulli og silfri. — Þar elnast allskonar korntegundir, einkum hrísgrjón, káljurtir, hampr, hør, bómull, safran, tóbak, vínvidr, ágætir ávextir, rabarbar o. s. frv. Þar eru úlfbaldar, hestar, sauð- og naut-fénadr afar margr og silki ormr. Almennasti atvinnuvegr Tátara er fjárrækt, þó er hún ei í øllum løndum þeirra jafnmikil, sem ádr er sagt. Medal Tatara búa Persar, Hindúar, Zigeunir og Júdar.

Allar eru þjódir á Tataralandi, sem nú eru nefndar, af einum og sama ættstofni komnar

ar; lýsir þvi skapnadr þeirra, háttsemi og túngumál. Allar rækia þær Múhameds átrúnad og eru Sunnítar at trú. Stiórnarform er þar margvisligt og náliga i eingu landi med sama hætti sem i ödru. Þeir menn, sem til ædstu tignar eru settir, hafa misjöfn umrád og kallast: Kanar (furstar) og er Búkara-Kan yfirkóngr þeirra allra. Hann er úsbekskr at kyni. Medal hirdaþjódanna hafa öldúngar ættqvíslanna (Starschiner o:. þeir elldstu) ædstu mannaforrád og höfdingiar þeir, er Murser (o:. furstar) kallast.

Þjódir þær, er byggia hit fria Tatarí, eru 5 milliónir at manntali; þær eru komnar af og likast enn, sumar meir en sumar minna, hinni fornu Tatara-þjód, er i fornöld kom at austan og tvístradist vidsvegar um Rússa-riki, einkum hit eystra og vid Svartahaf, tók þar bólfestu sidan, og kéndi Rússum ýmsar nytsamar iþróttir. Hiá flestum Tatara kynqvislum eda smáþjódum má enn finna hit forna þiódar einkénni i svip og skapnadi. Hinir eiginligu Tatarar eru midlúngi háir vexti og vel limadir, réttvaxnir og knáligir, smá-eygdir og snareygdir, brúnir á hár og litfagrir i andliti, mannborligir og bera sig vel; ennfremr eru þeir ódulir og vidseldnir, medaumkunarsamir og manna bestir heim at sækia, fridsamir, en þó hugadir vel, námfúsir og hagvirkir og unna fremr jardyrkiu og handverkum, enn hirdingialífi. Fimtúngr Tatará hefir tekit kristna trú; en hinir trúa á Múhamed. Eigi á lýsíng þessi, einkum hvad

lunderni, mannúd og háttu snertir, heima hiá øllum þeim kynqvíslum, sem af hinni fornu Tatara-þjód eru komnar, ber þat til þess, at meingast hefir kyn þeirra og óblídar búsifiar í hørdum løndum hafa látit þær úrkyniast miøg at útliti og lundarlagi. Medal þessara mega sérílagi teliast Nógair vid Kúban og Volgú; Baskirir í jarlsdæmunum Perm og Orenborg, þeir eru slatleitari, holdugri og hraustari enn Tatarar og eyrna-stórir, óþrifnir og búraligir, diarfir og miúkir, styrjaldarsamir og óstýrilátir, en þó géstrisnir, — Kirgisir á Orenborgar heidum; þeir hafa minna affedrast, enn Baskirir, at ásýndum; — Jakútar og Televtar eru þessara þjóda vesælastir og svo ólíkir ordnir forfedrum sínum, at varla má ættarmót siá; þeir eru med øllu ómentadir og miøg fákunnandi, blóta afgudi og lifa vid fiárrækt og veidar. Í fornøld vóru Tatarar voldugir og sigursælir, brutu þeir undir sig lønd og borgir og vóru allvel at sér um marga hluti, sem ýmsar fornleifar sanna; en nú eru þeir tvístradir miøg og flestir þegnar útlendra høfdingia.

# V. Indíalønd (Indien; India).

Svo kálla menn syðsta hluta Austr-Asíu, ásamt tveim viðlendum meginskøgum, er lengst gánga í hafsút og sem hafsbotn mikill, sem kéndr er við Bengal, gengr inn imillum af India-hafi. Þióð-á sú, er Gángá heitir, skiptir þeim í tvo høfudparta; kallast hinn vestri: Indíaland hérnámegin Gáng-ár (For-Indien) og hinn eystri: Indíaland fyri handan Gang-á (Bag-Indien).

## A. Vestr-Indíaland eða Austindíur (Ostindien; Hindostan).

Land þetta liggr fyrir austan Persaríki og Arabíuhaf, og fyri sunnan Tíbet; en fyrir austan þat eru Austr-Indíaland og Bengalsbotn, en hinn indiski útsær fyri sunnan. Þat er nærhæfis 52000 ferhyrn. milr at víðáttu. Á norðr-takmørkum lands þessa er fiallgarðr mikill, er Himalaya heitir; hann er afarhár (19,411 fóta og snæþakinn vetr og sumar. Ut frá honum gengr fiallgarðr mikill í suðr, er kallast hin Gatiska-fiøll; þau gánga strandlengis hit vestra alla gøtu til Kómórins-høfða suðr. Opt-

finnis er um sömu mundir sitt vedr hvoriumegin þeirra. Gará-fiöll liggja á takmörkum Vestr- og Austr Indíalands. Vídast er jardvegr í landi þessu forkunnar ávaxtarsamr og at eins á einstaka stad grýttr. Í grend vid Gángár ósa er aga mikit land og forædi. Fagurt og frióffsamt flatlendi, blómligir dalir, tignuglig og inndæl fiöll skémta þar á víxl augum landsbúa og efla fullsælu þeirra. Í þessu landi eru margar ár og miklar; þær merkustu eru: a, Indus eda Sindi (ɔ: Svarta fliót eda Svartá); þat er mikit vatnsfall, er kémr frá Tíbet og fellr í 7 ósum í Arabíuhaf. Þat er 217 mílr at lengd. Austar kémr b, Gángá (Ganges ɔ: fliótit) frá tédu landi, rennr í landsudr og kémr til siáfar í mörgum ósum út í Bengals botn. Þat er eitthvort hit mesta fliót í Asíu og rennr lánga leid í tveim qvíslum; þat er 355 mílr at lengd og 300 mílr skipfært, hleypr, þá regnvidri gánga, yfir sléttlendit bádumegin og friófgar þat ríkugliga.

Hindúar kalla þjódá þessa heilaga og tilbidia hana sem Afgud; med því þeir trúa, at hún uppsprettí af tóium skaparans, er þeir kalla Brama, og sé því giædd guddómligum krapti til at giöra tákn og stórmerki. Þeir halda hatídir margar á tilteknum tídum henni til heidurs og eru skyldir at lauga sig í henni og jafnframt at géfa ölmusur.

10 dögum eptir prím í Majo er afmæli hennar og mikill helgidagr; en hin mesta hátíð er 10 dögum eptir prím í Septembri; kasta menn þá síðsta dag hátíðar bílæti hennar í ána og segja, at hun sé horfin aptr til síns ektamanns, guðsins Schivens. Hverr sem andast á bökkunum við á þeiða og áðr drekkr af henni kríast frá at koma aptr til jarðríkis og lifa þar at nýu; færa því þeir, er búa nokkut á brott, alla sjúka og dauðvona vini sína og ættingja til Gángár og dreppa á þá svo lengi sem verðr. En þeir sem í fjarska búa, geyma vatnit úr henni í koparbrúsum, sem helgan dóm, til at dreppa á þá, sem eru aðframm komnir bana.

Frá Tibet kémr einnin mikit fljót, er c, Burrempúter heitir; þat rennr í Gánga á 9 míl. fyri ofan ósa hennar og er 300 míle at lengð. Auk þessara eru þar margar minni ár t. d. d, Kistna og e, Godavery er renna í suðaustr og falla í Bengalsbotn vestr anverðan. f, Zjúmma, er kémr úr útnorðri og fellr í Gánga:á og g, Nerbúdda, er rennr úr austri í fjörð þann af Arabíu-hafi, er Kam fjörðr (Cambey) kallast.

Vestr-Indíaland eða hinar eiginligu Austindíur greinast í tvo höfuðparta, nl. Asíumanna-ríki (de asiatiske Stater) og Landeignir Evrópumanna (de europæiske Besiddelser).

A. Asíumanna-ríki (Hindostan) skiptast aptr í 4 ríkinl. a, Seikaland, b, Nep-

áls-ríki ásamt Gorka og Serinagúr, c, Ráðsbúta, og Zjata-lønd og d, Marattaland.

A. Seikaland (Seikernes Land).

Þat liggr í landnorðr- og útsuðr millíhafs og Tíbets og fyri suðaustan Afganaland og Berúdskístans-ríki. Þat samanstendr af miklum hluta lands þess, er Lahor eða Pundskab heitir, og af landspartum, er fyrrum láu undir Múltan, Agra og Delí. Þetta ríki stiptaði þjóð nokkr, er hneigðist til trúar þeirrar, nokkr, sem spekingr Guruh Nanek at nafni, (fæddr 1469) kéndi og síðan með herskyldi braut undir sig téða landsparta. Þat er 4000 ferh. milr at víðáttu og einkar frjófsamt og fiølbygt land. Kvikfénaðr er þar margr og góðr. Hǫfuðstaðr í þessu landi er:

Lahor, í fyrnefndri landsálfu og viðhinn nafnkunna þjóðveg, er liggr frá Delí til Afganaríkis í Persalandi og er 80 milr at lengd. Borg þessi er mjøg forn og altmikil ummáls, og ei svo fǫgr, sem forðum. Þar eru 150,000 innbúar. Í suðvestr þaðan er staðr sá, er Multan heitir, í samnefndu landsálfu og við ána Hydraspes, er fellr í Indus ár austri.

Innbúar þessa lands (sem eru 4,500,000 at tøln) kallast Seikir (ɔ:. lærisveinar) einnin Nunikar og eru Hindúum náskyldir; þeir eru fríðir sýnum og vel vaxnir, hossamir og ánægdir með litit, reykia ei tóbak, en eru hneigdir fyri áseing ølfaung. Þeir trúa á og tilbidia eina ædstu veru og hiunstu orsøk allra hluta, en minda hvorki bilæti eptir henni, né tigna hana með ødrum tídagiørdum, enn bænum og saungum og lestri heilagra fræda Þar er friþjóðlig stiórn í løg leidd og nokkurskonar eidsvarinn félagsskapr ímilli høfdingja þeirra, er hafa ædstu ummrád og kallast Rajaher. Þeir heya alþing (Guru-Mata) á ári hverju og giøra þá um alþjódlig málesni.

## B. Nepáls-riki, ásamt Gorka (Ghorka) og Serinagúr.

Þessi lønd liggia fyri nordan Bengalaland eda hinar enska nýlendr. Fyri þeim rædr høfdingi sá er Rajah nefnist. Innbúar þeirra eru 2 mill. at tølu og skiptast í tvo flocka, kallast annar Radsbútir og eru þeir Bramínum nákomnir at frændsemi, og Njúrir (Njurs), er hafa kyn sitt at rekja til Mongóla. Mitlands er þar høfudstadr, er Katmundu (Khatmundu) heitir; í honum eru 50,000 innbúar.

Nepáls-riki liggr fyri nordan fiallgardin Himalaya og er enn litt kunnugt Evróbumønnum.

## C. Rádsbútaland og Skataland. (Radsbuternes og Dschäternes Distrikter).

Þessi lønd liggia fyrir nordan Maratta ríki. Fyri þeim ráda ýmsir hofdíngiar, sem eru annattveggia bramínskir eda múhamedanskir at trú og kallast bædi Ranas og Bajas. Innbyrdis eru fólksstiórar þessir nærhæfis jafngildir at veldi og einginn þeirra er ødrum hádr, en opt hafa þeir verit Marøttum skattgyldir.

## D. Marattaland (Maratternes Land).

Þat er allvídlendt ríki, er liggr fyri sunnan Seikaland, fyri vestan hinar ensku laudeignir, og nær til Golkonda sudr, en at vestanverdu markar Indíahaf því takmørk. Land þetta er yfir 16000 ferh. mílr at stærd. Þat er vída miøg fiøllótt, en þó nær hvervetna friófsamt og audugt af ýmsum giædum. Sérílagi leggia landsmenn stund á qvikfiárrækt, einkum á hestauppeldi og fuglarækt; neyta þeir því eggia mest matar.

Marattaland er greint í tvo høfudparta, og kallast Púna-ríki, eda hin vestlægu Maratta-ríki, og Berar-ríki, eda hin austlægu Maratta-ríki.

a, Hit vestlæga Marattaríki eda Púnaríki liggr á nordvestr strønd hins vestari meginskaga, sem ádr er fráſagt. Par er høfudborg sú, er Púna (Punah) heitir; hún er allmikil ummáls, óføgr og óvíggirt; hún stendr skamt frá upptøkum árinnar Kistnu, 6 mílr fyri austan Gatfiøll og 30 mílr í sudaustr frá Bombæ. Par sitr ædsti høfdingi Maratta, er Peiskva kallast. Borgarmúgrinn er 100,000 at tølu.

Lánga leid þadan í nordr er Amedabad; eda Gúsúrat; þat var fyrrum nafntogadr og stáligr høfudstadr í kóngsríkinu Gúsúrat og einhvør hin mesta borg í Indíum; en nú er mestr hluti hennar afmádr og hinar skrautligu og stórkostligu byggíngar í grunn eydilagdar.

b, Hit austlæga Maratta ríki, er einnin kallast Berar-Marattaland, liggr fyrir austan Púnaríki og nær alt til Bengalsbotns austr. Pat er vída fiøllótt og skógivaxit; fríóſsamt er þat á flestum stødum. Opt er þar svækia og þyckvidri. Merkasta borg í þessu landi er Nagpúr; þat er mikill stadr med 80,000 innbúum og ófagr; þar sitr landshøfdínginn, er Rajah (: furſti) kallast.

Marattar eru nákomnir Rádsbúum at frændsemi og vóru ei at ødru komnir, enn rán-

skap og raupli, til 17du aldar, þá jarl nokkr í Usipúr, Sevagi eda Sevaski at nafni, (er deydi 1680) giordist fyrildi þeirra og lagdi grundvoll þessa Maratta-veldis, er því meir jókst, sem hinu móguliska riki á Vestr-Indíalandi fór hnignandi. Einkanliga nádi Maratta-riki þroska á 18du old. Fyri því rédu einvaldshofdíngiar (Rajahs) til 1740, þá konúngs-rádgiafar tveir hrundu þeim sidsta af Sevagis eptirmonnum úr háscti og skiptu rikinu ímilli sín, nl. í hit vestlæga og austlæga Maratta riki; þeirra dæmi fylgdu hinir adrir hofdíngiar í landinu; þeir brutu undir sig stærri og smærri landsparta og giordust einvaldar yfir. Á þenna hátt umskapadist hit vidlenda einvaldsriki og vard ad allmorgum smárikium, er hafa giort nokkurskonar félagsskap og sáttmál sín ámedal til at heria med samfylgi á nágranna sína og veria lond sín fyrir ófridi. Allir eru hofdíngiar eda forstar þeir, er fyri þessum londum ráda, arfbornir til rikis og nærhæfis jafngildir at tign og veldi, at Púna-rikis kongi undanteknum, er Peiskva (Peischwah) kallast og talinn er keisari allra Maratta. Næstir honum at veldi og riki eru hofdíngiar 2 er Scindia og Holkar kallast. — Marattar eru bardagamenn miklir og hafa riddaralid

mikit og frítt. Þeir hafa leingi átt í stríðum við Bengals-þjóðir, Múhamedana og Enska og hafa með því veikt mjög veldi sitt og þjóðþrek. Þeir eru allvel skapi farnir og nokkurnvegin upplýstir, ráðvandir, viðfeldnir og unna og iðka réttsýni.

B. Landeignir Evrópumanna (nl. Englismanna, Hollendinga, Frakka, Portugísa og Dana).

a. Landeignir Enskra.

Svo kalla menn landeignir þær, er hit austindianiska kaupmanna-félag í Lundúnum á í þessari heimsálfu og sem liggja fyri austan sitt-talinn lönd og báðumeginn þjóðárinnar Ganges, fyri norðan Bengals-botn alt upp til Tibetalands og suðr með téðum hafsbotni vestanverðum og víðar. Sum eru lönd þessi eiginlig eign fyrrtéðs félags, en sum at eins því undirgéfin og skattskyld; hvörutveggi er þau yfir 29000 ferh. milr at víðáttu og forkunnar giæðarík og arðsöm greindu kaupmanna sambandi, hvörs árlig inngiöld af þeim eru 18 milliónir.

Enskra eiginligu landeignir, (de umiddelbare Besiddelser) í Austindíum eru greind í 3 forsetadæmi (Præsidentskaber), sem téuð eru við höfuðborgirnar: Kalkútta, Madras og Bombæ. Þar hafa Enskir

höfdíngia eda jarla (Gouverneurer) setta til yfirsóknar, en yfir þá alla er settr höfdíngi sá, er General-Gouverneur edr Yfir-jarl kallast.

a, Forsetadæmit Kalkútta.

Under þat liggia; Bengalaland og Tipra, Orissa, Behar, Aud, Allahabad, Benares og nokkr hluti af löndunum Deli og Agra. Þat er yfir 10,000 ferh. mílr at stærd. Landsbyggdrinn er 39 milliónir at tölu.

1. Bengalaland (Bengalen). Þat var fyrrum konúngsríki og er svo fagurt land og gott, at Mógular kalla þat Paradís jardríkis. Þat liggr nordr af vidkéndum hafsbotni og í milli Marattalands og Austr-Indíalands. Þat er hérumbil 4060 ferh. m. at stærd. Þar er mikil borg og fiölmenn, er:

Kalkútta (Calcutta) heitir; hún stendr vid qvísl úr Gángá, er Húgli kollast og 6 mílr frá sæ. Þat er hinn merkasti kaupstadr í Indíum, hofudborg í hinum engelsku nýlendum austr í heimi og heimili ens enska yfirjarls (General Gouverneurs) og ædsta-réttar dómenda. Borg þessi er 7 mílr ummáls og þar vel bygd, er Enskir byggia. Stutta bæarleid þadan er Wilhiálmskastali (Fort

William); þar er háskóli, (stipt. 1800), stiørnuturn og vísindamanna félag (asiatic society). Umhverfis Kalkútta eda hina eiginligu borg, sem greind er í blokkumanna- og blánkumannastadi, liggia forstadir; eru hús þar og í þeim hlura borgarinnar, er Aslumenn byggia, af bambússtrýri giørr, en heimkynni Enskra eru háreist og skrautlig steinhús. Þar eru ágætir vefstádir og verksmidiur, afarmikil kaupverslun, einhvør hinn fegursti urtagardr í heimi og 750,000 innbúar; medal þeirra eru kaupmenn af nær øllum Asíu- Ameriku- og Evrópuþjódum, kristnir menn, Múhamedanir og heidingiar um kyrkiur margar, bænahús (Moskeer) og blóthof (Pagoder). Í nordaustr frá Kalkúttu og vid á, er rennr í Gángá, er stadr sem Dakka eda Dekka heitir; þar eru 150 000. innb., er vinna hit finasta músselin, er menn þeckia, og hinn ágætasta bómullarvefnad. Í nordvestr þadan og vid Gáng á er vidlika fiølmenn borg, er Múrskedabad heitir; þessi borg og Dakka vóru fyrrum høfudstadir í Bengalalandi; þeir eru bádir bjagrar og hrørligar.

2. Orissa, kallast sá hluti strandarinnar, milli Austr-Marattalands og hins bengalska botns, er Enskir eiga. Þar er stadr, er

Kúttak heitir, við ána Mahanada og ei allángt frá sæ; þar er sterkr kastali og atsetr þessa lands höfdíngia. Í nordaustr þadan er Balósore; þat er allmikill kaupstadr, en er þó nú miklu minni og ómerkari enn fyrrum, þá þadan fluttist mikill og margskonar ágætr varníngr.

Í sudaustr frá Kúttak og skamt frá sæ, er kaupstadr sá, er Jagernat (Dschagernat) heitir og einkum er nafnkunnr af hofi (Pagode) því, er þar stendr. Þat er þriú afarmikil og áföst steinhús med fevkiliga háum turnum, er eygia má lánga leid þadan yfir sæ og land. Umhverfis hofit er múrveggr mikill og rambyggdr; á honum eru 4 hlid, er snúa í 4 höfudáttir. Eitt af hófum þessum er giört, einsog múrveggrinn, af svörtu stórgrýti, og kallast því Svartahof; þat er þeirra hærst, helgast og mest vandat at allri smíd; turninn yfir dyrum þess er eitthvört hit stórkostligasta og atdáanligasta mannaverk. Hof þetta er einhvört hinn mesti helgistadr í Hindóstáni, og er helgat gudnum Bisknú (Wischnu eda Dschagarnahta þ. e. herra allrar skepnu). Hindúar segia, þat stadit hafi í 11000 ár. Þángat eru allir Hindúar skyldir einu sinni á æfi sinni at giöra ferd sína og blóta, er þar því hvervetna margmenni samankomit og blótskapr mikill.

3. Landsálfan Behar liggr fyri vestan Bengal. Þar er allmikill stadr vid Gángá

sunnanverda, og í útnordr frá Kalkútta, er Patna heitir; þar eru margskonar verksmidiur, skrautlig búsakynni, er útlendir kaupmenn eiga — og 150,000 innb. Þadan flyst hit besta opíum. Sunnar er hinn mesti og sterkasti fiallkastali á Indíalandi, er Rótaszgam kallast.

4. Í landsálfunni Benares, er liggr fyri vestan sídstalit land, er samnefndr stadr, sem stendr á fogru slatlendi vid Gángá. Pessi stadr er at mikilleik, audlegd og unadsamri afstødu nafnkunnr; þar eru feikna-há hús og allfagr, inndælir aldingardar og blóthof mørg og skrautlig; þeirra vegligast er Bisvisor, sem talit er allra hofa helgast og dýrdligast í Hindóstani. Þángat sækir mikill fioldi pílagríma og blótmanna. Í Benares eru verkstadir margir, allmikill kaupskapr, høfudból indíaniskra vísindamanna, braminiskr háskóli, stiornuturn og — 583,000 innbúar. Í þessari landsálfu er Panna; þar eru miklar demantsnámur.

5. Landsálfurnar Aud eda Oude og Allahabad liggia í nordvestr frá Benareslandi og báduinegin vid Gángá. Þar er stadr, er Allahabad heitir og stendr vid ármótin, er Gángá og Zjúmmá renna saman; þar eru

skrautlig húsakynni, margskonar fornmeniar og 150,000 innb.

6. Þeir partar af landsálfunum Agra og Delí, sem ordnir eru (1803) eign Enskra, liggia vid Auds landsálfu nordvestanverda. Þar er Agra eda Akbarabad, vid Jiúmmá og í útnordr frá Allahabad; borg þessi var fyrrum einhvør hinn skrautligasti og mesti stadr á Austrurløndum og nafukunnr vída um heim at feiknastærd, afar-fjølda hár-istra bygginga, vegligra blóthosa og lestamanna-herbergia; þar sat áslundum hinn mikli Mógul í kastala afarmiklum og vøndudum at allri smid. A seinni tidum hefir bál og brandr grandat svo borg þessari, at miøg er nu hennar forna ágiæti og blómi undir lok lidinn. Þó telia menn þar enn 800,000 innbúa. Nordar vid téda á er:

Deli (Delhi); þat var høfudborg í því vídlenda og volduga ríki, er hinir miklu Mógular rédu fyrir, madr af manni, og sem optast høfudbói þeirra og heimili; hafdi hún og margt til þess, bædi mikilleik og fiølmenni, ógrynni fiár og afarmikit skraut, er samsvara þótti tign og veldi svo mikilfengligra høfdíngia. Borg þessi var 15 mílur ummáls og vída vel giør og føgr; en í fyrri helsingi 18du aldar, unnu hana og ræntu ýmsir standmenn, fyrst

Persar (1738), þá Afganar (1747) og síðar Marattar, er skértu svo ágæti hennar og blóma, at nú eru ýmsar borgir henni fremri á Indíalandi. Fyrrum vóru þar 2 milliónir, en nú 400.000 innb. Þar er afarmikill hofgarðr; sitr þar Acbar hinn annar með því nafni, sonr hins síðsta Stórmóguls, Skacks Allúms, og þiggr náðargáfu hins enska Indía félags sér til uppheldis.

Í suðr frá Agra er afarrammligr kastali, er Gvalior heitir.

Þessi hluti hinna enska landeigna eða Kalkúttu forsetadæmi er gott land og auðugt af ýmsum giæðum. Þar eru hæðir, en ei fjöll, nema á austr- og norðr-takmörkunum, og eru þau þar hlífðarmúr nokkr fyri herhlaupum styrjaldarsamra nágranna. Hit syðra er grunnsævi og hafnleysur, utan á einum stað, og er þó innsiglingin þar skipum forsærum. Gáng-á, qvíslar margar og elfur vökva og frjófga víðast landit ríkugliga. Þar vex mikil gnægð hrísgrióna og margskonar korntegunda, sikreyr, vínviðr, ópíum, viðarull, indigó, o. s. frv. Nautpeníngr er þar margr og sauðfé, en hestar fáir. Fílar eru þar í ýmsum landsplátsum margir. Innbúar þessa forsetadæmis eru 39 milliónir at tölu.

b, Forsetadæmit Madras.

Þar til liggia landsálfurnar: Karnatik, þeir norðlægu Cirkars, nokkr. partr af Tanskár, Tondiman, Madúra og Mór-

ava, sem allar ásamt eru 4016 ferh. milr at vidáttu og liggia hit eystra á meginlandanum, er menn kalla Kórómandel, strønd (Dscholomandela).

1. Í Karnatik eda Arkót, er liggr hit sydra á tédri strønd, er Madras eda Madraspatnam; þat er høfudborg í þessu forsetadœmi og stendr vid sæ; hún greinist í tvo hluti, er annar kalladr Sti. Gyrgis, kastali eda Hvítibœr; þar búa Evrópumenn, og hinn svarti stadr, er Hindúar, Múhamedanir og adrir Asíumenn byggia Hinn fyrri er mikill og vel bygdr, en sá sídari óásjáligr, en þó umgirdtr af múrum og turnum. Í borg þessari ern 300,000 innb., ágætir. katúnsvefstadir og glerstéypuverk, allmikill kaupskapr og sigling mikil. Skamt frá Madras er fiall þat, er Pondamaka eda Montgrand kallast; á því eru víggirdíngar og mikill aldingardr, er Enskir eiga.

Í sudvestr þadan er Arkót, gamall víggirdtr og mikill stadr, en litt siáligr. Þat er høfudborg í vidkéndu Nabóbadœmi.

Í grend vid Madras er Meliapúr eda Mallapúram ɔ: Páfuglastadr, sem Kathólskir kalla Thómásarstad, med því þeir segia at á Thómásarbergi, skamt þadan sé, legstadr hins helga Thómásar og giøra þángat, ásamt

ýmsum ödrum kristnum samkundumønnum pílagrímsferdir. Þar hafa einnig Hindúar og Múhamedanir heimili og helgistadi. Ei allángt frá Madras er lítill stadr, er Vöverí kallast; þar er próteſtantiskra kristindómsbodara-stiptun og kénslu-skóli fyri þá, er nema vilia malabariska túngu.

2. Þeir svokølludu nordlægu Cirkars liggia nordar á strøndinni; þar er borg sú er Masúlipatnam heitir, á ey í Kistnu-mynni og vid flóa mikin, er ollir óheilnæmis á sumrum; þar eru 40 000 margkyniadra innbúa, sem eru audugir af fé og idiunienn miklir.

3. Hit brittiska Tansjár (Tanschaur) liggr á strøndinni fyri sunnan Karnatiks-landsálfu. Þar er samnefndr stadr á eyu í ánni Kaverý; hann er vel hýsadr og víggirdtr; þar er kristnibodara-skóli. Ei alllángt þadan og vid sæ stendr rambygdr kaupstadr, er Negatpatnam heitir.

4. Madúra liggr fyri sunnan sídsttéda landsálfu; þar er Tirútsjínapalli høfudstadr og allmikil borg, er Madúra heitir, vid samnefnda á og í forkunnar føgru landsplátsi.

Landsálfurnar 5. Mórava og 6. Tondiman liggia sydst á Kórómandel-strøndinni; hin fyrri er fiøllótt og skógivaxin; þar býr

styrjaldarsamr lýdr; í hinni sídari er villiþióð og ræningiar er Kalliar kallast.

c. Forsetadæmit Bombai ada Bombugt.

Undir þat liggia landsálsurnar: Bombai, ásamt eyunni Salsette, nokkr hluti af Guzúrate, hit bretska Mýsóre og Polnaud, sem allar eru 3900 ferh. mílr at stærd, med 2 mill. og 800,000 innb.

1. Landsálsa sú er Bombai kallast, liggr á Vestr-strønd hins svokallada gatiska meginskaga eda Vestr Indíalands. Þar er mikill og audugr kaupstadr, er Bombai (ɔ: góda bugt) heitir, á sammesndri ey, skamt frá landi; þat er hösudstadr í þessu forsetadæmi og heimili jarls þess og annara valdsmanna. Þar er afarmikil kaupverslun, ágiæt høfn og 150,000 margkynjadra innbúa.

Skamt þadan er ey sú, er Fila-ey kallast. Þar er nafnkunnugt hof, sem úthøggvit er í klett og svo mikit verk, at allir, er þar hafa komit, þykjast eckert furdanligra litit hafa. Hit innra eru á veggina grafnar margskonar kynligar mindir og gudabílæti er Bramínar kannast vid, en sem ei hafa um lánga æfi tídkast og hvergi finnast annarstadar í blóthofum þeirra.

Í Nánd vid Bombai er ey sú, er Salsette kallast, og gengr manngiørt eid frá henni þángat. Ey þessi er allmikil og forkunnar

friófsøm. Þar er allfiáligt stadr, er Tanna heitir.

2., Landsálfan Súrate liggr nordar á Malabar-strøndinni. Þar er mikill og merkr kaupstadr, er Súrate heitir, vid ána Taptŷ og 5 milr frá sæ; þar eru allmørg skrautlig húsakynni og sølubúdir, afarmikill kaupskapr og sigling — og 600,000 fiølbreyttra innbúa, er giøra allskonar dýrindis vefnad, sem flytst vída um heim. Í nordr þadan og vid Nerbúddu-ósa er víggirdtr og mikill kaupstadr, er Bróack heitir.

3. Hit bretska Mŷsóre eda Mŷsórland (brittisk Mysore) kalla menn þann hluta hins Mŷsóriska ríkis, er Énskir hafa undir sig brotit og giørsamliga tekit frá arftøkumønnum stiptara þess, er Hyder Alli hét. Þat liggr fyri sunnan Vestr-Marattaland og Golkondu-ríki. Þar er høfudstadr, er Seringapatnam heitir, á ey í ánni Kaverŷ; þat er sterk, allvel húsut og fiølmenn borg og var fyrrum heimili Tippo Saibs, er sídstr sat þar at ríki.

Þau lønd, sem ei eru at fullu eign Enskra, en þeim hád og skattskyld, eru:

a, Golkonda, er liggr millum Marattalanda, Madrass-forsetadæmis og Mŷsórlands; þetta ríki er 3500 ferh. milr at stærd og nær

hvergi til fjáfar. Innbúar þess eru 8 mill. at tölu og er allr þorri þeirra þjóð sú, er Telíngar kallast. Land þetta er bædi flatt og fjöllótt, frióffamt og audugt af ýmisum gjædum. Einkum eru demants-námurnar þar vidkunnar um heim. Þar mitlands er samnefndr kastali á kletti, med 84 turnum umhverfis. Skammaleid þadan er höfudborgin, er Hyderabad eda Bagnamir heitir; hún er allmikil ummáls og stendr í inndælu héradi vid ána Mússi. Þar sitr höfdingi sá, er rædr fyri ríki þessu, og sem ýmist kallast Nizam eda Súba, og fyrrum var Vice-konúngr í Dekani, eda í sydri hluta þessa meginlandsgaga; hann er Enskum hádr og má hlýda bodi þeirra og banni. Í Hyderabad eru 120,000 innb.

Í nordvestr-hluta landsins er mikil, fiálig og fjölmenn borg, er Aurengabad heitir; þar er kastali sterkr, er hinn nafnkunni Aurengzeb lét gjöra.

b, Nýa-Mýsórland (Ny-Mysore) er sá hluti hins Mýsóriska ríkis, sem ei er enn at fullu ordin eign Enskra; hafa þeir þar til ýfirsóknar settan höfdingia (Rajah) af ætt þeirra, er þar áttu fyrrum ríki; hann hefir undirbundist at hlýda bodi þeirra og banni og gjalda lidi því mála, er þeir hafa honum til verndar seingit. Land þetta er 1200 ferh. mil. at

stærd. Innbúar þess eru 1 mill. 600,000 at tölu. Þar eru tveir stadir ödrum merkari, heitir annar Mýsór; þat er viggirdtr höfudstadr, — og annar Hydernagor (fyrr. Bednur); þat er mikil borg og fögr med 150,000 innb.

c, Furstadæmit Kurga er hérumbil 50 ferh. mílr at vidáttu.

d, Kananórland er alllángt strandlendi fyri vestan Mýsór. Fyri því ráda ýmsir höfdingjar og er hvør þeirra ödrum ómátkari; þeir kalla yfirherra sinn Kólastri og hafa þat á seinni tídum konur verit, er Enskir kalla Bibi.

Þar er forn, mikil og fiölmennr stadr, er Kananór heitir; mestr hluti innbúa hans eru Múhamedanir. Þar giördu Portúgísar hinn fyrsta kastala á Austrlöndum.

e, Kalikút liggr á Malabar-ströndinni fyri sunnan sídstalit land og er einkar audugt af ýmsum gjædum. Fyri því rædr höfdingi sá, er Samorin (: keisari) kallast; þessari nafnbót hafa Enskir látit hann halda, enn miög litlu valdi. Höfudstadr í þessu ríki er Kalikút; þat var fyrrum mikill og merkr kaupstadr. Þar kom Vaskó de Gama vid land 1498.

f, Kojkins-ríki (Staten Coschin) liggr

sunnar á sömu strönd. Þat er audugt land og fagurt.

g, Travankor-ríki liggr fyri sunnan sidstalit land og nær alt til Komórins-hofda sudr. Þar er hofudstadr, er Travankor heitir. Þar sitr þessa lands hofdíngi (Rajah) á vetrum, en á sumrum í stad þeim, er Trivandavatam nefnist. Á ströndinni fyri sunnan Kostin er allmikill og fiölmennr kaupstadr, er Porka kallast.

Nú er stuttliga skírt frá öllum þorra landa þeirra og landeigna, er Enskir hafa á ýmsan hátt, med sverdseggium og kænsku, ófriki og margvísligri hlutsemi, undir sig brotit, og stockt arfbornum hofdíngium í burt af ódulum, giort sér suma skattskylda og veitt sumum sé til framfærslu. Varla mun offögum sagt vera af fégirni Enskra í tédum löndum; ædri og lægri erindisrekar hins austindianiska kaupmanna-sambands hafa frá öndverdn fremr lagt kapp á med réttu og raungu at raka audlegd saman, enn at efla þar alþjódliga velgengni; hefir því allmiög sneidst um hiá allri alþýdu, en audmenn margir og hofdíngiar hafa fólgit ógrynni fiár í jordu, at ei skyldi þat verda hardðrægum útlendíngum at brád, sem eingu at sídr hverfa þadan árliga, svo 5 og 6 tugum skiptir, eptir skamma þar veru til frændahaga med ofurfé og lifa sídan sem indianiskir Nabóbar í vellyst og sællífi á Temsárbökkum. Auk þess sem nú er sagt, hafa styrialdir og stiórnarbiltíngar og matvæla-skortr, einkum á sídstlidinni öld of-

anverdri, allmiög hnekt alþjódligri velgengni, fækkat manntali og rirt fiármagn þessara gódu og friófsömu landa.

## B. Landeignir Hollendínga:

Þær liggia bædi á austr- og vestr-strönd Vestra-Indíalands og eru 37 ferh. milr at stærd. Á austr- eda Kórómandel-ströndinni og í landsálfunni Karnatik er nafnkéndr kaupstadr, er Paliakate (eiginl. Waliakada o:. hin mikla yfirferd) heitir; skamt fyri nordan Madras; þar er allmikil kaupverslun, bómullar vefstadir margir og 15,000 innb.

Í Koskins-riki á Malabar-ströndinni er Koskin (Koschin); þat er siáligr, mikill og víggirdtr verslunarstadr vid ósa skiplægrar ár, er Mongatti heitir. Þar er mikil sigling og kaupverslun. Innbúar þessara landeigna eru 110,000 at tölu.

## C. Landeignir Frakka:

Þær eru 29 ferh. milr at stærd, med 50,000 innbúum. Þar eru 2 stadir, annar: Pondizéri (Pondichery eiginl. Pudutschery o:. Nýstadr) í Karnatik, og í sudr frá Madras; borg þessi stendr vid sió og er fögr og umgirdt; þar er 20,000 innbúar; —

og annar: Kandernagor, við Húgli og skamt frá Kalkúttu; þar eru 30,000 innb.

D. Landeignir Portúgísa:

Þær liggia á Malabar-strondinni og eru 51 ferh. mílr at víðáttu. Þar eru tveir staðir merkastir, nl.

Góa, er stendr á ey skamt undan landi og er, ásamt tilliggiandi landeign, hit syðra í þeim hluta Vestr-Marattalands, er Súnda-ríki kallast; þat er allmikil borg og vel húsut; eru þar ámeðal margra háreistra húsakynna, kastalar tveir, skrautligr hofgarðr og veglig dóm-kyrkia; þar er höfn, hvorri annari betri í Austr-indíum og allmikil kaupverslun. Góa er höf-uðstaðr allra portúgísiskra landeigna austr í heimi og atsetr hofdingia þess, sem yfir þær er settr og kallast General-Gouverneur eða Yfir-uýlendna stióri. Þar eru 30,000 innb.

A ey, er liggr frammundan landsálfunni Gúzúrate og fyri vestan Kamfiord, er allmerkr og sjáligr staðr, er Díú kallast; þar er sterkr kast-ali og góð höfn; á eynni er eingisens-yrkia mikil og qvikfiárrækt. Innbúar þessara land-eigna eru 109,000 at tölu.

Skýríngargr.: Þat mun flestum kunnugt, at Portúgísar fundu fyrstir manna sióleið til Austindía, tóku þar upp nýlendr, bygðu borgir og á ýmsan hátt rokuðu stórfé saman; þvínæst komu

**Hollendíngar** og svipto þá miklum hluta þeirra landeigna og hlunninda, er Portúgísar höfdu lengi sett at og einsamlir notit. Seinna tóku **Frakkar, Englendíngar** og **Danir** þar bólfestu; en brádla giördust Enskir þeirra ríkastir og voldugastir.

## E. Landeignir Dana.

Þær eru 20 ferh. milr at stærd og liggia á austur-strøndinni. Þar er víggirdtr stadr, er **Trankebar** (eda Turangaburi) heitir, vid sæ og i sudr frá Pondizéri og i landsálsunni Tansjár; þar er kastali, er **Dansborg** kalla**st**; umhverfis stadinn er þeim megin, er at landi snýr, múrveggr giörr og fyrir utan hann síki djupt og breidt. Umhverfis kastalann, sem er ferhyrndr, gengr stólpagirding og síki; innan þeirra eru fleiri byggíngar; þar sitr nýlendustiórinn og adrir embættis-menn. Þar eru hérumbil 300 hús, auk smábýla Asiumanna, 3 lútherskar kyrkiur og 1 kathólsk kyrkia, nokkur godahof og bænhús (Moscheer) — og 15000 innbúar.

Þenna landspart keypti Ove Giede admiráll at Tansjárs einvalda (Rajah) á døgum Kristjáns konúngs hins fiórda og lagdi grund voll fyrrtéds kastala. Á þriá vegu markar grøf nýlendu þessari takmork; auk Trankebars, nokkurra smáþorpa og fiskivera eru þar tvø þorp allmikil, heitir annat **Berejar** (Porejaru);

þar er kristniboðskyrkia, — og annat Tillejali. Litt bær er Eyróvumönnum hitinn syrri helming sumars í nýlendu þessari; en þá 3 fyrstu vetrarmánudi eda þá árstíð, er rigníngar gánga, una þeir vel við. Landit er allvel yrkt. Medal giæda þess má einkanliga telia hrísgrión og vidarull (bómull); þar eru einnig margskonar gódar triátegundir, t. d. kokostré, písang- og Sagó-tré o. s. frv. Bædi eru þar hörd dýr og geigvænlig, villiuxar, skélvoddr, margkyniadr fiskr og mikill og fiøldi leidra qvikinda. Þeir eiginligu landsmenn kunna at ýmsum handaverkum, einkum bómullarvefnadi og eru hófsamir idiumenn.

Auk Traukebars nýlendu eiga Danir stad á eigin lód í Bengalalandi, er Fridriks-nagor heitir, og stendr vid Húgli.

Meiri hluti Vestr-Indíalands liggr undir hinum heita himinvegi, en hinn minni undir sydri helmingi hins temprada; er því audrádit, at þar muni vídast hiti allmikill og sumstadar óvonum litt bær. Þó ollir afstada og landslag þar, sem hvervetna á jardarhnettinum, mikils mismunar á vedrahættum; því t. d. þá sólskin og sumar er fyri austan gatiskn fiöllin, eru votvidri og vetr fyri vestan þau. Þar er heilnæmt loptslag, nema þar er landit er vott og agasamt. Hit nyrdra eda í því eiginliga Hindóstani eru snióstöll og nokkr kuldi á vetrum, en hit sydra edr í Dekani kjælir hafgola ofurhitan, og þrávindi eda vixlvindr (Monsun),

sem er rakinn sunnan á sumrum, en nordan á vetrum.

Í tilliti til frióssemis og giæda er náliga eckert land í heimi Vestr-Indíalandi betra né audugra.

Par vex mikil gnægd margskonar korntegunda t. d. hveiti, bygg, hrísgrión, margskonar kryddjurtir, ágiætustu ávextir, ópium, rabarbr, kamfóra, indigó, sandeltré, bambúsreyr, sesam, vidarull, areka, betel; þar er og demant mikill, gull, eyr, blý, járn, saltpetr og margir adrir ságiætir landskostir, er oslángt yrdi hér at telia. Dýr eru þar mörg og margkynind, t. d. fílar, úlfbaldar, rinoceróšar, lión, tigrar, leópardar, krókadillar og eytradir höggormar; einnig eru þar fuglar margir og litfagrir, t. d. papagøjar — en sialðan heyrist þar fuglasaungur.

Landsmenn kunna forkunnar vel at ýmiskonar tóvinnu, einkanliga at bómullar- og silkivefnadi. Kattún þat, músselin og herdaklútar (Schavler), er þadan flytiast vída um heim, lýsa nógliga vandvirkni þeirra og kunnáttu. Hvervetna hefir kaupverslunin þar verit, eins og hún er enn á vorum døgum, einka ábatasøm; en Enskir draga meiri ard af henni enn allir Evrópumenn ásamt og siá svo fyri, at ei skuli adrir þar um of sépúsu finna. Auk þeirra reka í Austindíum þessar þiódir kaupskap: Portúgisar, Hollendingar, Frakkar, Danir og Svíar.

Fjórar eru adalþiódir þær, er frá því fyrst at søgr giørdust, hafa voldugastar verit og víd-

lendastar í Indíum, nl. Hindúar, Indo-skýtar, Patanir og Móngólar, og enn er allr þorri innbúa lands þessa, sem eru 100 milliónir at tölu, frá hinum endverdligu innbúum eda Hindúum kominn. Fordum greindust Hindúar (Hindus) í 7 lýd-flokka (Kaster), en nú skiptast þeir í 4, nl. 1. Bramina; þeir eru, at sögn Hindúa, ordnir til af heila gudsins Brama, og skulu þeir því kénnimenn vera og prestar, lögvitríngar og þióna embættum; svo er mikil helgi þessara manna, at ei má þeim granda, og sé nokkrum þeirra bani unninn, er þat talit ódádaverk öllum glæpum verra; þeir vígjast 12 vetra til þessa flocks og bera upp frá því audkénniligan búnad. Til annars flocksins (Kschatres eda Schetris) heyra allir þeir, er hervopn brúka og mega þeir ei annat starfa né stunda, enn víg og vopnaburd; þeir eru upprunnir af öxlum og herdum fyrtéds guds. Í þridia lýdflocki eru kaupmenn allir (Banjaner), er eiga stórkaup vid innlenda og útlenda og versla gimsteinum og skrautgripum; þeir eru ordnir til af búki gudsins. Fiórdi flokkrinn (Schuter) samanstendr af öllum minniháttar verslunarmönnum, fiskibændum, handverksmönnum, kaupamönnum og s. frv. Auk þessara er þar hinn fimti flockr, er Paria (Parias) kallast; þat er þýit eda óþýdi eitt, er starfar alt þat, er saurugast þykir og vesælmannligast, neytir óhreinnar fædu og er asmán og afhrak allra Hindúa; hverki mega andvirdismenn þessir lifa í samblendni med ödrum enn sínum líkum, né koma í hof eda á

mannfundi og andi þeir á einn af hinum ædri flockum, hafa þeir fyrigért lífi sínu. Til hegníngar fyri vissa stórglæpi er mönnum ástundum hrundit úr midflockunum í þenna; þykir þat hvervetna hit hardasta straff, og kjósa því margir fremr líflát enn þvílíka asmánar-svívirding

Hina Bramínsku trú, er allir Hindúar játa, má kalla þjódtrú á Vestr-Indialandi. Höfudlærdómar þessarar trúar eru ritadir í bókum þeirra, er Vedams kallast og sem gudinn Brama lét opinberast mannkyninu. Þær eru ritadar á afar fornu túngumáli, er Sanskrit (þ: hin fullkomna) eda Deva Negara (guda-mál) nefnist og sem eingir mæla nú né kunna, nema Bramínar, med því leikum er hverki leyfiligt at nema hana né hugsast í þessar heilögu bækr. Hindúar trúa á 3 höfudgudi, ul. Brama (skaparan), Vischnu (vidhaldaran) og Schiwen (eydileggiaran). Þaradauki blóta þeir afarmarga gudi og minda bílæti eptir þeim öllum, nema Brama. Allir trúa Hindúar því, at launum og straffi muni úthlutat eptir daudan, og at sálin skipti hömum eda fari í adra líkami, manna eda dýra, uns hún ságud og fullgiör nær at lyktum þeim sanna sælarstad, eda velkt og verri ordin, á þessu lángvinna flakki, fer til helvítis, er þeir kalla Podalam. Gudahof þeirra (Pagoder) eru mikil og skrautlig, en þó klúrliga giör eins og skúrgodin, er í þeim standa. Nálægt þeim búa Bramínar og dansqvendi mörg (Bajader eda Dewedaschis).

Sá ædstr er Bramína skal alla æfi óqvæntr lifa.

Auk Hindúa og þeirra þjóda, sem þeim eru nákomnar at forni frændsemi (t. d. Skata Maratta, Radsbúta, Seika, Singalesa á Selan, Tamúla og Malabara, Badtúga í Karnatík, og fleiri smá-þjóda) hafa á Vestr-Indíalandi bólfestu tekit: Seikar, Afganir, Mongólar og Parsir eda Forupersar, Portúgísar, Enskir, Hollendingar, Franskir og Danir; þó eru þessir 3 sídstnefndu færstir at tiltölu. Túnga sú, er Hindúar mæla, er vid þá kénd, og upprunnin af hinu forna Sanskrits-máli eda Hindúanna helgu túngu; af því eru allar indíaniskar málískr komnar, medal hverra má telia; Hit kazemíriska, og hindústanska mál, Maratta-mál, Talenga-túngu (í Golkondu-ríki), Kanara-mál, Tamúlisku (á Korómandelströndinni), malabarisku og singalesisku (á Selan) og margar fleiri. Um lánga æfi hefir Sanskritstúnga hverki tölud verit né ödrum kunn, enn Bramínum sem einir eru nú á dögum skyldir at nema hana og kénna þeim, er til kénnidóms eru kjörnir. Þjódir þær, er þar hafa bólfestu tekit, bædi Evrópumenn og Asíumenn, mæla þær túngr, er forfedr þeirra töludu fyri þá eda þeir hafa í barnæsku numit.

Hindúar eru ávidqvæmir og ástridulausir um flestar tilhneigíngar, þolinmódir og hæglátir, fridsamir og einka vægir og tilhlidrunarsamir vid alla þá, er önnr trúarbrögd hafa og telia hverki adra á né kúga til sinnar trúar; þeir eru

svarnevtnir og hóssamir misg; eingum er þar, nema hermønnum, leyfiligt at snæda kiotmeti; þó er þeim einnig nauta-slátr bannat; ber þat til þess, at nautpeningr er helgr á þessu landi, med því hann hefir þar frá alda ødli þótt dýra gagnsamastr til akr-yrkiu. Verdi Bramin nokkr fundinn at því, at hann drekki vín, er hann vægdarlaust brennimerktr, med bikars-teikni, og rekinn úr samvistum ærligra manna. Auk þessa eru Hindúar rádvandir, gódlyndir og manna hreinlátastir, bada þeir sig og lauga sidægris, og fordast sem mest meiga, øll óhreinindi. Þar eldir enn eptir af ýmsum fornum og kynligum sidum; t. d. á Malabarstrøndinni, at ein kona á fleiri enn einn mann í senn; at eckjur, sem óbyriar verit hafa, hve úngar og fridár sem eru, láta sig brenna lifandi med líkum manna sinna, hafi þier verit medlimir annarshvørs hinna tveggia fyrstnefndu þjód-flokka; frá ønduerdu hefir þessi hryllilíga og mannrænulausa sídvenia vidgengist medal Hindúa, þó hafa dæmin því meira fækkat, sem adrar þjódir, t. d. Múhamedanir og Enskir, hafa feingit meiri umrád í þeim løndum, er Hinduar byggia.

Medal þeirra hluta er knúit hafa eckjurnar til at stytta á þennan hátt æfi sína, telia menn óstýrilátar trúarbragda grillur og hégvillu, hégómadýrd og fýsn til at komast í ordróm, og ástundum eintómt ástriki; þó mun þat sialdgiæfast; þeim konum, er á þennan hátt fylgia mønnum sínum til heimkynna hinna framm-

gengnu og til at þjóna þeim þar, heita helgi- bækr Hindúa og Braminar óumrædiligrar sælu, en hvergi áqveda log þeirra þvílíka óhæsu. Annars má þess hér géta, at hvergi er eckiu- dómr eymdarligri enn í þessu landi; því bædi er þat, at þær eru fyrilitnar miøg, (hafi þær eingin børn gétit) og mega gánga flippar og snaudar frá stór-eigum manna sinna, þiggia nád- arbraud af erfíngjum þeirra og þola, sem annbáttir, illa medferd. Lýdrinn í landi þessu er fáfródr miøg, hiátrúarfullr, fastheldinn vid forna villu og manna tregastr til umbótar og nýrra sida. Í þeim íþróttum, er létta vefnad og handidnir, taka Hindúar allseint framförum, en eru þó manna starfsamastir; þeir vefa kattún, silki, málud lérepti og herdaklúta, manna best og yrkia eydibygdir med þvílíkri kappsemi, sem væri þat trúarbragda-skylda. Bókvit er þar lítit og mentir fáar; Braminar einir hafa snefil af lærdómi og leggia einkum stund á at nema samskrits-túngu, nokkurskonar sidalærdóm, lækníslist og urtafrædi. lítilsiørliga himinrúngla- þecking og stjornuspádóm. Í þeim londum, er Enskir hafa til eignar og umráda, láta þeir sér annar um at draga ard af giædum þeirra, enn at menta þjódir þær, er þau byggja; svo ei þykir annat líkara, enn at medlimum hins austindíaniska verslunar-samfélags áliti þat hagnadi sínum hentast, at Hindúum ei midi stórum framm á veg til mentunar og frama.

Hindúar eru allmennast háir vexti, fridir

sýnum og vel-limaðir, fimir og manna miúkastir; þeir eru gulleitir á hörundit og því dekkri, sem þeir eru af lægri stigum; en Braminar og heldri menn líkjast vænligum Evrópumönnum, er nokkut hafa litverst af sólar hita. Þeir eru flestum mönnum smáhendari og liðamjúkir, smyria þeir sig tíðum og iðka miúkleika íþróttir; þeir unna miög kyrrsetum og makindum, eru seinvirkir, en þó náliga alldrei iðjulausir; hverki eru þeir blóðgirugir né hefndargjarnir; medal hinna hindúisku þjóða eru Marattar, Radsbútar, Róhillar, Póligarar og Maravar hraustastir í orrustum og vanastir við vopnaburð og hernað. Hindúar eru manna fégjarnastir og allnidskir; mun því at nokkru leyti ollat hafa lángvinn áþján og ásælni útlendra drottnara. Þeir eru flestum siðuðum þjóðum alltíðligri og þjónustusyllri, gestrisnir og velviljaðir við alla, er fara vel at þeim.

## B. Austr-Indíaland (Bag-Indien).

Þat er sá hluti hins mikla Indíalands, er menn kalla Indíur, fyri handan Gángá (sord. India extra Gangem) og sem er ásastr hit nyrðra við Indíur hérnamegin Gángár (fyrr. India intra Gangem) eða Bengalaland. Land þetta er allvíðlendt meginskagi, hvörium Bengala-flói markar takmörk hit vestra, en Kína-haf at austanverðu; fyri norðan þat liggr Kínaríki og Tíbetaland.

Hit syðra gánga þrjú nes í suðr og jafnmargir firðir inn í landit; sá vestasti er bugt ei all-mikil, er hverfr inn af Bengala-flóa og kallaðist forð. Sinus Sabaricus; austar gengr Siams-botn inn ímilli Malakka-ness og Kambodja og Túnkinsbugt austast, þar er þetta land og Kína ríki mætast. Á líkan hátt greina fjall-garðar, er gánga jafnsíðis í suðr frá Tíbeta-lands takmörkum, landinu í þriá höfudparta; eru þar dalir breiðir og fagrir og víðlend hér-uð; eptir þeim renna allmörg vatnsföll og mikil til hafs suðr; meðal þeirra má telia: a, Ruk-iang eða Iravaddi vestast; þá b, Lu-kiang eða Pegú-fliót; koma þau bæði til siáfar fyri vestan Malakka-nes. Austar fellr c, Menam í Siamsbotn og þá d, Men-am-Kom, er kémr til siáfar fyrir austan síðst-talin botn; þat er allra flióta mest í þessu landi og hleypr á vissum tíðum á láglandit og frióvgar þat ríkugliga. Land þetta er víð-ast frióssamt og fagurt, giæði og landskostir eru þar þvínær jafnmiklir og ei töluverdt lakari enn á Vestr-Indíalandi. Í fiöllunum finna menn margskonar málma og gimsteina; þar eru og markland mikil og ágiætr viðr til skipa-smíða. Sumstaðar eru þar eydimerkr, sendinn jarðvegr og flóar.

Aústr- Indíaland er 40 000 ferhyrnings mílur at víðáttu og greiniſt í 7 ríki, nl. Aſam, Birmanna-ríki, Siam, Anam, Cambódja, Laos og Malakka, og er þat um þau at ſegja, ſem ſylgir.

I. Aſams-ríki (Ascham eða Aschem).

Þetta ríki liggr norðveſtaſt á Auſtr-Indíalandi og í milli Bengalalands, Tíbet, Birmanna-ríkis og báðumegin árinnar Burrampúter. Þat er 1500 ferh. milr at ſtærð, einka gott land, ſorkunnar fagurt og frióſſamt. Þar er höfuðſtaðr, er Gergong (eða Kargaum) heitir; hann er mikill ummáls, gengr um hann girðing af bambúsreyri og liggia akrar og þorp fyrir innan; þar ſitr höfðingi lands þeſſa, er Rajah kallaſt, at naſnbót.

Innbúar lands þeſſa eða Aſsimiar eru hrauſtir í orruſtum og óvægnir, rammir at afli og ſimir, hefndargjarnir og ótryggir, og manna grimmaſtir við útlendínga; hafa þeir og leingi variſt fyrir nábúum ſínum hit veſtra er herjat hafa á ríki þeirra. Þeir eru hérumbil 2 milliónir at tölu; kunna þeir allvel at ſilkiſpuna og tilbúa margskonar veſnað og reſil.

Birmanna-ríki (Birmanernes Stat).

Þat liggr fyri ſunnan ſíðſtalit ríki, Tíbet og Kína, fyrir auſtan hinar breſku land eignir

og sudr med Bengala-botni austanverdum; þat samanstendr og fiórum fornum konúnga-ríkium, er Ava, Pegú, Arrakan og Kassay hétu, og af nockrum hluta af Siamslandi, er liggr fyri austan Birmanna-veldi. Þat er 12000 (sumir seigia 14750) ferh. mílr at vidáttu. Mikill hluti lands þessa er afar lángr, breidr og fagr dalr eda hérad; eptir því rennr fliót mikit í sudr, er Iravaddi heitir, (einnin kallat Ava og Núkiang), þat sellr undan sudrtakmarka fiöllum Tibetalands og hleypr árliga á láglendit og frióvgar þat. Þjódvegir eru vída gódir í þessu ríki.

Í landsálfunni Ava, er liggr mittlands í ríki þessu og nær hvergi til hafs, er höfudborg þess, er Umerapúra (Ummerapoora) heitir; hún stendr á nesi vid fliótit Iravaddi austanverdt og er at mestu leyti af bambúsreyri giör og allmikil ummáls; þar er hofgardr mikill, af steini giörr og allvída gulli skreyttr, er lýsir jafnframt ofmetnadi, ofursé, austrlanda sundrgérd og priáli. Í borg þessari segia menn séu 200,000 innbúar.

Landsálfa sú, er Arrakan kallast, liggr fyri vestan Ava og vid Bengalabotn; skilr þær fiallgardr, er gengr úr nordri í sudr og kallast: hin miklu Vestr-fioll (eda Onupektu-

miu); þar er Arrakan, 12 milr frá sæ og í dal vid samnefnda á; þat var fyrrum høfudborg í tédu kóngsríki, og er enn mikil og fiølmenn; þar er einhvør hinn mesti og skrautligasti hofgardr á Austr-løndum; er þar høll mikil og afar gullfiølluð; í henni er hásæti og øndvegishimin yfir, hvørnveggiu af klára gulli, og alt at því skapi prýdt og gimsteinum sett. Í Arrakan eru hérumbil 160,000 innbúar.

Í Pegú-ríki er hinn mesti kaupstadr í Birmanna-veldi, er Rángún (Rangulm) heitir; hann stendr vid Iravaddi eda Avu-mynni og er nýliga bygdr; hefir hann fliótliga aukist at audlegd og margmenni; því bædi er þat, at hann liggr vel vid kaupskap og sigling og einnig hafa skuldaþriótar af ýmsum løndum þángat sókt og haft þar hald og traust. Þar eru 30,000 innbúar.

Í nordaustr þadan er Pegú, er fyrrum var høfudborg í vidkéndu ríki og á 17du øld midri var rændr og nær í grunn brotinn af sliptara þess nú verandi birmanniska ríkis, er Alompra hét; þó feingu innbúar þessa stadar, er eptir lifdu, seinna leyfi at byggia hann at nýu og er sá miklu minni og at øllu ómerkari, enn hinn forni. Þar eru, sem hvervetna í þessu ríki, godahof mørg, enn eitt ber þó af

ollum, er Skamadu-hof kallast eda blóthof hins gullna guds; þat er afarmikit og stórkostligt mannaverk, er stendr á hól og er 361 fóta at hæd.

Lønd þau, er liggia undir Birmanna keisara, eru nær samlikum giædum búin, og Vestr-Indíaland; þar er gull og margskonar málmar í jørdu, ambra, silki-ormr mikill, biflugna rækt, silar og villi-uxar, hrísgrión, sikr-reyr, indígó, tóbak, vidar-ull, alskonar krydd-urtir og skógar miklir og forkunnar gódir (einkum í Pegú); þar má finna tvennslags íbenholt, hvítt at lit, og svo bengjanligt, sem skídi; þar er einnin hit svokallada thik-tré (Tectona grandis); þat er ei svo hardt, sem eyk, en beygjanligra og hverinn vid ógliúpara, stadbetra og og heintugra til skipasmída, med þvi þat verst súa og tré-ormum nær í hundrad ár; Enskir hafa um hríd sókt þángat vid þenna og keypt dýrum dómum; er þvi ei blikligt, at þeir renni girndar augum til þessara landa, er bædi liggia svo nærri jardeignum þeirra og eru svo audug af margbreyttum giædum í jørd og á.

J. ríki þessu búa ýmsar þiódir, medal hvarra sú, er þat tekr nafn af og sem øndverdliga á seinni helsingi 18du aldar afrekadi sér med herskildi einveldi yfir fyrrtédum løndum, og Pegúanir, eru hinar merkustu og voldugustu. Almennast eru innbúar þessara landa hugrekkir, slióttyndir og grimmir; þá þeir t. d. byggia blóthof, grípa þeir þann, er fyrstr gengr framhiá, varpa hønum lifandi í vegginn og

qvikſetja hann þar. Konur búa þar við knappan koſt; þó láta þeir hvorki geldinga gjæta þeirra, ſem víðaſt er ſiðr á Auſtrlöndum, né banna þeim umgengni með útlendingum. Allmörg ſkrautlig húſakynni í hinum ſtærri ſtöðum og ſtórkoſtlig blóthof votta, at hvorki bagar þeim efnaleyſi né atorka, og at þeir kunna allvel at ſmíðum og ýmſum handverkum. Í tilliti til akryrkju-kunnáttu er þeim mjög ávant, en frjóſſemi landſins lætr þá ei at heldr ſkorta viðurværi. Rautpeningr er þar margr, en illa ræktaðr. Birmenn ſkeyta ei um ſauðfé, með því þeim þykja geitr mjólka betr, — og þeim er ei ullar vant. Langvinnar ſtyrjaldir hafa hamlat framförum Birmanna í handiðnum og ýmſum ſmíðum; þó ſpinna þeir ſilki allvel, ſem ei er ſiðr enn Kínamanna, veſa dúka, ſmíða kaupſkip, (einkum í Rángún) forkunnar vel, hvaðſagt er at þeir hafi af Frökkum numit. Ei eru Birmenn heldr ſnauðir af mentum né upplýſing; þó ſer þeim í þeſſu ſem öðrum Auſtrlanda búum, at þeir fremr ſtanda í ſtað, enn taka framförum. Þeir unna og iðka ſkáldſkap, landaſkipunar-fræði og ſögur af forfeðrum ſínum; einfaldlig er þekking þeirra á lækningum og enn minni á himintúngla-gángi; þó bera þeir at eins kénſl á mána-árit. Þar eru múnka-klauſtr allmörg, og er bókaſafn nockurt í hverju þeirra, er geymiſt í lakeruðum kiſtum. Ei eru Birmenn ſömu trúar og Hindúar; þeir blóta ſömu guði og Kínesar og kallaſt þau trúarbrögð: Budda-trú; þeir kalla æðſta guð ſinn Gádma (Gaudma) og trúa, at ver-

öldin sé án upphafs og enda eda eylif; med því spekíngar í því landi kalla þat godgá mikla eda gudlastan at eigna nokkurri andligri veru eda Gudi sköpunarverkit. Heimrinn (segia þeir) er vixl breytíngum undirorpinn, hann eydist og endrnýast at eylífu og þat sem deyr og lídr undir lok, lifnar at nýu og mindast af leifum þess til samlíkrar veru og edlis, er þat ádr hafdi. Gádma eda gud þeirra er ordinn til og lifir í fullkomleika og fullsælu, er hann hlotit hefir fyri dygd sína og gódan verknad. Hann var í öndverdu holdligr madr og höldr í búi, er látinn giørdist hvít-álfr (Nat, o: Genius) og sídan, fyri sakir speki sinnar og slægvitsku, er Birmenn kalla öllum mannkostum fremri, hóst til ædstu tignar medal hinna fullkomnu anda (Rupa) eda guda, er allir á líkan hátt hafa áunnit sér þvílíkan gøfugleik.

Fyri Birmanna-ríki rædr mikilláti höfdíngi, er sídan 1800 hefir látit sig kalla keisara (eda Bóa). Veldi hans marka hverki lög né annara villji takmörk og er hann gjørsamliga siálfrádr einvaldi (Despot). Titill hans er lángr og skrumfullr; þar kallast hann: herra lopts og jardar, einvaldsstjórnari mikilla forþénusta og vegligs veldis, höfdíngi konúngsríkia og landsálfa (er uppteljast), eignarmadr hafna, kaupstada, gimsteina og málma-námna (er allt þetta nafngreint) o s. frv. — og hvørs-lof þeir skulu svo lángt, sem sól og túngl gánga, vídfrægia, er beygia audsveipit höfud undir hans hamíngiusama fót, rc. rc. Keisaranum gengr ríkisrád og ýmsir fulltrúar til handa í

landsstjórninni; hird hans er fiolmenn og skraut-lig, en þó hverigt um of; hann hefir óslýandi hér af ótta fyrir Euskum og ver hann til þess ærnu fé; velkist því stármagn landsbúa, og sjøldi þeirra stokkr árliga úr landi til hinna eusku landeigna fyri ofriki hans og stárheimt-um. Lid hans er nidrskipat og æft í vopnaburdi á evrópumanna vísu, en litt er mestr þorri þess at vopnum búinn; med því Frakkar og Enskir hafa hønum selt skotvopn þau, er þeim þóttu ei lengr duga mega. Allir eru stadir þeir, er vid fliótin standa, skyldir eptir stærd og at tiltølu at tilleggia nockursfonar herbáta, út-búna til leidángurs, þá keisari býdr. Bátar þessir eru eintriáúngar eda thiktrés-bolir, hol-adir med exi eda eldi, 80 fóta at lengd og 8 at þvermáli; á hveriun þeirra eru 50 til 60 ródrarmenn, 30 vopnadra manna og eitt fall-stykki á stafnloki. Peguanir eru Malajum líkir at skapnadi og skapferli; þeir eru vel-vaxnir, en þó audþecktir frá Birmonnum af følara yfirbragdi og hárskurdi, med því þeir láta ei hárit vaxa á eptri helmingi høfuds, en at framanverdu skéra þat eptir brúnum; þeir eru táldir menn óþrifnastir á Austr-løndum. Birmenn eru miklir vexti og hraustir, for-miklir og snarir, móleitir og svarthærdir og halda lengi úngdóms yfirbragdi, med því þeir strax plokka skéggit burt med smátaungum jafnódum og þat vex; þeir tattóvera *) arm- og fót-leggi,

*) Tattovere er eptir teiknudu munstri at stínga hørundit nálar-oddum og núa marglitum og

háls og holherdar med margkonar furdanligum mindum. Birmenn eru gledimenn miklir og leika marghátund leikspil; þeir tebla skák, en á margbreyttari hátt, enn sidr er til í Nordrálfu.

III. Síams = ríki (Siam).

Land þetta kalla innbúar þess: meuang Tai ɔ: konúngsríkit Tai, en siálfa sig nefna þeir Tai ɔ: friálsa. Þat er feikiliga mikill dalr eda hérad ímillum tveggia fiallgarda, frá 15 til 60 mílr at breidd; eptir því endilaungu fellr fliót mikit í sudr, er Síamesar kalla Menam (ɔ: hit mikla vatnsfall), renna í þat hver-ár margar bádumegin. Land þetta segia menn sé 6100 ferhyrnings mílur at vídáttu og at innbúar þess séu 2 milliónir. Þar er heilnæmt loptslag, en ledjan, er árnar bera á slétt-lendit og á þann hátt giörir þat at siálfsræm-um akri, ollir jafnframt ódauns og óheilinda. Á vetrum (ef svo má kalla nokkura árstid í þeim hluta heims) eru þurrvidri, en á sumrum afarhiti og áslundum rigníngar; er þar lángvidrasamt miøg sem í Bengalsbotni. Át eins

---

ósamáanligum farfa í benjarnar; koma þá framm ýmsar fígúrur, er sumum þiódum þykir prýda líkaman, en sumum, lýsa virdíng þess, er ber.

er fyrrtédr dalr yrkir, en fiøllin á bádar sídr eru skógar einir og marklønd og bæli margkynjadra villidýra. Landskostir eru þar margir og ágiætir og nærhæfis samlikir þeim, er taldir eru á Vestr-Indíalandi, t. d. mais, hirse, hrísgrión, kanel, kaffe, vidar-ull, betel, sikr-reyr, ýmsir krydd-ávextir, bambús-reyr, tonkitré (er menn giøra pappír af) litunar-tré, gull, eyr, járn, blý, tin, segulsteinn, saltpetr, brennusteinn, demant, o. s. frv. en landsbúum sýnist lødurmannliga at hagnýta sér øllu þessi þeim í skaut borin giædi. Ríki þetta er greint í 11 landsálfur og ráda fyri þeim jarlar, er allir hlída bodi og banni Siams konúngs. Merkasta borg í landinu er Siam eda Judia (Schudia, Juthina eda Odian), hún stendr á ey í fliótinu Menam og er 2 mílr ummáls, en ei at því skapi fiølmenn; umhverfis hana gengr einlægr múrveggr og ígégnum hana síki mørg; er hún at því ápeck Feneyaborg. Þar eru steinhús mørg og breid stræti, en lág húsakynni, þrír hofgardar og háreist blóthof, eru í þeim skúrgod mørg, gylt og skrúdbúin. Utan og innan múra eru hús fyri 100 síla. Í þessari borg sitr konúngr á vetrum, en á sumrum í stad þeim, er Lúvó heitir, 4 mílum nordar.

Fyri vestan Siam liggr eya-klasi mikill, er Mergúi-eyar kallast; þær eru forkunnar

góðar og frióffsamar. Þar eru ágiætar hafnir. Sumar eru eyar þessar óbygðar, þó fagrar séu.

Innbúar þessa ríkis eda Síamesar eru fremr litlir enn miklir vexti, og ei illa limadir. Andlit þeirra er breitt og þvínær ferkantat augun smá og ei ólíklig, en skeck i hsfdi og er hit hvíta i þeim gult, nefit stutt, munnrinn mikill, varirnar þyckar og bleikar, tenur svartar (af betels-áti), hørundit bleikgult, eyrunn seikna-laung, hárit svart, þykt og stutt. Þeir gánga hvervetna berfættir og berhøfdadir og sveipa at eins dúk um mittit, er nær þeim at kniám nidr. Síamesar eru hreinlátir, lauga sig tídum og smyrja margskonar daungódum smýrslum, en aldrei skéra þeir neglur sínar, en þrífa þær og tennur vandliga. Þótt landsmenn kalli ríki þetta: friálsra-manna-land, samsvara kiør þeirra því ecki; med því konúngr þeirra er vid eingin løg bundin og hefir einn einkarétt til at verfla og reka kaupskap. Undirsátar hans eru skyldir at þjóna honum árliga i 6 mánudi án kostz og launa, og eru greindir i 3 flocka, nl. inndrótt eda verndarlid konúngs, vinnufólk hans og embættis-menn; þeir sídstnefndu fá at eins ánaudug hión i laun. Síamesar kunna litt at handidnum og smídum; þó vinna þeir bómull og silki til eigin fatnadar. Kaupskapr er þar litill. Portúgísar áttu fyrstir allra Európumanna vidskipti vid þjód þessa; sídan Frakkar, er 1689 vóru drepnir þar og úr landi reknir. Eptir þá komu Hollendingar og Enskir, er nú á døg-um alleinir eiga kaup vid Síams konúng.

Hvar þrældómr drottnar, taka mentagyðjur eigi bólfestu; svo er einnig í Siamslandi. Þó eru þar til fornar helgi-bækur, ritadar á Pali-túngu, er innihalda gudafrædi og sidalærdóm, og eru leifar af forgengnum mentum. Þar eru skólar, í hverjum prestarnir (Talapoins) kénna únglíngum at skrifa og reikna. Í landi þessu eru hin búddaisku trúarbrögd (Buddhaismus) þjód-trú. Siamesar kalla gud sinn eda frelsara: Sommona Codom en ei Buddha. Sumir lærdir menn meina, at gud þessi sé eingin annar enn Pythagóras og færa þat til síns máls, at aldr beggia samsvari og trúarlærdómar hins sídstnefnda séu mjög líkir frædum Siamesa og sögum þeirra um Sommóna Códom, at því undanteknu, at landsmenn segia at téd gud hafi átt bródir, Thevelat at nafni, er hafi afvegaleidt lýdin med röngum kénníngum og hafi því krossfestr verit og þyrni-krýndr. Þeir kalla alla Evrópumenn Thevelats áhángendr, einkum þá kristnibodara, er þar hafa komit og fengit lítit atgiört.

## IV. Keisaradæmit Anam.

Þat er vídlendt ríki, forkunnar frióſsamt og margskonar dýrmætum kostum og gædum búit í jord og á. Þat samanstendr af tveim löndum allmiklum, er Tunkin (eda Nordr-Anam) og Kockinkína (eda Sudr-Anam) heita, og margir meina at vid þat séu nú tvo lönd skeytt, er Laos og Kambódja kallast; liggr þá

allr hluti Indíalands (fyri handan Gángá), hvørjum Siams-ríki hit vestra, Kína hit nyrdra, en haf at austan- og sunnan-verdu marka tak-mørk, til þessa ríkis. Þat er 18000 ferh. míl. at vídáttu, en innbúar þess segia menn séu 18 milliónir at tølu. Þau tvø fyrrtøldu ríki vóru um lánga æfi háð og skattskyld Kína-keisara, en høfdingi sá, er á vorum døgum ræðr fyri Anams-ríki og Gia-Long heitir, hefir steypt veldi Kínesa og tekit siálfr keisara-nafn. Svo er land þetta fagurt, frióssamt og vedra-sælt, at ei þykjast ferdamenn því nógsamliga hrósat geta. Ofurhitan í øllum þessum Asíu sud-lægu løndum temprar, þar sérílagi, fialla- og sæ-golan. Akr er þar siálfrænn og ber tvísvar og þrísvar á ári; vaxa þar húisconar aldini og ávextir, er vídast í heimi eru ókunnir, margs-konar ágiætr vidr, sandel trè og hit dauusæta Kalambó. Í skógunum eru náshyrningar, kóngs-tígrar og fill margr og mestr vexti í heimi og mørg ønnur merk dýr; — gull er þar og mikit og svo ágiætt, at hvergi finst jafngott, silfr, eyr, tin, járn, o. s. frv.

Stadr sá, er Phú-Xúam heitir er hof-udborg í þessu ríki og keisara-setr; hún stendr bádumegin árinnar Húe, er skilr Túnkin og Kokinkína. Borg þessi er líkari afarmikilli

bæa-þyrping, enn skipuliga bygðum stað. Þar eru 30,000 innb. og 400 goðahof.

Bak-Kin eða Keskó (Bac-Kin eda Kescho), er sumir kalla Kaká (Cachau), var fyrrum höfuðstaðr í Túnkin. Það er mikill staðr ummáls og afar-fjölmennr. Í Kockinkína er Hú e-hau eða Fai-Phó, þat er hinn mesti kaupstaðr í ríkinu, er þar og höfn góð.

Innbúar ríkis þessa eru Kínesum miög líkir at skapnaði og álitum, háttum og handiðnum, og eru þeim jafnfærir til þess er mentun og mannvit þarf til; þeir mæla líka túngu og standa á samlíkri upplýsíngar tröppu. Keisarinn, hirð hans og embættismenn (Mandariner) trúa Confúsíúsar lærdómum og fylgia hans boðum; þeir trúa á einn Guð æðstan, er skreytt hafi heiminn og lagat, en ei skapat; þeir segia at guð þessi sé andi, er at eins verði yndum kunnr og af hreinu hjarta dýrkaðr. Um ódauðligleika mannkynsins vita þeir ei hvorju trúa skal. Hvorki hafa þeir hof né presta né tíðagiörðir, en tigna at eins himnanna konúng og iðka dygðina, því hún er launaverð. Eingum er leyfiligt Guði fórnir at færa nema keisaranum einum. Almúginn í ríki þessu blótar goðinn Baddha, (er í Túnkin kallast Bout) og fórna hönum allskonar frumgróða og tilbiðja hann í kofum; í þeim eru goða-líkneski mörg, er annattveggia hánga upp undir miðiu ráfri eða standa á stalli eða þrepi, en hverki er þat skraut né altari. Þessi trú kallast hin sehamaniska trú og er hún víða í log leidd á

Austr-löndum; hennar áhángendr blóta afar marga gudi, bædi skapada og óskapada, er búa í himintúnglum, lifandi sképnum og daudum hlutum; þeir giöra og bilæti eptir þeim, og setja þau í iveru-hús sin og bera þau á sér í öskjum. Menn lifa eptir daudan, en í sorgligu ástandi, er hverki góð-verk né íllvirki breytt géta og um hvört gudirnir, sem hvervetna eru idjulausir, ecki skeyta o. s. frv. Þó er þessi trú, hverki í þessu ríki né annarsstadar, samlik því, er hún var í öndverdu, þá hún hófst, heldr blöndut og breytt á ýmsa vegu. Yfir 300,000 manna hafa trúarbodarar kristnat í landi þessu. Keisarinn hefir ótakmarkat veldi; lid hans er 120,000 at tölu; lög eru þar straung; samqvæmt þeirra bodi er af þeim, er hnuplat hefir í fyrsta sinni, höggvinn einn fíngr, sídan annar, svo eyrat og fyrir stuld í fiórda sinni og alls-konar stórþjófnad, höfudit; þeim, sem ótrúr er í ektastandi, hvörtheldr þat er karl edr kona, er varpat fyri fíla, er strax stytta þeim aldr, o. s. frv.

## V. Konúngsríkit Kambódja (Cambodja eda Cambodscha).

Þat liggr ímillum sudr-hluta Síams-ríkis og Kockínkína, fyri sunnan Laos, en hit sydra nær þat til sjáfar, nl. Síamsfiardar og Kína-hafs. Bædi þessi ríki, Laos og Kambódja, liggia milli afar-mikilla fjallgarda, er gánga í

nordr og sudr og minda feikna-lángan og breid-
an dal, hvørs efri hluti kallast Laos, hinn nedri
Kambódja; eptir dal þessum midjum og jafn-
framt ígégnum lønd þessi endilaung fellr mikit
vatnsfall, er Menan-Kom heitir. Hvøru-
tveggju eru ríki þessi Evrópumønnum þvínær
gjørsamliga ókunn. Í Kambódja er Lúvek
høfudstadr og konúngs heimili og stendr vid
fyrrnefnt fljót; hann er sagdr mikill ummáls,
en all-óásjáligr.

Innbúar þessa lands eru døckmóraudir
á hørundit og kunna nockut at bómullar- og
silki-spuna. Þar reka Kína-menn, Japanir og
Portúgísar kaupskap. Landsmenn trúa á Búdda;
veldi presta hans er þar mikit og konúngi geig-
vænligt.

## VI. Konúngsríkit Laos.

Þat liggr í millum nordr-hluta Síams-
ríkis og Túnkín, en fyri nordan þat er Kína;
þat nær hvergi til sjáfar og er því farmønn-
um úr Nordr-álfu heims hinu fyrrtalda ríki
ókunnara. Þar er stadr sá, er Lantskang
heitir, er sumir kalla Vinkian; hann stendr
mittlands og vid téda þjód-á. Adrir segja at
Sandepóra, er liggr sunnar vid ána, sé
høfudborg ríkis þessa og konúngs heimili.

Í Landi þessu er sill afar margt, sem nafn þess bendir til, er þýdir: þúsund silar. Innbúar þess eru sagdir sterkir, skrautligir í atbúnadi, hæglátir og einlægir, en loftasamir, hiátrúarfullir og ánaudigir þrælar ásælinna og fáfródra presta. Þeir eru sömu trúar og Kambódjumenn.

## VII. Meginskaginn Malakka (Malacca).

Svo kalla menn nes þat á Asíu megin-landi, er lengst skagar í sudr og hvors tá eda höfdi (Romania) liggr hérumbil einn mæli-stig fyri nordan midjardar-línu. Skagi þessi er miøg lángr og mjór hit nyrdra, en verdr breid-ari þá sudr eptir dregr, og er 2150 ferh. míl. at stærd; eptir hønum midjum gengr stallgardr, allr skógi-vaxinn, til Romaniu-höfda sudr. Í landi þessu er hvervetna vor og nafntogut vedra-sæld; tré og akrar bera svo vetr sem sumar og ilmr af blómstrum og trjám fylla dampa-hvolfit, er regnskúrir og hafgolan nær dagliga tempra med lífganda kuli; hafa því farmenn, er þar komu vid land, þókst Paradís fundit hafa; en þá frá sæ dregr, taka merkur vid og þyckir og myrkir skógar, er villi-þjódir, sem Mon-

akabúar kallast og eru mannætur, byggia, eitradir høggormar, margskonar villidýr og ókyndur; voga því hvørki útlendir né innlendir at kanna upplendit á skaganum. Gull er þar og silfr, og tin svo mikit, at landsmenn þekja med því hús sín.

Summarliga á vestr-strøndinni stendr stadr sá, er Malakka (Malacca) heitir; þar eru 12000 innb. gód høfn og festing, er stendr á bjargi. Hann er eign Hollendinga.

Af hønum tekr skagi þessi nafn, og sund þat, er skilr hann og eylandit Súmatra.

Ey nokkr, 22 ferh. míl. at víddttu, er Púlo-Pínang kallast og liggr skamt undan vestr-strønd skagans, tilheyrir Enskum; þar eru 19000 innb.

Nokkr hluti lands þessa er skattskyldr Siams-kóngi. Evrópumenn sækia þángat sérílagi: tin, pipar, filabein og litunar-tré.

Þjód sú, er byggir strandir Malakka-skaga, kallast Malajir; þeir eru hverki Hindúum, Birmønnum, né Siamesum likir at ásýndum eda skapserli. Þeir eru vødvamiklir og rammir at afli, møg døck-móraudir á hørundit og kolbrúnir á hár, eygdir møg, nefstórir og flatnefjadir, grimmligir og skapstórir, ósvifnir og svo fífldjarfir, at þeir hverki fordast eld né eggjar medan á þeim er brædin; þeir bera jafnan daggard í hendi og eru hvervetna búnir til illvirkia og víga, þá til fiár er at vinna. Heima

eru þeir latir og láta þræla vinna fyrir sér, vanrækja jarðyrkju og aðrar handiðnir, enn vopnasmíði, og kalla eckert svo frægt vera, sem hernað og ránskap og tala sjaldan um annat, enn heiðr, hugdirfð og þau afreksverk, sem þeim eru tömust; svo þat má segja um þennan landspart í Asíu, at þar sé fagurt land illa skipat. Um lánga æfi hafa einkum Hollendíngar átt verslunar viðskipti við þjóð þessa; þeir hafa fært sér stríðsýfi hennar og óskipuligt stjórnarform í nyt og æst fyrstana, hvorn ámóti öðrum; enddist þá þrek hennar og skipastóll, — en þeir unnu gagn af hennar skaða og rökudu þar auð saman.

## VI. Hit kínesiska Ríki (det chinesiske Rige).

Þetta stórkostliga ríki gengr Rússa-veldi næst at víðáttu af öllum ríkjum á heimskrínglunni. Þat liggr ímillum köldu Svíþjóðar eða rússisku Asíu, hins fría Tataralands, Indíalanda, og hins kínesiska og japaniska hafs. Þat er 196,000 ferhyrnings mílur at stærð. Þar eru 170 milliónir manna.

Kína-veldi greiniſt í 7 hluti, medal hværra høfudríkit er, 1. hit eiginliga Kína, ſem er 70,000 ferh. mílur; undir þat liggia 6 ſkatt-lønd, nl.:

| | |
|---|---|
| 2. Tíbet . . . . . | 18,000 ferh. m. |
| 3. Hit litla Búkaraland | 10,000 — — |
| 4. Móngólaland . . | 55,000 — — |
| 5. Túngúſaland . . . | 36,000 — — |
| 6. Meginſkaginn Kórea | 4000 — — |
| 7. Lieu-Kieu-eyar | |

## I. Hit eiginliga Kína (China *).

Þat liggr fyri ſunnan Móngólaland, og fyri veſtan þat og Tíbet, og fyri nordan Auſtr-Indía-land en at auſtanverdu markar því hit kíneſiſka og gúla haf takmørk. Nyrdri hluti lands þeſsa er fiøllóttr; gánga þadan allmargir fiallgardr í ſudr-ættir og eru þeir allir lágir. Á tindum fialla þeirra, er gánga úr auſtri í veſtr á nordr-tak-mørkum Kínalands, er einlægr og manngjørdr múrveggr, 300 mílur at lengd, er Kíneſar hafa

*) Landsmenn ſiálfir kalla ríki þetta: Tschong-kue ɔ: Midpúnktsland; Hindúar: Maha-Tschin ɔ: hit ſtóra Tſchin; Árabar: Sin; Rúſsar: Kitai og Japaneſar: Thó.

ciørt, yfir fiøll og dali, til verndar sér móti herhlaupum þjóda þeirra, er bjuggu fyri nordan tid fjøll. Þat er eitthvort hit feikiligasta og og 2000 ára gamalt stórvirki.

Tvø eru vatnsføll merkust í ríki þessu, nl. a, Hôang-hó (: hit Gula-fliót); þat rennr úr vestri frá Móngólalandi og kémr til sjáfar í hit kinesiska haf. Þat er 400 mílr at lengd — og b, Yang-tse-Kiang (: hit Bláa-fljót), þat kémr frá Tibet, rennr mittlands í ígégnum landit, 400 mílr í austr, og í syrtéd haf; er þar mynni þess nær 15 mílur at breidd, en ímillum ósa fljóta þessara eru 40 mílr vegar. Bádar eru ár þessar stráungar og all-vatns-miklar. Auk þessara vatnsfalla eru þar allmargar ár, sem vída eru samteingdar med manngjørdum síkjum, til at létta flutnínga á skipum frá einni landsálfu til annarar. Medal síkia þessara er eitt mest, er Keisara-kanall heitir; þat er grafit 300 mílur ígégnum landit frá Peking til Kanton. Þar eru og afarmørg stoduvøtn, þeirra nafnkéndast er Tong-tinghú.

Ríki þetta er greint í 16 landsálfur edr jarlsdæmi, og er yfir hvørt þeirra Vice-kóngr eda jarl settr.

Í jarlsdæmi því, er Petskeli heitir, er

höfudborg ríkis þessa og heimili einvalda þess, er Peking (eda Tschung-kieng-fu) ɔ: hit nyrdri einvalda-setr) kallast; þat er hin mesta borg í heimi; hún er, at 15 forstödum undanskildum, 5 mílr ummáls, þvínær ferhyrnd og gánga 4 múrveggir umhverfis hana og díki mikit; Kínesar segja at hún sé 3000 ára gömul; hún skiptist í tvo parta; kallast annar: hinn Kínesiski stadr og annar Tatara-stadr; þessi er hinum meiri og at því leiti merkari, at þar er hofgardr keisarans, og afarmörg stórhýsi, er hird hans og ædstu valdamenn byggja. Í borg þessari eru 10,000 hofgardar, 2 rússiskar og 4 katólskar kyrkjur og jafnmargar Moskeur og 33 blóthof, 2 stjörnuturnar, litt at verkfærum búnir; strætin eru afar-laung og 50 skref at breidd og eru spelahurdir fyrir endum þeirra, sem lokadar eru um nætr. Til at varna óróa gánga hermenn á strætuuum um daga, med byssum vid sidu og svipum í hendi. Ei kémr mönnum saman um manntal i borg þessari; því sumir segia at þar séu at eins 700,000, sumir 1 millión og 500,000, adrir tvær og enn adrir 3 milliónir.

Í jarlsdæmi því, er Kjangnan kallast, stendr borg sú vid fliótit Jan-tse-Kjang, er Nankin (eda Kiangning-fou ɔ: hit sud-

læga einvalda-heimili). Þat er mikil borg, hálf-fjórda míla ummáls, fornfálig og vída hrunin; hún var fyrrum keisara-setr. Þar er 100 álna hár turn af múrsteini gjørr og lagdr hit ytra med porselíni, hann er áttkantadr og hánga á hønum klukkur umhverfis og eru í hønum 9 loptaskipti. Í stad. þeßum eru bómullar-vefstadir nafntogadir — og 1 millión innb. er ødrum Kínesum fremr fá ord fyrir óhóf í nautn og atbúnadi, en eru þó betr ad sér um marga hluti og sidprúdari.

Í mynni fyrrtédrar þjód-ár liggr ey sú, er Tson-Ming kallast; þángat eru stórbrota-menn reknir.

Í jarlsdæminu Ziefing er mikill kaupstadr vid sæ, er Hangtufu (Hang-tcheou-fou) heitir; þar er 1 millión innbúa. Af þeim vinna 60,000 silki.

Formosa (eda Tai-ouan) kallast ey nokkr, 1000 ferh. m. at vídáttu. Kínesar eiga at eins vestr-strønd hennar, en hinn hlutan byggir þjód nokkr, sem er Evrópumønnum med øllu ókunn.

Í jarlsdæminu Qvanton, er liggr hit sydra í ríki þessu, er stadr mikill, er Kanton heitir. Þat er hinn mesti og audugasti kaupstadr í Kína og einhvor hinn merkasti austr í heimi; hann stendr vid mynni

ár þeirrar, er Tahó heitir, og er greindr í tvo parta: Kínastad og Tatarastad; þar er og forstadr mikill, í hønum búa Evrópumenn og hafa þar varnings byrgda-hús sín og sølubúdir. Á ánni eru hvervetna 40,000 skipa, er liggja í rød hvørt vid sídunu á ødru; á þeim býr nokkr hluti stadarlýdsins, sem er 250,000 at tølu; þar eru laung stræti, vel steinløgd og hreinlig; þar er ei óvída perlumódir í gluggum fyri gler. Hvergi mega nordr-heims farmenn í Kínaveldi koma vid land né versla, nema í borg þessari; þó er þeim bannat at leggja inn at stadarbryggjum, en at eins leyst at hlada og afferma vid ey þá, er Wampú heitir og liggr 3 mílr frá Kantóni. Þadan flytja Evrópumenn: the, nankín, porselín, silki, túsk, o. s. frv.

Í bugtinni vid Kantón er ey, 5 ferh. m. at stærd, er Makaó heitir; þar er samnefndr býr med 20,000 innbúum, er fyrrum var nafnkéndr kaupstadr. Ey þessa eiga Portúgísar, en mega lúka Kína-keisara skatt. Þar er hellir, í hvørjum sagt er þjódskáldit Camoen hafi orkt ýms qvædi sín, þá hann sat þar í útlegd.

Jarlsdæminu Kjansi er stadr sá, er Kín-tesking (Kin-te-sching) heitir, í sudvestr frá Nankín; þar eru hinar ágiætustu porselíns-smidjur og 1 millíón. innbúa.

Í sudr frá sudr-horni Kína-ríkis og at austanverdu vid Tunkins-fjørd er allmikit ey-land, er Haynan heitir; þat er 35 míl. at lengd og fiollótt; Kínesar eiga at eins strandir þess, en upplendit byggir þjód, sem hverki er þeim hád né skattgyld.

Í Kantóns fjardar mynni liggja smá-eyar nokkrar, er Portúgísar kalla Ladrónes, eda Ræningja eyar, med því þær byggja illræmdir stióvíkingar, 40,000 at manntali, er í 25 ár hafa rænt kaupskip og herjat nærliggjandi strandir og eru manna grimmastir og verstir vidreignar.

Í nordr-hluta ríkis þessa er sakir hálendis, saltpeturs í jørdu og snæfialla meira ast kulda, enn í jafn-nordlægum løndum í Nordr-álfu heims, en hit sydra er hiti mikill. Á vetrum eru þar ásergiligir regnskúrir og stormar vedra tídastir. Landit er vída forkunnar frióssamt og øll eru þar náttúru-ríkin einka audug; auk þeirra almennustu landskosta, er þar: the mikit, silki, hrísgrión, vidarull, indigó, sernistré, sápu-tré, margskonar heilnæmis-jurtir, gull, silfr, hvitt eyr, fjallkrystall, porselins-leir, steinkol, og fjøldi annarra gagnsamra hluta, er oflángt yrdi hér at telia. Hvervetna sem verdr, velta menn jørdu til korns, einkum hrísgrjóna, einnin á fjøllum uppi. Keisarinn siálfr sýnir þessum at-vinnu-vegi medhald og heidr, því á vori hvørju eda hvørn 15da dag í hvørum fyrsta mánudi gengr hann med frændum sínum og øllu stór-menni út á akurland nokkurt, kastar sér á kné, beygir høfud 9 sinnum til jardar, svo vidnemr

ennit, og biðr með hárri röddu hinn æðsta guddóm at blessa verk akurmanna og allra sinna undirsáta; at því búnu fórnfærir hann, sem höfuðprestr ríkisins, griðúng guðnum Tien, leggr af sér konúngligan skrúða og plægir sjálfr litinn blett og svo stórhöfðíngjar, hvor af öðrum. Þessi dagr og sá, er keisarinn á líkann hátt gengr út og sáir, er einhvör hin mesta hátíð meðal Kínesa. Konur einar uppklekja silki ormi, og vinna og vefa bómull og silki. Kínesar eru, at Japans-innbúum frásikildum, öllum Asíu þjóðum fremri at mentum og margskonar íþróttum. Mjög snemma og jafnvel fyrr enn Evrópumenn báru þeir kénsl á prentverk, kompás og púðr; enn þeir hafa fremr staðnæmst á miðjum vegi, enn tekit framförum til hlýtar; þó eru þar handiðnir og verksmiði til, er þykja allnærri því, er best má vera; þarámeðal má telja porselíns-smiði þeirra og lack, silkivarníng og kattún, litunarkunst og fílabeins-smiði, o. s. frv. Túsk þeirra og pappír er nafntogaðr. Auk þessa lýsa þjóðvegir, manngjörð síki og steinbogar eða bjúgar brýr, afar háir og uppdregnir turnar, aldingarðar og sléttun hálsa og hæða nógsamliga óþreytandi starfsemi, frábærum hagleik og undrunarverðri atorku og manndómi. Innanlands er kaupskapr Kínesa meiri enn við útlendskar þjóðir. Þeir flytja varníng sinn til Kiakta og eiga þar mikil kaup við Rússa. Í Kantóni reka Enskir mikinn kaupskap og Frakkar, Portúgisar, Danir, Ameríkumenn og fleiri þjóðir.

Innbúa ríkis þessa segja sumir 100, sumir 150 millióuir at tölu (eptir manntali Mandarina eru þeir 333 mill.), og greinast í margar og ólíkar þjódir; þeirra merkastir og voldugastir eru Kínesar eda Kinamenn, þeir eru, sem útlit og limalag lýsa, af móngólískum ættstofni komnir. Sifanir, er at eins lifa af fjárrækt og flytjast um landit med hjardir sínar; þeir eru einnin ættingjar Móngóla. Þjód sú, er Laos kallast, er hindúisk eda indianisk at kyni. Miaósar, er búa í fjallbygdum og elta tídum grátt silfr vid Kínesa og giöra þeim mikin skada. Auk þessara eru þar: Sydingar, Mandskúar, frá hvörjum Kina-keisarar, er sídan 1644 hafa þar ríki rádit, eru komnir, Tatarar og Hindúar. Allr þorri alþýdunnar í Kina-ríki fylgir þeim trúarlærdómum, er spekingr nockr, er Fó hét og kom þángat vestan af Indíalandi enu vestra, kéndi á 1stu öld eptir Krists burd og sem þar hefir sídan dýrkadr verit. Þeir sem eru almúganum fremri at skynsemd og mentum, rækja sidalærdóma Confúsíúsar, er lifdi hérumbil 500 árum fyri Krist og kéndi mönnum sérílagi dygdir og góda sidi. Adrir játa Lao-Kiuns-trú; en keisarinn, hird hans og allir Mandskúar eru lamaiskir trúmenn. Þeir blóta gud þann, er þeir kalla Tien og ædstr er allra guda; hönum er at eins eitt musteri helgat og má þar einginn fórnir frambera fyrir hann nema keisarinn. Presta þá, er þjóna gudnum Fó, kalla Kínesar Seng, Tatarar Lama, Síamesar

Talepoiner og Evrópumenn Bonzer; þeir eru a mill. at tölu. Í Kína-ríki haldast einnin Múhamedanir og ei allmargir Kristnir vid. Almennust eru 4 túngumál í ríki þessu nl. kínesiska, mandskúiska, tartariska og torgótiska. Hin fyrstnefnda túnga er ei, at því leiti er vidkémr dagligu máli, þúng at skilja, en ærin eru vandmæli í henni fyrir útlendinga; fyrir eyrum Evrópumanna eru í henni at eins 350 ord, og er hvært þeirra ein samstafa, en Kínesar telja 7700; verdr þat med þeim hætti, at þeir mæla sama ordit af munni framm á 8, (sumir segja 11 og adrir 13) vega og fær þat þá jafnmargbreytta og ólíka þýding, auk allmargra sígúrúligra merkínga *). Mikla torveldara er

*) T. d. þýdir ordit Tschun: herra, svín, eldhús, stytta, örlátr, at tilreida, kljúfa, velviljadr, lítill eda fár, at vökva. þræll, fángi, o. s. frv. Þat er sagt, at sum ord eda sámstöfur fái á þennan hátt nær 50 merkíngar, er eingum útlending er unt úr at ráda og varla Kínesum siálfum ástundum, sýna þeir þá þeim er ecki skilr, bókstafs mind þá uppdregna, er samsvarar því ordi, er mælt var. Þeir hafa hverki B, D, R, X, eda Z, og setja í framandi ordum í stadinn fyri þessa stafi: P, T, L, og S, — og þar þeir ei géta útalat tvo samhljódandi ásamt, setja þeir hljódstaf aptan vid hvörn þeirra og segja og lesa t. d. Spiritus: Svpi-li-tu-su og Christus: Ki-li-su-tu-su. Svo hafa þeir frásagt, er heyrt hafa Kínesa mæla, at þat líkist miög barna-babbi eda þvadri.

at læra at lesa og skrifa túngumál Kínesa, því þeir hafa 80,000 skrif-teikn eda stafa-figúrur, er jarteikna jafnmørg og samsvarandi ord og hugmindir. Til at þeckja øll rit-teikn þessi eda bókstafi þarf heilan mannsaldr og ókvikula kostgiæfni; má af því ráda, at ei er audsótt at verda til hlýtar lesandi og skrifandi í Kína og at sá þykist vel lærdr, er numit hefir 20.000 eda þau almennustu og naudsynligustu rit-teikn. Torveldni þessi ollir því, at mentir hafa þar nád litlum þroska og þeir þar svokølludu vísindamenn eru fáfródir um flest, er sídadar þjódir kalla lærdóm og frædi. Þó eiga þeir mjøg fornar bækr, er innihalda allnýtanliga sidaspeki og fornsøgur.

Í Kína er ótakmørkut einvaldsstjórn í løg leidd og er keisarinn med øllu sjálfrádr um sín bodord og gjørdir; þó er valdamønnum og dómurum leyft, at bidja hann um vægd eda breyting úrskurda. Hann kallar sig einvaldsherra jardríkis, øllu jardnesku veldi ædri, himnanna helgada son og fødr sinna undirsáta: Menn fórna fyri líknesi hans og hásæti, en tilbidja hann sjálfan, sem Gud væri, og falla framm á ásiónur sínar fyri hønum. Þá hann gengr út á strætum, eru ei færri í fylgd hans enn 2000 sveinpiltar (Lictorer), er bera hlecki, axir og ønnr verkfæri, er jarteikna skulu audmýkt þeirra, ánaud og eingis-virdi. Ríkit gengr í arf til elzta sonar; fyri því rædr nú keisari sá, er Ka-hing heitir, hann kom til ríkis 1799. Allir ædri og lægri valdamenn

kallast Mandarinar og greinast í 9 flocka. Login, er annars innihalda allsæmiligar sidferdis forskriftir, ákvedá þeim ótakmarkada makt yfir landslýdnum, sem vanr er ordinn at hlýda þeim, sem einvaldshöfdíngjum og sem annars heldr fást vid forna venju, fordast vidskipti vid adrar þjódir og verdr því hverki fródari né verkhagari, enn hann um lánga æfi verit hefir.

Kínesar eru hin fiolmennasta þjód í heimi og nær öllum kynqvíslum jardríkis, at Japanesum undanteknum, ólíkir í tilliti til sida og túngumáls. At álitum eru þeir áþeckir Móngólum, þó segja menn þá Hottentotturum líkari. Kínesar eru breidleitir og stuttleitir, ennit er hátt og andlitit þvínær ferkantat, þeir eru úteygdir og stuttuessjadir og eru augun laung og sýnast at eins opin tilhálfs, enn nefit svo lágt milli augna, at þau bera yfir þat, þá á kinn þeim er litit; eyrun eru allbreid og hol þeirra svo mikit, at menn geyma þar ýmsa smáhluti og lærdir menn gleraugu sín. Kínesar láta sér fyrst skégg vaxa á þrítugs-aldri, verdr þat aldrei mikit, sízt hit sydra í ríkinu; þeir eru brúnir á hár, þyckhærdir og ljós-móraudir á hörund; sá þykir þeim best vaxinn, sem stuttr er, digr og holdugr; þykir því ístru-magium meiri lotníngar verdr, enn sá sem grannr er, og sem þessvegna er álitinn grannvitr og gáfulitill. Konur eru þar smáfridar og nettar; þær brúka lánsfarsa og lita andlitit rósraudt og hendurnar svartar. Þær einar þykjast qvenna fridastar sýnum, sem eru smáeygdar, varaþyckar, brúnar á

hár, sléttbærdar og fótsmáar; einkum er hit sídsta talit einhvǫr hin mesta líkama-prýdi; eru því fætur barna og únglínga reirdir og pressadir í þraungum skóm, svo ei nái þeir at vaxa meir enn hlýda þykir. Kínesar eru burdamenn miklir og venja sig frá barnæsku vid at hesja steina og hmsan þúnga; þeir eru blautgédjadir, slúngnir og undirfǫrulir og hafa ysir hǫfud þá lesti og kosti, er almennt má finna hiá þeim þjódum, sem eru starfsamar, fást mjǫg vid kaupverslun og ordnar eru þrællundadar af lángvinni áþján og undirokun. Ridara-lid Kína-keisara er 210,000 at tǫlu, en fótgaungulidit 600,000 manns.

## II. Tíbet eda Tíbetaland (Thibet eda Tangut.

Land þetta kalla innbúar þess: Puekoachim þ. e. hit nordlæga Snæland. Fyri nordan þat liggr Tataraland, Buckaraland hit minna og Móngóliit, en Kína-ríki fyri austan og Indíaland fyri sunnan og vestan. Þat er 18000 ferhyrnings mílur at vidáttu. Í tilliti til landslags er Tíbet í Asíu, þat sem Sveitzaland er í Evrópu, nl. ǫllum ǫdrum lǫndum hálendara og fiǫllóttara. Þar eru hinir nafnkéndu fiallgardar: Himalaya og Mústag. Þadan falla margar þjód-ár, nl. Yantsekiang í austr, en Gáng-á, Menam-Kom, Iravaddi, Lúkian, Burrampúter og

st. í suðr. Þótt land þetta liggi sunnar enn þau' fegrustu og heitustu lønd í Norðr-álfu heims, eru þar þó mørg snæfiøll og jøklar miklir, er aldrei þyðna, og ísléttur í dølum niðri; eingu at síðr er þat harla markverdt land og mørgum giæðum búit, því víða eru þar fagrir og frjóf samir dalir og fjallahlýð-arnar hit neðra skógi-vaxnar.

Land þetta greinist í tvo hluti, hinn nyrðri og syðri; kallast sá fyrri: hit eiginliga Tíb-et (á tíbetísku Pu) — og hinn síðari Bútan (af landsmønnum Dokpo).

Í Tíbet er borg sú, er Lassa eða La-hassa heitir; þat er høfuðborg í þessu ríki og stendr hún skamt frá Búrrampúter; hún er søgð 6 mílur ummáls og víggirdt með múrveggjum 3gja faðma háum og svo breiðum, at 5 géta riðit á þeim samsíða. Í henni eru ei allsáar skrautligar byggingar og klaustr, meðal þeirra stendr vegligt og nafntogat hof; í því er líkn-eski guðsins Schigemúmi, (hins mikla Heil-aga, er at líkindum er hinn sami guð og Búdda); þángat streyma pílagrímar án afláts og færa hønum gáfr. Í borg þessari eru 3 háskólar, allmikill kaupskapr við Kínesa og indíaniska kaup-menn, prentsmiðja, og atsetr jarls þess er Kína-keisari hefir settan yfir ríki þetta.

Tvær mílur frá Lassa er klaustr mikit og

skrantligt, er Pútala kallast; þar sitr landshöfdínginn, er Dalai Lama kallast.

Tiu þingmannaleidir frá borginni Lassa er annar stadr mestr í þessum hluta Tibetalands, er Tiskulúmbó heitir; þar er atsetr annars landshöfdingja, er Tæsku Lama (Taischu Lama heitir; einnig kalladr: Bogdo Lama og Bogdo Bartschang).

Í Landspartinum Bútan er stadr sá, er Tassisúdon kallast, þar er heimili höfdíngja þess, er þar rædr ríki og Daeb Rájáh kallast; þar er hofgardr mikill og skrautligr og umhverfis þann smábýli, er standa strjált.

Hit eiginliga Tibet er at vísu kaldara og ófrjóssamara land enn Bútan, og innbúar þess hverki svo miklir vexti né hraustir, sem Bútansbúar, en þeir eru fridari sýnum og fagurrióðir í andliti, og er hit sidara eindæmi á Austr-löndum. Margir eru þar landskostir og gjædi; þar er forkunnar ullargott saudfé og geitr svo sinhærdar, at líkara er hár þeirra silki enn hisurs hári; af því tilbúa landsmenn herdaklúta, er kosta 150 dúkata. Gull er þar mikit í námum, ám og lækjum; af því mynta landsmenn ei peninga, en þeir bera gullsandin í buddum eda miostórum pýngjum, er þeir gésa vid varníngi, sem vér myntat silfr; þar er einnig silfr, kvikasilfr, hvítt eyr, járn, afarmikill segulsteinn, agat, marmari, bórax, stein- og linda-salt, álún, o. s. frv. en þessa hluti hagnýta landsbúar ei, sem skyldi; þar er mosküs-dýrit, feikna stórir hundar, villihestar (Gurkha) og villi-uxar; halar þeirra eru lángir og digrir med miklu hári og svo

mjúku sem silki; menn gjöra silfrs-skepti um efri endann og sæla med þeim flugur frá stórhøfd-íngjum. Ýmsar þjódir setja hala þessa á húur sínar og merkisstángir. Tíbets innbúar gjöra pappír (af trjáberki), dúka og ýmiskonar vøru-smídi, vopn og skúrgod af málmum. Þeir eiga kaup vid Enska á Vestr-Indíalandi; þó er varníngs-flutníngrinn þángat miøg ørdugr, þvi þar er igégnum fjallaklofa at fara.

Innbúar Tíbetalands eru frá 12 til 16 milliónir at tølu; þeir eru allir lamaiskir at trú, en greinast þó í tvo høfudflocka; hneigist annar þeirra til Tæsku-Lama og kallast: Gull-húur, en medlimir hins flockfins nefnast Raud-skúfar, og þjóna Dalai Lama; þessir tveir Yfir-lamair eru bædi hinir andligu og veraldligu valdamenn í Tíbet; þó takmarka veldi þeirra adrir voldugri Lamair og Kína-keisari, er þar hefir jarla setta til yfirsóknar og herlid til at giæta trúnadar landsmanna. Tíbetanir trúa því, at Dalai Lama sé eínginn annar enn Fó eda Búdda, er sé opinberadr í holdinu og at sál hans fari hamførum úr einum Dalai Lama, þá hann andast, í annan mann, er þá erfir land og veldi hins látna, og at hún á þennan hátt endr-fædd og hamhleypa rádi þar og ríki eylífliga. Þar er kénnidómr margr og helgisetr, og þarámedal ei allfá nunnuklaustr. Þar eru einnig fornar helgi-bækur, ritadar á máli nokkru, er landsmenn kalla heilagt, og sem er áþeckt Samskrits-túngu Hindúa. Ei gengr þar landsstjórn í erfdir, sem ráda má af því, sem ádr er sagt, med því menn hafa fyri

satt, at sud þess Ystr-lama, er andast, fari í barn, er annattveggja hann siálfr eda Lamair kosit hafa henni til bústadar.

Tibetanir eru, sem þvínær allir siállbúar á heimskrínglunni, hraustir, vel-vaxnir, rádvandir og vinsastir. Prestarnir eru þar manna mestir verti og fridastir sýnum; en mega lifa óqvæntir alla æsi. Sá er sidr í Tibet, at konum er leysiligt at hafa fleiri enn einn mann í senn, en karlmönnum ei at qvænast fleirum enn einni, þótt hit sídara sé almennast á Austr-löndum. Opt ber þat vid, at allir gánga brædur at eiga þá konu, er hinn elzti velr; hann er fyrstr kalladr fadir og svo hvör þeirra af ödrum eptir aldri.

## III. Hit litla Búckarí, Buckaraland eda Austr-Zjagatæ (Öst-Dschagatai; Scythia extra Imaum).

Þetta land liggr fyri austan fiallgardinn Múslag eda Imaus, er skilr hit Mikla og Litla Búckari; fyri sunnan þat er Tibet, en fyri nordan þat og austan Tatariit og Móngólaland. Sudr-hluti landsins er áfastr vid eydimörk þá, er Kóbi kallast, (á kínesisku: Schamo) og henni miög áþeckr; landit er hverki vedrasælt né friósamt. Ymsar ár bera (sem í Tibet) gullsand med sér; þeirra merkust er á sú, er Jerken edr Jarkand heitir. Vid hana stendr samnefnd höfudborg og audugr kaupstadr. Sunn-

ar er stadrinn Kaskgar, skamt frá Tíbets landamæri.

Innbúar lands þessa eru tatariskir at kyni og hérumbil 1 mill. at tølu. Svo eru menn fáfródir um land þetta og lýd, at hvergi sinnst ritat um stærd þess né takmørk, o. s. frv. Því eingir hafa þar útlendskir ferdamenn verit á seinni øldum.

## IV. Móngólaland (Mongoliet).

Þat liggr ímillum Kína-ríkis og Køldu-Svíþjódar eda Síberíu, fyri vestan Túngúsa-land og er hit vestra áfast vid litla Búckara-land, hit fría Tatarí og Tíbet. Þat er 55000 ferh. m. at vídáttu. Landslýdrinn er hérum-bil 1 mill. at tølu. Þar er Altai-fiallgardr og upptøk ýmsra stórfljóta, t. d. Ob, Jenisei, Irtisk, Amúr, Hóanghó. Inn í sudr-hluta landsins gengr hin afar-vídlenda eydimørk, er Kóbi kallast; hún er 400 mílur at lengd, 100 at breid og 40,000 ferh. m. at stærd. Þat er hin hálendasta heidi í heimi; á henni eru á ýms-um stødum blettir (Oaser) (áþeckir eyum í út-sæ), grasi-vaxnir og byggiligr. Þar eru og seikna-mørg vøtn, salti meingut.

Land þetta skiptist í tvo hluti, a, Kal-múkaland, og b, Móngólaland; þau skilr fiallgardr sá, er Bogdó heitir og liggr hit fyrr-nefnda fyri vestan, en hit sídara fyri austan hann.

Kalmúkaland greinist aptr í minni parta, er kallast: Sóangarí, er liggr í millum tveggja fjalla, og er agasamt land; Hamelaland (Hamel) Pilot og Koskot (Choschot), er Kínesar kalla Sifan. Í Hamelalandi er stadr, er Hami kallast; landsmenn eru miklir vexti og hraustir, trúa á Múhamed og halda sig vel at klædum og eru híbýlaprúdir.

Kalmúkar lifa vid fjárrækt, liggia hvervetna vid tjöld, flytjast vídsvegar um landit og leita hagabeitar fyri fénad sinn; þeir slátra nær aldrei kvikfé sínu, heldr veida dýr og fugla til snædings. Þeim er vel á fót komit, en eru litlir vexti, jarpir á hár og eyrna-stórir og manna tannhvítastir, auk þessa er þeim vidbrugdit fyri skygnleik, skarpa heyrn og daunvísi; þeir eru sagdir vidfeldnir og hrekkjalausir. Kalmúkar rækja Lama-trú, og hlýda bodi og banni höfdingja þess, er Kína-keisari hefir yfir Þá settan og hefir Kans nafnbót. Konur gjöra húsgögn og tjöld, medan mennirnir eru at dýraveidum.

b. Hit eiginliga Móngólí greinist í tvö lönd; tekr annat nafn af Kalká (er rennr í Amur-á) og liggr nær Köldu-Svíþjódar takmörkum, — en annat kallast Skarra-Móngólí (eda hit Gula-Móngólí, af lit tjaldanna, Gultjeldinga-land); þat liggr sunnar.

Yfir höfud eru Móngólar fáfród og snerrin hyrdara-þjód, og blóta Fó, kalla Dalai-Lama sinn ædsta andliga oddvita, en Kína-keisara konúng sinn og lúka hönum skatt. Móng-

ólar kunna litt at handidnum, en eru þó námfúsir, og allvel skapi farnir. Frá þessari þjóð eru allmargir voldugir høfdingjar og frægir sigrvegarar komnir, sem segir í Móngóla- og ýmsra landa-søgum.

## V. Tungúsaland (Tungusien), Mandskúaland (Mandschuelandet) eda Amúrland.

Þat liggr fyrir austan Móngólaland og nær til hafs austr, og ímillum Kína-rikis og Rússa-veldis eda Køldu-Svíþjódar. Þat er 36000 ferh. míl. at vídáttu og nærhæfis eins vídlendt riki og hit eiginliga Kína, en vída svo hrjóstugt og snaudt, at þat er nær óbyggjandi fyri þá sok. Um þat rennr mikit fljót er Amúr kallast, í austr; (þat kalla landsmenn Sachalin Ula ɔ: Svartá); vid þat er landit frjósamt og fjølbygdast. Innbúar lands þessa (sem eru 1,700,000 at tølu) greinast í allmargar ætternis-sveitir eda flocka; medal þeirra eru Mandskúar nafnkéndastir.

Þar er stadr, er Kirin-Ula-Kóton heitir; þar sitr jarl, er Kína-keisari hefir sett þar til yfirsóknar. Túngúsar blóta sømu gudi og Kínesar og eru, álíkt og þjódir þær, er um hríd hefi eg frásagt, lítt kunnar Evrópumønnum at ødru, enn nafninu.

## VI. Kórea eda Kóreu-meginskagi (Halvöen Korea).

Svo kalla menn skaga mikin, er gengr af Túngúsalandi í haf sudr, og hvørjum snæþakinn fjallgardr markar takmørk hit nyrdra;

fyri vestan skagan hverfr Guli-fiørdr eda hit Gula-haf inn, en at austanverdu er sund, 30 mílr at breidd, er skilr Japans-ríki og Kóreu, og tekr nafn af hverutveggju; þar er hættulig tilsigling og hafnir fáar. Ríki þetta er 4000 ferh. m. at vídáttu. Innbúar þess eru $1\frac{1}{2}$ mill. at manntali; þeir eru Mandskúum og Kínesum jafn-nákomnir at forni frændsemi. Landit er hit sydra allaudugt af ýmsum gjædum í jørdog á.

Kiug-ti-tao kallast hinn merkasta borg á Kóreu; þar er konúngs atsetr og konúngligr bókastóll, hvørs umsjón ektaborinn kóngsson hvervetna skal á hendi hafa.

Kóreu-innbúar blóta sømu gudi og Kínesar, nl. almúginn Fó, en stórmennit Confúsíus; þeir mæla túngu þá, sem er kínesisku ólík, en eru þó Kínesum áþeckir at áliti og háttum. Þángat mega ei útlendskir menn koma og ei heldr landsmenn á brott fara úr landi, vardar þat daudastraff. Þeir eru sagdir manna óheilastir og huglausir miøg. Fyri ríki þessu rædr konúngr nokkr, sem er skattskyldr Kína-keisara, og vasar í øldum eptir eigin gédþeckni; landsstjórnin gengr í erfdir til eldsta sonar. Þar eru asar-hørd løg; þau áqveda daudastraff fyrir hórdóm, og skal þá fadirinn lifláta son sinn; þjófa skal troda til bana, o. s. frv.

## VII. Lie-u-Kie-u-eyar.

Þær liggja í Kínahafi, ímillum Japansríkis og Formósu og eru 36 at tølu. Þær eru forkunnar fagrar, vedrasælar og frjóssamar. Þeirra mest er Lieu-Kieu; hún er 30 mílur

at lengd og 10 at breydd. A henni er stadr sá, er Kíngt-skang heitir; þar er heimili konúngs þess, er hefir ríki í eyum þessum og er skattgildr Kína-keisara. Eyamenn eru Japanesum líkari enn Kínesum og eru flestum Austrlanda þjódum betr at sér um marga hluti. Men hrósa þeim fyri starfsemi og hagsýni, hófsemi, þrísnad og gestrisni. Þeir eru sumu trúar og Kínesar. Þar er fri verslun og eingir tollar.

## VII. Keisaradæmit Japan.

Svo kalla menn 4 stórar og allmargar smáar eyar, er liggja í því stormasama og hættuliga Japaniska-hafi og í austr frá Kína-ríki; því kalla Kínesar þat Yang-hu o: nægtabúr sólarinnar, og eylandit Nipon sérilagi: bústad liósśins. Allar eru eyar þessar, (at Kuril-eyum undanskildum) 8600 at ferhyrníngsmáli. A þeim eru fioll há og skallgardar, og vídast klettar og bjorg vid sæ; er því skipa-leidin umhverfis þær skiput torfærum og vída hafnleysur og illar lendíngar. Sum eru fioll þar snæþakinn vetr og sumar og sum gjósa ástundum eldi. Hit merkasta vatnsfall á Nipóni kallast Jedógava; þat fellr úr laudsæ nokkrum, er Omi heitir og er þar vatna mestr.

1. Nipon eda Nifon (Niphon) er þessara eylanda vídleudust; hún er 150 mílur at lengd og ut eins 25 m. at breidd um midjuna; eptir henni endilángri eda í laud-nordr og útsudr gengr fjallgardr mikill, er skiptir henni í tvo parta, er hinn sydri og stærri miklu betri og frjóssamari, enn sá nyrdri og minni.

Hvínær mittlands er stadr mikill, er Miako (Miaco) heitir; þar sitr jafnan Dairi Sóma eda hinn andligi oddviti; þar eru allir peningar ríkisins myntadir og bækr prentadar; stadar-lýdrinn er 600,000 at tolu. Á austrströndinni og vid botn vidkénds fjardar stendr høfudborg ríkis þessa, er Jedó eda Jeddó kallast; þat er atsetrs-stadr Kúbó Sóma eda hins veraldliga høfdingja þessa keisaradæmis; þat er feikiliga mikil borg (ul. 22 míla ummáls, 5 at breidd og 7 at lengd) og eru grafin díki umhverfis og ígégnum hana, er áin Tonkay fellr í, en hverki eru þar né annarsstadar í ríki þessu viggirdingar né múrveggir. Þar er 1 mill. innb.

2. Kímó (eda Kiusiu) liggr sunnar og er nærhæfis 48 mílr at lengd; á henni er mikill kaupstadr, er Naugasaki heitir. Hvergi, nema þar, mega útlendir farmenn koma vid land í Japans-ríki. Þar eiga Hollendingar, en adrir Evrópumenn ecki, verslunar-vidskipti vid Japonesa, og mega at eins leggja at eyu nokkurri, skamt frá landi, er Desima heitir, heitir; úr henni liggr grandi í land.

3. Kikókó eda Sikoff kallast-ey nokkr allmikil fyri sunnan Nipon og austan Kimó; hún er nordrálfu-monnum þvínær ókunn.

4. Matsmai, þar er samnefndr stadr med 50,000 innb. Auk þessara eylanda eiga Japanesar þær ámedal hinna Kúrilisku eya, er sydst liggja og nokkur kauptún á Sagalin.

Eya-ríki þetta liggr undir hinum temprada himin-vegi; þar eru hørd frost á vetrum, en

mikill hiti á sumrum; þó kjæla hann tídir hlemmiskúrir og sellibyljir; ei eru þar jardskjálftar sjaldgjæsir. Jardvegr er þar eigi frióssamr, en landsmenn hafa bætt þenna brest med ótraudri starssemi, svo bædi eru þar sádlönd á fiöllum og láglendi. Hverki er þar saudsé né geitr og yfir höfud miøg fá ferfætt dýr, nema hundar; at hafa þá marga og halda vel er lagaskylda og landsvenja á Japans-eyum. Þar eru annars margskonar landgjædi, einkum er eyrit þadan nafntogat og porselíns leirinn sagdr betri þar enn annarstadar í heimi. Innbúar ríkis þessa eru ímilli 10 og 15 mill. at tølu; þeir eru Kínesum fremri at ýmsum handidnum og snillismídi; þeir játa hina búddaisku trú og eru hjátrúarfullir, en þó námfúsir og meta mikils mentir og fródleik; en presta-veldi og landsløg, er banna þeim umgengni med útlendingum, hamla framførum þeirra. Engu at sídr kunna þeir forkunnar vel at silki- og bómullar-vefnadi, og eru nafnkéndir porselíns- og stál-smidir. Eingar þjódir mega vid þá verslunar-vidskipti eiga, nema Kínesar og Hollendingar; er þat þó med allmiklu ófrelsi. Fyri ríki þessu rædr høfdingi sá, er Kúbó-Sóma (keisari) kallast, hann vasar í veldum med dæmafáu siálfrædi og stráungleik. Dairi-Sóma (pávi) kallast høfdingi nokkr, er gjørir um andlig málefni og sitr í nockurskonar vegligu vardhaldi í Miakó, svo ei fá landsmenn hann nokkru sinni augum litit. Han hafdi fordum ædstu umrád í andligum og veraldligum málefnum; en 1583 hófst flockr móti hønum og Kúbó-Sóma hratt hønum frá verald-

ligu veldi og svipti hann frelsi og umgengni vid adra menn. Landsmenn gøfga Dairi, sem gud væri og kalla Kúbó jarl hans. Landsstjórnin gengr í erfdir; á nøfn tedra høfdingja er løgd launúng, uns þeir andast. Landsløg eru þar afar strauug, og flest varda afbrot útlegd edr dauda. Túngumál Japanesa er sérligt og engri túngu í grend vid þá líkt. Þeir eru taldir medal hinna best mentudu þjóda í Asíu; þeir eru sidprúdir, stórbrjóstadir og allvel lundadir, idjusamir og neyta at eins gladværda til hressingar sér eptir afkastat ervidi; en lostasamir eru þeir miøg og hefndargjarnir. Japanesar eru medalmenn vexti, og vel-limadir, mjúkir og handsimir, lidamiklir, en ei svo hraustir, sem jafn-nordlægar þjódir í Evrópu, gulleitir á hørund og jarpir á hár, stórhøfdadir og hálsstuttir, sperrbrýndir og eygdir litt, þó leynir ei augnarádit ástikni þeirra og osstæki.

## VIII. Eyarnar vid Asíu.

A. **Lakedívur** (de lakediviske Öer) kalla menn allmargar smá-eyar fyri vestan Malabarströndina. Þær byggir þjód sú, er **Moplays** heitir, dýrkar Múhamed og lifir af fiski-afla. Þeirra mest er **Lakondý**.

B. **Maledívur** (de malediviske Öer) liggja sunnar og undir midjardar-línunni; þær eru 12000 at tølu og flestar smáar. Innbúar þeirra eru indianiskir at kyni og múhamedaniskir

at trú. Þeirra merkust er Male; þar sitr stjórnari þeirra, er Raskan heitir at nafnbót.

C. Selan eda Seilan; þat er allmikit eyland, 1730 ferh m. at vídáttu, er liggr í sudaustr frá Vestr-Indíalandi og skilr þar sund þat, er Palks-sund kallast. Á ey þessari eru skógar miklir og há fioll; þeirra mest og merkast er hit svokallada Adamsfiall. Eyar-lýdrinn er 2,500,000 at manntali og er allr þorri hans singaliskr at kyni, blótar Búdda eda Bódan (Odin). Mittlands á eyunni hefst villiþjód nokkr vid, er Vedahs kallast. Þar eru einnig: Malajir, Arabar, Englismenn og Portúgísar. Þar er allmikll kaupstadr, er Kolombó heitir; þar er heimili hins enska landshøfdingja, byrgdahús af kanelberki og 30000 innb. Puntó-Gale og Jaffanapatnam eru þar minni stadir. Í Trínkónomale er ágiæt høfn. Merkasti ágódi eyu þessarar er kanel-børkr; en perlu-fángit, er þar var fyrrum, er miøg gengit til þurdar. Englands kóngr hefir at fullu átt ey þessa sídan keisaradæmi þat, er ként var vid Candy, leid undir lok, og hefir hann sett þar jarl til yfirsóknar og herlid til landvarnar.

D. Andaman-eyar; þær liggia hit eystra í Bengalabotni og eru eign Englendínga. Innbúar þeirra eru ósidadir miøg og fáfródir.

E. Nikóbar-eyar liggia sunnar í tédum hafsbotni. Fyrrum áttu Danir þær, og tóku þar upp nýlendur; en óholt lopstlag sældi þá á brott. Nú eru þær eigindómr Enskra. Þær merkustu eru: Sambelong, Karnikobar og Nankóvry.

F. Súnda-eyar liggia sudr af Austr-Indíalandi, eru allmikil eylönd og taka nafn af sundi því, er atskilr Súmatra og Java, ígégnum hvört öll skip leggia, er fara skulu til hinna austlægu Asíu-landa. Þær eru 4 og kallast Súmatra, Java, Bórneó og Zelebes.

1. Súmatra liggr fyri vestan Malakka og er 8000 ferh. m. at stærd; fiallgardr mikill (hvörs hæsti hnúkr er 14000 fóta hár og kallast Ophir) deilir henni í tvo hluti. Malajir byggja strandir hennar og hafa þar ríki mikit.

Medal landgjæda má telja: pipar, hina ágiætustu kamfóru, forkunnar gott gull og tin mikit. Hit nyrdra á eyunni er ríki þat og höfudstadr, er Atsk ín (Atschin) kallast. Allr þorri innbúa þess rækir Múhameds trú. Þar eiga Enskir:

Jarlsdæmit Benkúl (Benkoolen).

Þat er eign hins austindianiska kaupmanna-félags í Lundúnaborg, og 450 f. m. at vídáttu; þar er samneindr höfudstadr, og kastali, er kéndr er vid Marlborough; þar sitr jarlinn, sem settr er yfir þessar jardeignir.

Hollendíngar eiga þar stad á vestr-ströndinni, er Padang heitir, þar sitr jarl þeirra; — og Palembang; þat er festíng og kauptún, er liggr í samnefndu ríki, sem Malajir byggja. Fyrir austan Sumatra liggr allmikil ey, er Banka kallast; þar er tin mikit og einkar gott; — og Nassá-eyar fyri vestan.

Á sídst lidnu ári áttu Hollendíngar og Enskir hms jardakaup þar eystra; eignudust Enskir allar fasteignir Hollendínga á meginlandi, einkum á Malakka-skaga og Sínkapór-eyu, en Hollendíngar aptr ei allfáa stadi og kauptún á Súmatra og ymsum eyum í Indíahafi.

2. Java liggr í austr og vestr fyri sudaustan Súmatra. Hún er 2400 ferh. m. og gengr eptir henni midri allmikill fiallgardr. Innb.

hennar eru 4,230,000 at tølu og byggir allr helsingr þeirra landeignir Hollendínga.

Þar vex hit nafnkunna eitr-tré (Boa Uppas) auk allmargra gagnsamra jurta og ávaxta; en misg er loptslag óheilnæmt á ey þessari. Hún greinist í 4 hluti, nl. Jakatra, Bantam, Skeribon og Austerstrøndina. Í Jakatra er høfudborg eyslands þessa, er Batavía kallast; hún stendr vid fjørd nordanfram á eynni og 6 mílr fyrir austan Súndasund og er høfudborg allra fasteigna Hollendínga austr í heimi; þar er og heimili jarls þess, sem settr er yfir alla þá, er Hollendíngar hafa fengit þar ríki til forráda. Í Batavíu eru 116,000 innb. og 6 kyrkjur.

Í Bantams-ríki, á Vestr-strøndinni, er samnefndr stadr. Styrkast er veldi Hollendínga á Java. Medal hinna innfæddu landshøfdíngja er keisarinn í Súrakarta og súltan í Mataran einna ríkog voldugastir. Fyri nordan Java liggr eyan Madúra med 60,000 innb.

3. Borneó liggr fyri austan Súmatra og fyri nordan Java. Þat er hin vídlendasta ey (nl. 14000 f. m.) í þeim hluta heimskríngl-unnar, er kunn var í fornøld. Þar eru fjøll mørg og há, og feikiligir skógar.

Innbúar hennar eru 5 mill. at tølu og af margbreytum kynþætti komnir; medal þeirra eru Malajir, er hafast vid á strøndunum; en uppleudíngar eru med øllu Evrópumønnum ókunnir. Þadan flytst sérílagi drekablód og fuglahreidur. Hollendíngar eiga einnig nýlendur nokkrar á ey þessari.

4. Zelebes (Celebes) eda Makassar liggr fyrir austan sídst-téd eyland og er 4270 f. m. Hún hefir kynliga og óskipuliga løgun; skérast inn í hana firdir 3 miklir úr austri og sudri, sem kéndir eru vid Bóný, Tóló og Tominí.

Eyarmenn eru 3 mill. at tølu; medal þeirra

eru Makassar, er líkjast mjøg Malajum, ættíngjum sínum, á Malakka-skaga og eru geigvænligir illhrysíngar, en byggja þó fegursta hluta eyarinnar; þar er stadr sá, er Makassar heitir, med 100,000 innb. Hollendíngar eiga þar 3 festíngar: Rotterdam, Amsterdam og Fálkaborg, — og ey þá er Salayer kallast og liggr nokkut sunnar.

G. Krydd-eyar eda Mólúkkur (de molukkiske Öer) liggja á stráli fyri austan Zelebes og Java; þær taka nafn af margbreyttum og dýrligum ávøxtum og jurtum, er þar vaxa og eluast, og eru eign Hollendínga.

Þeirra merkust er a, Ambóína; þar er hollendsk nýlenda, er gengr Batavíu-nýlendu nærst at audlegd og fjølmenni, b, Zerem, nordar; c, Banda-eyar, 10 at tølu; d, Ternate; e, Zilóló; allar þessar kallast hinar nordlægu Mólúkkur og liggja í austr frá Zelebes; en þær sudlægu Mólúkkur liggja fyrir austan Java og kallast: f, Timor, þar er stadrinn Kúpáng og festíngin Concordía; g, Balí eda litla Java; h, Lombock; i, Súmbava, og k, Flóres. Forkunnar inndælar og gódar eru eyar þessar, en hofin umhverfis þær stormasøm og skipaleidin þar skiput mørgum torfærum.

H. Súlu-eyar; svo kalla menn 60 smá-eyar, er liggja fyri nordan Borneó. Fyri þeim rædr høfdíngi nockr, er hefir Súltans-nafnbót og á nockurn hluta af Borneó. Þar er høfudstadr, er Bóváng heitir.

I. Philippínur edr hinar philippínsku-eyar, (medal hverra menn telja Kalamían-eyar) liggja í hafinu fyri nordan Borneó og í austr frá Indíalandi enu eystra, og greina bær þar høfum; kallast stórinn fyri vestan þær: hit kínesiska haf, en fyri austan þær (og alla þá eya-klasa, sem nú er frásagt í grend vid

Asíu) tekr hit svokalláda kyrra, eda suðr, meginhaf við.

Þær eru hérumbil 12000 at tölu og nærhæfis 7000 at ferh. máli. Innbúar þeirra eru af Malaja og Blökkumanna-kyni; þar eru og allmargir Spánarmenn, Mestizar og Kreólar — og eru þeir allir ásamt 3 mill. Hinn kathólski kristindómr er þar í lög leiddr með vandasamri viðhöfn og andliga birtu fælandi klerka-veldi. Þar hafa Spanskir sett höfuðsmann eda yfir-hundíngja (General-Capitain) til yfirsóknar.

Medal eya þessara eru tvær mestar, nl. 1. Lúzon eda Manila; hún er 1400 f. m. med 1 mill. innb. Þar er höfudborgin í eyunum, er Manila heitir; þar sitr fyrrtédr höfdíngi og erkibiskup. Borgin stendr við fjörð og er umgirdt med múrveggjum; þar er háskóli, mikill kaupskapr og 88000 innb. Imilli Manílu og Akapulkó, á vestr strönd Ameríku, gánga kaupskip árliga. Manílu höfn kallast Kavíta. 2. Magindanaó, hún liggr syðst og er þessara eya mest. Hún deilist í 3 parta; rædr fyri einum Sultan nockr, sem er kendr við eyuna, fyrir ödrum þeirra Spanskir, og fyri þeim þridja ýmsir höfdíngjar (Rajaher). Eyan er 1500 ferh. m. Innbúar hennar eru 2 mill. Trúarbrögd þeirra eru blandíngr af múhamedaniskri trú og heidindómi; á eyunni sunnanverdri er samnefndr kaupstadr.

Auk þessara tveggja eru þar: Zamar, Leyte, Panay, Mindóró o. s. frv. At vísu eru Philippínur kalladar eign Spanskra; þó eru ýmsar af þeim fasteignir arfborinna fursta.

Skríngargr.: Hinn nafnfrægi farmadr og fyrsti heimskringlu-fari, Ferdínant Magellan, (portúgísiskr at kyni, en var í Spánar-konúngs þjónustu), fann fyrstr Evrópumanna eyar þessar 1521. Hann eignadi þær þegar herra sínum. Magellan féll í bardaga við villiþjód nokkra á ey þeirri, er Maktan heitir, þann 26ta Sept. sama ár.

# Almenn
# Landaskipunarfrædi.

Sidara parts þridja deild:

Sudrálfan, Vestrálfan,

Eyja-álfan.

# Innihald.

## III. Afríka eda Sudr-Álfa heims (Africa).

Þessi heims-álfa er hinn þridji hluti ens svo kallada forna heims, eda þess hluta heims-kringlunnar, er menn á fornøldum báru kënsl á og kønnudu. Í fornøld kølludu Nordr-landa-búar þann hluta heimsálfu þessarar, er þeir þecktu ýmist, Bláland hit mikla eda Serkland hit mikla; en þat var at eins nordrstrøndin edr jadarinn, er í nordr veit *).

Afríku má at vísu kalla kynialand, því at margt er þar undarligt og fábreytt því, sem er i hinum heimsálfunnum, og svo nýstár-

*) Serkland kølludu menn fordum þau lønd og ríki, er Saracenir eda Serkir brutu undir sig, bædi í Afríku og Asíu vestanverdri, einkum Persa-ríki.

ligt, at enn játa menn fornmæli Rómverja þat satt at vera: at ávalt komi einhvør nýlundan frá Afriku *). Þar er margbreytt skoðunarpláts fyri þann, er skoða vill jarðveg, náttúru-ríkin og mannkynit; mun hann bráðliga undrast, hve margvíslig náttúrunnar verksmiði eru í þessu landi og hve misjafnt þat er búit gjæðum og skrúða, hvertheldr hann rennir augum til þjóðanna, er þar búa, og lifandi kvikenda, eða til þeirra hluta, er þar finnast í jörðu og á. Þat hafa menn fyri satt, at engin þjóð hafi á fornöldnm svo kannat heims-álfu þessa, sem Arabíumenn; en miög lítit er í frásögr fært um ferðir þeirra og landaleit, þar frá sæ dróg. Þeir köllnðu Afriku Mógreb eða Magreb, er þýðir: Kvöldland eða Vestrland, eptir afstöðu hennar frá Arabíu-ríki. Á seinni öldum hafa ýmsir náttúru-skoðarar, einkum enskir og franskir, með miklum kappsmunum og kostnaði farit lánga leið á land upp; en með því at þar eru vegir skipaðir mörgum torsærum fyri ofurhita sakir villidýra, meðal litt siðaðra þjóða, og yfir glóðheita brunasanda, hafa þvílíkar tilraunir alt til þessa dags verit ónógar til, á þeim at grundvalla útmálun og frásögu um upplendit í téðri

*) *Semper aliqvid novi ex Africa.*

heimsálfu; er þat því náliga at eins strandir hennar öllumegin, eda þau lönd og ríki, er liggia vid og nálægt sæ, sem menn hafa sannar sögr um.

Afríka liggr hit sydra á austr-hveli heims-kríngluunar, í millum 34da mælistigs sudlægrar breiddar og 38° nordlægrar breiddar og ímilli 1° og 96° austlægrar lengdar — og í sudr frá Evrópu, en í sudvestr frá Asíu. Imind hennar á landamálverkum er áþeck ólöguligum þríhyrníngi og er hvervetna umflotin, nema at nordaustanverdu, samteingir þar eid nokkurt ei allbreidt heims-álfurnar, er Svez kallast, þat liggr ímillum Midjardarhafs- og Raudahafs-botna, og er nær 10 milr at breidd. Fyri nordan Afríku gengr Midjardarhafit, en fyrir austan hana Arabíu-hafsbotn, Arabíu- og Indía-hof; fyri sunnan og vestan sydri helfing hennar er hit svokallada Etiópiska meginhaf, en fyri vestan nyrdri hlutann er hinn Atlantiski útsær. Þadan eru 900 milr í vestr til Sudr-Ameriku, en frá austr-ströndum Sudr-Afríku beina leid í austr til Ástralíu 1200 milr. Afríka er, sem ádr er sagt, minni enn Asía, og stærri enn Evrópa; at ferhyrníngsmáli er hún nærhæfis 530,000 milr; at lengd í nordr og sudr 1080, at breidd

(þar sem mest er meginlandit) 1020, og umhverfis hana 3400 milr vegar. Þá yfir alt er litit, er Afrika flatlendari en hver hinna heims-álfanna. Hvergi í heimi eru svo miklar og vidlendar eydimerkr og ørœfi, sem í þessari heims-álfu; þó eru þær ei hvervetna óbyggiandi; því á sumum stødum eru þar grasi-vaxnir og fagrir blettir eda deplar (Oaser) (álikt og eylønd í útsæ); spretta þar upp lækir, er vidhalda gródri.

Medal fiallanna í Afriku eru þessi talin merkust: a, Atlantis fiøll. Svo hafa menn kallat allmikin fiallgard, er gengr úr vestri í austr igégnum Nordr-Afriku. Í Marokkó-riki er er hann 11000 fóta at hæd. b, Hinn mikli fiallgardr, er gengr yfir Afriku þvera; hit vestra kallast hann Kongó-fiøll, mittlands: Mána-fiøll, og at austanverdu hin habessínsku fiøll; þau enda þar vid høfda þann er Gardafúi kallast, en at vestanverdu gengr fiallgardr þessi í sjó framm í Ginea þar sem heitir Sierra-Leóne-høfdi. c, Lúpata-fiøll gánga lángsetis med sudaustr-strøndum alt til Góðrar-vonar-høfda sudr. d, Trógló dyta-fiøll, þau gánga strandleingis med Arabiu hafsbotni. Øll eru fiøll þessi Evrópumønnum litt kunn.

Í Afriku nafngreina menn 17 nes edr høfda; medal þeirra má telia: Serru-høfda (Cap Serra), hinn nordasta odda á Afriku, og

Bonn-höfda; þadan er skémst til Sikileyar; þeir eru bádir í Túnisalandi. Á vestrströndinni er Blánki-höfdi (Cap Blanco) nordastr; þá Græn-höfdi og þá Raud-höfdi, bádir í Senegambíu; þá hinn fyrrnefndi Sierra Leónu-höfdi, þá Palmas-höfdi, þá Prídránga-höfdi (Cap tres Puntas), þá López-höfdi; þessir 4 eru í Gínealandi; þá Svarthöfdi (Cap Negro) á ströndunum fyri sunnan Kóngó, þá Gódrar-vonar-höfdi og nokkut austar Nadels-höfdi (Cap Nadel), þeir liggia bádir í Kaplandi (Höfdalandi) og eru hin sudlæguſtu nes í Afríku. Á austrströndunum er Korrientis-höfdi sydstr, þá Delgadó-höfdi og þá Gardafúi, er lengst skagar í austr á Afríka.

Afríka er at því ödrum heimsálfum ólík, at hverki eru þar fljót mörg, er til sjáfar komi, né firdir, er skérist inn í meginlandit. Þó má hér géta flóa þess, er hverfr inn í vestrströnd Afríku, og kallast hin Gíneiska bugt; hinnar Syrtisku bugtar, er gengr inní nordrströndina fyri austan Túnis, og Tafels-buatar, fyri nordan Gódrar-vonar-höfda og ens Falskafjardar ímillum hans og Nadels-höfda.

Í grend vid Afríku eru 3 sjóar-sund merkust, nl. Njörfa-sund, eda sundit vid Gíbraltar, er skilr heimsálfurnar og er 3 mílr at breidd; Mósambíku-kanall, ímillum Afríku austr-strandar og eylands þess, er Madagaskar kallast, — og mynni hins arabiska

hafsbotns, er Bab-el-Mandeb (Táraport) kallast. Hinna merkustu fljóta og stöduvatna skal sídar gétit verda.

Menn skipta Sudr-álfunni i 3 hofudparta, nl. Nordr-Afriku, Midr-Afriku og Sudr Afriku.

## A. Nordr-Afríka.

Hún greinist aptr i fimm lønd eda ríki: 1. hit afrikaniska Tyrkiaveldi, 2. Marokkó-ríki, 3. Belad-el-Dcherid, eda Dadlaland 4. Eydimørkin Sahara, og 5, hinar Kanarisku eyar.

### I. Tyrkiaveldi í Sudr-álfu heims (Det africanske Tyrkie).

Pau lønd, er annattveggia eru Miklagards stórherra undirgéfin og skattskyld t. d. Egyptaland, edr standa í sambandi vid hann nl. reyfara-ríkin; Algeir, Túnis og Trípólis ásamt Barka.

a, Egyptaland (Ægypten; Ægyptus; á arabisku Mesr). Pat liggr austast vid Midjardarhafit, þar er heimsálfurnar eru áfastar. Hit eystra markar hinn arabiski hafsbotn því takmørk; fyri sunnan þat liggr Nubíaland, en hin líbiska eydimørk og Barka fyri vestan. Pat er 8800 ferhyrn. milr at vidáttu, en varla

er 10di partr þess yrktr. Miøg skýtr i tvø horn um jardveg i landi þessu; því bædi er þat fiøllótt og flatt, sendit og agasamt, grýtt og gagnaudugt, suaudt og frióssamt. Hinn seg- ursti og frióssamasti hluti lands þessa er hinn svokalladi Nil-ár-dalr, er liggr i nordr og sudr og er jafnlángr því, nl. nærhæsts 125 milr. Bádumegin vid dal þenna gánga fiall- gardar, og er sá eystri kéndr vid Arabíu og hinn vestri vid syrtéda eydimørk. Eptir dal þessum endilaungum sellr þjód-á mikil og nafn- togut i nordr, er Nil (Nilus) heitir; hún sellr i Midjardarhafit og eru þar 2 ósar miklir. Skamt syrir nordan Kahiru skiptist hún i tvær kvíslir og kallast eyland þat, er liggr milli þeirra og nær til siáfar nordr, Delta, þar þat er þríhyrnt og áþeckt griska upphafs-déi (△). Þat er markverdt um á þessa, at i seinni helmíngi Júní-mánadar kémr voxtr i hana, er vidvarir og eykst til i September-mánudi; flædir hún þá um téd timabil yfir láglendit, sem er 3 milr at breidd, og vokvar þat og frióssar til ríkugligrar uppskéru. Þaratauki ollir vatnsgángr þessi mikilla heilla; at vatnit dregr til sín alla óheilnæma dampa og færir þá á brott; hafa menn þat til marks, at hannvænar drepsóttir, sem optsinnis geysa i þessu landi,

hverra jafnan, þá vatnsflódit tekr at vaxa. Ecki eru fleiri ár á Egyptalandi, en 60 manngjørd díki liggia út frá á þessari bádumegin og vøkva landit. Níla er 450 mílr at vegalengd, og vid Kahíru 500 fadmar at breidd. Medal støduvatnanna í landi þessu má hér géta Birket-Karum, er sumir kølludu Moeris; þat liggr í sudvestr frá høfudborginni og er vatna mest í þessu landi; þat er 30 mílr ummáls.

Egyptaland greinist í þriá hluti, 1. Nidr-Egyptaland (Neder-Ægypten) 2. Mid-Egyptaland (Mellem-Ægypten) og Upp-Egyptaland (Over-Ægypten).

I. Nidr-Egyptaland (á arab. Bahri). Þessi hluti liggr vid Midjardarhafit og er flatlendr og vída sendinn. Þar eru þessir stadir:

Alexandría, (er Tyrkir kalla Skanderik); þessa borg lét Alexander hinn mikil gjøra, 333 árum fyri Krists burd, á tánga milli Midjardarhafsins og vatns þess, er fyrr. kalladist Mareotis, en nu heitir Birket Mariut, og úr hvorju géck ós til siáfar; en á seinni tídum grófu Enskir síki yfir tángan, svo nú stendr borg þessi á hólma. Alexandría byr brádum at stærd, sjølmenni og audlegd og gjørdist á midøldum einhvor hinn mesti kaup-

stadr í heimi og vóru þá í henni 800,000 innbúar. Nú á dögum er borg þessi hverki fogr né mikil, með því at allmikill hluti hennar liggr niðri.

Þar er atsetr grísks patriarka eða ystr-biskups, mikill kaupskapr og 2 hafnir; er önnr Þeirra vestanframm á nesinu, en önnr at austanverdu; sú síðari er ill og hættulig, og því er hún ætluð kristnum farmönnum; en á hina mega þeir ei koma. Við mynni ennar eystri hafnar stendr kastali einn og annar á ey nokkurri gagnvart, er Farillon (ford. Pharus) heitir. Í borginni og í grend við hana eru ýmsar merkar fornmenjar, t. d. þau markverðu jarðhús (Catacomber fordum Necropolis), er fornmenn settu lík enna dauda í, þá þeir höfðu umbúit sem þar var siðr; Pompejusar-stytta, sem er 88 fóta at hæð og þær svokölluðu Kleópatru-nálar (Obelisci) eða uppdregnu styttr. Í Alexandríu eru nú 20,000 innb.

Fimm mílum austar á ströndinni og við fjörð nockurn er býr sá, er Abúkir kallast. Þat er lítill stadr. Í téðum firði brendu Enskir herskip Frakka 1797. Austar og á vestri Níl-ár-ós bökkum stendr merkr kaupstaðr, er Raskid (Raschid eda Rosette) heitir; þat er góðr kaupstaðr, liggr í inndælu landsplátsi og er hit skemtiligasta atsetr á Egyptalandi. Þar eru 12000 innbúar.

Fyri vestan vestri Níl-ar-ós tekr þvínær strax eydimörk við, sem Magra kallast og einnin er kénd við hinn heil. Makarius, en ford. hét hún

Nitrea, og sem hvervetna er umkríngd af sandsléttum; þar er klaustr rambygt, sem helgat er fyrrtédum dyrdlíngi; í því búa hérumbil 20 koptiskir múnkar, sem annathvert eru einleygdir, blindir edr á einhvorn hátt lamadir, og lifa vid þraungan kost og á ölmusum. Abóti þeirra kallast Abui ɔ: fadir minn. Í útvestr þadan eru 3 sýrlendsk múnkalífi og enn fleiri koptisk. Á fyrri tídum segia menn 162 klaustr verit hafa í eydimörkum þessum, er landflótta kristnir bygdu þar. — Allir eru múnkar þessir illæmdir fyri nídskn og sodíngsskap.

Eylandit imilli Nílár-kvísla, kallast Delta (sem fyrr segir) og er þat einkar fagurt og frjófsamt. Innbúar þess deilast í tvo flocka og herda þeir at eins fjandskab hverir vid adra.

Vid eystri Níl-ár-kvísl austanverda stendr kaupstadr allmikill, er Damiette (ford. Damíant eda Darmaiur) heitir; þar eru 30,000 innb., er vinna bómullar-vefnat og reka kaupskap, einkum til Sýrlands.

Fyri austan þennan stad er hóp mikit edr vatn vid Midjardarhaf, er Menzaleh kallast; úr því gánga 3 ósar til sjáfar; í því er veidi mikil. Sudr af vatni þessu liggr eydimörk sú, er Zófar (Dschofar) kallast.

II. Mid-Egyptaland (Mellem-Ægypten; á arab. Vostani). Þar er höfudstadr ríkis þessa, er Kahira (rángliga Kairo eda Cairo kallast; en á arabisku heitir Masr); þat er hin mesta borg í Afríku, atseturstadr landshöfdingjans og heimili koptisks patríarka og 400,000 innbúa. Borg þessi stendr skamma

bæarleið frá Nílfljóti at austanverðu, báðumegin við manngjörðt díki, er liggr í út og suðr, og undir fialli því, er Mokkatam heitir; hún er 1 míla at lengð og 3 ummáls, en hverki fögr né skipuliga bygð; umhverfis hana gengr einlægr múrveggr og eru á hönum 2 hlið, en á fyrrtéðu díki eru 15 brúr; þar eru 4 kristiligar kyrkiur og 1 gyðínga samkunda — og miög fá stórhýsi eðr hofgarðar. Þessa borg lét Mansúr kalífi giöra 970 og var hún þá köllud El-Kahira: hin sigursæla.

Lítit sunnar og við Níl-á stendr Forna-Kahira; þat er óálitligr, en þó góðr, kaupstaðr. Á ey þeirri í ánni, er Rauda eda Roda heitir, er steinstytta mikil, er menn kalla Nílmælir (Mekias); með henni mæla menn hve mikit áin vex dagliga og minkar.

Í austr frá Kahíru og við botn hins Rauda hafs stendr kaupstaðr, er Svez heitir; af hönum tekr eið (Isthmus) þat nafn, er samteingir Asíu og Afríku.

Fyri vestan Níl-á og gagnvart Kahíru er Gize eda Zise (Dschiseh); þat er víggirtr og miðlúngs-mikill kaupstaðr. Skamt fyri sunnan hann má sjá eptirstöðvar ennar fornu höfuðborgar á Egyptalandi, er Memphis hét. Þriár milr þaðan í suðvestr standa 4 pýramíðar, er menn telja ámeðal enna stórkostligustu og merkustu mannaverka í heimi; þat eru feikiliga miklar steinbyggíngar, er miókka því meir sem upp eptir dregr, en at neðanverðu

eru þær afarmiklar ummáls. Þeirra mest er sú, er næst stendr hinni fornu Memphis; hún er 440 fóta at hæd; en í sumum fornsögum segir, at þær verit hafi 800, í ødrum 600 fóta; má af því ráda, at allmiøg muni þær nú í jørd soknar. A einum stad ern dyr, 10 fadma frá jafnsléttu. Hit innra eru gángar miklir, kamrar og hvelvíngar bædi í þeim og undir í jørdu nidri; þar settu menn í fornøld lík daudra manna, er þeir smurdu svo vel, at ei nádu þau at súna, en vardveitast þar óskøddut til þessa dags. Þvílíka líkami hafa menn flutt til Evrópu og geyma þá í náttúrugripa-búrum til sýnis. Þar í grend stendr einnig sérliga mikit líkneski af steini, er Sphinx kallast; þat er sokkit í jørd upp at øxlum. At skapnadi og andlits-løgun er þat miøg áþeckt innfæddum Negrum eda Bløkkumønnum.

Fyri sunnan Gize, er lítill stadr, er Sakara heitir; þar eru 30 pýramídar og allmørg greptrunar-jardhús (Catacomber).

Í sudr þadan og vid hit svokallada Jósephs-síki stendr Fajum, (er fornmenn kølludu Arsinoe); þat er allmikill verslunarstadr.

Hit vestra í midhluta Egyptalands liggr hin litla Oase; svo kalla menn grasi-vaxit landspláts í sand-audnum, er liggia umhverfis.

III. Upp-Egyptaland (Over-Ægypten; á arab. Said). Þat er sudr-hluti ríkis þessa, er nær alt til Núbíu sudr. Þar er Girdze (Dschirdsche eda Girge) høfudstadr, vid Nílfliótit vestanverdt; þar er allmikill kaupskapr og 10,000 innb. Nordar og sama megin

árinnar er Sjút eda Assjut; þat er all-mikill stadr. Þar stód fyrr. Lykopólis. — At austanverdu vid ána stendr þorp þat, er Lux-or kallast; þar stód fordum hin nafnkunna borg, Theben, og eru þar allmerkar eptir-stödvar og tóftir, er votta um hennar fornu fegurd og mikilleik. Auk þessara eru þar margir bæir, er standa á eda nálægt aurmál-um ýmsra í fornsögum umgétinna borga, t. d. Abatis, Panapólis eda Chemnis, Ptolomais, Tentyris, Aphroditopólis, Hierokonpólis, Lato-pólis Silsilis eda Apollinopólis o. s. frv. Sydst í Egyptalandi er Assuan (Syene); þar er ey í ánni, er Elephantina heitir. Nokkut nordar og skamt frá landamærinni er foss mikill í ánni og géta því ei skip lagt leingra upp.

Í vestr frá þessum hluta Egyptalands liggr hin mikla Oase; þar er bygd ei alllítil og höfdingi (Bei) setr til yfirsóknar. Vid Arabíubotn er kaupstadr, er Kosseir kallast; þar hefir arabiskr Seik yfir at ráda. Nokkr hluti Núbiu og Habesk-strandar liggr einnig undir Egyptalands einvalda.

Í landi þessu er mjög heitt og heitara enn í flestum löndum, er liggja undir sama himin-vegi; þó er hitin landsmönnum bæriligr og loptslagit ei óholt; því margir verda þar háaldradir, tírædir og meira; ber þat til þess, at hvervetna er þar stödugt vedráttufar, vedra-brigdi sjaldgiæf og umskipti árstídanna varla merkjanlig. Þar vorar í Janúarió; þá grænkar

alt og vaknar af frióſi; ſídſt í Aprílí er upp-ſkéru-tími; frá midium Júnió til Septembers er hin heitaſta árstíd, þá kémr hauſtit, er varir í tvo mánudi, en hinn ſvokalladi vetr í rúman mánud, hvor þó er líkari ſumri í vorum löndum, at því undanteknu, at þá liggr þar alt jardar-blóm í dvala. Regn er þar miög ſialdgiæſt, en þó eru reidarſlög enn ſialdgiæfari. Meſtan þorra árs blæs þar nordan vindr, er kiælir nokkut ofurhitan. Landſynningr (Chamsin) er þar einna þúngbæraſtr, þótt ei ſé hann banvænn. Drepſótt eda peſt geyſar þar titt; ollir því fremr vangætſla og ſkortr þeirra medala, er ſtemma ſtigu fyri ſkélmisdrepi, þá hún þángat ſlytst af ödrum löndum, enn óheilnæmi lopts, edr þat, at þar ſé hennar upphafligt heimkynni.

Hvervetna þar er Nílsá hleypr á og ſikin úr henni ná at vökva og frióſga land þetta, er þat forkunnar ávaxtaſamt og audugt af margskonar korntegundum og fiölkynjudum jardar-gróda, og ilmſætu og litſögru blómi. Þar vex tvennslags lótus-jurt, hvít og blá, í vatni; rætur þeirra eru ætar og líkjaſt jardeplum — og jurt ſú, er menn gjördu pappír af í forn-öld. Auk þeirra dýra, taminna og ótaminna, er í fleſtum löndum ſinnáſt, má hér géta Pharaons-völſku (Ichneumon), er eydir ödrum völſkum, (ſem þar er úgrynni af) og ýmſu ill-yrmi. Í fornöld kölludu landsmenn þetta dýr heilagt, meſt fyri þá ſök, at þat braut og drack úr eggium krókadíla og á þann hátt hamladi fiölgun þeſsara herfiligu láds- og lagar-dýra,

er fordum vóru fleiri í Nílfliótinu og fárligri haldin, enn nú á dögum. Þar var og fyrrum vatna- eda Níl-hestr (Hippopotamus; nikr), er menn segia nú aldauda vera í þessu landi. Þar er og mikil mergd fugla, t. d. strútsfuglar, pelikanar, hæns, (eggium þeirra klekja menn út í ofnum, sem til þess eru lagadir), flamíngi, ibis eda hinn egyptiski storkr, er var helgr fugl í fornøld, er landsmenn smurdu og biuggu um í leirkrukkum, hvorjar enn má finna í fyrrtøldum greptrunar-hvelfingum, o. s. frv. Medal hinna merkustu stein-tegunda á Egyptalandi er Natrón, er finst vid fyrrtéd stødu-vøtn.

Ei samsvarar kunnátta og atorka landsbúa gjædum og gnægtum verkefna á Egyptalandi. Þó hafa þeir, einkum sídan jarl sá, sem þar rædr ríki, kom til valda, tekit allvænligum framførum í þeim íþróttum og handidnum, er mida til at hagnýta gjædi landsins og auka fjármagn þjódarinnar med unnum ágóda. Jarl þessi hefir med miklum manndómi og kostnadi látit útlenda handverksmenn stofna þar veistadi og smidjur, og kénna landsmøunum ýmsa atferd og lagvirkni; hann hefir gjørt verslunar-samninga vid þjódkonunga í Nordr-álfu heims, látit gródursetia þar mórberia-tré, svo milliónum skiptir, silki-ormi til vidrværis, sikr-reyr og vid þann, er ber ull þá, er menn kalla bómull (vidar-ull); hann hefir látit grafa síki og á ýmsan hátt bætt akr-yrkiu og breytt til betra forni medferd og búsissjum landsmanna. Frá Alex-

andrîu, Damíette og Svez gánga iðugliga kaupskip til annará landa og heimsálfa, og yfir land fara lestir (Caravaner) til Sýrlands, Arabíu-ríkis, Fezzan, Sennar, Darfur og Blökkumannalands; einkanliga er lest sú, er árliga fer austr til Mekka, feikiliga mikil; ástundum eru með henni 30,000 manna. Í Kahiru er allr þorri kaupverslunar í þessu ríki og ógrynni varnings samankomit.

Fyri Egyptalandi ræðr nú jarl (Pascha) sá er Móhamed Ali heitir og hefir einvaldi allra Tyrkja hann þar settan til yfirsóknar. Ali er mikill garpr, og svo starfsamr og umhyggiusullr um framfarir undirdána sinna til menta og íþrótta, at ei finnast dæmi meðal tyrkneskra landshöfðingia; tekr hann sér og snið eptir siðuðum þjóðum í ýmsum hlutum og hlýtir ráðum þeirra og tilsögn. Hann er all-litt háðr Miklagarðs Soldáni og hefir mikit herlið, er hann lætr nema þá vopna meðferð og vígfimi, er í Evrópu tíðkast. Hann gætir vel lands-friðs og laga, og lætr hvern ná rétti sínum, hvorrar trúar sem er.

Innbúar ríkis þessa eru 3 mill. og 500,000 at tölu. Þeir eru af mörgum kynkvíslum, komnir, t. d. a, af hinum fornu Egyptalands-mönnum, er kallast Koptar (Copter); þeir eru kristnir, en fákunnandi miög og latir og eru tvístraðir víðsvegar um landit, en hafa þó traust af jarli. b, Frá Arabiu-mönnum, er á miðöldum brutu landit undir sig; þeir eru flestir, og greinast í tvo flokka: akr-yrkiumenn (Fel-

lahs) og fjárbændr (Bedavi), er liggia við tiøld og flytjast um landit. c, Af Tyrkjum, þeir hafa sidan 1517 haft ædstu vald. d, frá Mamelúkum, er í øndverdu vóru herteknir eda keyptir þrælar af ýmsum løndum, er héldu vørd um hinn egyptiska soldán og veltu hønum á 13 øld midri úr kóngdómnum og gjørdust sjálfir landsstjórnendr um lángar hridir; en svo var stjórn þeirra ill, at þá leid gjørsamliga hinn forni blómi og ágjæti lands þessa undir lok. Eptir at Tyrkir høfdu tekit þar ríki, eltu þeir jafnan grátt silfr og høfdu ýmsir sigr. Nú eru Mamalúkar svo fáir, at þeir ei hafa þrótt til uppreistar. — Auk þessara eru þar Evrópumenn af ýmsum løndum: Grikkir, Gydingar, Ermlendingar, Bløkkumenn o. s. frv. Flestir játa landsmenn Múhameds átrúnad, sem þar er í løg leiddr; þó njóta adrir trúmenn fulls trúarbragda-frjálsrædis, einkum Koptar, er hafa þar einn Patriarka. Tyrkneska og og arabiska eru hinar algeingustu túngr á Egyptalandi.

Þar innbúar lands þessa eru svo margkynjadir, þá eru þeir einnin at því skapi margbreyttir at ásýndum og háttum. Koptar eru liósmóraudir á hørundit og verda því blakkari, sem sunnar kémr, breidleitir og stuttleitir, úteygdir og flatnefjadir, varaþykkir og munnstórir og eru nokkut áþeckir hinum eiginligu Bløkkumønnum eda Negrum. Hvad lunderni og manndómi, kunnáttu og íþróttum vidvíkr, þá

má þat með sanni segja, at valla hefir nokkr þjóð í heimi úrætt svo mjög frá forfeðrum sínum, sem Koptar frá hinum viðfrægu Egyptalandsmönnum; má þar sjá, hvörsu langvinnr þrældómr og mannrænulaus yfirdrottnan er skélmisdrep fyri alt andligt og líkamligt atgjörvi. Svo lýsa menn landsmönnum, einkum staðabúum, yfirhöfuð: þeir eru meðalmenn vexti og vel limaðir, vöðvamiklir og liðligir, bera höfuðit hátt og drembiliga og eru skéggjaðir mjög; þeir bera öklasíða kyrtla, bláa eða svarta og hafa þann höfuðbúnað, er túrban kallast og er hann ýmist rauðr eða grænn, en þó optast hvítr. Augun eru brún, tennurnar hvítar og rómurinn allmikill og skörugligr. Af ásýndarsvip má þat glöggliga sjá, at þeir eru uppfæddir í heilnæmu landi, en jafnframt einnig þat, at þeir hafa þola mátt áþján og ófrelsi, svo at þat hefir sætt öldum ecki sám, og at þeir eru því læðuligir smjaðrarar við yfirmenn, undirförulir, lýgigiarnir og all-litt hugðjarfir.

b, **Þau ríki, er hafa hald og traust af Tyrkia-stórherra** (síðan 1530). Þessi ríki kallast almennt einu nafni: **Barbarí** og er þat sann-nefni; því bæði er þat, at sú þjóð, er þau byggir, er grimm, rángjörn, ill viðureignar, ófróð og lítt siðuð, og þarmeð hefir þessi þorpara-lidr eigi þar búit frá öndverðu, heldr tók hann sér þar fyrst á miðöldum staðfestu og flæmdi á brott innfædda þjóð, er

Berbar (eda Brebar) kalladist, vid hvorja ýmsir kénna lond þessi og kalla þau Berberí. Þrjú eru ríki þau á nordr-strønd Afriku, er menn sérilagi kalla Barbarí, nl. Alzír Túnis og Trípólis, en sumir telja þar til hit Marokkanisk-ríki og Barka.

## I. Alzírs-ríki (Staten Algeir.) (ford. Númidíaland).

Þat liggr þar á tédri strønd, er hún gengr lengst í nordr, í hásudr frá Fránkaríki og ímillum Marokkó og Túnis. Þat er 9000 ferhyrnings mílr at stærd og hvørju hinna voldugra og vídlendara. Land þetta er einkar fagurt og vída fjollótt. Atlas-fjoll gánga um þvert landit eda á austr og vestr og ýmsar greinir af þeim í allar heims-áttir. Merkustu ár eru: Zaine, er rennr á takmørkum Alzírs og Túnis, og Selef, sem er 40 mílr at lengd. Ríki þetta er greint í 3 landsálfr; kallast sú sem vestast liggr Maskara, þá Titterí, í midit, og Konstantína austast. Yfir þær eru settir høfdingar til forráda, er Beyar kallast.

a, Í Tittarí er høfudborg ríkis þessa, er Alzír (Algeir o: Nes) heitir; þat er rammgjør og allsjálig borg hit ytra, og stendr hún vid

botn vikr nokkurrar, er gengr inn ímilli tveggja nesja; hún stendr í hallanda, og hækka húsin því meir sem frá sæ dregr, má því svo sjá frá hinum ýptustu sem fremstu húsunum á haf út. Þar eru stræti þraung og óþrifalig, húsin flat-þakin og ei mikil. Í midri borginni er hof-gardr allmikill; þar býr landshöfdinginn, er Dey kallast. Þar er góð skipalega, en ofgrunn höfn fyri stórskip — og 80,000 innbúar; þará-medal eru 10,000 Gydíngar.

b, Í Konstantínu er samnefndr stadr, (er ford. kalladist Cirta); hann liggr 12 mílr frá sæ og gengr Alzír næst at stærd og fjölmenni; þar eru 10,000 innbúar og heimili höfdingia nokkurs, er í þessari landsálfu er settr til yfirsóknar.

Í nordaustr þadan og vid sæ stendr Bóna (eda Bonne fyrr. Hippo). Þar og í Kalla (La Calle), nokkut austar á strøndinni, er kór-ala-fáng mikit og kaupskapr, einkum vid Frakka. Lánga leid í sudr frá Konstantínu er Biskara, merkastr stadr í landsálfu þeirri, er Zab heitir; þar búa Biskarir.

c, Í landsálfunni Maskara er sam-nefndr stadr, er fordum hét Victoria. Þar sitr bey, er þar hefir manna-foráð; sá stadr er allvel gjørr. Vid sæ stendr viggirdtr stadr, er Oran eda Varran heitir, og kastali skamt

þadan, er Masalqvívir kallast; hinn var til 1792, þessi er enn eign Spanskra.

Innbúar Alzírs-ríkis eru 2 mill. og 500,000 at tølu og eru þeir af margbreyttum kynþáttum komnir, en eru hvergi føðurbetringar. Medal þeirra má þessa telja: a, Berbar (Brebar) eda Kabýlar, sem fyrr er gétit. Þeir búa í fjallbygdum uppi, vid þraungan kost og i leirkofum; þeir eru ófrýniligir ásýndar, døkkmóraudir á hørundit og svarthærdir, en þó ei illa limadir, hraustir og víggjarnir og unna mjøg frjálsrædi sínu; þeir trúa á Múhamed og þola ei adra trúmenn í nábúd sinni, og eru asar ófródir, hjátrúarfullir og ósidadir. Prestar þeirra, er kallast Marbútar eda Móra-betar eru þar mikis virdtir, þótt hverki kunni þeir at lesa né skrifa. Hafa þeir og allmikil afskipti um veraldlig málefni; því ei eru Kabýlar ødrum høfdingjum hádir. b, Mórlendingar eda Mórar (Maurer); þeir eru ættspreingi þeirra Arabíumanna, er unnu lønd þessi, og nidia þeirra, er þeir gátu vid dætrum enna fyrrnefndu fornbúa. Þeir eru vel-vaxnir og vidlíka hørunds hvítir og innbúar sudr-hluta Evrópu; þeir eru audugri og betr at sér um marga hluti, híbýlaprúdari og skynugri búsýslumenn, enn adrir innbúar þessara landa. c, Arabar eda Bedúínar hafa hér, sem hvervetna, er þeir hafast vid, einga stadfestu, en flytjast um landit med tjaldbúdir sínar og hjardir. Þeir eru sem ættmenn þeirra, stoltir, brádlyndir og styrjaldargjarnir frelsis-elskarar,

óbreytiligir at síðum og manna þrifnaðir. Ei lúka þeir landsstjórnara skatt, nema kúgaðir séu og margir kjósa heldr at byggia snauðar fjallbygðir og þola þar húngr og klæðleysi, enn at gjøraſt hønum skattskyldir. d, Tyrkir (Otmanli), sem síðan 1530 hafa haft manna-forráð og æðstu vøld í løndum þessum, eru hér-umbil 10,000 at tølu. Uppháf þeirra er marg-kynjaðr þorparalýðr, er um þær mundir flyktist þángat af øllum Tyrkjaveldis løndum og verit þvíuær ei at øðru kunnr, enn løstum og lýtum, vankunnáttu og leti, sisløligum ofurhuga og sérþótta, fégyrni og eljaraglettum, hefndargyrni og grimd, lostasemi og drykkfeldni, — og má þat með sanni segia, at afkomendurnir hafa trúliga fetat í fótspor forfeðra sinna alt til þessa dags; er þá ei kyn, at ill eru verk þau, er þeir fremja bæði á láði og løg; þó er svo sagt, at þeim sé ei varnat hreysti, tryggdar og einlægnis, og at þeir haldi heit sin mørgum fremr. Af Tyrkjum samanstendr herliðit, sem er máttarstólpi landstjórnarinnar í þessu landi, hvar løg og réttr mega minna, enn vald og ofríki, og af þeim er hinn æðsti landshøfðingi tekinn og allir valdamenn. Þeir gjalda hverki skatta né skyldr, en féfletta og plægja lands-lýðinn, einkum Móra, þótt þeir séu þar 200 um hvern Tyrkia at manntali; má þat Mórum til hugbleyði telja. Þar er einnin kynqvísl all-mørg, er c, Koloris eða litblendingar kallast; þeir eru komnir af Tyrkjum og mórleudskum eða bløkkum mæðrum, en erfa hverki fé né einka-

rétt fetra sinna, og eru þó allvel efnadir. Þeir eru setrum sinum líkir at skapnadi og flestu, en þó gáfadri, starfsamari, slægri og skinheilagri. f, Kristnir kaupmenn búa þar í stödunum, og eru ei allmargir; en þess fleiri eru þar kristnir fángar, er bera hlekki og eru þrælkadir; þó eru þeir nú ei svo sárt eda grimmiliga leiknir, sem forn-sögr votta, einna síst þeir, fyri hvörja menn vænta rífligs lausnargjalds. Sumum leidist þófit og nídast á trú sinni; en ei eru þeir margir. g, Blökkumenn (Negre) eru þar bædi þrælar og lausgéfnir og þjóna audmönnum og höfdíngjum í þénarastétt — og eru seldir og keyptir sem sénadr.

Ríki þetta hefir höfdíngi sá til forráda, er Dey eda Paska kallast, en med hönum rædr þó allmiklu ráð (Divan) nokkurt, er med atqvæda fjölda áqvedr lögmætar skipanir og velr fyrrnefndan landsstjórnara, er ávalt skal vera tyrkneskr at kyni í bádar ættir. Í rádi þessu sitja aldradir tyrkneskir hersforíngar. Deyar skulu sitja æfilángt at ríki; en opt verdr þat, at þeir veltast úr tigninni og verda ei stráðaudir; því þá hinu taumlausa tyrkneska herlidi þykia þeir eigi sér svo vilhallir, sem þat æskir, styttir þat þeim ei allsjaldan aldr, (t. d. 1786 vóru sex deyar valdir og nær samstundis af lífi teknir á tveim dægrum). Í ávarpi kalla Kristnir og Tyrkir hann: Effendi ɔ: herra, en Mórar og Arabar: Sultan ɔ: konúng. Fremr er ríki þetta lidskyldt, enn undirgéfit Miklagards einvalda, og stórgjafir þær, sem deyinn

sendir honum á ári hverju, má ei skatt kalla. — Herlidit er nærhæfis 10,000 og herskipin, stór og smá, 20 at tølu.

## II. Túnísſ-ríki (Staten Tunis).

Þat liggr fyri austan sidstalit ríki, en at austanverdu markar Midjardarhafit og Trípólis þvi takmørk. Þat er 90 mílr at lengd í nordr og sudr, 40 at breidd og 3400 ferh. mílr at vidáttu. Hit sydra gánga Atlas-fjøll og hálfar af þeim um landit. Medsjerda er þar hin merkasta á; hún kémr til sjáfar skamt frá Túnis og hleypr árliga á landit og frjófgar þat, álíkt og Níl-fljótit. Sunnar enn mittlands er støduvatn mikit, er Nest eda Elúdia kallast.

Hofudborgin í þessu landi heitir Túnis, er Rómverjar kølludu Tunes, en Nordmenn Túnet. Borg þessi er 1 míla ummáls og stendr vid støduvatn; úr því gengr ós til sjáfar. Skamt þadan er kastali sá, er Bardó heitir, þar hefr landshøfdíngin atsetu, og annar, er Góletta kallast. Þar eru flest hús litil og fløt at ofan. Þar eru 120,000 innbúa.

Tvær mílr þadan í útvestr er þorp lítit, er Mersa heitir. Í grend vid þat má finna eptirstødvar af borg þeirri, er Kartagó hét og

mjög var nafnkunn og mikil í fornöld. Átta míle í sömu átt frá Túnis og við sæ stendr kaupstaðr sá, er Biserta heitir. Þar stóð fordum Utica. Í suðr frá Túnis er Kærvan, þar er musteri (Mosche) svo mikit og fagurt, at hvergi finnst jafn-vegligt á Norðr-strönd Afríku.

Innbúar þessa ríkis eru hérumbil 3 mill. at tölu og eru þeir samkynja og líkir at flestu margkynjuðum ættmönnum sínum í Alzírs-veldi; þó eru Bedúínar þar einna fjölmennastir. Um Túnísa, einkum höfuðstaðar-menn, má þat með sanni segja, at þeir hafa fremr, enn nágrannar þeirra hit eystra og vestra, samit sig at háttum Evrópumanna og eru af umgengni við þá vordnir nokkut siðaðri, viðfeldnari, vinveittari við kristnamenn og ei svo harðlyndir við fánga sína, sem grannar þeirra. Meðal enna mórlendsku kvenna eru allmargar forkunnar fríðar sýnum, og hafa meira frjálsræði, enn almennt er siðr hjá þjóðum þeim, sem kynjaðar eru af Austrlöndum; þær þykkja vænstar, sem holdmiklar eru og hárfagrar. Höfdíngi sá, er hefir ríki þetta til forráða, kallast Bei; hann velia tyrkneskir hersforíngiar af Mórum, og hafa hlut í ríkisstjórninni með hönum, með því þeir eru meðlimir stjórnarráðs hess, er Divan kallast; þat kallar hann til fundar við sig til ráða-gerða, þá hönum þykkir miklu skipta, en ecki elligar; er hann því optast sjálfráðr um giörðir sínar og dóma. Sjálfr fer hann á sumrum hit nyrðra, og á vetrum hit syðra um landit með

vopnudu Ildi og tekr skatta og landskuldir; þvi hvergi géfr hann ødrum høfdingjum ysirsókn í ríki sínu. Landlið hans er 45000 manna, en herskip 20 at tølu; þeim halda Túnisar nú á døgum ei svo miøg til ráns og hernadar sem fyrrum, þar þeim þykir fridsamlig kaupverslan vid Evrópumenn betri, enn á fornan hátt at afla sér fjár og övingast vid þá. — Beilun sendir Miklagards soldáni áſtundum ágjætar gjafir, sem fremr eru vingunar- og virdingar-, enn þegnskyldu-merki.

## III. Trípólis-ríki (Staten Tripolis).

Þat liggr imilli Túnísa-ríkis og Barka, þar á strøndinni, er landinu skýtr meſt inn — og nær til eydimerkr hinnar miklu í ſudr; þat er 4690 ferh. mílr at stærd. Hit ſydra eru eru sand-audnir miklar og fiallgardr sá, er Garrean heitir. Í grend vid hafit er landit allfrióſſamt. Þar er høfudborg, er Trípólis ↄ: Þríbyrgi; (Tripoli, di Barbaria at auknefni, af landsmønnum kølluð Tarabilis); hún stendr í hvammi miklum, vid ſæ og veſtarliga í landinu; hún er føgr áſýndum hit ytra, en óþrifalig og illa húſut, þá inn er komit; umhverfis hana gengr, sem hinar tvær ádr nefndu høfudborgir, einlægr múrveggr og eru á hønum 2 hlid; vid annat þeirra ſtendr ſigr-hróſs-bogi,

tileinkadr Marc. Aureliusi keisara. Þar eru og fleiri allmerkar fornmenjar og 20,000 innb. Þar sitr einnig landshøfdinginn.

Austar á strøndinni er stadrinn Mesúr-ata; þar hefir bey nokkr atsetu og þadan gánga stór-lestir til Fessans-ríkis.

Í syrnesndum fjallgardi er bygd mikil, um hveria bey nokkr hefir alla ysirsókn, og géldr Trípólis-beyi skatt í landaurum ul. safrani. Fjallamenn þessir búa bædi í jardhúsum og þorpum, sem eru 100 at tølu. Þar eru Gydingar margir, sem hvervetna í þessu ríki, og yrkja þeir jørd og idka handverk. Merkasti býr í fjallbygd þessari er Kasr þ: kastali. Þar sitr beyinn. Fleiri eru þar mannabygdir í dølum Atlas-fjalla og á grasdeplum í sand-audnum, er hardsviradar, stridfúsar, og friálsar smá-þjódir byggia.

Frammundan strønd ríkis þessa eru á 2 stødum grunnsæfi eda grynníngar miklar, er Rómveriar sérilagi kølludu: (Syrtes; Syrtis major et minor þ: hit meira og hit minna grunnsæfi eda hvirfilstreymi). Þar þótti farmønnum sárlig skipaleid í fornøld.

Innbúar þessa ríkis eru af sama og jafnmargføldu kyni komnir, sem innbyggjendr tveggja sídstalinna landa, en eru þó ósidadri, sáfródari og sidr at sér um flesta hluti og hafa lángt færri manna-sidi. Þar rædr ríki høfdingi sá, er Dey kallast og er hann tyrkneskr at kyni. Samlikt ráb gengr hønum til handa í ríkis-

stjórninni, sem í ádr greindum ríkjum. Parat-
auki hefir Miklagards soldán sett þar jarl
(Pascha) til forráda; en vald hans er lítit;
þó hefir soldán meira táugarhald í þessu ríki
enn í nokkuru hinna tveggia. Deyinn hefir
50,000 vígra manna og 13 herskip.

## IV. B a r k a.

Þat liggr á strøndinni ímilli sídstteds ríkis
og Egyptalands, hinnar líbisku eydimerkr og
Midjardarhafs. Þat er 4000 ferh. mílr at
vídáttu og er mestr hluti þess óbygdr og
sandheidi; vid sæ er møu frjóssøm og søgr og
blettir híngat og þángat í sand-geimnum hit
sydra i landinu. Þar køllndu menn ford. Líbýaland.

Hit vestra og vid sæ er stadr sá, er Bing-
así ɔ: strídsdóttir heitir; (fyrr. Berenice).
Þar er høfn gód, margar fornmenjar og heimili
beya nokkurs. Austar stendr Kúrin eda Grenne
(fordum Cyrene); þat er hinn merkasti býr í
þessu landi. Þar eru margbreyttar fornmanna-
leifar, er votta um fegurd og mikilleik borgar
þessarar á fyrri øldum, t. d. manngjørdar vatz-
dældir, legstadir, o. s. frv. Þar búa Bedúínar,
og eru þeir flestum ættbrædrum sínum sidadri. Aust-
ar er Derne, vid samnefnda fiallbygd, er gengr,
sem múli, í haf út; þar hefir bey nokkr atsetu.
Í þessum hluta landsins eru flestir innbúar
arabiskir at kyni eda Bedúínar, er flytjast vids-

vegar með tjøld og hjarðir sínar. Oddvitar þeirra eru tveir fyrrnefndir beyar, í Derne og Bingasi, og hefir hinn fyrri 30,000 en hinn síðari 20,000 tjøld til yfirsóknar. Báðir eru þeir skattskyldir Trípólis-jarli.

Í Suðr-hluta lands þessa eru tveir fagrir og gróðr-ríkir blettir (Oaser) í sand-heiðinni, er frí-þjóðir tvær byggja, nl.:

1. Siva (Sivah), er liggr ei allánga leið fyri vestan Egyptalands landamæri. Mestr hluti þessa ríkis er frjóssamr dalr einn með kletta-beltum umhverfis. Þar er samnefndr høfuð-staðr, og Ummebeda; þar géta menn til at Júpiters Ammons hof staðit hafi. Vestar liggr:

2. Augila, þar er hrørligr staðr, er hefir sama heiti. — Bæði þessi lønd byggja Ara-biumenn.

At lyktum má þess géta um øll þau ríki, sem nú eru talin á norðr-strønd Afríku, eða Barbaríit, at þar er hvervetna mikit afl hita, er optliga eykst afarmiøg, þá landbúar, at lokinni uppskéru brenna smáviði af økrum sínum, er þeim þykir vera sér til baga. A snió og frost bera menn at eins kénsl á hæstu fjøllum. A sumrum rignir sjaldan, en á vetrum, þvínær í sífellu. Hvervetna er þar vatsskortr mikill; hafa menn því manngjørðar vatsdældir og safna þari regnvatni. Allr þorri innbúa ríkja þessara játar múhamedaniskan átrúnat, og halda hann trúliga.

Um lánga æfi hafa innbúar þessara landa verit illræmdir sjó-reyfarar og ógnabildir øllum

farmønnum í Midjardarhafi. Hlaupa þeir út frá ýmsum høfnum og ræna kaupför øllum farmi, en hertaka kristnamenn alla, er þeir finna innan borda, og þrælka þá grimmiliga, nns þeir verda lausir fyrir ærit gjald, eda nídast á trú sinni; hefir því Evrópu-ríkia þjódkonúngum þótt þat rád: "heidradu skálkin, at hann skadi þig ecki!" heilræda best, og senda þeim optliga gylligjafir til fridar og grida farmønnum sínum. At sønnu eru nú ei svo mikil brøgd at ránum illíngia; sveita þessara, sem á fyrri tídum, þá þær herjudu um nordr-hof og ræntu skip og lønd fé og fólki; ollir því ei svo mjøg lundernis-betrun, sem ótti fyrir ofr-efli ýmsra þjóda, einkum Enskra.

## II. Hit Marokkaniska ríki.

Þat kalla margir keisaradæmi, med því þar til liggia fleiri smá-ríki, er konúngs-ríki eru køllut; en eiginligast er heiti þess: Konúngsríkit Marokkó (eda Marokos) og Fez. Þat liggr vestast á nordr-strønd Afríku og er nokkr hluti ens forna Mauritanalands, er arabiskir herskarar, sem Sarazenar eda Serkir kølludust, tóku med herskildi 647. Þat er 13700 ferhyrn. mílr at vídáttu og er þeirra ríkia vídlendast og voldugast, er sumir menn kalla einu nafni: Barbarí. Fagurt er þat og liggr vel og hagsamliga, forkunnar frjóssamt og margskonar

gjædum búit. Atlas-fjöll gánga þar vídsvegar og í ýmsar áttir um landit og eru þau bædi há og vída snæþakin hit efra. Vid Njörfa-sund sunnanverdt og gagnvart Gíbraltar, er höfdi mikill, er Abýla kallast. Margir eru lækir og ár í landi þessu; en engar eru þær miklar, þar atdragandinn er skammr frá fjöllum til sjöru. Þær merkustu eru: Múlvía, er rennr hit eystra og skilr Alzírs og þessa rikis landeignir; Luck-os á vestr-ströndinni; hún hleypr opt á landit og gjörir mikinn jardusla; þá Sabu og Tensift sýdst; þessar þrjár falla í hinn at-lantiska útsæ.

Til þessa rikis liggia 2 höfud-ríki: Mar-okkó og Fez og landsálfan Sús — og landsálfurnar: Drá, Tafilet og Segel-messa.

1. Í ríkinu Marokkó, er liggr hit sydra á Vestr-ströndinni, stendr höfudborg gjörvalls ríkisins, er Marokkó (eiginl. Ma-raksch) heitir; hún stendr á fögrum flötum vid Atlas-fjöll og er allmikil; þar hefir einvaldi atsetu í háreistum og skrautligum hofgardi, er Mensia kallast; um hann er hár múrveggr gjörr og er hann jafnmikill ummáls, sem mid-lúngs-stór stadr; í hönum er allskonar ofur-prjál metnadar og austr-landa sundrgérd; þar

eru einnin strútsfugla- gardar og ljóna- grysiur; í þær er sakamønnum varpat. Nokkr hluti borgarinnar er afmarkadr med múr umhverfis, er Milla kallast, þar búa Gydingar. Í borg þessari eru 40,000 innb.

Vid sæ stendr umgirdtr kaupstadr, er Magador heitir.

2. Í ríkinu Fez, er liggr nordar á vestr- strøndinni og gegnt Spáni, er Fez eda Fes høfudstadr, er stendr í dal og vid Sabú. Þat er hinn fjølmennasti og mesti kaupstadr í hinu marokkaniska ríki. Þar eru 200 bænahús (Moscheer) allmikill bókastóll og 100,000 innb.

Ei alllángt þadan er stadr sá, er Mekines eda Meknes heitir; þar sitr einvalds- høfdingi ríkis þessa ástunudum. Stadarmenn eru 10.000 at tølu. Vid Midjardarhafit stendr kaupstadr, er Tetúan heitir, med 14000 innb. og Tanzér (Tanger) vid Njørfasund. Fyrir austan sundit er kastali sá, er Ceuta eda Sebta, (Septen) heitir; hann eiga Spanskir, ásamt þremr umgirdtum stødum þar á strøndinni, er Melilla, Penon og Alhuzemas heita.

3. Landsálfan Sús liggr á vestr strønd- inni fyri sunnan Marokkó; þar eru 2 kaup- stadir, er Tarúdant og Santa- Cruz kallast.

4. Hvad þeim 3 ádrnefndu ríkjum vid- víkr, þá liggia þau øll fyri sudaustan Marokkó og í og nálægt Atlas fjallbygdum og ná hvergi

til hafs. Renna um þau ár í suðr og hverfa þær allar í bruna-sandinn.

Í Tafilets-ríki er samnefndt þorp, allmikit ummáls og strjálbýst; þar sitja margir Skerífar, er rekja ætt sína til Múhameds. Þar koma þeir menn saman, er gjöra lestaferðir til Afríku upplanda. Austar liggr Segelmessu-ríki; þar er samnefndr höfuðstaðr og kastali. Ríkit Drá liggr fyri suðvestan Tafilet og tekr nafn af á mikilli, er rennr í útsuðr til sjáfar. Þat er miøg ókunnugt.

Hit Marokkaniska ríki mundi brátt reynast eitthvørt hit bezta land á heimskringlunni, ef kunnátta, atorka og hagvirkni innbúa samsvaraði gjæðum þess og auðlegð í jørð og á, og ef landshøfðinginn eigi veisaði járnvarðinni veiðis-spíru yfir høfðum allra þeirra, er leitast við at framast og hefjast til þroska og manndóms; þar er gnægð allskonar málma í jørðu fólgin, en hann hefir sett øllum blátt fyri bann at leita þeirra, at eyri undantekinu, er þar finst sæum og með litlu ómaki. Þaðan flytja kaupmenn korn, olíu, manlur, gúmmí, tóbak, eyr og salt o. s. frv., bæði á skipum til útlanda og á úlfbøldum til Mekka, Búrnú og ýmsra staða í Mið-Afríku. Landslýðrinn er margkynjaðr þar, sem í fyrrtøldum ríkjum, nl. Arabar, er annattveggja iðka jarðyrkju eða kvikfjár rækt og liggja þá við tjøld, er þeir géra af geitahári. Berbar eða Kabýlar, Blokkumenn, Júðar, ei allmargir kristnir menn, trúarníðingar

og Mórar, er báa í flødunum og eru afkomendr Araba, enna fornu Máritana, Getula og þeirra (1610) af Spáni útflæmdu Móra; þeir kalla sig Moslemim (: þá frelsudu) og eru frídir sýnum og vel vaxnir, og heyra til ens hørundshvíta mannkyns; þó eru þeir flestir, er þetta þjódar-nafn, bera, blackleitir, einkum afkomendr þeirra og Negra, hvørja kalla má mórauda eda Múlatta. Í landi þessu tilreida menn allvel safian og sápu, spinna silki og vinna vidar-ull. Fyri þessu ríki rædr sjálfrádr einvaldi (Despot); hann er af ætt Skerifa, eda Múhameds afsprengis, og kallar sig: jarl Guds og fursta hinna trúudu — og Imam eda ypparsta prest, þar hann, álíkt og Kalífar, er kénnimanna oddviti. Landsmenn kalla hann: Súltan : kondng og Sidi : herra; en Evrópumenn: keisara; sú nafnbót þykir ofríklig. Vald landsins gengr í erfdir til frumgétins sonar, en optliga deila brædr hans afli og ofríki vid hann. Eingin má sjá koma á kóngs fund, sem ei færir hønum gjøf nokkura. Um konúnga þessa fer ein saga, at þeir séu grimmustu hardstjórar og blódgýrugir týrannar. Allr þorri landslýdsins rækir hinn múhamedaniska átrúnad og mælir þar, sem í ádr greindum ríkjum, bjagada arabisku. Landlid Súltans er 63000 vígra manna og herskip hans 24 at tølu; er þeim einna heldst haldit til ráns og hernadar, sem sídr er med þjódum þeim, er byggja Blálands jadar.

III. Belad-al-Zerid (Belad al Dscherid) eda Dadlaland; Daddellandet.

Svo kalla Afríkumenn, er arabiſku mæla, øll þau lønd og landsálfr í Afríku, er einna meſt bera þann triá-ávøxt, er Dadlir kallaſt, og ſem búfaſtar þjódir byggja; en allmennt heita menn ſvo allvídlendar mannabygdir, er liggja ſyri ſunnan ſyrrtalin ſjóreyſara-ríki frá Trípólis takmørkum alt til hafs veſtr, þó einkanligaſt þær landsálfr, er liggja ſudr af Túníſa-ríki. Fyri ſunnan bygdir þeſsar tekr eydimørkin hin mikla vid. Vídaſt er land þetta ſandi-orpit mjøg og ófrjóſſamt; á allmørgum ſtødum eru þar blettir fagrir og ſkógar miklir af dadlá-trjám, er eiyna heldſt géfa landsmønnum forda til vidurhalds þeim og heſtum þeirra. Þar búa Berbar, Arabar og Bløkkumenn; eru þeir annattveggja ſkattſkyldir ſjóreyſara-þjódunum eda friálſir. Tozer er þar allmerkr býr, er liggr til Túnis. Þar er dadla-markadr meſtr.

IV. Sahara edr Eydimørkin mikla (Örkenen).

Þat er feykiliga vídlendar ſandaudnir, er liggja jafnſidis ſyrrgreindum løndum alla leid

frá hinum atlantiska útsæ til Egyptalands fjalla og Núbíu í austr og eru 65000 ferh. mílr at vidáttu; fyri sunnan þær liggr Senegambíu-ríki og Blokkumannaland. Vídast er svædi þetta rennslétt og sva snaudt, at ei sést þar stingandi strá né svalandi lind; hiti er þar nær óbæriligr og sandrinn glódvolgr og rikr sem mjøll, hve litit sem golar. Sumstadar eru þó í bruna sandum þessum, (álíkt og eylønd í reg-inhafi), grasivaxnir blettir, (Oaser, af koptisku ordi: Wahe :c mannabygd), einkum þar er sandrinn er mishár eda hædóttr, en hvervetna er þar vatnsskortr illr audkanni, einkum á sumr-um; þar tímgast: villi korn og villi kál, dadla-og pálma-vidr, þyrnibúskar og nokkurskonar the. Þar eru og margkynjud villidýr, t. d. apiniur, dýrit óarga, panther-dýrit, ógurligir høggormar og villi-svín, úlfbaldar, saudfé, geit-fé og stórir hundar, mikill fjøldi fugla, einkum er þar strútsfugla eiginligt heimkynni. Blettir þessir eru 32 at tølu, og eru 20 af þeim bygdir. Innbúar þeirra eru arabiskir at kyni, eda **Bedúínar** er á 7du øld fylgdu lands-mønnum sínum at austan og kusu sér heim-kynni vídsvegar þar í Nordr-Afriku, er þeim þótti best fallit til kvikfjár-ræktar og fjálfrædis. Ai sólar-hita eru þeir vordnir dökkleitir mjøg

á herundit, en eru þó ættmönnum sínum líkir at skapnadi og lunderni; augnaráð þeirra er grimt eins og skapferlit, vöxtrinn hardmannligr, hárit svart og sellr í lokkum og nefit nokkut lángt; þeir eru sáfródir mjög, dramblátir, brádlyndir, rángjarnir, en þó gestrisnir. Prestar þeirra kallast Marbútar, er nanmast kunna at lesa og skrifa; þeir fremja margskonar kukl og hafa landsmenn at ginníngarfíflum. Smá-þjódir þessar flytjast frá einu haglendi til annars med tjöld sín og hjardir og halda ei lengr kyrru fyrir, enn til þess at hagan þrýtr. Svartir þrælar hirda qvikfé, en húsbændr eru jafnan at dýraveidum og ránum. — Þeir eru múhamedaniskir at trú og mæla afbakada arabisku.

Sydimörk þessa greina menn í 6 höfuðaudnir; medal þeirra mannabygda, er þar finnast, má sérílagi þessara hér geta:

1. Zanhaga, á vestr-ströndinni. Þar er höfn og kastali, er Portendik kallast og Frakkar áttu, og kauptún lítit á ey þeirri, er Arguin heitir. — Þar fara lestir frá Marokkó og Fez yfir sandinn til Mid-Afriku.

2. Fezzan eda Fessan, er sumir kalla kóngsríki; þat liggr hit eystra í tédum öræfum, í sudr frá Trípólis og er öllumegin umkríngt af brunasöndum og fjallgördum, einkum hinum svokölludu blökku og björtu Harutsk-fjöllum.

Ríki þetta er 60 mílr at lengd í norðr og suðr og 40 at breidd og sæmiliga frjófsamt. Þar búa 70,000 múhamedaniskra innbúa, er mæla arabisku. Ámeðal 101 þorpa og staða í þessu landi er borgin Múrsúk merkust; þar hefir æðstr höfðingi ríkis þessa atsetu; hann kallast Súltan (kóngr) og er af Múhameds ætt (skeríf); hann sendir árliga Trípólis-jarli svarta þræla og gullsand, og er þat fremr gjöf enn skattr. Veldi hans er ótakmarkat og gengr þat í erfðir til þess, sem elztr er konúngs ættingja. Frá Múrsúk gánga lestir til Tombokttú, Trípólis, Kosna, Búrnú og Kahíru.

Innbúar ríkis þessa meina menn séu afkomendr Norðr-Afríku fornbúa; þeir eru móleitir mjög og meðalmenn vexti, atorkumenn litlir og kunna lítt at verkiðnum; þeir trúa á Múhamed og eru allfáfróðir.

3. Tibbus-lønd liggja í austr og í suðr frá Fezzans-ríki; þar býr þjóð nokkr allfjølmenn og miøg hørunds-døkk, illgjørn og undirførul, rækir Múhameds átrúnat og mælir sérliga túngu. Tibbúfar eru harðfengir stigamenn og ræna optliga kaupmanna-lestir; þeir bera atgeira og lánga knífa og eru í sauðskinns-støkkum.

4. Túarika-lønd; þau liggja í suðvestr frá Fezzan. Þar býr þjóð sú, er Túarikar (Tuariks) kallast; þeir eru fjølmennir og allríkir, døkkleitir miøg og vel limaðir, miklir vexti og karlmannligir, alvarligir og harðfengir í orrustum og fá orðstýr fyri lunderni sit og

drengskap. Þeir gánga bláklæddir, girdtir sverdum miklum og falda sér eda sveipa svörtum dúk svoleidis um höfudit, at líkast er hjálmi tilsýndar, og eigi sést annat enn augun. Til þjódar-einkénnis bera þeir svartan horn- eda stein-hríng á hægra armi.

## V. Hinar Kanarisku eyar.
(ford. Insulæ fortunatæ ɔ: Lukku eyar).

Þær liggja í hinum atlantiska útsæ í vestr af Nordr-Afriku og ei lánga leid undan meginlandi. Þær eru greindar í tvo flokka og eiga Portúgals og Spánar-kongungar sinn hverir.

a. Þær kanarisku eyar, er liggja til Portúgals-ríkis, liggja í hávestr frá Marokkó og lengra undan landi enn hinar. Þeirra mest er a, Madeira eda Madera; þar eru fiöll há og forkunnar fagrir og frjóssamir dalir; hún er 30 ferhyrn. mílr at stærd; eyarlýdrinn er 80,000 at tölu og er hann allr kathólskr at trú. Þar vex vínvidr, er eyan tekr nafn af, og er ábeckr mahógnitré og ber eitthvert hit hnossgjætasta vín, er madera vín kallast. Þar er kaupstadr, er Funkal (Funchal) heitir; þar er víggirdt höfn, heimili hofdíngja (Gouverneur) þess, er þar hefir yfirsókn, og 15000 innb. Í nordaustr þadan er ey sú, er b, Portó

Santó (Helgahøfn) kallast; þar eru 1200 innbúa. Hana fundu menn 1418, en Maderu 1420.

b. Þær spønsku eda eiginligu-kanarisku eyar liggja sunnar og nær meginlandi; þær eru 12 at tølu, eru 7 bygdar, og allar samt 151 mílr at ferhyrnings máli. Margar eru líkr til, at jardeldar hafi þeim sleſtum í øndverdu af hafi skotit. Þeirra merkust er a. Teneriffa; hún er há mjøg og fjøllótt og at austanverdu aud og herfiliga asmindut af eldgángi og bruna, en at vestanverdu eitthvørt hit heilnæmasta, fegursta og gagnaudgasta land á hveli jardar. Þar er eldfjall þat, er Píkó (Pico de Teyde) heitir; þat er nær 12000 fóta at hæd frá sjáfarmáli og rykr hvervetna. Þar er kaupstadr, er Santa-Krúz (Santa Cruz (ɔ: Helgi-kross) heitir, med 9000 innbúum; þar er skipalega mikil og góð; er þar miøg skipqvæmt, því optliga taka þar farmenn land, er ætla annattveggja austr eda vestr í heim. Þar hefir atsetu eya-jarlinn (Gouverneur), er Spánar-konúngr hefir sett þar til forráda. Austar er b. Kanaría, þar er stadr, er Palmas heitir. Af þessu eylandi taka eyarnar nafn. Austar og nærst Afríku-strønd er c. Fortaventura, þat er mikit

eyland, og fyri nordan hana d. Lanzerotta. Fyri sunnan Teneriffu er e. Gomera, en Palma fyri vestan. Þessara eya vestust er lítil ey og há, er Ferró kallast. Þar hafa menn ákvedit takmarka-púnkt ens svokallada fyrsta (sameiginliga eda alþjódliga) hádegis-hríngs eda baugs, er deilir jørdinni í tvær jafn-miklar huattar-helstir.

Flestar eru eyar þessar svo frjófsamar, fagr-ar, vedursælar, gagnandugar og heilnæmar at ei þykir þat kynligt, þótt fornmenn kølludu þá gjæfu-menn, er høfdu svo inndæla bústadi, og ýmsir ferdamenn á seinni øldum hafi rádit til, at senda þángat sjúklínga alla og vanheilinda-manneskjur. Innbúar þeirra eru 180,000 at tølu og játa þeir allir katholska trú. Þjód sú, er í øndverdu bygdi eyar þessar, og Gú-anir eda Gúanskar kølludust, er nú nær al-dauda. Þeir veittu Evrópumonnum harda mótstødu, en med því þeir ei høfdu annat vopna, enn staura og kylfr, máttu þeir at lykt-um lúta fyri slíku ofrefli; þó mun hreysti þeirra lengi uppi. Frá eyum þessum flytja menn margskonar kaupeyri, t. d. ságjæt vín-taung, hunáng, kryddjurtir og þá svokølludu kanaríu-fugla.

## B. Mid-Afríka.

Svo kalla menn midhluta heimsálfu þessarar eda þat svædi hennar, er liggr í milli hvarfbaugs hins nyrdra og midjardar-hrings. Sá hlutin deilist í 7 parta, er svo heita: 1. Núbia, 2. Habessinia, 3. Adel og Ajan, 4. Nigritia eda Súdan, 5. Senegambia, 6. Ginea og 7. Eyarnar.

### I. Núbia eda Núbialand (Nubien).

Þat liggr fyri sunnan Egyptaland og fyri nordan Habessiniu; at austanverdu markar þvi hinn arabiski hafsbótn takmørk, en at vestan eydimørkin Sahara og Nigritia. Misjafnt fer søgum um víddttu þess; sumir segja þat 12000, en adrir 15000 ferhyrn. mílr. Vída eru þar oræfi og brunasandar, og jafnframt þvi allbyggiligir blettir í þeim og fagrar og frjóffamar landsbygdir. Hit vestra er sand-audn sú, er Bahjúda kallast, einhvør hin vídlendasta. Igégnum laudit fellr Nílfljótit úr sudri í nordr; í þat rennr Bar-el-abiad ɔ: Hvitá, er fellr undan Mána-fjøllum, og Takaze, er kémr

frá Lasta-fjöllum í Habesslnín. Núbíaland greiníst í 5 ríki: hin tyrkneska Núbía, Sennar, Dangala, Atbara og Derkín.

a. hin tyrkneska Núbía liggr norðast eða næst Egyptalandi; þar til liggr jafn lángr hluti strandarinnar við syrtédan hafsbotn, er Habesk (Habesch eða Abex) kallast. Í stöðum þeim, er þar standa við botninn, héldu Tyrkir fyrrum herlið og því er þessi landspartr við þá kéndr.

Þar er kaupstaðr, er Arkikó heitir. Framundan hönum liggr eyan Massúa. Á strönd þessari stendr einnig Svakem (Sauakem); þann kaupstað á skérissinn í Mekka; þar fara stórlestir frá Afríku yfir fjörðinn til síðstnefnds staðar.

Mestr hluti ennar tyrknesku Núbíu er eyðimörk ein og ægisandr, er ryki sem mjöll, þá andvara kénnir. Engi eru þar villidýr, en illþýði nokkurt, glepsandi dýrum verra, er þar á sífeldu reiki, er rænir og drepr ferðamenn, og ásamt banvænum vindi (Samum) og vatnsleysi hrellir þá, er þar leggja leiðir sínar.

b. Sennars- (Sennaar) eða Fúngiríki liggr syðst í Núbíu. Það er 5400 f. m. at víðáttu. Innbúar þess eru $1\frac{1}{2}$ millión at tölu. Þeir eru af Blökkumanna- eða Negrakyni og kallast Skillukar. (Sjálfir kalla þeir sig Fundschi o: sigurvegara). Þar er geysi-

mikill hiti og þá regn koma á ofan, verdr loptit banvænt. Landit er vídast slétt og hvervetna frjóssamt. Þar er:

Sennar höfudstadr og konúngs-setr vid Nil-fljótit; þar eru 100,000 innbúa — og Harbaski; þar hefir atsetu seik nockr arabiskr, er rædr fyri þeim hluta ríkis þessa, er Bedúínar byggja, og er hann skattskyldr Sennars-konúngi.

Í þessu landi er einvaldsstjórn í lög leidd og skal kóngdómr hvervetna at erfdum fara. Brjóti konúngrinn (Mek) lög á þegnum sínum, má hann at ósekju af lífi taka. Til heidurs vid hinn einkanligasta atvinnu-veg landsmanna, akuryrkjuna, er hann skyldr einhverju sinni, medan hann hefir konúngstign, í eitt skipti og med eigin hendi, at velta jörd til korns og sá akr nokkurn og er þá mikill hátídabragr landshorna ímilli. Fljótlig og straung er þar mála-medferd; flestir eru þar sakamenn bardir til bana. Allr játar landslýdrinn Múhameds-trú og er hann mjög litt at sér um flest, en skartar flestum fremr med hríngum, er menn bera hvar sem verdr, einnig í nef og nedri-vör. Þadan flytst: fílabein, einhyrnings horn, gullsandr, strúts-fjadrir og sérílagi mans-menn (Slaver).

c. Fríríkit Dongala liggr nordar eda hérumbil mittlands og bádumegin vid Nil-fljótit.

Þar er samnefndr höfudstadr, vid téda þjódá. Innbúar lands þessa eru Berbar at kyni og múhamedaniskir at trú, sáfródir miøg og ósidadir, hraustir og ókvellisjúkir og gánga ávalt berhøfdadir.

d. Atbara liggr ímillum Níl-fljótsins og Takaz-ár. Þat meina menn sé land þat er fornmenn kølludu Meroe. Í Níl-fljótinu er þar ey, forkunnar føgr, er Kúrgos kallast. Gagnvart henni fyri austan ána er fjall, er Zibbæni (Dschibbaini) heitir. Á því eru minnerki allmikillar borgar, er menn géta til at hin forna Meroe verit hafi.

e. Derkin liggr fyri austan sídst-talit land; þar er samnefndr stadr.

## II. Habessinia eda Habesk (Habesch).

Þann hluta Austr-Afríku, er vér nú á døgum køllum Habessiníu (ránglíga Abyssiníu), þektu fornmenn og kølludu þat, ásamt øllu upp- og mid-lendi þessarar heimsálfu, Æthiopia ɔ: land hinna hørunds-svørtu eda Blokkumannaland, og enn kalla Habessíniar land þetta: Manghesta Itiopia ɔ: Ethiópiu-ríki, og sig sjálfa Ethiópíu-menn. Seinna gáfu Arabar landinu nafn

og hétu þat Habesch, er þýdir: land enna margkynjudu, þvi þángat fluttu fyrrum ýmsar kynkvíslir af Arabíu-ríki.

Habessinia liggr fyri sunnan Núbíuland og vid Arabíu-hafsbotn vestanverdan; en fyri sunnan og vestan marka upplønd Afriku henni takmørk. Hún er 12000 ferh. milr at vídáttu. Ovída er þar sléttlendi, en allvídast fjøll og fjallbygdir. Strandlengis med fyrrtédum hafsbotni geingr fjallgardr i sudr er hin Tigreskú fjøll kallast; þar er hit hæsta fjall i landinu, er Taranta heitir; þar er og mittlands fjall þat, Lamolmon kallast, ásamt fjallaklasa miklum, sem kéndr er vid landit og nefndr er hin Habessinisku-Alpes-fjøll. Merkasta á i þessu landi er Níl-fljótit (eda Bahr el Azrak o: hit bláa fljót, Blá-á) og eru 3 kvíslar fyrstu upptøk þess. Í þat fellr Takaz-á og i hana Mareb. Mittlands er þar stødnvatn allmikit, er Dembea eda Tzana heitir; i þvi er nikr afar-margr.

Habessinia greinist i þriú ríki og er eckert þeirra ødru hád, nl. Tigre, Amhara og Skóa ásamt Efat.

1. Konúngs-ríkit Tigre er nordaustr-hluti Habessiniu; þat er forkunnar frjóssamt, kostugt, fagurt og svo fjøllótt, at þat má kalla Sveitzaland i Afriku. Innbúar þess kallast Agazinar og eru þeir kristnir at kalla. Sá er þar hefir ædstu manna-forrád, kallast ra-

og er hann ríkr konúngr og kallar hinn mikla Negus sinn yfirmann af yfirskyni. Hann hefir 30 000 vígra mann. Höfudstadrinn í þessu ríki er: Axum, þat var í fornöld merk borg og mikil, en er nú allmjög af sér gengin.

Hit vestra í tèdu ríki er fjallbygd nokkr, er Samen heitir; þat er hin hálendasta mannabygd í Habessiniu, í grend vid hit svokallada Smaragdafjall, og litt gagnaudug. Þar hafa frá fornöld Júdar einir búit, er kalla sig Falaskas eda útlegdarmenn, og ríki þetta Falasjan, þar ráda konúngar ríki, og er landsstjórnin lík þeirri, er í lög var leidd á Gydingalandi fordum. Þeir lúka þinum mikla Negúst skatt til halds sèr og traustis, en eru ei at ödru leyti hádir veldi hans. Þar eru 100,000 vopnfærra manna.

2. Amhara liggr mittlands, og er greint í allmargar landsálfr; medal þeirra er Dembea, umhverfis hit fyrrnefnda stöduvatn, og einhver hinn fegursti og kostugasti hluti landsins; þar er höfudborg í Habessiniulandi, er Gondar heitir; hún stendr á hæd nokkurri í djúpum dal og er allmikil um sig, en ei fögr. Þar er konúngsgardr mikill, med múrvegg umhverfis, er Portúgísar hafa bygt; þar hafdi hinn mikli Negús atsetu. Í borg þessari eru hèrumbil 50,000 kristinna innbúa, þrjú musteri mikil og sjölsóktar kaupstefnr tídar.

Fyri þessu ríki ræðr nú höfðingi sá, er Kúxó kallast. Allr þorri landsbýðsins er af þjóð þeirri, er Galla-þjóð kallast, og býr fyri vestan og sunnan Habessiníu.

3. Landsálfurnar Skóa og Efat liggja fyri sunnan síðst-talit ríki og eru einhver hin fegurstu lönd í Habessiníu. Fyri þeim ráða höfðingjar tveir, er Murd Azimai kallast. Í henni fyrrnefndu er Tegulet höfuðstaðr, en Anabar í hinni síðari.

Dangali kallast land nokkurt við Arabíu-hafsbotn. Þar búa múhamedaniskir ættflokkar og hefir hvor þeirra sinn oddvita.

Við upptök Níl-fljótsins búa Agóvar (Agovs) og fyri vestan þeir svokölluðu Skanga-alla-Negrar; þeir eru mjög mannæulitlir og afar-grimmir.

Í þessu landi, einkum í dölunum er afar-mikit afl hita, sem nærri má geta af afstöðu þess; þó er þar heilnæmt loptslag. Í fjall-byggðunum er hitinn tempraðr og á fjöllum uppi er heldr kalt enn heitt; þó festir þar sjaldan snjó. Þrumur og hlemmi-skúrir með hagli eru þar tíðir á vetrum. Landsmenn greina ári í 4 árs-tíðir, sem vér; en gagnstæð eru þær því, sem hjá oss viðgengst, því þar vorar, þá hér haustar, o. s. frv. Öll eru þar náttúru-ríkin einka auðug af margbreyttum og kostuligum gæðum í lorð og á; en landsmenn kunna lítt at nýting þeirra; því handiðnir eru þar fáar og kaup-verslun ei til hlýtar. Innbúar lands þessa eru hérumbil 4 milliónir og eru þeir Agazianir,

Arabar, Mórar, Júdar, Agóvar, Skaugallar og Gallar at kyni. Þeir fyrstnefndu eda hinir eiginligu Habessíniumenn eru af arabiskum kynqvíslum komnir, er þángat fluttu í fornøld; sanna þat søgur þeirra, vaxtarlag, yfirbragd, háttsemi og málíska; at sønnu eru þeir blakkir miøg á hørundit, einkum dala- og sléttu-búar, en þó er bjartara yfir þeim, enn Negrum. Þeir eru menn vel-vaxnir og frídir sýnum, karlmannligir og kvikligir, hraustir og heilsugódir, hugrekkir og hjartagódir, en þar med fauslyndir og lostagjarnir, og at ýmsum løstum kéndir, er nábýli grimmra villi þjóda og sæd gódra dæma fremr olla, enn lastverdt skapferli, tornæmi eda tregt hugargrip; því bædi er þat, at þeir unna ýmsum íþróttum og virda þá, er þær kunna, þótt sjálfir séu þeir sáfródir um flesta hluti. Þeir lifa at mestu af kvikfjárrækt og snæda saudá-kjøtit hrátt; þeim þykir þat kjøt mata best, er þeir skéra af gánglimum kindarinnar svo haganliga, at hún lifir eptir, ørkumlut. Allr er atbúnadr þeirra einsaldr mjøg og húsakynnin fátæklig. Flestir gánga annathvert at mestu eda at øllu leyti naktir, nema prestar og fyrimenn. Allr þorri þessara landsbúa eda enna eiginligu Habessíniu-manna er kristinn at kalla og telst ámedal jakobitiskra trúmanna. Øndverdliga á 4 øld kom Frumentius þángat af hendíngu og kéndi þar kristna trú; en mjøg er kristnin þar meingud med hjátrú og villu. Kyrkjur eru þar

afár margar, en flestar litlar, kringlóttar og uppdregnar. Forstjóri klerka kallast Abúna (Fadir vor); tekr hann vígslu af patríarkanum á Egyptalandi. Allir miega klerkar kvongast, en' þó at eins í eitt skipti, en múnkar aldregi; þeir gánga hvortirtveggiu medródukrossa í höndum og bjóda öllum leikum mönnum at kyssa, er þeir mæta. Þar hefur ár hinn fyrsta Septembris. Gallar og Skangallar eru höfdingjar þar og tilbidja, sem hvervetna, Fetischer nl. manngjörda hluti og skapada. Þeir eru kynsmenn Negra og þeim allslíkir, grimmir, fákunnandi og ósidadir. Í Habessiníu eru tvær túngur almennastar, nl. Tigre eda Gez-málit (hin forna ethiópiska); þat mæla menn at eins í landsálfunni Tigre og allar eru þar bækr á þeirri túngu; — og hin amhariska túnga, er nær allir landsbúar mæla. Fyri ríki þessu hafa um lánga æfi rádit einvalds-höfdingjar, og er nafnbót þeirra: Negus (herra) hinn mikli. Höfdingjar þessir hafa hvervetna verit med öllu sjálfrádir um gjördir sínar og dómsatkvædi, og eignarmenn lands og fasteigna. Næst Negúsi at veldi og tign gengr höfdingi sá, er Ras (o: höfud) kallast. Á seinni tídum hafa ýmsar nábúa-þjódir, einkum Gallar, tekit undir sig med valdi og hernadi allmörg lönd, er lengi hafa legit undir ríki hans; auk þess hafa ei allsá skattlönd gengit undan hönum; en einkum misti hann mikils, þá skattkonúngrinn á Tigre hvarf undan ríki hans. Sjálfr

sitr hann í Gondar og er mjøg ómátkr til vidreisnar.

### III. Adel og Ajan.

Lønd þessi eru Evrópumønnum lítt kunn og er því fátt um þau at segja. Hit fyrr-nefnda eda Adel-land, er farmenn einnig kalla Seilu (Zeila), liggr í sudaustr frá Habessiníu á strøndinni frá Bab-el-mandeb-sundi til Afríku austr-høfda eda Gardafúi. Þat er einkar frjófsamt og audugt at ýmsum gædum. Flestir eru innbúar þess arabiskir at ætt og rækja sømu trú og kynmenn þeirra hver-vetna og bregdr þeim enn, at háttum og út-liti, til ætternis. Þar rædr høfdíngi nokkr ríki, og hefir hann Imans-nafnbót og ótak-mørkud umrád. Hann hefir atsetu í stad þeim, er Auxa eda Ausa kallast Skamma leid frá fyrrtédu sundi, er høfn og stadr, er Seila heitir og ønnr nokkut austar, er menn kalla Felúk.

Hit sídar nefnda land edr Ajan (eda As-jan) liggr á strøndinni frá Gardafúi-høfda til ár þeirrar, er Magadoskó heitir, í sudr. Þar eru vída sandar miklir og svardleysa, en á sum-

um stødum fagrir og allbyggiligir blettir. Þar búa Arabar og Blökkumenn og sæta þeir, álíkt og Adellendingar, áráſum og herhlaupum af Galla-þjóðum, sem eru nábúar þeirra at vestanverdu. Þar er høfn sú, er Brava kallast.

## IV. Nigritía eda Súdan (Blökkumannaland eda Bláland).

Svo kalla menn gjørvalt mid- eda upplendi Afríku edr hin vídlenda geim, er eydimørkin mikla, (Sahara), Núbíuland, fjallgardarnir Eyre og Kóng, og Senegambía marka takmørk, og er hann 84,000 ferh. mílr at víd-áttu, en sumir telja þar til eydimørkina miklu og Senegambíuland. Landsmenn kalla þenna hluta Afnú eda Haussa. Þar eru á ýmsum stødum brunasandar og vídlendar heidar, er margkynjut villidýr gjøra geigvænligar ýfirferdar; en vída eru þar føgr lønd og frjófsøm og feikiliga miklar pálma-vidar- og gúmmitrjáa-markir. Þar vex og tré þat, er Boabad kallast; þat er hit mesta tré í heimi. Í þessu landi er fljót mikit og nafnkunnugt, er Niger kallast, en landsmenn nefna Jóliba. Um upptøk, rás og ósa ár þessarar hafa Evrópumenn lengi óſródir verit og eru þeir þat at

vísu enn; hafa menn því á ýmsan veg leidt gétur um þat. Nú á døgum þykir flestum senniligast, at hún falli undan Kóngó-fjallgardi og, eptir at hun hefir runnit lánga leid í austr um landit, beygist hún sudr á-vid og komi loks til sjáfar út í Gíneu hafsbotn eda flóa. Fyrrum høfdu sumir menn þat fyrir satt, at á þessi félli alla leid í austr og rynni í Nílfljótit; adrir at hún félli í stødvatn mikit, er Vaugara eda Ungara kallast, og kæmi ei sídan fyri sjónir; en á seinni tídum hafa ferdamenn þóktst fundit hafa likr til, at hún rynni aptr úr tédu vatni og félli þar í sæ, er fyrr segir. Svo hafa þeir frá-sagt, er kannat hafa land þetta og komit at fljóti þessu, at þat sé allmikit og vaxi um sømu mundir á ári hverju, og at þat flædi þá yfir nálæg hérud.

Merkustu ríki í Nígritíu eda Bløkkumannalandi eru fylgjandi:

I. Búrnu eda Borusú; þat liggr í nord-austr hluta landsins og er vídlendt ríki og og all-fjølbygt. Fyri því rædr einvaldshøfdíngi, sem hefir Súltans-nafnbót og er mórlendskr at kyni. Allr þorri þegna hans rækir Múhameds átrúnad, og er flestum bløkkumannaþjódum mannvænligri og fremri at kunnáttu og sidum. Land þetta er frjóssamt og audugt at ýmsum gædum; sérílagi flyzt þadan asar

mikit eyr og kopar. Þar er landshøfdíngasetr og høfudstadr sá, er Búrnú heitir; þat er mikil borg og fiölmenn, en ósøgr; umhverfis hana liggja diki og múrar. Þadan gánga stórlestir (Caravaner) til Fessan, Túnet og Trípólis. —

A seinni tídum hafa einvaldar þessa ríkis aukit mjøg ríki sitt og med valdi og hernadi tekit undir sig ei allfá smá-ríki, er oflángt yrdi hér at telja.

II. Kaskna (Kaschna); þat liggr vestar, og er skeytt vid 4 ønnr ríki, er kallast: Daura, Haussa, (þar lét hinn nafnfrægi landaleitunar madr, Mángó Park, lif sitt); Gana og Asben, er øll liggja í grend hvert vid annat fyri nordan Niger. Þar er mikill og nafnkéndr kaupstadr, er Agades heitir; þadan gánga stórlestir til ýmsra stada og ríkja í Afríku. Þessi ríki eru skattskyld Búrnusoldáni.

III. Tombúktú; þat liggr fyri vestan sídst-talin ríki og bádumegin vid Niger. Þat er hit vídlendasta og voldugasta Bløkkumannaríki i Nigritiu eda Súdan; en skortr er á sønnum søgum um þat. Þar eru ystrgnæfanlig gædi og svo margbreyttir landskostir, at ekkert þykir ávanta, nema salt, er þar finst hvergi, og sem landsmenn kaupa dýrum dómum at Mórlendínaum og géfa vid mansmenn, gull, filabein og strúts-fjadrir. Þar rædr ríki høfdingi nokkr, af Bløkkumanna kyni; hann er rikr og mikillátr og hefir mikla hird og skrautliga. Þar er Múhameds trú i løg leidd; þó eru þar Heidíngjar margir og Gydíngar (einkn-

um í höfudborginni), er búa vid þraungan kost. Skamt frá ánni Niger og fyri nordan hana stendr höfudborg þessa rikis, er Tombúktú (eda Tombút) kallast; þat er mikill og merkr kaupstadr; þar eru 25000 innbúar, og at eins tvö steinhús: hofgardr konúngs og hofsydmusterit, en öll eru önnr hús þar hálmþakin og af leiri gjör.

IV. Bambarra er allmikit ríki, er liggr nokkut vestar og fyri nordan Niger. Þat er skattland og liggr undir Tombúktú-ríki. Þar er höfudstadr, er Segó heitir og stendr hann bádumegin vid téda á. Þar er skipaferd mikil á ánni á afar-laungum, og mjóum tvítrjánings-bátum, er landsmenn gjöra af tveim stórtrjám, er þeir hola samhvelft og skeyta saman sídan. Í Segó er kaupverslun mikil og hérumbil 30,000 innb. Austar og á ey í áuni er kaupstadr, er Zenna (Dschenne) heitir; hann segja menn sé fjölmennari enn Segó.

V. Darfúr eda Fúr kallast köngsríki nokkurt, er liggr í sudvestr frá Sennar og austast í Nigritiu, þar sem menn fyrrum hugdu sandaudn og svardleysu vera; en skömmu fyri sídstu aldamót fann enskr landkönnunar-madr, Brown at nafni, ríki þetta og hefir hann lýst því á þessa lund: þat er nærhæfis 60 mílr at lengd og 50 at breidd, og vída allfrjóssamt. Fyri því rædr höfdíngi nokkr med súltans-nafnbót og vasar hann í völdum eptir eigin gédþekkni, og er jafnframt hinn fyrsti og fremsti kaupmadr í ríki sínu. Hann hefir hird ei all-

litla og heldr sig ríkmannliga, eptir því sem sidr er medal Blökkumanna höfdingja; jafnan hefir hann nakit sverd í hendi í stad veldis-spíru *). Innbúar lands þessa eru af ýmisu kyni; en flestir eru þeir afkomendr landflótta-manna úr Núbíu og Arabíumanna. Þeir yrkja jörd og hirda fénad til vidrhalds sér, en þó hvorttveggja mjög lakliga, álíkt og adrar Blökku-manna þjódir; þeir rækja Múhameds átrúnad og eru hérumbil 200,000 at tölu. At skapn-adi eru Darfúrar Blökkumönnum ólíkir, þó svartir séu á hörundit og hrokkinhærdir; þeir eru lísligir og léttlyndir, lostasamir og hygigjarnir, svikulir og stelvísir.

Merkast stadr í þessu landi er Kobbe; þar hefir konúngr atsetu og allmargir útlendskir kaupmenn.

## V. Senegambia eda Vestr-Nigritia (Blökkumannaland eda Bláland hit vestra).

Land þetta liggr fyri vestan Súdan, eda þann hluta Afriku, sem sídst var fráskírt; fyri

*) Þá konúngr þessi veitir áheyrn þegnum sínum edr ödrum, sitr hann sjálfr í hásæti, en full-trúar hans halda öndvegishimni yfir hönum, og inndrótt og geldíngar standa umhverfis, og ljóni eda upphrópari stendr vid dyrnar og hrópar í sífellu: sjáid hér villi-uxan, af-sprengi eins villi-uxa, fílinn, flest-um fílum sterkari, hinn volduga soldán! (Nú nefnir hann kónginn). Gud gefi þér lánga lífdaga, Herra! Gud sé þín adstod og gefi þér sigr! —

nordan þat er Syðimörkin mikla (Sahara), en Ginea fyri sunnan. At vestanverdu márkar hinn atlantiski útsær ríki þessu takmörk. Þat er hérumbil 16,000 mílr at ferhyrningsmáli. Strönd þessi er vídast sendin og lág, en þá frá sæ dregr, eru þar allvída fjöll; medal þeirra er Kóngs-fjallgardr, hit sydra í landinn, merkastr. Þar er einnig höfdi sá, er lengst skagar í vestr í þessari heimsálfu, og Græni-höfdi kallast; á hönum er skógr mikill, sem hvervetna er grænn. Land þetta tekr nafn af elfum tveim, er falla undan Kóngs-fjallgardi og renna samsída í útnordr og at lyktum í austr í haf út. Hin nyrdra kallast Senegal (Zanaga eda Hued Niger) og er hún þeirra mest; í henni eru eyar margar og fossar. Hin sydri er nefnd Gambia; á henni er skipaleidin ótorveldari.

Land þetta er greint í allmörg smá-ríki; ráda fyri sumum einvaldar, en í sumum er alþýduskjórn í lög leidd. Medal þeirra eru 3 ríki mest at vídáttu og fjölmenni.

## A. Jaloffa-ríki (Jaloffer-Staterne).

Land þetta liggr í millum fyrtédra fljóta og er einkar frjóssamt og allfjölment. Þat deilist í 4 landsálfr:

1. Búr-Jalof; þar er stadr sá, er Hikarkór kallast; þar hefir atsetu landshøfdinginn, er kallast Jaloff hinn mikli. Vestar og vid Senegals ósa liggr:

2. Hóral; þar rædr konúngr nokkr ríki, er Brak kallast. Sunnar og vid sæ er:

3. Kajor; þar hefir høfdíngi sá mannaforráð, er Damel kallast. Sunnar og á sømu strønd liggr ríki þat, er:

4. Bóal heitir; fyri þvi rædr høfdíngi nokkr, er menn kalla Tin.

Innbúar þessara ríkja eda hinir svokølludu Jaloffar eru allra Bløkkumanna svartastir á hørundit, og þó vænstir álitum og best vaxnir; þvi bædi er þat, at þeir eru vaskligri og mannborligri, og hverki svo flatnefjadir, nafasleslir, né varaþykkir, sem adrir Negrar. Þeir eru hæglátir og gódlyndir, gestrisnir og gódviknir, en þó litt sidadir og sáfródir mjøg. Þjód þessi er snerrin og vopndiørf.

## B. Fúlia-ríki (Fulaher-Staterne).

Þjód sú, er Fúlíar eda Fúlar (Fulier, Fulaher) kallast, býr fyri nordan Jaloffa og bádumegin Senegals-ár. Land þetta er einkar frjóssamt og audugt af margnýtum gæd-

um. Þar hafa allmargir höfdingjar manna-forráð, en allir eru þeir skyldir at hlýda bodi og banni höfudprests nokkurs, er Kamba kall-ast. Hann sitr jafnan í stad þeim, er Gúmel eda Agnam heitir, og stendr vid kvísl úr Senegal og gagnvart ey þeirri í tédri á, er Biblas kallast. Þar og á eyunum í á þessari eru fíla-hjardir miklar.

Yfir Fúlium er nokkut bjartara enn ödr-um Blökkumönnum, þeir eru og betr vaxnir, laghendari, næmari og starfsamari, en minni vexti og ei svo hraustir sem Jaloffar. Þeir kunna betr at akr-yrkju og fjár-rækt og eru mannúdligri í allri háttsemi, híbýlaprúdari og hagsýnari búsýslumenn. Þeir eru múhamedan-iskir at trú og at líkindum úrkynjat afsprengi Arabiumanna.

## C. Mandingóa-ríki (Mandingoer-Staterne).

Mandingóar búa vid ána Gambía og eru greindir í allmarga þjódflokka, og hefir hverr þeirra tekit höfdingja yfir sig og gefit sumum fult, en sumum takmarkat vald. Medal þessara ríkja eru 8 merkust, nl. 1. Galam; þat liggr hit eystra og er hit nyrdra ásast vid Fúlialand.

Þar rædr fjørinn konúngr ríki, er kallast Tonka; þar er høfudstadr, er Galam heitir. Sunnar er: 2, Bambúk, þar er samnefndr høfudstadr. Í því landi er fjallgardr sá, er Tabaura heitir; þar og vid Natakous-fjall eru gullnámr miklar. Fyri þessu landi ráda þrír kóngar, er Seratíkar kallast; þeir taka kóngdóm at erfdúm, en hafa litit sjálfrædi. Vestar er 3, Bondú, þar hafast margir Fúlíar vid. Í sudvestr þadan er: 4, Vúlli, þar er Medína høfudstadr og atsetr landshøfdingjans, er Mansa kallast. Vestar er 5, Janý og þá 6, Salum eda Búrsalir, þar er kaupstadr, er Kiaver heitir — og vestast 7, Barra, er liggr vid Gambíu-mynni; en frammundan mynni ár þeirrar, er Rió-Grande (ɔ: Mikla á) kallast og rennr hit sydra um Senegambíu til sjáfar, liggja 16 eyar, er 8, Bísagos-eyar heita. Fyri þeim ræde sjálfrádr høfdíngi, er Evrópumenn kalla keisara; hann sitr jafnan í ey þeirri, er Bissaó kallast; hún er forkunnar føgr og allskonar landskostum búin. Eyamenn eru rángjarnir og styrjaldarsamir heidíngjar.

Mandíngbar, er byggja lønd þau, sem nú eru talin, eru at líkindum afkomendr þeirra þjóda, er í øndverdu tóku sér bólfestu í

þessum hluta Afríku; lýsir því hörundslitr þeirra, háttsemi og vaxtarlag. Þeir eru afar blakkleitir, en þó ei svo hrafnsvartir sem Jaloffar, ófríniligir sýnum, stuttir og digrir og herðabreiðir, inneygdir, flatnesjaðir og nasaflestir, frammyntir og feikiliga vara-þykkir; hárit er stutt, þétt, biksvart og svo mjúkt, sem ull, þá á er tekit; þeir eru lítligir og gladlyndir, en þó tregir til vinnu, einkum þeir er búa í Bambúks-ríki. Þeir rækja Múhameds trú og eru betr siðaðir enn flestar aðrar Blökkumanna þjóðir. Auk þessara þjóðflokka hafast ýmsir kynþættir Blökkumanna við um þetta svið, sem flestir lifa eptir munni og maga og eru heiðingjar og illræmdir ræningjar; meðal þessara teljast: Sarakólar eða Serra-vúllar í Galam, þeir selja ástundum höfðingja sína mansali; Serarar við Græna-höfða, þeir eru Blökkumanna fríðastir sýnum, einkum konur þeirra, en svo fáfróðir og mannrænulausir, at þeir engan átrúnat hafa. Felúpar, nálægt Gambíu-ósum; þeir eru hinir grimmustu ránsmenn. Bagnónar, þeir eru nábúar enna síðstnefndu. Papelir á eyunni Bissaó. Nalúar, þeir eru nafnkéndir fyri bómullarvefnað. — Balantar og Bíafarir, hverirtveggju hit syðra á strönd Senegambíu, og

og Bissagótar á eyunum frammundan henni.

Á og nálægt strönd Senegambíu eiga Enskir, Frakkar og Portúgísar landeignir, kauptún og kastala.

1. Enskir eiga eyuna Búlam; hún er 10 ferh. mílr at stærð og telst ámeðal Bísagos-eya, — og Sti. Jakobs-ey (St. James), er liggr í Gambíu mynni. — Á báðum þeim eru varnar-virki.

2. Frakkar eiga Senegals-ey í mynni samnefndrar ár; þar er kaupstaðr og lítill kastali, er Sti Loðvík (St. Louis) kallast — og ey þá, er Góre heitir og liggr skamt fyri sunnan Grænahöfða; hún er lítil, hálend, klettótt og ófrjóssöm, en liggr vel við kaupverslun og er í því tilliti arðsöm. Þar er samnefndr staðr, og kastali sá, er Sti. Mikael heitir.

3. Portúgísar eiga kaupstað á meginlandi, er Kakaó (Cachao) kallast; hann stendr við ána Sti. Dómingó, er kémr til sjáfar miðsvegar milli Gambíu og Ríó Grande. Þar er heimili nýlendu-stjóra nokkurs (Gouverneurs) og 15000 innbúa.

Í Senegambíu er, sem af afstöðunni má ráða, ofurhiti mikill, og þat hafa þeir menn,

er þar hafa komit af Norðr-löndum, sagt, at svo sé jarðvegrinn og sandrinn heitr mikin Hotta dags á sumrum, at nýir skór hafi brunnit samdægris af fótum þeim. Þar skiptist ár í tvo missiri: þerritíð og regntíð eða sumar og vetr, álíkt og hvervetna í löndum þeim, er liggja í milli hverfihríngarna á heimskrínglunni; hin fyrri er 9 mánuði, en hin síðari 3. Þar og víðar í tilgreindum löndum er þeim, er þar búa, sumarit til jafnmikillar eða meiri ánaudar fyri hita sakir, sem oss er vetr fyri kulda sakir. Þar blæs tíðum brennheitr vindr, (Harmattan), og sellibyljir af suðaustri (Tornados) með ógurligum þrumum og eldingum. Víðast er land þetta forkunnar frjóssamt og einkar auðugt af kostuligum gæðum. Þaðan flytja kaupmenn: kókosnytur, gúmmí, mastix, íbenholt, kampeski- og mahógni-tré, vidarull, indígó, pípar, hrísgrjón, sykr-reyr, maniok, alóe, o. s. frv. Þar elnast og hit nafntogaða bóabad-tré (Adansonia) ásamt margbreyttum og ágætum viði. Þar er fill margr, apar og apinjur, og furðu-miklir höggormar. Þar finst einnig gull mikit í ám og námum og eyr. Manntalit í fyrrtéðum löndum er engum ljóst, en at líkindum ráðr, at þat sé allmikit. Auk Blökkumanna eða Negra, er frá öndverðu

hafa bygt land þetta, hafast þar einnig Mórar, Mórlendíngar eda Bedúínar vid, og eru þeir afkomendr Arabíumanna, er á 7du øld tóku sér bólfestu á Blálands nordr-jadri og sídan tvístrudust vídsvegar um þessa heimsálfu; þeir liggja vid tjøld, idka sjárrækt, kaupverslun, og eru múhamedaniskir at trú; þeir eru menn vel-limadir og karlmannligir, en dekkri á hørundit enn kynmenn þeirra og ollir því sól-bruninn. Sérilagi eru þar konur allfríniligar, en einkum þykir seitleiki og digurd þeirra einhvor hinn mesti frídleika-auki í því landi. Prestar Móra kallast **Marbúttar**; þeir eru vandlætíngasamir trúmenn, en jafnframt sáfródir og undirførulir, skinhelgir og fégjarnir refar, er med ýmsum brellum og læwísi afla sér valds og myndugleika med landsmønnum sínum. Allmikill fjøldi Blokkumanna, er búa í Senegambíulandi, hafa tekit múhamedaniska trú, er Mórar og einkanliga Marbúttar hafa kéut þeim; en þessi átrúnadr er mjøg blandadr med hjátrú, heimugligri fetisch-dýrkun og heidindómi. Hverki eru þar kyrkjur né musteri; en fólkit kémr saman á vídivángi og í skugganum undir vidarlimi og bidst fyri þrisvar á degi hverjum. At likindum lætr, at hjá svo sáfródum og ósidudum þjódum, sem Blokku-

menn eru, sén margskonar hættir, hleypidómar og bábiljur algángs, er lýsa því, hve mjög barnaligr og bleudinn átrúnadr og fákænska ollar géti mannrænuleysis og andligs volædis.

VI. Efri=Ginea (Overguinea) edr hin eiginliga Ginea (det egentlige Guinea).

Svo kölludu Portúgísar, er fyrstir allra þeirra farmanna, er menn hafa sannar-søgnr um, komu sjóleidis til þessa hluta Afríku, strønd þá, er áin Rió=Grande eda Mikl-á markar takmørk hit nyrdra, en hofdi sá, er López=Gonsalvó kallast, at sunnanverdu. Strønd þessi er 420 mílr at leingd, en 130 at breidd frá sjóar-máli til Kongs-fjallgards, er skilr Gineu hit nyrdra og Súdan edr hit eiginliga Blokkumannaland. Strønd þessi er nær hvervetna láglend í grend vid hafit, en þá frá því dregr, hækkar hún smámsaman til fyrrnefndr fjallgardr tekr vid; hann og nálæg héruð eru Evrópumønnum ókunn, en sannfródir þykjast þeir af gullsandi þeim, er finnst á eyrum elfanna, er undan hønum falla, at þar sé gull afar-mikit í jørdu. Hit vestra í landi þessu eru fjøll, er Ljóna-fjøll kallast (Sierra Leona)

og samnefndr høfdi. Þótt jardvegrinn í landi þessu sé á ýmsum stødum sendinn og mýrlendr, er þat engu at sídr einkar frjófsamt og fjölbreyttum gædum búit. Ár eru þar margar og lækir, er falla úr nordri til sjáfar; þeirra merkastar eru: Sierru-Leónu- eda Mítombó-fljót, þat fellr vestast; þá Mesúradó-fljót; þá Volta (Rio Volta); þá Formoso-fljót eda Benín, er ýmsir géta til at vera muni mynni Niger-fljótsins eda Svartár ennar miklu, sem fyrr er gétit. Um allar þessar ár má eitt segja, at Evrópumenn hafa at eins kannat ósa þeirra og mjóan jadar lands þessa.

Menn skipta strønd þessari í 5 parta, edr strandir, og er þetta um þær at segja:

## A. Sierru-Leónu-strøndin, edr Ljóna-fjalla-strøndin *).

Hún liggr vestast og í milli høfda þess, er Verga kallast, og Mesúradó-fljótsins. Allr þorri innbúa hennar eru Bløkkumenn, er greinast í ýmsa kynþætti; þeir merkustu eru: Nallóar, er búa vid ána Núnnez; Lantúnar, Bagóar, (hraustir menn og vel-limadir);

*) Þetta ørnefni gaf portúgálsskr farmadr, Petr frá Sintru, er þar kom vid land 1461, fjøllum þessum fyri þá søk, at hønum þóttu reidarþrumurnar, er hann heyrdi þadan, líkjast ljóns-øskri.

Mandíngóar, yfir þeim er nokkut bjartara enn kynmönnum þeirra, og eru þeir háir vexti og réttvaxnir, smáeygir og skéggjadir frá únga aldri. Annars er þat sidr med flestum Blökkumanna-þjódum, at úngir menn raka sig og láta fyrst skégg vaxa þá þat tekr at grána; þykir þat þá hyggindatákn. Timmaniar búa vid Sierru-Leónu-á og eru þeir einlægir og gód-hjartadir. Bullamar, þeir búa vid mynni tédrar ár, og eru vaskir menn og vel vaxnir. Súsíar, þeir eru upplands-búar, ófríniligir og mjög ógkrpiligir. Fúlíar, þeir byggja upplendit og eru líkir kynmönnum sínum á Senegambíulandi.

Á strönd þessari lét félag nokkurt á Englandi 1793 taka upp nýlendu og kalladi hana: Sierru-Leónu (Sierra Leona). Þat var markbakki þess hverttveggja: at sída og menta Blökkumenn, og at hamla og aftaka mans-manna-sölu. Á ýmsan hátt og optsinnis hefir nýlenda þessi sætt áráfum og ránum ill-kvittinna nábúa-höfdingja; en hún hefir hver-vetna reist sig vid aptr og búit æ betr um sig. Þar eru 10,000 innbúar af innlendsku og út-lendsku kyni. Enskir flytja þadan: gullsánd, fílabein og gúmmí. Þar er stadr, er Frítún

(Freetown) kallast; hann er all-sjáligr og gjört sem stadir í Evrópu. Þar er 1 kyrkja, spítali og fordabúr allmikit. Þar hefir nýlendustjórinn atsetu.

B. Pipar-ströndin (Peber- eller Malaghetta-Kysten).

Svo hafa Hollendíngar fyrstir manna kallat þenna hluta Gíneu-strandar fyri þá sök, at þar vex pipar sá, er Gíneu-pipar (Malaghetta) eda Paradísar-korn kallast. Land þetta liggr fyrir austan hit sídst-talda, og í milli Mesúradó-fljóts og Pálmavidar-höfda (Cap das Palmas). Allmargir og margbreyttir ættbálkar Blökkumanna byggja strönd þessa bædi vid sæ og hit efra; en Evrópumenn þekkja þá ógjörla, med því þeir hverki hafa þar giöra látit kaupstadi né eiga til rida kaup vid þá. Svo er sagt, at Nordmenn hafi á 14 öld komit þar vid land og gjört kauptún, er þeir kölludu: Litla Dieppe, á ey nokkurri í mynni ár þeirrar, er Tabó heitir.

Tanna- edr Fílabeins-ströndin (Tand- eller Elfenbeens-Kysten).

Hún liggr austar og imillum Pálmavidar-höfda og Prí-dránga-höfda (Cap tres Puntas).

Gíneu-farar deila strønd þessari í 3 hluti; kalla þeir Illmennis-strønd frá fyrrtédum høfda til Andresar-ár, þá Góðmennis-strønd og Issinia-ríki austast. Innbúum Illmennis-strandar lýsa þeir með øllum þeim lýtum og vømmum, sem at eins eiga heima hjá grimm-ustu villimønnum, er hverki halda trygð né lof-orð, eru svikulir og þjófgéfnir, asar-fégjarnir og mannætur; en nokkut mun ofaukit í þessari lýsingu. Innbúar Góðmennis-strandar edr þeir svokølludu Kvakvair (Quaquaer) erú þarámóti mannblendnari og góðfengari, þén-ustufúsir og á Gíneuströndum manna best fallnir til at nema góða sidu og handidnir; þeir vesa blárøndótta dúka, er vída flytjast, og idka kaup-skap og margskonar handverk, en hvervetna skal konunn stunda þat, er fadirinn lagdi á gjørfa hønd. Þeir sverfa tannir sínar uppmjóar, láta neglurnar vaxa lángar mjøg og þrísa hár sitt med mikilli ástundan og leyngja þat med lausa-hári, fléta þat, bera í þat olíu og raudan farfa og gjøra af því sveip mikinn um høfudit, er líkist kofra eda skinnhúfu. Issiniar búa austar á strønd þessari; þeir erú mørgum Bløkkumanna kynkvíslum fremri at kunnáttu og góðlátari; en ei at sídr stelvísir og ágjarnir, grunsemisfullir og slæknir. Þeir trúa á eina ædstu veru, en eru

þó hjátrúarfullir mjøg. Nokkurskonar konúngr rædr þar ríki, en vald hans er harla lítit. Íssiníar eru hardsuúnir hermenn og bera jafnan sverd og skildi.

Auk ýmisligra hluta, er kaupmenn flytja frá þessum hluta Gineu-strandar, eru fílabein eda fíla-tannir, er vega hálfa þridju vætt, og salt.

D. Gullstrøndin (Guld-Kysten).'

Svo hafa Evrópumenn kallat midhluta Gineu-lands, er liggr ímillum Þrí-dránga-høfda og Voltu, fyri þá sök, at þeir fundu þar gull mikit, er nú á døgum þykir gánga til þurdar. Á þessari strønd hafa ýmsar þjódir, at rádi og med fulltíngi konúnga sinna í Evrópu, látit taka upp nýlendur og gjøra kaupstadi, er nú skal telja:

a. Englis-menn eiga stad þann, er Kap Korsó ɔ: Krossøfdi (eda Cap Coast) heitir; hann stendr á samnefndum høfda í ríki því, er Fetú kallast. Þar er sjáligr og sterkr kastali, og virki, er Philipsturn heitir. Þar sitr enskr nýlendustjóri. Auk þessa eiga Enskir þar ei allsá minni kauptún og smá-virki.

b. Hollendíngar eiga nýlendu og kaupstad í fyrrnefndu ríki, er Elmina (eda St. George della Mina) kallast; þat er all-

mikill og fjølmennr stadr; hann ver kastali er Konrádsborg heitir. Þar eiga Hollendíngar fleiri kauptún. Þenna stad tóku Hollendíngar frá Portúgísum med svikum.

c. Frakkar eiga stad þann, er Franskavirki (Fort Français) heitir, og liggr hann í ríki því, er Fida kallast.

d. Danir eiga þar, auk nokkurra kauptúna, fimm smá-kastala: 1. Kristjánsborg, hún stendr á strøndinni fyri austan Kap Korsó og í landsálfu þeirri, er Akra eda Akkra heitir; skamt þadan er skans, er Prófsteinn (Prövesteen) kallast. Tveim mílum austar er 2. Ágústuborg; þá 3. Fridarborg (Fredensborg), 8 míl. fyrir austan Kristjánsborg og vid allmikinn stad, er Ringó kallast; þá 4. Kóngssteinn (Kongenssteen) hann stendr á ey nokkurri í Voltu-mynni — og austar 5. Printzsteinn (Prindsenssteen), hann er ýngstr þeirra kastala, er danakonúngr á í þessari heimsálfu. Allir eru þeir af Dønum gjørvir, nema Kristjánsborg; hana hafa Portúgísar bygt og er hún ramgjør og vel búin at varnarvopnum og vatnsforda, er menn vardveita í múr-hvelfíngum undir jardvegi, sem vídast er sidr í þessari heims-álfu. Í kastølum þessum eru høfdingjar settir til varnar og yfirsóknar,

er Kommandantar kallast, og hefir hverr þeirra sveit vopnadra hermanna undir sér. Í grend vid kastalana eru þorp, sem þeir Blökkumenn byggja, er þiggja traust af Nýlendumönnum og eru bandamenn þeirra, þá ófridr er í landi.

e. Portúgísar eiga þar kastala, er Gluegue (Gluegueh) heitir.

Blökkumenn á Gullströnd eru kynmönnum sínum líkir at háttsemi og útliti, en þó mörgum þessara kynkvísla gódsengari og gáfadri, ef þeir væru ei of-tregir til at semja sig at háttum sidadra manna, er af ödrum löndum hafa þar komit og dvalit. Þeir greinast í allmarga þjód-flokka og eru þeir annattveggja einvaldalausir edr þeir hafa tekit konúnga yfir sig, er ýmist rádast til ríkis at erfdum eda kosníng og vasa í völdum, sem best líkar. Medal þessara þjóda eru Assiantar ríkastir; land þeirra liggr nordr af Pri-drángahöfda og er mikit ummáls og þykkbýlt. Þeir eru styrjaldarsamir og vopn-djarfir og hafa opt, einkum nú á seinni tídum, elt grátt silfr vid ena enska Nýlendumenn á strönd þessari.

E. Mansmanna- edr Præla-ströndin (Slave-Kysten)

Hún liggr fyri botni flóa nokkurs, sem skérst inní landit og kéndr er vid Biafara, og í

milli Voltu eda Páls-höfda og Benins-fljóts eda Rauda-höfda. Hún tekr, álíkt og fyrrgreindar strandir, nafn af varníngi þeim, er mest flytst af þadan, nl. mans-mönnum. Á vestr-takmörkum þessarar strandar kémr Volta (Rio-Volta o: hin hoppandi) til sjáfar; hún er mikil og vex árliga um sömu mundir (í September og Októ ber) og flædir þá yfir og frjóśgar nærliggjandi landsálfur. Þar er hún fellr út, er hóp afar-mikit og í því 100 smáeyar, allar skógivaxnar. Ymsar Blökkumanna kynkvíslir byggja þessa strönd, t. d.: Aunóar, Krepear, Akrair, Agrassir, Ardrair og Fidahir. Þeir sídstnefndu bera af öllum Negrum á Gíneu-strönd, at skynsemd, næmi, sidgædum, atorku og starfsemi, vidfeldni og kurteysi í ávarpi og vidrædum; þeir idka jardyrkju, fjárrækt, kaupverslun og vefnad; halda sig betr og vanda fremr atbúnat og ambod enn adrir Blökkumenn. Þeir blóta margskonar afgudi; medal þeirra óskadnæmar slaungur eda höggorma; þeim gjöra þeir og helga smá-hof og setja þar goda og hofgydjur til forráda.

Afsíst vid þenna hluta Gíneu-strandar eru 4 allvoldug Blökkumanna ríki, nl.:

a. Dahóma-ríki (Dahomei); þat liggr nordr af Mans-manna-strönd lánga leid

á land upp og er 4000 ferh. milr at vídáttu; þat er frjóssamt land og fjølbygt. Fyrir því rædr konúngr svo grimmr, at hvergi segja menn sé verri týranni í heimi. Hann sitr í høfuðborginni, er Abómei kallast; hún er mikil en litt fjálig; í henni eru 24000 innbúar, og kóngsgardr, er ei ber stórum af annarra býlum at ødru enn því, at hann er þakinn hit ytra og prýddr at innanverdu med hjarna-skálum herteknina fjandmanna. Í þessu landi er og stadr, er Saví kallast; þar er hof mikit og er í því slánga, sem Deboy heitir, er landsmenn blóta; þar er goda einnm (er Houdanou kallast), og 4 meyum þjónusta feingin at blótum. Dahómar eru taldir medal enna mest ósidudu og hundvillu, sáfródustu og grimmustu Bløkkumanna-þjóda; þeir eru styrjaldarsamir og hardsengir í orrustum, rammir heidíngjar og hinir mestu blótvargar. Þeir mæla túngu þá er Askíra eda hin ardraiska-túnga kallast og søgd er adal-málíska á þessum strøndum. Konúngar þeirra eru med øllu sjálfrádir um gjørdir sínar og leika sér at manudrápum og pintíngum, sem tabli.

b. Benínaland (Benin); þat liggr fyri austan sídst-talit ríki og Mans-manna strønd, nær at sjó framm og er all-vídlendt ríki.

Þat er Evrópumönnum hit óheilnæmasta land í heimi. Um land þetta renna 3 vatnsföll mikil; kallast hit vestasta Benin; þat fellr til sjáfar á takmörkum lands þessa og Manna-manna-strandar. Austar fellr Formósó eda Fagra-á og austast Kalabar. Af ráſum þessara fljóta, er nálægjast því meirr sem lengra dregr á land upp, ráda menn, at þau séu kvíslar edr affallar úr Niger-fljóti, sem fyrr er frá-sagt. Milli þeirra liggr þríhyrnt land allmikit, — álíkt og í milli Nil-ár höfud-ósa á Egyptalandi. — Landit er frjófsamt, þyckbýlt, fjölment og audugt. Fyri þessu ríki rædr voldugr hardstjóri og er hann talinn ámedal hinna rikustu Blökkumanna höfdingja. Innbúar landsins, er Beninar kallast, eru sákunnandi mjög og sáfródir, en þó gódlyndir, ordheldnir, vingjarnligir og all-hvatligir. Þeir eru rammir heidingjar og blóta menn til árs og fridar. Vid þá hafa Evrópumenn lítil skipti, og er þeim því háttsemi þeirra og ástand harla bljóst. Þadan flytjast mans-menn, leóparda-húdir, beníns-pipar, jaspis, akórissteinar og nokkurskonar bómullar-vefnadr, er landsmenn sjálfir vinna. Í þessu ríki er Benín höfudstadr; hann stendr skamt frá vidkéndu fljóti, og er hann allmikill ummáls og fjölmennr.

Fyri austan Benína-strönd eda land, tekr strandlendi þat vid, er **Biafara** kallast; er þat sá hluti Mansmanna-strandar, er liggr í sudr og nær alt til **López-höfda** sudr. Land þetta er Evrópumönnum þvinær at eins nafnkunnugt; en líkligt virdist, at innbúar þess séu áþekkir Benínum og at hagr þeirra og háttsemi sé med líku móti.

c. **Ajóa-land** (Ajoernes Land) liggr í nordaustr frá Dahóma-ríki og vita menn ógjörla hve lángt þat nær á land upp. **Ajóar** byggja sjölfkrúdugt land og eru mektugir, styrjaldarsamir og gódir riddarar. Þar er vald konúngs hæpit; því þá þeim mislíka atgjördir hans, bjóda þeir hönum til veislu og láta konur hans heingja hann.

d. **Mahía-land** (Mahiernes Land) liggr í nordvestr frá Dahóma-ríki. Innbúar þess eru ei at ödru kunnir vordnir enn lángvinnum styrjöldum vid Dahóma, hverjum þeir munu nú skattskyldir vera.

Um öll þessi lönd, sem nu eru talin á og í grend vid Efri-Gíneu-strönd, má þat segja, at þar er afar-mikill hiti og óheilnæmt loptslag öllum útlendingum, er þar ná sjaldan hærri enn fimtugs-aldri; en þessu olla fremr seikiliga vidlendar markir eda skógar, stöduvötn og veisur, enn sólar-hitinn. Vid sæ er hitinn

nokkut minni og óstødugri enn á upplendunum, en þó er þar sóttnæmara. Þar eru at eins tvær árstídir, hita- og regnatíd, og segja menn at nú á døgum séu þær ei svo takmarkadar sem fyrrum. Mestan hluta árs blæs þar vindr af vestri, nema um jóla og midsvetrar skeid, þá blæs hinn svokalladi Hamattan-vindr (o: þurrvindi) af austri og er hønum samfara mistr svo mikit, at vel má svo á sól stara um hádegi, sem á túngl at aptni, skrælnar þá alt og hørundit skorpnar og verdr sem hreistr. — Allir innfæddir innbúar þessa hluta Afríku eru Blokkumenn eda Negrar at kyni, og greinast í asar-margar kynkvíslir og þjódir, er ymist hafa tekit konúnga yfir sig, og géfit þeim mis-jafnt veldi, eda leidt ríkisstjórn í løg sín á medal. Þeir mæla mørg og margbreytin túngumál; medal þeirra má sérílagi telja: Aminaisku, Kríprístu og Akraisku eda Akkarisku. Átrúnadi þeirra er svo varit: Allir Blokku-menn meina at ein ædsta vera sé til, er á akk-arisku kallast Jóngmo (Jongmaa), og í henni sé upphaf allrar sképnu, daudra hluta og lifandi. Eigi eru þeir fulltrúa um, hvert þessi gud stýri náttúrunnar kroptum og mann-anna sidaligu athøfnum, en trúa, at hønum séu afarmargar yfirnáttúruligar verur (nokkurskonar undir-gudir eda englar) undirgéfnar, er Fe-tisar *) kallast, hverjum hann hafi á hendr:

*) Einn Fetis eda þvílíkr gud kallast á akkarisku jong. Ordit Fetis meina menn sé komit af

salit at stýra alheimi og ráda fyri forløgum mannligs kyns. Sjaldan ákalla Negrar þenna ædsta gud, nema þá þeim er heipt í hug og þeir ei géta hefnt sín, segja þeir med upplyptum augum til himins: "Jongmo strafft þig!" eda þá elding ridr yfir og upp-dregr óvedr: "Jongmo ba" ɔ: kémr. Yfir høfud gjora Bløkkumenn sér hverki blídligar hugmindir um gudi sína né dýrka þá af kjærleika til þeirra, heldr af ótta, og færa þeim fórnir, til vægdar sér og hlífdar fyri þeirra eydanda veldi. Þótt eigi álíti þeir himin-túnglin, né adra skapada hluti gudi at vera, veita þeir þó túnglinu nokkurskonar dýrkun med saung, dansi, hljódfæraslætti og ølteiti um nætr, einkum þá túngl er fullt, og meina, at þat þessvegna skíni svo fagurt. Í øndverdu (segja þeir) skóp Jóngmo fyrst svarta menn og sídan hvíta. Hann frammbar þá tvær gásur, misjafnar at stærd, og lá skýla yfir bádum, og sagdi enum svørtu mønnum at kjósa fyrr, med því þeir vóru hønum sérílagi ástfólgnir. Þeir voldu strax stærri gásuna og fundu at eins þá hluti, er heyrdu til Fetisdýrkunar og lífsins uppeldis. Undir hinni skýlunni láu huldar bækur og uppsprettá til alls er hvítir menn hafa umframm Bløkkumenn. Eigi øfunda Negrar hina af þessu happi og vona at þeir verdi þeim jafn-snjallir ásídan.

portúgísiskn ordi: Fedes, (fides ɔ: trú), og — þýdir ei alleina þvílíkar gudligar verur — heldr og einnin þá dýrkun, sem þeim er á ýmsan hátt veitt í Afríku.

At vísu trúa Blökkumenn, at líf sé til eptir þetta; en hvert laun og straff útbitist þar sam-kvæmt verkunum í þessu lífi, láta þeir sér litt hugleikit vera; en fulltrúa eru þeir um þat, at sá madr, er lifat hafdi í velgengni og áliti og at lyktum fékk heidarliga greftran, muni njóta fullsælu og allskonar fagnadar í ødru lífi; en sá þarámóti, er fór þess á mis, hversu rádvandr hann verit hafdi, mundi þess varhluta verda; kosta þeir því kapps um at gjøra út-farir framlidinna svo virduligar og dýrfeld-ar, sem faung eru til, þar eptir því fari um ástand hins greftrada. Ei þykjast Blökku-menn skyldir at lidsinna ødrum, hverki hvítum mønnum né svørtum, enn sínum eigin lands-mønnum; þó halda þeir heit sín, hverjum sem þeir gefa, manna best og eru þakklátir vid þá, er gjøra vel til þeirra. Annars er grimd, hefndargyrni, drykkjuskapr, losti, hryllilig hjátrú og hindurvitni og ránglig þjódrækni þeir lestir, er einkanliga tálma framførum þessara þjóda til menningar og sidferdis-bóta; en brádar mundu kristnibodarar þar fá bug á þeim unnit, ef Evrópumenn hefdu meiri hug á andligum heillum þeirra, enn ardi þeim og audlegd, er þar falla í skaut.

### VII. Eyarnar.

### A. Grænhøfda-eyar (De capoverdiske eller de grönne Forbjergs Öer).

Svo kalla menn 10 eyar, er liggja í hin-um atlantiska útsæ í vestr frá Grænhøfda eda

vestasta útskaga á Afríku. Þær eru alla ásamt 78 mílr at ferhyrníngsmáli og fjöllóttar mjøg. Þar er vatnsskortr illr andkanni og opt ber þat við, at eigi rignir þar í 3 og 4 ár samfleytt. Innbúar eya þessara eru hérumbil 36000 at tølu; þeir eru blendíngar af Portúgísum og Blokkumønnum komnir, og kristnir á kathólska vísu. Eyar þessar liggja undir Portúgals ríki og er þar settr jarl til ysirsóknar. Jakobs-ey (St. Jago) er þessara eylanda mest; hún er 24 ferh. mílr at víðáttu; þar eru 16000 innbúar. Merkustu stadir þar eru Portó Praya, þar sitr jarlinn, — og Ribeira Grande (hin mikla) 2. Nikulásarey (St. Nicolo); hún er þeirra frjóssømust. 3. Fúegó; á henni er fjall, er gýs eldi. 4. Brava. 5. Majó. 6. Bónavista. 7. Sale. 8. Sti. Lúcía. Sti. Víncent, og 10. Sti. Antóníusarey (St. Antonio). — Eyar þessar fundu portúgisiskir farmenn 1456 og tóku þar síðan bólfestu.

B. Gíneu-eyar (de guineiske Öer).

Eyar þessar eru 4 at tølu og liggja þær hvør sudr af annari í Biafarar, eda hinum Gíneiska-flóa og vestr undan Biafara-strønd. Á þeim eru 21000 innbúar og eru þeir allir

kathólskir at trú. Norðast og næst ströndinni, er í suðr veit, liggr 1. Fernando del Pó; þá 2. Prinsins-ey, og þá 3. Thómásar-ey (St. Thomas); hún liggr einmidt undir midjarðarbaugnum og er 7 ferhyrníngs mílr at stærð. Á henni eru fjöll afar-há og eru þau hvervetna snæ-þakin hit efra. Þar eru 15000 innbúar og staðr sá, er Sti. Thómás kallast. Syðst liggr ey sú, er 4. Annabon ɔ: Gott-ár, heitir. Hún ásamt þeim 2 fyrstnefndu hafa verit eign Spánverja síðan 1778; þó er þar portúgísiskt varðhalds-lið og jarlar; en Thómásar-ey liggr undir Portúgals-ríki. Portúgísar fundu eyar þessar á tímabilinu milli 1472 og 1795.

## C. Suðr-Afríka.

Svo kallast sá hluti þessarar heims-álfu, er liggr fyri sunnan miðjarðar-hring, og greinist hann í 5 parta, nl. 1. Vestr-strönd, 2. Suðr-strönd, 3. Austr-strand, 4 Upplendi Suðr-Afríku — og 5. Eyar þær, er

er liggja í hǫfunum fyrir austan og vestan þenn-
an hluta heimsálfunnar.

## I. Vestr-strǫndin (Vestkysten).

Hún deilist aptr í tvo hluti; kallast hinn
nyrdri Nedri-Ginea, og hinn sydri Or-
æfa- eda Sydi-strǫnd.

### a. Nedri-Ginea eda Kongó-riki (Nedre Guinea eller Kongo).

Hún liggr í milli Lópes-hǫfda og Svart-
hǫfda (Cap Negro). Vid Efri-Gineu er hún
áfǫst hit nyrdra, en at austanverdu vid ókønnut
upplǫnd; fyri sunnan hana liggr Kaffaland
og Oræfa-strǫnd. Merkasta á í þessu landi er
Zaira eda Kongó ǫdru nafni. Sumir géta
til þat sé Svart-á hin mikla (Nigeren), er
þar komi til sjáfar. Þaradauki eru þar margar
ár skip-lægar. Aqvilúnda og Saxia eru
tvø stǫduvǫtn mikil. Fyrrum var Nedri-Ginea
ǫll eitt konúngs-riki, en nú er hún greind í
4 riki og rædr konúngr fyri hverju þeirra;
en allir meiga þeir meirr eda minna hlýda bodi
og banni Portúgísa, er fundu land þetta 1494,
bygdu þar borgir og bæi, og rúmum 80 ár-
um seinna unnu þat med herskildi og kúgudu

landsmenn til kristni; en konúngarnir þoldu ei áleingis áþján og yfirdrottnun þessara útlendinga, køstudu aptr trúnni og skértu mjøg ríki Portúgísa; þó er þat enn allmikit. Fyrrtéd ríki heita: Lóangó, Kakongó, Kongó og Angóla. Nordast þessara er:

1. Lóangó-ríki; fyri því rædr sjálfrádr konúngr, er Máni kallast. Undir ríki hans liggja einnin lønd þau er Yamba og Angoy heita. Í þessu ríki er samnefnd høfudborg og konúngs-heimili, er einnig kallast Búali.

2. Kakongó (Cacongo) liggr sunnar, en þó fyri nordan Zaira; þar er Kingela høfudstadr, og Malimba, þar er høfn gód, er Evrópumenn ástundum leggja inn á.

3. Kóngsríkit Kongó liggr sunnar á strøndinni milli fljótanna Zaira og Angóla, og er allvídlendt, nl. nærhæfis 5000 ferh. míl. Innbúar þess eru hérumbil $1\frac{1}{2}$ millíón at tølu, og eru þeir bædi kristnir at kalla og heidíngjar eda fetisa-dýrkendr. Konúngr þeirra er sjálfrádr hardstjóri, en þó skattskyldr og undirgéfinn Portúgísum. Þar er høfudborg, er Sti. Salvador heitir; hún liggr 50 mílur frá sjóarmáli vid á skiplæga, er Lebúnda heitir. Þar

sitr konúngr til skipta og í Pemba, er liggr nokkut sunnar í landinu. Í syrrtédri borg eru 40,000 innbúar, ásamt vardhalds-lidi Portúgísa, kyrkjur og múnklist.

4. Angóla (Ngola) liggr fyri sunnan hit sídst-talda ríki og er nær 1500 ferh. mílr at vídáttu. Þar er høfudborg, er Lóanda Sti. Paóló heitir; þar sitr portúgísiskr jarl og erki-biskup; þar er dómkyrkja og forkunnar góð høfn og 1800 innb.

Frammundan stadnum liggr ey, er Kar-imba kallast. Umhverfis hana fiska Portúgísar nokkurskonar kudúnga, er kallast Zimbi og eru þeir brúkadir, álíkt og Kauris í Efri Gíneu, í stad myntads skot-silfur eda smá-skillinga.

Auk þessara 4 kóngsríkja, sem nú eru talin, eru þar 3 minni ríki, nl.:

5. Matamba þat, liggr fyrir austan Angólu-ríki og nær hvergi til sjáfar. Merkasti býr í þessu landi er Sti. Maria de Matamba. Allr þorri landsmanna er af Skagga-kyni og mjøg ósidadr.

6. Bengúela liggr vid sæ í sudr af Angólu-ríki; þar er samnefndr høfudstadr (kendr vid Sti. Philippus), er Portúgísar hafa gjøra látit; þar sitr jarl þeirra; en innfæddr konúngr lands þessa hefir atsetu í stad þeim,

er Tamba heitir, og er veldi hans lítit. Sydst er land þat er:

7. Jagó eda Skagga-Kakonda heitir. Innbúar þessa lands eru mannætur og óaldar lýdr, er Evrópumenn engi vidskipti hafa vid-átt.

b. Dræfa-strondin (den öde Kyst).

Hún nær frá sídst-nefndu landi til Kap-lands sudr, og er hún svo kollut at menn meina at hún sé óbygd og audn ein; en þar hafa Evrópumenn aldrei vid land komit og er þat því ei saunfregnat, hvert svo er edr ei.

At í Nedri-Gíneu, sem í øllum þeim löndum á heimskringlunni, er liggja svo nálægt midhvéli hennar, sé hiti mikill og sólarbruni, má af líkum ráda; en fremr kjæla þar þó tídir hafvindar og regnskúrir ofr-hitann, enn á Gíneu strøndum enum nyrdri edr á upplondum Afríku, er liggja undir sama himin-vegi. Ar deilast þar, sem í ødrum hvarfbauga-løndum, í tvo misseri; þurrvidra-tíd (sumar) og votvidra-tíd (vetr) og blása jafnan sudlægir stadaldurs-vindar á hinum en nordlægir á þessum helmingi árs. Land þetta er vídast frjóssamt og margskonar kostuligum gædum búit; þar er málmr mikill og gódr, margkynjut dýr, bædi tamin og vill og mikil gnægd korns og annars jardar-gróda. Landsmenn kunna margskonar handverk, en eru lítt á vegi til fullgervis í neinu. Konur yrkja þar, (sem annarstadar medal Blekkumanna-þjóda)

akra, með því karlfólki þykir það stærf sér ei sæma. Innbúar lands þessa eru Negrar, er greinast í jafnmarga þjóðflokka, sem ríkin eru; þeirra fjölmennastir og ríkastir eru Kongóar, þá Lóangóar, þá Angólar, þá Dongóar, þá Matambar og Benguelir. Allir mæla þeir máltíðskur nokkrar, sem meir eðr minna eru líkar og skyldar hinni Kóngóisku aðaltúngu. Þeir eru innbyrðis mjög áþekkir at ásýndum og háttsemi, en ólíkir at áliti Blokkumönnum í Efri-Gíneu, en þó viðlíka at sér um flesta hluti. Þeir hafa nokkurn snefil af ýmsri kunnáttu og manna-siðum, en eru þó sem kynmenn þeirra harla sásródir og hjátrúarfullir. Þeir trúa, at tvær séu til æðstar verur, önnur góð og alls góðs upphaf, en önnur vonskufull og ills ollandi; þá fyrri kalla þeir Zambi, ena síðari Zambia-ebi. Þeir blóta fláulig skurdgoð, af tré gjörð (Fetisser), er þeir kalla Mokissos og trúa, at þau séu erindisrekar og fulltrúar Zambis til at gjöra hans vilja á jörðunni. Þeim eru prestar, er Gangas nefnast, settir til þjónustu og eru þeir jafnframt slægir töframenn og einustu læknarar í landinu; þeir færa goðum þessum fórnir með nýi hverju og halda blótveitslur at því búnu. Höfdingjar Neðri-Gíneu-búa setja lög, ákveða skatta og dæma um mál undirsáta sinna eptir eigin þóknan; því hvergi eru þar skrifuð lög í landi né þekking á bókstöfum. Þeir telja at eins til tíu og byrja þá at nýu: tíu og einn, tíu og tveir, o. s. frv.

## II. Suðr-ströndin eða Kapland.

Svo kalla menn hinn syðsta hluta Afríku og tekr hann nafn af höfða þeim, er hinn portúgísiski síglíngamaðr, Barthólómeus Díaz, fyrstr allra farmanna, fann 1493, og kallaði Storma-höfða (Cabo dos todos tormentos) af lángvinnu hvassviðri, er hann hrepti þar og sem neyddi hann til aptr at hverfa. En þá Jóhannes konúngr 2ar varð þessa vís, breytti hann nafninu og kallaði höfða þenna: Góðrar-vonar-höfða (Cabo de buena Esperanza), því þá gjörðist hann vongóðr um, at þar suðr-horn Afríku væri fundit, mundu menn bráðla finna skipaleið til Asíu. Varð og þat er hann vænti, því 1497 sigldi hinn nafnfrægi farmaðr, Vasco de Gama, fyri höfðann og létti ei fyrr enn hann tók land við Asíu. En með því at Portúgísum þótti land þetta ógirniligt til ábúðar og innbúar þess, nl. Hottentottar, villidýrum verri viðr-eignar, komu þeir þar at eins við land til at fá sér ferskt vatn og aðrar hressíngar, en festu þar aldrei fót. Slíkt hit sama gjörðu Hollendíngar, eptir at þeir höfu skipaferðir til Austr-álfu, uns skipslæknir nokkr, Jan van Ribeck at nafni, á heimferð sinni frá Austindíum til Hollands, kannaði 1650

strøndina í grend við Vonar-høfða og þótti hún allbyggilig. Fyri hans umtølur og áeggjan sendu Hollendíngar hann þángat 1652 með 4 skipum; keypti hann þar allmikinn landspart við glíngri og glæsiligu verksmíði, og gjørði þar fyrst varnarvirki og síðan kaupstað. Fluttu þá þegar allmargir þángat af ýmsum Evrópu-løndum og fundu þar næga atvinnu. Blómgaðist þá bráðum nýlenda þessi og jókst árliga at fjølmenni og víðáttu, þartil nær alt hit eiginliga Hottentottaland gjørðist útlendra Nýlendumanna eign. Land þetta er nú hérumbil 5500 ferhyrn. mílur at víðáttu og er þat á 3 vegu umflotit af megin-hafi, en fyri norðan þat liggr Kaffaland og landsbygðir þeirra svokølludu frjálsu Hottentotta. Víða er land þetta fjøllótt; ígégnum þat alt til Vonar-høfða suðr gengr fjallgarðr, er Snæfjøll kallast og eru þau áføst við Lúpata fjøll; þau eru 6000 fóta at hæð. Annar fjallgarðr liggr þar í austr og vestr, er Niewvelt heitir. Mørg eru þar og rennandi vøtn, en engin mikil vøxtum. Meðal þeirra telja menn Fils-á, er fellr í vestr og Gull-á, er í suðr rennr, merkastar.

Ur vestri hverfa inní landit 3 firðir nl.: Helenu- eða Elenar-fjørðr norðast; þá

Saldana-fjørdr og þá Toblu-fjørdr sydst; en fyri austan Bonar-høfda ſkérst Falski-eda Fals-fjørdr inn, þá Katrinufjørdr, þá Fiskfjørdr, þá Skelja- eda Fagri-fjørdr og Svarthøfda-fjørdr austast. Þeir eru allir ſkammir, en allbreidir, og eru í þeim hafnir gódar og ſkipalegur.

Landit er deilt í 5 Nýlendu-umdæmi eda fylki (Distrikter), er kallast Kaps- eda Høfda-Nýlenda, Stellenbúſkr, Drakensteinn, Zvellendammr og Graf-Reynetta.

Kaps-Nýlenda er hinn minsta at stærd, en þó merkust og fjølmennust. Þar stendr Kapstadr vid Toblufjørd og nedan undir 3 hædum, er kallast Tobluberg, Djøflaberg og Ljónaberg. Þar sitr høfdingi sá (Gouverneur), sem þar er settr til yfirſóknar. Þar er høfn og ſkipalega mikil; koma á hana hérumbil 1000 kaupſkip á ári hverju. Stadr þessi er allmikill og ſkipuliga gjørr; eru þar stræti bein og allbreid. At sunnanverdu vid fjørdinn stendr ramgjørr kastali, er Ribeck lét fyrst gjøra, og má þadan verja innſigling á høfnina. Í Kapſtad eru 18000 innb. medal þeirra eru 12000 Hottentottar og mans-menn eda þrælar.

Skamt þadan er þorp mikit, er Konstan-

zia heitir; þar er vínyrkja ágæt; þaðan flytst hit hnosgæta Konstantzíu-vín.

Stellenbúsks-umdæmi liggr norðar á Vestr-ströndinni og er allmikit land; en í austr frá Kaps-fylki liggr Drakensteinn, þá Zvellendammr austar og á ströndinni, er veit í há-suðr, og Graf-Reynetta fyri norðan og austan hann. Þetta umdæmi skeyttu Hollendingar síðst við landeign sína (1790) og er þat all-víðlendt. Í sérhverju þessara umdæma eru samnefndir smástaðir öðrum merkari, og hafa í þeim atsetu höfðingjar þeir og valdamenn, sem settir eru til forráða í hverju þeirra fyri sig, en allir eru þeir jarlinum í Kapstað undirgéfnir.

Kapland er fagurt, heilnæmt, frjóssamt og allkostuligum gæðum búit. Þar blæs á sumrum, einkum á suðr ströndinni, þrávindi (Monsun), er optsinnis hamlar gróðri og ollir óhægindа. Á vetrum eru vindar norðvestlægir; er þar þá nokkut kaldt, og eigi sjaldsén snjór á fjallatindunum í nánd við Kapstað. Landit er víða vel yrkt; fénaðr er þar mikill og notagóðr og vínyrkjan ágjæt; en vistirinn til alls þessa fluttu Nýlendumenn frá Evrópu. Þeir kéndu Hottentottum at velta jörð til korns og at rækta fénað sinn, og leiddu marga með góðsemi og lempni frá drúngafullri ómensku og fákænsku á þjóðrænliga atvinnu-vegi og til

sidblendnis vid sig. Innbúar lands þessa eru hérumbil 100,000 at tölu og eru þeir greindir í þrjá höfudflokka nl. a. Afkomendur Evrópumanna, er tóku þar bólfestu, og stadfestust þar, sérílagi Hollendínga, Þjódverskra og Frakka; en allmjög hefir tala þeirra aukist, sídan Enskir urdu eignarmenn landsins. b. Mansmenn edr ánaudugt fólk, er Nýlendumenn keyptu verdi frá Gíneu-ströndum, eyunni Madagaskar og ýmsum Asíu-löndum, og eru þeir at því skapi margbreyttir at ásýndum, háttum og skapferli. Þeir eru ófrjáls vinnuhjú, en búa þar vid betri kosti enn á ödrum löndum; þeir ala börn í ánaud. c. Hottentottar edr hinir upprunaligu innbúar þessa Afríku sudr-hluta. Þeir kalla sig Kú-Kúp (Khu-Khup) og eru þeir at hörunds-lit og andlits-lögun öllum Afríku-þjódum ólíkir, nema nábúum sínum, Kaffleudíngum, er menn meina þeim nákomna at ætt og uppruna. Þeir eru á únga aldri gulir sem kopar, en verda af sólbruna og idugligum fitu- og sót-makstri æ blakkari med aldrinum og loks þvínær svartir á hörundit; hár þeirra er hrokkit, bikfsvart og afar flókit, því aldrei greida þeir sér, en bera sidægris í þat nokkurskonar feiti og hárpúdr. Augabrýr eru þeim all-litt vaxnar og skéggit reita þeir af sér þegar á únga aldri og eru þeir því skégglausir alla æfi. Andlitit er litit um sig, en midhluti þess skjagar mjög framm, álíkt og á öpum, og er breidt yfir kinnbein, en afar-mjótt yfir munn og höku, sem væru þeir kinnfiska-sognir af megurd; er

þó kropprinn þrifligr og vøðvamikill. Þeir eru flatnefjaðir mjøg og nasasleslir, munnstórir, en þó ei varaþykkvir (sem Blökkumenn), eygðir mjøg og kvikeygir. Tannir þeirra eru smáar, og skjallhvitar, og ávalt lýsir augnaráð þeirra og viðmót heilbrigði, áhyggjuleysi og þversinni, er eiga heima hjá villi-þjóðum. Hottentottar eru meðalmenn vexti, þrekligir og vel limaðir, handlitlir og smáfættir mjøg, mjúkir og mauna fóthvatastir. Þeir ná slestir háum aldri og verða sjaldan kvilladir. Hvat viðvíkr skapsmunum Hottentotta, þá eru þeir manna druudaligastir og ókátastir, og svo óviðkvæmir, at þeim bregðr sjaldan, svo sjá megi á þeim. Þeir eru hæglyndir og hrekkja lausir, þjóuustuviljugir og einkar gestrisnir, og hafa at visu ófyrisynju fengit óhróðr af þeim, er fyrst kyntust við þá, fyrir ýmislig þjóð-lýti, er seinni sagnaskrifarar ei við-kannast. Hottentottar lifa af sauðsjárrækt og dýraveiðum; um akr-yrkju skeyta þeir litt, utan þeir sem eru Evrópumønnum háðir. Þeir skiptast í 3 flokka, nl. hina svokølluðu tømdu Hottentotta, er búa í þorpum og í grend við Nýlendumenn og eru þeim undirgéfnir. 2. hina friu Hottentotta, er eigi hafa eunþá gjørst þegnar þeirra, en halda sig með hjarðir sinar allalángt á landi upp; meðal þeirra eru 4 ættflokkar nafngreindir nl. Namakar, er byggja norðvestr hluta landsins; Gónakar, þeir búa hit norðeystra og eru flestum Hottentottum hreinlátari og nokkut siðaðri; — Damakar, þeir eru blendingar af Hottentottum og Koff-

um — og Kabobikar o. s. frv. Árliga sækkar þessi höfudflokkr Hottentotta af atvinnu-skorti, þar þeir mega undan-hørfa fyri Nýlendumønnum til hrjóstugra landsplátsa og í nágrenni við þá svo-nefndu, 3. Búskhottentotta eda Búskamenn; þeir eru illfengir klækismenn, er liggja í skógum og silsnum á nordr-landamæri Kaplands og lifa ei á ødru enn rupli og ránum. Nýlendu-jarl gjørir opt-sinnis út lid á móti þeim, þá þeir gjørast um of nærgaungulir Nýlendumønnum. Hottentottar, svo kvennfólk sem karlfólk, gánga þvínær hvervetna naktir, nema þá rigningum fylgir kul venju framar, bera þeir þá heldur eda skinn-stakka, en ávalt nokkurskonar svuntu-bledla af skinni fyri blygdan. Vopn þeirra eru hagliga gjør og lýsa þau hagleiks-náttúru og lagvirkni; þeir hafa atgeira, 6 fóta lánga, boga og pílur, járnyddar og í eitri herdtar, og spjót, er þeir skjóta svo fimliga, at þeir aldrei missa þess, er þeir munda. Hottentottar eru eins og allar ósidadar og hálfvillar þjódir, ysirvættis fásródir og jafnframt því hjátrúarfullir og audtrúa. Hugmindir þeirra um eina ædstu veru eru óljósar og víkladar; þeir segja þat of-ætlun fyri sig og litla gétu-bót í því, at leggjast djúpt í umþeinkingu þeirra hluta, er sinn dansi skilníngr ei fái gripit, þar svo margt, er þeir géti augum litit, sé sér ósskiljanligt og einkar kynligt. Ei eru þeir heldr veruligir fetisa-dýrkendr; því hverki hafa menn ordit varir vid neinskonar góda-þjónustu eda blót, né skurdgod eda ølturu,

hof eda godaprefta. At þeir haldi, at annat lif sé eptir þetta, ráda menn af því, at þeim stendr ógn af draugum og grátbæna alla andada, ádr þeir eru jardsettir, um at gánga ei aptr fyrir áskoran tøframanna *). Ecki brutust Hollendingar fyri, at kristni væri, svo nokkru skipti, bodud á Kaplandi, en sídan Enskir brutust þar til ríkis, hafa þeir allkostgæfliga látit boda þar rétta trú — og gengr þat tregt, því hverki eru Hottentottar skilníngs-gódir né námfúsir. Þeir fríu Hottentottar hafa aldrei tekit konúng yfir sig, en hverr ættflokkr eda kynkvísl hefir sinn forkólf og er hans vald lítit, en gengr þó í erfdir. Þeir halda þíng og er þar skorit úr øllum málum med atqvædum. Í þorpum þeim, er hafa traust af Enskum, hefir einn af Hottentottum kosinn forstjóri umrád, og er embættisteikn hans spanskr reyr med koparhún og brjóstskjøldr af sama málmi.

Arit 1795 unnu Enskir Kapstad med her-

*) At vísu eru sidir og hættir Hottentotta í mørgu hjárænuligir og afbrugdnir háttsemi annarra þjóda; en annathvert er þat, at þeir á seinni tídum hafa lagt nidr ýmsa landsvenju, eda þeir, sem á fyrri døgum ritudu um þá, hafa ofaukit søgu sína, t. d. um yfirdøggvan brúdhjóna af tilkjørnum sidamanni og annat þvílíkt, þar þeir, er nú eiga allmikil mok vid þá, hafa ei þess varir ordit og fortaka, at þat vidgángist medal þeirra, nema máské at eins leyniliga, at ei verdi þeir lengr athlæi útlendínga.

skildi, en afsøludu sér hann aptr Hollendíngum 1802 í Amiens-fridarsamníngi. Þá styrjøldin á ný hófst milli þessara þjóda, køstudu Enskir gjørsamliga eign sinni á landit 1805 og hafa þeir sídan á ýmsan hátt bætt þat. Sérílagi eru nýlendur þessar einkar gagnsamar austindíaførum, er þar, nærhæfis á midri leid, géta ád um hríd, bætt reida sínu, og aflat sér vatnsforda og ýmissra hressínga eptir lánga útivist. Herlid Enskra í þessu landi er 6000 at tølu — og er jarlinn ædstr herforíngi.

## III. Austr-strøndin (Östkysten).

Þat er sá jadar Afríku, er í austr og sudaustr veit, og liggr ímillum Kaplands austrtakmarka og Ajan eda Asjan, sem ádr er gétir. Strønd þessi er 300 mílr at lengd, en breidd hennar er misjøfn og vídast ókunn. Á henni hafa Portúgísar, er fyrstir komu þar vid land, eignat sér lønd, tekit upp nýlendur og bygt stadi, kastala og kauptún, og eru því Evrópumanna fródastir um hana; en þeir hafa frá øndverdu, álíkt og ljósfælnir mángarar, dulist þessa fródleiks, at ei skyldu adrir med hnýsni sinni og þarkomu þeim afnám vinna.

Strønd þessi skiptist í 4 høfud-parta eda strandir, sem kéndar eru vid Lagóa, Sófala, Mósambik, og Zangebar.

## A. Natal-land eda Lagóa-strønd
(Kysten Natal eller Lagoa).

Hún liggr ímilli Kaplands eda Fiskså-r ennar miklu, er fellr á austr-landamæri téds lands og fjardar þess, er Lagóa (Rabia da Logoa ɔ: Hóps-fjørdr) kallast.

Vestr-hluta þessarar strandar kalla menn sérílagi Kaffaland hit austlæga; en sumir kalla svo alla strøndina frá Kaplandi til Zambése-ár-ósa, er rennr á nordr-takmørkum Sofala- eda Senn-strandar, med því at allr þorri innbúa hennar er af Kaffa kyni.

1. Hit austlæga Kaffaland (eptir hinni fyrri landa atgreining) er fagurt og frjósamt; en þar er vídast ørhefni og ill-landtaka; hafa því engir þar komit sjóleidis frá Evrópu. Austar er:

2. Natal-land eda Jólaland, er Vasco de Gama fann á sjálfan jóladaginn 1498 og kéndi þat vid hátídina. Þar eru forkunnar gódir landskostir og vedrasæld, þó er þat strjál-bygt og illa skipat. Þar í fjallbygdunum í grend búa þrjár þjódir og eru þær allar ná-komnar Køffum at kyni, nl. Tambúkiar, þeir eru bjartari ílits enn adrir Kaffar, kunna at steypa málma og eru hardsnúnir í orrustum, Hambónar og Makossar; þeir eru flestum Kaffa-þjódum gódlyndari og meinlausari. Hin eiginliga:

3. Lagóa-strønd liggr austast og tekr

hún nafn af fyrrnefndum firdi, sem er 10 míl. at lengd, en 5 at breidd, og eru í honum allgódar skipalegur. Þessi strönd er láglend, og óheilnæm øllum útlendíngum; fluttu því Portúgísar þadan eptir fárra ára døøl lengra nordr á megin-strøndina. Innbúar þessarar strandar eru mjøg blakkir á hørundit, sterkir og vel-limadir, gódlyndir og greidasamir, gladlyndir og einkar géstrisnir. Þeir kunna allvel at járnsmídi og lifa af fiski-afla og dýra-veidum. Hvørt þeir hafa nokkura trú eda enga, er óljóst, þar þeir hverki hafa skurdgod, blóthof né hofpresta. Þeir kalla sólina, hinn stóra, og túnglit hinn litla Kaptein (hundíngja), en blóta þó hverugt.

## B. Senaland eda Sófalaland (Kysten Sena eller Sofala).

Svo kølludu Portúgísar fyrstir strøndina í milli fyrrnefnds Lagóa-fjardar eda Heilagsanda-ár, er í hann rennur, og fljóts þess er Zambese-á kallast. Likur þykjast ýmsir lærdir menn til þess finna, at Phøniciumenn hafi þar í árdaga komit, og at þat sé land þat, er í Ritníngunni kallast Ophir, hvadan Salómon Júda-konúngr, lét hérumbil 1000 árum fyri Krists-burd sækja gull og margskonar ágætan varníng. Á midøldum komu Arabar þar og

áttu kaup vid strandar-búa þessa, kostudu kappsum at brjóta þá til Múhameds trúar og gáfu þeim fyrstir þjódnafnit: Kaffaror: (Ekafir, þ. e. vantrúadir). Öndverdliga á 16 øld slæmdu Portúgísar Araba af landi, og hafa þeir sídan einir setit at verslunar-ardi á strønd þessari. Land þetta er vídast frjófsamt, en ei er þat heilnæmt adkomumønnum. Þar finst gull mikit, járn og margskonar gædi. Almennt skipta menn strønd þessari í 3 høfudparta nl.:

a. Ríki þau, er kallast: Inhambane, Sabia og Manika.

Hit fyrsta, ásamt ríki því er Biri heitir, liggr sydst eda nærst Lagóa-firdi. Nordar liggr Sabia-ríki, er tekr nafn af á, er þar kémr til sjáfar; — en Manika eda Manissa liggr fyri vestan hit sídst-talda og nær hvergi til hafs.

Vid ána Inhambane og á høfda þeim, er Corientes kallast (í Inhambane-ríki) eiga Portúgísar kastala og kauptún, og er hit sídara hin sydsta landeign þeirra á Afriku austr-strønd. At ødru leiti eru ríki þessi Evrópumønnum ókunn.

b. Sofala-ríki liggr fyri nordan sídstnefnd lønd, og er bædi slétt og fjollótt, en hvervetna gott og frjófsamt. Þadan flyzt margr kostuligr varníngr, gull mikit og fíla-bein, járn,

ambra, hrísgrjón, o. s. frv. Þar er stadr, er Sófala heitir og stendr hann vid mynni samnefndrar ár. Portúgísar eiga hann og hafa þeir þar gjøra látit sterkann kastala og mikinn. Þeir eiga þar enn fleiri kauptún og virki.

Fyri ríki þessu rædr konúngr og er titill hans: Qviteva. Hann er Portúgísum hádr og skattskyldr. Innbúar þessa ríkis eda Sófalar eru afkomendur Kaffa og Arabíumanna, er þar bjuggu fordum, og má enn finna medal þeirra eptirstødvar eda leifar af átrúnadi, túngumáli og háttum ennar sídar nefndu þjódar. Þeir binda lín-dúkum eda silkiklædum um sig midja, bera túrban á høfdi og sax vid hlid, en gánga berir at ødru leiti. Þeir vefa bómullar vefnat og kunna ei allfáar handidnir.

c. Kóngsríkit Mónómótaba liggr fyri nordan Sófala-ríki og nær all-lángt á land upp; þar liggr þat bádumegin vid Lupata-fjallgard (Spina Mundi ɔ: Heims-hrigg) og er meir enn 7000 ferhyrníngs mílr. Heiti þess er nafnbót konúngsins, er þar sitr at ríki, hvørn sumir kalla keisara, og er þat greint í 12 smá-ríki og eru fylkis-kóngar settir til umráda í hverju þeirra, er hlýda bodi og banni þjód-konúngs, en sjálfr er hann Portúgísum hádr

og þiggr lid af þeim til at halda vørd um sig. Landit er frjóssamt og margskonar gædum búit í jørd og á; þar er hiti mikill, en engi vanheilindi. Innbúar þess eru Blökkumenn at kyni og askomendur Portúgísa, er þar hafa í 3 aldir fullar hast bólfestu og mikit ríki. Blökkumenn þessir trúa á eina ædstu veru og blóta ekki skurdgod, en eru þó fullir hindurvitna og heidingligrar hjátrúar. Merkustu stadir eru: **Zimbabe**, er stendr vid Zambese lánga leid frá sæ; þar sitr konúngr, — og **Massapia**, þar er gull-verslun mest í landinu og Svørtu-brædra klaustr.

A fjalli, er Fúra heitir, og skamt frá sédum stad, standa enn tóptir mikils og ramligs kastala eda steinbyggíngar. A múrveggjunum stendr úthøggvit letr, er engi, sem þar hefir komit, hefir gétat lesit. Menn meina at þetta sé menjar Phønicíumanna.

Þann hluta þessa ríkis, er nær at sæ framm, eda sjálfa strøndina kalla Portúgísar **Sena**. Hún er 500 ferh. míl. at stærd og eru Portúgísar þar einir um lands-stjórn og land-kosti, en þó færa þeir árliga þjódkonúngi gáfur í þokkabót. Þar eiga þeir þrjá stadi, nl.: **Sena**, vid Zambese-fljót sunnanverdt, og all-lángt frá sæ; þar er kastali og heimili yfirlendustjóra; **Tété** eda **San Jagó** (Sti. Jakob) og **Qvilimane**, bádir standa

þeir við téða á og eru umgirdtir með varnar-virkjum.

C. Mósambik-strønd (Kysten Mosambique).

Hún liggr í milli Zambese-fljóts og Delgadó-høfda og er 140 mílur at lengd. Hún er lág, slétt og víða votlend við sæ, en fjøllótt hit efra. Þar eru lands-kostir góðir og margr kvikfénaðr. Syðsti hluti þessarar strandar kallast — a. Makúaland, þat er allmikit ummáls. Innbúar þess (Makúar) þykja góðir til mansals, þar þeir þóla betr elju og sjó-ferda-þrautir, og eru hvatligri og gladlyndari enn aðrir Negrar; en þeir eru jafnframt grimmir mjøg og fordast náviștir mans-manna af øðru kyni. Kóngr þeirra kallast Maurussa. Norðar er litit kóngsríki, er b. Angoxa heitir. Þar búa afkomendur Arabíumanna og eru þeir múhamedaniskir at trú. Norðar tekr hin eiginliga c. Mosambik-strønd við og tekr hún nafn af ey nokkurri, er liggr $\frac{1}{2}$ mílu undan meginlandi, og samnefndum stað, er Portúgisar hafa þar gjøra látit og aukit svo mjøg, at hann er kalladr høfudstaðr allra fasteigna þeirra á austr-strønd Afríku. Í Mósambik er biskups-stóll, 5 kyrkjur, 2 múnklifi, og aðsetr jarls (Gouverneurs) þess, sem settr er til forráða

ystr tédum eignum. Þar eru 12000 innbúar, og eru 10,000 Arabar og Negrar, ágæt höfn og skipalega í sundinu milli meginlands og eyjunnar, og mikill kaupskapr einkum vid kaupmenn frá Malabar-strønd og Góa, sérílagi vid Gebra eda Parsa (elddýrkendur). Þrennr er varníngr þar mestr: gull-korn eda sandr, sílatannir og mansmenn; af þeim sídst-nefndu hafa menn árliga flutt frá Mósambik 15 til 16 þúsundir til ýmsra landa! Portúgísar komu þar vid land á fyrstu índía-ferd sinni 1498 og fundu þar fyrir Arabiumenn, er ráku kaupskap í Austindíum. Þeim leizt vel á afstødu og skipalegu vid eyuna og þótti þar hagkvæmr áfángastadr á lángferdum þessum. Þeir komu þar seinna med vel-búit lid og tóku eyuna med herskildi, en Arabar og Kaffar máttu, þótt þeir hefdu ógrynni lids, frá-hverfa og láta land og ríki. Í nordvestr frá Mósambik-strønd liggr mikit land, er d. Mongallo-ríki kallast; þat nær lángt á land upp, en hvergi til sjáfar. Þar qva vera gull mikit. Fyri austan þat og vid sæ heitir, e. Qvirimbu-strønd. Vid hana er ørhefni hvervetna. Framundan henni liggja eyar margar í rød og eru sundin mjó og grunn ímilli þeirra og meginlands. Þær kallast Qvirimbu-eyar, og eru þær

forkunnar fagrar, gagnaudugar og vedrasælar. Þeirra syðst og mest er Qvirimba; þá Oiba, hún er svo inndæl at menn segja þar sé jarðneskt Paradís. Þá Geitsey (Ilha das Capras), þá Fúmbó, þá Matenó, þá Melinda, skamt frá Delgado-høfda. Á Eyum þessum hafa Portúgísar tekit upp nýlendur.

D. Zankebar-strönd (Kysten Zanquebar).

Hún liggr fyri nordan sidst-nefndt land og nær alt til Ajan-lands eda áriunar Magadaskó nordr. Land þetta er 200 milur at lengd og at landslagi og gædum áþekt fyrrtøldum ströndum, nl. lágt vid sæ og skógi vaxit, en fjöllótt þá frá sæ dregr. Þar eru vída hafnleysur og grunnsævi fyri landi og fáar gódar landtøkur fyri stórskip. Strönd þessi greinist í 11 riki og hafa þar bædi Portúgísar og Arabiumenn ædstu umrád.

a. Qvilóa- eda Kilóa-riki, þat liggr sydst, og er litit at vidáttu, en fagurt og einkar ávaxtarsamt. Innbúar þess eru ættmenn Arabiu-þjódar, trúa á Múhamed, brúka austrlendskt klædasmid og eiga kaup mikil vid nágranna sína. Kóngr þeirra eda Skeik var fyrrum rikr høfdingi, en villi-þjódir nl. Skaggar og Zimbar, er flakka um øræfin fyri vestan strönd þessa,

lømudu veldi hans. Nú er hann undir-kóngr Portúgísa, er árit 1507 unnu høfudborg rikis þessa og gjørdu þar sterkan kastala. Hún heitir Qvilóa og er hún gjør á austr-landa vísu; eru þar steinhús flatþakin; hún stendr á fagurri og samnefndri ey í vidkéndum firdi. Þar var mansal mest á þessari strønd.

b. Kóbras-eyar, 3 at tølu, liggja í rød fram-undan strøndinni. Sydst er Monsia, þá Zankebar og Pomba nordast. Þær eru allar fagrar og gagnaudugar, elnast þar sikr reyr vel og margskonar ávextir. Eyamenn eru arabiskir at kyni, halda vid sidi og trú lángfedga sinna, og reka kaupskab vída á Afriku austr-strønd og Madagaskar á veiga-litlum reyr-bátum. Þar hafa 3 Seikar manna forrád og eru þeir til þess kjørnir af Imaninum í Maskat á Arabíu-landi.

c. Kóngsríkit Melinda; þat liggr fyri nordan Qvilóa-ríki og er eigi allmikit, en forkunnar frjóf samt og audugt af kostuligum ávøxtum og kryddjurtum. Landsmenn eru blendingar, af Arabíumønnum og Koffum eda Negrum komnir, og eru þeir allir døkk-móraudir á hørundit, múhamedaniskir at trú og stridgjarnir. Þar rædr ríki strángr konúngr og stjórnsamr og er þat þar sidr, at hann sjálfr med eigin

hendi hýdstrýkir afbrotamenn þá er honum þykir þeir þess ums-komnir fyrir ættgofgis sakir. Þar er merkiligr kaupstadr, er Melinda heitir; þar eru háreist steinhús og flat-þakin, audsmenn miklir og ardsöm kaupverslun, einkum vid Asiu-menn. Þenna stad eiga Portúgísar. Sunnar á strøndinni og á nesi nokkru stendr sjáligr stadr, er Mombassa heitir; þat er hefudstadr í samnefndu smá-ríki, og er eign Imansins í Oman. Tvær at-rennur hafa Portúgísar gjørt at vinna stad þenna, en afstada hans og hardfengi stadarmanna hafa fordat hønum.

d. Í vestr frá þessu ríki hefst fri-þjód nøkkr vid, er Mossekejbar kallast; hún er ósidut mjøg, grimm og snerrin og lifir at eins af saudfé sínu.

e. Eyar 2 liggja nordar og skamt undan landi, er Lamó og Pata heita; þær eru ávaxtarsamar og gagnaudgar. Eyamenn eru arabiskir at kyni og rædr þar smákóngr hverri. Á hinni fyrr-nefndu er einn samnefndr stadr, en á Pata eru 3, nl. Ambasa, Sió eda Sion, og Pata, þar hafa Portúgísar lítin kastala.

f. Nordar er Abagnaland, þar sem farmenn kallà Eyastrønd; þat liggr undir midjardar-himinvegi og er sendit, hrjóstugt og strjálbýlt.

g. Á landi upp búa Marakattar, þeir eru døkkleitir mjøg, vel-limadir og karl-

mannligir, en afar-grimmir og fákunnandi og hinir versu stigamenn.

h. Kóngsríkin Júbo og Ambaza liggja nordar á strøndinni; þar er sill margr og margskonar skógdýr, gullkorn og fílabein. Þar rædr konúngr ríki og er hann Portúgísum hádr, er þar eiga kauptún og ískyldur. Þar er Júbó merkastr kaupstadr. Nordar er frí-ríkit:

i. Brava, eda Sjø-brædra-ríki; þat hófst fordum 7 brædur, er stukku úr Arabíu fyri ofríki yfirbodara sinna — og eru 12 Skakar edr øldúngar settir því til forstødu. Landit er forkunnar frjóssamt og audugt af ýmsum varníngi. Þar er stadr, er Brava heitir; hann er vel bygdr og umgirdtr med múrvegg. Þar er gód høfn og allmikil sigling. 1508 herjudu Portúgísar á ríki þetta, unnu þar hervirki og kúgudu landsmenn til skatta-lúkníngar.

k. A landi upp búa Matskídar; þeir eru múhamedanisskir at trú og háttsemi, vopndjarfir og víg-fúsir og mektugir. Konúngar þeirra qva vera sømu ættar og Habessiníu kóngar.

l. Magadaskó- eda Magadoxo-ríki; þat liggr nordast á austr-strønd Sudr-Afríku og tekr þat nafn af allmiklu vatnsfalli, er skilr lønd hit nyrdra, og hleypr á nálæg hér-ud og frjófgar þau. Land þetta er einkar gott matland og fjølskrúdugt af margbreyttum gædum í jørd og á; þar er sill afarmargr, gull mikit og silfr, og margkynjadr fénadr. Innbúar þess eru arabiskir at kyni, en þeir eru ættlerar og flestum kynmønnum sínum sáfród-

ari, og síðr at sér at lagvirkni og framkvæmd- um. Trú þeirra er meingut heiðindómi; dýrka þeir bæði Múhamed og blóta goð. Annars eru Magadaskóar hæglyndir og vingjarnligir, góðfengir og géstrisnir, en harðsengir eru þeir í orrustum og miklir bogmenn. Þar er all- mikill og vel húsaðr kaupstaðr, er Magad- oskó heitir, við hafvik, er téð fljót fellr í; þar eru steinhús há og flatþakin, skygð hit ytra og margvísliga rondótt. Þar sitr konúngr landsmanna og hefir hann ótakmarkat veldi.

## IV. Upplønd Suðr-Afríku.
## (Det Indre Syd-Africa).

Svo viljum vér kalla hinn víðlenda geim þessarar heims-álfu, er liggr í millum Austr- og Vestr-stranda, Súdans og Kaplands. Upp- lønd þessi eru Evrópumønnum enn gjørsam- liga ókunn, því eigi er þar greitt atgaungu, er grimmlundaðar villiþjóðir byggja og vegir eru skipaðir svo mørgum og margsháttuðum tor- færum, sem þar. — Hit nyrðra liggja Mána- fjøll, hit eystra Lúpata-fjøll eða Heims- hriggr, og at vestanverðu Kóngó-fjallgarðr, og meina þat sumir menn, at allir séu þessir feikiliga miklu fjallgarðar áfastir. At í þess- um hluta Afríku sé sólarbruni mikill, lætr at líkindum af afstøðu hans og fjarlægð frá

strøndum og kælandi sævindum; en þess er þó at gjæta, at þar mun sjallagolan tempra oft hitan. At frá fjallgørdum þessum, sem bædi eru háir og vída snæþaknir, falli ár og lækir, er vøkva láglendit og jafnframt veita mønnum og mállevsingi nægar vatns-byrgdir, hafa menn fyri sannindi, og at þar séu geysimikil marklønd eda skógar og í þeim ógrynni margkynjadra dýra, frinna og ófrinna, þykir sanna tilgátur þeirra, er meina, at upplendi þetta sé hverki svardlausir brunasandar (sem Sahara) né vatnslausar audnir og øræfi, heldr allvel byggiligt og ýmsum lands-kostum búit; því víst er þat, at óþjódir þær, er þar hafast vid, eru margmennar og at þær at mestu lifa af fjárrækt og hafi mikin kvikfénad.

Hit sud-eystra og nálægt Lúpata-fjøllum er afar-mikit stødu-vatn, er Maravi eda Zambre kallast; þat er hit mesta vatn í þessari heimsálfu. Í því er salt vatn og eyar afar-margar; — á þeim og umhverfis vatnit er fagurt og gódir lands-kostir. Innbúar þessara landa eru Blokkumenn eda Negrar at kyni og greinast í 3 høfud-flokka, nl. Skagga, Galla og Kaffa.

1. Skaggar (Schaggaer).

Sjálfir kalla þeir sig, eins og Gallar, Agag eda Agagi. Af þeim fóru fyrst søgur á 16 øld;

komu þeir þá, men vita ei hvadan, framm í sudvestr-hluta Afríku og herjudu þar og rændu med grimd og offa. Í Efri-Gíneu mætti hersforingi þeirra, Zimbó at nafni, mótstødu af Portúgísum. Leitadi hann þá undan til Austr-strandar og rænti hvervetna fé, en skeytti ei um lønd. At honum látnum, tvístrudust Skaggar og brutu undir sig ríki og lønd vidsvegar, t. d. Mitamba og ýmsar lándsálfur í Efri-Gíneu, og byggja nú sérílagi løndin ímilli Svarthøfda og Mánafjalla og fyri vestan landsjóinn Maravi. Skaggar eru allra Bløkkumanna ófríniligastir áshndum, djarfastir, grimmastir og blódgírugastir; þeir eru miklir vexti og hraustir og manna illiligastir; þeir brenna sér skrámur í andlit med glóandi járni og ramhvolfa augunum, at þeir verdi þess ógnrligri; þeir gánga næstum naktir hvervetna og smyrja sig svo opt, sem þeir fá færi, med manna-feiti og mála maga sinn raudan og hvítan. Fædsla þeirra og matarædi eru samkvæm rustaskap þeirra og ósidum; engin fæda þykir þeim svo hnossgæt sem mannakjøt, eru því allir hernumnir menn hafdir til snædings, en ei konur, þeim er þarámóti slátrat og offrat á hátídum, at blótveitslum og erfisdrykkjum stórhøfdingja. Verdi einn svo sjúkr, at hann ekki eigi aptrbata-von, kyrkja kunníngjar hans hann, eda kasta honum út á vídiváng fyri glepsandi villidýr og þykjast þeir þá gjøra líknarverk á honum. Daudir eru þar grafnir sitjandi og med hverjum ektamanni eru tvær af konum hans kvíksettar.

Skaggar skeyta litt um akr-yrkju og fjárrækt, nema þá rán og dýraveidar ekki hepnast til hlýtar. Þeir trúa ódaudligleika sálarinnar, en ekki á neinn ædsta guddóm; þeir blóta god og færa þeim mannoffr. Tvennir eru prestar þar, nl. Gangas, þeir eru offr-prestar og slátrarar-menn offr-dýra og manna — og Singhillir, þeir eru töframenn og fjandasælur. Mrdal enna merkustu Skaggaríkja telja menn Anzikó, nordr af Kóngo-ríki, Fúnsjenó og Pombó.

## 2. Gallar (Gallaer).

Þeir byggja eda flakka um nordr- og nord-austr hluta tédra upplanda, einkum fyri sunnan Habessíníuland og eru þeir Sköggum áþekkir í mörgu; þykir því líkligt at þeir séu hvarir-tveggju frá sömu átthögum og af samlíkum ættstofni komnir. Gallar búa og vid Maravi-vatn austanverdt og eru þeir þar kalladir Zimbar eda Músimbar, en kóngr þeirra Lúbó. Galla-þjód er afar-fjölmenn og hefir mikil lönd undir, er engi útlendingr þorir at at nálægjast, svo er hún ómannblendin og ill vidreignar, og jafnframt einhver hin grimmasta og blódgírugasta hirdingja-þjód í þessari heims-álfu. Gallar bjuggu fyrrum vestar í Afríku midsvædi, en hafa smám-saman med ógurligri grimd og hardýdgi rudt sér til rúms nordaustr eptir uns þeir nádu Habessíníu sudvestr-takmörkum og Nílár-upptökum; herjudu þeir þá á land þetta, brendu og brældu, eyddu og drápu

alt þat fyri þeim vard, og brutu at lyktum undir sig vídlendar sveitir og héruð. Í öndverdu vóru þeir greindir í 3 mikla herflokka og vóru 7 kynkvíslir í hvorjum; en nú á dögum skipta menn þeim í tvo höfudflokka nl. hina Vestlægu eda Bóra-Galla, er sérílagi hafa um lángar hrídir elt grátt silfr vid Habessiníumenn, og hina Austlægu eda Bertúma-Galla, er austar byggja. Annars bera menn kénsl á 20 kynkvíslir þessarar óaldar-þjódar, og er hin voldutska kynkvísl sögd þeirra grimmust og linkindalausust. Fyri hverjum 7 kynkvíslum rædr kosinn konúngr. Medal þeirra er einnig nokkurskonar adalstétt, og gjörast þeir medlimir hennar, er med hreistiverkum og vígum hafa sér ordstýrs aflat, þó nær engi þeirri tign hugri enn fertugr, nema hann géti sannat, at hann hafi med eigin hendi lagt svo marga at velli, sem ár vanta á tédan aldr. Gallar eru medalmenn vexti, léttir, mjúkir og fimir. Þeir vefja nautsgörnum um höfud sér, at þeir verdi því ægiligri, og um sig midja í beltisstad, og smyrja sig tídum med gráda. Þeir eru ljósari á hörundit enn Blökkumenn og hafa svart slikjuhár. Sjaldgjæf eru vopn hjá þeim af járni gjör; þeir bera því tré-stángir, sem eru brendar í endan, og ledr-skildi; en fiflsligt ædi, og ógurligr ofsi og hersligt heróp í atrennunni bæta þat upp, er vopnin á-bresta, svo þeim vinst opt sigr á þeim, sem betr eru búnir. Átrúnadr þeirra er litt kunnr; en þat er víst, at þeir blóta Fetisa, túngl, stjörnur, steina og tré þat,

er Banzei kallast; undir því heya þeir þíng sín og af limi þess fletta þeir konúngum sínum kórónur og kransa. Þá stidr er í landi, er allgóð stjórnsemi medal þeirra. Flestar Galla-kynkvíslir idka at eins fjárrækt og eru á sífeldu reiki; en þær, er nú búa í og nálægt Habessiníulandi, hafa numit akr-yrkju og hrossa-eldi, hafa þeir nú riddaralid mikit, og eru þess geigvænligri og verri vidr-eignar. Sidir þeirra eru einkar einfaldir og hjákátligir, t. d. Þá madr festir sér konu, geingr hann framm fyri foreldra brúdarinnar og heldr á grasi í hægri, en mykjuskán í vinstri hendi og sver: at hann skuli henni veita mat og drikk æfi-lángt og sæmiliga útfør — og er þá hjóna vixlan á enda. — Gallar eru rammheidnir, en eru at því Skøggum betri, at þeir hverki eta menn né færa godum sínum mannfórnir.

### 3. Kaffar (Kaffer).

Þeir byggja sudr-horn Afríku eda þann hlutu hennar, er Svarthøfdi at vestanverdu og Lúabó-høfdi vid Zambese-fljóts mynni á Austrstrøndinni, eptir þrádbeinni stefnu, marka takmørk, og kalla menn hann allan med einu nafni: Kaffaland. Hit vestra og mitlands liggja Skaggalønd fyri nordan þat, en at austanverdu Mósambik-strønd. Þat er á þrjá vegu umflotit og er sjóleidinn þar med landi framm 700 mílur milli fyrtédra høfda; þat er nærhæfis 300 mílur at lengd, en nokkut meira at breidd — og hérumbil 70,000 ferhyrn. míl.

at vídáttu. (Sudr-hluta þessa lands, er fyrr-
um kalladist sérílagi Hottentottaland, en
nú heitir Kapland eda Høsdaland, er ádr
lýst). At Kaplandi edr sudr-strøndinni og austr-
jadrinum undanteknum, er Kaffaland gjørsam-
liga ókunnugt Evrópumønnum; því bædi er
þat, at ei hafa landkønnunar-menn þar verit
og fáfrædisligar eru fráságur landsmanna, eins
og sjálfir þeir, um þenna vídlenda geim; en
þat hafa menn fyri satt, at nær hvervetna sé
mikit afl hita í landi þessu, landslagit marg-
breytt, sumstadar afar-vídlendar sléttur, geysi-
miklir skógar og frjóssøm og føgur hérud, —
sumstadar eydisandar, fyrnindi og fjøll, medal
þeirra Lúpata- eda Mána-fjøll hit nyrdra
— og at þar vøkvi landit allmørg vatns-føll,
er falla í vestr, sudr og austr til sjáfar. Inn-
búar lands þessa eda hinir svokølludu Kaffar,
eru taldir ámedal Blökkumanna-þjóda, en eru
þó í mørgu tilliti þeim ólíkir, því hverki eru
þeir svo blakkir á hørundit, flatnefjadir, nasa-
flestir, varaþykkir, frammyntir, né svo ullar- og
hrokkin-hærdir, sem hinir eiginligu Negrar.
Kaffar eru þaradauki stærri, betr vaxnir, þrek-
mari og þolugri enn flestir Negra-kynþættir;
þeir eru og gáfadri, betr skapi farnir og hafa
meiri sidsemdar tilfinníng. Þeir mæla einnig
frábrugdna túngu og kjamsa eda smjalsa mjøg
til ordanna svo varla má greina stafa-hljód, þá
þeir tala. Í tilliti til tregleika, óþrifnadar,
óhóffsemis, hátta og lifnadarmáta eru þeir áþekk-

ir flestum Blökkumönnum, en eru þó yfir höfuð betr at sér og lagvirkari, þó mikils sé þeim ávant. Allr er fatnaðr þeirra af dýra-skinnum og híbýlin af limi gjör og laust. Allmargir kynflokkar Kaffa yrkja jörð og leita sér uppheldis á þann hátt; en fleiri eru þeir, er láta sér nægja með hina einfaldari atvinnu-vegi: kvikfjárrækt og dýraveiðar; sumir lifa at eins af veiðum og ránum, aðrir hafa tekit framförum til menníngar og numit ýmsar handiðnir og íþróttir — og hjá flestum þeirra er þat andsundit, at fremr skortir þá færi og fræðara, enn gáfur og námfýsi, einkum þá þeir sjá at gagn fylgir gjörðri tilraun. Ýmsir hafa kynflokkar Kaffa tekit konúnga yfir sig og gefit þeim misjafnt vald; aðrir hafa at eins nokkurskonar oddvita, er skéra úr málum og hafa lítil umráð, og allmargir hlýða boði og banni Enskra í Kaplandi og Portúgísa, á Austrströnd. Hvat áðr er sagt um átrúnat Negra yfir-höfuð, á og at mestu leiti heima hjá flestum þjóð-flokkum Kaffa; þó eru þeir ei svo fullir hjátrúar og hindur-vitna sem þeir. Meðal kynflokka eðr smáþjóða þeirra, er Koffum eru nákomnar, má þessar telja. 1. Hit vestra búa: a. Zimbebar norðast og í ríki því, er Mataman kallast; þeir eru fátækir hirðingjar. Sunnar búa, b. Namakar, þeir eru nábúar Hottentotta og þeim sérilagi náskyldir, þó stærri vexti, hraustari, skynugri, þrifnari og híbýlaprúðari. Austar byggja c. Betjuanar (eða Betskúanar) víðlendt ríki; því ræðr einvalds-

höfdíngi nokkr, og er þar betri stjórnsemi og skipan enn vídast medal Kaffa-þjóda. Innbúar þess hafa uppheldi af kvikfé og dýraveidum, en hafa mestu óbeit á fiskætum. Híbýli þeirra og fiárhús eru snotrari en annarstadar á Sudr-Afriku og gjøra þau konur einar, sem øll önnur bústørf, því svo er þar sem þvínær hvervetna med villum og hálf-villum þjódum í þessari heimsálfu, at karlfólk at eins stundar víg og veidar. Betskúanar eru manna snotrastir at limalagi, en litlir vexti og dökkmóraudir á hørund. Eigi eru þeir fridsamari enn adrir Kaffar. Sá er sidr medal þeirra, at þeir skéra mágála af føllnum fjandmønnum, bera þá heim á atgeirum sínum sem sigr-merki og snæda þá at aptni med miklum mannføgnudi. Høfudstadr þeirra kallast Kampampan. Forrum var þat stadr, er Litakú hét, er hann nú brotinn og gjøreyddr af nábúum þeirra. Betskúanir eru greindir í 9 kynflokka. Hit sydra búa: d. Hottentottar, (sem ádr er sagt). Medal enna fríu teljast þar: Kainúkar, Hantúmakar, Kóranar og Heussakar eda Geissakar, allir ígrend vid nordrtakmork Kaplands; þeir sídstnefndu eru sagdir mannblendnir, skynugir og starfsamir. Austrhluta Kaffalands byggja, auk allmargra minni kynkvísla. Makossar, í Biri, Inhambane, Sabia, Manika, Sófala og Mónómatapa-ríki. Þar eru og tvø konúngs-ríki, fyri vestan sídsttalin lønd, nl. Skikaka, þar er ógrynni silf-

urs — og Bútúa eda Tóróa, nokkut sunnar; þat er fjárland gott. — Þótt allar séu þjódir þessar af sama ættstofni komnar, missmuna þær þó innbyrdis at útliti, háttum lifnadarmáta og kynsylgju; en mest eru Hottentottar frábrugdnir flestum þeirra.

## V. Eyarnar (Öerne).

Eylønd þau er liggja undir sama himinvegi og Sudr-Afríka, eru bædi í meginhøfum fyri vestan hana og austan.

a. Í hinum Atlantiska útsæ liggja:

1. Elenar-ey (St. Helena); hún liggr einstøk mjøg í reginhafi, 320 vikur sjáfar í vestr frá Svarta høfda og 400 vikur undan Brasilíu-ríkis strøndum; hún er $5\frac{1}{2}$ ferh. míl. at vídáttu, hálend mjøg og hædótt. Þvínær umhverfis ey þessa eru þverhnýptir klettar eda stúdlaberg og má þar því at eins á einum stad stórskipum lenda. Hædsti hnjúkr þar kallast Díønu-bjarg eda fjall (Dianebjærget) og er þat 2700 fóta frá sjáfarhæd. Þar eru dalir margir og fjallaklofar, vída tæpir vegir, stidgøtur og sneidingar, er gángandi menn og rídandi at eins géta umfarit, en hvergi má þar vøgnum aka. Einasti stadr á ey þessari er Jakobs-stadr (Jamestown); hann stendr

við botn viðkynds vogs (Jamesbay) og í mynni Jakobsdals, er blasir mót norðri. Djúpt gil skiptir staðnum í tvo parta og eru tvær byggðir yfir. Þar er eitt stræti með steinhúsa og trjáaraðum báðumegin, kyrkja og varnarvirki, og í dalnum skamt þaðan, hermanna herbergi, spítali og forðabúr mikil. 600 fótum hærra, enn staðr þessi, stendr kastali, er ver skipalegsuna; þángat gengr einn krókóttr einstigr.

Ey þessa fundu Portúgísar 1502 og kölluðu hana eptir degi þeim er þeir komu þar við land, en skeyttu ei um hana, þar þeim þótti hún snauð og hrjóstug. Seinna (1600) eignuðu Hollendingar sér eyuna og tóku þar bólfestu, en Enskir flæmdu þá á brott 1673 og hefir hún síðan verit eign þeirra eða sérílagi hins mikla enska Indíakaupverslunar-félags í Lundúnaborg, er lætr austindíaför sín taka þar vatn og vistir til ferðarinnar. Einkanliga hefir ey þessi orðit nafnkunn af Napóleon keisara, er þar sat í varðhaldi frá Októbermánuði 1815 til 5ta Maí 1821. Hann andaðist á lystislotí, er Lángiskógr (Longwood) kallast og liggr hann greftraðr í forkunnar fögru dalverpi, er margskonar litfagrar og ilmsætar jurtir skreyta. Á leiði þessa nafntogaða mikilmennis liggr slétt og einföld marmara-hella og framyfir þat hánga greinir tveggja tára- eða grátpíla, sem þar eru gróðrsettir ásamt inndælum blómstrum, er Eyarmenn vandliga rækta

til minníngar um, at þeir unnu þessum gofs uga sánga og gésti mikit og hrygdust mjøg vid burtfør hans.

Á ey þessari er allmikill hiti, en þó temps rast hann af hafgolunni; þar er heilnæmt loptsø lag og ákjósanlig vedrasæld. Rigníngar eru þar of-fjaldgjæfar, bædi fyri menn, dýr og gródsku, — og þvínær aldrei er þar skrugguvedr. Eys armenn leggja fremr stund á kvikfjárrækt enn akr-yrkju, því ei má þar plógi vid-koma fyri brattlendis sakir. Þeir eru 3140, auk 2000um varnarlids, at tolu, og flestir enskir at ætt og uppruna. Þar er jarl settr til forráda og er hann jafnframt hersforíngi landvarnarlidsins.

2. Uppstigníngar-ey (Ascension eller Himmelfartsöen); hana fundu Portús gísar á uppstigníngardaginn 1501, og gáfu henni því þetta heiti. Hún liggr í nord-vestr frá Elenar-ey og er 6 míl. ummáls; hún er sáskrúdug af ødru enn skjald-pøddum, er þar veidast sæum. Um lángar hrídir komu fars menn því at eins þar vid land at afla sér skjaldpadda, uns Enskir 1816 tøldu hana med sínum eignum, og gjordu þar virki, er Cocks burn heitir. Mørg eru þar ummerki, er votta at henni sé, álíkt og Elenar-ey, af jardeldas umbrotum af hafi skotit.

3. Hresíngar-eyar (Tristan d'Acunha); þær eru þrjár og liggja þær í sud-vestr

frá Bonar-höfda. Farmadr nokkr, Lambert at nafni, frá Nordr-Ameriku, lagdi þar undir sig 1811, en nú hafa Enskir tekit þar bólfestu.

b. Í hinu Indianska meginhafi liggja:

1. Hinar Komórrisku-eyar; þær eru 4 og liggja þær nordarliga í sundi því, er skilr eylandit Madagaskar og austr-ströndina og almennt kallast Mosambiks-Kanall. Þær eru gódar og gagnaudgar og innbúar þeirra (sem eru 20,000 at tölu) gódlyndir og vidfeldnir; þeir eru Arabar og Blökkumenn at kyni. Þar sitr at ríki höfdingi, er hefir súltans (soldáns-) nafnbót. Vid eyar þessar koma tídum austindía-farar at sá vatn og vistir. Þeirra merkust er Hinzúan eda Anjúan, er sumir kalla Jóhönnu-ey; hún er 18 mílur umináls, fögr, frjóssöm, vedrasæl og harla heilnæm; þar er höfudstadr og konúngs heimili, er Dómóni kallast, tvær mílur frá gódri höfn, er fyrr-nefndir farmenn optast leggja inn á. Hinar þrjár heita Kombórra eda Angazía; hún liggr næst meginlandi. Móhilla og Majótta, bádar skamt frá Jóhönnu-ey. Herskátt er mjög í eyum þessum og fer þeim því heldr hnignandi at manntali og velmegan.

2. Madagaskar (er landsmenn kalla Madekassе ɔ: Mána-ey) liggr 75 mílur, þar er skémst er milli landa, í austr undan Sudr-Afriku og er hit mesta eyland í grend vid þessa heimsálfu. Þat er 225 mílur at lengd, 60 at breidd og 10,500 ferh. mílur at víd-áttu. Lángsetis eptir eyunni midri gengr fjall-gardr mikill, er Raudufjöll kallast, í nordr og sudr milli landsenda, hvørra hinn sydri kallast Sti. María-höfdi, en hinn nyrdri Ambró. Í fjallgardi þessum eru 2 hnúkar hærstir, nl. Vígagóra á nordr-eyunni og Bóstimeni í sydri hluta hennar; annars er fjallgardr þessi óvída hár, en hvervetna skógi-varinn og audugr af margskonar ágætum málmi. Undan hönum renna ár margar og lækir í allar áttir til sjáfar, svo hvergi er þar vatns- né vöxvunar-skortr. Þar eru og stöduvötn ei all-fá, medal þeirra má sérilagi telja Antsianaxa-sjó; í hönum er mikill fjöldi krókodíla. Allvída skérast þar firdir inn í landit; þeirra merkastr er Antúgils- eda Mánga-fjördr, hann er 14 míl. at lengd og enhvør hinn hag-kvæmasti til hafna og skipalégu í heimi.

Þeir menn (einkanligast Frakkar), er á seinni tídum hafa kannat ey þessa, sérilagi austr-ströndina, segja svo frá, at hún sé greind í 12

lønd edr ríki, og sé hvert þeirra sjálst og sritt fyrir annars yfirdrottnan. Í ríki því, er Benjamenaland kallast og nærhæfis liggr á austr-strønd midri, er hinn mesti og sjølmennasti stadr á eylandi þessu, er Andvúrante heitir; þar eru 10 000 vígra manna hvervetna í námundi, þá til þarf at taka. Innbúar þessa lands, (sem einnig kallast Raudaland) eda Raudlendingar, eru gódlyndastir og mannblendnastir allra eyarmanna. Sudr-horn landsins kallast Antaximas eda Sudr-manna-land; þar stendr Dáphins-kastali (Fort Dauphin), er Frakkar gjørdu 1642, og sídan yfirgáfu. Antaximir eru manna verstir vidr-eignar á ey þessari, þjófgéfnir og ill-lyndir klækismenn. Þeim er at þessu likr óaldar-lýdr nokkr, er byggir nordvestr-strøndina, og kallast Sekelavar eda Maratir, þeir eru hinir grimmustu sjórænfngjar, og gjøra þar þeir koma, en verstu nídingsverk, einkum á hinum Komórrisku eyum.

Ei þykjast þeir menn, er at eins hafa kannat nokkurn, en ei allmikin, hluta eylands þessa, nógsamliga hrósat sá fegurd þess og frjóssemi, land-kostum og margbreyttu gædum; hiti er þar at vísu mikill þridjúng árs, en hafgolan temprar hann dagliga — og jafnan er þar vorblída og þvínær hvervetna heilnæmt loptslag. Jardvegrinn er þar svo gódr, at þótt

landsmenn yrki hann lødurmannliga og kunni ei rétta medferd, ber hann þó hundradfaldan ávøxt. Eyarmenn, er sjálfir kalla sig Madegassa, eru af ýmsum kynstofnum komnir og er því mismunr mikill á hørundslit þeirra og vaxtarlagi. Strandamenn eru ljósmóraudir á hørund og kallast þeir hvítir, en upplendingar eru svartir mjøg á húd og hár; þeir vóru þar fyrir, þá hinir svokølludu hvítu menn komu á 16 øld sunnanverdri þar og hneptu þá frá sæ til fjallbygda upp. Hvoriveggju ásamt eru hérumbil 4 milliónir at tølu, og meina menn þá afkomendur Arabíumanna, er smámsaman hafa þángat flutt, og Malaja. Hinir bjartleitari eda Arabar greinast í þrjá høfudflokka, a. Kynkvísl afkomenda Iminu, Múhameds módur (Zaffe-Ramini); þat er hin gøfugasta kynkvísl í landinu; þar til heyra Róhandrianar ɔ: furstar og landshøfdingjar, og bastardar þeirra, er Anakandrianar heita; þessir tveir kynflokkar hafa einka-leyfi til at slátra kvikfénadi. b. Abrahams afsprengi (Zaffe-Ibrahim); þessi flokkr hefir kyn sitt at rekja til Gydínga og margkynjadra sjóræníngja; þeir dýrka hverki Múhamed né kalla hann spámann, heldr Nóa, Abraham, Móses og Davíd; þeir umskéra sig, géfa børnum sínum hebresk nøfn, halda Sabbatsdaginn helgann og færa dýrafórnir. Þeir byggja ey vid eystri strøndina, er Rossi-Ibrahim eda Maríu-ey kallast og strøndina gagnvart henni. Þeir eru vingjarnligir og géstrisnir. c. Kénnata-kynkvísl

(Zaffe-Kassinambu). Hún fluttist þángat seinna enn hinar og kvad hún sig senda frá Mekka til at fræda landsmenn sína og vidhalda medal þeirra Múhameds átrúnadi. Hún hefir og þeskonar störf á hendi, en er lítils metin.

Madagaskarar eru ysir-höfud vidfeldnir og meinlausir, þá ei er á þeirra hluta gjört; en ódælir og styrjaldarsamir, þá íllu er at skipta, og manna slægastir; andlit þeirra er allvel lagat og vidmótit djarfligt. Þeir eru sæmiliga gáfadir, en manna tregastir til at læra þat er krefr umþeinkíngar; þeir eru flestum hálf-villum þjódum fremri at hagleik á allskonar málma og kunna vel at vefnadi og litunarkonst, en samlikir þeim at sáfrædi og ýmsum ósidum. Sumir kynflokkar eyarmanna rækja Múhameds átrúnad, en mjög er sú trú blendin ordin. Mestr þorri þeirra er heidinn, en trúir þó at einn gud sé til ædstr, er Skanhar kallast og og at hann skapat hafi alt hit góda, — og annar hönum gagnstædr, er alls hafi ílls ollat. Paradauki dýrka þeir marga minni-háttar gudi, engla og anda og færa þeim fórnir. Sá er sidr med Madegössum, at menn optsinnis sverjast í fóstbrædralag og verdr þat med þessum hætti: þeir vekja sér blód á vinstra brjósti og láta blæda í bita af eingiferi, víxla bitunum, láta í munn sér og svelgja sídan; at því búnu skjóta þeir spjótum í fjórar höfud-áttir til at fæla íllar vættur, drekka saman af einum bikar salti meingat vatn og nefna svo öll god í vitni og sverja þann eid: at hvor skal annars gagn

og gledi stunda, sem bródur síns — og þeim skuli dryckr þessi at eitri verda og ólisjan, er eidrosi verdr. — Madegasśar grafa dauda med mikilli vidhøfn og gjøra kosa yfir leidinn; í grøfina leggja þeir ymiskonar matvæli, tóbaks-púng, leirskál, reykelsis-kér, lendadúk og belti og setja høfudin af slátrudum og offrudum dýrum á stángir umhverfis kofann. Í flestum ríkjunum á Madagaskar er stórmennis-stjórn í løg leidd; en sumstadar hafa høfdingjar manna-forrád, er konúngar kallast, og er hvervetna veldi þeirra lítit og tignin ómerkilig.

Portúgalverskr farmadr, Lórenz Almeida at nafni, fann eyland þetta 1506 og var þat um hríd ként vid hann og kallat Lórenz-ey. Árit 1642 komu Frakkar þar vid land og ætl-udu at leggja þat undir sig; þeir gjørdu þar fyrrnefndan kastala og tóku upp nýlendu, en þeim vard þar eigi lengi vært, því eyarskéggjar fengu brádla grun um fyriætlun þeirra og gjørdu þeim geig, svo Frakkar máttu fráhverfa. Eins fórst Enskum, er bygdu þar virki, er kallat var Fransheré.

3. Hinar maskarensku eyar. Þær liggja í enum indíaniska útsæ, í austr frá Madagaskar, og eru 3 at tølu. Þær sá portúgalverskr farmadr, Maskarenhas at nafni; á austr-før sinni 1502, en kom þar vid land 3 árum seinna og eru þær sídan vid hann kéndar. Þær eru allar hálendar og allvída fjøllóttar, og hafa jardeldar þeim af hafi skotit;

þó eru þær síðan Frakkar tóku þar bólfestu, ordnar gagnaudugar og ardsamar; flytst þadan margskonar ágjætr varníngr, sérilagi kryddjurtir og austrlanda ávextir, einkanliga ógrynni Kaffebauna. — Hiti er þar mikill, en tídir svindar og rigníngar tempra hann svo, at vel er hann bæriligr, og loptslagit heilnæmt.

a. Búrbon (Bourbon); hún var í öndverdu kollud Maskarenhas, og seinna, þá Frakkar 1654 vóru ordnir þar landfastir, Búrbons-ey (Ile de Bourbon); en þá hin mikla stjórnar-bilting hófst og hin forna kónga-ætt var af landi rekin, kolludu þeir hana Einíngar-ey, og seinna ýmist Bónapartes-eda Napóleóns-ey. Hún er 112 ferh. míl. at stærd, og þvínær kringlótt. Á henni nordanverdri er kaupstadr, er Sti. Denis heitir; þar sitr nýlendustjóri (Gouverneur), er Frakkar hafa þar settan til yfirsóknar. Eyarmenn eru nær 90,000 at tölu. 25 mílur í nordaustr þadan liggr.

b. Móriz-ey (Moriz), er Portúgísar kolludu, þá þeir fundu hana, Cirne, en Frakkar, (eptir at þeir hofdu unnit hana undan Hollendíngum 1721, er hana hofdu átt um hríd og kallat Móriz-ey), kéndu hana vid födrland sitt og hétu Fraklands-ey (Ile de France).

1814 varð hún Enskra eign og kalla þeir hana því nafni, er Hollendíngar gáfu henni. Ey þessi er 55 ferh. mílur, en eyarlýðrinn er 92000 at tølu. Vestan-framm á henni er kaupstaðr, er Loðvíks-høfn heitir; þar sitr enskr nýlendustjóri. 75 mílur í austr þaðan liggr Ródríks-ey (Rodrigo, Rodriguez); hún er litt bygð, en þó byggilig. Hana og ýmarnar: Diegó Garzía og Slaungu-ey, eiga Enskir. Á þeim er skjaldpøddu-veiði mikil og skélfisks-tekja. Í høfum fyrir sunnan Moritz-ey liggja margar eyði-eyar; meðal þeirra teljast: Jóhann af Lissabon, Maríuos, Amsterdammr, Stí. Páll og Kergúelens-ey.

4. Aðmirantes- (eða Aðmíralitets o: Herskipa-ráðs) eyar; þær eru 12 í einum klasa í austr frá Zankebars-strønd og eru þær allar óbygðar; þó telja Portúgalverjar þær með eignum sínum. Kebella er þeirra nafnkendust.

5. Seskella- eða Mahe-eyar; þær liggja í norðaustr frá fyrr-tøldum eyði-eyum og eru 24 at tølu, en at eins eru 3 bygðar; þeirra mest er Mahe; hún er øll skógi-vaxin og auðug mjøg af margskonar ávøxtum; þar elnast einhver hinn besti efni-viðr til skipa;

þar er og skjaldpøddu-veidi mikil og svo mikil mergd allskonar fugla, at óvída finst þvílík í heimi. Pálma- (eda Pálmavidar-) ey gengr henni næst at stærd og lands-kostum; hún er øll, stranda imilli, skógi-vaxin; þar elnast vidr sá, er ber hinar nafnkunnu maldivisku Ko-kos-nytur.

Frakkar tóku upp nýlendu á Mahe 1770, gjørdu þar skans, settu þar sveit vígra manna til landvarnar og drógu mikin ard af góds-vidi, er þar vex, og gard-yrkju; en enskir sviptu þá sídan eyum þessum og eru þær nú þeirra eign.

# IV. Ameríka eda Vestr-Álfa heims (America).

Þessi heims-álfa liggr á þeim helmíngi jardar-hnattarins edr heimskrínglunnar, sem er frá-hverfr eda frá-snýr þeim, sem hér at undan hefir lýst verit, og eru innbúar þessara hálf-hnatta hverir annarra andsætíngar eda þeir snúa iljum saman. — Heimsálfa þessi er kollut hinn Nýi-heimr og ber þat til þess, at hún fyrst fyri rúmum 330 árum vard Evrópumönnum kunn og af þeim skipuliga numin og könnut. At vísu sanna þat fornsögur vorar, at ýmsir Islendíngar hafi þar vid land komit í fyrnsku, géfit löndum nafn og dvalit þar svo árum skipti; en med því at þeir hvervetna vóru of fá-lidadir til at reisa rönd vid ótrúrri þjód og illri vidr-eignar, er þar bjó, stadfestust þeir þar eigi, né tóku þar upp nýlendur, heldr snéru

aptr til ættjardar sinnar og létu sér nægja gædi hennar og búsæld. Madr er nefndr Kristópher Cólúmbus, hann var genúiskr at kyni og adalborinn, en litt fjár-eigandi; hann hafdi frá barnæsku stundat þau vísindi, er siglingamönnum henta, og verit lengi í förum og var ordinn reyndr at drengskap og dugnadi, þá hann bar þá tilgátu fram fyrir ýmsa vitra menn, at ei mundi hinn vestlægi helmingr hnattarins haf eitt og at lönd mundu liggja í höfunum milli Evrópu og Afríku vestr-stranda og Asíu. Fáir gjördu gódan róm at máli hans og enn færri vóru þeir, er vildu hönum lid veita til at fara í landa-leitir vestr um haf, uns Spánar-konúngr Ferdínant hinn kaþólski og Isabella drottníng létu skipast vid þrábænir hans og fengu hönum 4 skip og áhafnar-lid. Cólúmbus lét í haf þann 3 Aug. 1492 frá Palos-hofn í Andalúsiu og sigldi alla leid í vestr þar til hann þann 12 Octob. sama ár sá fagra ey fyri stafni. Hann gékk þar á land med sveipanda sverdi og skrant-búnu lidi, eignadi eyuna Spánar-konúngi, og kalladi hana: Hinn heil. Frelsara (St. Salvador), til minníngar um fengit frelsi úr lifshættu og lángri glæfara-ferd. Því nær allr eyar-múgrinn var þar samankominn,

er Spánverjar tóku land og stardi á nýlundu þessa, og vóru hvorirtveggju nær jafn-efasamir um, hvort menn væri eda ei, er nú sáust í fyrsta sinn. Eyarmenn vóru raudleitir sem eyr á hörundit, gengu allsendis berir, vóru hver-vetna hár-lausir, nema á höfdi, vel-limadir, en mjög var flokkr þessi í hegdan sinni likr skjarri fjárhjörd á afrétt. Þadan sigldi Cólúmbus í útsudr og fann eyland mikit, er villiþjódin, er þar bygdi, nefndi Kúba, en þá Spánverjar ei þóttust finna þar svo mikit gull, sem þeim lék húgr á, lögdu þeir þadan frá landi, stýrdu eptir vísbendíng eyarmanna í austr og sundu, þann 6ta Decemb., eyland þat, er þeir kölludu Hayti, en Colúmbus hét Hispaníólu, og sem nú á dögum nefnist Sti. Dómíngó. Þar lét hann gjöra varnar-virki og lét þar eptir lid og vistir, en fór sjálfr heim til Spánar. Árit eptir (1493) fór hann aptr í landaleit og fann allmargar eyar og á þeim grimmár villi-þjódir og mannætur. Í þridja sinni fór hann 1496 vestr um haf og fann þá strönd meginlands Vest-álfunnar, þar er nú kallast Paria og Kúmana. Um sömu mundir, sem Cólúmbus, var sá madr uppi, er Amerigo (Emmerik) Vespucci hét; hann var fæddr í Flórenz á Vallandi og var stórættadr, vitr madr og sigl-

ingamadr mikill; hann fór sjórum sínum vestr um haf og kannadi meginland ennar nýfundnu heimsálfu. og vard. fyrstr til at rita bók um ferdir sínar og land þetta, er menn á þeim døgum gátu til at vera mundi nokkr hluti Austindianna eda Asíu. En med því at vísindamenn um hríd at eins báru kéusl á hinn svokallada nýa heim af tédri ferdabók, kølludu þeir hann ránglíga eptir rithøfundi bókarinnar: Terra America ɔ: Amerigosland eda Emmeriksland, ístadinn fyrir at kénna hann vid hinn fyrsta landnámsmann og kalla hann: Cólúmbia. Upp frá þessu hóst landnám Spánverja og annarra þjóda vidsvegar í Ameriku, sem sídar skal sagt verda.

Amerika er engri annari heims-álfu lík at løgun; hún er eiginliga tvø afar-mikil meginlønd, er scykiliga mikill fjørdr eda flói atskilr at austanverdu, en íbjúgt eid samteingir hit vestra. Eid þetta er 90 mílr at lengd, en 12 at breidd, þar þat er mjóst. Hún er øllumegin umflotin af megin-høfum; hit eystra af hinum atlantiska útsæ, og at sunnanverdu vid hitaveginn, af hinu ethiópiska hafi; fyri vestan hana er hit kyrra haf eda Sudr-hafit; en at nordanverdu eru endimerkur hennar, ókannadar sakir

ofureflis-kulda, jökla, ísa og snjóa; þó géta menn til, at Ishafit mikla marki henni þar takmörk, og gjöra enskir farmenn nú á dögum tilraun til at finna skipaleid fyri nordan hana til Asiu og Kyrra-hafs. At þann bóginn nær Amerika nærhafis til 80 mælistigs nordlægrar breiddar, en í sudr til 56 mælistigs sudlægrar breiddar. Hún liggr imillum 15 og 175 mælistigs vestlægrar lengdar, og er hérumbil 800,000 ferhyrnings-milur at vidáttu, og 2040 milur eda 408 þingmannaleidar at lengd.

Fjallgardr nokkr feykiliga hár og lángr, gengr frá sudr-horni heimsálfu þessarar og lángsetis med vestr-ströndinni í nórdr og nord-vestr um Sudr-Ameriku, fyrtéda eid og Nordr-Ameriku; greinist hann þar í allmarga minni og lægri fjallgarda, er gánga í ýmsar áttir. Fjallgardr þessi kallast Antis-fjöll eda Kopar-fjöll (Cordilleras de los Andes, þ: Koparfjalla-runa); þau eru hærst vid midjardarlinu, og í landsálfu þeirri, er Qvitó kallást; þar er fjall þat, er Zimbórassó (Tschimborasso) heitir; þat er 19,960 fóta at hæd frá sjóarmáli; þat meina menn sé hit hædsta fjall á heimskringlunni. Í grend vid þat eru 12 hnúkar, sem eru frá 14 til 18 þúsund fóta at hæd, og hálendi mikit, sem er

20 ferh. mílr at víðáttu; á því stendr borgin Quító. Koparfjøll eru eiginliga þrír fjallhryggir, er liggja jafnsíðis og er sá þeirra hæðstr, er í miðit stendr. Víðast eru toppar fjalla þessara snæþaktir vetr og sumar. Út frá fjøllum þessum gánga fjallgarðar miklir um Brasilíuland; þeirra merkust eru Kiqvitófjøll, er skilja lønd þau, sem liggja við þjóð-árnar Maranon og La Plata. Fjøllin í Mexíkó eru einnin áføst við Antis-fjallgarð og eru þau 16,000 fóta frá sjóarhæð; þar eru og hálendar fjalla-sléttur. Í Norðr-Ameríku eru fjallgarðarnir lægri, fegri og grøsugri; meðal þeirra telja menn hin Apalakisku, hin bláu og hin Alleganisku fjøll, er síðar skal geta.

Þat lætr at líkindum, at í landi því, sem liggr undir øllum fimm himinvegum, sé margbreyttr jarðvegr, ýmislig veðrátta og margkynjaðr jarðar-ágóði; víða er þar sendinn jarðvegr, en þó eru þar hvergi sandauðnir né brunasandar; segja menn at þat beri til þess, at þar sé votviðrasamara og rigni helmíngi meira enn í álfum ens forna heims. Þar er einnin meira afl kulda á vetrum; hafa menn þat fyri satt, at í Norðr-Ameríka sé jafnmikill kuldi og í þeim støðum Evrópa, er liggi 15° (mælistigum) eða 45 þíngmannaleiðum norðar. Þessu meina menn at

þat olli, at mikill hluti landsins er enn ó-yrktr, at feykiliga víðlendir eyðiskógar og markland eru þar víða og at jöklar og ísar hit nyrðra kæli mjög loptit. Með því at suðr-helmingr jarðarhnattarins er kaldari enn hinn nyrðri, er þessi mismunr þar því meiri og merkjanligri. Þá yfir alt er litit, er veðráttufarit í þessum hluta heims mjög breytiligt og misjafnt, og veldr því optsinnis óheilnæmis og kránkleika, er verðr bæði innlendum, en þó helst útlendum, at bana. Hinn svokallaða gula kalda (gule Feber), sem sérilagi á heima í þessari heimsálfu, er skæð drepsótt og gjörir ástundum mikit mannfall í þeim löndum, hvar hitinn er mestr. Í þeim landsálfum og tíkjum, er liggja milli hvarfbaugauna alt til 28 mælistigs, er rigningatíð frá Júní-mánuði til Septembers. Ógurligir fellibiljir og stormhviður gjöra þar tíðum mikit tjón, einkum á og nálægt hinum vestindisku eyum.

Af sjóar-hösum þeim, er liggja umhverfis heimsálfu þessa, hverfa allvíða hafsbotnar miklir og stór-firðir inn í meginlandit; meðal þeirra eru þessir merkastir: 1. Baffinsbotn (Baffinsbugt); hann gengr í norðr inn milli Grænlands og tekr nafn af enskum stýrimanni, Baffin at nafni, er þar kannaði strandir og sjóleið

1616. Nokkut austar enn í midjum botni þessum liggr ey, er Jakobsey (James) heitir. Sundit ímilli hennar og austr-strandarinnar eda Grænlands kallast Davids-sund (Stratdavis eda Davisstræde), en fyrir vestan eyuna er Baffins-sund. 2. Hudsonar-botn hverfr í vestr og sudvestr inn í meginlandit og er 14,000 ferhyrn. milr. Umhverfis botna þessa liggja snaud lønd og snæ-fjøllótt mjøg og liggja þar ísar mikinn hluta árs bædi á lá og landi. Af sídstédum hafsbotni gengr fjørdr í sudr, er Jakobsfjørdr (Jamesbugt) kallast, en þrjú eru mynni botns þessa, er inn má sigla frá Baffins-botni, og eru þau kénd vid Hudson, Kumbraland og Forbisher. Høf þessi sudr til móts vid Grænlands sudr-horn kallast sérílagi Skrælingjahaf. 3. Hinn mexíkanski botn (Den mexicanske Bugt) gengr inn frá austri og skiptir þvi-nær heimsálfu þessari í tvo hluti. Í hønum liggja eylønd mørg, stór og smá, er menn sérílagi kalla Vestindiur. Sá hluti botns þessa, er liggr fyri nordan eya-klasa þann, er Antillur heita, kallast hit Karaibiska haf. Í þvi er straumr mikill eda fall, er gengr úr botninum í nordaustr út til Nýa-Fundlands og kallast alment Golfstraumr. Straumr þessi, segja menn

komi af idugligum snúningi jardar um hjara sinn og tídum austan-vindum, er bera vatnit upp í botninn, svo hann belgist upp, en þat fellr út aptr um Bahamasund med hardri rás í fyrrtéda átt. Rost þessi eda sjáfarfall er ýmist 20 eda 30 mílr at breidd og fellr 4 mílr á einni klukkustundu, þar sem hún er stríđust, en verdr því lygnari sem lengra dregr nordr eptir. Vatnit í henni er hvervetna bláleitt og volgara enn í grend vid hana. 4. Kaliforniu-fjørdr (Bugten ved Californien; Mare vermeio); hann gengr inn af Kyrra-haf í nordr inn í landit og er hann 300 mílr at lengd. Fyri vestan hann er meginskaginn, Kalifornía.

Medal enna merkustu skaga eda útnesja í Ameríku telja menn: a) Ís-høfda (Is-Cap) nordastan á vestr-strøndinni, þá b) Printz Wales-høfda, vid Berings-sund; og þar sem Ameríka gengr lengst í vestr; þá c) Mendózin-høfda (Cap Mendocin); þá d) Sti. Lúcasar-høfda (Cap St. Lucas) á sudr-horni Kaliforníu; þá e) Hvíthøfda (Cap Blanco) í Sudr-Ameríku, þar sem hún gengr lengst í vestr; f) Fróvards-høfda (Cap Froward), svo kallast sudr-oddi meginlandsins, en g) Horn eda Horn-høfdi (Cap Horn) hit sydsta nes á heims-álfunni edr á Eldlandi. A

austr-strøndinni eru 3 merkastir, nl. h) Roqva-høfdi (Cap Roque) í Brasilíulandi, i) Sabel-høfdi (Cap Sable) á sudr-strønd Flóridu, og k) Karlshøfdi (Cap Charles) í Labradór.

Auk Davids-sunds, Baffins-sunds og Húdsonar-sunds, hvørra ádr er gétit, eru fleiri sjáfar-sund, um þat svid, er kallast Forbishers-sund fyri nordan Húdsonar-sund, og ímilli eya í mynni Húdsonar-botns, og Kumbralands-sund nokkut nordar. Frá Baffinsbotni hit vestra gengr sund til Nordr-hjara-hafs, er farmadrinn Parry hefir nýliga fundit og kallast Lankastersund. Paradauki er Berings- eda Cooks-sundit, er skilr Ameríku og Asíu. Hit Magelhanska sund, er skilr sydsta hluta Sudr-Ameríku eda Patagóníu og Eldlandit; þat er 110 milr at lengd í austr og vestr, og krókótt mjøg; þar er skipaleidin skiput morgum torfærum. Ígégnum sund þetta sigldi fyrstr allra landaleitunar-farmanna hinn nafnutogadi Magellan 1520 og fann þá jafnframt fyrstr skipaleid þángat í vestr, er Evrópu-menn høfdu skommu ádr lengst komist í austr. Fálkalands-sund skilr tvær eyar, er kallast Fálkalønd og liggja austr undan Patagóníu. Føgru-Eyar-sund (Belle Isle Stræde) er ímilli Nýa-Fundlands og Labradórs.

Með því at atdragandinn er víða feykiliga lángr og loptslagit er þar miklu votviðrasamara enn í þeim heimsálfum, er áfastar liggja á hinu gagnstæða hnattarhveli, þá eru þar og vatnsföll og fljót miklu meiri og stórkostligri; þeirra merkust eru: 1. Missisippi; þat er geysimikil þjóð-á, er fellr út Skjaldpoddu-vatni og rennr í suðr 400 mílr vegar, uns hún kémr til sjáfar í hinn Mexikanska-botn. Í henni er fors mikill, sem kéndr er við Sti Antóníus. Bakkar hennar eru ýmist snauðir og sandar einir, og sumstaðar gróðr-ríkir og skógi-vaxnir. Í hana renna 2 ár miklar, heitir önnr Missúrí, en önnr Ohíó. Missúrí kémr úr norðvestri og eru upptök hennar í fjallgarði þeim, er Stein-fjöll kallast, 1 mílu frá á nokkurri, er Kólúmbía kallast og fellr í hit Kyrra-haf. Misúrí er 240 mílr at lengð og verðr af 3 kvíslum, sem kéndar er við Jefferson, Galatín og Maddison. Ohíó fellr úr norðaustri og er 200 mílr at lengð; hún er bugðótt mjög, einkar fögr og lángtum lygnari enn hinar fyrr-töldu. 2. Sti Lórenz-fljótit; þat fellr úr landsjóum miklum í norðaustr út í viðkéndan fjörð af hinu atlantiska-hafi og er 154 mílr at lengð. 70 mílr frá ós þess, sem er afar breiðr, géta hin stærstu

herskip lagt upp eptir því. Í Suðr-Ameriku eru 3 þjóð-ár merkastar og falla þær allar í hinn atlantiska útsæ; norðast rennr 3. Orinóko; hún fellr undan Gvíanu-fjöllum, ígégnum landsjó þann, er Parima kallast, er bugdótt mjøg og 340 mílr at lengd. Sunnar og í somu átt fellr hit mesta fljót á heimskrínglunni; þat kallast 4. Maranon- eda Amazón-fljót (Skjaldmeyar-á); þat fellr úr vatni nokkru í Kopar-fjøllum, er Laurizhóa heitir, og rennr fyrst med hardri rás og smá-forsum, uns þat nær einkar vidlendum og skógivøxnum sléttum, þá verdr þat lygnt og geysi-breydt. Í þat renna 3 stór-ár, nl. Madeira, sem er 390 mílr at lengd, Ukayale og Svart-á (Rio Negro). Ímillum ennar sídst-nefndu ár og Orinókó gengr affalli, er Kasikviari heitir. Vid ármót Madeiru verdr Maranon-fljót 1 míla at breidd, sídan 3 og 4, og at lyktum vid sæ 15 mílr. 5. Plata-fljótit eda Plotu-á (Silfr-fljót; Rio de la Plata) verdr af 2 stór-ám, er Parana og Paraqvai kallast og sem falla undan Kikvitó-fjøllum, og rennr þat í sudr-átt alla leid til sjáfar.

Stórilagi í Nordr-Ameriku eru landsjóir margir og feykiliga miklir; þeir merkustu eru þessir: a) Efri-sjór (Övresöen), hann er

allra vatna mestr í þessari heimsálfu (1800 ferh. mílr) og jafnframt hinn stærsti ferskvatns-sjór í heimi. Í hønum eru eyar margar, og eru bædi þær og strandirnar umhverfis hann mjøg hrjóstugar; hann er svo ókyrr, þá hvast er, sem úthaf væri. Í hann renna 40 ár, en úr hønum at eins ein móda, er Sti Maria kallast og sem fellr í sudr í b) Húróna-vatn, hvers vestri hluti kallast Miskigans-vatn; þau bædi ásamt eru 1520 ferh. mílr at stærd. Ur Húróna-sjó fellr affalli mikill í sudr, sem kéndr er vid Sti Clair; hann rennr í d) Eríu-vatn (Eriesöen), er liggr í austr og vestr og er 600 ferh. mílr. Ur eystri enda þess rennr mikit fljót, er Niagara heitir, í nordr og fellr í vatn þat er e) Ontarió kall-ast (580 ferh. m.). Ur austr-enda þess fellr Lórentz-fljótit, sem, fyrr er gétit. Í Niagara er samnefndr fórs; þar steypist fljótit nidr af 23 fadma háu og 200 fadma breidu bjargi, med þvílíkum dunum, at í logni má heyra 4 mílr á brott, en skymøkkinn, er upp-stígr af fors-inum, má gjørla sjá 6 mílr þadan. Fors þessi er talinn medal náttúrunnar furduverka. Lands-álfurnar fyrir sunnan þessi nú tøldu 5 miklu vøtn eru vídast fagrar og frjóssamar; en fyri nordan þau er landit fjøllótt og óvída gagnaudugt. Þau

og affallarnir ímilli þeirra ásamt Lórenzá at-skilja hinar ensku og enna nordr-ameríkansku frílanda jardeignir í þessari heimsálfu. Á tedum stór-vötnum hafa nefnd ríki allmörg herskip og þar á-medal línuskip. Í nordvestr frá Efri-sjó er vatn mikit, er Vinnipek (eda Vinnipeg) kallast; þat er 60 milr at leingd og 40 at breidd; úr því renna ár miklar í Hudsonarbotn; en í þat rennr á mikil úr vestri, er fellr úr vatni því, er Assinibóls-sjór heitir. Í nordvestr frá Vinnipeks-sjó er vatn þat, er Prælavatn (Slavesöe) heitir; úr því fellr Makenzi-á, er tekr nafn af frægum landkönnunar-manni, sem árit 1789 kannadi nokkurn hluta nordr-strandar heimsálfu þessarar; áin fellr í nordr út í Nordr-hjara- edr Ísa-hafit. Í Sudr-Ameríku er feykiliga djúpt vatn, er Titikaka heitir; þat er 48 mílr ummáls, og Parima-vatn; í þat og úr því rennr þjódáin Orínókó.

Í þessari heimsálfu er stein- og málmaríkit all-audugt; gull og silfr finst þar (álíkt og í hinum forna heimi), sérílagi í hinu heita jardarbelti, og meta menn þennan ágóda árliga vid 43 milliónir spanskra Speciudala. Þar finst og umvörpum allskonar ó-ekta málmar, en menn særa sér þá óvída svo vel í nyt sem í

Evrópu. Í Brasilíulandi er demant mikill og margkynjadir gimsteinar. Vaxta-ríkit er í Ameríku einkar fjølskrúdugt, því aldrei skortir þar frjófgandi vokva, og hvergi eru í heimi marklønd svo mikil né skógar-tré svo stórkostlig sem þar; en hverki eru hinir sínu ávextir né krydd-jurtir svo frjófar þar né gódar, sem í hinum heims-álfunum; hverki eluast þar hinn fagri pálma-vidr, né Austr-India daunsætu og dyrligu vextir og jurtir; ei heldr þrífst þar vín-vidr til rída nema á einstaka stad, né óranziur; olla þessum vanþrifum sérilagi of-tíd vedrabrigdi; en þarámóti eru þar ýmiskonar vextir, er þar eiga-heima, og sem ordnir eru med Evrópu-mønnum annathvørt sannar eda innbyrladar naudsynja-vørur, t. d. jard-epli (kartoflur), mais, tóbak, kakaó, kínabørkr, mahógni-vidr, litunar-tré o. s. frv. og hafa þeir því flutt þá austr um haf og gródursett í Evrópu, og tímg-ast þeir þar allvel. Í Ameríku hafa Evrópu-menn plantat sikr-reyr og kaffe-vid og fleiri Vexti frá hinum forna heimi. Þar er og ofur-gnægd vidar-úllar, hrísgrjóna, bláśteins, eingi-fers o. s. frv. Dýra-ríkit er þar at vísu all-audugt; en øll eru þar heimalin dýr minni vexti og ó-álitligri enn í hinum heimsálfunum, og þau sem þángat hafa flutt verit, hafa brád-

um úrkynjast, ef ei at vexti og vænleik, þá at styrkleik og fjöri. Þar er eingin dýra-tegund, er komi til jafns vid hina stórkostligu og itur-ligu dýra kyn-þætti, er tíngast í hinum forna heimi; þarámóti eru þar mørg feinfær og þúnglif dýr, t. d. maurbjørn, tapir-dýrit, armadill-dýrit og mikill fjøldi høggorma og slánga. Medal gagnsømustu dýra í Ameriku telja menn Lama- og Vigogne-dýrit.

Med því at flest ríki í Ameríku eru ný-lendur frá Nordr-álfu heims, þá eiga þau sérilagi kaup vid þær þjódir, sem þeim eru náskyldar at ætt og uppruna; þó er kaupverslunin á Brasilíulandi, Hayti og í þeim nýlendum, er á sídst-lidnum árum eru horfnar undan ríki Spánar-kongs, ordin miklu fríari enn ádr, og þau nordr-amerikanisku fríríki reka nú kaup-skap vídsvegar um allan heim. Ameriku kaup-eyri býta menn fyrir Evrópu- og Asíu-varníng, þó eikanliga fyri vefnad og verksmídi austan úr tédum heimsálfum, þar verkstadir og smidjur eru enn því færri og ófjølhæfari í Ameríku, sem akr-yrkjan þarf þar meiri mannhjálpar og atorku.

Medal þjóda þeirra, er byggja þessa heims-álfu, telja menn 1. þá **eiginligu Ameri-kana**, edr þjódir þær er þar høfdust vid, þá Evrópumenn fundu hana; manntal þessara

þjóða fer ár-eptir ár þverrandi; ollir því grimd og manndráp atkomumanna, með þeim kominn margskonar kránkleiki og af þeim numnir lestir, er spilla andligum og líkamligum þrótt og atgjörfi. Þær eru at líkindum í öndverðu komnar frá Asíu, og at vísu eru þær ei ólíkar þjóðflokkum þeim, er byggja þann hluta hennar, er næst liggr Ameriku, eða norðaustr-hornit. Almennast eru þær móraudar á hörundit, en því dekkri er lítr þessi, sem nær dregr midjardarlinu, en hvergi verdr hann þó at fullu svartr. Þjóðir þær, sem nordast búa, nl. Eskimóar og Grænlendingar (Skrælingjar), eru áþekkir innbúum nordr-hjara-landa í Evrópu og Asíu. 2. Evrópumenn, er þar hafa bólfestu tekit, og þeir sem af þeim eru komnir, og Kreólar kallast. 3. Blökkumenn eda Negrar, er Evrópumenn hafa þángat flutt í ánauð, og 4. Mannblendíngar, sem komnir eru af fyrr-nefndum þrem þjóðum; þeir greinast í 3 kýnflokka, er kallast Múlattar (Mulatter), þeir eru komnir af Evrópumönnum og Negrum; Mestizar (Mestizer) af Evrópumönnum og Amerikumönnum og Zambóar (Zambos), þeir eru afsprengi Negra og Amerikana.

Þeir öndverdligu Amerikanar eru deildir í allmarga kýnflokka og mæla þeir því margar

túngr eda maliskur, er menn meina at séu 500 at tølu; en tvø segja sumir séu høfud-túngumálin, er øll hin séu náskyld og af hverjum þau séu leidd, nl. hin tólúkiska eda mexikanska túnga og hit apalakiska eda karaibiska mál. Í nýlendunum mæla landsmenn jafnmargar og samlikar túngr og forfedr þeirra eda þjódir þær, er þángat hafa flutt. Sérilagi fjølgar tala þeirra, er mæla ensku, at því skapi sem Frí-rikin í Nordr-Ameríka auka veldi sitt.

Þeir á-medal enna øndverdligu innbúa Ameríku, sem eru á sífeldu reiki og eigi hafa enn þá varpat sér undir drottnun Evrópumanna, eru allir fetis-dýrkendur; en allmargir af þeim, er hafast vid í þeim løndum og ríkjum, er atkomu-þjódir hafa undir sig brotit, hafa hneigst til kristinnar trúar og eru nú kristnir at kalla. Í sydri hluta þessarar heims-álfu er pápiska edr hinn kaþólski átrúnadr, en í þeim nyrdri hinn protestantiski kristindómr, almennastr medal kristinna manna.

Evrópumenn, er fluttu búferlum vestr í heim, létu sér umhugat vera, at mentir þær, íþróttir og hand-idnir, er um lánga æfi høfdu blómgast í frænda-haga, yrdu þeim samfara til nýkjørinna bústada; þeir stofnudu þær allmargar

vísinda- stiptanir og skóla; er vóru eptirminder þeirra, er sundust í hinum síðaða heimi. Í syrrtèðum Frí-ríkjum og hinum spønsku Nýlend-um má telja allmarga vísinda- og íþrótta-menn. Þeir fríu Indíanar eru fáfróðir mjøg um flesta hluti og hafa at eins tok á at tilbúa vopn þau og verkfæri, er þeir brúka til uppeldis sér, nl. dýraveiða og fiskifánga. Fremri þeim at kunnáttu og handiðnum vóru þeir Amerikanar, er bygðu þau tvø lønd: Mexíkó og Perú, hvør bæði vóru regluliga niðr-skipuð og voldug ríki, þá Evrópumenn komu þar og sirtu þau forni velsemd; þó vóru innbúar hvørratveggju þessara ríkja með øllu óráðir og þektu hverki bókstaf né stafagjørð; at eins brúkuðu Mexí-kanar nokkurskonar minda- eða bílæta-skrift, og fáar hafa menn forn- menjar hjá þeim fundit. Hvørig þessara þjóða bar kénsl á stjørnu-fræði ne tímatal.

Þær kynkvíslir hinna øndverðligu Ameri-kumanna, sem ekki eru enn þá atkomumønnum háðir, taka þá menn til Kasíka (Casiqver) eða høfðingja yfir sig, er þeir áðr á ýmsan hátt hafa reynt at hugrekki og þoli. Nýlendurnar í þessari heimsálfu eru háðar einvøldum þeim í Evrópu, undir hvørra ríki þær liggja og hafa ástundum sætt afarkostum af þeim; hafa því

sumar gengit undan þeim og skiptat frí sambands-ríki, sem sídar skal sagt verda.

Amerika greinist í tvo hluti; kallast hinn nyrdri: Nordr-Amerika (Nordamerica) og hinn sydri: Sudr-Amerika (Sydamerica).

## I. Nordr-Ameríka.

Hún skiptist aptr í 6 parta, nl. A. Löndin vid Baffinsbotn; B. Löndin vid Húdsonar-botn; C. Upplendit; D. Nordvestr-ströndin; E. Kanada, ásamt hinum ödrum enslu Nylendum; F. Fríríkjaveldi; G. Mexikó og hinar spánversku Nylendr. Þessi hluti heimsálfunnar er 320,000 ferhyrnings milr at vidáttu, en innbúar hans eru 20 milliónir at tölu.

### A. Löndin vid Baffins-botn.

Þat eru strandirnar fyrir austan og vestán hafsbotn þenna. Hin eystri er sá hluti Grænlands, sem nú er bygdr, edr vestr-strönd þess; frá henni er ádr sagt. *) Ströndin fyri vestan

*) Sjá þessarar Landaskipunar-frædis sídara parts fyrstu deild, bls. 308 til 320.

botninn er kaldari, snaudari og strjál-bygdari enn Grænland. Innbúar hennar eru Eskimóar eda Skrælingar og eru þeir kynmenn Grænlendínga og þeim líkir at háttum og skapnadi.

B. Löndin vid Húdsonar-botn.

Þau eru þrjú, og kallast Labradór, Nýa-Wales og Printz-Vilhjálms-land.

1. Labradór; þat er feykiliga vidlendr skagi, umflotinn á þrjá vegu, nl. af Húdsonar-botni eda Jakóbsfirdi at vestan, Húdsonar-sundi at nordan, hinum atlantiska útsæ at austan og af Lórents-firdi á sudaustanverdu. Ströndina vid sídst-nefndann fjörd kalladi portúgalverskr farmadr, Caspar Cortereal at nafni, (er fyrstr nám þar land 1500 eda 1501) Labradór eda Labóradór, med því hönum þótti þar vænligt til jardyrkju; en sídan gáfu menn öllu landinu nafn þetta, jafnvel þótt minstr hluti þess samsvari nafninu; því vídast er þat óbrjóssamt og snaudt og annattveggja mjög strjál-bygt eda audt. Fjöll eru þar mikil og hrjóstug, mýrlendi vída, flóar og flár; á einstaka stad eru lágir furu- og birki-skógar; mittlands gengr fjallgardr í nordr og sudr, er þrenníngar-fjöll kallast. Enskir eigna sér land þetta og kalla þat Nýu-Britanníu eda Nýa Bret-

land; vestr-strönd þess kalla þeir hit austlæga meginland (Eastmain). Labradór er 21,000 ferhyrn. mílr at víðáttu. Hinir øndverdligu innbúar þess eru Eskimóar og Indíanar og eru hvorirtveggju ásamt hérumbil 15,000 at tølu. Eskimóar eda Skrælingar hafast vid í grend vid sæ og veida seli og hvali sér til uppheldis. Indíanar byggja upplandit og leggja stund á hreindýra-rækt og dýra-veidar. Þjódir þessar eru svarnir óvinir og fjandskapast hvervetna, þá færi er. Eskimóar eru manna minstir vexti, er menn þekkja á heimsbygdinni; þeir eru 4 fóta háir, flatleitir, varaþykkir og slikjuhærdir; en mjúkir eru þeir og laghendir, áhyggjulausir, gladværir og vidrædisgódir. Enskt verslunar-samband nokkurt (Hudsonsbugt-Compagniet) á sérílagi kaup vid Labradórs innbúa og hefir þar allmørg kauptún. Þadan flytst grávara mikil og safali. Á Austr-strøndinni hafa hinir mærisku brædur tekit upp 3 nýlendr, og kosta þeir kapps um at kénna landsmønnum kristna trú. Fram-undan tédri strønd liggja eyar margar og eru þær á vorum umkríngdar af haf-ísum er þángat rekr undan Grænlands jadri.

2. Nýa-Wales (Nye-Wales) eda strøndin vid Húdsonar-botn vestanverdan, er menn

einnig kalla hit vestlæga meginland (Westmain). Þat er at landslagi, vedraháttum og ødru Labradór áþekt, þó eru í sydri hluta þess meiri og betri skógar enn í sídstnefndu landi. Þeim megin falla vøtn mikil í botnin, en hvergi eru þau skipfær sakir forsa og stridleiks; þeirra merkust er Nelsonar-á og Kurkill; hit sídara deilir landinu í tvo hluti og kallast sá, er liggr fyri nordan þat: Nýa-Nordr-Vales, en fyri sunnan þat, heitir: Nýa-Sudr-Vales. Land þetta er hérumbil 15 000 ferhyrn. mílr; þat fundu tveir enskir farmenn Thómás Bútton og Nelson (1612 og 1613) og kéndu þat vid furstadæmit Vales á Englandi. Þar eru kauptún ei allfá og varnarvirki, er hit fyrrnefnda Hudsonar-botns kaupverslunar-samband hefir þar gjøra látit; þeirra nafnkunnast er Jórvíkr-virki (Fort York), þat stendr á ey í Nelsonar-ár mynni. Ur kaupstødum þessum eru gjørdir menn ut at kaupa gráværu og safala at landmønnum og er sú verslun all-ardsøm. Innbúar lands þessa eru af samlíkum kynstofni komnir og Labradórs-menn og þeim líkir at háttum og skapnadi.

3. Printz-Vilhjálms-land; svo kallast afar-vidlendt svædi, er liggr fyri nordan Húdsonar-botn og fyri vestan Baffins-botn, og nær

alt til hafs nordr. Þat er hit kaldasta og snaudasta land í heimi. A einstaka stad hafast Skrælingjar þar vid, og lifa á dýraveidum og fiski-afla.

## C. Upplönd, eda lönd hinna fríu Indíana. (De indre Lande.)

Svo kallast midbyk eda midhluti heimsálfunnar, er liggr í millum strand-landanna hit eystra og vestra og nær frá Frí-ríkja landsálfunum hit sydra til Ísa- eda Nordr-hjara-hafs nordr; þat er feykiliga vídlendr geimr, hvörs stærd er ókunn, þar hvergi eru þar takmörk mörkud, né landit mælt. Hit nyrdra hallar landinu lánga leid frá Midpúnkts-fjöllum til hafs nordr; þar eru skógar miklir og fagrir; í þeim gánga sjálf-ala hjardir miklar, úr-uxar, hirtir, hreindýr, bisur, hérar, úlfar og birnir. Fyri sunnan tédan fjalla-klasa er landit þvínær hvervetna frjóssamt og loptslagit er þar blídara enn þar á austr-ströndinni, er liggr undir sama himinvegi, eda jafn-nordarliga. Í þessu landi eru og hin svokölludu grýttu og hin glansandi fjöll. Tvær eru þar ár merkastar: Mackenzi-fljót og Koparnámu-á. Vötn eru þar einnig mörg og mikil, t. d. Vinnipek-vatn, Prælasjór o. s. frv. At eins fáar kynkvíslir Indíana leggja stund á akr-yrkju; þar-

ámóti eru dýra-veidar þeirra almennasta idn og atvinna. Sjaldan hefir hvør kynslokkr færri né fleiri enn 1000 vígra manna, en árliga særkar manntalit í landi þessu og ollir því bólusótt, brennuvíns-drykkja og manntjón í styrjøldum og stridum, er Indíanar eiga í bædi innbyrdis og vid adrar þjódir. Þeir eru þrekvaxnir og breid-leitir, inneygdir og hafa jarpt slikjuhár, en því-nær ekkert skégg; þeir eru hraustir og manna mjúkastir, þola vel vos og elju og eru hard-fengir í orrustum; þeir eru lagkænir til margs-konar handidna og smída, en einkar tornæmir og tregir til at frædast og mjøg skilningslausir. Svo þola þeir hinar grimmustu píslir hard-mannliga, at líkara er tilfinningarleysi enn mannligri hørdku, er þeir sýna, einkum þá þeir verda herteknir og mega sæta af fjandmønnum sínum herfilegustu píntinga; medal þeirra má hér sérilagi géta þeirrar sidvenju medal Indí-ana, at þeir rísa sverd af høfdum fánga sinna; vid alt þvílíkt bregdr þeim eigi né kémr kvein af munni. Indíanar vinna klædnat af vídar-ull, hampi og fidri og flestir líkjast þeir at því villiþjódum í Austr- og Sudr-álfu heims, at þeir tatóvera sig. Þeir eru heidíngjar og fullir hjátrúar og villu; þó hafa þeir flestir nokkurs-konar hugmind um eina ædstu veru, er þeir

kalla hinn mikla anda, og um góda og vonda undir-gudi, er eigi þátt í athøfnum þeirra og forløgum. Prestar þeirra eru jafnframt lækn-arar og spámenn. Konum þeirra og kvennfólki er øll strit-vinna ætlud og allar bús-annir. Inn-búar lands þessa deilast eptir afstødu ættbaga þeirra í Nordr-Indíana og Sudr-Indí-ana; þeir fyrri greinast í ýmsa kýnflokka, sem kéndir eru vid: Kopar, Héra, Bifur, Nathana, o. s. frv. Medal Sudr-Indíana eru kýnkvíslir þær, er Zipivear (Tschipi-væer), Nadóvíslar, Missúríar og Kuist-enóar kallast, taldar merkastar. Allar lifa þær hirdingja-lífi.

## D. Nordvestr-strøndin (Nordvestkyst-landene).

Svo kalla menn strøndina, er í vestr veit, alt frá nordustu trúarbodara-stad Spánverja, er Sti Franciscus-høfn kallast, og til Is-høfda nordr. Hún var Evrópumønnum ókunn uns Cook og Vancouver kønnudu hana og lýstu løgun hennar og bygdum. Hún er þvínær hvervetna fjøllótt mjøg og gengr einlægr fjallgardr strandlengis ei allskamma leid frá sæ; at eins landit milli fjalls og fjørn er kaunat af aukomu-mønnum og er þat, einkum hit sýdra, vídast.

frjóssamt og skógi-varit, en hit nyrdra er þat hrjóstugt, kalt og gródalitit, og nordast snjó og ísum þakit. Strønd þessi er vogskorin mjøg og hverfa þar firdir miklir inn í hana. Þar koma og ár margar til sjáfar; þeirra merkust er Kólúmbía, sem ádr er nefnd. Þeir innsæddu landsmenn á strønd þessari eru bædi Indíanar og Eskimóar eda Skrælingar at kyni; hinir syrrnefndu hafa lífs-uppheldi af dýra-veidum; en þeir sídari af fiski-afla og búa þeir hit nyrdra vid líka kosti og Grænlendingar. Á strønd þessari hafa þrjár voldugar þjódir tekit upp nýlendur og gjøra látit kauptún, nl. Rússar hit nyrdra, Enskir hit sydra, og hin nordr-ameríkanisku Fríríki vid Kólúmbíu-mynni, og hefir þær allar þar til dregit næg grávara og sæfali, er þær þadan flytja austr um haf til Kína-ríkis og selja þar med ærnum ardi. Nordarliga á strøndinni gengr skagi mikill 36 mílr í vestr, er Alaska (Alaschka) kallast og vestr af skagatánganum ibjúg eya-rød, er Refa-eyar heita, en hafit fyri nordan þær og hann: Kamskatku-haf. At sunnanverdu vid skagan liggr ey allmikil, er Kódjak heitir; á henni er rússiskt kauptún og mikil grávøru-verslun. Rússar hafa um hríd eignat sér nordr-hluta strandar þessarar, en 1822 lagdi keisari þeirra bann á

løgligan hátt undir veldi sitt og lét þar marka eignum sínum takmørk og bannadi øllum ødrum enn Rússum at eiga þar kaup vid strandamenn. Verslunar-félag nokkurt hefir þar gjøra látit kauptún og sett þar nýlendu-stjóra til yfirsóknar; hann hefir atsetr sitt í stad þeim, er Nýa-Arkangelsk heitir. Strøndinni frá 60° til 45° hafa Enskir skipt í 5 hluti og kallast hinn nordasti: Nýa-Nordfólk, þá Nýa-Kornvallis, þá Nýa-Hanofra, þá Nýa-Georgía og Nýa-Albion sýdst. Þær sídstnefndu landsálfr skilr áin Kólúmbía. Fram undan strønd þessari liggja eyar margar; þeirra vidlendastar eru tvær og kallast hin sydri Vancouver; á henni er enskt kauptún, er Notkasund heitir; en hin nyrdri: Sjarlottu-ey (Dronning Charlottes Öe).

## E. Hin bretzka Nordr-Amerika edr hinar ensku Nýlendur í Nordr-Ameriku (Brittisk Nordamerika).

Þau lønd, er svo kallast, liggja ímilli Húdsonarbotns-landa (hit nyrdra) og enna nordr-amerikanisku Fríríkja (hit sydra); at austanverdu markar útsær þeim takmørk, en upplønd eda landsbygdir Indíana hit vestra; þau eru 14,000 mílr at ferhýrnings-máli. Lønd þessi

eru greind í 7 jarlsdœmi (Gouvernementer), nefnil.:

a. Nýa-Fundland eda Nýfundnaland (á ensku: Newfoundland; á frønsku: Terre neuve ɔ: Nýa-land) er ey mikil, þvínær þríhyrnt at løgun, er liggr austr undan mynni Lórenz-fjardar og er 1650 ferhyrn. mílr at stærd; á henni eru 70,000 innb. Hvort Íslendingar hafi þar í fornøld vid land komit, verdr ei gløggliga af søgum sannat, en víst er þat, at feneyíngr nokkr, Cabot at nafni, fann þat 1497, og hinn fyrrnefndi Cortereal kannadi nokkurn hluta þess þrem eda fjórum árum seinna. Enskir eignudu sér þat 1583 og tóku þar bólfestu 1608. A ey þessari eru hrjóstug fjøll og snæþakin, flóar og forædi; vedrátta er þar óblid og stormvindar tídir og vetr í níu mánudi; er hún því nær hvervetna litt byggilig og mjøg óvida skógi-vaxin. Strandirnar eru vogskornar og strjál-bygdar, en upplendit óbygt og ókannat. Dýraveidi er þar ardsøm, og fiski-afli svo mikill umhverfis hana, at hvergi er þvílikr í heimi. Í sudaustr frá eyunni er fiski-mid mikit (den store Banke), 135 mílr at lengd og 45 at breidd; þar fiska Enskir, Frakkar og Amerikanar; Enskir halda þar 4 til 5 hundrud skipum til fiskifánga og 20,000

manna; afli þeirra er árliga nærhæfis 170,000 Skippund skreidar. Auk allmargra fiski-vera og fiski-hafna umhverfis á eyunni, eru þar tveir kaupstadir merkastir: Placencia og Sti Jóns-stadr, þar hefir jarlinn atsetu og 12,000 innbúar. Undir jarlsdæmi þetta liggr ey sú, er Antikosti heitir, og þær 7 svokölludu Magdalenu-eyar, er allar liggja í mynni Lórentz-ár. Frakkar eiga þar og 2 smá-eyar, er Sti Pierre og Miqvelon heita.

b. Sti Jóns-jarlsdæmi er ey nokkr, sem bædi er kénd vid Sti Jón og Printz Edvard; hún liggr í Lórentsfirdi, skamt frá nordr-strönd Nýa-Skotlands. Hún er 100 ferh. milr. Þar eru 8000 innbúar. Merkasti stadr á eyunni er Sjarlottutún (Charlottetown); þar sitr jarlinn.

c. Jarlsdæmit Nýa-Skotland; svo kalla menn vogskorin og nesjóttan skoga, er Lórentzfjördr hit nyrdra og Fúndyfjördr at sunnanverdu gjöra þvínær vidskila vid megin-landit, svo at eins mjótt eid er í-milli þeirra. Land þetta er 653 ferh. milr at stærd, en inn-búar þess eru 110,000 at tölu. Þar er höfud-stadr, er Halifax heitir; í hönum hefir lands-höfdinginn eda jarlinn atsetu. Þar er gód höfn fyri 1000 skip, verslun mikil og skipabygging.

Við Fundyfiørð er ſtaðr ſá, er Annapólis (Önnuſtaðr) kallaſt; þar er ágæt høfn.

d. Jarlsdæmit: Nýa Brúnsvík; þat liggr fyri norðan hit ſíðſt-talda og við Lórentz-fiørð ſunnanverðan; þat er 1350 ferhyrn. milr at víðáttu, en landslýðrinn er 60,000 at tølu. Merkaſtr ſtaðr þar er Fridriksrún. Bæði ſíðſt-talin lønd vóru til 1713 eign Frakka, er kølluðu þau áſamt: Akadiu. Þar er veðr-áttuſar blíðara enn í Kanada, jarðvegrinn víða ſendinn og óvíða ýrktr nema í grend við hin rennandi vøtn. Skógr er þar mikill og nægar fiſki- og dýra-veiðar.

e. Jarlsdæmit: Bretons-høfði (Cap Breton) er ey nokkr, 112 ferhyrn. milr at ſtærð, (með 3000 innbúum), ſem liggr ímilli Nýa-Skotlands og Nýa-Fundlands. A henni eru ſteinkola-námr miklar og einkar arðſamt út-ræði og fiſki-hafnir margar. Þar eru tveir ſtaðir; heitir annar Sidney, þar ſitr eyar-jarl, og Lúdviksborg, þar er allgóð høfn.

Sá hluti Ameríku, er Kanada (Canada*) kallaſt, er allvíðlendt ríki og liggr þat ímilli

---

*) Spánverjar komu fyrſtir allra atkomumanna þar við land og með því þeim þótti þat ſnaudt og ſtrjálbygt, kølluðu þeir þat: Capo de nada ɔ: Einkis-høfða; af þeſſu orði er: Canada komit.

Labradórs og stórvatnanna, (hvør einnig kallast Kanndu-vøtn), sem ádr er gétit, hit sydra markar Lórentz- eda Lasrantz-á því takmørk; þat er hérumbil 10,000 ferhyrn. mílr at víd-áttu, en innbúar þess eru 500,000 at tølu. At eins sydri hluti lands þessa, einkum vid Lafrants-á er yrktr, hinn er fjøllóttr mjøg og litt fallinn til akr-yrkju. Vetr er þar lángr (nl. frá October til Maii) og kaldr mjøg svo kvikasilfrit frýs, og liggr þó landit undir sama himinvegi og Fránkaríki. Hvervetna er þat heilnæmt loptslag, nema á sumrum vid fyrrtéd stór-vøtn; þar geysar þá tídum banvæn køldu-sótt. Vída er þar fagurt og grøsugt sléttlendi; en hverki er þat yrkt sem skyldi; þar eru og geysi-miklir skógar og flýtst þadan árliga ógrynni vidar, eikar, furu, greni og s. frv. Land þetta greinist í tvø jarlsdæmi, nl.

f. Nedri Kanada eda Qvebeks-jarlsdæmi, þat liggr austar edr nær sæ; þar eru 335,000 innbúar og eru þeir (sem at lik-indum lætr, þar þat lá til 1763 undir Frakka-veldi) flestir franskir at kyni, mæla franska túngu, dýrka Gud á kathólska vísu og halda vid sidu og setnínga forfedra sinna; en litt-mentadir eru þeir og særri eru þeir, er kunna at lesa edr skrifa. Þar er høfudstadr, er Qve-

bekkr (Qvebek) kallast; hann stendr á nyrdri bakka Lafrants-ár og er allmikill og vel húsadr og rammliga víggirdtr; þar er atsetr lands-höfdingjans, eins kathólskks og eins reformerads biskups, og 20,000 innb. Þar er kaupverslun mikil og höfn svo stór, at þar mega liggja 100 línuskip í senn. Á ey í tédri þjód-á stendr allmerkr kaupstadr, er Montreal heitir; þar er ógrynni gráværu samankomit, og 16000 innb.

g. Efri Kanada eda Jórvíkr-jarlsdæmi liggr vestar og takmarkast at vestan- og sunnanverdu af fyrr-tédum vötnum og ósunum imillum þeirra. Auk enna öndverdligu Ameríkana, er hafast vid í bádum þessum jarlsdæmum, búa í þessu nærhæsts 135,000 nýlendumenn, sem eru enskir, skottskir og írskir at kyni og eru betr at sér um flesta hluti enn hinir frönsku ný-búar og halda vid trú forfedra sinna, nl. hina reformerudu. Þar er stadr sá, er Jórvík (York) kallast, merkastr og heimili landshöfdingjans; hann stendr vid Ontarió-vatn. Niagara vid samnefnda á er enn lítill kaupstadr, en ekkst árliga.

Í Kanada búa 5 innlendar kynkvíslir; þeirra fjölmennastir og nafnkunnastir eru Irókeser og Móhavrar; þær hafa gjört bandamannskap sín á-medal til sameiginligrar landvarnar og hafa allmikit lid og er einn kosinn

foríngi allra. Þær kunna at akr-yrkju, vefnaði og hafa kénslu-skóla. Húrónar (er vatnit tekr nafn af) eru þeirra best mentaðir, en tala þeirra fækkar þvínær árliga. Optsinnis elta þjóðflokkar þessir grátt silfr við atkomumenn og verða því Enskir at verja meiri kostnaði til varnar sér enn sem svarar ágóðanum af landinu; þó sjá þeir sinið sinn í at eiga þat, þar kaupeyrir sá, er þaðan flýtst, er þeim einkar þarfr, t. d. margskonar viðr, grávara og matvæli.

## F. Fríríkin í Norðr-Ameríku.
(Den nordamerikanske Fristat.)

Fyrir austan sambands-ríki þetta er hit atlantiska úthaf, en fyri norðan þat liggja landeignir Enskra: Nýa Skotland, Nýa-Brúnsvík og Kanada, efri og neðri, og eru þar landamerki gjör frá Skóga-vatni alt til hafs austr. Í suðr nær þat til hins mexikanska hafs-botns og Mexikó-ríkis, og skilr þar á sú, er Rauðá heitir, löndin, en í vestr ná landeignir þess alla leið til Kyrra-hafs. Þat er 112,000 ferhyrn. mílr at víðáttu. Í löndum þessum er margbreytt jarðvegr og landslag, sem nærri má géta, og fjöll mikil; meðal þeirra má sérílagi telja hin Apalakisku fjöll (sem kénd eru við indianiskann þjóð-flokk) eðr hinn alleganiska fjallgarð, er landsmenn almennt kalla hinn: Enda-

lausa; hann gengr frá Lafrants-ár-mynni út land-norðri í út-suðr alt til hins mexikanska hafsbotns og er yfir 350 mílr at lengd; at dragandinn er lángr bæði at austan- og vestanverðu. Hann er eiginliga þrír fjallhriggir, er liggja samsíða, og hvern sumstaðar fagrir dalir, sumstaðar djúp gil, atskilja, en út frá þeim gánga hálsar og múlar á báðar síður. Undan fjallgarði þessum falla 28 ár í austr, en 40 í vestr. Hæstr er hann í Nýa-Hampskíra, og kallast hann þar Hvítbjorg; þar er fjall þat, er Vasington kallast, hæðst (nl. 6225 fóta). Fjallbygð þessi er frá 30 til 40 mílr at breidd og er hún skógi-vaxin mjøg, en strandlendit fyrir austan hana er hit nyrðra ei allmikit, en breiðkar því meir sem suðr eptir dregr, og er víðast frá 20 til 30 mílr at breidd. Þar eru enn, þótt Evrópumenn hafi þar alllengi búit og kostat kapps um at yrkja jørðina, á ýmsum støðum ó-yrkt landspláts, eyðiskógar og flóar. Landit fyri vestan téðan fjallgarð til þjóðárinnar: Missisippi er hátt, hæðótt og margbreytt, en nær hvervetna gott og frjóssamt og allvíða skógi-vaxit; þó er þar at eins velt jørðu til korns við fljótin, en árliga flytja bændr af austr-strøndinni þángat og mun því bráðum betr skipast. Auk þeirra fljóta, sem áðr eru

talin í Nordr-Ameríku og annattveggja falla ígéguum ríki þetta eda á takmørkum þess, nl. Missisippí, Missúri, Lafrants-á, Ohió o. s. frv., koma þar þessar 6 ár merkastar til sjáfar, nl. 1. Konnektikút, er fellr undan syrtédum Hvítbjørgum og rennr í sjørdinn, eda sundit vid Lánga-Eyland; 2. Húdsonar-á, hún fellr sunnar í sæ vid Nýu-Jórvík; 3. Delavare, hún rennr í vidkendan fjørd; 4. Susqvehanna, hún fellr í Chesapeak-fjørd; í sama fjørd og vid Vasington fellr 5. Pótóvmak og 6. Savanna vid sam-nefndan stad. Auk þeirra þriggja hér nefndu sjarda er Massakúsets-fjørdr.

Menn skipta Fríríki þessu í tvo høfud-hluti, er kallast hin fornu og nýu ríki; þau greinast aptr í minni ríki eda fylki; þau deil-ast á ný í greifadæmi (Countys).

### a. Hin fornu (eldri) ríki.

1. Nýi-Hampskíri (Nye-Hampshire) liggr medal enna nordustu fylkja, nær at eins lítt til sjáfar hit sydra, og er 441 ferhyrn. mílr at stærd. Í landi þessu eru skógar miklir, lítil akr-yrkja og vída strjál bygd, og vetrar-ríki; þar er høfudstadr er Concord kallast, og

kaupstadr, er Portsmót (Portsmouth) heitir; þar er ypparlig høfn, mikill kaupskapr og 7000 innbúar.

2. Massakúsets-fylki (Massachusetts) liggr sunnar, nær til sjáfar hit eystra og er 400 ferhyrn. milr at stærd. At nest vid sæ stendr høfudstadrinn og jafnframt mikill og fésterkr kaupstadr, er Boston heitir; þar eru 43 000 innbúar, er reka kaupskap nær hvervetna um heim og eru nafntogadir skipasmidir, (Bostons-skip eru allra skipa best løgud til gángs og mest vøndud), og gód høfn, er 1800 kaupfør heimsækja á ári hverju, og margskonar handidna-verkstadir og smidjur. J þessum stad er afbragdsmadrinn Franklín fæddr, og þar hófust fyrst sleitr og samveldis-þíng gégn Enskum 1773. $2\frac{1}{2}$ milu í nordaustr þadan stendr Salem; þar er mikil kaupverslun, en stutta leid í sudvestr stendr Kambryggja (Cambridge), þar er háskóli. Eyar tvær, er liggja skamt undan landi og kallast: Nantúcket og Mørtu-Víngardr, heyra til þessa fylkis.

3. Róda-Eyland (Rhode-Island) liggr fyrir sunnan hit sídst-talda og vid sjó hit sydra; þat er 73 ferhyrn. milr at stærd, og minst allra þessara frí-landa, en vel yrkt, flatlendt og gagnaudugt. Inni þat hverfr fjørdr úr sudri

og liggja þar eyar fagrar og heilnæmar; á einni þeirra, er heitir sem fylkit, stendr höfuðstaðr þess, er Nýaport (Newport l. Njúport ɔ: Nýa-höfn) kallast; þar er sigling mikil og kaupverslun. Á meginlandi stendr kaupstaðr, er Próvidence heitir, hann er einhvör hinn fegursti bær í þessu ríki; þar er háskóli og 18,000 innbúar.

4. Konnektikúts-fylki (Connecticut) liggr at vestanverdu vid sídst-nefnt fylki, fyri sunnan Massakúsets-land og vid Lánga-Eylands-sund hit sydra; þat er 217 ferh. mílr at vídáttu, frjóssamt og gagnaudugt land. Innbúar þess eru manna sidlátastir, híbýlaprúdir, og hneigdir til sundurgérdar og skarts, en jafnframt tregir til vinnu. Þar eru 3 kaupstadir, er Nýahöfn (Newhaven), Hartford og Nýa-Lundún heita.

Þessi 4 nú talin fylki kølludust fyrrum einu nafni: Nýa-England. Sökum þess at í þessum svokallada hluta ens nordr-ameríkanska sambands-ríkis eru heit sumur, tímgast þar allvel mais, og er afli þessarar korntegundar einhvör hinn drjúgasti atvinnu-vegr landsmanna. Þótt hann sé hinn fjøll-óttasti og ófrjóssamasti partr ríkisins, er hann engu-at-sídr hinn fjøllmennasti og þéttbygdasti. Þadan flytjast sérílagi: matvæli, vidr og járn o. s. frv.

5. Nýa-Jórvík (Nye-York) liggr fyri vestan Konnektikúts- Massakúsets- og Vermonts-fylki og er í løgun áþekt þríhyrningi,

hvars suðr-horn nær til sjáfar, en at norðan-verðu marka Lafrants-á, Ontarió- og Erju-vatn því takmörk. Fylki þetta er 2167 ferh. milr at stærð, mittlands sjóllótt mjøg, og er nær hvergi svo vel yrkt sem fyrr-talin lønd. Um þat fellr Húdsonar-á i suðr; á ey nokkutri í mynni þess stendr Nýa-Jórvík (Nye-York), þat er mikill og einkar vel húsaðr staðr og hinn mesti og auðugasti kaupstaðr í ríkinu; þar eru 120,000 innbúar, ágæt høfn, háskóli, lærdóms-lista-félag, yfir 20 prentsmiðjur og margskonar verkstaðir. Þar við téða á, er hún verðr svo mikil, at fleyta má stórskipum, og í einkar heilnæmri landsbygð stendr kaupstaðr sá, er Albany heitir; þar eru 12,000 innbúar, flestir þjóð-verskir og hollendskir at kyni. Undir þetta fylki liggr Lánga-Eyland (Long-Island), þat er vogskorin ey, er liggr í austr og vestr og er 44 milr at ferhyrnings-máli.

6. Nýá-Jersey (Nye-Jersey) liggr á strøndinni fyri sunnan síðst-talit fylki, og nær ált suðr til Delavare-fjarðar; suðr-horn þess kallast Mai-høfði. Þetta fylki er 317 ferhyrn. milr at stærð, vel yrkt og gagnáðugt. Þar er Tronton høfuðstaðr, er stendr við á, er fyrrnefndr fjørðr og fylkit tekr nafn af, — og Perth-Amboy, þat er einhver hin bezta

høfn í Vestr-álfu heims. Fylkis-búar eru stark samir þrifamenn, vell-audugr og gestrisnir.

7. Pennsylvania (Penns-skógiendi) liggr fyri vestan þau tvø sídst-nefnd fylki, er serhyrnt og nær nordvestr-hornit til Erjuvatns; þetta fylki 2167 ferhyrn. mílr at vidáttu og fjøllótt, en þó vídast vel fallit til akr-yrkju. Þat tekr nafn af Viihjálmi Penn, titringsmanni (Qvæker), er fékk þat og Delavare-fylki af Karli ødrum, Englands konúngi, til endr-gjalds fyri skuld, er hann átti hjá ríkinu, en seldi þau sídan á vald stjórnar-rádi nokkru, er hann sjálfr hafdi tilskipat. Pennsylvaníu-menn eru af ýmsum þjódum komnir, en flestir eru þó kynmenn Þýdskra; þeir skørudu tídla fram úr ødrum atkomu-mønnum at starfsemi og handidnum, mentum og manndómi; eru þar því margskonar verkstadir og smidjur, og visinda-stiptanir fleiri enn í ødrum þessara smá-ríkja; þeir hafa og yrkt landit med svo ótraudri kostgæfni og atorku, at hvar Penn 1768 fann eydiskóga, heidar, flóa og flár, þar eru nú grøsug engi, blomligt haglendi og frjófsøm akr-lønd. Vedrátta er þar óstødug mjøg og eigi heilnæm, vetr kaldr og heit sumur; hin gula kalda er þar optsinnis mannskjæd. Høfudstadrinn í þessu fylki heitir Philadelphia (o: Bródr-kjærleiki);

hann stendr í ósøgru og litt heilnæmu lands-plátsi vid ána Delavare og 26 mílr frá sæ; þó er þar mikil sigling, því téd á er svo djúp, at hin stærstu herskip géta siglt upp eptir henni alt til bæarins. Borg þessi er sú ønnr mesta og fjølmennasta í Frílanda-ríki og jafnframt ein-hvør hin fegursta borg í heimi; í henni eru stræti breid og þrád-bein, 28 kyrkjur fyri margs-konar trúmenn, 52 prentsmidjur, myntstedji, þjód-skóli, 2 bókasøfn mikil og fjølbreyttar stiptanir til mentunar og fulltingis þurfamønnum, og frama handidnum og verkkænsku. Þar var til sídstu aldamóta háð alsherjar-þing (General-Congressen). Borgarlýdrinn er 108,000 at tølu og er allr fimtúngr hans þjódverskr at kyni. Mitt-lands er Harrisborg (Harrisburgh) vid Susqvehana; þar hafa stjórnar-rádherrar þessa fylkis atsetu. Hit vestra í landinu stendr Pittsborg (Pittsburgh) vid Ohió; þar eru margs-konar málma-smidjur, steinkola-námr í grend vid, og stórkostligir skógar, er þar því skipa-bygging mikil og fara menn á þeim nidr téd fljót, 520 mílr vegar, til Nýa-Orleans og til hins mexikanska hafs-botns.

8. Delavare-fylki (Delaware) tekr nafn af fyrr-tédri á og liggr vid samnefndan fjørd vestanverdan og er at nordan áfast vid

sídst-talit fylki; þat er 80 ferhyrn. mílr at stærd, vel yrkt og gagnaudugt, en ei er þar holt lopts-lag. Þar er høfudstadr, er Dover heitir, og gódr kaupstadr, er Nýi-Kastali (Newcastle l. Njúkéstel) kallast.

9. Maríuland (Maryland) liggr fyri sunnan og vestan sídst-nefnt fylki og bádumegin fyrrtéds Chesapeaks-fjardar, er hverfr í útnordr inn í landit og er víkóttr mjøg, fyri nordan þat liggr Pennsylvanía; þat er 524 mílr at ferhyrnings-máli, vel yrkt og kornland gott. Á døgum Karls hins fyrsta Englands-konúngs kéndi Baltimóri lávardr landit vid Maríu drottníng hans. Þar er hinn þridji mesti stadr í Frílanda-ríki, er Baltimóre heitir; hann stendr vid fyrrtédan fjørd vestanverdan; þar er afar-mikill kaupskapr og høfn svo góđ, at varla mun betri finnast í þeim hluta heims, og 63000 innb. Sunnar vid sama fjørd er Annapólis (Ønnustadr), þat er høfudstadr í þessu landi. Þar er og Belfast, allgódr kaupstadr. Innbúar þessa fylkis eru flestir kathólskir at trú; þeir idka sérílagi akr-yrkju, kvikfjár-rækt og tóbaks-tilreidslu.

10. Virginía (Virginien o: Meyar-land) liggr fyri sunnan sídst-talit fylki og Pennsylvaníu og nær frá hafi hit eystra til Óhíó-

fljóts vestr; bat er 3255 ferhyrníngs mílr at víðáttu, en strjálbygt víða; þó er þar á flestum stöðum frjófsamr jarðvegr. Þar og í þeim fylkjum, er sunnar liggja, er þvínær at eins hinum blökku mansmönnum haldit til vinnu, bæði á akri og engi; en hinir hvítu nýlendumenn neyta ávaxtanna í áhyggjulausu sælliſi og skeyta lítt um mentir og vísindi; at eins þeir ríku láta sér nægja með at setja syni sína í skóla í norðrfylkjunum. Í þessu landi er foræði mikit er hin hræðiliga flá (Dismal Swamp), sjálfgjörð brú eða steinbogi (Rockbrigde) yfir 300 fota djúpt gil, hún er 135 ál. at lengd, — og feykiliga mikill og merkr hellir, sem kéndr er við Maddison. Enskr riddari, Valtari Raleigt at nafni, nam þar fyrstr atkomu-manna land 1521 og kéndi þat við Elizabet, mey-kóng á Englandi, henni til heiðurs og minníngar. Þar er höfuðstaðr, er Richmond heitir; hann stendr við Jakobs-á (Jamesfloden), er ásamt fleirum skiplægum ám rennr um landit til sjáfar austr; í stað þessum eru 15,000 innb. Nær sjó stendr Vilhjálmsborg (Williamsburgh), þar er kaupverslun mikil; þaðan og nær hvervetna frá þessu landi flyzt ógrynni tóbaks víðsvegar um heim. Við mynni Chesapeaksfjarðar sunnanverðt er Hinriks-höfði í þessu fylki,

en Karls-höfði gagnvart honum á suðr-horni Maríulands.

Lítil landeign, er Kólumbía kallast og er hérumbil 4 mílr at ferhyrnings-máli, liggr á landamæri Virginíu og Maríulands, þó svo at meiri hluti hennar er innan Maríulands takmarka og báðumegin við ána Pótovmak. Hana keypti alsherjar-stjórnar-ráð Frí-ríkja (Generalcongressen) at fyrrtéðum fylkjum 1790 og lét, eptir fyrisögn hins víðfræga Washingtons, gjöra þar borg mikla, er vera skyldi höfuðborg í Frílanda-veldi og bera nafn þessa ógleymanliga föðurlands-elskara. Hat valdi þar borgar-staði nærhæfis miðsvegar milli landshorna ríkisins í því skini, at því yrðu hægari stjórnar umsvif á báða vegu. Borg þessi stendr þar við ána, Pótovmak, austanverða, er lítil á, er Tiber (Tífur) heitir og rennr í gëgnum staðinn, fellr í hana. Grundvöllr borgarinnar er 2 mílur ummáls, en ei er hann allr enn hýstr settr. Í borginni eru breið og þráðbein stræti og öll er hún vönduð sem best. Meðal allmargra stórbygginga ber ein af öllum öðrum at stærð og vegligleik, er Capitolium (Hofgarðr) heitir; þat er 70 málfaðma at lengð og 25 at breidd og stendr hærra enn önnr bæar-hús; þat var bygt á allra Frí-ríkjanna kostnað; þar

hefir alsherjar-þíngit hád verit sídan 1800, þá Forsetinn ásamt því fluttist þángat frá Philadelphíu, og sitr hann þar nú í vegligum hofgardi. Upp fyrrtéda á má á stórskipum fara til bæarins, er þar því skipa-koma tíd og kaupverslun allmikil. Þar er og skipa-bygging mikil og herthahús. Þann 24 Augústi 1814 herjudu Enskir á borg þessa, brendu og brældu, og tóku mikit herfáng, einkum hervopn bæarmanna; en nú er sá skadi at mestu bættr. Borgarlýdrinn er 14,000 at tölu, og fjölgar hann mjög á ári hverju. Skamt frá Vasíngton er kaupstadr sá, er Alexandría heitir; þar er verslun mikil og 8000 innb., og Gyrgistún (Georgtown); þar er einnig mikill kaupskapr.

11. Nordr-Karólína (Nord-Carolina) liggr fyri sunnan Virginíu og skilja þar lönd þessi þrádbein landamerki. Frakkar, er tóku þar bólfesti 1560—64, gáfu landi þessu nafn eptir kóngi sínum Karli. Þat er vída slétt og frjóssamt, en sendit vid sæ, og sumstadar mýrótt. Þar er höfudstadr, er Raleigr (Raleigh) heitir, mikill kaupstadr, er Vilmingtún kallast, og Nýa-Bern, er Sveitzar bygt hafa.

12. Sudr-Karólína (Syd-Carolina) liggr fyri sunnan sídst-talit fylki og er 1374 ferh. milr. Þar er mikill og vel húsadr kaupstadr,

er Karlstún (Charlestown) kallast; þar er ógrynni varnings samankomit frá öllum hinum suðlægu fylkjum, — og 25,000 innb. Þetta land er þurrlendara og heilnæmara enn hit fyrrnefnda.

13. Georgía (Georgien ɔ: Gyrgisland) liggr fyri sunnan og vestan Suðr-Karólinu og á-milli hafs og Missisippi. Land þetta er 3400 ferhyrn. mílr at víðáttu, en at eins er fjórði partr þess byggðr. Þar hafa sérílagi Þjóðverskir og Skottar numit land og tekit bólfestu. Hit vestra hafast ýmsar Indíana kynkvíslir við, nl. Krekar eða Kríkar (þeir búa mittlands og eru greindir í efri og neðri Kreka), Isíkasavar, Kattavar, vestar, og Simónólar í grend við suðr-landamærina. Á norðr-takmörkum landsins kémr Savanna til sjáfar, en at sunnanverðu skilr Maríu-á þat og Flóríðu. Við fyrrtéða á stendr samnefndr kaupstaðr; en höfuðstaðrinn í þessu landi heitir Milledgevilla. Land þetta er heitit eptir Georg (Gyrgir) öðrum, Englakonúngi.

## b. Hin nýu (yngri) ríki.

14. Vermonts-fylki (Vermont) liggr ámilli Nýu-Jórvíkr- og Nýa-Hampskíra-fylkis, en fyri norðan þat er Neðri-Kanada og Massa-

kísets-fylki fyri sunnan. Því deila fjöll þau, er Grænu-fjöll heita, (því þau eru hvervetna skógi-vaxin) í tvo jafnstóra parta. Þat er 414 ferhyrn. mílr og víða gagnaudugt. Þar er höfudstadr, er Montpellier heitir, og kaupstadr, er Bennington kallast.

15. Kentúcky-fylki (Kentucky) liggr fyri vestan Virginíu og nær til Misisippi í vestr; þat lá fyrrum undir sídst-talit ríki, en 1792 gjördist þat ríki útaf fyri sig og gékk í félagsskap med hinum. Þat er 1860 ferhyrn. at stærd og vída frjóssamt einkum í grend vid Ohíó, er fellr á nordr-takmörkum þess í Misisippi. Þar er höfudstadr, er Frakkafurda (Frankfurt) heitir; hann stendr vid ána Kentúcky, (hún fellr í Ohíó), og er vel húsadr. Vid sömu á stendr Lexington, þar er kaupverslun mikil og margskonar smidjur. Í þessu fylki finnast vída í jördu kynligar fornmenjar, t. d. stórkostligar beinagrindir af ferfættum dýrum, hvorra líkar ei nú eru í heimi, fornmanna legstadir og sl.

16. Tennessee-fylki (Tennessee) liggr vestr af Nordr-Karólínu (til hvorrar þat fyrrum heyrdi) alt til Misisippi og ímillum sídst-téds fylkis og Georgíu og eru þar á báda vegu þrádbein landamerki. Þat tekr nafn af sam-

nefndri á, (er rennr í Kentúcky) og er 1880 ferhyrn. mílr at stærd; þat vard ríki útaf fyri sig og gjördi bandamannskap vid hin 1796. Þat er fagurt land og gagnaudugt. Þar er höfudstadr, er Murfrisborg (Murfreesborough) heitir, og kaupstadirnir: Nasvilla og Knoxvilla.

17. Ohíó- eda Fögru-ár-fylki (Ohio) liggr fyri nordan Kentúcky-fylki og fyri vestan Virginíu; þat er 1820 ferh. mílr og svo skógi-varit, at menn mega fella markir til brauta og akra. Þar er höfudstadr, er Colúmbus heitir, og kaupstadr vid Ohíó, er Cincinnati nefnist; þar er skipaferd mikil á ánni og ard-söm kaupverslun.

Lovisiana (Lodvíksland) er afarmikit land, er liggr fyri vestan 3 sídst-talin fylki, Georgíu og Flóridu og skilr þar Missisippí laudin. Þat fann spánverskr farmadr, Fernando de Sótó at nafni, árit 1541. Menn hafa skipt því í 2 hluti og kallat hinn nyrdri: Efri-og hinn sydri: Nedri-Lovisíana; nú eru þeir greindir í fleiri frí-ríki og liggja þau öll undir hit nordr-ameríkaniska sambands-veldi. Sérílagi kalla menn nú sudr-hluta þess:

18. Lovisíana eda Lodvíksland (fyrr. Nýa-Orleans), þat liggr fyri vestan Georgíu og

Flóridu, hit sydra vid hinn mexíkanska botn og þar bádumegin vid Missisippi; þat er 2370 ferhyrn. milr at stærd, og vídast frjósamt og gagnaudugt; en med því þar er slatuesk,a mikil og hallinn vídast lítill, er þat agasamt mjøg og eru þar því siki grafin og vatsveitingar-rennr. Þar er høfudstadr, er Ný a-Orleans heitir; hann stendr vid Missisippi austanverdt og 20 mílur frá sæ; þar er ærinn kaupskapr og sigling mikil bædi frá hinum mexíkanska hafsbotni og á fljótunum frá nálægum og fjarlægum landsálfum, og mun þessi stadr brádum verda einhvør hinn mesti kaupstadr í Vestr-heimi. Þar eru 28,000 innb. og eru þeir flestir franskir at kyni; lætr þat einnin at líkindum, því Frakkar tóku þar upp nýlendr 1684 og áttu land þetta til 1762. Þá atsøludu þeir sér þat til Spánar-konúngs, en fengu þat aptr 1800. Þrem árum seinna seldi Napoleon keisari þat Fríslanda-ríki.

19. Maine-fylki (Maine) liggr ímilli Hampskira og Nýu-Brúnsvíkr og nær þat lengst í nordr allra þessara smá-ríkja; innbúar þess hafa því vid ábekka kosti at búa og vetfángsbúar þeirra fyrir austan og vestan; þar er høfudstadr, er kallast Portland.

20. Missisippi-fylki (Missisippi) liggr fyri nordan Loviśiunu og er 4186 ferh.

milr. Þar er høfudstadr, er Monticello kall-ast. Medal allmargra Indiana-kynkvísla, er hafast vid í þessu fylki, eru Kickasaver og Kok-tavar merkastir. Í milli þessa fylkis og Geor-giu liggr:

21. Alabama-fylki (Alabama); þar er Kahavba (Cahawba) høfudstadr.

22. Illínaland (Illinois) liggr fyri vestan Ohió-fylki eda í túngunni milli Missi-sippí- og Ohió-fljóta; þat er gagnaudugt land, en litt yrkt. Þángat flytjast franskir nylendu-menn frá Kanudu. Þar er høfudstadr, er Vandalia nefnist.

23. Indiana liggr fyri nordan Ohió-fylki og Illínaland; þat er 1600 ferh. milr, allvída gagnaudugt, en þó strjál-bygt. Þángat flytjast árliga enskir nýbúar. Þar er Kórydon høfudstadr, og kaupstadr, er Vincennes heitir.

24. Missúrí-fylki (Missuri) liggr fyri vestan Missisippí og bádumegin vid samnefnda á. Þar er stadr sá, er Jefferson heitir, merkastr; hann stendr þar er Ohió og Missisippí koma saman, en Lodvíksstadr (St. Louis) skamt frá armóti Missúrí og Missisippí.

Nú er stuttliga frá þeim ríkjum sagt, sem á skipuligan hátt hafa fríríkis-stjórn í lög leidt og jafnframt gjort bandamannskap sín á-medal;

M

þau eru einnig talin í þeirri röd, sem þau eru vordin limir sambandsins; en nokkur eru þau lönd, er ei má þat um-segja og sem enn at eins hylla veldi þess og eru því hád; þau eru 6, nl.

a. Land þat, er Nordvestr (eda Utnordr) kallast; þat liggr nordast vid fyrrnefnd Kanaduvötn vestanverd. Þar er virkisstadr, er Hovard heitir. Sunnar og ímilli Miskigan- eda Illinesa-vatns og Húróna-vatns liggr:

b. Miskiganland (Michigan); þar er kaupstadr, er Detroit heitir; hann stendr vid ósinn ímilli Húrónavatns og Erjuvatns.

c. Missúraland (Missouri) liggr fyri vestan Missúri-fylki; þat byggir Indíana kynkvísl nokkr, er Missúrar nefnast; þeir kalla at sönnu land þetta eign sína og eru frjálsir forrædis útlendinga, en hafa þó hylt Fríríkja-veldi.

d. Flórida (Florida) liggr ímilli Georgíu og hins mexikanska botns, og er hérumbil 2400 ferhyrn. mílr at víddttu; hún greinist í tvo hluti og kallast hinn vestri: Vestr-Flórida, og hinn eystri: Austr-Flórida; hún er skagi mikill, er gengr í sudr út í fyrr-nefndan botn. Spánskr farmadr, Sebastiano Gabotto fann land þetta 1497, en Ponce le Leon eignadi þat Spánar-konúngi 1512 á pálmadag, er á spánska túngu kallast: pasqua florida; af því

er nafnit komit; en sumir meina at þat sé dregit af grænku eda litfegurd landsins. Þar eru vída fjöll, forædi og skógar, en þó er þat gagnaudugt allvida og vel fallit til akr-yrkju, ef af alúd væri stundud. Spánar-konúngr affaladi sér þat algjörliga 1821 Sambands-ríkjunum, og mun því brádum sjá mega, at þar hafa ordit höfdíngja-skipti. Í Vestr-Flóridu er kaupstadr, er Pensakóla heitir, en í Austr-Flóridu stadr sá, er Sti Augustin kallast, hann stendr vid hinn atlantiska útsæ. Nordar og skamt undan landi liggr ey, er Amelia heitir; þar eru hafnir gódar (eins og vída í þessu landi) og víkinga-bæli. Flóridu-búar eru nærhæfis 20,000 at tölu og eru þeir bædi af Spánverjum, Frökkum, Enskum og Grikkjum komnir, er Enskir fluttu þángat á seinni helmíngi 18 aldar, þá þeir sátu þar at ríki, til at afla fikis. Medal enna innlendu innbúa eru Seminólar merkastir.

e. Land þat er Arkansas heitir; þat liggr umhverfis samnefnt fljót, er rennr úr vestri í Missisippi og er nokkr hluti Lovísiunu ennar miklu. Þar er stadr sá, er Arkopólis heitir.

f. Oregansland, þat liggr vid Kyrrahaf, eda á Vestr-strondinni, þar er Enskir fyrrum kolludu Nýa-Albion og toldu til eignar; en

þat skeyttist 1814 við jàrðeignir Sambands-ríkis. Landit tekr nafn af ánni Kólumbíu, er Oregan heitir öðru nafni. Við hana stendr kaupstaðr, er Astória kallast; þar sitr nýlendu-stjóri.

Þessi 6 lönd, sem nú eru talin, eru enn ei svo fjölmenn, at í þeim verði landsstjórn á sama hátt niðrskiput og í hinum, og eru þau því ei talin ámeðal enna eiginligu frí-ríkja; en alþingis-ráðit hefir þar fult forræði og setr þar nýlendustjóra til yfirsóknar, uns þau magnast svo at fjölmenni og fjárafla, at þau megi gjörast bandamenn hinna.

Misjafnt og breytiligt er veðráttufar í enu norðr-ameríkaniska Sambands-ríki; hit nyrðra er þat allkalt, en hit syðra heitt, þó frjósa þar og einnig ástundum branziur og vínber til skémda. Fyri vestan hinn Apalakiska fjallgarð er hvervetna miklu hlýara og hollara loptslag enn á ströndinni fyrir austan hann; en at því skapt, sem ekrur aukast og vatni er veitt af mýrum og flóum (sem víða eru), hlýnar þar loptit, styttist vetr og fer stríðleiki veðra minkandi. Af oftiðum veðrabrigðum (því opt er þar á einum og sama degi norskr kuldi og afríkaniskr hiti) kémr banvæn landfarsótt eða hin gula kalda, hvör á seinni tíðum hefir heldr í vöxt farit.

Í minni hluta landa þessara hafa menn enn velt jörðu til korns, en þar þat gjörist af alúð, er ágóðin mikill, einkum í enum vestlægu og mið-ríkjunum. Þaðan flýtst viðr mikill og góðr, hör, hampr, humall, viðarull, tóbak (séri-

lági frá Virginíu og Maríulandi) sykr, indígó, járn, eyr, blý, saltpetr, salt, marmari, steinkol og Naphta. Þar eru og á ýmsum stødum málmdámud vøtn.

Mannatalit í ríki þessu var 1790 vart 4 milliónir, en nú er þat yfir 10. Innbúar þess greinast í 3 kynflokka, nefnil. Evrópumenn, medal hvørra Enskir eru fjølmennastir; Bløkkumenn (Negere), sem eru $1\frac{1}{2}$ mill at tølu og Indíanar; af þeim eru vart. 400,000 eptir. Árliga flytr fólk þángat frá ýmsum ríkjum í Evrópu. Medal allmargra túngumála, er landsmenn mæla, eru engelska og þýdska almennastar.

Hvad allskonar vefnadi, handidnum og smídum vidvíkr, þá taka landsmenn dagligum framførum í verkkænsku og vandvirkni, sérilagi hafa ullar- og vidarullar-verkstadir nád nafnkunnum algjørleik. Merkastr stadr í þessu tilliti er Philadelphia. Þeir reka kaupskap vidsvegar um alla heimskríngluna og fer hann æ vaxandi. Skip þeirra eru hin fegurstu, gángbrádustu og mest vøndud í heimi; af þeim eru árliga 12 til 15 þúsund í førum. Í Philadelphíu er einn þjód-bánki eda alþjódligr féssjódr. Merkustu kaupstadir eru: Nýa-Jórvík, Boston, Philadelphia, Baltimóre, Karlstún, Portsmót og Salem. At allvída má skipum leggja upp eptir ám og fljótum, greidir mjøg vøru-flutnínga og verslunar-vidskipti landsmanna; þeir hafa og á ýmsum stødum tekit at grafa skipfær síki milli vatna og vatnsfalla og at leggja

fljótfarna þjóðvegi yfir fjöll og um víðlendar merkur og skóga.

Eingin er þar þjóðtrú í lög leidd og allskonar kristnir trúmenn eru þar í jafn-góðu og samliku yfirlæti; þar eru hérumbil 70 trúarbragða-atgreiningar. Meðal þeirra eru 5 trúarflokkar sjölmennastir, nl. Congregationalistar, þeir eru flestir og eru þeir reformeradir at trú og fylgja sérílagi Calvins reglum og trúar-meiningum; þeir eru ei svo vandlætingasamir né reglufastir í tilliti til kyrkju-siða og aga, sem forfeður þeirra, og láta at eins ástundum prestastefnur skéra úr kyrkju-málum og kénnimannligum málefnum. Þeir hafa 25.000 kyrkjur og jafnmarga presta. Presbyterianar (öldúnga-trúmenn); þeir halda enn við hina fornu vandlætingasemi og reglugjörð, og þykjast eingu kénnimannligu valdi hádir, og hafa því hverki biskupa né prófasta, en láta þá eldstu presta stjórna kyrkju-málefnum; þeir hafa 434 presta, er þjóna 772 söfnuðum (Congregationer). Episcópalar; þeir eru miklu særri og ræktja þeir sömu kyrkjureglur og Enskir, og hafa biskupa, er veita þeim forstöðu í andligum efnum. Methódistar; þeir búa sérílagi hit syðra og mittlands í ríkinu og eru hérumbil 300,000, og Baptistar (Endur-skírarar); þeir búa hit vestra og eru 100,000 at tölu. Í sérhverri grein talinna trúmanna er eitt trúarboðara félag (Missions-Selskab), er senda menn út til heidingja at boða þeim kristna trú, og til nýlendumanna í

fjarlægum landsálfum, hvar enn er vant kénnimanna og eigi er reglulig skipan á-komin. Hver söfnudr velr sér klerka og launar þeim eptir gédþekni sinni; fer því misjafn um velgengni þeirra og velsemd. Mentir, iþróttir og vísindi taka þar allvænliga framförum og eru þar bædi þjódskólar, skólar og ymiskonar vísinda-sliptanir.

Samkvæmt þeirri reglugjörd, er samin var 1787, hafa fyrr-nefnd 24 fri-riki gjört banda-mannskap sín á-medel og eru þau öll ásamt eitt fólkstjórnar félags-riki (demokratisk Foederalstat), ekkert þeirra er ödru undirgéfit, en öll eru þau innbyrdis samteingd. Fyri hinum alþjódligu málefnum ráda medlimir **höfud-rádstefnunnar** eda **alþingis** (General-congressen), er einnig setja lög, og einn **forseti** (Præsident), er annast, at þau séu haldin. Höfudrádstefnan er greind í tvo hluti, kallast annar: **Rádherradæmi** (Senat), en annat: **Fulltrúa-ráđ** (Repræsentant-Forsamling eda Repræsentanternes Huus). Til hins fyrra sendir hvert riki tvo medlimi og hafa þeir þess embættis at gæta í 6 ár í senn; en til hins sídara sendir sérhvert riki, fyri hver 33,000 innbúa, sem í því eru, einn fulltrúa. Þar er og einn hæsti-réttr og er hann fyri gjörvalt rikit. Forsetann kjósa kjörmenn í hverju riki og eru þeir jafnmargir rádherrum og fulltrúum; þessir velja og tvo menn og skal annar þeirra vera útan-rikis; er þá sasnat atkvædum og verdr sá forseti, er í flestum rikjum og af flestum kosningarmönnum er kjörinn. Forsetinn er ædstr

foríngi lands: og skipa-lidsins, má gèfa sakfeldum líf, kvedja til alþíngis, velja sendiboda til annara ríkja og gjöra samninga vid konúnga og keisara í ødrum løndum, þó svo at tveir þridju-partar rádherrana jákvædi framvarp hans. Hann sitr í 6 ár at voldum í senn og má hann, at þeim lidnum, aptr velja, ef svo vill. Eigi má yngri mann velja til þessa embættis enn hálf-fertugann. Í sérhverju ríki útaf fyri sig er stjórnar-formit þessu líkt; einn er fólkstjóri ædstr og gánga hønum rádherrar og fulltrúar til handa í manna-forrádum og lagasetníngum. Í þessu ríki er heidurs-orda, er Cincinnatus-orda kallast, henni útbýtir forsetinn þeim, er á einhvern hátt hafa verdskuldat alþjódligt virdingar- og þakklætis-merki.

Ríkit heldr óvígan hèr, og er hann at eins 10,000, en landvarnarlid þess er yfir þúsund þúsunda at tølu. Þat á 11 línu-skip, 9 fregáttr og 50 minni herskip.

Styrjaldir og trúarbragda-deilr í Englandi og Skotlandi á 16 og 17 øld ollu, at allmargir fóru af landi brott og leitudu sér kyrkju-fridar og heimilis í Vestr-heimi, einkum á austr-strønd nordr-hluta hans. Margskonar torrek bárust þeim í ondverdu at høndum og lengi áttu þeir í stridi vid mikla mædu og ørdugleika (því bædi var yrkja landsins þrauta-mikil og þjódir þær, er þar vóru fyrir, ásæknar og íll-fengar) hlutu þeir því smámsaman stórvægan einka-rètt og nutu vægdar og línkinda af Enskum, uns þeir ordnir vóru audugir at fé og høfdu nád-

miklum þroska. Nú þótti Enskum kornskérutíminn kominn vera og tolldu mjøg ýmsan kaupeyri, er þángat fluttist og þreyngdu mjøg at kostum þeirra. Nýlendumenn, er vanir vóru ordnir vid frelsit, létu illa yfir at sæta þvi og kurrudu um hríd, uns þeir gjørdu samtøk sín á-medal og hófu flókk gégn Enskum. Hófst þá lángvint og strángt strid, er varadi í 10 ár. Medal allmargra søðurlands- og frelsis-elskara, er vørdu fóstr-jørd sína, eru tveir nafnfrægastir, Franklin og Washington (fæddr í Virginiu 23 Februari 1733). Fyri rádsnilli þeirra og støduglyndi, vígkænsku og hreysti, og med fulltingi Frakka- og Spánar-konúnga unnu Nýlendumenn at lyktum frægan sigr, og Enskir máttu láta sér líka á rádstefnunni í Versaljum 1783 at játa þau þá sameinudu 13 ríki frí af sinni yfirdrotnan.

G. Sá hluti Nordr-Ameriku, er lá undir Spánar-veldi. (Det spanske Nordamerika).

Hann greinist nú í tvo hluti, nl. Mexikó-ríki og Gvatimala; og eru þau bædi horfin undan Spánar-konúngi og gjørdust frí-ríki (Republiker) 1821.

I. Mexikó-ríki (Republiken Mexiko).

Þetta ríki liggr fyri sunnan og sudvestan landeignir Frilanda-ríkis, en fyri sunnan þat er

syrrtéd Gvatimala-ríki. Al austan markar því hinn mexikanski hafs-botn takmörk, en Kyrra-haf at vestanverdu; þat er yfir 45 000 ferhyrnings mílr at víðáttu og svo hálendt, at þat liggr 6 til 8 þúsund fótum hærra enn hafit Um þat gánga Antisfjöll úr lands-sudri í útnordr og skiptast þau hit nyrdra í þrjár greinir; hæstu hnúkar þeirra í því landi eru Krizaba, 17000 fóta, og Pópókatepetl, 16000 fóta frá sjóar-hæd; þar eru og eldfjöll mörg. Hit eystra er land þetta lágt og er þar allmikill at-dragandinn til syrt-nesudra fjalla; hit nyrdra eru vída heidar og óbygdir. Merkustu ár, er þar koma til sjáfar, eru North-á eda ánn: Bravó; hún kémr úr útnordri og fellr í hinn mexikanska hafs-botn; hún er hit mesta vatns-fall í þessu ríki, og liggja at henni vída einkar fögur hérud; Kólórado de Kalifornía, hún rennr í Purpura-haf; Sti Jakobs-á, hún rennr í og úr landsjó þeim, er Kapala kallast, og fellr í Kyrra-haf, — og Kólórado de Texas, er féllr í hinn mexikanska hafs-botn. Firdir tveir eda flóar gánga inn í landit, nl. hin Kalíforniski fjördr eda Purpura-hafit (Mare vermejo) edr Cortez-hafit, sem ádr er gétit, og Kampeskju-flói, er géngr í sudr af hinum mexikanska hafs-botni.

Ríki þetta greinist nú á dögum í 15 landsálfr, nl. Gamla-Kalifornía, Nýa-Kalifornía, Nýa-Mexíkó, Sónóra, Dúrangó eda Nýa-Biskaja, Sti Lodvíks-Pótósí, Gvadalaxara, Zakatekas, Gvanaxúato, Valladólíd, Mexíkó Puebla, Vera-Krúz, Oaxako og Merída eda Yúkatan.

Í landsálfunni Mexíkó stendr höfudborgin í þessu ríki, er atkomumenn kalla Mexíkó, en hinir sndverdligu landsmenn: Tenochtitlan; hún er bygt á aurmált ennar fornu borgar, er Cortez braut og brendi 1521 og stendr hún ámilli tveggja vatna allmikilla, er Tezkúkó og Xochimilkó kallast; hún er 3 mílr ummáls og fernhyrnt, mikil og vöndut at allri smíd; þar eru margar stór-byggingar, klaustr og kyrkjur, medal þeirra er dómkyrkjan, er stendr þar er ádr var godahof mikit, hin vegligasta; þar hefir stjórnar-rád ríkisins atsetu og erkibiskup; þar er og háskóli, tóbaks-tilreidslu-stadr, þar eru 7000 til verka settir, og myntstedji, þar hafa menn sídan sndverdliga á 16 öld slegit 6,500 millíónir af gulli og silfri. Borg þessa ver kastali, er Ullóa (St. Juan d'Ulloa) heitir og stendr hann skamt þadan; í henni eru og 2 vatnsleidíngar miklar og merkar.

Á vestr-strøndinni stendr kaupstadr, er Akapúlkó (Acapulco) kallast. Þar er høfn ágæt.

Í landsálfunni Vera-Krúz, (er sunnar liggr enn Mexikó) er samnefndr og nafnkunnur kaupstadr; hann stendr vid hinn mexikanska hafs-botn og er allmikill; þadan lagdi árliga hinn svokalladi silfr-floti í haf. Þar er kastali, er Ullóa (St. Juan d'Ulloa) nefnist, og atsetr 16,000 innb. Þar tók Cortez land 1518.

Í landsálfunni Púebla er velhúsadr kaupstadr, er Púebla heitir; þar eru 35,000 innbúar. Í indianisku ríkiki nokkru er stadr sá, er Tlaxkalla heitir.

Í landsálfunni Gvadalaxara er samnefndr høfudstadr; þar eru 20000 innbúar og háskóli.

Merida edr Yúkatan kallast skagi nokkr, er gengr út í hinn mexikanska hafsbotn milli Kampeskju-fjardar (hit nyrdra) og Hondúras-flóa (hit sydra) og gagnvardt vestrlandsenda eyunnar Sti Domingó. Á nordrstrøndinni stendr kaupstadr, er Merida (Merida de Yucatan) heitir, og annar, er Kampeskja (Campeche*) l. Kampezé) kallast.

---

*) Nafn þetta er samansett af tveim ordum, nl. Cam, slánga eda høggormr, og peche, er þydir eitt lítit skorkvikindi.

Enskir eiga þar nýlendu, er Balize heitir; þar eru mahógní- og litunar-vidar skógar miklir og ardsamir.

Land þat, er Nýa-Mexíkó kallast, liggr austast eda næst Fríland-jardeignum og er allmikit at stærd, en óvída gagnaudugt né bygt, nema í grend vid árnar, er um þat renna í landsudr til hafs. Kvikfjárrækt er þar nær einasti atvinnu-vegr landsmanna og nokkr tóbaks-yrkja. Þar er høfudstadr, er Santa-Fé heitir, hann stendr vid fljótit Northe.

Meginskagi sá, er Kalifornía kallast ásamt strøndinni vid Kyrra-haf, er liggr nordr af hønum, greinist í tvo hluti og kallast hinn sydri edr sudrhluti skagans: Gamla-Kalifornía, því þar tóku atkomumenn fyrst bólfestu og héldu þat lengi eyu vera, uns þeir fluttust lengra nordr og fundu at skaginn var áfastr meginlandi; kølludu þeir þá nyrdri hlutann: Nýu-Kaliforníu. Hit sydra er skagi þessi sendinn og þurrlendr mjøg, en hit nyrdra frjófsamr og heilnæmr; hann er allr 2626 ferhyrn. milr at vídáttu, en manntalit er þar at eins 9000; Cortez fann hann 1536 og høfdust þar þá, sem enn, Indíanar vid, er kalla sig Muqvis og greinast í allmargar kynkvíslir. Í gømlu-Kaliforníu eru 15 trúarbodara-bæir, medal þeirra er Lóretto nafnkendastr; en í Nýu-

Kaliforníu einn merkastr, er Sti Franciscus stadr (St. Francisco) kallast, þar er góð höfn og kaupskapr. Í þessu landi hafa grámúnkar tekist kristnibodit á hendr og eru þeir vægir vid heidingja og kénna þeim akrýrkju, vefnad og ýmsar handidnir.

b. Frí-ríkit Gvatimala. (Republiken Guatemala.)

Þat liggr fyri sunnan Mexíkó-ríki og er sá partr midhluta heimsálfu þessarar, þar mjóst er landit eda eidit, er samtengir meginlöndin. Þat er 15,500 mílr at ferhyrnings máli og greinist í 15 landsálfr edr fylki. Landslýdrinn er 2 milliónir at tölu. Loptslagit er heitt og votvidrasamt, en jardvegrinn nær hvervetna einkar frjófsamr; þadan flýzt sérílagi Indígó og Kakaó. Antis- eda Kordilleras-fjöll gánga ígégnum landit í nordr og eru í þeim allmargir hnúkar, er ástundum gjósa eldi. Vatn er þar mikit, er Nikaragva heitir; þat er 440 ferh. mílr at stærd og rennr úr því á í austr í hinn mexíkanska hafs-botn; hit vestra er skömm leid til Kyrra-hafs; hafa því audmenn nokkrir tekit sig saman og láta nú grafa síki úr vatninu vestr til fyrr-téds hafs, svo þar megi á skipum fara nefndra meginhafa ímilli. Í frí-ríki þessu

er höfuðstaðr, er Nýa-Gvatimala heitir; hann stendr 4 mílr frá aurmáli ennar fornu höfuðborgar, er Sti Jacobs-Gvatimala hét, og hrundi af jarðskjálfta í grunn 1774; þar er háskóli, atsetr erkibiskups og 45,000 innbúa. Við fyrrtéð vatn stendr kaupstaðr, er Granada heitir — og í suðaustr þaðan, við hinn mexíkanska hafsbotn, Carthagó.

Á ströndinni við Hondúras-flóa sunnanverðan býr þjóð snerrin, er Mosqvitar kallast; þeir hafa varit frelsi sitt fyri Spánverjum, en varpat sér undir vernd Enskra, er einir fá lof at hafa verslunar-viðskipti við þá, og eiga þeir þar arðsamar nýlendr og ei allfá kauptún, og flytja þaðan sérílagi mahogni-við og litunar-tré.

Syðsti hluti þessa rikis eðr þar er eiðit er mjóst, kallast Panama eða Daría; þar gánga há granít-fjöll í út og suðr og má því ei þar fikis-grefti við-koma.

Í þessum tveim ríkjum skytr mjög í tvö horn um loptslag og veðráttufar; á fjöllum uppi er opt bitr kuldi, á hálendinu temprat loptslag og við sæ ofr-hiti og tíð votviðri; ollir þat óheilnæmis, einkum í grend við Vera-Krúz, og allvíða ennar gulu söldu, sérílagi á austr-ströndinni. Þrumur, fellibiljir og jarðskjálftar eru þar tíðir.

Í Mexíkó-ríki er náttúrunnar auðlegð mikil, einkum er málma-ríkit forkunnar auðugt; í enu gamla Mexíkó finnast á ári hverju 7000 merkr gulls og $2\frac{1}{2}$ millíón merkr silfurs

eða fimm mill. dansk. Spec. Þar eru og allskonar aðrir málmar. Sérílagi hafa Spánverjar lagt stund á málma-gröft, (þó ei til hlýtar), en vanrækt akr-yrkju; þar eru 500 námr og í þeim þrælka 30 þúsund enna endverðligu landsmanna eða Mexikana. Waxta-rikit er þar einnig sjölskrúðugt, og með því at þar er margbreytt loptslag, tíngast þar samlíkar og nær jafn-margskonar kornetegundir, aldini, jurtir og ávextir, sem í Evrópu, Austr-indium og annarstaðar í þessari heimsálfu; þaðan flýzt því hveiti, hrísgrjón, mais, sykr, viðar-ull, tóbak, indígó, kakaó, vanilja, engifer, gummi, kópaiv-balsam, óranzjur, maniok, agave (af því gjöra menn vín), kampeskja, mahógni-, gujak- og jalappe-viðr, písang- eða banauas-tré, er fæðir mikin fjölda fólks og er einhvör hinn drjúgasti jarðar ávöxtr til mannfæðis í heimi, o. s. frv.

Verkstaðir og smiðjur eru þar enn ei til hlýtar, hverki at fjölda né gæðum. Landsmenn eiga kaup við Evrópumenn og Austr-índia-búa, sérílagi í og frá þeim kaupstöðum, er standa sinn á hverri strand, nl. Vera-Krúz og Akapúlko. Í hinum fyrr-nefnda er markaðr mikill meðan siglingin yfir-stendr úr austrheimi eða Evrópu og menn víxla varningi þessara heims-álfa; koma þá lestir miklar af landi ofan og er þar kaupeyrir í og úr kaupstað á múlum borinn. Fyrrum voru landsmenn skyldir, at eins at eiga kaup við Spánverja, en nú eru þeir í því tilliti einnig sjálfsari vorðnir og hafa Frílanda-

veldi og Englands konúngr gjört við þá kaup-verslunar-sáttmála.

Hin kathólska trú er þar í lög leidd meðal allra atkommanna; til hennar hefir og allmik-ill þorri enna öndverdligu innbúa edr Indiana hneigst, og hafa þeir jafnframt numit ýmiskonar handiðnir og mannænuliga siði. Oddvitar alls kénnidóms eru 8 biskupar og einn erkibiskup, sem kéndr er við Mexikó, og sitr í höfuðborg-inni. Klerkar eru þar ei færri enn 14,000. Iþróttir og vísindi vóru þar fremr stunduð enn í öðrum spánverskum Nýlendum og enn er svo í tveim háskólum, nl. í Mexikó og Gvad-alaxara, og í ei allfáum minni skólum.

Síðan 1821 géck þessi hluti landeigna Spánar-konúngs fyri vestan haf undan veldi hans og gjördist tvö frí-ríki (Republiker *). Fyrrum var í Mexikó Vice-kóngr settr til yfir-sóknar, (hann skyldi hvervetna vera spánskr Grande eða stórmenni at kyni), en í Gvatimala alsherjar-fólkstjóri (Generalcapitain) og vóru þeir báðir jarlar Spánarkonúngs og fulltrúar; hverigr þeirra sat lengr á þessum hefðarstóli enn 5 ár í senn.

---

*) Herforíngi nokkr, Itúrbíde at nafni, vas-aði þar í völdum um hríð, nefndi ríki þetta keisaradæmi, tók keisara-nafn og lét sig kalla Augustinus hinn fyrsta; en með þá at einveldi hans var lítt við alþýðu skap, veltist hann bráðliga úr völdum og mátti fara af landi brott.

Í Mexíkó-ríki er landslýðrinn 8 millíónir at tølu; hann er margkynjaðr, og fjølbreyttr at hørundslit; þar eru bæði hvítir menn og blakkir (frá Afríku), Kreólar og Mestízar (: afspreingi Evrópumanna og indíanskra kvenna), Poitos eðr indíanskir þrælar og hinir øndverðligu landsmenn, Indíanar eða hinir gømlu Mexíkanar. Þeir síðstnefndu eru tvenslags, nl. þeir sem síðast hafa og samit sig at háttum nýleudumanna, og hinir, er ei hafa enn ratat þjóðgøtur til eðlis-batnaðar og góðra siða; þessir lifa frjálsir og fríir í fjallbygðunum og á heiðunum hit nyrðra í landinu; þeirra merkastir eru Apakar, er búa við vestr-landamæri Lovisíunu og eru harðsengir í orrustum; þeir lifa af dýra-veiðum og ránum; — hinir eru at vísu frjálsir, en þó háðir atkomumønnum og undirorpnir ýmsri þjóukan og kvøðum og sæta opt afarkostum af þeim. Enn-þá greinast þeir, sem tilforna, í tvær stettir, kasika (herra) og bændr, og eru hinir fyrri valdir til dómara og presta, er hafa manna-forráð í þorpum þeirra og á landsbygðinni. Afkomendur þessir enna fornu Mexíkana mæla 20 málískur og eru 2 af þeim hinar almennustu, nl. hin mexíkanska eða aztekiska og hin ótómitiska túnga.

## II. Suðr-Ameríka (Sydamerica).

Þessi hluti vestr-heims er hérumbil 350,000 ferhyrnings mílur og greinist í 11 hluti, nl. Frí-

ríkin: A. Kólumbía, B. Perú, og C. Kíli, D. en sameinudu Frí-lønd, E. Brasilíu-keisáradæmi, enar F. frønsku, G. ensku og H. hollendsku landeignir (á meginlandi), I. Patagónía, K. Indíanaland og L. Eyarnar.

## A. Frí-ríkit Kólumbía (Republiken Columbia).

Þetta ríki liggr vid hinn mexíkanska hafsbotn sunnanverdan eda hit svokallada karaibiska haf og nær alt til Svíanu austr; fyri sunnan þat liggr Brasilíu-ríki og Perú, en at vestanverdu markar hit Kyrra-haf og Svatimala-ríki þvi takmørk. Þat er 63,600 ferhyrníngs-milr at stærd. Hit vestra gánga Andes, eda Kopar-fjøllin um ríki þetta og eru þar, einkum í landsálfunni Qvító, einna hærst; at Zimbórassó (sem ádr er gétit og sumir segja sé 21,440 fóta at hæd frá sjáfarmáli), undantekmu, eru þar 3 fjøll hærst: Píkinga, Kórasson og Túnguraga. Í landsálfu þeirri, er Kúndinamarka heitir, deilist fjallgardr þessi í 3 greinir og kallast hin austasta þeirra Venezuelu-fjøll; synnr gengr vestar at sæ fram þar sem heitir Veló-høfdi; hann er hinn nordasti oddi

í Suðr-Ameríku. Ei eru eldfjöll fá í þessu ríki, og gjósa þau tíðum; eitt af þeim spýr nokkurskonar fiska-kyni, er finst í tjörnum í grend við fjallit; fjall þat, er Tótópaxi heitir, gýs opt ógurliga. Um ríki þetta renna þriár þjóð-ár og eru þær allar feykiliga miklar: a. Magdalenu-á, hún fellr undan Antis- eda Andes-fjöllum 200 mílr vegar, í norð-austr, og rennr í 6 ósum í hit karaibiska haf. Austar kémr b. Orínókó til sjáfar í allmörg-um ósum úti í hit atlantiska haf gagnvart Þrenningar-ey (Trinidad). Affalli afarmikill, er Kassiagari eda Kasíkviari kallast og Svart-á (Rio Negro) samtengja fljót þetta og Skjaldmeya-á, og er eylandit, sem á þessa lund er á þriá vegu umflotit af téðum fljótum, en af hafi at austanverðu, næst eptir Nýa-Holland, hin víðlendasta ey í heimi. Báðu-megin við Orínókó er sléttlendi mikit (Savanner), sem er hérumbil 14,000 mílr at ferhyrn-máli; yfir þat flæðir fljótit, þá rigningar gánga og verðr þá 25 mílr at breidd, en hvervetna er þat lygnt mjög. c. Maranon eda Mar-agnon er hit stórkostligasta vatnsfall í heimi; í þat renna 60 ár og eru sumar af þeim ei minni enn Volga og Dunn (Donau), t. d. Júpúra, fyrrnefnd Svart-á og Madeira.

Eptir at síðstéð á hefir í Maranon runnit, er þat kallat Amazón-fljót eða Skjaldmeyaá og breiðkar úr því svo mjøg, at þat fremr líkist allbreiðum firði enn fljóti; þat er nærhæfis 1000 mílr at lengd. Í mynni þess eru eyar tvær, er Kaviana og Júanez heita. Meðal allmargra stoðu-vatna í ríki þessu eru þar tvø merkust: Marakaibó-sjórinn, úr því rennr ós í víðkéndann fjørd — og Parima, er Orinókó rennr í og úr; þat meina menn at sé at eins flóð af téðri á, þar sem sléttlendit er lægst og hallinn eingi. Ur vestri eðr af Kyrra-hafi hverfa firðir tveir inn í landit; heitir annar Panama-fjørðr (þar sem eidit er mjóst) og annar Gvajaqvíl-fjørðr, hann skérst inn skamt fyri sunnan miðjarðarlínu. Hit eystra gengr Daríu-fjørðr af hinum merikanska hafsbotni í suðr, og austar Marakaíbó-fjørðr, sem fyrr er nefndr.

Fyrrum greindist þessi hluti landeigna Spánar-kóngs í Suðr-Ameríku í þrjú ríki (Provindser), er kølluðust: Nýa-Granada, vestast, þat var kallat kongsríki, þá hofdingjadæmit Karakas og Gviana (Guyana) austar; en nú síðan frístjórnin hófst, er hann deildr í 9 fylki (Departementer), er kallast: Orinókó, Venezúela, Súba, Rojakka

Kundinamarka, Kanka, Magdalena, Qvitó og Panama. Þenna hluta kölludu Spánverjar ytrhöfud: Terra-firma, (ↄ: meginland) en þó sérílagi þá landsálfu, er næst liggr Daríu-eid hit sydra.

Merkustu stadir í þessu ríki eru: Bógóta (Sancta-Fe de Bogota), þat er höfudborg í Kólumbíu-ríki og hefir þar stjórnar-ráð ríkisins atsetr; þar eru 30,000 innb. Fyrrum var borg þessi höfudstadr í Nýu-Granada og stód nærhæfis mittlands í henni; sat þar þá Vice-kóngr, er í því ríki var settr til ytirsóknar. Í sudvestr þadan er stadr sá, er Pópajan kallast, hann stendr í Antis-fjallbygd; þar eru 35,000 innb. Í honum eru smidjur margar og í grend vid hann ardsamar námur. Qvitó er sunnar, og stendr í hlíd eldfjalls þess, er Pikinga heitir, og þvínær undir midjardar-hring; bærinn liggr allra borga hærst í heimi (n. 8772 fótum hærra enn lá-slétta); þar eru kyrkjur margar og audug munklist — og 70,000 innbúar. Þadan gengr einlægr þjódvegr yfir feykiliga mikil fjöll og djúpa dali til Kúskó, er Inkar höfdu lagt ádr þángat-komu Spánverja, og er hann eitthvert hit mesta stórvirki. Í útsudr frá Qvitó stendr kaupstadr sá, er Gvajaqvil heitir, vid fyrrnefndan fjörd; þar eru 10,000 innb. Sydstr

hit vestra í ríki þessu er Kúenka; þar eru 30,000 innbúar. Panama er kaupstadr á samnefndri eid vestan-verdri; þar eru 12,000 innb. Á strøndinni, sem í hánordr veit, eda vid og skamt frá hinu karaíbiska hafi eru þessir stadir: Portóbelló (Fagra-høfn) heitir kaupstadr, er stendr vestast, og á Daríu-eid austanverdri; þar er høfn gód. Austar stendr Kartagena vid einn af ósum Magdalenu-fljóts; þar er høfn ágæt og 20,000 innbúar. Austar er kaupstadr sá, er Martha heitir, og annar í sudaustr þadan og vid ós, er rennr úr Marakaibó-vatni í vidkéndann fjørd vestan-verdan, er Marakaibó kallast. Lánga leid í austr þadan stendr Karakas (Caracas eda Leon de Caracas), þat er mikill kaupstadr og var fyrrum høfudstadr í samnefndu jarlsdæmi; þar eru 40,000 innbúar. Þrjár mílr þadan er høfnstadar þessa, er Gvayra heitir. En austar stendr Kúmana, skamt frá Kariókófirdi, er gengr úr vestri inn milli skaga nokkurs og meginlandsins; þat er hinn elzti stadr, er Spánverjar hafa gjøra látit í þessum hluta heimsálfunnar; þar eru 18,000 innbúar.

Í þeim hluta strandarinnar fyri sunnan Orinókó-fljót, sem nú er skeytt vid Kolumbíu-ríki og fyrrum kalladist: hit spánska Gvíana

(Guyana) er kaupstaðr, er Sti Thómasar-staðr (St. Thomas de Guyana) heitir.

Loptslagit í þessu ríki er áþekt því sem er í öðrum löndum, er liggja undir mið-himins-vegi og í grend við hann; þar greinist ár í tvö missiri, nefnil. hita- og regna-tíð; hin síðar-nefnda varir í sumum landsálfum í fulla 10 mánuði. Við sæ og hvervetna á láglendinu er mikit afl hita og mjög óholt öllum útlend-ingum. Í fjallbygðunum er loptit temprat og einkar þægiligt; í dölunum í Qvitó-fylki er nær ávalt inndæl vor-blíða. Stormviðri og jarð-skjálftar olla þar optliga mikils jarðusla og ógurligs tjóns á sjó og landi.

Víðast er jarðvegr í þessu landi einkar frjófsamr og búinn margbreyttum og fjölnýtum skrúða. Meðal gæða þess má hér telja: gull, silfr, platínu, gimsteina, fjölbreyttan og ágætan við, kakaó, vanilju, kotzenilju, kaffe, döðlur, sykr, indigó, hrísgrjón, kvasía, gvajak, tóbak, kínabörk og s. frv. Mörg eru þar herslig dýr og ókindur, t. d. alligatóri, titrings-áll, högg-ormar og hríngli-slaungr, vampýr og skorpíónar.

Innbúar ríkis þessa eru 2 mill. 650 þúsund at tölu og eru þeir bæði spánskir at kyni, Kre-ólar, Mestitzar, Blökkumenn og Indíanar, eða afkomendr þeirra þjóða, er bygðu vestr-heim, áðr útlendíngar tóku þar bólfestu. Þessir eru og hvörjum hinna kynnflokkanna fjölmennari og flestir frjálsir forræðis af þeirra álfu. Lands-menn leggja einkanliga stund á ýmiskonar jarð-yrkju, kvikfjár-rækt og málma-gröft, en lítt eru

þeir enn á veg komnir til vísinda frama og íþrótta, handidna og hagleiks. Kaupeyrir þeirra flyzt til Evrópu sérílagi frá Karthagena, Sti Martha og Gvayra. Vid þá eiga Enskir og Hollendíngar launkaup, svo stórmiklu nemr. Allr hinn kristni landslýdr er kathólskr at trú, en mestr þorri Indíana heidinn. Medal hinna sídari er þjód sú talin, er Góahirar kallast; þeir búa vid sæ og hafa 30,000 vígra manna og eru hardsengir og grimmir. Medal ýmsra þjódflokka, er búa í grend vid Orínókó, er þat sidr, at menn dagliga eta 1 pund moldar, er þeir grafa upp þar jørdin er feitust.

Kóngsríkit Nýa-Granada og jarlsdæmit Karakas gjørdu 1811 uppreist gegn Spánar-kóngi og gengu undan veldi hans. Hófst þá styrjøld mikil milli hans og nýlendumanna, er varadi í 8 ár, en svo lauk, at þeir fyrir hreysti ótula framkvæmdarsemi og snjallrædi foríngja síns, hins nafnfræga Bólívars, báru hærri hluta, sameinudu téd ríki þann 17 Decbr. 1819 og køll-udu bædi ásamt Kólumbíu-ríki. Í þvi er þjód-stjórn í løg leidd og er henni álíka háttat og í hinu nordr-ameríkanska Fríland-ríki; nokk-urskonar alþíngis-rád (Generalcongressen) setr løg, en forsetinn (Præsidenten) annast um at þeim sé hlýdt.

B. Fríríkit Perú (Republiken Peru*).

Þetta ríki liggr fyrir sunnan Kólumbíu-ríki

*) Þá Spánverjar komu þar fyrst vid land og høfdu tal af landsmønnum, spurdu þeir: "hvad

og á vestr-strøndinni; fyrir austan þat er Brasilíuland, en hit sameinúdu Frí-ríki fyri sunnan. Þat er nærhæsis 45,000 mílr at ferhyrnings-máli, en innbúar þess eru 1 mill. 500 þúsund at tølu. Fjallgarðrinn mikli eða Andesfjallgarðr gengr í gégnum land þetta úr suðri í norðr og liggr hann sumstaðar 16, en sumstaðar 6 mílr frá sjøru-máli Kyrrahafs. Við sæ er landit hvervetna lágt, eigi óvíða sendit og agasamt, en þó þess ámeðal einkar frjóssamt; þat kalla menn Valles. Þá frá sjó dregr, taka grýtt undirfjøll (Sierras) við; en ámeðal þeirra liggja forkunnar fagrir og frjóssamir dalir. Allmargar þver-ár falla undan téðum fjallgarði í vestr til sjáfar; í hanum eru og uppsprettr Maranons-fljóts, er þar kallast Apúrímak; þat fellr fyrst nokkra leið í norðr á takmørkum Kólumbíu og Perú-ríkis; þar rennr í þat á sú, er Tangúragva heitir, hún skilr téð ríki. Merkustu støðuvatn eru Titikaka í Arekvípu-fylki, og Laurikocka eða Laurizhóa.

Frí-ríki þetta greinist í 7 fylki, er kallast: Líma, Kúskó, Arekvípa, Gvamanga,

---

heitir land yðvart"? Landsmenn skildu þá ei og hugðu þá spurt hafa: "hverjir eruð þér" og svøruðu: peru, er þýðir: "vér erum fiskimenn"! Þetta létu atkomumenn sér nægja og kølluðu landit síðan: Perú.

Trúxilló, Gvankavellika og Tarma. Þau taka nøfn af merkustu stødum, sem í þeim eru.

Í Líma-fylki, sem er eitthvørt hit frjófsamasta landspláts í heimi, er høfudborg rikis þessa, er Líma heitir, hún stendr á einkar føgrum fløt, þvínær 2 mílr frá Kyrra-hafi eda hafnarstad hennar, sem Kallaó kallast; þar eru 50,000 innbúar. Þar má sjá hvørttveggja, sundurgerd mikla og skrautmenni, og ørbyrgd og arma kynslód. Nordar í ríkinu og skamt frá sæ stendr merkr kaupstadr er Trúxillo heitir; hann lét Pizarró gjøra, umgirda med múrveggjum, og kalla eptir fædíngarstad sínum á Spáni. Þar eru 12,000 innbúar. Hafnarstadrinn vid sæ kallast Gvankakó. Í landsudr frá Líma er stadr, er Gvamanga heitir og hvørn Pizarró lét byggja; hann stendr uppí Andes-fjallbygdum; þar eru 26,000 innbúar. Vestar og vid sæ er Gvankavellika, þar er kvikasilfurs-náma mikil. Í landsudr frá Gvamanga og 92 mílr í sømu átt frá Líma er hinn forni høfudstadr rikis þessa, er hét og heitir Kúskó (Cusco); hann stendr lánga leid frá sæ og í Andes-fjallbygdum; þar eru 32000 innb. Þar sátu fordum konúngar Perúmanna, er Inkar (Incas eda Incaer*) voru kalladir.

*) Inca þýdir bædi: herra og sólar-son.

Hit syðra í ríkinu og í forkunnar fögrum og gagnauðgum dal, er Kvilóa kallast, stendr merkr kaupstaðr, er Arekvípa heitir; þar eru 24,000 innb. og ógrynni varnings bæði frá Evrópu og Ameríku samankomit. Tarma kallast lítill staðr og sylki sunnar á strondinni.

Við sæ er hvervetna hiti mikill í ríki þessu og mjög sjaldgæfar rigníngar, þó kæla sævindar og fjallagolan nokkut ofr-hitann. Í fjallbygðinni er miklu svalara og heilnæmara loptslag; þó má hvergi í þessu landi vetr frá sumri greina af öðru enn því, at þá eru regnskúrar tíðari, enn á sumrum.

Landkostir eru þar áþekkir þeim, sem frá er sagt í Kólumbíu-ríki, einkum í Nýu-Granada. Varla má offsögum segja af auðlegð lands þessa af gulli og silfri og öðrum þarfum málmum, en óvíða eru þar skógar til hlýtar. Þetta og þorsti Spánverja í gull og silfr hefir ollat því, at hverki hafa námu-verkin verit stunduð fyri sakir eldsneytis skorts, né jörðin yrkt, sem skyldi. Gagnsömustu dýr í Perú er Lama- og Vigogn-dýrit; á hinum er borit og eru þau einkar þörf í námu-verkunum, en hin síðari bera einkar fína ull; þaraðauki á þar sérílagi heima dýrakyn þat, er Vinkunnas heitir.

Innbúar ríkis þessa eru 1 millión og 500 þúsund at tölu og eru þeir af þremr ættstofnum, nl. evrópumönnum og blökkumönnum, er þángat hafa flutzt, og hinum öndverðligu landsbúum, komnir. Þeir síðst-nefndu eru hérumbil

400 þúsund og greinast í tvo flokka, nl. þær þjódir, er hvervetna verit hafa ósidadar og hálfvillar, og afkomendr enna fornu eiginligu Perúana, er hørfudu undan ofriki og yfirgángi Spánverja til Andesfjalla, hófu þar ríki og tóku høfdingja yfir sig, er Ampureó kallast at nafnbót og hafa kyn sitt at rekja til Inka eda ennar fornu konúnga-ættar í Perú. Konúngar þessir høfdu um lánga æfi rádit þar ríki med mildi og velsemd, þá Pizarró, spánskr svína-hirdir, en þó mikill kappi, kom þar fyrst vid land 1526 og nokkrum árum seinna fremr med slægd og svikum enn hreysti vann þat undan þeim og eignadi þat Spánar-konúngi; hann sat þar at vøldum uns hann var af døgum radinn 1542 og var þá árit eptir settr þar jarl eda Vice-konúngr til yfirsóknar. At Perúmenn hafi verit betr at sér um marga hluta enn adrar fornmanna-þjódir í Ameriku, votta bædi fráøgr enna fyrstu nýiendumanna, og fornmenjar þær er enn, þó margt sé til grunna gengit, finnast í ríki þessu, t. d. þjódvegir yfir háfjøll og fyrnindi, pýramídar, óbeliskar, vatnsleidingar, kastalar, múmíur (uppþornud lík) málverk, vopn, af kopar gjør, málmplátr med ágreiptu og ókunnu letri og mindum, skáldskapr og hljódfæri.

Hin kathólska trú er løgtekin í Perú-ríki og hafa þar 4 biskupar og 1 erkibiskup kénnimannligt forrædi. Nokkr hluti afsprengis fornmanna hefir tekit kristna trú, einkum þeir, er ei fylgdu løndum sínum til fjallbygdanna og sýnit hafa undir þrældóms oki aðkomumanna, þá kalla Spánverjar: fideles, en hina, er enn

halda við Inka-trú: barbaros; þessir dyrka sólina.

Þá uppreistar flokkadrættir hófust 1811 í enum spönsku ríkjum í Ameriku, tókst jarlinum í Perú um hríð at hamla þessonar óróa í ríki sinu, og var enn fremr fær um at sefa um stund uppþlaupin í Nýa-Granada og Kili-ríki, uns herforíngi Kilimanna 1821 kom at sunnan með óvígan hér, fór herskildi yfir Perú og stökti vildarmönnum Spánarkonúngs og þeim, er untu stjórn hans, úr landi. Geck þá ríkit undan veldi téðs konúngs og gjörði frelsi sitt þjóðræmt.

## C. Kili-ríki eða Zile-ríki (Republiken Chile eðr Chili).

Svo kalla menn lángt, en ei all-breidt, strandlendi, er Kyrra-haf at vestanverdu, en Andes-fjallgardr hit eystra, marka takmörk. At nordanverdu skilr þat og Perú-ríki hrjóstug strönd, er Atakama heitir, en syri sunnan þat liggr Patagónía. Téðr fjallgardr er þar 18 til 19 þúsund fóta hár og eru í hönum 20 eldfjöll, er ei allsjaldan gjósa og olla jardskjálfta. Merit margar þverár falla þar til sjáfar um forkunnar fagra og frjóssama dali, er liggja upp í nefnd fjöll. Ríki þetta er 6139 ferh. milr at stærd auk landsbygda Arákana, sem er 1918 milr at ferhyrnings máli, og liggja sydst.

Í Kíli-ríki eru þessir staðir merkastir: Sti Jakob eða Jakobsstaðir (St. Jago); þat er høfuðborg, er stendr nokkut norðar enn mitlands, á árbokkum í forkunnar fögrum dal, er Kili eða Zile kallast (af hønum tekr ríkit nafn) og 18 mílr frá sæ eðr frá kauptúni því, er Valparaísó heitir. Þar hefir stjórnar-ráðit, er hefir mannaforráð í ríkinu, og erki-biskup, atsetr. Borg þessi er vel húsut og auðug; innbúar hennar eru 46,000 at tølu. Í Val-paraísó er ærinn kaupskapr og afarmikill út-lenzkr og innlenzkr varníngr samankominn. Sunnar á strøndinni stendr annar staðr mestr í þessu ríki, er Conception heitir; hann stendr í dalsmynni við fagra vík og var fyrrum høfuðstaðr í Kíli. Þar eru 13,000 innbúar. Í suðr þaðan stendr kaupstaðr sá við sæ, er Valdivia kallast; þar er hin bezta høfn á Vestr-strønd Ameríku.

Sunnar liggr eyaklasa skamt undan landi, er Chonos- eða Kuðúnga-eyar kallast; þær eru 3000 at tølu, en at eins eru 24 af þeim bygðar; þær eru allar samt 173 ferhyrn. mílr at stærð. Þeirra víðlendust og merkust er eyan Kíló eða Zíló, hún er 38 mílr at lengd. Ey þessa varði spánverskr hersforingi lengi fyri kóngs-stjórnar fjandmønnum, en mátti þó uppgéfast øndverðliga á umliðnu ári. Á

henni eru frjóssamir dalir og skóglendi mikit. Á eyum þessum er köld vedrátta og stormar mjøg tídir. Eyarmenn eru 30,000 at tølu og eru þeir bædi af innfæddum þjódum og Spánverjum komnir; þeir lifa af fiski- og dýra-veidum, saudfjár- og svína-rækt og skógar-høggi, og lifa hvervetna vid knappa kosti. Nokkud nordar enn undan ríki þessu midju liggja eyar tvær litlar, er Fernandis-eyar heita; önnur þeirra kallast Tierra og er hún nafnkénd ordin af skotskum farmanni, Selkirk at nafni, er 1705 var settr þar á land og dvaldi þar einsmana um hríd.

Kíli-ríki er eitthvørt hit heilnæmasta og vedrasælasta land í heimi, hafa menn því kallat þat Vestr-álfu Valland. Landit er og einkar gagnaudugt og frjóssamt; þar finst gull mikit í jørdu (7 milljóna spánskra dala virdi árliga); kvikfé er þar mikit og gagnsamt og villi-hestar; þadan flýzt: korn, vín, tólkr, húdir og margs-konar málmar, t. d. gull, silfr og eyr afarmikit.

Hinn kristni landslýdr er 900 þúsund, en hinn heidni eda Indíanar, er ei hafa enn varpat sér undir veldi atkomumanna, 400 at tølu. Hinir játa kaþólska trú, sem at líkindum lætr, þar Spánverjar fyrstir allra Evrópumanna fundu land þetta, nokkut seinna enn Perú, og unnu þat undir hertogn lidstjóra þess, er Valdivía hét, 1541 undir konúng sinn; en 1818 géngu landsmenn úr þegnskap vid þenna høfdingja og hófu frí-ríkis-stjórn eins og hin önnur nýlendu-ríki hans vestr í heimi. Medal enna indíanisku

kynkvísla, er þetta land byggja, er þjóð sú, er Arákanar (Araukaner) kallast, merkust og fjöllmennust; þeir vörðu lengi og hraustliga frelsi sitt fyri áráfum Spánverja og létu hvergi sigrast, uns þeir gjörðu frið við þá 1775 og héldu öllu sinu. Arákanar eru hraustir menn, mannborligir, vel vaxnir og fríðir synum, géstrisnir, stórsinnaðir og elska frelsi sitt öllu fremr. Þeir bera ullarföt og búa í timburhúsum. Túngumál þeirra lætr vel og siðir þeirra lýsa meiri mannrænu og mentun enn annarra þjóða, sem komnar eru af fornmönnum Ameriku; þeir hafa nokkurn snefil af lærdómi, þekkja sólar-ár, stjörnulist, halda tölr og skálda. Þeir blóta einn guð og marga undir-guði, en hafa þó hverki goðahof né presta. Fyri ríki þessu ráða fjórir fólkstjórar (Tokis) og eru þeir lendir menn eða taka mannaforráð at léni af alþýðunni; en þá ófriði er at gégna, er sá kosinn til hersforingja, sem mest er reyndr at hreysti og vígkænsku. Þeir heja orrustr með fylktu liði og hafa byssur, en kunna þó ei at tilreiða púdr.

D. Hin sameinudu eda Bandamannaríki i Sudr-Ameriku (De forenede Provindser i Syd-Amerika).

Frí-ríki þetta liggr fyrir austan Perú og Kíli, og eru þar Andesfjöll skilnaðr-veggr milli þeirra, en nær þó at sæ vestr ímilli sidst-nefndra landa. Fyri austan þat er Brasilíu-ríki, en

Patagóníuland fyri sunnan, en ímilli þessara landa nær þat til hins atlantiska hafs austr. Þat er hérumbil 68 þúsund ferhyrnings mílr at víðáttu. Hit vestra eru í ríki þessu fjöll mörg og aflídandi hálendi mikit frá Andes-fjallgarði lánga leið austr eptir, taka þá við afar víðlendar grasivaxnar sléttur, er móðurnar hit hit nyrðra falla á, þá rigníngar gánga, en hit syðra ern þær þurrlendar mjög og víðast vatnslausar, og hverki sést á þeim skógr né leiti; ern þar því mannabygðir strjálar og allvíða eingar. En þar gánga feykiliga miklar hjarðir allskonar kvikfjár sjálfala. Sléttlendi þetta kalla landsmenn: Pampas.

Um land þetta falla ár margar og móður; þeirra merkastar eru: Paragvay og Parana, þær koma báðar frá Brasilíulandi, hin úr hánorðri, þessi úr landnorðri, og renna saman; fyri sunnan ármótin kallast vatnsfall þetta Parana, og rennr hún í lánga leið í suðr, en beygist at lyktum í austr; þá fellr í þat fljót, er Urúkvai kallast, úr landnorðri; úr því kallast þat Silfr-fljót eða Plátu-fljót (Rio de la Plata), þat fellr í hinn atlantiska útsæ og er þar mynni þess 30 mílr at breidd. Allar eru ár þessar miklar, en hvervetna er þó skipaleiðin á þeim torfærum skipuð fyri sakir eya, hólma, skerja og grynnínga. Hit nyrðra

fellr Paragvai á slétt miklar og verdr þar grunt stöduvatn eda flód, sem er 66 milr at lengd, en 24 at breidd; þat kallast Xarayes eda Oberóba.

Riki þetta samanstendr af 4 löndum, nl. Sudr-Perú, Austr-Kili, Paragvai og Túkuman; og settu Spánverjar þar Vice-konúng edr jarl til forráda 1776 og kölludu þat Silfr-ár-ríki (Vicekongeriget de la Plata) eda Rikit: la-Plata (Plátu-ríki); en þá landsmenn hvurfu 1816 undan veldi Spánar-konúngs, skiptu þeir þessum vídlenda geim í 6 fylki eda landsálfr: Buenos-Ayres, Paragvai, Kordóva, Salta, Pótósi, Karkas, La Paz og Kókabamba.

Í Búenos-Ayres (o: heilnæmt lopt), er liggr sydst og nær bádumegin vid Silfr-fljót til hafs austr, og er einkar heilnæmt og gagnaudugt land, stendr samnefndr höfudstadr vid Silfr-fljótit sunnanverdt og 36 milr frá mynni þess; þar hafdi fyrrum hinn spánski jarl atsetr, en nú er þar heimili stjórnarrádsins, erkibiskups og 62,000 innbúa; þar er kaupskapr mikill. Þenna stad lét Mendoza gjöra 1535 og kalladi hann: Nostra Sennora de Buenos-Ayres (vor blídvidra drotníng). Vid téda þjód-á nordanverda og 24 milum nær mynni hennar stendr

víggirdtr kaupstadr, er Montevídeo heitir; þar er hin bezta höfn í þessu ríki, og kaupverslun mikil. Værlýdrinn er 15,000 at tölu. Gagnvart Búenos-Ayres á nyrdri fljótsbakkanum stendr litill kaupstadr, er Sakrament (Sagramento) heitir; þar geyma menn gull, silfr, gimsteina og ýmiskonar dýrindis-gripi í forda-búrum, sem annan varning.

Í Paragvai-fylki, er liggr nordar og bádumegin vid samnefnt fljót, er höfudstadr, sem Assumptión heitir; hann létu Spánverjar gjöra 1536 vid Paragvai-fljót austanverdt, 140 mílr í nordr frá Búenos-Ayres. Þar eru 8000 innbúar.

Í Paragvai-ríki finnast hverki málmar né merkar steina-tegundir, en einkar audugt er þar bædi dýra- og vaxta-ríkit. Í þessu landi, er þá var 40,000 ferhyrnings-milur at vidáttu, tóku Jesúitar sér bólfestu á 17 öld midri til at boda þar kristna trú, og fengu þeir af Spánar-konúngi einkaleyfi til at taka þar upp nýlendu og efla ríki hans í þessum hluta heimsálfunnar. Þeir kölludu landit: Kristnibods-land (Terra missionum), skiptu því í 31 kristnibods-umdæmi (doctrinæ) og juku svo veldi sitt, at uggvænt þótti, hvert þeir fremr þjónudu konúnginum, eda sér sjálfum, og med því at þeir höfdu búit vel um sig, bygt kastala og höfdu óvígann her, urdu þeir brádum geigvænligir grannar Spánar og Portúgals landeignum. Einvaldar á Spáni

og Portúgal komust á snefil um áform Jesúíta, létu í sambjørgum her mikinn herja á landit, og at unnum sigri á þeim árit 1756, støkkva þeim á brott af Paragvai, og 10 árum seinna øllum medlimum þessa metnadargjarna og læviísa múnka-sambands úr ríkjum sínum.

Í Salta-fylki, er liggr vestar og nær Andes-fjøllum, er samnefndr stadr, er Sti Jakob (Jago del Estera) heitir. Karkas-fylki liggr bádumegin vid Parana-fljót; þar er samnefndr kaupstadr. Í Pótósi-fylki, er liggr fyri nordan Salta, stendr allmikill stadr undir samnefndu fjalli og vid fljótit Pilkomaió, er Pótósi heitir; þar eru 100,000 innb. og eru þeir margkynjadir mjøg, sem at líkindum lætr, því þar eru gull- og silfr-námur svo miklar, at óvída eru nafnkunnari né audugri á heimskringlunni. Þær eru 6 mílr ummáls og gégna þar 30,000 manna námu-størfum. Þær fundu menn 1545 og grófu þar upp svomikit gull og silfr til sídstu aldamóta, at ágódinn vard hérumbil 1437 millión. ríkisd. Árit 1547 var gédr kaupstadr gjørr. Fylki þetta er annars hvervetna hrjóstugt og snaudt mjøg af jardar-ávøxtum.

Nálægt nordvestr takmørkum ríkisins er støduvatn mikit, er Titikaka kallast; um-hverfis þat liggr La-Paz-fylki, og enn nordar:

Kókabamba, þat er hit bezta kornland í þessu ríki.

Á sléttlendinu í þessum hluta heimsálfunnar er hiti mikill og ástundum ásergilig rigníng og þrumuvedr, en sjáldsén er þar snjór. Í fjallbygdunum er temprat loptslag og vídast heilnæm vedur. Mörg og fjølbreytt eru gædi landsþessa; þar ámedal má telja: allskonar korntegundir, indigó, vidarull, tóbak, sykr, vín, rabarbur, vanilju, vírak og hit svokallada Paraguai-the, (þat flýzt ei til Evrópu, þar þat lætr sig á sjó). Auk mikils fjølda hesta, er landsmenn temja, og nautpeníngs, er þeir hirda og láta hunda gæta, eru þar geysi-miklar hjardir villihesta og villi-uxa; þá sidstnefndu veida sléttubúar med bregdum og hafa sér til snædings, en selja ógrynni tólks og húda. Innbúar ríkis þessa eru 1 millión og 300 þúsund at tølu og eru þeir badi kristnir útlendingar og innfæddir heidíngjar at kyni; af hinum sídari hafast 30 kynkvíslir vid í ríki þessu og hafa sumar tekit trú, en sumar ecki. Medan Jesúítar vøsudu þar í vøldum, løgdu þeir kapp á at boda þeim kristni, kénna þeim akr-yrkju, ýmsar handidnir og vefnad, medferd vopna og evrópiska vígkænsku og vard þeim allvel ágengt; medal þessara vóru sérílagi Qvarínar, er búa hit nyrdra í ríkinu og eru fjølmennir og vel at sér. Jesúítar létu sér vera ant um, at kynkvíslir þær, er þeir á ýmsa lund mentudu og med margleikum og lempni létu hneigjast til sín og sverja sér þegnskap, ei skyldu eiga mok vid útlendar þjódir, at ei spyrd-

ist af athøfnum þeirra og vaxanda veldi. Eptir at þeir, sem fyrr segir, máttu láta land og ríki, følnudu brádum ávextir starfsemis þeirra og manndómligu atburda.

Í frí-ríki þessu er hinn kathólski átrúnadr í løg leiddr og er þar einn erkibiskup ædstr forstjóri alls kénnidóms. Fyri ríkinu rædr nú fríveldis-ráð (Congres) og eru medlimir þess fulltrúar þeir, er sérhvert fylki kýs fyri sína hønd og sendir til Búenos-Ayres. Þetta stjórnarform hófst 1816, þá landsmenn gengu undan Spánarveldi og fyrrtéd ráð gjørdi þessi umskipti þjódkunn.

Fyrstr allra landaleitunarmanna frá Nordrálfu fann spánverskr farmadr, Jóhann Díaz de Solis, Búenos-Ayres 1526, en 10 árum seinna kom Sebastian Cabot þar vid land, sigldi upp eptir fljótinu, er hann fyrstr kalladi La Plata ɔ: Silfr-fljót, og tók þar upp nýlendr og gjørdi virki vid Parana.

## E. Brasilíu-keisaradæmi eda Brasilíuland (Brasilien *).

Ríki þetta, sem er hit vídlendasta í Vestrheimi og gengr næst Rússa- og Kína-ríkjum á

*) Landit tekr nafn af vidi þeim, er þar vex nær hvervetna, og Portúgalverjar kølludu: Brasil; þetta ord er dregit af: bráza, er á portúgalska túngu þýdir eldibrand eda glóandi kol, med því fyrrtédum atkomumønnum þótti vidr þessi, áþekkr því at lit.

heimskrínglunni, liggr austast í Suðr-Ameriku; fyri norðan þat er Kolúmbiu-riki og hin franska Gviana, en þau samtengðu frí-riki, sem nú er frásagt, fyri vestan þat. Í landsuðr, austr og landnoðr er þat umflotit af hinum atlantiska og eþíópiska útsæ. Þat er 132 þúsund mílr at ferhyrnings-máli.

Riki þetta er nær hvervetna hálendt og allvíða, einkum miðtlands þakit svo myrkum og þéttum skógum, at ei má igégnum þá leið finna hverki á fæti né hesti. Strandlengis gengr fjallgarðr nokkr mikill um þat, er hin brasilianisku Andes-fjöll heita; þau skiptast hit nyrðra í allmargar greinir. Hit vestra eru sumstaðar oræfi eða sandsletjur miklar og svo snauðar, at varla sést þar stingandi strá. Í þeim hérudum og lands-álfum, er liggja við og í grend við sæ, eru landkostir beztir; en þat hafa menn fyri satt, at ei sé meiri hluti þessa víðlenda og veðrasæla rikis skipuliga yrktr enn áttatugasti og áttundi partr.

Um riki þetta falla ár margar og fljót; hit nyrðra féllr Maranon eða Skjaldmeya-fljót í austr, sem fyrr segir; í þat renna margar stór-ár, t. d. Svartá (Rio Negro), er kémr úr útnorðri; Madeira, er rennr 300 mílr úr útsuðri, og Tókantín (eða Gran-Para),

er fellr úr sudri út í mynni þess; en í hit atlantiska haf fellr Franziskus-á (Rio Francesco). hit nyrdra á strøndinni, er í sudaustr veit. Upptøk fljótanna: Paragvai, Parana og Urúkvai, eru einnig í þessu landi. Hverki eru markverd støduvatn í landi þessi, né strøndin vogskorin eda nesjótt; merkastr er þar fjørdr nokkr, breidr og skammr, er Allra-heilagrafjørdr (Bahia de todos los Santos) kallast. Austr-horn landsins heitir Roqva-høfda.

Riki þetta er greint í 12 høfdingjadœmi (Capitanias) og ná þau flest til sjáfar hit eystra; þau og merkustu stadir í þeim heita:

1. Rió-Janeiró eda Janeiró-ár-landsálfa kallast nokkr hluti strandarinnar, er í landsudr veit; þar er høfudborg rikisins, er Rió-Janeiró heitir; hún stendr vid allmikla vík, þar samnefnd á kémr til sjáfar, og undir fjallshlíd, og er hún vel húsut og allmikil. Þar hefir keisari kosit sér heimili. Borgina og ármynnit verja virki tvø, er Santa Cruz ↄ: hinn heilagi kross og Lózla heita og kastali sá, er Sti Sebastian kallast. Margar eru þar skrautligar byggingar, vegligar kyrkjur, føgr og þrádbein stræti, ein mikil vatnsleiding, og stjørnuturn, margskonar smidjur og verkstadir, høfn svo god, at varla finst betri í heimi, og

kaupskapr afarmikill; þar eru 100,000 innb. medal þeirra eru 40,000 blökkumanna. Skamt frá borginni er lystigardr keisarans, er Sti Karl (St. Carlos) heitir.

2. Para eda Mikla-Para liggr nordaust, en þó fyri sunnan Skjaldmeya-fljót og ímilli hafs og Perú-ríkis. Þar er höfudstadr, er Belem eda Para heitir, og stendr vid Tókantín-fljót austanverdt. Fyri nordan Skjaldmeya-fljót liggr mikit en litt kannat land, ímilli Sudr-Kolumbíu takmarka og hafs, er hin portúgísiska Gvíana heitir, og er þat nú skeytt vid fyrrtéd höfdingjadæmi, hvert at vísu er hit vídlendasta í Brasilíu-ríki, en vída mjög strjálbygt. Sunnar á ströndinni, er í nordaustr veit, liggr:

3. Maranhaó, í því er samnefndr höfudstadr, er stendr á ey í hafvík nokkurri, í hvörja 3 ár falla. Þenna stad gjördu Frakkar 1612. Sá hluti strandlendis þessa, er liggr ímilli ár-innar Paranaíba og hafs, kallast:

4. Seara eda Siara, þar er samnefndr höfudstadr, vid sjó; þar í grend vid finst krystall mikill. Sunnar á ströndinni, þar sem hún gengr lengst í austr, liggr:

5. Pernambúkó (rángl. kallat Fernambúkó); þat er einkar gagnaudugt og hit sjölbygdasta land í ríkinu; á ströndinni, ei allángt

fyri sunnan Roqva-höfda, stendr höfuðstaðr, er Pernambúkó eða Olinda heitir; þar er mikil kaupverslun, góð höfn og heimili 32,000 innbúa. Þaðan flýzt ógrynni brasilíu-viðar. Sunnar liggr:

6. Bahía, þat er lángt og hit syðra mjótt strandlendi, er Franziskus-á markar tak-mörk hit nyrðra og at nokkru leiti at vestanverðu. Þar er höfuðstaðr, er Bahía eðr Salvator (Salvador ɔ: Frelsari) kallast; hann stendr við Allra-heilagra-fjörð austanverðan, og var höfuð-borg í Brasilíu-ríki alt til 1751; nú er hann annar staðr mestr í ríkinu. Þar er kaupskapr afarmikill, höfn ágæt, hofgarðr og mikill auðr samankominn; þar er heimili þjóðbiskups og 100,000 innbúa; meðal þeirra eru at eins 30,000 hvítra manna. Sunnar á ströndinni er: Segúru-höfn (Porto Seguro), þar tók Kabral, landnámsmaðr, fyrst land í Vestr-heimi. Í þessu landi eru margir dýrligir landkostir og margháttaðar gnægtir. Fyrir vestan þat liggr:

7. Minas-Geraes eða Minas-keraes; þat er allmikit og einkar gagnauðugt. Þat nær at eins lítt til sjáfar milli síðstnefndrar lands-álfu og Río-Janeiró. Þar er höfuðstaðr, er Villa-Ricca heitir. Þar eru gull-námr

nafnkéndar. Í þessari landsálfu er við ána Igitonhonha demanta-grafníngr mikill og arðsamr, er **Mandanga** heitir; þar er einu þúsundi blökkumanna til leitar skipat. Vestar og nærhæfis miðtlands liggr:

8. **Gojaz**; þat er víðlendt, gullríkt mjøg og fjøllótt; þar er høfuðstaðr sá, er Villa-Bóa heitir. Vestast í Brasilíu-ríki liggr:

9. **Matto-Grosso**; þat er afarmikit ummáls, fjøllótt, skógivaxit mjøg og hinn hálendasti partr Brasilíu; samnefndr fjallgarðr gengr eptir því miðju og falla þaðan nær í allar áttir vøtn til hafs. At vestanverðu skilr Madeira nyrðri hluta lands þessa og Suðr-Perú, en Paragvai suðr-hluta þess og Plátnár eða Silfr-fljóts Frílønðin. Þar er staðr sá, er **Villa-Bella** (Fagribær) kallast.

Þrjú síðst-talin landshøfðíngjaðæmi kallast einnig **Bergverka-landsálfr**, með því í þeim finnast sérílagi bæði málmar flestir og margskonar aðalsteinar, t. d. demantar, ametystar, krysolítar, tópasar, og s. frv. Í hinni fyrst-tøldu fundu menn fyrst ógrynni gulls 1577, og demanta í sandinum kríngum gullit, rúmum 150 árum seinna; má þaraf ráða, at ei hafa leitarmenn gløggvir verit né náttúrufróðir.

10. **Sti Páls-land** (St. Paolo) liggr fyri sunnan og vestan Río-Janeiró og ímilli hafs og Paranafljóts; þar er høfuðstaðr, er

Sti Páll (St. Paolo, Pálsstadir) heitir, og sem einnig kallast Piratininqva (Víkinga-bæli), med því hinir öndverdligu innbúar stadar þessa, (þeir svokölludu Pálistar) vóru íllræmdir og ódælir sjóreifarar frá 1684 til 1730. Þar eru merkar gullnámr og hérumbil 10,000 innbúa. Sunnar og vid sæ liggr litit fylki, er

11. Sti Katharína kallast; þat tekr nafn af samnefndri ey, er þar liggr skamt undan landi og er 25 mílr at lengd, en 4 at breidd; hún er forkunnar gagnaudug. Þar stendr høfudstadr þessa fylkis, er Antoníusarstadr (eda Villa nostra Sennora do Destero) heitir: þar er góð høfn, er Punta-Gróssa heitir. Þadan sækja menn mjøg á hvala-mid austr í haf og er sú veida einkar ardsøm. Þat er sidr med eyamønnum, at þeir láta sér geysa-miklar neglur vaxa á fingrum, einkum á þumalfingri; þeir eru annars letingjar og kunna litt at ødru enn hvala-veidum. Sunnar og jafnframt sydst í Brasilíu-ríki liggr:

12. Río-Grande (eda Miklu-ár-) fylki; þar er samnefndr stadr, er einnig kallast Pétursstadir (St. Pedro) vid eins nefnda á. Þadan flyzt ógrynni húda- og skinna-varnings. Í þessu fylki er mikit stöduvatn, er Patos kallast; úr því rennr skipfær ós til hafs.

Hit nyrdra í Brasilíu=ríki er allmikit af hita, þó tempra rigníngar, sem þar eru mjøg tídar, ofurhitann. Því lengra sem suðr=eptir dregr, verðr loptit heilnæmara og veðráttan þægiligri.

Øll eru þar náttúruríki einkar fjølskrúðug í jørð og á, en híngat til hefir landsmenn skortat manndóm og lagkænsku til at hagnýta sér til=hlýtar gæði þeirra, því hverki yrkja þeir jørðina sem skyldi og í ýmsum sveitum bera menn ei kénsl á plóg né erjun, ei heldr greisjast þeir með nægu athygli né atorku um auðæfi þau, er í jørðu liggja og óvíða eru þar námu=grafir dýpri enn 3 og 4 álnir. Gullit grafa þeir bæði af jørðu upp og þvæla gullkorn af sandinum, við ár og í lækjar=farvegum. Járn og eyr hafa menn á seinni tíðum fundit þar unnvørpum og þó eru þar at eins fá=ein þvílik námu=verk. Demantana þektu menn ekki gjørla fyrr enn 1750 og var þeim kastat burt sem sorpi, þá þeir fundust í gull=grøfunum. Nú hefir félag nokkurt einka=leyfi at leita þeirra og eru í þess þjónustu 600 blakkra mans=manna; en hógliga fylgir þat fram leitinni, at ei olli ofr=gnægð þeirra þess, at þeir og aðrir gimsteinar falli um of í verði. Meðal Brasilíu almenn=ustu gæða má telja: gull, silfr, plátínu, adal=steina, hérumbil 80 ágætar og einkar fagrar viðar=tegundir (þarámeðal: Brasilíu= Pernam=búk= kampeskju= og mahogni=við), hrísgrjón, sykr, kaffé, viðar=ull, tóbak, indígó, kakaó, van=ilju, pipar, margskonar lækninga=júrtir, maniok,

o. s. frv. Á slèttlendinu, (er kallast Campos) gánga geysi-miklar nautpeníngs-hjarðir og villi-uxar sjálfala (sem víða í Plátu-ár-ríkjum) og er hèr sem þar optsinnis gjørðr mannsøfnuðr at veiða þá; en ei skeyta menn um annat enn húðirnar og láta kroppana eptir-liggja, er á sumrum olla óhollustu. Margr er þar og fugl og margkynjaðr; villidýr mørg: tapírar, dýrit lata, villi-svín, skjaldpøddr, eitraðar slaungr og marghàttuð skorkvikindi.

Landslýðrinn er hèrumbil 4 millión. at tølu og er at eins fjórði partr hans hørunds-hvítr og ættaðr frá Evrópu, sèrílagi frá Portúgal; annar fjórði partrinn er indíaniskr at kyni, en allr helmíngr landsbúa er Bløkkumenn og Múlattar, er þar hafa hvervetna lifat við betri og blíðari kjør enn kynmenn þeirra í øðrum Nýlendum Evrópumanna í Vestr-heimi; þeim er þar auðsótt at vinna af sèr ófrelsi, því tvo daga eru þeir verkfríir í viku. Þeim er sèrílagi til starfa haldit á pløntunar-økrum (t. d. sykr-ekrum) og í bergverkunum. Færri eru þeir af foramanna afkomendum í þessu ríki, er tekit hafa tøluverðum framførum til eðlis-bata og menníngar; flestir lifa þeir, sem aðrar villi-þjóðir í Suðr-Ameríku, af fiski-ætum og villi jurtum, því dýra-veiðar eru þar miklu torsókt-ari enn í nyrðri hluta heims-álfunnar., sokum þèttleika skóganna; en engu at síðr, þótt ei deili þèr hèr sem þar um veiðina og veiða-rètt, eiga þó þjóðir þessar í sífeldum stríðum innbyrðis og snæða ei allsjaldan fánga sína. Þeir grimm-

ustu medal þessara þjóda eru Bótúkadar, þeir hafa lengi elt grátt silfr vid Portúgalverja og gjørt þeim mikinn skada.

Hin kathólska trú er løgtekin í Brasilíuríki og eru þar einn erkibiskup og 8 biskupar settir til forrædis kénnimannligum málefnum. Múnkar boda þar kristna trú medal Indíana, en þeim hefir hingat til ordit lítt ágengt. Ei hefir enn hinn illræmdi trúar-vandlætis-dómr (Inqvisitionen) verit settr í ríki þessu og eigi eru þar fleiri klaustr enn 20.

Nú rædr ríki þessu keisari, er Petr hinn fyrsti heitir og tók hann keisara-tign og nafn 1822. Hann er sonr Portúgals konúngs, Jóhannis 6ta, er eptir andlát módur sinnar 1816 gjørdist einvalds-konúngr bædi í Portúgal og Brasilíulandi, er árinu ádr (1815) var ordit konúngsríki. Keisara þessum géngr rád nokkurt til handa í ríkisstjórninni og er því veldi hans takmarkat og á hann mjøg í vøk at verjast fyri frístjórnar-fylgismønnum.

Brasilíuland fann hinn huggrekki og snjallrádi farmadr Petr Alvarez Kabral, er 1500 lagdi í haf frá Portúgal og ætladi til Austr-India; þá hann sigldi sudr med Afríku, fleit hann undan vedr og rak hann vestr í haf, hann kom þar at landi, er fyrr segir. Hann eignadi landit høfdingja sínum, Portúgals konúngi; og sigldi at því búnu til Austr-heims. Med því at Portúgísar ei strax fundu þar gull og gimsteina, skeyttu þeir lítt um land þetta og sendu þángat at eins sakfelda glæpamenn og

Gydínga, sem gródursettu þar sykr-reyr, er þeir fluttu með sér frá Maderu. Á því tímu-ili þá Spánar-konúngr redi ríki í Portúgal og Hollendíngar vordu frelsi sitt fyri hönum, unnu þeir Brasilíuland undir sig; en þá Portúgisar høfdu aptr fengit konúng yfir sig, deildu þeir lengi um eignarrétt landsins vid Hollendínga uns þeir 1661 eptir samníngi vid þá fengu þat at fullu og öllu. Tóku þeir þá uppfrá því at kanna landit og fundu smámsaman því meira gull og önnur gædi, sem þeir leitudu betr. Þá Frakka-her herjadi á Portúgal 1807, flokk konúngr med hird sinni og miklu lidi úr landi og settist at í Ríó-Janeiró. Nærvera hans í ríki þessu vard brádum orsök og upphaf betri stjórnsemis og vænligra framfara i handidnum og mentum; kaupverslunin jókst, kaupeyrir landsmanna vard meiri og betri og öllum þjódum er nú heimilt at eiga kaup vid þá.

Þann hluta heimsálfu þessarar, er liggr milli Orínókó og Skjaldmeyja-ár og í milli hafs og Svart-ár (Rio Negro) hafa menn frá öndverdu kallat Gvíana (Guyana), og eignudu ýmsir Evrópu-einvaldar sér sinn hluta lands þessa hverr; vestr-partr þess lá undir Spánar-veldi, en er nú skeytt vid Kólumbíu-ríki; sudrhluti þess var eign Portúgísa, og er hat ennþá, en sameinat Brasilíu-ríki, sem fyrr segir. Hin hluta Gvíanu eiga nú þrír einvaldar evrópu-ríkja, nl. Frankaríkis, Hollands og Englands.

F. Landeignir Frakka. (Franske Besiddelser.)

Þær liggja milli hinnar portúgísisku og hollendsku Svíanu og skilja þar ár tvær löndin á báda vegu, nefnil. Maróni hit nyrdra og Oyapock hit sydra. Þær eru 3600 milr at ferhyrníngs-máli, en innbúar þeirra eru 32,000 at tølu. Vid sæ er land þetta vida flatt og agasamt og hvervetna óheilnæmt; en frjóssamt er þat og gagnaudugt. Þá frá sæ dregr taka fjøll vid og eydi-skógar.

Þar er høfudstadr, er Kajenna (Cayenne) kallast; hann stendr á ey í mynni samnefndrar ár; þar eru sterk varnar-virki, sigling mikil og kaupskapr. Sti Páll (St. Poul) vid Oyapock, Sínamari og Gabríel eru minni kauptún í þessu landi. Frá þessum kaupstødum flyzt: sykr, kaffe, vidar-ull, kakaó, indigó, hrísgrjón, tóbak, pipar, kaniel o. s. frv. Frakkar, er einnig kalla land þetta: Jafndægra Frantz, tóku þar fyrst bólfestu 1635, en hvurfu þadan aptr eptir skamma hríd, fluttu þá Enskir þángat; en 1664 gjørdist þat at fullu eign Frakka. Þeir hafa ei til hlýtar né med alúd yrkt og notat sér landit. Þángat, einkum til Kajennu, vóru útlagar reknir, medan stjórnarbiltíngin mikla stód yfir.

## G. Landeignir Hollendínga
(Hollandske Besiddelser),

edr hin hollenzka Gvíana, er elnnig kallast Súrínam, liggr fyri nordan hina frønsku Gvíanu og er 520 ferhyrn. milr at víðáttu; þat er mjøg flatlendt, agasamt og litt heilnæmt, en nær hvervetna forkunnar frjóssamt og gagnaudugt land. Um þat rennr í austr fljót, er Súrínam heitir; skamt frá mynni þess og vid þat vordanverdt stendr høfudstadr lands þessa, er Paramaribó heitir; hann er vel húsadr og lýsir hvervetna þrifnadi og híbýlaprýdi Hollendínga, er hann hafa gjøra látit. Þar er mikil kaupverslun, høfn góð og heimili jarls, (Gouverneurs), sem þar er settr til yfirsóknar, og 20,000 innb. Mynni fyrrtéds fljóts og jafnframt stadinn verja 3 virki ramlig: Selandía, Púrmerent og Nýi-Amsterdammr. Savana kallast þorp í þessari nýlendu; þar búa Júdar einir.

Innbúar þessa lands eru 57,000 at tølu og eru þeir af ýmsum Evrópu-þjódum komnir, t. d. Hollendíngum, Þjódverskum, (sérílagi hinum mærisku brædrum) Frøkkum og Gydíngum; er þar þykir einkar sýsiligt at byggja. Þadan flyzt sérílagi: sykr, kaffe, vidar-ull, litunar-tré og júrtir.

## H. Landeignir Enskra (Engelske Besiddelser).

Þær liggja fyri nordan hinar hollendsku eda Súrinam og eru 410 ferhyrn. mílr at stærd. Þessi hluti Gvíanu lá fyrrum undir Súrinam og var eign Hollendínga, en 1804 ruddu Enskir sér þar til rúms og eignudu sér landit, en fengu þat til fullrar eignar 1814. Þat greinist í 3 hérud eda nýlendur og kallast hin sydsta Berbice, er liggr bádumegin vidkéndrar ár; þar er samnefndr kaupstadr. Nordar liggr nýlendu-sveit sú, er Demerari kallast bádumegin vid samnefnda á; vid hana stendr kauptún þat, er Stabrok kallast, og annat, er Túmingóborg heitir. Nordast er nýlenda, sem kénd vid allmikit fljót, er Essequebó heitir; hún liggr ímilli þess og Pómarón-ár. Þar eru tveir kaupstadir, heitir annar Middelborg (edr Midborg), vid sídstnefnda á, og annar skamt þadan, er Kyk-óverall kallast.

Enskir láta blökkumenn yrkja landit af öllu kappi, og med því þar er frjóssamari jardvegr enn á eynum þeirra í Vestr-Indíum, skipta margir um bústadi og flytjast þadan til meginlands. Landsmenn eru 255,000 at tölu; á medal þeirra eru Blökkumenn svo margir, at 50 eru um hvörn hvítann og lifa þeir þar vid betri kosti, enn vídast er sidr til í Vestr-heimi,

at ei hlaupi þeir úr vist og ánauð til skóga upp og gjörist geigvænligir stigamenn, hvað optsinnis hefir viðborit í Gvíanu nýlendum, einkum í nýlendum Hollendínga.

Vestr-hluti allra þessara landeigna, sem nú er frásagt, er skógivaxinn mjög og ókannaðr af atkomumönnum; þar hafast Indíana-þjóðir við og eru þær flestar sákunnandi og litt siðaðar; konur yrkja þar jörð, og ríða allvel kerfur og motur, er þær selja Evrópumönnum, en karlar eru jafnan at dýra- og fiski-veiðum.

## I. Patagónia eðr Magelansland (Pathagonien eller Magelhaens-Land; Terra Magellanica).

Land þetta liggr fyri sunnan Plátu-ár-ríki, eða hin sameinuðu Frílønd í Suðr-Ameriku, og Kíli-ríki og er hinn syðsti hluti Vestrheims og jafnframt hit suðlægasta meginland á heimskringlunni. Fyrir austan þat er hinn atlantiski útsær, Magelanssund fyri sunnan, en Kyrrahaf at vestanverðu. Þat er hérumbil 22,000 ferhyrn. mílr at víðáttu, og liggr ímilli 36 og 54 mælistigs suðlægr. breiddar. Í landi þessu eru fjöll mikil og hrjóstug; Andes-fjallgarðr byrjar þar við Fróvarðs-höfða og gengr í norðr strandlengis hit vestra; í hønum eru eldfjöll ei allfá. Mittlands eru þar víða heiðar og øræfi mikil

og á þeim slár og flóar, en hit eystra, við sæ, er landit sendit mjøg og óviða grøsugt. Merkiustu ár, er þar falla í austr til sjáfar, eru: Leuvú, á sudr-landamæri Plátu-ár-ríkja; Kómarónes, á sunnar, og Gallegos sydst. Hverki eru bæir né kaupstaðir í þessu landi, því hverki skeyta landsmenn um staðfestu og ei hefir heldr útlendingum eða Spánverjum, er um lánga æfi hafa bygt löndin fyri norðan þá, tekist at vinna landit né taka þar upp nýlendr; þó hafa þeir talit þat með eignum sínum í Vestr-heimi. Skamt undan vestr-strøndinni liggr ey sú, er Madra de Dios eða Þrenníngarey kallast.

Veðrátta er þar mikinn hluta árs hørð, køld og hráslagasull, en sjaldsén heiðríkja; þokur eru þar tíðar og ofviðri lángjæf; er því skipaleið í grend við landit afar hættusøm og torsókt. Hagar eru þar víða góðir fyri kvikfé, en hverki er þar velt jørð til korns né ræktuð til slægna. Í skógunum, (sem eigi eru allmiklir), og á heiðum uppi gánga villi-hestar og villiuxar sjálfala og hópum saman. Við sæ eru margkynjaðir sjófuglar og í høfunum fyrir austan landit og vestan hvalr mikill og sæ-ljón. Í sjóar-hømrum vex þar skarfakál unnvørpum.

Innbúar lands þessa eða Patagónlar lifa af dýra-veiðum og fiski-fángi, búa í skinntjøldum og sekkofum, breyta opt bústøðum og

eru rakkir reiðmenn. Þeir greinast í 2 aðal-kynkvíslir og kallast önnr Mólúkkar (Molucher ɔ: hermenn), en önnr Púelkar (Puelches ɔ: austmenn); hvor þessara kynkvísla skiptist aptr í allmarga kynþætti og hefir höfdíngi nokkr (Kazik) mannaforráð í hvorri; þó er ríki þessara höfdíngja lítit og öll eru þar vanda-mál lögð undir úrskurð enna heldri manna medal alþýdunnar á þjóðfundum. Patagóníu-menn eru miklir vexti og karlmannligir, vel vaxnir og hraustir, en hverki eru þeir risar at vexti né svo ógurligar, sem fyrrum lék orð á. Þeir gjöra sér fatnað af dýra-skinnum, og eru mjög rubbúngsligir álitum. Mjög er þjóð þessi fáfróð um flesta hluti og kann lítt at ödrum verknadi enn veidum, vígum og vopna-smídi; þó hafa þær kynkvíslir, er nordast búa eda næst Spánverjum, tekit eptir þeim ýmislegt, er betr má sæma, en því lengra sem sudr eptir dregr, eru landsmenn villari og ómannblendnari, þó eru þeir hvervetna géstrisnir og hæglyndir, med-an gódu mætir. Þeir eru heidíngjar og gjöra sér margskonar hernskuliga ímindan um sköpun allrar skepnu og afdrif hennar at lokinni hérvist. Patagóníumenn sækka árliga, ollir því bólan og idugligs stríð bædi innbyrdis og vid nágrannana.

## K. Indíanaland (De frie Indianers Land).

Svo kalla menn hérud þau og landspláts, er afkomendr fornmanna byggja, og sem enn eru

frí forræðis útlendínga. Þau liggja á skjáli um þennan hluta heims-álfunnar, en þó öll skærri sjó. Innbúar þeirra eru flestir hirdíngjar eða lifa af kvikfjárrækt og veiðum, liggja við tjöld eða í hreisum, og eru optast á reiki með hjarðir sínar. Konur gæta búsmala og búsanna, en karlar eru tíðast at vígum og veiðum. Kazikar kallast höfðíngjar þeirra, en mjög eru umráð þeirra af skornum skamti. Þjóðir þessar mæla margbreyttar túngr; þeirra merkastar eru: gvaranska, kalíbúrniska, maypúriska og Qviknamál. Nokkr hluti þessara þjóða hefir tekit rétta trú og er kristin at kalla, en miklu fleiri eru þeir, sem enn blóta afguði (Fetischer) og hafa mikla trú á töframönnum (Bogajer) og prestum. Sumar eru þjóðir þessar mannætur, t. d. Kasíbar. Meðal þessara þjóða eru þessar kynkvíslir nafnkendastar:

a. í Kólumbiu-ríki:

Karaibar (Caraiberne); þeir búa við Orínókó-fljót. Otómakar (Otomaker); þeir búa vestar við sömu þjóð-á og eru starfsamir, yrkja jörð og hirða fénað með meiri greind enn flestir aðrir kynmenn þeirra. Þeir eru moldar- eða jarð-ætur. Arravakar (Arrawaker), þeir hafast við í Gvíanu. Gvaránóar (Guaraunos) búa í þeim hluta Gvíanu, er kénd var við Spán, og á eyunum í Orínókó-mynni; þeir

eru líkir Otómøkum at háttum og einkar friðsamir. Omagáir eða Omegáir, þeir byggja uppleudi Gvíanu, í greuð við Norðr-landamæri Brasilíu-ríkis og umhverfis vatn mikit, er Parímu kallast. Þeir eru nokkut skynugri og betr at sér enn þeir sem nú eru taldir, og búa í stað, er þeir sjálfir hafa bygt. Við vatn þetta og á eyunum í því eru kalk-klettar miklir, og er svo álengdar á þá at líta í sólskini, sem á gull og silfr sæi. Alt líkindum lætr, at þetta hafi verit tilefni ýmisligra skrøksagna, er einn af fylgdarmønnum Pizarro's, Franz Orellano at nafni, bar fyrstr manna til Norðr-álfu um land nokkurt um þat svið í Suðr-Ameriku, í hvørju væri svomikit gull, silfr og adalsteinar, sem bjørg, grjót og sandr í øðrum løndum. Þessu trúðu margir í þá daga og kølluðu landit: Gullland (El-Dorado), en fundu þat þó aldri síðan.

b. Í Plátu-ár-ríkjum búa Abivónar (Abiponerne) við Paranu-fljót. Nokkr hluti þeirra hefir tekit kristna trú.

c. Í Brasilíu-ríki búa Tópinambar; þeir eru fjølmennir mjøg og greinast í 70 kynkvíslir; sumar af þeim eru frjálsar forræðis Evrópumanna, en sumar eru þeim háðar, hafa tekit skírn og hafast við í kristniboðs-héruðunum (Missionerne); þessi þjóð er hin villasta og styrjaldarsamasta allra Indíana í þessum hluta heims-álfunnar. Auk þeirra eru þar og Tapvíar og Topínaqvar.

## L. Eyarnar.

Medal eyanna, er liggja í høfunum umhverfis Sudr-Ameríku, er fyrst at telja:

1. Gallapagos-eyar, þær liggja vestr undan Qvitó-fylki, í Kyrrahafi og undir midjardarlínu. Þær eru nærhæfis 200 at tölu og óbygdar. Á þeim er ógrynni af skjaldpøddum; kalla þær því sumir Skjaldpøddu-eyar. Þær eru eign Spánskra. Sunnar í Kyrrahafi, fram-undan Mid-Kíli og skamt fyri vestan Fernandez-eyar, sem fyrr eru nefndar, liggr eydi-ey, er Massa-Fuero heitir, og fyri nordan hana tvær óbygdar eyar, er Felix og Ambrósé kallast.

2. Eldlandit (Ildlandet, Terra del Fuego) er afar-mikil ey, er liggr fyri sunnan Sudr-Ameríku og er 1522 ferhyrnings-milr at víddáttu. Hana og meginlandit skilr sund lángt og krókótt, sem kéndt er vid hinn nafntogada siglingamann, er fyrstr (1520) fann þar skipaleid, og kallast Magellans-sund; í því ermestann hluta árs storma-samt mjøg og leidin skiput torfærum. Eyland þetta er talit medal enna snaudustu, óføgrustu og illvidrasamustu landa í heimi; þar eru fjøll há og grastóarlaus, jøklar og øræfi; þokur eru þar afar-tídar og sjaldgjæst hlýtt og heidskírt vedr. Gródr er

þar lítill og landkostir mjøg fáir; at eins hit eystra er þar lágr skógr og hrísland, en hvervetna ver þar mikil gnægd enna svokølludu skyrbjúgs-jurta. Þar er mikill fjøldi sæljóna, sækálfa, rosm-hvala og margkynjadra hræfugla og sæ-fugla einkum píngvína. Innbúar eylands þessa eru einhvor hin vesælasta, sáfródasta og ógerpiligasta þjód í heimi; þeir kallast Peskerear (Pescheræer) og hafa þeir fengit þat nafn af samlikum samstøfum, er Evrópumenn, er þar komu fyrst vid land, heyrdu þá klifa á, en ey þessa kalladi fyrrtédr Magellan Eldland fyri þá søk, at þá hann sigldi gégnum sundit, sá hann hvetvetna elda mikla á landi, er eyarmenn kyndtu til at verja sig kulda. Peskerear lifa mest af fisk-ætum og skélfiski, sjálfdaudum fugli og sel, því sjaldan tekst þeim at veida þá lifandi. Þeir eru litlir vexti og bervisaligir, óþrifnir mjøg og einkar ófrýniligir og einhvorir hinir aumustu vanskøpúngar mannligs kyns.

Fyri austan Eldland liggr ey, er Statenland (Staatenland) kallast; þau skilr sund, er La Maire heitir; og ønnr fyri sunnan þat, er L'Hermite kallast; á henni sunnanverdri er sydsti oddi Sudr-Ameriku, er Horn heitir. Bádar eru eyar þessar áþeckar Eldlandi at

landslagi, andkønnum og illvidrum; á þeim hafast Peskerear vid.

3. Fálklands-eyar (Falklands-Öerne), er Frakkar og Spánverjar sérilagi kalla Malúinur, liggja austr-undan Magellans-sundi eda landsenda Sudr-Ameriku. Auk all-margra smá-eya eru þar tvø allmikil eylønd, er sund þat, er Fálklands-sund eda Karls-sund kallast, skilr. Allar eru eyar þessar 157 ferhyrn. milr at vídáttu og mjøg líkar Eldlandi; þó eru þær nokkud byggiligri og audugri af því, er til manneldis þarf, og ei svo illvidra-samar. Á þeirri høfud-eyanna, er austar liggr, tóku Spánverjar upp ný-lendu og kølludu hana Soledads-høfn (Port-Soledad) og Enskir adra á enni vestri, er þeir hétu Egmonts-høfn (Port-Egmont); hvoritveggju hafa þeir látit nýbýli þessi í eydi. Ymsir farmenn hafa fyrstir þókst fundit hafa eyar þessar og gésit þeim ýmislig nøfn; medal þeirra Havkin, enskr at kyni, er kalladi adra þeirra: Meyarland, til heidurs vid Ellizif, meykoníng á Englandi; en flestir eru þó samdóma um, at Ameriko Vespuzzi hafi þær fyrstr fundit 1502.

4. Orlovs-eyar (eda Mani-Toualin) liggja sudr-undan Eldlandi og eru þrí áþekkar at landslagi og ødru. Innbúar þeirra eru

kynmenn Eldlendínga og þeim hverki fremri at mannrænu, ásýndum, né hagsældum. A einni þeirra er snirtiligt kauptún, er Krísinói heitir. Eyar þessar fann rússiskr farmadr, Krusenstern at nafni 1804 og kéndi þær vid Orlov, greifa á Rússalandi.

5. Nýa-Sudr-Georgía liggr í sudaustr frá Fálklands-eyum; þat er skér mikit, snæþakit vetr og sumar; þar vaxa at eins tvennslags grasa-tégundir. Vid þat sunnanverdt liggr ey sú, er Copers-ey kallast.

6. Sandvíkr-land (Sandvichland) kalla menn 5 gródrskulausar og ísum þaktar eyar, er liggja í sudaustr frá sídst-nefndu eylandi og hérumbil undir 60 mælistig sudl. breiddar. Þær fann Cook 1775. Sydsta eyan kallast Sudr-Thule.

7. Nýa-Sudr-Shetland liggr sydst allra landa, er menn fundit hafa á heimskrínglunni, undir 62 mælistig og í sudvestr frá Horni. Þat fann enskr hvalfángari, Vilhjálmr Smith at nafni, 1819.

## III. Vestindiur eda Mid-Amerika. (Vestindien.)

Svo kalla menn eyar þær allar og eylönd, er liggja í hinum mexikaniska hafsbotni og framundan edr austr af mynni hans, og ímilli þeirra stefnu-takmarka, er Flóridu-skagi hit nyrdra, en Orinókó-fljóts mynni hit sydra þykja benda til, eda ímilli ens 10 og 28 mælistigs nordl. breiddar. Eyar þessar eru svo margar, at varla má tölu á-koma; sumar eru afar-miklar og fjölbygdar, en sumar, svo smáar sem hólmar og sker, og óbygdar; sumar liggja á strjáli edr einstakar, aptr adrar flokkum saman og í nágrenni; sumum hafa jardeldar af hafi skotit, en þvínær allar eru þær hálendar og margar af þeim fjöllóttar mjög og brattar vid sæ. Allar eru þær ásamt hérumbil 5000 mílr at ferhyrnings-máli. Á þeim er mikit afl sólar og optsinnis ofr-hiti, þó kæla sævindar hann tídum. Rígníngar eru þar miklar í Augusti og Septemb. mánudum, hinn hluta árs er optast heidrikt og næturnar einkar fagrar; en á þeim er kulit svo napurt og óheilnæmt, at útlendíngum dregr til heilsu brests og bana, nema þeir gjaldi varhuga vid. Ofvidri og fellibiljir eru þar ei ósjaldgæfir og olla mikils tjóns á lög og landi. Flestar eru eyar

þesśar forkunnar gagnaudugar; hefir því flestum Evrópu-þjódum þótt fýsiligt at eiga þátt í eign þeirra og gædum, en opt hafa þær ordit málbroddr strída og illdeilda. Varia er sá stadr í heimi, er fleiri kaupfør áriiga heimsæki, enn eyar þessar, og hverki hafa hinir afrikanisku mansmenn aumligar stunit undir þrælkun og hardydgi fégjarnra rikismanna. Merkustu og almennustu gædi eya þessara eru: kaffe, sykr, vidarull og indigó; þaradauki: tóbak, kakaó, engifer, sassaparilla, kasia, bananas, maniok, yams og margskonar ágætr vidr. Frá ondverdu hafa menn þar sérilagi lagt stund á sykr-yrkju og dregit þar af hvervetna afar-mikin ard og byrgt um lánga æfi Evrópu þjódir at þessu leiti; eru þær því einnig af sumum kalladar Sykr-eyar. A seinni tídum hafa menn gródrsett þar sykr-reyr frá ey þeirri í Sudaustrhøfum, er Othaheiti kallast, og hefir hann þar svo vel gefist, at fullum þridjúngi er ágódinn meiri enn ádr. En med því yrkju-kostnadrinn er afarmikill og ýmsar þjódir á meginløndum taka nú at idka sykr-aflan, þykir uggvænt, hvert jardeignir á eyum þessum verdi á ókominni øld þvilíkt keppi-kefli sem hingat til. Medal enna ferfættu dýra, sem þar eru fá, er hit svo-kallada Moskus-svín hit merkasta; en margkynjadir

eru þar fuglar, t. d. pavagóar, kolibris, flamíngóar, fregat-fuglar, albatrossar. Þar er og skjaldpadda afar-mørg.

Innbúar eya þessara eru hérumbil 2 mill. og 500,000 at tølu; medal þeirra eru 400,000 Evrópumanna og 200,000 litblendinga eda móleitra manna; en hinir eru bløkkumenn at kyni, þeir lifa flestir í ánaud og þrælka á ekrum enna hvítu lánar-drottna; sumir hafa og hlaupit úr þrældómi þessum og flúit til fjalla upp, og hafast þar vid flokkum saman; þeir verja hraustliga frelsi sitt og kallast: Marønnegrar. Þjód sú, er í sudverdu bygdi eyar þessar, edr hinir svokølludu Karaibar (Caraiber) eru þar mjøg fáir vordnir; þeir eru bædi dokkmóraudir og svartir á hørund. Evrópumenn, sem bornir eru og barnfæddir á eyum þessum, kallast yfirhøfud Kreólar (Creoler); en Litkada eda Litblendinga (de Farvede) kalla menn þá, sem komnir eru af Evrópumønnum og bløkkum konum, og greinast þeir í þrennar kynslódir, er nefnast: Múlattar, Qvarterónar og Qvinterónar. Afkvæmi bløkkumanns og múlattinnu kallast Zambó, og barn þat er amerikaniskr kona og evrópumadr eiga saman, Mestiz, en Terceron þat barn, er madr af Evrópu ættadr og kona af Mestiza kyni, géta. Afkomu-

menn mæla túngur þeirra þjóða, er þeir eru affomnir. Margir tala þar og túngu þá, er kreólska kallast; hún er sambland ýmsra túngumála og mjøg margbreytt. Kristindómr er þar einnig með ýmsum hætti, bæði kathólskr, lútherskr og reformeradr og margskonar trúmanna-greinir. Færri eru þeir af Bløkkumønnum, er tekit hafa rétta trú, þótt þeim hafi hún bodin verit sérílagi af Herruhúttingum; þeir halda flestir enn við átrúnað forfedra sinna og eru setis-dyrkendur. Hverki gefa eyarmenn til rida gaum at vísindum né íþróttum, og fáar eru þar stiptanir, er til mentunar mida; senda því ríkismenn børn sín til uppfrædslu í Evrópu, og ei koma þar adrar ritgjørdar út á prenti enn fréttablød. . . . . . . . . .

Ymiskonar eru eignarmenn eylanda þessara, nl. Enskir, Spanskir, Frakkar, Hollendingar, Danir, Svíar og frìir Bløkkumenn.

Vestindíur greinast í þrjá høfud-hluti: I. Bahama-eyar, II. enar svokølludu Antillur, og III. Bermúdas-eyar.

I. Bahama-eyar,

er einnig kallast enar Lúkaisku eyar, liggja í

austr og suðaustr frá Flórídu-meginskaga og heitir sundit milli hans og þeirra Bahama-sund. Þær eru 200 (sumir segja 700) at tölu, en flestar eru þær litlar, og margar at eins sker og hólmar. Þær suðlægu liggja undir hinum heita himinvegi og geysa á þeim optsinnis geigvænligir stormar. Þær eru allar ásamt 257 milr at ferhyrn. máli og teljast með eignum Englendínga, er þar hafa jarl (Gouverneur) settan til yfirsóknar. Þar er hollara lopt og þægiligri veðrátta enn á Antillum. Merkustu gæði eyja þessara eru: kaffe, sykr, viðar-ull, índigó, mahógní-viðr, litunar-tré o. s. frv. Eyamenn eru 11,000 at tölu, en at eins eru 2000 af þeim hvítir á hörund. Þeir iðka jarðyrkju, fiski-afla og skipa-smíði og tilreiða ærit salt.

Meðal eyanna eru 3 nafnkéndastar, nl. Próvidenze, hún er 8 ferhyrn. milr at stærð; þar er höfuðstaðr, er Nassá (Nassau) heitir; í hönum sitr eya-jarl; Bahama, hún er tvöfalt stærri og óbygð, og Gvanahaní (eða St. Salvador; á ensku Cat-Island). Menn hafa lengi haft fyri sannindi, at ey þessi verit hafi hin fyrsta, er Kólumbús fann í Vestr-heimi; en nú leika á því tvímæli.

## II. Antillur (Antillerne *).

Þær eru tvennar, nl. enar miklu og enar litlu Antillur. Þær fyrri eru 4 eylönd all-mikil, er: Kúba, Hayti, Jamaika og Portó-Rikó.

A. Kúba; þat er hin vídlendasta ey í Vestindium, liggr í austr og vestr, og heitir hinn vestri lands-endi hennar Antoníusar-höfdi, en hinn eystri Wayzi; í millum þeirra gengr hár og einlægr fjallgardr eptir henni midri. Strandirnar eru hvervetna lágar og umhverfis þær liggja smáeyar, skér og hólmar. Hún er 2300 ferhyrn. milr at vídáttu, og liggr undir Spánar-veldi, og er hún einkar ardsamr og merkr eigindómr. Spánarkonúngr hefir gefit henni nafnbót og kallat: "ávalt trú". Vedr-átta er þar áþekk því sem í ødrum løndum, er liggja milli hvarfbauga og nær hvergi er svo heil-næmt loptslag í Vestindium. Eyarlýdrinn er 520,000 at tolu og er allr helfingr hans á-naudug kynslód Blokkumanna. Jardar-ágódi er þar sérilagi: kaffe, sykr, indígó og tóbak, vidar-

*) Menn meina at einhvor enna fyrstu vestur-fara hafi kallat eyar þessar: Ante-insulæ (Ant-iles) ɔ: for-eyar, fyri þá sok, at þær liggja fram-undan eda frammi fyri meginlandi og urdu fyrst fyri þeim, er þeir komu at austan.

ull, uxa-hudir; þar má finna gull nokkut og silfr, en lakliga er þeirra leitat. Ey þessi er eitt jarlsdæmi, sem kent er vid Havanna (Generalcapitainskabet Havanna). Allvestarliga á nordr-strøndinni og þvínær gagnvart Flóridu sudr-horni stendr høfudborgin, er Havanna (at nafnbót: "hin hvervetna trú-sta") heitir, hún er mikil, ramliga umgirdt, vel og skipuliga húsit; þar sitr landshøfdinginn (Generalcapitainen); þar er háskóli, herthahús mikit, spitali, tóbaks-tilreidslu-verkstadir nafnkunnir, og høfn svo rúmgód, at 1000 stórskip géta legit þar, en svo er mynni hennar mjótt, at ei mega fleiri enn eitt í senn inn-leggja. Borg þessi er høfud-kaupstadr Spánverja í Vestrheimi; þar eru 36,000 (adrir segja 70,000) innbúar. Austar á eyunni stendr kaupstadr, er Villa de Principe heitir; hann gengr høfudborginni næst at stærd, fjølmenni og audlegd; þar eru 30,000 innb. Enn austar og á sudrstrøndinni stendr hinn forni høfudstadr, er Sti Jago eda Jakob (St. Jago de Cuba) heitir; þar eru 20,000 innb. Kólúmbus fann eyland þetta 1492 og kalladi þat: Juanna.

B. Hayti, sem einnin kallast Sti Dómingó og Hispanióla, liggr fyri austan Kúbu og er annat eyland mest at víddttu í Vestindíum.

Asamt eyunum, er liggja umhverfis, er þat 1400 mílr at ferhyrn. máli, fjöllótt mjøg, vogskorit og nesjótt, forkunnár frjófsamt og gagnaudugt. Merkustu landgœdi og kaupeyrir, sem þadan flýzt, er: sykr, kaffe, vidar-ull, indígó, kakaó og skinna-vara. Inni vestr-enda eyunnar (er liggr í austr og vestr) hverfr allbreidr fjørdr, sem kéndr er vid eyuna Gonave, er í hønum liggr. Vid fjørd þenna stendr høfudstadrinn, er Port-Republicain (Frírikis-hofn, fyrrum Port au Prince) kallast; þar er heimili forsetans, er hefir ædstu umrád á eyunni, og 12,000 innb. — og gód høfn og allmikil kaupverslun. A nordr-strøndinni er merkr kaupstadr, er Kap (Cap ɔ: Høfdi, eda Cap François ɔ: Frakkahøfdi) heitir. Þar sat Hinrik keisari hinn fyrsti. Stadarmenn eru 15,000 at tølu. Austarliga á sudr-strøndinni stendr kaupstadr, er Sti Domingó heitir; til hans lét Kólúmbus leggja grundvøll og gaf hønum nafn fødur síns; hann er því hinn elzti stadr, er Evrópumenn hafa gjøra látit í Vestr-heimi. Þar er gód høfn og mikill kaupskapr. Í dómkyrkjunni láu bein Kólúmbusar virdugliga greftrud til 1796, vóru þau þá flutt til Havanna. Stadar-múgrinn er 10,000 at tølu.

Í grend vid eyland þetta liggja 4 eyar,

er Samana, Saóna, Gónave og Tortúga heita. Hin sídstnefnda var á 17 öld illræmt víkinga-bæli, þá sjó-reifarar, er Búkanierar kölludust, herjudu í Vestindía-hofum.

Kólúmbus fann eyland þetta 1492 og skeytti þat þegar vid landeignir Spánar-konúngs; hann kalladi þat: Espannóla o: ena spænsku ey; af því nafni leiddu menn annat, þó rángliga, nl. Hispaniola o: litla Spán. Hann tók þar upp nýlendu, er var 1387 ferh. mílr at vídáttu. 1647 vard vestr-hluti eyunnar eign Frakka-konúngs, svo nú vard hún beggja þessara einvalda eigindómr; en þá alls-herjar-rádit í Fránkaríki gjördi þjódkunnugt frelsi Blökkumanna, gjördu þeir þegar uppreist og drápu alla hvíta nýlendumenn. Blökkumanna foríngiun, Dessalínis at nafni, tók keisara-nafn 1804 og lét sig kalla Jakob hinn fyrsta; en tveim árum seinna var hann af dögum ráðinn. Nú hóf blökkumadr sá, er Christoph hét, flokk mikin hit nyrdra í vestrparti eyunnar, lét sig úthrópa til keisara, og kalla Hinrik hinn fyrsta; hann samdi sig mjög at háttum Frakka og fylgdi þeirra dæmi um þat tímabil í stjórnar-nidurskipun og herbúnadi. Um sömu mundir stiptadi múlatti nokkr, Petion at nafni, frí-ríki hit sydra í vestr-partinum og lagadi stjórnarformit eptir Fríflanda-ríki í Nordr-Ameríku. Ríki þessi báru st hvívetna banaspjótum eptir, uns upphlaup mikit í hinu nyrdra firti Hinrik keisara landi og lísi 1820 og hösdíngi sá, er Boyer heitir, og ordinn var forseti í hinu sydra, at Petioni látnum (1818), sameinadi þau og at því búnu fór herskildi yfir eystri hlut eyunnar, er þángat til verit hafdi eign Spánverja, og lagdi hann undir sig; gjördist þá gjörvöll eyan eitt frí-ríki (1821), og er þar öllu, er vidkémr lýdstjórn og landsrétti, eins hagat og háttat og í enu Nordr-Ameríkanska Fríflanda-ríki, at því undanteknu, at forsetinn (nú hinn fyrrtédi Boyer) hefir meiri umráð og sitr til banadægurs at völdum. Þar

er hin kathólska trú í løg leidd, og allir Bløkkumenn leystir úr ánauð Herlid ríkis þessa er 50 000 vígra manna, en eyar-lýðrinn 700,000 at tølu.

C. Jamaika (Jamaica), hún liggr suðrundan eystri hluta Kúbu og er allra eya, er Enskir eiga í Vestindium, merkust og vídlendust, nl. 268 ferhyrn. mílr at stærd. Lángsetis eptir henni midri gengr hár og brattr fjallgarðr, í austr og vestr, er hin Bláu-fjøll kallast; í þeim eru gil djúp og klofar. Strandirnar eru øllumegin frjóssamar mjøg og flatlendar, einkum at sunnanverdu, en hvervetna er þar óhoit loptslag. Svo er þridjúngr eyar þessarar vel yrktr, at óvída mun betr, og draga Enskir afarmikin ard bædi af landgædum hennar og launkaupum þeim, er þeir eiga þadan vid ýmsa eya- og meginlands-búa. Milli hennar og Englands eru 400 kaupskip í førum. Innbúar eylands þessa eru 360,000 at tølu og eru þeir flestir sømu trúar og Englendingar. Pat er greint í 3 umdæmi, er kallast: Surry, Medalser (Middelsex) og Kornvall, en einn er þar nýlendu-stjóri (Gouverneur) settr til yfirsóknar.

Á suðr-strøndinni stendr høfudstadr eyar þessarar, er Sti Jakob (St. Jago de la Vega), eda Spánar-tún (Spanish-Town) heitir. Par er heimili nýlendustjórans og 5000 innb. Austar er kaupstadr, er Kingston (Kóngs-

steinn) kallast, þar er ágæt og víggirdt høfn og 16,000 innb. Austast stendr Port-Royal (Kóngshøfn), þar er sterkr kastali.

Ey þessa fann Kólumbus 1494 og kalladi hann hana: St. Jago eda Jakobs-ey; en innbúar hennar hétu hana Yaimaca eda Lækjaland. Sonr hans Diego var þar fyrstr jarl eda nýlendustjóri. 1654 unnu Enskir eyuna undan Spánarveldi og gáfu henni heiti þat, er hún hefir haldit sídan, eins og þeir henni í eigu sinni alt til þessa dags.

D. Portó-ríkó (eda Puerto Rico) liggr fyrir austan Hayti eda Sti Dómíngó, og er hún 182 mílr at ferhyrn. máli; hún er hin minsta medal enna miklu Antilla, en þeim lík at landslagi og landkostum. Eptir henni midri gengr fjallgardr í austr og vestr, en strandirnar bádumegin eru flatlendar og einkar gagnaudugar; þadan flýzt sérílagi kaffe og tóbak; skógar eru þar miklir og ærit kvikfé og villidýr. Rigningasamt er þar og hiti mikill; þó temprar austanþrávindi ofurhitann. Asamt þeim af hinum svokølludu Jómfrúar-eyum, er liggja undir Spánarveldi, er hún eitt Landshøfdingjadæmi (Generalcapitainskab). A henni nordan-verdri stendr víggirdtr høfudstadr, er Sti Júan (Jóhannes) á Portó-Ríkó kallast; þar sitr høfdingi sá (Generalcapitain), er þar hefir manna-forrád; þar eru 8000 (adrir segja 30,000) innbúar.

Kólumbus fann ey þessa 1493, en 1510 tóku Spánverjar þar bólsestu og hafa þeir þar sídan búit á eign sinni Mjøg jókst tala þeirra, þá Frakkar slúdu af Hayti fyri Blökkumönnum.

Hinar litlu Antillur (De smaa Antiller) edr enar Karaibisku-eyar liggja í bug frá austr-enda sídstnefndrar eyar til Trinidad sudr og svo vestr med nordr-strønd Sudr-Ameríku; þær eiga Enskir, Frakkar, Spánskir, Hollendingar, Danir og Svíar. Menn skipta þeim almennt í 3 flokka, nl. Jómfrúar-eyar, Forvindis-eyar (Öerne for Vinden; á spønsku: Islas barlovento, á ensku: Leewards-Islands) eda eyar þær, er liggja hver sudr af annari milli Porto-ríkó og Trínidad, — og Andvindis-eyar (Öerne under Vinden; á spønsku: Islas sottovento, á ensku: Windwards-Islands) eda eyar þær, er liggja sudr med syrtédri strønd. Þó kémr ei øllum Evrópu-þjóda farmønnum saman um hvørjar eyar svo skuli heita; því Enskir kalla at eins Barbados, er austust liggr allra Antilla, forvindis-ey.

Jómfrúar-eyar eda hinar virginsku eyar liggja fyrir austan Portó-ríkó og eru 60 at tølu. Þær eru deildar milli Dana, Englendinga og Spánskra:

a. Danir eiga þrjár, nefnil.

1. Thómasar-ey (St. Thomas), hún liggr þessara nordust, og er 2 ferh. m. at stærd.

Eyarmenn eru at eins 5800 at tølu og eru ámedal þeirra 5000 bløkkumanna. A henni eru 74 plantazjur eda sykr-ekrur. Þar er lítill kaupstadr, er Sti Thómás heitir; hann er at eins eitt stræti; þar er mikil kaupverslun og ágæt høfn, sem øllum þjódum er heimilt at heimsækja — og 2100 innb. Eyan er fjøllótt og vida grýtt. Sunnar liggr

2. Sti Croix (les: Kroa) eda Cruz (Krossey), hún er 5 mílr at ferhyrnings máli, einkar frjóssøm og forkunnar vel ræktud. Hana byggja 4000 Evrópumanna, einkum Enskra og Danskra, og 28,000 Bløkkumanna; þeir mæla hvørirtveggju sérílagi ensku og kreólsku. A henni eru 350 plantazjur. Þadan flýzt ógrynni af sykri og rommi bædi til Danmerkr og enna Amerikanisku Frílanda. Þar er høfudstadr þessara landeigna Dana-konúngs, er Kristjánsstadr heitir; þat er allvel húsadr og snotr bær; þar er heimili nýlendu-stjóra (Gouverneurs) og stjórnar-ráds (Regjerings-raads), sem konúngr hefir sett á eyum þessum til yfirsóknar; kaupskapr er þar mikill og allgód høfn, hana ver festing, er Kristjánsvørn (Christiansværn) kallast. Kaupstadar-lýdrinn er 5000 at tølu. A ey þessari er og kauptún þat, er Fridriksstadr heitir. Fyri sudaustan Thómasar-ey liggr lítil ey, sem er henni lík at landslagi og landgædum og jafnmikil at stærd; hún heitir:

3. Sti Jan eda Jean (Sjan); á henni eru 300 hvítra manna, en 2200 blakkra; þar

er litill stadr, er Fridardalr (Friedensthal) heitir; þar búa hernhúttiskir kristniboðarar.

Skamt frá Sti Croix liggr eydi-ey, er Krabba-ey kallast; hún er byggilig og allnýt og tekr nafn af stórvoxnum krobbum, er þar finnast unnvörpum. Hana þykjast Danir, Enskir og Spánverjar eiga allir jafnframt og hafa þeir ei enn samist á þat, hvorjir þeirra skyldu eignast hana og nota með fullum rétti.

A dögum Fridriks hins þridja, Dana-konúngs, tók danskr farmadr, Eirikr at nafni, bólfestu á Thóms-sar-ey; hann andadist 1666 og var þar grefradr. Nokkru seinna eignudi Enskir sér eyuna og tóku þar upp nýlendu, en 1672 afstód konúngr þeirra, Karl hinn annar, hana Donum. 1773 seldu Frakkar hinu vestindiska verslunar-félagi Sti. Croix, en 1697 logdu Danir Sti Jan undir veldi sitt.

b. Enskir eiga medal Jómfrúar-eya þrjár, nl. Virgin-Gorda (eda Spanish-Town), Tortóla, sem er 5 ferh. milr og hefir 11,000 innbúa, og eydi-ey, er Anegada heitir.

c. Spánverjar eiga þar tvær eyar, heitir onnr Slánga-ey, en onnr Passage.

Hinar svokolludu Forvindis- og Andvindiseyar, medal enna smáu Antilla, eru eign fimm þjóda i Evrópu.

Enskir eiga:

1. Angvilla (Snake-Island, o: Snákaey), hún liggr nordust; og adra i sudaustr þadan, er Barbúda heitir; þær eru bádar ásamt 6 ferh. milr, en innbúar þeirra eru 2100 at tolu. Ena sidari á ætt-leggr sá á Englandi,

er Codrington heitir. Í suðvestr frá henni liggr: 2. Sti Christoph eða Sti Kitts; sú ey er 3 ferh. mílr, fjöllótt og einkar vel yrkt; þar eru 32,000 innb.; á fjalli, er Brennusteinsfjall kallast, stendr varnarvirki. Suðr af henni liggja 2 smá-eyar, heitir hinn nyrðri: 3. Nevis, á henni eru 16,000 innb og kaupstaðr, er Karlstún (Charlestown) kallast; en hin syðri: 4. Montserat, þar eru 11,000 innb. Fyrir austan þessar eyar liggr 5. Antiqva, hún er 5 ferh. mílr, en eyar-lýðrinn er 41,000 at tölu. Þar er kaupstaðr, er Jónstún (Johnstown) heitir; þar sitr nýlendustjóri, sem settr er yfir 5 síðstaldar eyar. Útsláugt þaðan í suðr liggr: 6. Dóminíka (Dominique), hún er 14 ferh. mílr at stærð og fjöllótt mjög. Kólumbus fann ey þessa á sunnudegi, (dominica ɔ: dies) og kallaði hana því svo. Þar eru 27,000 innb. og kaupstaðr, er Roseaü heitir. Nálægt eyunni háðu Enskir og Frakkar sjóorrustu mikla 1782, og hösðu Enskir sigr. Í suðaustr þaðan liggr: 7. Lucia (St. Lucie), hún er $10\frac{1}{2}$ ferh. míla, allfrjófsöm, en óheilnæm. Hana afsöluðu Frakkar sér 1814. Þar eru 25,000 innbúa, kaupstaðr, er Kastries-höfn (Port-Castries) heitir; þar er höfn svo góð, at 50 línu-skip mega þar liggja óhult fyri stormum af öllum áttum. Sunnar er: 8. Sti Vincent, hún er $6\frac{1}{2}$ ferh. míla, hálend og gagnauðug, en eyarmenn eru 30,000 at tölu. Meðal þeirra hafast þar enn við svartir og mó-rauðleitir Karaíbar; hinir fyrri eru afsprengi Blökkumanna og téðrar forn-þjóðar. Þar er

kaupstadr, er Kingston heitir. Í austr þadan liggr 9. Barbados, sem ádr er nefnd; hún er 10 ferh. milr at stærd, einkar frjófsöm og hin heilnæmasta ey í Vestindíum. Þar eru 78,000 innbúa — og umgirdtr kaupstadr, er Brigde-Town (Brúartún) heitir. Í sudr frá Sti Vincent liggr: 10. Grenada, hún er 8½ ferh. mila at stærd og fjöllótt. Á henni og 3 smá-eyum, er liggja í grend vid, einkum fyri nordan, hana og kallast: Grenadillur, er manntalit 35,000. Þar er kaffe-yrkja mikil — og víggirdtr kaupstadr, er Georgstún (George-Town; Girgistún) heitir; þar er ágæt höfn. Í sudaustr þadan liggr: 11. Tóbaksey (Tabago), hún er 6 ferh. milr; þar er kaupstadr, er Skardaborg (Scarborough) heitir. Eyar-lýdrinn er 18,000 at tölu. Þá Cólumbus kom þar vid land, budu Eyarmenn hönum pípu, af hvørri þeir reyktu jurt nokkura, er þeir kölludu: Kohiba, en sídan vard al-kénd med ødru nafni. Milli Tóbaks-eyar og meginlands liggr allmikit eyland, er: 12. Trínidad eda Þrenníngar-ey heitir; hún liggr sydst allra Antilla og skamt fram-undan ósum Orínókó-fljóts; hún er 78 milr at ferhyrníngs-máli, og einhvør hin fegursta og frjóssamasta ey í Vestr-heimi; þar eru fjøll mørg, yndis-ligir dalir og fagurt slétt-lendi og margskonar ágætar landsnytjar, en ei er þar heilnæm vedr-átta. Eyarmenn eru 38,000 at tølu. Spánska-tún (Spanish-Town eda Puerto de Espanna, Spánska-höfn) er þar merkastr kaupstadr.

Frakkar eiga:

1. Gadelúp (Guadeloupe), hún er 31 ferh. míla at stærd og liggr fyri nordan Dóminíku, sem ádr er nefnd. Sund nokkurt mjótt skiptir henni í tvo hluti, og kallast hinn eystri: Mikla- eda Háa-land (Grand-Terre), en hinn vestri: Lágaland (Basse-Terre). Á bádum eru fjøll ei all-lítil, og á sídar nefndri ey er hit svokallada Brennusteins-fjall, af því leggr hvervetna dimm svæla í lopt upp. Eyarbúar eru 88,000 at tølu. Á vestri eyunni er høfudstadr, er Basse-Terre heitir, þar sitr jarl eda nýlendustjóri (Gouverneur); en á enni eystri: Point-á-Pierre. Undir Gadelúps jarlsdæmi liggja einnig 3 smá-eyar, er liggja í grend vid Gadelúp; heitir hin nordasta: 2. Desirade (hin eptiræskta); 3. Maria-Galante og í millum þessara: 4. Hinar Helgu-eyar (Saintes). Enn fremr: 5. Martiník (Martinique), er liggr fyri sunnan Dóminíku, og er hit merkasta og gagnaudugasta eyland, er Frakkar eiga í þessum høfum; hún er 17 ferh. mílr at stærd, vogskorin mjøg og nesjótt. Mittlands eru há strókafjøll, skógi-vaxin, er skipta eyunni í tvo hluti; kallast hinn eystri: Cabes Terre, hinn vestri edr vestr-strøndin: Basse-Terre, en nordr-horn hennar Mókúba (Mocouba); þadan flýzt ágætt tóbak. Hit vestra á eyunni stendr kaupstadr, er Sti Peturstadr (St. Pierre) kallast; þat er einhvør hinn skrautligasti og fjølmennasti stadr í Vestindíum; þar er kaupskapr mikill, høfn gód, sterk varnar-

virki og heimili 30,000 innbúa. Eyar-lýdrinn er 70,000 at tøln, og er at eins hinn 9di parte hvítir menn. Þar eru og enn nokkrar leifar af Karaiba-þjód. Þadan flýzt: kaffe, sykr, bóm-ull, tóbak og litunar-tré.

Hollendingar eiga:

1. Sti Martin (Marteins-ey), hún liggr fyri sunnan Angvilla og er 4 ferh. mílr at stærd; þar eru 4100 innb. Þadan flýzt ógrynni vidar-ullar, sykurs og sæsalts. Í hásudr þadan liggr: 2. Sti Evstaz (Eustatia; Evstachiusar-ey); þat er lítil ey og einkar hall-kvæm til launverslunar. Þar eru 2200 innb. Nokkut nordar er enn minni ey, er Saba kallast. Fyrir þeim øllum þrem rædr einn ný-lendustjóri. Fram-undan nordr-strønd Sudr-Ameríka liggr ey, er Kúrasaó heitir; hún er 8 ferh. m. og hin merkasta af landeignum Hollendinga í Vestindía-høfum; Eyarmenn eru 7400 at tølu; þeir eiga mjøg laun-kaup vid meginlendinga. Þar er kaupstadr og heimili nýlendustjóra, er Vilhjálmsstadr heitir, og fríhøfn, er Barbara kallast. Í grend vid þetta eyland liggja 3 eyar minni, er Arúba, Aves og Bonaire heita.

Spánverjar eiga ey þá, er Margarita (Perla, Perlu-ey) kallast; hún liggr ei lángt undan meginlandi og í nordr frá Kúmana; hún er 16 ferh. mílr at stærd og gagnaudug mjøg; einkum drógu menn þar fyrrum afar-mikin ard af perlu-fángi, er eyan tekr nafn af. Eyar-lýdrinn er 17,000 at tølu. Þar er høfudstadr, er Assúmption (eda Assomtion) heitir; þar

sitr nýlendustjóri (Gouverneur), sem settr er til manna-forráða bædi á ey þessari og ødrum minni eyum, er liggja í grend við hana.

**Svíar** eiga at eins eina ey medal Antilla, er **Sti Barthelemi** heitir; hún liggr skamt frá Marteins-ey og Angvillu í sudaustr; þar eru margar landsnytjar og heilnæmt lopts-lag. Eyarbúar eru 6000 at tølu. **Gústavía** er þar merkastr stadr; hann tekr nafn af Gústafi konúngi hinum þridja, er keypti ey þessa at Frøkkum 1784; þar er frihøfn, er **Carenage** heitir.

**Skýríngargr.** Tvær bygdu þjódir hinar vestindisku eyar, þá Evrópumenn komu þar og løgdu þær undir veldi konúnga sinna; ønnr bygdi hinar miklu Antillur og var hún fridsøm og góðlynd, kunni at jardyrkju og afladi sér mais-korns og vidar-ullar, vóf dúka, er hún hafdi sér til klædnadar, og litadi þá vel. hafdi hugmind, þó heidin væri, um einn guddóm ædstann, er hún blótadi, og um sida-løgmál, en brátt vard hún yfirstigin af ágengum og hardhjørtudum atkomumønnum, er ei hættu fyrri at ryðja sér til rúms, enn hún var aldauda og á brott flúin. Ønnr þessara þjóda bygdi hinar litlu Antillur og kalladist **Karaíbar** (Caraiber); þeir vóru, sem enn, ósidadir, grimmir, hardsnúnir og hraustir, og ósóktu hvervetna fyrr-téda þjód med vígum og ránum; þeir vørdu og lengi knáliga frelsi sitt fyrir enum vígkænu Evrópumønnum, og flúdu heldr til meginlands, enn at þýdast þá eda varpa sér undir veldi þeirra. Enn hafast nokkrir vid í fjallbygdunum á Sti Vincent og Martinik og gjøra þráliga herhlaup nidr í bygdina, en mjøg gengr nú til þurdar tala þeirra hvervetna.

## III. Bermúdas eda Sommers-eyar.

Svo kalla menn eya-klasa mikinn, er liggr 130 mílr sjáfar í há-vestr undan Karólínu-fylkis strøndum í Nordr-Ameriku, og telja hann sumir til Vestindía. Þær eru 350 at tølu, en flestar eru þær óbygdar og grastóarlaus sker; allar eru þær ásamt 108 ferhyrn. mílr at stærd, en manntalit á þeim átta, sem bygdar eru, er hér-umbil 11,000, og er sinn helmíngrinn af hverjum, hvítum og blökkum mønnum. Medal landgæda telja menn: óranjur, hør, hamp, tóbak, vidarull og korn, þó ei til hlýtar; ennig elnast þar raudr cedrus-vidr, sem er einkar gódr til skipasmída, og olíu-vidr; en hvervetna er þar, sem vídast í Vestindíum, skortr á uppsprettu- eda rennandi vatni. Eyamenn eru starfsamir og leggja álúd á akr-yrkju, skipa-smídi, fiski-veidar og lerepta-vefnad. Þar er temprat lopts-lag, hlýtt og heilnæmt, en tíd ern þar ofvidri, er olla mikils tjóns. Enskir eiga eyar þessar og hafa þeir þar settan jarl eda nýlendustjóra ásamt fulltrúa-rádi til yfirsóknar; hann sitr í stad þeim, er Sti Georg (Girgisstadr) heitir, og stendr á samnefndri ey. Þessara eya mest er Bermúdas.

Eyar þessar fann spánskr farmadr, Juan (Jóhann) Bermudas at nafni, 1503 (edr 1522) og vóru þær sídan vid hann kéndar. 1609 fann enskr sigl-íngamadr, Georg Sommer eda Summer at nafni, þær á-ný (af hverjum þær einnig tóku nafn) og lagdi hann þær Englands konúngi med gøgnum og gædum.

# V. Ástralía eðr Suðr-heimr (Australien).

Svo kalla menn eylønd þau og eyar, er liggja í Kyrra- eðr Suðr-hafi imillum Ásíu-eya og Ameriku vestr-stranda (eðr ímilli 30° norðl. br. og 50° suðl. br. og frá 120° til 250° lengd). Þessi fimtúngr eða fimta álfa heims-kringlunnar kallast einnig Suðindiur eða Polynesía (Eyaheimr eða Eya-álfa) og er, at øllum eyum samtøldum, er þar til liggja, hérumbil 180,000 milr at ferhyrnings-máli. Um tøln innbúa þessarar heimsálfu hafa menn eigi sannar søgr, því mikill hluti hinna stóru eylanda er enn ókannaðr; þó geta menn til, at vart muni þar fullar 2 milliónir. Mannkynit er þar af tveim þjóð- eðr høfuð-ættum, nl. af Bløkkumønnum og Malajum, komit. Kynmenn enna fyrri byggja Nýa-Holland, Nýu-Gíneu og Nýu-Kaledóníu; þeir eru bikfvartir á hár og hørund

og hrokkinhærdir mjøg, frammyntir og vara‑þykkir, møsulbeinir og armleggjamjóir, og eru mannrænulitlir villimenn og mannætur. Ættingjar hinna sídar‑nefndu eru innbúar Félags‑eya, Vinsemdar‑eya, Marqvesas‑ og Sandvíks‑eya og Nýa‑Sælands; þeir eru at vexti og ýfirlitum áþekkir Evrópumønnum og ei til muna dekkri á hørundit enn Spánverjar eda Vallend‑ingar; þeir eru gódlyndir og kunna at akr‑yrkju, blóta afgudi (Fetischer) og hafa nokkurs‑konar stjórnar‑form og lagasetnínga. Á hinum stærri eyløndum eru fjallgardar háir og lángir, en á hinum minni hnúkar og einstøk fjøll. Hit hærsta fjall í þessari heimsálfu er Egmonts‑fjall (Mount Egmont) á Sandvíks‑eyum. Vida liggja rif, þakin kóral, og grunnsævi frá landi út; er þar því skipaleid hættusøm og tor‑sókt, og til eru þar smá‑eyar og hólmar, er ei samanstanda af ødru enn skélhúsum kóral‑kvik‑inda. Í Ástralíu er þvínær hvervetna þægi‑lig vedrátta og temprat loptslag, því heldr sem sunnar er; en hit nyrdra eda bádumegin vid Midjardar‑hríng er ofr‑hiti, sem annars‑stadar í grend vid midbyk jardar.

Menn skipta þessari heims‑álfu í tvo høfud‑parta, nl. I. Meginlandit (Australlandet) edr Nýa‑Holland, og II. Eya‑klasana.

## I. Nýa=Holland (Australlandet ɔ: Suðr=heima=land).

Þessa ferliga miklu ey má með sanni kalla meginland í þessari heims=álfu; hana kölluðu landsmenn Ulimaroa, og Portúgisar, er fyrstir fundu hana: Miklu=Java, en Hollendingar, er þar komu við land 1615, gáfu henni þat nafn, er hún hefir síðan haldit. Land þetta liggr í suðr frá Java, ímilli 10 og 40ta mælistigs suðl. br., og 70 mílr í suðr fra Kryddeyum. Þat er 150,000 (Frakkar segja 138,000) ferhyrn. mílr at víðáttu. Evrópumenn hafa at eins kannat strandir lands þessa, og eru þær margbreyttar, bæði fagrar og sléttar, og brattar mjög og bjørgóttar, en því nær alt miðlendit er fjøllótt, og þeim ókunnugt. Fjallgarðr nokkr, er hin Bláu=fjøll kallast, gengr í suðr og norðr, 5 mílur fyri vestan Nýlendur Enskra á austr=strøndinni. Þau eru ei allhá, en svo brøtt og klettótt, at óvída eru þau geng; þó hafa Enskir gjørt veg yfir þau á einum stað og kannat sveitirnar á fjallabaki.

Firðir miklir hverfa inn í landit øllumegin; þeirra mestr er Karpentaría=botn, sem gengr 120 mílr inn úr norðri; hann er 80 míl. at breidd. Í hønum liggr Buskings=ey. Ur austri gengr fjørðr sá, er kallast Jacksonar=

höfn, 15 mílr inn og annar sunnar, er Bótaní-fjörðr heitir. Ur sudri skérast tveir: Jósephínu-fjörðr, 18 mílr og Napoleons-botn (er Enskir kalla Spencers-bugt) vestar, 40 mílr inn í landit, en úr sudvestri Geógraphs-fjörðr. Inn í Vestr-ströndina hverfr Sharks-botn eda Háfs-botn (Haifiskbugten) 50 mílr vegar. Í hönum eru 2 hafnir merkar: Freycinetts- og Hamelíns-höfn.

Nordasti oddi lands þessa kallast: Jórvíkr-höfdi (Cap York), en hin sydsti Vilsonar-höfdi (Cap Wilson). Á austr-ströndinni eru tvö útnes, er Sandi-höfdi (Cap Sandy) og Lókonts-höfdi (Cap Lookont) heita, en á vestr-ströndinni Múrats-höfdi (Cap Murat). At sunnan-verdu á landinu er einnin: Nordymbralands-höfdi (Cap Northumberland), en sudvestr-horn þess kallast Kondorzets-höfdi (Cap Condorcet).

Ei hafa menn enn fundit stórkostlig fljót í landi þessu; ár eru þar líkari mjóum fjördum enn fljótum, því bædi eru þær svo lygnar, at vel má þar upp eptir þeim 10 til 15 mílr á skipum fara; en þá taka upptök þeirra vid eda lækir einir, er falla af fjöllum ofan. Hafa því sumir menn gétit til, at midbyk eyar þessarar sé annathvert þurrlendt mjög, edr at þar sé landsjór mikill, er fljótin renni í. Hit mesta fljót í þessu landi er: Havkesborgar-á; þat fellr ástundum á landit bádumegin, og gjörir nýlendumönnum mikinn skada; í þat rennr fljót, er Gróvá (Growe) heitir. Tédu fljóti

gengr Georgs-á næst at vatnsmegni og lengd; hún rennr í Bótaní-fjørd. Auk þessara koma þar, þeim minni, ár til sjáfar, nl. Kóks-á, Paramatta, Húnter, Endeavour (eda Forsjónar-á) og Svana-fljót edr Álftá.

Sá hluti lands þessa, er Evrópumenn hafa kannat, edr jadar þess øllu-megin, er greindr í 10 lønd, hvørra hér skal géta:

1. Nýa-Sudr-Vales (Nye-Syd-Wales).

Svo kalla menn strønd þá, er í austr veit, og Enskir eiga; hana fann Kók 1770 og er hún nú ordin hinn fjølbygdasti hluti landsins. Nýlenda sú, er Enskir hafa upp-tekit hit sydra á strøndinni, er allmikil og eykst á ári hverju at vídáttu og manntali; hún kallast: Kumbra-lands-greifadæmi, og skiptist í 4 lands-álfr; þær eru kéndar vid jafnmarga stadi, sem þar eru merkastir, nl. a. Sídney, þat er høfudstadr í þessum landeignum og heimili jarls, sem þar er settr til yfirsóknar; stadr þessi stendr vid sæ og er þar gód høfn; þar eru 2600 innb. b. Paramatta, ved samnefnda á, er þar rennr í Jacksonar-fjørd; þar eru 1500 innb. c. Havkesborg (Hawkesbury), er stendr á bakka vidkéndrar ár; þar eru 1800 innb., og d. Nýkastali (Newcastle).

Þá Enskir (1815) høfdu rudt veg yfir fyrr-tédann fjallgard, fundu þeir á bak vid hann føgur hérud og frjófsøm, og bygdu þar stad, er þeir kølludu Bathurst; hann liggr 30 mílr í vestr frá Sídney.

*Enskir hafa flutt og flytja árliga sakfallna glæpa-menn og tukthúss-limi til þessarar nýlendu, markat*

þeim sérílagi svid og bústad vid Jacksonar-fjörd og sett þar herlid til gætslu. Þeir greinast í 2 sveitir; í annari þeirra eru þeir, er ei hafa lidit áqvedna hegníng og eru hafdir vid stritvinnu, en í annari þeir, er lokit hafa strøffunar-tíd sinni. Auk þessara hafa allmargir fríir menn og sjálfsala flutt þangat og numit þar land; þeir njóta margskonar einkaréttar og fullþíngis af Englands konúngi, og eru ordnir audugir af frídum peníngi: hestum, nautum, svínum, einkum saudfé, sem er jafn-ullargott og spanskt fé. Enskir hafa og stiptat þar skóla til uppfrædíngar og sida-bóta, hvørs ei mun vanþørf á þvílíkum stråkastødli. Kaupeyrir nýlendumanna er: ull, lýsi (því þeir fánga hvali til rida) húdir, o. s. frv.

2. **Karpentaría-land** liggr fyri sunnan og austan hafsbotninn, sem fyrr er nefndr; hann tók nafn af hollenzkum jarli í Austindíum, er Petr Carpenter hét; en landit fundu menn 1623. 3. **Arnheims-land** liggr fyri vestan tédan hafs-botns. Þat fann Hollendíngr nokkr, Zeachen at nafni (frá Arnheimi í Hollandi) 1618. 4. **Dímens-land** (van Diemens Land) liggr vestar á nordr-strøndinni; þat fann sídst-nefndr Hollendíngr 1618 og kéndi þat vid landsmann sinn, er þá var jarl í Indíum. Þá tekr: 5. **Vitts-land** vid, er nær alt vestr til Múrats-høfda og er 300 mílr at lengd. Þat fann Vilhjálmr de Witt 1628. Fram-undan því liggja eyar margar, litt nýtar, er **Bónapartes Arkipelag** (Eyahaf) kallast. Á strøndinni, er í há-vestr veit, er: 6. **Eindrægnis-land** (Eendrachts- eda Concordia-Landet); þat fann farmadr, Theodor Hartigh at nafni, 1616 og var hinn fyrsti Hollendíngr, er þar kom vid land. Þar skérst **Shark-fjørdr** inn. Sunnár á strøndinni er 7. **Edels-land**, þat nær sudr

til Svana-ár, á bí við ey þá, er Rastenneſt heitir, þat fann Hollendingr 1619, Edel at nafni. Suðveſtr-horn landſins kallaſt: 8. Ljóns-innu-land (Leuwins-Land); þat tók nafn af ſkipi farmanns þeſs, er þar kom fyrſtr við land 1622; þar gengr Geógraphs-bugt inn úr norðveſtri. Auſtr af því og á ſuðr-ſtrøndinni liggr: 9. Nuyts-land, alt til Frants-eyar auſtr, þat fann ſiglingamaðr, er Nuyts hét, 1627; þá 10. Napóleons-land, er nær auſtr til Vilſonar-høfða eðr Kumbralands-greifa-dæmis. Landaleitunar-maðr, Baudin at nafni, kannaði þenna hluta ſuðr-ſtrandarinnar og gaf hønum þetta heiti. Þar hverſr Bónapartes-fjørðr og nokkut auſtar Jóſephínu-fjørðr lángt inní landit; við mynni hins ſyrra er ágæt ſkipa-lega, er Champagny-høfn heitir, en fram-undan hinum ſíðari ey, er Decres- eða Kængúrú-ey kallaſt; hún er 20 mílr ummáls.

Suðr undan Vilſonar-høfða liggr allmikit eyland, er Dímensland (Van Diemens Land) heitir, og ſkilr þar ſund þat, er Baſsa-ſund kallaſt, og enſkr ſkipslæknir fann 1788, Baſs at nafni; í því liggja 3 eyar, er King, Hunter og Fourneaux heita. Dímensland er 1235 ferh. mílr at ſtærð; þat er auðugt af ýmſum grasategundum; þar eru há fjøll og snæ-þakin, ſkógar miklir og gott haglendi. Þar elnaſt viða tré þat, er Evcalyptus kallaſt; þat er hit meſta tré í Auſtralíu (nl. 28 til 30 málſaðmar ummáls). Eyarmenn eru áþekkir inn-búum Nýa-Hollands, en þó þrekligri og meiri ſyri ſér; villir eru þeir og vankunnandi. Enſkir

ciga þar nýlendr tvær, sem kéndar eru við Dalrympel og Hóbartsstað, og flytja þeir einnig þángat þý og afbrotamenn; þær liggja undir umdæmi jarls þeirra í Sidney. Ey þessa fann hollenzkr farmaðr, Abel Tasman at nafni, 1642.

Yfirhøfuð er loptit í Nýa-Hollandi þægiligt og holt; þó er þar á sumum støðum, einkum hit nyrðra, ofurheitt. Vetr ber þar uppá hásumars-skeið hjá oss, og eru þá hlemmiskúrir tíðir með eldíngum og hagli. Jarðskjáiftar eru þar eigi sjaldgæfir. Gróðska er mikil í landi þessu og auðugt er þar vaxta-ríkit; þar elnast pálma-viðr, hinn rauði og guli gummi-viðr, cedrus-viðr, mahógní-viðr, fikju-tré, yams, villiþør, o. s. frv. Evrópumenn hafa gróðr-sett þar margskonar tré og jurtir úr Norðr- og Austrheimsálfum, t. d. alskonar korn-tegundir, kryddjúrtir, vínvið, tóbak, kaffe, viðar-ull, kakaó, o. fl. og tímgast þat alt vel og ber mikinn ávøxt. Menn hafa uppgøtvat þar hérumbil 1000 grasa- og viðar-tégundir, er áðr vóru ókunnar í heimi. Þar finst og: eyr, járn, granít, porphyr, basalt, kalk, steinkol og steinsalt. Meðal dýranna eru þar einnig ei allfá, sem menn ei báru kensl á, áðr þessi landnám hófust, t. d. hit svokallaða ranadýr eðr vatns-moldvarpan, áþekt fiski-otri, kængúrú, eða púngdýr nokkurt, jafnstort sauðkind og með laungum aptr-fótum, kængúrú-rotta, japúarú og coula, snoðnir hundar, svartar álftir og mørg fleiri, er hér yrði of-lángt at telja. Aðkomumenn hafa þángat flutt marghattat dýrakyn og tímgast hvørt þeirra ákjósanliga.

Tala enna øndverdligu landsbúa er ókunn; en þeir, sem nýlendumenn þekkja til, eru varla 5000 at tølu. Þeir eru af Bløkkumanna kyni og hafa litla mannræni og enn minni tilfinning, og eru óþrifaligri, vanmátkari og sídr at sér um flesta hluti, enn kynmenn þeirra í Afríku; þeir búa í lauſſkálum og í holum trjám, er þeir svída at innan, og lifa af fiſkætum, ſkéiſiſki og hráum fugli; þeir gánga naktir vetr og sumar og tatóvera sig, sem þvínær allir Ástralíubúar; slægir eru þeir og eigi hugblaudir, hefnigirugir mjøg og drápgjarnir; hverki hafa þeir ſkynbragd á stjórnsemi né guda-dyrkun, og ei eru þeir fáir í þessu landi, er snæda mannakjøt.

B. Nýa Gínea (Nye Guinea) eda Papúaland (edr Tannah-Papua) gengr Nýa-Hollandi næst at vídáttu í þessari heimsálfu; þat liggr fyri nordan þat og ſkilr þar sund mikit lønd þessi, er Torres-sund, ennig Forsjónar-sund (Endeavourstræde) kallast, en fyrir austan Krydd-eyar. Ey þessi er 13,000 ferhyrn. míle at stærd og einkar gagnaudug og sjølbygd. Spánverjar hafa ord fyrir at hafa fundit hana, en fyrr meina menn at Portúgísar hafi þar vid land komit, 1511. Sídan hafa ýmsir landaleitunarmenn heimsókt landit, en hvervetna mátt fráhverfa fyri sakir ergju og ømunarsemi landsmanna, er varit hafa fødurland sitt med oddi og eggju; er því ekkert land í Ástralíu midr kannat af Evrópumønnum. Þó hafa þeir fyri sannindi, at þar byggi þjód, snerrin og ill vidreignar, svørt á hørund og

mjøg ábekk Bløkkumønnum at áſýndum og lima-lagi; at hún greiniſt í 3 kynþætti, og kalliſt hinn fjølmennaſti og ríkaſti: Papúar (Papus eda Papuas), en hinir: Harafórar, er búi í fjøllum uppi, og Badſkúar eda ſtrauda-menn, er ſtundi fiſki-aſla og ſéu á ſifeldu reiki, og at þar ſéu bólſaſtar kynkviſlir nokkrar, er haſi Múhamets- og Budda-trú. Eyan er fjøllótt mjøg og vogſkorin, ſtraudir hennar hálendar og brattar, og fjøllin há og vída ſnæþakin. Merk-aſtr ſtadr á eyunni kallaſt Dory-høfn (Port-Dory), hann ſtendr nálægt ſamnefndum høfda.

C. Admiralitets- eda Herſkipa-ráds-eyar liggja auſtar og eru 40 at tølu; þeirra meſt er ein, ſem hinar eru vidkéndar; þær fann Carteret 1767; á þeim býr óſidud Bløkkumanna-þjód. Fyrir veſtan þær liggja hinar ſvokølludu Anakóretur (Anachoreter).

D. Nýa-Brittannia edr Nýa-Bretland; ſvo kalla menn eyaklaſa, er liggr ſkamt fyrir auſtan Nýu-Gineu ſudauſtr-horn og er þar ſund í milli, ſem kéut er vid Dampier, er fyrſtr fann eyarnar og ſigldi ígégnum ſundit 1699. Merkaſtar medal þeſsara eya eru: Nýa-Bretland ſýdſt, þá Nýa-Irland, þær ſkilir ſund, er Georgskanall heitir, og Ný-Hanøfra nordaſt. Smá-eyar eru þar í grend, er Jórvik, Sandvik, Portland og Anton Caves heita. Á þeim øllum eru há fjøll og ſkógi-vaxin, er áſtundum gjóſa eldi. Eyar þeſsar byggja Papúar, ſem ſyrr eru nefndir; þeir eru grunſamir, ei med øllu óſidadir og kunna akr-yrkju; þeir gjøra eintrjánings-báta, ſem eru 90 fóta at

lengd, en ærit mjóir. Vopn þeirra eru lensur, slanngr og kylfur. Í nordvestr frá Nýa-Irlandi liggja eyar tvær, er Mattías-ey og Storm-ey kallast.

E. Nýa-Georgía eda Salómons Eyahaf liggr i sudaustr frá sídst-töldum eyum; höfudeyan heitir Ísabel eda Nýa-Georgía; í grend vid hana liggja 5 minni eyar. Þær eru allar fagrar og gagnaudugar; fyrir þá sök kéndi spánverskr farmadr, Mendana at nafni, er þar kom vid land 1567, þær vid Salómon, Júda-konúng, sem væru þær þat Ophír, hvadan hann lét sækja gull sitt. Þær byggir Blökkumanna þjód velvaxin, snerrin og grunsöm. Þar rædr konúngr ríki. Í sudaustr þadan liggja:

F. Skarlottu-eyar (Dronning Charlottes Öer) edr: Eyahaf hins helga kross (Santa Cruz Archipelaget); þeirra mest er ey sú, er Egmont (eda Santa Cruz) heitir; hún er 10 ferh. milr at stærd, frjóssöm og fjölbygd. Þær fann fyrrtédr Mendana 1595. Lengra í sudaustr liggja:

G. Nýu-Sudr-eyar (Nye Hebriderne); þær eru 37 at tölu, gagnaudugar, fagrar og skógi-vaxnar mjög. Innbúar þeirra eru 200,000, og af Blökkumanna kyni. Eyar þessar fann spánskr farmadr Fernando Quiros 1606, og hafa þær ýmist verit kalladir: Eyahaf Heilags Anda (Archipelag del Espiritu santo) eda hinar miklu Cycladur (Hvirfings-eyar); þeirra mest er Heilags Anda-land (Terra del Espiritu Santo);

hún er nær 100 ferh. milr at stærd. Mallicólló er henni næst at vídáttu; þar eru 50,000 innb. — og höfn, er Sandvík heitir. Tonna er hin þridja ey; þar er eldfjall mikit. Auróra og Printsey. Innbúar þessara eya eru blakkir á hörund og gánga því-nær naktir hvervetna, en kunna allvel at jardyrkju — og bera jafnan kylfu reidda um öxl.

H. Nýa-Kaledónía (Nye Caledonia) liggr í sudvestr frá sídst-tédum eya-klasa og nærr Nýa-Hollands austr-strönd; hún er 325 ferhyrn. milr at stærd, fjöllótt mjög og hrjóstug. Skipa-leidin umhverfis hana er hættusöm og torsókt fyri sakir grynninga og kóral-rifa. Kók fann ey þessa fyrstr farmanna 1774 og sagdi hann svo frá, at þar byggi blökk þjód og gódlynd; en franskir siglíngamenn segja hana grimmar og ódælar mannætur. Kók sá þar ei önnur dýr enn svín og hunda. Fyri nordan Nýu-Kaledóníu liggr Stjörnuturns-ey (Observatorii-Öe), en Cypress-ey fyri sunnan; innbúar á þessum þrem eyum eru hérumbil 50,000 at tölu. Í sudaustr þadan liggr:

I. Nýa-Sæland (Nye-Zeeland); svo kalla menn 2 allmikil eylönd, er sund þat, er Kóks-sund nefnist, atskilr, og liggja í austr frá Dimens-eylandi og sudr-horni Nýa-Hollands; þau eru bædi ásamt 4300 ferh. m. at stærd og kallast hit nyrdra: Eaheino-mauwe, en hit sydra: Towai-Punammu; á bádum þeirra eru há fjöll og bædi skógivaxin og snæþakin; þeirra mest er Egmonts-fjall, á nyrdri eynni, þat er 14,400 fóta at hæd. Þar er á sú,

er Temsá (Themsen) heitir. Hin syðri eyan er kaldari, strjálbygðari og ei svo frjófsöm sem hin nyrðri, sem bæði er veðrasælt land og auðugt af ýmsum gæðum; þar vex hampr svo góðr, at hverki finst betri. Innbúar eya þessara eru af Malaja-kyni, og hérumbil 100,000 at tølu; þeir eru kaáligir og vel-vaxnir, harðsenglr og vopn-djarfir, og mæla áþekka túngu og Félags-eyingar. Húsakynni þeirra eru smálig og at-búnaðr lítilfjørligr, en þeir ríða kørfur manna bezt og mottur; þeir eru vel oddhagir og vanda mjøg vopn sín. Þeir trúa á eina æðstu veru, er undirgúðir þjóni, og hafa presta. Enskir ný-lendumenn boða þar kristna trú. Þeir greinast í allmargar kynkvíslir, er ávalt lifa í ófriði innbyrðis; sumar af þeim eru grimmar mjøg og snæða fánga sína. Eyar þessar fann Tas-man 1642 og kallaði þær Statenland; en Kók sigldi umhverfis þær 1769—70.

Umhverfis eylønd þessi liggja margar minni eyar; þeirra merkastar eru: Prískonúnga-ey, Barrier, Bánks-ey, Sólanders-ey, Chat-am, Systra-ey og Penantipóða (Andfæt-ínga-ey), hún kallast svo fyri þá søk, at innbúar hennar og Lundunamenn snúa þvínær einmidt iljum saman.

K. Norfólk kallast einstøk ey, er liggr miðsvegar ímilli Nýu-Kaledóníu og Nýa-Sæ-lands, og 270 mílr í norðaustr frá Jackſonar-høfn; hana fann Kók og var hún þá óbygð, en einkar byggilig; hún er 6 ferh. m. at stærð og liggr undir Nýa-Suðr-Wales jarlsdæmi; þar tóku Enskir upp nýlendu 1788 og fluttu þángat glæpamenn, einkum þá, er drýgðu strák-

skap, en einga dad í Sídney. Skamt þadan liggja eyar tvær, er Philips-ey og Nepean heita. Á ena sídari setja Enskir hina verstu illrædis-menn og láta þá tilreida salt.

Allir liggja eya-klasar, sem nú eru taldir frá C til K, í bjúgri ræd fyrir austan Nýu-Gíneu og Nýa-Holland.

L. Vinsemda-eyar (Venskabs Öer eda Tonga-Öer) liggja ásamt Bligs-eyum, Siglingamanna-eyum og Fizki-eyum, í nágrenni, í austr frá Nýu-Sudreyum og Nýu-Kaledóníu. Þær eru þvínær 150 at tölu og liggja sydst. Innbúar þeirra eru 90,000 at tölu og af Malaja kyni; þeir eru gódhjartadir, einlægir og vinveittir; því gaf Kók eyunum, þá hann tók þar land 1773 og fékk beztu vidtekt, nafn þetta. Fyrrtédr Tasman fann þær fyrstr, 130 árum ádr. Þeirra merkust er ey sú, er Tongatabú heitir; þar sitr höfdíngi nokkr, sem hefir konúngs nafnbót, og rædr fyrir flestum af eyum þessum. Þarámedal er og Anamóka eda Amsterdammr; á henni eru 2 eldsjöll, en á Tófóa eitt, í hvörju Eyamenn trúa, at voldugr gud búi, er þeir kalla Hamóa. Eyamenn eru fridir sýnum og elnna bezt at sér af þjódum þeim, er Ástralíu byggja; þeir blóta marga gudi, trúa ódaudligleika sálarinnar og hafa goda-presta; þar tídkast einnig mannblót og mannát, en hverki er þar kvinnum mis-þirmt né börn útborin, sem allvída vidgengst í þessari heims-álfu. Í nordaustr þadan liggja:

M. Fizki-eyar (Fidschi-Öer), er Tasman fann 1643, í þyrpíngu; þeirra mest er

eyan: Fidſki, og ſkamt frá þeim 25 eyar, er Bligs- eda Vilhjálms-eyar kallaſt, þær fann Vilhjálmr Blig 1789; þær eru hvoru-tveggju líkar Vinſemdar-eyum at landslagi og gædum; innbúar þeirra eru einnig af ſama kyni og Vinſemdar-eyingar, en þó miklu ſtyrjald-arſamari. Í auſtr þadan liggja:

N. Siglingamanna-eyar (De Söfarendes Öer); þær eru 12 at tolu, ſjølbygdar mjøg og áþekkar Vinſemdar-eyum at lands-nytjum. Innbúar þeirra hafa einnig kyn ſitt at rekja til Malaja, og eru at því fleſtum kyn-mønnum ſínum fremri, at þeir ſmída haf-fær ſkip og ſigla þar vída um eya-høf þeſsi; þær fann Búgenvilli 1768 og ſídan Perúſi 1787.

O. Félags-eyar (Selskabs-Öerne) liggja í auſtr frá þrem ſídſt-tøldum eya-kløſum og í nordauſtr frá Vinſemdar-eyum; þær eru 13 at tølu og liggja í nágrenni hvør vid adra; fyri þá ſøk kalladi Kók þær ſvo. Umhverfis þær eru kóral-rif mikil, ſvo vída mega farmenn varúd vid-hafa. Eyar þeſsar eru ſvo fagrar og gagnaudugar, at þær bera af øllum í Sudr-høfum, en innbúar þeirra elſkuverdaſtir og bezt at ſér allra Auſtralíu-þjóda; þeir hafa og fúſ-liga ſamit ſig at háttum Evrópumanna, tekit rétta trú, er hit enſka kriſtnibods-félag hefir þeim boda látit, og lært at leſa og ſkrifa. Þar er einnig regluliga nidr-ſkipat ſtjórnar-form og rædr ſinn høfdinginn, er konúngr kallaſt, fyri hvørri ey. Félags-eyingar eru 90,000 at tølu. Þeſsara eya meſt er: Tahiti eda Otaheiti, hún er 30 mílr ummáls og 20 at ſerhyrnings-

máli; þat er einhvor hin merkasta ey í heimi fyri margra hluta sakir; hún er eiginliga tvær eyar, er grandi nokkr samtengir; á henni er fjall, 9500 fóta at hæd, og mittlands er hún hvervetna hálend. Paradauki eru þar eyarnar: Titeróa, Eimeó, Ulieta og Bólabóla merkastar.

Eyar þessar fann Fernando de Quiros fyrstr allra farmanna 1606. Seinna á øldum kønnudu þeir Vallis, Búgenville, Kók, Vilson, La Perúsi og Vankóver þær vandliga og hafa þeir um þær ritat lángar sögr. Allmargir Evrópumenn slengdust þar um þær mundir, en brátt olli umgengni þeirra vid ena gódlyndu sakleysínga edlis-spillíngar og mannfækkunar. Enskir hafa sérílagi rádit bót á þessum vanhag.

Fyrir austan Félags-eyar liggja allmørg eylønd á strjáli og þar í Kyrra- edr Sudr-hafi, er kallast: Villugeimr (Labyrinthen, Vølundarhús) edr hit hættusama haf (det slemme Hav). Innbúar þeirra eru allir af Malaja-kyni og flestir áþekkir Otaheitíngum. Medal þessara eyaklasa má telja:

P. Hinar lágu eda fárligu eyar; þær kallast svo fyri þá sök, at þær bædi eru svo láglendar, at sær gengr nær yfir med hverju flódi, og umhverfis þær er skipaleidin hættusøm og vandrøtud sakir skerja og grynnínga. Medal þeirra, er liggja í hinu hættusama hafi, eru tvær merkastar, er Georgs konúngs-eyar kallast; ønnr þeirra heitir Te-Aukea, en ønnr: Eyan vonar, sem brást. Medal enna hættuligu eya telja menn þessar: Skarlottu-Drottningar-ey, Printz-ey, Eg-

monts-ey, Glosturs-ey (Glocester), Kumbraland, Printz Vilhjálms Hinriks-ey, Resolution, Fourneaux og enn fleiri. Í grend vid eyar þessar hafa menn fyri skømmu fundit eyaklasa, er: Rúriks-kedja heitir, Krúsensterns-ey, Kútusoffs-ey og Súvaróvs-ey. Í sudr frá eyum þeim, sem nú eru taldar, liggja allmørg eylønd á strjáli, og kallast þau øll ásamt.

Q. Hit sudlægasta Eyahaf (Det sydligste Archipelag); þarámedal má nefna: Osnabrygaju-ey, Ohetiróa, Túbúa, Oparó, Jóhannis Skírara-ey, Incarnatións- eda Holdtekju-ey, Sti Páls-umvendunar-ey, Sti Michaels-ey, Sti Anselmúsar-ey og eyland þat, er Pittkairn kallast.

Sídst-talin ey er $8\frac{1}{2}$ míla ummáls og einkar gagnaudug. Þángat flúdu nokkrir Otaheitíngar og enskir skipmenn med otaheitiskar konur 1790. Þá þar var komit, drápu Otaheitíngar medhiálpa þessa, at einum Englendíng, Jóni Adams at nafni, undanteknum; en konurnar hefndu þeirra hreysiliga, uns eingi stód uppi af Otaheitíngum. Jón vard nú á eydi-ey þessari einn nýr Adam og hóf samvistir med Evum sínum og fjølgadi med þeim mannkyni. 1814 var hann enn all-hress øldúngr og lifdi midt ámedal kvenna sinna og fjølbernis í gódu ysirlæti.

Hérumbil midsvegar milli Félags-eya og Ameriku vestr-strandar liggr ey nokkr einstøk, er:

R. Páska-ey heitir; hún er 8 mílr ummáls og af jardeldum hafin úr sæ; eyarlýdrinn er 2000 at tølu og malajiskr at kyni. Eingin eru þar ferfætt dýr. Í nordaustr frá Félags-eyum liggr eyaklasi, er:

S. Marqvesas-eyar kallast; þær fann Mendana 1595 og kéndi þær við nafnbót Mendósa, er þá var vice-kóngr í Perú; Kók fann þær og kannaði 1774. Þær byggir þjóð, af Malaja-kyni, sem tatóverar sig øllum eya- og meginlands-búum í Austr-heimum betr og snilligar, er forkunnar verkhøg, frið sýnum og góðlynd, en þó lauslát mjøg; hún er hérumbil 20,000 at tølu. Eyar þessar greinast í tvo flokka; kallast enar nyrðri: Vasingtons-eyar eda Uppreistar-eyar (Revolutions-Öer); þær eru 8, og er Núkahiva þeirra merkust; hún er 15 mílr ummáls; á henni er fors mikill, sem er 2000 fóta at hæð. Miedal enna syðri, er til atgreiningar frá hinum kallast: þær eldri Marqvesas-eyar, eru 5 merkastar, nefnil. Há-ey (Hood), Domeníka, Kristínar-ey (St. Christina), Peturs-ey (St. Pedro) og Magdalenu-ey (La Magdalena). Í norðvestr frá eyum þessum liggr eydi-ey, er Jóla-ey kallast, og ønnr ei allskamt þaðan í sømu átt, er Palmýra heitir. All-lángt í norðr frá Félags-eyum liggja merk eylønd, er:

T. Sandvíks-eyar (Sandwichsöer) heita; þær eru norðastar allra Ástralíu eylanda og liggja þar í meginhafi, er Krabba-hvarfbaugr gengr yfir jarðarhnøtt þverrann. Þær eru 11 bygðar, en allar 13 at tølu og 360 ferhyrn. mílr at víðáttu. Á þeim eru víða háfjøll; þeirra merkast er Egmonts-fjall (Manua eda Mowna Roah), sem er 15,000 fóta at hæð. Hitinn er þar meir tempraðr og loptslagit holl-

ara enn á hinum vestindisku eyum, er liggja undir sama himinvegi; þar er og jardvegr hvervetna frjóssamr og nægr vøkvi til allskonar jardyrkju; þar eru skógar miklir og ýmiskonar ágætar vidar-tegundir, einkar gódar til skipa-smída. Innbúar eya þessara báru í öndverdu lángt af øllum Australíu-þjódum at sidsemi, kunnáttu og verkkænsku, og hafa tekit því vænligri framførum og vidgángi og samit sig því betr at háttum sidadra þjóda, sem vidskipti þeirra og verslunarmök vid Evrópumenn hafa aukist. Sérílagi hafa Englendingar og Ameríkumenn, er þar lenda tídum á lángferdum sínum, gésit Eyamønnum skynbragd á skipuligum verslunar-athøfnum og kent þeim rétta medferd og hagnýtíng margbreyttra gæda eya þessara, svo nú á døgum leggja þeir ei aleina stund á margskonar handverk og smídar, heldr og sigla á skipum, er þeir hafa sjálfir smídat, til Kínaríkis og Ameríku og vixla þar kaupeyri sínum, t. d. matvælum, grávøru og safala, er þeir kaupa á nordvestr-strønd Ameríku, sandel-vid, perlur og perlumódur; þenna varníng selja þeir einkum í Kína med ærnum ábata. Innbúar eya þessara eru nær 400,000 at tølu; þeir eru af Malaja-kyni og Nýa-Sælands búum og Félags-eyingum einkar líkir at skapnadi, ytirlitum lundarlagi, en þó ei at fullu svo hraustir og starfsamir; þeir eru flestir minni enn medalmenn vexti, en manna snotrastir á fæti, snarir og mjúkir; géstrisnir eru þeir og gódviknir vid útlendínga og nema af þeim med sjaldgæfri námfýsi alt þat, er þeim þykir betr sæma.

Fyrir eyum þessum rædr höfdíngi nokkr, er hefir konúngs-nafn; hann er sonr Tamohmo konúngs, er deydi 1819. Hann semr sig, sem fadir hans, at háttum Evrópumanna, einkum Enskra, mælir enska túngu, og hefir hird um sig og ei all-litla sveit hermanna; er hann lætr nema medferd vopna, og býr þá at vopnum og klædum, sem sidr er til í Nordr-álfu. Hann sitr í hofgardi, sem gjörr er á evrópiskann hátt og umgirdtr med stólpaverki og virkjum; hann á litinn herskipa-flóta og 30 kaupför og lætr hann hvorutveggju liggja undir timburþaki, þá ei eru í förum. Sandviks-eyingar halda hátídir margar og offra ástundum mönnum, einkum þá eitthvort stórrædi er fyrir höndum, edr stórhöfdingjar andast.

Medal eya þessara er Ovaihí merkust og vidlendust; hún er 216 ferhyrn. milr, en manntalit á henni 160,000. Á þessari ey er fyrrtéd fjall; þar gengr og fjördr inn úr vestri, er Karakakúa-bugt heitir; þar fèll Kók fyrir eyarmönnum þann 14 Febr. 1779 og þótti þá hinn mesti mannskadi ordit hafa. Enskir lögdu ey þessa undir veldi sitt 1792, en breyttu þó eigi stjórnarformi því, er þar hafdi ádr í lögum verit. Vóahú er önnr ey mest, hún er er 25 ferh. milr; á henni er stadr, er Hanarúra heitir; þar sat fyrrum Tamohmo konúngr.

Millum eya þessara gengr póstskip edr sendiskúta á tilteknum tídum.

Eya-klasar þeir, er Marianur eda Þjófaeyar, Karólínur, Peljú-eyar, Fiski-

manna-eyar og Mulgraves-eyar kallast, liggja í nágrenni og í röd, hvør austr af ödrum fyri nordan midjardar-baug edr í milli 0° og 21° nordl. br. og frá 147 lengdar mælistig til 194° austr. Þeirra nordastr er eyaflokkr sá, er:

U. Þjófa-eyar (Ladronerne); einnin kalladar Marianur (Marianer) og Lazarusar-eyar. Þær liggja í röd hvør nordr af annari og eru 20 at tölu og forkunnar fagrar, en þó strjálbygdar mjög. Þær fann Magellan 1521 og helgadi Spánar-konúngi, er þar hefir settan jarl til mannaforráda. Á þeim er gnægd jardar-ávaxta, nautpeningr margr og svín; en lítinn ard draga þó Spánverjar af þeim fyri fjarlægdar sakir, annan enn þann, at þeir á lángferdum sínum á þar, afla sér vega-nestis og taka ferskt vatn. Þessara eya mest er: Guam eda Agana, hún er 20 mílr ummáls; á henni stendr samnefndr kaupstadr; þar er litil sveit hermanna, er halda lands-vörd, og klerkar nokkrir, er boda þar kristni.

Magellani þóttu eyarmenn þjófgéfnir og kalladi því eyarnar: þjófa-eyar; en engi þeirra farmanna, er þar hafa sídan vid land komit og kynst vid eyabúa, sannar sögu hans né segir, þá vinna ödrum hálf-villum þjódum fremr til nafns þessa. Þeir eru afar-miklir vexti og ramir at afli, syndir sem selir og manna vaskastir og hardastir í öllum þrekraunum. Sídan Spánverjar höfu svokallada sidabót á eyum þessum, en gættu, at vanda sínum, hverki hóglyndis né linkinda, hefir þreki og velsemd eyamanna æ farit hnignandi.

V. Karólinur (Carolinerne) eda hinar Nýu-Philippinur (Nye-Philippiner),

er einnig kallast: Barnabasar- edr Andre-asar-Eyhaf, liggja í sudr frá Pjósa-eyum og skilr þær sjáfarsund all-breidt, er Karó-línu-sund kallast; yfir þat rak tídum báta til Pjósa-eya og fóru menn því þadan at leita þeirra og fundu þær 1686; Spánverjar eignudu sér þær þegar og kéndu þær vid konúng sinn Karl hinn 2an, en hvorki hafa þeir né adrir Evrópumenn kannat þær. Innbúar þeirra eru af Malaja-kyni; þeim láta Spánverjar boda kristni, en vanrækja at ödru leiti landeignir þessar. Þeirra merkust er ey sú, er Hagolen heitir. Fyri vestan eyar þessar liggja:

X. Pelju-eyar (Pelew-Öerne) eda Palaos-eyar; þær eru 26 at tölu, hálend-ar, gagnaudugar og skógi-vaxnar. Umhverfis þær eru kóral-rif og grunnsævi vída, er því siglíng þar hvervetna hættulig og torveld. Þar braut enskr farmadr, Wilson at nafni, skip sitt 1783, en nádi þó landi med lidi sínu; hann og adrir, er þar hafa sídan tekit land, hafa ei nógliga þókst lofat géta Eyamenn fyri mann-elsku, einlægni, gèstrisni og gott skapferli. Þeir eru af Malajum komnir. Medal eya þessara eru tvær nafnkéndastar; heitir önnr Kórúra, hún er 12 mílr ummáls, — og Orúlong, hana afstód eya-kóngr, Abba Thulle at nafni, Eng-lendíngum, en eigi hafa þeir enn tekit þar ból-festu. Fyrir eyunum rædr konúngr og er veldi hans arftækt; þar er nokkurskonar adalmanna-stétt. Í austr frá Karólínum liggja:

Y. Fiskimanna-eyar (Pescadores); þær fundu Spánverjar, er Cortez sendi 1537

frá Perú-ríki í landaleit vestr um haf, en ei er þess gétit, at farmenn hafi þar sídan komit. Sumir telja þær med:

Z. Múlgraves-eyum, er skamt liggja þadan í austr, og í rød sudr á bi vid Nýa-Irland; þær fundu 2 enskir farmenn, Gilbert og Marshallr at nafni, á leid sinni frá Jacksonar-høfn til Kína 1788, en kønnudu þær ógjørla. Innbúar þeirra eru afkomendur Malaja, og ápekkir mjøg þjód-flokkum þeim, sem nú er fráſagt, og af tédri adal-þjód eru komnir, nl. vel vaxnir, knáligir og frídir sýnum; á hørundit eru þeir raudleitir sem eyr, en brúnir mjøg á hár. Medál eya þessara er Hópers-ey merkust og mest ummáls; hún liggr einmidt undir midjardar-baug.

I sudaustr frá Hópers-ey liggr fagurt og skógi-vaxit eyland, er Byrons-ey kallast; hún tekr nafn af enskum farmanni, er fann hana 1765.

I høfunum umhverfis 5 sídst-talda eya-klasa liggja afarmargar smá-eyar á strjáli, er oflángt yrdi hér at telja. Sérílagi má hér géta 29 eya, er liggja fyrir sunnan Karólínur, og:

þ. Monteverdos-eyar kallast; þær eru kendar vid spánverskan farmann, er fann þær 1806. Innbúar þeirra eru af Bløkkumanna kyni. I sudaustr frá Nýu-Gineu liggr eya-klasi mikill, sem nefndr var Lodviki konungi hinum sextanda til heidurs:

Æ. Lovisíadu-eya-haf (Louisiade Archipelag) eda Lodvíks-eyar; þær byggja Papúar, og eru þær einkar fagrar og svo aud-

ugar af daungódum jurtum og reykelsi, at lykt-ina leggr lángt á haf út móti komendum; þær sann Bugenvilli. Þeirra merkastar eru: St. Aignan, D'Entrecasteaux, er tekr nafn af frönskum farmanni, og Rússel. Í sudvestr frá Nýa-Sælandi og í grend vid 50° 40' liggja 7 eyar, sem kéndar eru vid:

Ö. Auckland Lávard (Lord Aucklands Öer); þær hafa menn nýliga fundit, og er því enn fátt um þær í frásögr sært. Allra eylanda austast í Australíu og 27 mælist. fyri sunnan midjardar-hring er ey sú, er:

Aa. Austr-ey kallast; hún er 12 mílr ummáls og eru á henni ummerki mikilla jardelda. Eyamenn eyu af Malaja-kyni og flestum kynmönnum sínum dekkri á hár og hörund; þeir leggja öllum Australíu-þjódum fremr stund á steinskurd og minda ferliga miklar líkneskjur af hrauns-grjóti. Ey þessa fann Roggevein og sídan Kók.

Athugagr. Á 16du, 17du og öndverdliga á 18du öld sigldu ýmsir nafntogadir farmenn yfir Kyrra- eda Sudr-haf þvert, t. d. Magellan 1519, Drake 1577, Mendana 1595, Quiros 1605, Schouten 1615, Tasman 1642, Dampier 1683, Roggewein 1721 og Anson 1742; en færstir af þeim höfdu þat mark fyrir augum, at leita þar landa edr kanna þau, er þeir hittu á leid sinni; var því fródleikr Evrópumanna um þenna fimtúng jardar um lánga æfi mjög ófullkominn og ónógr, uns Enskir og Frakkar á seinni helfíngi 18du aldar höfu fyrir alvöru landnám í Sudaustr-höfum og sendu: Byron 1764, Wallis, Karteret og Bú-

genvilla 1766 i landaleit. Ferdir þessara manna urdu at vísu frægar, en þó bar vídferli hins nafnkunna Kóks af øllum; hann sigldi þrísvar umhverfis jardar-hnøttinn frá 1768 til 1779, fann þar á nýj eylønd og eyar, kannadi þær gjørr, er adrir høfdu fundit fyrir hann, t. d. Nýa-Holland og Nýa-Sæland, og komst at fullri raun um, at hugmind sú, er allmargir vitrir menn gjørdu sér um meginland mikit þeim megin á hvelí jardar í grend vid sudr-hjara, væri lángt frá sannindum. Hann gjørdi einnig med miklu kappi tilraun til at sigla saégnum Berings-sund, i vestr fyri nordan Asíu eda Køldu-Svíþjód til Nordr-landa, en hann mátti aptrhverfa sakir samfrosta haf-ísa. Á seinni tídum eru landaleitunar- og landakønnunar-ferdir þær, er La Perúsi 1785, Vankóver 1791, Baudín 1800, Flinder 1801, og Krúsenstern 1803, gjørdu vídsvegar um meginhøf, einna merkastar og eru um þær skrá-settar lángar lýsíngar og søgr. Einkanliga hafa þessir menn gjørt kannat nordr-strønd Asíu, vestr-strandir Nordr-Ameríku og Nýa-Holland, enn ádr hafdi verit, þó er þar hvervetna um-bótavant. Sérílagi eru allmargar eyar þær í Sudaustr-høfum, bædi óbygdar, en einkar byggiligar, og af villi-þjódum bygdar, er Evr-ópumenn hafa fundit og gefit nøfn, en hverki kannat né numit.

# Registur.

Málteiknid (,) sýnir ad undanfarandi tala merkir deild Landaskipunarfrædinnar, en sú eptirfylgjandi bladsíduna í sømu deild.

**Nidrløndin**

1. Amstrdammr
2. Harlem
3. Leyden
4. Hagi
5. Rotterdammr
6. Útrekt
7. Deventer
8. Græníngur
9. Lauvarden
10. Brusſel
11. Antverpen
12. Gént
13. Austrendi
14. Brýggia
15. Mastrekt
16. Luttick
17. Lúxenborg
18. Namúr
19. Biörgin
20. Zoll
21. Moſá
22. Skálda
23. Valkeren

**Þýdskaland**

1. Saxelfur edr Elfan
2. Veſará
3. Oddá
4. Brocksfiall
5. Mundſufiöll
6. Sverín
7. Vismar
8. Raudſtockr
9. Streliz
10. Hamborg
11. Lýbika
12. Brímar
13. Frackafurda
14. ÁinMýn
15. Hanøfra
16. Oſnabrýggia
17. Munſtur
18. Stadir
19. Emden
20. Zelle
21. Lúnaborg
22. Giöttíngen
23. Aldinborg
24. Delmenhorſt
25. Minden
26. Brúnsvík
27. Kassel
28. Marborg
29. Darmſtadr
30. Veimar
31. Íena
32. Góta
33. Herfurda
34. Dresden
35. Leipzíg
36. Freiberg




37. Báxen
38. Vittenberg
39. Höll
40. Kólni
41. Acken
42. Trír
43. Magadaborg
44. Breſlá
45. Berlín
46. Potsdammr
46. Spandá
47. Kýſtrín
48. Stattín
49. Stríálaſund
50. Eýan Rý edr Rýgen
51. Stargardr
52. Kolberg
53. Frackafurda vid Oddá
54. Vínarborg
55. Grez
56. Trieſt
57. Klagfurda
58. Innsbrýggia
59. Trent
60. Saltsborg
61. Prag
62. Karlsbad
63. Eger
64. Brunnr
65. Olmuts
66. Reginsborg
67. Munken
68. Nýrnberg
69. Bamberg
70. Austborg
71. Výrzinborg
72. Bæraut
73. Paſſá
74. Ingólfsſtadr
75. Stuttgardr
76. Svavahöll
77. Úlm
78. Týbíngr
79. Lodvíksborg
80. Karlsró
81. Mannheimr
82. Heidilberg
83. Magins

**Sveitsaland**

1. Bódinvatn
2. Genefuvatn
3. Skafhús
4. Baſel
5. Mundíufiöll
6. Zurick
7. Bern
8. Génefa
9. Sveiz